# NÝJA SAGAN

EPTIR

PÁL MELSTEÐ.




---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

I. HEPTI.

(1517—1648).

---

REYKJAVÍK.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.
1868.

# YFIRLIT EFNISINS.

---

# Inngángur.

Á ofanverðum miðöldum og einkum á fimmtándu öld urðu ýmsir þeir atburðir með mönnum, er leiddu til stórmikillar breytingar víðsvegar um Norðurálfuna, og snertu bæði líkamlegt og andlegt ástand þjóðanna, bæði stjórn þeirra og trúarbrögð. Til þessa er að vísu bent í hinum síðari hluta miðaldarsögunnar, en þó þykir oss hlýða, að taka hèr fram hina helztu af þeim atburðum, er breyttu hinu forna ástandi, og mynduðu annað nýtt og frábrugðið, og sem menn eru vanir að kalla sögu hinna síðustu alda, eða *nýju söguna*. Landnám Portúgalsmanna og Spánverja í Austindíum og Ameríku beindu verzluninni í alt aðra stefnu en áður hafði verið. Venezíu- og Genúaborgarmenn höfðu áður haft aðalverzlun heimsins í hendi sèr, en nú breytti verzlunin um bústaði og fluttist fyrst til Spánar og Portúgals, en síðan mistu þeir hana og þá tóku Englendingar við og Niðurlandamenn, og varð uppgángur þeirra þjóða sem mestur. Hin nýfundnu lönd leiddu fram ný og margvísleg auðæfi, er höfðu hin mestu áhrif á hugi manna og háttalag hèr í Norðurálfunni, en þó ber þess að gæta, að það er fyrst á þessari öld, er vèr nú lifum á, og eptir að Ameríkumenn náðu sjálfsforræði sínu og samgöngur allar urðu greiðari, að þeir hinir miklu ávextir algjörlega komu í ljós, er fundur Ameríku hafði í för með sèr. Því að alla þá stund sem Portúgal, Spánn, England o. s. frv. höfðu yfirráð yfir nýlendunum í Ameríku, þá lá verzlun þeirra og atvinna í fjötrum, með því að konúngar og stjórnendur hugðu eigi á annað, en að raka sem mestu fè saman fyrir handan haf og safna í ríkissjóðinn heima hjá sèr. Þegar ófriðurinn stóð milli Frakka og Englendinga á fjórtándu öld höfðu menn fundið *púðrið* og þá fyrst var það við haft (í orustunni við Crecy 1346). Sú uppgötvan og sá vopnabúnaður breytti mjög allri hernaðaraðferð. Alt fram til þeirra tíma, og alla þá stund,

er lènsherravaldið stóð í blóma, hafði riddaraliðið einatt ráðið úrslitum málanna í orustum, en nú þegar eldvopn þessi voru til sögunnar komin, þá dugðu hvorki riddarar nè hlífar þeirra lengur; í stað riddaranna komu þá fram nýjar hermannasveitir, *fótgönguliðið*, og höfðu byssur að vopni. Þar sem áður hafði verið venja að herinn safnaðist saman án þess að liðsmenn væri æfðir við vopn, eður kynni hernaðaríþróttina til nokkurra muna, og færi svo aptur hver heim til sín að lokinni herferð, þá varð það nú tíðska, að liðsmenn urðu svo árum skipti að læra allan vopnaburð, áður en til hernaðar kæmi, og voru þannig að staðaldri undir vopnum. Á þann hátt myndaðist stöðugt eða fast herlið (*staaende Hære*); var það þá í fyrstu sumstaðar, að konúngar tóku slíkt herlið á mála (Miðaldasagan bls. 226), og fengu þeir flest liðið, er mestan og beztan guldu málann. En seinna breyttist þetta þannig, að konúngarnir komu sèr sjálfir upp innlendu herliði, og fyrst á Frakklandi, en aðrir þjóðhöfðingjar tóku það síðan eptir, nema Englakonúngur. Hafði þetta hin mestu áhrif á alla ríkisstjórn, þar sem þetta fastalið var alt af við hendina, hvenær sem á þurfti að halda, til þess að treysta konúngsvaldið en temja þegnana og bæla þá niður ef á þeim bryddi. Nýja sagan sýnir og hversu *einveldið* ryðnr sèr til rúms á sextándu og einkum á seytjándu öld því nær um alt meginland Norðurálfunnar.

Frá þeim tímum er það og, að ríki Norðurálfunnar komast, að því er snerti alla stjórnarathöfn þeirra, í miklu nánara samband hvert við annað, heldur en verið hafði að undanförnu. Lènsdrotna öldin er liðin undir lok og ófriður sá, er einatt ríkti innanlands milli konúnganna og lendra manna; ríkin eru orðin ein samgróin heild hvert um sig og hafa náð festu. En hins vegar eru sum ríki orðin afar-víðlend og voldug, sökum hinna miklu landnáma og als þess auðs, er þaðan streymdi, og svo sökum breytingar og framfara í hernaðaríþróttinni. Af þessu óttuðust menn, að hin voldugu ríkin myndu bæla hin smærri undir sig. Til þess að sporna við slíkum yfirgángi einstakra ríkja, komu menn sèr niður á því, að öll ríki Norðurálfunnar skyldu upp frá því haldast í einskonar jafnvægi (*Ligevægtsystemet*), það er að segja, að eitt ríki skyldi eigi verða voldugra en annað, en vildi út af því bregða, þá skyldi öll hjálpast að til

þess að afstýra því, að eitt ríki veitti öðrum yfirgáng. Þessi jafnvægis-tilraun hafði að nokkru leyti átt sèr stað milli smáríkjanna á Ítalíu, og milli ríkja þeirra, er þar börðust um yfirráðin undir endalok miðaldanna.

En um sömu mundir sem ríki Norðurálfunnar, hvað veraldlega stjórn þeirra snerti, komust í nánara samband en verið hafði að undanförnu, þá slitnaði það band að fullu og öllu, er á miðöldunum hafði bundið öll ríki og lönd í hinum vestri hluta Norðurálfunnar hvað fastast saman, en það var hið *rómverska páfavald.* Viðrèttíng vísindanna opnaði augu margra ágætismanna og sýndi þeim og sannfærði þá um villu og ofríki páfadómsins; þá tók prentlistin við og breiddí hina nýju kenníngu út yfir lönd og lýði, og alt ruddi þetta *siðabótinni* braut meðal margra þjóða. En að vísu var það eigi nema nokkur hluti hinna kristnu þjóða í Norðurálfunni, er gjörðist hluttakandi í hinum nýja sið, og jafnvel í sumum löndum, þar sem siðabótin þó ruddi sèr til rúms og vann sigur, þar varð þó að lyktum nokkur ágreiníngur með mönnum, og þar urðu reglur trúarinnar mismunandi. Hinn nýi siður hafði ofsóknir og ófrið í för með sèr, því að katólska trúin og klerkavaldið var orðið svo rótgróið meðal þjóðanna, að enginn kostur var að losast undan því með kyrð og spekt. Svo leið ein öldin og nokkuð fram á aðra, að trúarbrögðin áttu löngum mestan og stundum allan þáttinn í aðal viðburðum þeim sem urðu í Norðurálfunni. Á þessu verður fyrst algjörð breytíng þegar *þrjátigi ára stríðinu* er lokið, og *vestfalski friðurinn* er saminn (1648), og með honum eru menn vanir að láta lykta hið fyrsta tímabil, eða *hinn fyrsta kafla* nýju sögunnar, sem þannig tekur yfir tímabilið frá 1517 til 1648. Hið næsta tímabil, eður *annan kaflann,* telja menn frá 1648 til stjórnarbyltíngarinnar miklu á Frakklandi árið 1789; á því tímabili verður *einveldi* konúnganna hvað ríkast og ramast hèr í álfunni.

---

# Fyrsti kafli.

## Frá siðabótinni til vestfalska friðarins
(frá 1517 til 1648).

---

### Siðabót Lúthers.

Í miðaldasögunni hefir þess verið getið, að páfarnir höfðu aðsetu um 70 ára tímabil ekki í Rómaborg heldur í *Avignon* á Frakklandi (frá 1309 til 1378); sömuleiðis hefir þess verið getið, að þegar þessum útistöðum þeirra lètti af, þá varð hið mikla hneyksli í rómversku kirkjunni, svo að ýmsir vóru þá páfar uppi í einu, og leiddi þetta hvorttveggja til þess að skerða hinn mikla veg og virðíngu, sem páfáveldið hafði haft á tólftu og þrettándu öld. Páfadóminum fór þannig hnignandi, og þó að kirkjuþíngin, sem áttu sèr stað á fimmtándu öld, reyndu að ráða bót á því, þá vildi það eigi heppnast. Þegar nú þar við bættist, að slíkur maður sem Alexander sjötti settist í postullegt sæti og gat haldizt þar við um nokkur ár, þá sýnir það nógsamlega í hve mikla niðurlægíngu páfatignin var komin.

Þegar menn kyntust að nýju hinum ágætu fornfræðum Rómverja og einkum Grikkja, þá lukust skjótt upp augu margra svo þeir sáu fram á villigötur rómversku kirkjunnar; þó liðu lángir tímar áður sá fróðleikur setti nokkuð annað nýtt og betra í þess stað sem hann reif niður. Hið andlega líf, sem sá fróðleikur kveikti, sýndi sig fyrst og fremst í þeim miklu framförum sem *fagrar listir* (málaralist, byggínga-íþrótt o. s. frv.) tóku á þeim tímum. Menn kyntust listasmíðum fornaldarinnar einkum þeim, sem átt höfðu sèr stað á Grikklandi, og nú keptust menn við að stæla eptir þeim og ná fegurð þeirra. Af þeim afbragðs listamönnum, sem uppi voru um þær mundir, skal hèr að eins nefna *Rafael frá Úrbínó* (1483—1520), einhvern hinn mesta málara sem nokkru sinni hefir uppi verið, og *Michel Angeló Buonarotti* (1474—1563), hinn fjölhæfasta meistara, og jafnfrægan sem málara, myndasmið og húsasmið; hann var yfirsmiður Pèturskirkjunnar meðan til vanst. En eins og þessi

fornu fræði heiðinna þjóða fjarlægðu hugi manna frá hinni rómversku kirkju, eins var það hinsvegar svo fjærri því, að menn fyrst framan af nálguðust hina hreinu og ómenguðu kristnu trú, að jafnvel háskólinn í Flórenz (hinn platónski) var ekki fráhverfur því, að setja hina fornu heimsspeki í stað hins kristilega trúarlærdóms. Þannig varð *vantrúin* algeng meðal lærðra manna og alls stórmennis, en *hjátrúin* meðal hinna óæðri, meðal alþýðunnar. Sönn kristin trú var að mestu leyti horfin úr kirkjunni; sèrplægni og sjálfsþótti rèð gjörðum manna; veraldlegt hyggjuvit og slægð var eingöngu höfð í hávegum. Hefir hinn nafnkendi rithöfundur *Machiavelli* frá Flórenz († 1527) lýst þeim aldarhætti furðu vel í riti sínu »*um þjóðhöfðíngjann*» (»*il principe*»).

Þannig var nú ástatt þegar Leó páfi hinn 10. með því nafni settist að páfastóli 1513, Hann lèt kirkjuleg málefni liggja milli hluta, en var aldavin allra íþrótta og bókmenta, og einkum var honum umhugað um að koma upp hinni dýrðlegu Pèturskirkju í Rómaborg. Til þess að standast þann feyki-mikla kostnað, er slík stórsmíð hafði í för með sèr, tók hann það til bragðs, að selja mönnum út um hin kristnu lönd *aflátsbrèf*, eða syndakvittun, móti ærnum peníngum. Erindsrekar hans gjörðust svo frekir og áleitnir í fjárheimtu þessari, að þeir seldu mönnum aflausn, eigi að eins fyrir drýgðar syndir, heldur og einnig fyrir allar ódrýgðar misgjörðir, sömuleiðis fengu sálir dauðra manna fyrir ákveðið peníngagjald lausn af öllum kvölum í hreinsunareldinum. Einn af þessum útsendurum páfans hèt *Jóhann Tezel*, hann var af Dóminíkusar reglu, og fór um Þýzkaland og seldi mönnum aflausn móti ærnu gjaldi. Aðfarir þess manns urðu tilefni til þess, að *Marteinn Lúther* reis á fætur og tók til sinna starfa.

Lúther var fæddur á dögum Friðriks keisara hins þriðja, í þorpi einu á Saxlandi, er Eisleben heitir, 10. dag nóvembermánaðar 1483. Hann var kominn af lágum stigum og fátæku foreldri og átti allerfitt á uppvaxtar árum sínum, var þó snemma settur til bókmenta, og árið 1501 komst hann til háskólans í Erfurt (Herfurðu), og stundaði af miklu kappi þær vísindagreinir, sem þar voru þá um hönd hafðar; hann var löngum í bókahlöðu háskólans, og þar var það að hann einhverju sinni fann

skíran málróm og skæran». Raddmaður var hann sagður góður á ýngri árum, en alla æfi hafði hann mestu mætur á söng og hljóðfæraslætti, og samdi sjálfur ýms lög. Hann var vanur að segja, að næst guðfræðinni væri söngfræðin hin fegursta list, og hresti menn tíðum meira en matur og drykkur.

Árið 1510 var Lúther sendur í einhverjum erindagjörðum til Rómaborgar. Hann kom þángað með allri þeirri lotníngu fyrir páfadýrðinni, sem katólskum manni var í þá daga unt. En þegar þángað var komið leízt honum ekki á blikuna; þar heyrði hann margar sögur ljótar; honum blæddi í brjósti að heyra með hvílíkri lèttúð hinir ítölsku klerkar þuldu messur sínar. «Meðan eg sýng eina, sagði hann, þá sýngja þeir tuginn á enda, það virðist sem allt sè til fjárins unnið». En svo sagði hann síðan, að hvað sem í boði hefði verið þá vildi hann eigi þessa Rómaför ófarna.

Nokkrum tíma eptir að Lúther var kominn heim aptur úr Rómaför sinni, vildi Staupiz vinur hans, að hann yrði lærifaðir í guðfræði (*doktor theologiæ*). Lúther taldi á því öll tormerki, og bar einkum við æsku og heilsuleysi, en svo varð þó að vera sem Staupiz vildi, og 19. október 1512 varð Lúther doktor í guðfræði. Friðrik kjörfursti, sem hafði á honum miklar mætur, greiddi allan þann kostnað, er sá frami hafði í för með sèr, því Lúther var mjög fátækur, launin voru lítil, og maðurinn allt annað en fègjarn; hann ritaði og kendi fyrir alls ekkert. Nú fór hann fyrst að lesa biflíuna á frummálinu, og því betur sem hann skildi hana og komst niður í henni, því minna þótti honum varið í hina sèrvizkulegu og smásmuglegu fræði «skólastisku» spekínganna, sem þá var svo almennt höfð í hávegum. Þetta vakti eptirtekt manna og þótti nýlunda; hann átti einatt orðakast við lærða menn um þetta efni, en af því að engum var biflían svo kunnug sem honum, þá fóru þeir allir halloka fyrir honum þegar til kappmálanna kom.

Það var árið 1517 að Leó páfi hinn tíundi tók það ráðs, að leggja skatt á allt Þýzkaland til þess að safna fè því, er hann þá þóttist við þurfa. *Albrekt* erkibiskup af Mainz og Magdeborg tókst á hendur að stýra þeirri fjárheimtu, og sendi *Jóhann Tezel*, þann er fyr er nefndur, með aflátsbrèf út um landið. Jóhann fór sveit úr sveit og hafði tvær kistur meðferðis, í ann-

ari voru aflátsbrèf, en í hinni fèð sem fyrir þau var goldið; hann lèt mikið yfir sèr, hvar sem hann kom, sýndi mönnum brèf páfans, og sagðist hafa leyst fleiri sálir úr hreinsunareldinum en Pètur postuli hefði nokkru sinni getað gjört; Jóhann hafði og á boðstólum bæði mjólkurbrèf og smjörbrèf, það er svo að skilja, að sá, sem keypti þau, mátti vítalaust fyrir prestunum drekka mjólk og eta smjör á föstunni. Leyfisbrèf þessi seldi Jóhann við ýmsu verði eptir efnum manna og ástæðum, og eptir því hvernig á syndum manna stóð. Hinn margblindaði lýður streymdi að þessum skjalara og færði honum ógrynni fjár; að vísu hafði aflátssalan átt sèr stað að undanförnu, en aldrei eins freklega sem í þetta skipti; ýmsum þjóðhöfðingjum þótti reyndar úr hófi keyra, en af gömlum vana þorðu þeir eigi í móti að mæla. En nú var sá maður kominn til sögunnar, er drottinn hafði veitt dug og djörfúng til að brjótast í móti venjunni, og taka eins og þurfti í taumana á spilltum aldarhætti.

Þegar Lúther sá þenna ófögnuð, aflátssöluna, komna í nágrenni við sig, hóf hann þegar að prèdika gegn henni, ritaði því næst öllum hinum næstu biskupum, og beiddi þá sporna við henni af alefli. En sem þeir daufheyrðust við beiðni hans, þá ritaði hann 95 greinir móti aflátssölunni, og lèt festa þær upp við kirkjudyr einar í Wittenberg 31. október 1517, kvöldinu fyrir allra heilagra messu, og skoraði á hvern sem vildi að mæla opinberlega móti þessum greinum. Nokkrar af þeim eru svo látandi: «Þeir fara með villulærdóm sem kenna mönnum, að jafnskjótt sem peningurinn kemur í kistuna, þá fari sálin út af hreinsunareldinum. Víst er um það, að þegar peningurinn kemur í kistuna, þá kemur gróði og ágirnd og vex að því skapi, en hjálp kirkjunnar og fyrirbænir standa einúngis í guðs hendi eptir hans velþóknun. Þeir sem hugsa, að aflátsbrèfin veiti sèr ugglausa sáluhjálp, þeir fara til helvítis og þeirra meistarar með þeim. Menn eiga að fræða kristna menn um það, að sá sem sèr náúnga sinn líða skort, og samt sem áður kaupir aflausn, útvegar sèr eigi aflausn páfans, heldur aflar sèr þar í móti óhylli guðs. Menn eiga að fræða kristna menn um það, að svo framarlega sem páfinn vissi hve herfilega aflátsmángararnir fèfletta menn, þá mundi hann heldur kjósa að Pètursskirkjan brinni til kaldra kola, en að hún yrði reist af skinni, holdi og

hann sagði svo: »eg skal þegja og jafnvel hætta að tala um lausnarbrèfin, en þá verða einnig mótstöðumenn mínir að þagna«. En þess var enginn kostur úr því sem komið var, og jafnvel einstakir menn gátu nú eigi lengur við ráðið, þó þeir hefðu viljað. Einn af hinum helztu mótstöðumönnum Lúthers, er þá risu upp, hèt *Jóhann Eck*, háskólakennari í Ingolstadt, hinn lærdasti maður og leiknasti í kappræðum. Hann átti harðar ræður og lángar við Lúther í borginni Leipzig á Saxlandi árið 1519; þóttust hvorir tveggja hafa þar sigurinn unnið. Á því sama ári andaðist *Maximilian* keisari hinn fyrsti, stýrði þá Friðrik kjörfursti ríkinu um Norður-Þýzkaland til þess er nýr keisari var kosinn, og var Lúther og siðabótinni allmikill hagur að þeirri millibilsstjórn, því að kjörfurstinn reyndist Lúther jafnan velviljaður, og í annan stað hliðraði páfinn í mörgu til við kjörfurstann, því að hann vissi, að kjörfurstinn mátti sèr mjög mikið á Þýzkalandi, en páfa var mest í hug að geta komið Franz Frakkakonúngi hinum fyrsta til keisaratignar, og til þess vildi hann hafa aðstoð kjörfurstans; en þetta fór annan veg en páfinn vildi; Franz komst eigi að, en *Karl*, sonarsonur Maximilians, var kosinn til keisara (1519) og nefndur *Karl fimmti.* Ári síðar fór Jóhann Eck til Rómaborgar til þess að fá því fram komið, að ramari skorður yrðu reistar eptir en áður við athæfi Lúthers. Fekk Jóhann Eck því til leiðar komið, að páfinn lèt bann útgánga gegn kenníngum Lúthers, og honum var settur fárra vikna frestur, til umhugsunar og apturhvarfs; bætti hann eigi ráð sitt á þeim tíma skyldi hann settur í bann og allir sem honum fylgdu. Þegar Lúther komu þessi boð ritaði hann páfanum brèf og er það í alla staði mjög merkilegt. Hann segir þar meðal annars: »Eg hefi jafnan talað um páfann með virðíngu, eins og skylt er, svo að þeir, sem annað segja um mig, eru ósannsöglismenn. En hitt er satt, að eg hefi einatt verið harðorður um páfastólinn, það er að skilja, um hina rómversku hirð, og hlýtur þú og hvert mannsbarn á jörðu að játa, að sú hirð er svívirðulegri og hneykslanlegri en Sódóma, Gomorra og Babylon nokkru sinni voru; og að því er eg fæ skilið er þeirri hirð og hennar ílsku ekki viðhjálpandi; þar er alt orðið vitlaust og botnlaust. Þess vegna hefir mèr sárnað, að menn hafa í þínu nafni og skjóli hinnar rómversku kirkju svikið og á tálar dregið

hinn fáfróða lýð. Við þeirri óhæfu hefi eg viljað sporna, og ætla mèr að halda áfram meðan kristilegur andi lifir í mèr«. Því næst lýsir hann siðaspillíngu hinnar rómversku hirðar og segir, að sèr gremjist, að páfinn verði að lifa í jafnvondum solli, eins og lamb á meðal úlfa; það særi sig, að jafn-góður maður sem hann (þ. e. Leó 10.), er átt hefði skilið að lifa á annari og betri öld, skyldi einmitt nú vera páfi. »Hinn rómverski stóll verðskuldar ekki þig eða þína líka, hinn illi andi ætti að vera þar páfi, enda ríkir hann þar í Babýlon miklu fremur en þú. Guð gæfi, að þú gætir verið laus við þá *sæmd* — er hinir verstu óvinir þínir nefna því nafni — og gætir alið aldur þinn við eitthvert kennimannlegt embætti, eða lifað af föðurleifð þinni. Eg segi það satt, að slík sæmd er rètt kosin til handa Júdasi Iskariot og öðrum hans jafníngjum, sem eru útlagar guðs. Þú ert mikill ógæfumaður Leó, að sitja á hinum hættulegasta stóli. Eg segi þèr satt, því að eg ann þèr als góðs«.

Menn sjá þegar af því, sem hèr að framan er ritað, hvílík að var sannfæríng og trúartraust Lúthers, og styrktist þetta hvorttveggja hjá honum með degi hverjum, þegar hann sá, að hin þýzka þjóð veitti orðum hans hið mesta athygli. Tveir riddarar eru nefndir þar í landi, er hètu *Franz von Sickingen* og *Úlrik von Hútten,* frægir sökum hreysti og drengskapar; þeir skoruðu fast á Lúther, að hann skyldi halda svo fram stefnunni, sem hann hefði byrjað, og ef honum þætti sèr eigi óhætt í Wittenberg, skyldi hann leita á þeirra fund og eitt yfir þá alla gánga. Þá ritaði Lúther bæklíng: *til kristilegra eðalmanna á Þýzkalandi um endurbót klerkastèttarinnar;* skorar hann í því riti á Þjóðverja, að varpa af sèr hinu rómverska oki og svipta páfann þeim umráðum, er hann hafi haft yfir kirkjunnar málefnum á Þýzkalandi, og þeim ógna tekjum, er þaðan hafi runnið til páfastólsins að undanförnu, að prestum verði leyft að kvongast, klaustrin hreinsuð og reglum þeirra breytt til hins betra, o. s. fl. Rit þetta hafði meiri áhrif á Þjóðverja, en frá verði sagt.

Doktor Eck var kominn aptur til Þýzkalands úr Rómaför sinni og hafði verið boðið að lýsa páfabanni yfir Lúther, en það vildi eigi gánga sem greiðlegast. Í Leipzig var páfabrèfinu kastað í sorp, og Eck komst sjálfur nauðuglega undan aðsúgi og meiðíngum stúdenta; það var víða, að valdsmenn fyrirbuðu

en nokkur annar þjóðhöfðíngi Norðurálfunnar um þær mundir, því að, auk þess sem hann var þýzkalands keisari, rèð hann einnig fyrir Niðurlöndum, og svo var hann konúngur á Spáni, en undir það ríki lágu á þeim tímum Neapel, Sikiley og Sardinía, og öll hin víðlendu ríki fyrir vestan haf, er þá voru nýfundin, eins og fyr er ritað. Karl keisari var alinn upp í Niðurlöndum og á Spáni, og hafði því jafnan meiri mætur á þeim en á Þýzkalandi, enda er sagt að hann hafi lítt kunnað þjóðverska túngu. Hann átti Ísabellu dóttur Emanúels mikla í Portúgal; þeirra son var Filippus annar Spánar konúngur, er síðar mun verða getið. Karl keisari var stórhugaður maður, mjög ágjarn til fjár og landa, en vitur og gætinn. Menn skoruðu þegar á hann, að hann skyldi gjörast oddviti siðabótarinnar, svipta páfann öllum yfirráðum kirkjunnar á Þýzkalandi, stofna eina þjóðkirkju þar í landi, og sameina þar alt hið marga sem sundrað var, en keisaranum var aldrei sèrlega ant um þýzkt þjóðerni og því síður um siðabótina, hann var þvert á móti óvinur hennar fullkominn. En hann vildi þó fara varlega og gjöra báðum nokkuð til hæfis, páfanum og Friðriki kjörfursta, hliðra til við báða, og hafa gott af báðum; þess vegna kvaddi hann til ríkisfundar í borg þeirri er Worms heitir. Þar skyldi ræða um ýms umvarðandi ríkismálefni, en einkum um hina miklu og merkilegu nýlundu, sem Lúther hafði komið fram með, og sem öllum þótti þá hvað mestu máli skipta. Til þessa þíngs var nú Lúther stefnt, að líkindum eptir ráðum Friðriks kjörfursta, sem hafði afstýrt því, að Lúther sætti utanstefnum og ákærum í Rómaborg, en vildi heldur hitt, að sök hans yrði prófuð af óvilhöllum mönnum á Þýzkalandi. Legáti páfans mælti harðlega móti því, að bannfærður maður sem Lúther skyldi mæta fyrir verzlegum dómendum og annarstaðar en í Róm, en það tjáði eigi, og er það eitt meðal annars sem berlega sýnir hve stórum páfaveldinu var farið að hnigna á Þýzkalandi þegar hèr var komið. Keisarinn gaf út leiðarbrèf handa Lúther, þar sem á var ritað, að honum skyldi við engu hætt á ferðinni til eða frá Worms. En alt um það löttu margir hann fararinnar og sögðu, að slíkt verndarbrèf hefði Jóhann Húss forðum haft, og mættu menn þó muna afdrif hans. Lúther, sem ekki kunni að hræðast mennina, var veikur um þessar mundir og

naumast ferða fær. Þó kvaðst hann fara mundu eigi að síður, og láta bera sig til fundarins, ef hann mætti eigi annan veg komast. »Hèr dugar ekki — sagði hann — að hugsa um sjálfan sig, um hættur eða mannraunir, heldur einúngis um hitt, að sjá guðsorði borgið, sem vèr eitt sinn höfum að oss tekið; ef vèr látum það varnarlaust, þá munu mótstöðumenn vorir hælast um og segja, að vèr þorum eigi að játa það, er vèr kennum, og því síður láta lífið fyrir það ef á herðir; flýja vil eg ekki, aptur kalla orð mín því síður, svo sannlega sem drottinn styrkir mig; því hvorugt get eg gjört, nema því að eins, að guðhræðslu margra manna og sáluhjálp sè hætta búin». Í Worms var alt stórmenni saman komið. Þar var keisarinn og Ferdinand bróðir hans, 6 kjörfurstar, 28 hertogar, greifar ótalmargir, legátar páfans, erkibiskupar, biskupar og sendiherrar því nær frá öllum konúngum Norðurálfu; þar var og Kristján, er síðar varð Danakonúngur, hinn 3. með því nafni. Fram fyrir alla þessa höfðíngja átti Lúther að ganga, hann sem nokkrum árum á undan hafði lifað sem einsetu maður í klaustri, og lítil mök haft við veröldina og alla hennar stórmensku. Hann lagði af stað frá Wittenberg með miklum áhyggjum, og við góðu var eigi að búast. Þegar hann kvaddi Melankthon sagði hann: »ef eg kem eigi aptur, og óvinir vorir ráða mèr bana, þá bið eg þig þess um fram alt bróðir! að þú haldir fast við trúna og hættir eigi að kenna; þó mín missi við, er skaðinn eigi stór, ef þú að eins lifir eptir; drottinn á lærðari liðsmann þar sem þú ert». Á leið hans til Worms flyktist að honum múgur og margmenni til að sjá hann og undrast; sumir hughreystu hann, sumir gjörðu hið gagnstæða, sjálfur var hann veikur á líkamanum; frá Frakkafurðu ritaði hann vin sínum Spalatín, og segir þar svo: »eg fer til Worms hvað sem í vegi stendur, því að Kristur lifir; eg hefi einsett mèr að mótstanda djöflinum og fyrirlíta hann; þó það væru eins margir djöflar í Worms eins og þar eru hellur á húsþökum þá skal eg þó þángað halda».

Lúther kom til Worms 16. apríl 1521. Degi síðar átti hann að mæta í ríkisráðinu. Mannþröngin var fram úr öllu hófi; Lúther veitti jafnvel erfitt að ná inngöngu í þíngsalinn. Þá var það, að *Georg Frúndsberg,* gamall hershöfðingi og hinn mesti kappi, lagði höndina á öxl Lúthers og mælti: »Múnkur! múnk-

ur! Þú gengur nú út í þá baráttu, að eg og margur hershöfðíngi höfum eigi átt slíkri að mæta í hinum mannskæðustu orustum; en hafir þú rètt mál að verja, og þykist óhultur um þitt málefni, þá haltu áfram í guðs nafni og vert öruggur! Guð mun eigi yfirgefa þig». Lúther var fölur og máttfarinn, og þótti höfðíngjunum, þar sem þeir strituðust við að sitja og sáu hann gánga í höllina, lítið að manninum kveða; og mælt er að Karl keisari hafi sagt við þann, er næstur honum sat; «eigi mun þessi fá talið mig af trúnni». Bækur þær, sem Lúther hafði ritað, voru lagðar fram, og hann aðspurður, hvort hann kendist við þær, og hvort hann vildi taka það aptur, sem hann þar hefði ritað. Hinni fyrri spurníngunni játaði hann, en hinni síðari svaraði hann svo, að hann beiddist umhugsunartíma, og var honum í því skyni veittur frestur til næsta dags. Inntakið úr svari hans var þá, að hann beiddi hvern sem vildi, að sanna sèr af orðum ritníngarinnar, að hann hefði á röngu að standa; yrði það gjört, skyldi hann fúslega kannast við villu sína, og verða manna fyrstur til að kasta bókum sínum á bálið. Mönnum líkaði eigi svarið, og beiddu hann segja skýrt og í sem fæstum orðum: hvort hann vildi kalla aptur orð sín eður eigi. Þá svaraði Lúther á þessa leið: «Ef menn geta eigi sigrað mig eða sannfært með orðum ritníngarinnar, eða með ljósum og órækum röksemdum (því að páfum og kirkjuþíngum trúi eg eigi, þar sem öllum er alkunnugt, að þeim hefir svo opt skjátlazt og orðið sjálfum sèr svo opt sundurþykkir), þá get eg eigi, og vil eigi taka það aptur, sem eg hefi ritað; því að það er hvorki óhult eða ráðlegt að breyta móti samvizku sinni. Hèr stend eg, eg get ekki annað. Guð hjálpi mèr, amen!»

Mörgum sem á heyrðu þótti Lúther segjast vel og urðu vinir hans upp frá því, en enginn varð þó glaðari en Friðrik kjörfursti. Þegar hann kom af þíngi sagði hann við Spalatín: »Af mikilli snild talaði »*pater Marteinn*«; nóg var einurðin, ef til vill heldur mikil«. Nú urðu nokkrir af höfðíngjum þeim, er á þínginu höfðu verið, til þess að tala við Lúther einslega og reyna á ýmsa vegu að telja honum hughvarf, en það kom fyrir ekki, og að skilnaði mælti hann til þeirra þessum orðum Gamalíels: «ef þetta fyrirtæki er af mönnum, fellur það sjálfkrafa, en ef það er frá guði, þá megnið þèr ekki að kefja

það«[1]. Þessu næst var Lúther boðið að fara burtu frá Worms, vildu þá sumir menn að hann væri höndum tekinn og brendur sem Jóhann Húss og eggjuðu keisarann mjög til þess verks; en hann aftók það með öllu. En hins vegar lèt keisarinn það boð útgánga, að Lúther skyldi útlægur vera um allt ríkið. Sá Friðrik kjörfursti þá eigi annað fært, en koma Lúther undan og geyma hann á einhverjum þeim stað, er hann mætti óhultur vera um líf sitt. Því var það einn dag, er Lúther fór leiðar sinnar, að 5 menn komu að honum ríðandi, allir í dularklæðum og með grímur fyrir andliti, og tóku hann höndum, og hleyptu síðan í skóginn; vissi Lúther eigi hvað þeir fóru. Loksins komu þeir að höll einni, er Wartborg hèt; var Lúther vísað þar til herbergja; voru þar als nægtir fyrir, enda bækur nógar og ritföng, og aðbúnaður hinn bezti, en sterkur vörður á því hafður, að hann kæmist eigi þaðan. Þar var hann nú um hríð og eigi aðgjörðalaus, því að þá tókst hann það þrekvirki á hendur, að *snúa heilagri ritníngu úr frummálunum á þjóðverska túngu.* Þessi biflíuþýðíng hans varð samt eigi fullgjör, og kom eigi út á prenti fyr en nokkrum árum síðar (1534), en ómetanlegt gagn gjörði þetta starf hans, eigi einúngis hinum þýzku þjóðum, heldur öðrum út í frá, því að þá fyrst gátu alþýðumenn kynzt ritníngunni, þar sem hún áður hafði verið þeim hulinn helgidómur, og hvað sjálfa Þjóðverja snertir, þá varð þessi biflíuþýðíng, slíkt afbragð sem hún var, undirstaðan að bókmáli þeirra eins og það er síðan orðið.

Lúther sat 10 mánuði í Wartborg, en þá hèlzt hann þar eigi lengur við, því að honum bárust þær fregnir, að óeirðir höfðu kviknað í ýmsum stöðum, fyrir þá sök að nokkrir af siðabótarmönnum höfðu farið með frekju og óspektum, brotið ölturu og helgra manna líkneskjur fyrir pápiskum mönnum, lagt hendur á múnka og leikið þá harðlega, svo að til vandræða horfði. Lúther hèlt því tafarlaust til Wittenbergs, hvað sem hver sagði, prèdikaði þar fyrir lýðnum 8 daga samfleytt, og fèkk með málsnild sinni og skörúngskap sefað allar óeirðir. Karl keisari var þá farinn úr landi og kominn til Niðurlanda og þaðan til Spáns og dvaldist þar á áttunda ár. Þessi útivist keisarans varð siðabótinni til mikilla framfara og viðgángs, því að

1) Postul. Gjörn. 5. kap., 38.—39. v.

nú breiddist hún út með kyrð og spekt um alt Saxland og mörg nálæg lönd; ýmsu var nú breytt í klerkasiðum og helgihöldum: prèdikun var flutt á móðurmáli manna, í stað þess sem áður var á latínu; kvöldmáltíðar-sakramentinu útdeilt bæði í brauði og víni; prestarnir kvæntust eins og aðrir menn. Lúther kvæntist sjálfur; hèt kona sú Katrín er hann átti, og hafði áður verið nunna; prestar urðu alment betur að sèr en áður hafði verið, þó margir teldust þeir fyrst framan af, er tæpir voru í fræðunum. Til þess að ráða bót á því, ferðuðust þeir Lúther og Melankthon um Saxland til þess að líta eptir kenníngum prestanna og uppfræðslu alþýðunnar; setti Lúther eptir það saman «kathekismus» (fræðabók), annan stærri handa prestunum, annan minni handa söfnuðunum; en Melankthon ritaði vísindalega bók um kristileg trúarfræði, er hann kallaði: *Loci communes rerum theologicarum*. Þótti svo mikið að þeirri bók kveða, að á rúmum 70 árum var hún prentuð 67 sinnum á frummálinu, en marg opt snúið á önnur túngumál. Páfinn misti þar, sem hinn nýji siður komst á, alla yfirstjórn kirkjunnar er hann hafði áður haft, en í þess stað komst sú yfirstjórn í hendur þeim þjóðhöfðíngja, sem þar rèð fyrir landi (landshöfðingja) hverju nafni sem hann nefndist t. a. m. konúngur, kjörfursti o. s. frv).

Það leið eigi á löngu áður hinn nýji siður (hin lútherska trú) breiddist út frá Saxlandi til annara ríkja norðan á Þýzkalandi t. a. .m. í Hessen, Brandenborg, Hannover, Austurfríslandi, Holsetalandi og Slèsvík og víðar. Fyrir Prússlandi rèðu um þær mundir hinir *þýzku riddarar*, og *Albrekt* markgreifi, foríngi þeirra og einn af ætt Brandenborgar kjörfurstanna, tók við Lúthers trú árið 1525, sagði skilið við páfann og hið þýzka ríki, og tók nú Austur-Prússland að lèni af móðurbróður sínum Sigmundi I. Pólverja konúngi, og gjörðist *hertogi* yfir; en Vestur-Prússland þar í móti var lengi fram eptir öldum skattland Pólverjakonungs. (Hertogadæmið Prússland — Austurprússland — var ríki fyrir sig til 1618, þá sameinaðist það kjörfurstadæminu Brandenborg). Meðan Lúther lifði komst siðabótin til Norðurlanda. Gustaf Vasa, Svía konúngur (1523—1560) kom henni á í Svíþjóð (1544); í Danmörku var hún boðuð á dögum Friðriks

konúngs hins fyrsta († 1533), og í tíð Kristjáns þriðja var siðabótin leidd í lög á ríkisdegi í Kaupmannahöfn 1536.

En þó að hinn nýi siður gengi með kyrð og spekt yfir sum lönd og suma staði, þá var eigi við því að búast, að slíkt gæti alstaðar átt sèr stað. Það kom hèr fram eins og endrarnær í sögu þjóðanna, að alþýða manna skoðar einatt hlutina með mikilli fljótfærni en dæmir síðan málin með lítilli stillíngu, og rasar þess vegna fyrir ráð fram. Alþýðan misskildi víða hina nýju kenníngu Lúthers. Hann barðist fyrir *trúarfrelsi manna*, og kendi mönnum að hlýða eigi páfanum í blindni í málefnum *trúarinnar*. Bændamúgurinn lagði miklu meiri þýðíngu í orð Lúthers og samþjóna hans heldur en í þeim lá, og hugði að hèr væri um að gjöra *alskonar* frelsi, bæði andlegt og veraldlegt; alþýðan hugði, að samkvæmt hinni nýju kenníngu væri hún laus allra mála við yfirdrotna sína; bæði við klerka og við verzlega yfirboðara. Í því var villa hennar fólgin. Það er að vísu satt, að klerkar og aðalsmenn höfðu að undanförnu kúgað bændalýðinn helzt of lengi og freklega, og einatt höfðu bændur hlaupið upp til ófriðar, en þau rángindi höfðíngjanna gáfu þó eigi bændum heimild til að beita rángindum í móti: grípa til vopna, gjöra uppreisn, og vinna mörg grimdarverk. Mest urðu brögð að þessum *bænda ófriði* á Suður-Þýzkalandi 1524. Á litlum tíma höfðu bændur reist allmikinn her; þeir kröfðust, að söfnuðirnir mættu sjálfir kjósa sèr presta, og reka þá af embættum, sem þeim líkaði eigi við; að sköttum og skyldum yrði á sèr lètt o. s. frv. Þegar þetta fekst eigi, tóku bændur að herja og brenna, eyddu þeir þá mörg klaustur, klerkasetur og aðalsmanna borgir, og fóru yfir bygðina með hinni mestu grimd. En er höfðíngjar sáu sitt óvænna höfðu þeir einnig liðsafnað og sendu her manns í móti bændalýðnum; fór þá eins og við mátti búast, þar sem vel æfður her og óvalinn bændamúgur skiptist vopnum við, að bændur höfðu ósigur, og uppreistin varð bæld niður að sinni. Það er mælt, að í þessum bænda ófriði á Þýzkalandi hafi farizt yfir 50 þúsundir manna. Meðan á óeirðum þessum stóð sóktu bændur Lúther að ráðum; mislíkaði honum mjög aðfarir þeirra og veitti hvorumtveggja harðar átölur, bæði höfðíngum og bændum, og er hann sá, að bændur lètu eigi sefazt, varð hann þeim mótbverfur og tók málstað hinna, því

að ekkert var honum viðbjóðslegra en slík óstjórn og hryðjuverk. «Þeir sem lesa og skilja rètt kenníngu mína — sagði Lúther — þeir gjöra ekki uppreisn, þeir hafa eigi lært það af mèr».

Mótstöðumenn siðabótarinnar lètu eigi sitt eptir liggja að telja mönnum trú um, að allan þann ófrið og öll þau ílskuverk, sem unnin voru, hefði hin nýja kenníng beinlínis í för með sèr. Þessi óhróður var að vísu ástæðulaus og ósannur, en hitt er víst, að bænda ófriðurinn átti allmikinn þátt í því, að flokkadrættir urðu meiri og verri eptir en áður, og ástand hins þýzka ríkis viðsjárverðara en verið hafði.

Keisarinn var um þessar mundir annarstaðar, eins og fyr er ritað, og hafði öðrum önnum að gegna, en *Ferdinand* erkihertogi, bróðir hans, stýrði á meðan ríkisstörfum heima á Þýzkalandi. Nú skorti eigi fortölur nè eggjunarorð páfamanna, að í eitthvað yrði að brjótast til þess að reisa rönd við hinum nýja sið og útbreiðslu hans. Og fyrir slíkar fortölur bundust þeir í fèlag, í Regensborg 1524, Ferdinand, og þeir hertogarnir af Bajern, Maximilian og Loðvík, og flestir biskupar sunnan á Þýzkalandi, til þess að vernda katolska trú og kirkju. Í annan stað áttu þeir fund með sèr á Norður-Þýzkalandi ári síðar, *Jóakim* kjörfursti af Brandenborg og *Georg* hertogi af Saxlandi, hvortveggi mótstöðumaður Lúthers, og bjuggust siðabótamenn við engu góðu af þeirra hálfu. Þar til kom og, að um þetta leyti boðaði keisarinn nýjan ríkisfund, og var þar orðum að því vikið, að öll þörf væri á, að hafa gát á hættulegum trúarlærdómum, og bæla þá niður fyr en síðar. Sökum als þessa skoraði *Filippus* landgreifi af Hessen, hinn ákafasti maður og ötulasti, og siðabótinni einkar meðmæltur, á alla þjóðhöfðingja, sem tekið höfðu Lúthers trú, að þeir skyldu gæta sín og gánga allir í eitt fèlag til þess að vernda trú sína gegn katólskum mönnum. Lúther var því ráði fremur mótfallinn, og kvað þess eigi mundu viðþurfa. Alt um það fèlst *Jóhann* kjörfursti af Saxlandi á tillögur Filippusar landgreifa. Sá Jóhann var bróðir Friðriks vitra, er þá var nýdáinn (5. maí 1525). Þeir Filippus og Jóhann hittust í Torgau (1526) og sömdu þar með sèr, að þeir skyldu báðir fylgjast að málum og vernda trú sína gegn katólskum mönnum, ef á þyrfti að halda. Litlu síðar gengu nokkrir aðrir höfðíngjar, er

hinum nýja sið fylgðu, í lið með þeim Filippusi, og þegar nú ríkisdagurinn litlu síðar hið sama ár (1526) var settur í Speier, og keisarinn vildi fá því boði sínu framfylgt, er hann fyrrum hafði gefið út í Worms, þá mæltu allir þessir lúthersku höfðíngjar í gegn því, svo að keisarinn kom því eigi fram; urðu samtök þessi siðabótinni til hins mesta gagns. Landgreifinn af Hessen lèt eigi af að skora á trúarbræður sína, að þeir skyldu vera varir um sig og fylgjast vel að málum; þessa var heldur eigi vanþörf, því að bæði tók nú að brydda á því, að lútherskir menn væru ofsóktir af pápiskum — þannig voru nokkrir lútherskir prestar suður í Baiern og víðar teknir og brendir á báli — og svo höfðu menn sannar sögur af því, að keisarinn var mjög óvinveittur hinni lúthersku trú. Þess vegna voru miklar viðsjár með mönnum þá er til þings var stefnt í Speier árið 1529. Katólskir menn fengu því til leiðar komið þar á þínginu með atkvæðafjölda, að banna skyldi alla frekari útbreiðslu hinnar lúthersku trúar í þeim löndum, er hún var þá komin til, en að öðru leyti halda fast við skipun þá, er keisarinn hafði gjört í Worms; var það hið sama sem að segja útbreiðslu trúarinnar ólögmæta. Þá var það, að þeir, sem hinum nýja sið fylgðu, fundu sig knúða til að bera fram á þínginu í heyranda hljóði *mótmæli sín (protestation)* gegn þessari ályktun þíngsins; voru lútherskir menn síðan nefndir *Prótestantar*, þ. e. mótmælendur. Bjuggust þeir nú við, að keisarinn mundi reiðast þessum tíðindum, og sendu þegar menn á hans fund, þar sem hann var staddur suður á Ítalíu. Keisarinn brást reiður við og virti sendimenn naumast viðtals og hótaði þeim öllu íllu, ef þeir tækju eigi aptur sín mótmæli; við þau málalok snèru þeir heim aptur.

Meðan Karl keisari dvaldist á Ítalíu stefndi hann til þíngs í *Augsborg*, er byrja skyldi 8. aprílmán. 1530; átti á því þíngi «meðal annars að jafna trúarágreiníngin og trúarhreifínguna á Þýzkalandi, og prótestantar gjöra opinberlega grein fyrir kenníngu sinni». Þíngið var fjölment og voru þar komnir flest allir þjóðhöfðíngjar af Þýzkalandi og margt annað stórmenni. Jóhann kjörfursti af Saxlandi var á þíngi og Melankthon með honum, en Lúther kom eigi, því að hann var útlægur. Á því þíngi báru prótestantar fram *trúarjátníngu sína*; er hún síðan kend við þíngstaðinn og kölluð *Augsborgarjátning* (*confessio Augustana*)

og er ein af aðalundirstöðubókum lúthersku kirkjunnar. Melankthon hafði samið hana og Lúther samþykt, og má þar um segja, að verkið lofar meistarann. Rit þetta er í tveim pörtum, og eru í hinum fyrra partinum helztu greinir trúarinnar, 21 að tölu, en í hinum síðari eru tilgreindir í 7 greinum ósiðir þeir, sem prótestantar höfðu leiðrètt. Þegar búið var að lesa játníngu þessa fyrir þingheimi, afhenti keisarinn hana nokkrum katólskum guðfræðíngum, er svara skyldu og hrekja hana; en þeim mistókst svo mjög svarið, að keisarinn lèt semja annað svar og kvaðst nú vænta þess, að menn gætu allir orðið á eitt sáttir, en færist það fyrir hlyti hann að leyta annara bragða. En prótestantar voru staðfastir og lètu eigi hræðast; sleit svo þínginn að eigi gekk saman, og að þínglausnum var því yfirlýst, að allar þær breytíngar, er orðnar væru á kirkjulegum málefnum hin síðustu árin, væru ógildar, og þeir, sem eigi vildu hlýðnast, skyldu fara útlægir eða sæta annari refsíngu. Þannig sleit þínginu í Augsborg, er staðið hafði um 5 mánuði, og sem allir hugðu að mundi koma miklu góðu til leiðar; en hèr var öðru nær, og mátti nú við öllu búast af beggja hálfu.

Það var nú þessu næst, að Jóhann kjörfursti af Saxlandi og Filippus landgreifi af Hessen og nokkrir aðrir þjóðhöfðíngjar meðal prótestanta, gjörðu samband sín í millum í *Smalkalden* (*Smalkaldar sambandið* 1531), til þess að veita hver öðrum hjálp, og verjast allir í samfèlagi ef á þá væri leitað. Keisarinn, sem um þær mundir varð að snúast við Tyrkjum, og hafði í mörg horn að líta, slakaði nú til, og gjörði svo feldan frið í *Nürnberg* árið eptir (1532) við bandamennina frá Smalkalden, að fullkomnar trygðir og friður skyldi standa með hvorum tveggja, þángað til kirkjufundur yrði settur og málefnið leitt til lykta. Litlu síðar dó Jóhann kjörfursti, og *Jóhann Friðrik*, sonur hans, fèkk kjörfurstatignina eptir hann.

## Siðabótin í Sveiz.

Um sama leyti sem Lúther hóf siðabótina á Þýzkalandi, var sá maður uppi í Sveiz er *Úlrik Zvinglí* hèt. Hann var ári ýngri en Lúther, vellærður maður, skarpskign, drenglyndur og hugprúður. Hann varð prestur í Zürich 1518, en árið eptir (1519), er múnkur einn að nafni *Bernharð Samson* fór um

Sveiz og seldi mönnum syndakvittunarbrèf, eins og Jóhann Tezel á Saxlandi hafði gjört litlu áður, reis Zvínglí upp og mótmælti slíkri óhæfu í ræðum sínum og ritum. Hann kendi, að menn ættu að fylgja heilagri ritningu, því að hún ein gæti úr því skorið, hvað rètt væri eða rángt í trúarefnum, og því að eins skyldu menn fylgja úrskurðum páfanna, lærdómssetníngum kirkjufeðranna og venjunni, að samkvæmt væri ritníngunni. En Zvínglí lèt sèr eigi nægja, að mæla í gegn villu manna í trúarefnum, heldur leytaðist hann einnig við, að leiðrètta alskonar ósiðu og siðaspillíngu hjá Sveizlendíngum. Hann var ákafur þjóðveldismaður (Republikaner), og einmitt það hafði mikil áhrif á tilhögun hans í fyrirkomulagi kirkjustjórnarinnar. Svo að þar sem Lúther lagði hina æztu stjórn kirkjunnar á vald landstjórans eða landsstjórnarinnar, þá fèkk Zvínglí *söfnuðunum sjálfum* þá stjórn í hendur. En það, sem einkum skildi á milli í kenníngu Lúthers og Zvínglís, var skilníngur þeirra á innsetníngar orðum kveldmáltíðar-sakramentisins. Zvínglí sagði að kveldmáltíðin væri endurminníngarmáltíð, er kristnir menn hèldu til þess að minna sig á dauða Krists; en Lúther fylgdi orðum ritníngarinnar, og þess vegna segir í Augsborgarjátníngunni 10. gr. »að líkami og blóð Krists sè í sannleika nálæg og útbluteð þeim, sem gánga til borðs drottins». Um þetta atriði áttu þeir orðastríð mikið og gátu þó eigi orðið á eitt sáttir. Í mörgum fylkjum Sveizalands fèllust menn á siðabót Zvínglís, en í sumum fylkjunum (einkum í 5) stóðu menn fast í móti og hèldu við katólskan sið; leiddi sú sundurskiptíng trúarinnar til þess, að friðurinn einnig skiptist í landinu og varð af borgarastríð; stóð aðalorustan við *Kappel* skamt frá Zürick 1531; unnu katólskir menn þar sigur, en siðabótamenn urðu undir; var Zvínglí í liði þeirra sem prestur og fèll þar; náðu katólskir menn líki hans og brendu síðan.

En siðabótin leið eigi undir lok í Sveiz þó að þetta óhapp vildi til, því að þá tók sá maður við, þar sem Zvingli varð að hætta, er hèt *Jóhann Calvín*. Hann var fæddur 1509 í Frakklandi, en varð að flýja þaðan úr landi, af því að hann hafnaði katólskum sið og gekk í lið með siðabótamönnum. Hann kom til borgar þeirrar í Sveiz, er Genf heitir, fáum árum síðar en Zvíngli fèll, og settist þar að og gjörðist oddviti siðabótamanna þar í landi. Hann var afbragðsmaður að lærdómi og vann verk

sinnar köllunar af óþreytanda kappi og atorku, en þótti ærið harður og ósveigjanlegur. Í kenníngu sinni þokaðist hann í sumu nær Lúther, en Zvíngli hafði gjört t. a. m. í lærdóminum um kvöldmáltíðina, en hann kendi og, að guð hefði frá öndverðu ákvarðað suma menn til sælu en suma til glötunar (*Prædestinatio*). Að öðru leyti fylgdi hann kenníngu Zvínglis og gjörði þá fyrirskipun, að allir kirkjusiðir og helgihöld yrðu sem einföldust og viðhafnarminst, en Lúther þar á móti hèlt því öllu úr katólskum kirkjusið, sem honum virtist eigi vera gagnstætt boðum heilagrar ritníngar. Hið veraldlega vald hefir heldur eigi, eptir boðum Calvíns, nein afskipti af stjórn kirkjulegra málefna, en klerkar og leikmenn skyldu hafa þá stjórn á hendi. Calvín dó í Genf 1564. Þeir sem kenníngum hans fylgja, eða þann sið hafa tekið, eru kallaðir *reformeraðir* (þ. e. endurbættir) til aðgreiníngar frá hinum, er Lúthers sið fylgja, og sem út gekk frá Þýzkalandi; þeir eru kallaðir *evangelisk-lútherskir*. Reformeraða trúin barst út frá Sveiz til *Niðurlanda*, *Skotlands*, og vestari hluta Þýzkalands; hún hafði einnig mikil áhrif á siðabótina á *Englandi*, og um mörg ár voru Calvínstrúar menn útdreifðir víða um Frakkland (þar voru þeir nefndir *Huguenottar*); en um síðir tókst páfa trúar mönnum eptir hinar grimmustu ofsóknir að eyða siðabótinni þar í landi.

## Viðureign Karls fimmta við Frakka og Tyrki.

Nú hefir um hríð verið sagt frá því, hvernig siðabótin hófst og náði fótfestu í nokkrum löndum þrátt fyrir mótspyrnur þeirra manna, er eigi vildu á hana fallast. Hèr í þessari grein verða trúarbrögðin um sinn látin sitja við sitt, en i þess stað skýrt frá öðrum viðburðum, er um sama mund gjörðust og þykja næsta frásagna verðir.

*Franz fyrsti* var kominn til ríkis á Frakklandi, þegar siðabótin hófst á Þýzkalandi, og þar lengi síðan konungur (1515—1547). Um sama leyti var *Karl fimmti* keisari á Þýzkalandi. Báðir þessir menn voru ágjarnir til fjár og landa; þeir voru nábúar og litu öfundarauga hver til annars, enda bar margt til þess. Karl rèð fyrir mörgum löndum og þjóðum, er voru næsta ólíkar; hann vildi sameina allar þessar þjóðir sem bezt í eina ríkisheild, bæta nýjum löndum við ríki sitt, og hefja hina rómversku keisaratign

til hinnar fornu vegsemdar, og í fám orðum að segja: stofnsetja nýtt *alsherjar-einvaldsdæmi.*

Franz konungur hafði yfirráð yfir hertogadæminu Búrgund, er Loðvík konúngur ellefti hafði svælt undir sig þegar Karl djarfi var dáinn; þessu hertogadæmi vildi Karl fimmti ná undir sig, því hann var kominn af Karli djarfa (Karl djarfi var lángafi hans). Franz konúngur hafði 1515, eins og fyr er ritað[1], unnið hertogadæmið Mílanó, og rekið þar frá ríkjum hertogann, Maximilian Sforza. Karl vildi ná því ríki úr höndum Frakkakonúngs. Franz þóttist eiga heimtíngu á Neapelsríki, eins og forverar hans, en Karl keisari hafði fengið það ríki að erfðum eptir afa sinn Ferdinand katólska. Þegar Maximilian keisari dó (1519) vildi Franz verða Þýzkalands keisari, en Karl varð þar hlutskarpari; hèr var því margt ágreiníngsefnið. Báðir þeir, Karl og Franz, reyndu á allar lundir til að fá í lið með sèr *Hinrik* 8. Englands konúng (1509—1547), en þar varð Karl einnig drjúgari, einkum fyrir þá sök, að hann hèt *Wolsey* kardínála, ráðgjafa Hinriks, að styrkja hann til páfatignar að Leó tíunda dauðum. En um það sveikst þó Karl síðan þegar til kom. Árið 1521 laust upp ófriðnum milli þeirra Karls keisara og Franz konungs; fyrst í Niðurlöndunum og á Spáni, en þau viðskipti voru að eins smámunir hjá hinu, sem þá þegar gjörðist á Ítalíu. Karl hafði einn kost, og hann mikinn, fram yfir mótstöðumann sinn, og það var, að hann kunni manna bezt að sjá til hvers starfa hver var fallinn, og þess vegna hafði hann löngum í sinni þjónustu afbragðs sendiherra, ráðgjafa og hershöfðíngja. Það kom hèr einnig fram. Yfir herlið það, sem átti að ráðast á Mílanó, setti keisarinn landstjóra sinn frá Neapel, er *Cólonna* hèt, gamlan mann en góðan hershöfðingja. Landstjóri Franz konúngs í Mílanó hèt *Lautrek;* hann var þá staddur í París, er ófriðarsagan barst þángað; hann kvaðst eigi geta varið Mílanó nema því að eins, að Franz lèti sig fá fè svo sem með þyrfti til þess að gjalda liðinu mála. Konúngur hèt honum fènu, en það kom aldrei, því að *Lóvísa* af Savoyen, móðir Franz konúngs, náði því, áður það komst í hendur Lautreks, með því hún kvaðst hafa átt það í skuld hjá syni sínum. Niðurstaðan varð sú, að Lautrek varð að rýma landið, en keisarans menn unnu það undan konúngi; hèlt Lautrek við

1) Sjá Miðaldasögu bls. 227.

það heim á Frakkland og fèkk fyrst nokkrar ávítur af konúngi, en þegar það kom í ljós, að móðir hans hafði fènu náð, þá lèt konúngur þá sök falla niður.

Árið eptir fèkk keisarinn fleiri þjóðhöfðíngja í lið með sèr. Alt um það dróg Franz konúngur af nýju lið saman og bjóst að vinna aptur undir sig Milanó. En þá brást honum sá maður sem mest var um vert.

Sá maður var *Karl* hertogi af Bourbon, »Connetable«[1] af Frakklandi, dugandi hershöfðíngi og hin mesta hetja í öllum mannraunum. Franz hafði á fyrsta ríkisstjórnar ári sínu gjört hann að landstjóra í Milanó, en síðan vikið honum úr þeim völdum, og þar á ofan gjört honum annað til skaprauna; vildi Karl hertogi síðan hefna þess óskunda á konúngi, og gekk í lið með Karli keisara. Franz konúngur setti þann mann yfir lið sitt á Ítalíu, er *Bonnivet* hèt; hann var aðmírall, hraustur maður og fullhugi, en fjærri því að vera slíkur hershöfðíngi sem þeir, er í móti honum voru, bæði Karl af Bourbon og einkum *Peskara* — Cólonna var þá dáinn —. Bonnivet varð því að hopa á hæl fyrir þeim, og í orustunni við *Rómagnanó* (1524) beið hann ósigur og varð sár; tók hinn ágæti riddari *Bayarð*[2] þá við yfirstjórn hersins, en var skotinn til bana, og hörmuðu allir hans lát. Frakkar urðu að flýja burt af Ítalíu, en keisarinn setti *Franz Sforza*, er seinna kvæntist dóttur Kristjáns annars Danakonúngs, til hertoga-tignar í Mílanó.

Þegar nú hèr var komið gaf Karl af Bourbon keisaranum það ráð, að halda sem fyrst öllu liðinu inn á Frakkland og taka Lyonsborg; en keisarinn fylgði eigi því ráði, heldur sendi hann Peskara með allmiklu liði og bauð honum að taka borgina Marseille. En þó Peskara væri afbragðsmaður gat hann eigi framkvæmt erindið, því að Frakkar höfðu lagt alt landið umhverfis borgina í eyði, svo að Peskara varð, þegar vistaskortur þrengdi að honum, að halda liði sínu til Ítalíu. Franz konungur elti hann með miklu liði, vann Mílanó aptur, hèlt síðan liði sínu til *Pavía* og settist um þá borg. Þar hafði keisarinn setulið og foringja þann fyrir, er *Antonío de Leyva* hèt, hinn vaskasta

1) Sjá Miðaldasögu neðanmálsgrein bls. 258.

2) Bayarð var kallaður: »*le chèvalier sans peur et sans reproche*« þ. e. riddarinn án ótta og án ámælis.

mann. Varði hann borgina af mikilli hreysti og fengu Frakkar eigi tekið hana, og gekk svo lengi. Nú er að segja frá Karli af Bourbon og Peskara, að þeir voru með lið sitt norður í fjöllum og áttu þar illa búð, því að bæði var þá vetur og hitt þaðan af verra, að liðið vantaði mála sinn. Þá tók Karl af Bourbon það til bragðs, að hann veðsetti gimsteina þá og dýrgripi, er hann hafði (jarðeignir hans hafði Franz konúngur allar tekið) og *Lannoy*, landstjóri í Neapel, er staddur var við herinn á Norðurítalíu, veðsetti allar tekjur sínar, til þess að geta fengið fè og goldið liðsmönnum mála. Fór Karl af Bourbon þá norður á Þýzkaland og fekk þar 15000 manna hjá Ferdinand keisarabróður og Georgi af Frúndsberg. Með þessu liði hèlt Karl suður til móts við Peskara, og síðan hèldu þeir öllu liðinu til Pavíaborgar. Það var í öndverðum febrúar-mánuði 1525. Frakkar sátu um borgina sem fyr er sagt. Franz konúngur hafði sent nokkuð af liði sínu suður á Neapel til þess að vinna það ríki. Lannoy þótti ríki sínu hætta búin og vildi elta konúng með nokkrum hersveitum, en Peskara kvað hið mesta óráð að skipta liðinu, því að við Pavía ættu þeir að láta skríða til skara með sèr, og rèð hann því að eigi var farið. Nú var svo komið, að Leyva var þrotinn að vistum í borginni; lið keisarans vildi berjast, og eggjaði Frakka til orustu. Hinir reyndustu hershöfðíngjar í liði Franz konúngs vildu eigi að svo stöddu leggja til bardaga, konúngur var framgjarn, þóttist vera eins lið margur sem óvinir hans, og þess vegna mínkun að þora eigi að berjast. Þannig hófst hin nafnkenda orusta við Pavía (24. febr. 1525). Frakkar gjörðu hið harðasta áhlaup á keisarans menn og skorti lítið á, að þeir mundu koma þeim á flótta, en Peskara með Spánverjum og Georg Frundsberg með Þjóðverjum rèttu við bardagann, og um sama leyti brauzt Leyva með sína menn út úr borginni. Snèri þá mannfallinu á Frakka; mistu þeir þar allar fallbyssur sínar; fjöldi manna varð höndum tekinn og margir fèllu; á meðal þeirra var Bonnivet. Franz konúngur barðist af hinni mestu hreysti, og þegar flóttinn brast í liði hans, hugði hann eigi á annað en vinna sem mest áður hann fèlli, og hjó og lagði á tvær hendur; bárust þá sár á konúng og varð hann handtekinn. Því næst var hann fluttur til Madríd, því að Karl keisari var þar þá, og þar sat konúngur eitt ár í

varðhaldi, þángað til hann gekk að þeim friðarkostum, sem keisarinn setti honum; samdist þá friður með þeim (1526) þannig, að konúngur slepti öllu tilkalli til hertogadæmisins Mílanó og annara landa á Ítalíu, afsalaði sèr öllum rètti til hertogadæmisins Búrgúnd, og sömuleiðis öllum yfirráðnm yfir skattlöndunum Flandern og Artois í Belgíu. En þegar Franz samdi þenna frið, var það enganveginn áform hans, að efna loforð sín og halda þessa sætt; hann hugsaði einúngis um hitt, að losna úr varðhaldi og komast aptur heim í ríki sitt. *Klemenz* páfi hinn sjöundi, sem óttaðist ofurveldi keisarans, leysti Franz konúng af öllum eiðum og loforðum, og þótt páfinn hefði áður verið í sambandi við keisarann gjörðist hann nú bandamaður konúngs móti honum. Hertogadæmið Búrgund brást og keisara, því að landsmenn þar mótmæltu alsendis að gánga undir keisarann og skiljast við Frakkland, en buðu að greiða honum 2 milliónir krónudala í þess stað. Hinrik áttundi Englakonúngur gekk einnig í lið með fjandmönnum Karls, bæði vegna þess, að Wolfsey kardínáli þóttist svikinn af Karli um páfatignina, og líka hins vegna, að Hinrik vildi eiga páfann að, til þess að geta skilið sig við fyrstu konu sína, Katrínu af Arragoníu, dóttur Ferdínands katólska og Ísabellu, en móðursystur Karls keisara. Venezía og jafnvel Franz Storza, er átti keisaranum upphefð sína að þakka, gengu einnig í lið með óvinum hans. Þessi samtök móti keisaranum, er nú voru gjörð (1526), hafa menn kallað *»helga sambandið«* (*den hellige Ligue*), af því að páfinn var þar fremstur í flokki. Þannig hófst ófriður *í annað sinn* milli Karls keisara öðrumeginn, og Franz konúngs og bandamanna hans hinumeginn (frá 1527 til 1529). Keisarinn hafði nokkurt lið í Mílanó, og Karl af Bourbon var þar yfirforíngi, en Peskara var dáinn. Keisarinn átti í peníngaþröng eins og vant var, og gat eigi goldið liði sínu mála. Er það allmerkilegt, að slíkur þjóðhöfðíngi sem Karl fimmti, er allra konúnga var víðlendastur og voldugastur á þeim tímum, skyldi jafnan eiga svo þröngt í búi, að hann gæti eigi goldið mála rúmum 20 þúsundum hermanna. Sýnir það bezt mismun á fjárhagsstjórn þjóðanna á þeim tímum og nú. Því að nú þykir það ríki að engu nýtt og naumast sjálfbjarga, er kemst í nokkur vandræði, þó gjöra þurfi út 20—30 þúsundir hermanna og gjalda þeim

viðunanlegan mála. Karl af Bourbon, hershöfðíngi hins volduga keisara, gat eigi haldizt við á Norðuritalíu, gat eigi fætt eða klætt menn sína, því að fè skorti til hvorstveggja; hann greip því til ofríkis og rána, og lagði höndur á fè kirkna, klaustra og einstakra manna, er nokkuð áttu. Og, þegar alt um þrotnaði, rèð hann af að brjótast inn í lönd páfans, en setti Leyva til landvarnar í Mílanó. Það var um miðvetrarskeið. Herinn var um 25000 manns, Ítalir, Spánverjar og Þjóðverjar. Alt vantaði, einkum fè og fallbyssur. Karl fór fótgángandi fyrir liði sínu eins og Cortez og Pízarró, og hirti hvorki um vosbúð eða vökur; hann lèt sèr miklu annara um þarfir manna sinna, en sjálfan sig; þess vegna trúði herinn á hann og fylgði honum út í hvað sem fyrir varð.

Í öndverðum maímánuði 1527 var herinn kominn alla leið suður að Rómaborg. Karl benti mönnum sínum á hinar háreistu kirkjur og skrautlegu hallir, og hèt þeim fè og frama, ef þeir fengju unnið hina nafnfrægu borg. Var nú blásið til atlögu. Umhverfis borgina voru múrveggir og hafði margt manna skipazt þar fyrir til varnar. Karl eggjaði liðið ákaflega til framgöngu, og tókst nú mannfall mikið af hvorum tveggja; Karl lèt setja stiga að múrnum og ráða til uppgöngu, fór hann nú fram og aptur um herinn og skipaði fyrir; hann kom þar að, sem einn af mönnum hans fór með stiga, þótti Karli honum vinnast seint, greip af honum stigann, setti að múrnum og rèð til uppgöngu; en í því sama vetfángi var hann skotinn til bana. Lèt Karl af Bourbon þannig líf sitt, og var vetri meir en hálffertugur er hann fèll. En er menn hans vissu, að foríngi þeirra var fallinn, gjörðust þeir svo óðir og ákafir, að ekki stóðst við þeim, og fengu þeir náð borginni; gjörðu þeir þar þau hervirki, að eigi voru önnur verri unnin, og gekk svo um hríð. Páfinn sat í kastala þeim þar í borginni, er *Engilsborg* heitir; er sá kastali ramlega víggirtur. Þó þrengdi svo að páfa, að hann hafði eigi aðra fæðu sèr til munns að leggja en asnakjöt, og gjörði hann þá svofelda sætt við Filibert prins, af Óraníu, er orðinn var herstjóri eptir fall Karls af Bourbon, að páfinn hèt að greiða honum 400 þúsundir »dúkata«, láta af hendi nokkrar víggirtar borgir og kastala, og vera sjálfur í varðhaldi þángað til meiri hluti fjárins væri greiddur.

Nú fréttir Karl keisari að Rómaborg er unnin og páfinn í hers höndum. Þóttist hann þá sjá, að illa mundi mælast fyrir slíkum tíðindum, og að margt gæti þar af ílt spunnizt; tekur hann þá það ráðs, að hann ritar brèf í ýmsar áttir og segir, að allar þær aðfarir, sem orðið hafi í Rómaborg, og öll hin illa meðferð á páfanum hafi verið á móti vilja sínum og vitund. Og, hvort sem satt er eður eigi, þá segja sumir, að keisarinn hafi skipað að gjöra skyldi fyrirbænir í kirkjum fyrir páfa og lausn hans úr þessum nauðum. Litlu fyrir jól hinn næsta vetur slapp páfinn úr varðhaldi og komst klaklaust til bandamanna sinna. En allar þessar ófarir sínar mátti páfinn kenna Franz konúngi, því að hann hafði ílla efnt orð sín við páfa og sendi honum enga liðveizlu meðan tími var til. Loksins fekk Franz fjárstyrk nokkurn hjá Hinriki áttunda, og þá safnaði hann liði og setti Lautrek yfir, og sendi til Ítalíu; unnu Frakkar þá nokkrar borgir í Lombardíi (Lángbarðalandi) og fóru með mikilli grimd yfir landið. Keisarann vantaði fè eins og vant var, og vildi nú semja frið, kvaðst skyldi þyggja þær 2 milliónir krónudala fyrir Búrgund, sem áður er nefnt, ef Franz vildi flytja herlið sitt burt af Ítalíu. En Franz þóttist nú standa helzt til vel að vígi, og vildi fyrir því engum sáttum taka. Hèlt því næst Lautrek til Neapel, og þá loks fór herlið keisarans burt úr Rómaborg eptir 10 mánaða dvöl, og hèlt á eptir Frökkum. Lautrek varð vel framgengt í Neapel, en er honum lá mest á peníngum komu þeir engir frá Frakkakonúngi, því að hann hafði eytt þeim til annars. Lautrek settist um höfuðborgina, og krepti óðum að borgarmönnum; en þá varð Franz í öðru sinni á sú yfirsjón, að hann stygði þann mann, er honum hafði þjónað og honum reið þá mest á að styggja eigi. En það var *Andrès Dória*, hin fræga þjóðhetja Genúaborgarmanna. Dória átti að halda flota sínum til Neapel og hjálpa Lautreki gegn borginni. En áður hann færi af stað beiddi hann konúng ýmsra bæna, er lutu að því, að mínka yfirráð Frakka yfir Genúa. Þessum bænum spilti ráðgjafi Franz konúngs sá, er *Duprat* hèt, hinn mèsti ó-drengur; gramdist þá Dória svo mjög við konúng, að hann sagði skilið við hann og bauð keisaranum sína þjónustu með því skilyrði, að Genúa yrði sjálfri sèr ráðandi. Síðan skipaði Dória öllu fyrir þar í feðraborg sinni sem bezt mátti verða og vitur-

legast, og hèlt að því búnu flota sínum til liðs við Neapels menn. En það er frá Lautrek að segja, að sótt kom upp í liði hans, er varð svo mannskæð, að á rúmum mánuði dóu svo margir menn, að af 25000 urðu einar 4000 lífs eptir. Lautrek dó í sóttinni. Umsátinni var hætt, og mælt er að enginn maður hafi komizt aptur heim til Frakklands af öllum þeim her. Árið eptir rak Leyva annan her frakkneskan út af Mílanó, er þángað hafði komið. Slíkan enda fèkk allur sá mikli leiðángur, er Franz konúngur hafði gjört sèr svo fagrar vonir um í öndverðu. Nú vildi konúngur feginn að friður kæmist á, og keisarinn var einnig allfús til sátta, því að Tyrkir voru á leiðinni að austan, og prótestantar í Þýzkalandi höfðu þá fyrir skemstu á ríkisdeginum í Speíer gjört Karli súrt í broti. Þannig komst friður á í *Cambray* í ágústmánuði 1529, líkur því sem Madrídarfriðurinn hafði verið, þó hèlt Frakkakonúngur hertogadæminu Búrgund. Þessi friður í Cambray er kallaður »*konufriður*», af því að tvær konur rituðu nöfn sín undir friðarsamníngin, Lovísa af Savoyen móðir Franz, og Margrèt föðursystir Karls keisara, sú hin sama, er fyrrum átti að giptast Karli áttunda Frakkakonúngi[1].

Um það leyti er friður þessi var saminn, fór Karl keisari sjóveg frá Spáni til Ítalíu og lenti skipum sínum í Genúa. Keisarinn hafði hið fríðasta föruneyti og hèlt þaðan til Bólogna; kom páfinn þar til móts við hann, og var þá mikið um dýrðir. Á þeim fundi krýndi páfinn Karl til konúngs á Ítalíu og til keisara að fornum sið (24. febr. 1530); þá var Karl þrítugur að aldri. Það var hin síðasta krýníng af páfa hendi til þess er Napóleon keisari hinn fyrsti lèt páfann krýna sig fyrst á þessari öld.

En Karli keisara var eigi til setu boðið á Ítalíu, því að þá bárust hin mestu ótíðindi austan af Úngverjalandi. Tyrkir voru þar komnir með óflýjandi her og hèldu fram stefnunni vestur til Wínarborgar (Wien); var öllu Þýzkalandi hinn mesti háski búinn ef þeir næðu borginni; Ferdinand Úngverja konúngur, bróðir keisarans, fèkk eigi rönd við reist; Karl varð því að koma til hjálpar. Selim I. Tyrkjasoldán var dáinn 1520, en kominn til ríkis sonur hans, *Sóliman annar* (1520—1566), hinn mesti afreksmaður bæði í friði og stríði, enda stóð veldi Tyrkja aldrei

1) Sjá Miðaldasögu bls. 193—194.

með meiri blóma en á hans ríkisstjórnarárum. Sóliman vann borgina Belgrað; síðan vann hann *Ródusey* af Jóhannesriddurum eptir hina frægustu vörn (1522), en þeir fengu aptur hjá Karli keisara bústað á Malta. Þegar því var lokið, hèlt Sóliman liði sínu móti konúngi þeim, er þá rèð fyrir Úngverjalandi, og *Loðvík* hèt hinn annar með því nafni[1]. Stóð orusta milli þeirra hjá Móhacz á áliðnu sumri 1526; var Sóliman miklu liðfleiri og fèkk sigur, en Loðvík konúngur fèll; þar fèllu og í þeirri orustu sjö biskupar. Eptir orustuna fór Sóliman hershöndum um Úngverjaland, og unnu Tyrkir þar mörg hryðjuverk. Svo hafði áður samizt með mönnum, að *Ferdínand* bróðir Karls keisara, er átti Önnu systur Loðvíks annars, skyldi erfa að Loðvíki látnum bæði Böhmen og Úngverjaland. Ferdínand komst og til ríkis í Böhmen, en á Úngverjalandi gekk honum alt erfiðara. Jarlinn í Siebenbürgen, *Jóhann Zapolýa*, vildi brjótast til konúngdóms á Úngverjalandi, og Sólíman styrkti hann að málum. Árið 1529 brauzt Sólíman að nýju inn á Úngverjaland, tók Ófen höfuðborg landsins, og setti Jóhann Zapolýa til valda Um haustið, það hið sama ár, hèlt Sólíman öllu liði sínu til Wínarborgar og settist um borgina, en borgarmenn vörðust svo ágætlega, að Sólíman varð frá að hverfa við svo búið, og var allur á burtu, þegar Karl keisari kom sunnan af Ítalíu um veturnætur til liðs við Ferdínand bróður sinn. Eptir nokkurra ára ófrið skiptu þeir Ferdínand og Zapolýa Úngverjalandi með sèr, og þegar Zapólýa var dainn (1540), lögðu Tyrkir meiri hluta landsins undir sig, en Siebenbürgen var lengi eptir það ríki útaf fyrir sig. Fyrst eptir friðinn í *Karlówitz* (1699) eignuðust Þýzkalands keisarar alt Úngverjaland.

Þegar Tyrkir höfðu unnið Ródusey, eins og áður er sagt, magnaðist stórum yfirgángur þeirra og óspektir um miðjarðarhaf og strendur þær, er þar liggja að; gjörðu þeir bæði að ræna kristna menn, er um hafið fóru, og að brjóta borgir á landi uppi. Bræður tveir eru nefndir til sögunnar er hètu *Horúk* og *Scher-eddín Barbarossa*, ættaðir frá Lesbos í Gríkklandshafi; þeir höfðu verið kristnir en kastað trú sinni og tekið Tyrkjatrú; þeir voru hinir mestu víkíngar, og þóttu verri viðureignar en aðrir menn. Þeir herjuðu um norðurstrendur Afríku og náðu þar Algiersborg.

1) Miðaldasaga bls. 233.

Litlu síðar fèll Horúk, en Schereddín settist í völdin eptir bróður sinn. Nú var bæði, að Schereddín grunaði þjóðir þær um trygð, er þeir bræður höfðu undir sig lagt á Afríku ströndum, og svo hinsvegar óttaðist hann Spánverja, og fyrir því tók hann það ráðs, að leyta Tyrkjasoldáns í Constantínópel, og bauð honum yfirráð yfir löndum þeim og borgum, er hann hafði unnið þar vestur um strandirnar, en sjálfur kvaðst hann skyldi vera jarl hans yfir landinu. Sólíman annar þektist boðið, og þannig náðu Tyrkir fótfestu og fengu einskonar yfirráð yfir þeim þremur ríkjum norðan á Afríku: *Algier, Túnis* og *Trípólis*. Aðfarir Schereddíns knúðu Karl keisara til að láta eigi við svo búið standa, enda var þegnum keisarans bæði á Spáni og á Suður-Ítalíu hinn mesti háski búinn af áhlaupum og ránskap Tyrkja. Árið 1535 hafði Karl keisari her úti af ríkjum sínum og hèlt því liði suður til Afríku; átti Schereddín orustu við keisara, en beið ósigur og flýði; keisarinn tók borgina Túnis og lagði skatta á landið, en leysti úr ánauð Tyrkja alla hertekna menn af ýmsum kristnum þjóðum, er hann hitti þar. Segja nokkrir sagnaritendur að tala þeirra manna næði 20 þúsundum. Gaf keisarinn þeim öllum heimfararleyfi, og varð hinn frægasti af þeirri herför.

Frá Túnis hèlt keisarinn aptur til Ítalíu. Í Neapel barst honum sú fregn, að hertoginn af Mílanó, Franz Sforza, væri dáinn, og með því að hertoginn átti eigi börn á lífi, en hafði haft hertogadæmi sitt *Lombardí* (*Lángbarðaland*, er Ítalir kölluðu Milano) að lèni af keisara, þá lagði keisarinn það undir krúnuna. En þá kom Franz Frakkakonúngur fram með þá kröfu, að hann ætti heimtíngu til landsins, því að hann hefði aldrei látið það laust við keisarann, heldur að eins við Franz Sforza og hans ættmenn. Af þessum ágreiníngi hófst *ófriður hið þriðja sinn* milli þeirra Karls og Franz, er stóð um tvö ár (1536—1538), og vann hvorigur á öðrum, en ósómi þótti það af Franz konúngi, að hann fèkk Solíman annan Tyrkjasoldán í lið með sèr og það á móti kristnum mönnum; hèldu Tyrkir skipum sínum til Ítalíu og herjuðu í ríki keisarans. Páfinn gekk á milli og tókst honum loks að koma sættum á, í borg þeirri er Nizza heitir, og skyldu grið vera með mönnum um 10 ár hin næstu. Keisarinn fèkk Filippusi syni sínum, er síðar varð konúngur á Spáni, hertogadæmið Mílanó að lèni, og var það lengi síðan

undir Spánarkonúngi. En þegar keisarinn árið 1541 fór herferð suður á Áfríku til þess að berja á Tyrkjum og reka Schèreddín burt af Algeir, og hafði beðið allmikið tjón bæði á skipum og mönnum, þá rauf Franz griðin, og hèlt liði sínu inn í lönd keisarans, og vildi nú að skríða skyldi til skara með þeim. Það var í *fjórða sinn* er ófriður stóð milli þeirra (1542—1544). Franz konúngur var enn sem fyr í sambandi við Tyrki, og herjuðu þeir víða um Ítalíu strandir, og gjörðu þar hinn mesta skaða. Þegar ófriður þessi hafði staðið um hríð, fór Karli keisara að vegna betur; hann hafði haldið liði sínu inn á Frakkland og átti skamt eitt ófarið til Parísar; Hinrik konúngur áttundi, var þá enn af nýju orðinn bandamaður hans og kominn með hèr manns yfir á Frakkland. Sá Franz þá sitt óvænna og leitaði sátta og friðar, og sá varð þar endir á, að friður var saminn í *Crespy* 1544. Lètu þá hvorirtveggja það laust, er þeir höfðu undir sig lagt eptir sáttagjörðina í Nizza. Franz slepti öllu tilkalli til ríkis á Neapel en Karl til Burgundar; en hvað hertogadæmið Mílano snerti, var svo um samið, að Karl hertogi af Orleans, sonur Franz konúngs, skyldi kvongast annaðhvort Maríu elztu dóttur keisarans, og fá með henni Niðurlöndin, ellegar Önnu dóttur Ferdínands Úngverjakonúngs og bróður keisarans, og fá með henni hertogadæmið Mílano. En hvorugt varð, því hertoginn af Orleans dó ári síðar. Það gjörðu þeir og að skilmála með sèr, Karl keisari og Franz fyrsti, að þeir skyldu styrkja hver annan til þess að fullur friður kæmist á í ríkjum þeirra í öllum trúarbragðadeilum, og að því búnu herja á Tyrkjann og reka hann algjörlega af höndum sèr. Þannig lauk ófriðnum milli Karls 5. og Franz fyrsta; en ófriður stóð milli Franz og Hinriks 8. þángað til friður var saminn milli þeirra árið 1546. Árið þar á eptir (1547) dó Franz konúngur, rúmlega fimmtugur að aldri. Á friðarárum sínum var hann mjög nýtur konúngur og efldi vísindi og fagrar listir og ýms nytsamleg fyrirtæki; iðnaður, verzlun og siglíngar tóku þá talsverðum framförum í ríki hans. En mjög var hann hneigður til svalls og sællífis, enda stytti það honum aldur. Hann lèzt vera mikill vinur prótestanta á Þýzkalandi, en sú vinátta var ekki af góðu komin, heldur af hinu, að æsa menn til mótstöðu og ófriðar gegn Karli keisara. Franz var sjálfur rampápiskur, og siðabótamenn sættu

ofsóknum og dauða á Frakklandi um hans daga, en þó urðu seinna miklu meiri brögð að þeim ófögnuði, eins og enn mun sagt verða.

## Trúarbragðastríð á Þýzkalandi. Dauði Lúthers.

Meðan Karl keisari átti í ófriði við Franz fyrsta, eins og nú hefir sagt verið, gat keisarinn lítil afskipti haft af málefnum manna á Þýzkalandi. Siðabótin hafði nú fest þar rætur og breiðst þar út í allgóðu næði; ýmsir þjóðhöfðingjar styrktu hana af mætti og höfðu bundið fèlag með sèr henni til eflíngar. En þegar hèr var komið, friðurinn í Crespy saminn (1544) og Karl keisari var laus orðinn við Frakka, þá gat hann snúið huga sínum til Þýzkalands, og þá voru það fyrst og fremst trúarbragðadeilurnar, er hann vildi leiða til lykta. Um þessar mundir (1545) stefndi páfinn (Páll 3. af Farnese-ætt) til kirkjuþíngs í *Trídent*, eins og fyr hafði verið heitið. Var það að líkindum áform keisarans, að á því þíngi skyldi hlutdrægnislaust ransaka hin kirkjulegu málefni frá rótum, og síðan reynt að miðla málum milli siðabótamanna og pápiskra, og koma á fullum friði þeirra í millum. En siðabótamenn bjuggust við engu góðu af þessu þíngi, og þóttust miklu fremur sjá fram á, að leikurinn væri til þess gjörður, að lýsa algjörðu banni yfir siðabótinni og öllum hennar játendum. Þessvegna komu mjög fáir prótestantar á þenna fund. Þegar nú keisarinn sá, að eigi gat gengið saman með mönnum, einsetti hann sèr að beita valdi við prótestanta og brjóta þá til hlýðni við sig og hina katólsku trú.

Þau ár sem liðin voru síðan Lúthers var síðast getið, hafði hin mikla trúarhetja eigi verið aðgjörðalaus. Hann gjörði ýmist að kenna á háskólanum, prèdika í söfnuðunum, rita brèf og bækur, eða ferðast um bygðir og borgir, til þess að líta eptir siðum manna og framferði; en þrátt fyrir alla hans óþreytandi starfsemi hafði hann, eins og þeir menn sem kunna að verja tímanum rèttilega, nægar stundir afgángs, sèr og öðrum til skemtunar og fróðleiks; sönglistina hafði hann í miklum metum, og sagði, að sá sem eigi hefði ánægju af henni, væri líkastur stokki eða steini, og eptir því kvaðst hann hafa tekið, að djöflinum væri illa við alla sönglist, því að allar áhyggjur og sorgir flýðu úr huga sèr við hljóminn af henni, eins og við heyrn guðs orða.

En Lúther var vanur að eigna árásum djöfulsins alla hugsýki, allar sóttir og kvilla. Því var það einusinni er Melankthon lá veikur, og var orðinn mjög magur og máttfarinn, að Lúther gjörði sèr ferð til hans, og þegar hann sá Melankthon, þá sagði Lúther: «guð hjálpi mèr, en að sjá hvernig djöfullinn er búinn að útleika fyrir mèr þetta organon!«. Hin síðustu 20 ár æfi sinnar var Lúther löngum sjúkur og þjáðist mjög af steinsótt og höfuðverki, en alt um það var hugurinn samur og jafn, sálarþrekið bilaði aldrei. Undir árslokin 1545 var Lúther beðinn að jafna misklíð nokkra, sem átti sèr stað milli greifanna af Mansfeld. Í þeim erindum varð hann að takast ferð á hendur og fara til Eisleben; kom hann þángað í janúar-mánuði 1546, en var þá í meira lagi sjúkur; þó prèdikaði hann þar nokkrum sinnum, og sótti fundi þá, er ræddu málefni greifanna, á hverjum degi til þriðjudags 16. febr; að kveldi þess dags sagði hann við vin sinn einn: »Þegar eg er búinn að sætta mína kæru landshöfðíngja, greifana, þá vil eg halda heim aptur til mín, leggjast i kistu mína, og gefa ormunum líkama minn til fæðu«. Daginn eptir (17. febr.) var honum þýngra, en þó hafði hann fótavist, og talaði við vini sína um dauðann og eilífðina og samfundi manna í öðru lífi. Um kvöldið gekk hann snemma til herbergja sinna og vinir hans nokkrir með honum. Þegar leið á kvöldið mælti hann: »gæti eg sofnað að eins hálfa stund svo held eg að mèr mundi batna«. Hann blundaði litlu síðar, en vaknaði skjótt og bað þá, sem hjá honum voru, gánga til hvílu, en þeir kváðust vilja vaka yfir honum og leiddu hann síðan til rekkju. Lúther bauð þeim öllum góðar nætur og sagði: »biðjið guð, drottinn vorn, að varðveita sitt evangelium, því að þíngið í Trídent og hinn leiði páfi gjöra því árásir«. Þegar komið var fram yfir miðnætti, og menn sáu, að Lúther átti skamt eptir ólifað, sagði doktor Jónas, einn af þeim sem þar voru viðstaddir: »viljið þèr, æruverði faðir, deyja í trúnni á Krist, eins og þèr hafið kennt hana?« Lúther svaraði skírt: já! snèri sèr á hægri hlið og lagði augun aptur, og hèldu þeir hann blunda, en, er þeir gættu betur að, var hann liðinn. Þannig dó Lúther á 63. ári aldurs síns í því sama þorpi, sem hann var fæddur í. Lík hans var flutt til Wittenberg og jarðað þar að hallarkirkju kjörfurstans.

En nú víkur sögunni aptur til hins, er frá var horfið, að páfatrúarmenn og prótestantar gátu eigi orðið sáttir og sammála. Páfinn sendi Karli keisara bæði menn og fè. Hvorirtveggja söfnuði liði, bæði keisarinn og höfðíngjar siðabótamanna (eða *Smalkaldar bandamennirnir*. bls. 24). Urðu þeir fyr búnir en keisarinn og stefndu liði sínu til Baiern. Helzti foríngi prótestanta var *Jóhann Friðrik*, kjörfursti af Saxlandi, bróðurson Friðriks vitra. Kjörfurstinn var enginn hershöfðíngi; hann þóttist eigi vilja verða fyrstur til að hefja ófriðinn og byrja borgarastríð; tíminn leið í aðgjörðaleysi fyrir honum, en þann tíma notaði keisarinn sem bezt, og dró lið að sèr úr öllum áttum. En svo bættist hèr annað atriði við, og það var þetta. Kjörfurstinn átti frænda þann er *Móriz* hèt. Hann var úngur að aldri, en hinn mesti atgervimaður bæði til sálar og líkama; hann rèð fyrir nokkrum hluta Saxlands, og var ríki hans nefnt hertogadæmi; kvongaður var hann og átti dóttur Filippusar landgreifa, sem fyr er nefndur. Móriz hertogi hafði verið með ýmsum höfðíngjum og í hernaði, og reynzt bæði vitur og hið bezta herforíngja efni. Slíkur maður sem Móriz gat eigi dulizt Karli keisara; hann lèt sèr mjög annt um að laða hertogann til sín, og það tókst keisaranum; hann hafði Móriz í hinum mestu hávegum, og var það þó eigi venja hans við þýzka menn. Móriz hafði tekið við Lúthers trú, en þó var hann eigi í Smalkaldarsambandinu. Við frænda sinn, Jóhann Friðrik kjörfursta, var Móriz mjög illa, og þótti hann eigi vaxinn þeirri tign, er honum hafði hlotnast. Móriz vildi sjálfur verða kjörfursti. Einhverju sinni urðu þeir frændur svo stórkostlega missáttir, að kjörfurstinn, sem annars var seinþreyttur til vandræða, safnaði mönnum og ætlaði að veita Mórizi aðgöngu; en þá skarst Lúther í leikinn, og sagði þeim: »Þið gjörið ykkur að athlægi; allir skynsamir menn munu líta á ófrið ykkarn sömu augum, eins og þeir sæu tvo drukna bændur fljúgast á um brotið staup, eða tvö fífl um brauðbita». Af ófriðnum varð að sönnu eigi í það sinn, en ekki greri að heldur um heilt með þeim.

Þegar hèr var komið hafði Móriz hertogi, í von um að geta náð kjörfurstatign á Saxlandi, gjört svofeldan samníng við keisarann, að hann skyldi vera honum trúr og dyggur og hinum austurrísku ættmönnum hans, og gánga að þeim kostum, er

settir yrðu á almennu kirkjuþíngi, og sem hinir aðrir þjóðhöfðingjar á Þýzkalandi vildu gánga að; og hinsvegar hafði keisarinn fengið Móriz yfirráð yfir biskupsdæmunum Magdeborg og Halberstad, með því skilyrði, að páfatrúnni yrði þar borgið. Meðan kjörfurstinn af Saxlandi var suður í Baiern með bandamanna herinn, settist Móriz hertogi með sínar sveitir í lönd hans norður í Saxen, meðfram eptir skipun keisarans. En sem kjörfurstinn frètti það, hèlt hann með sínum mönnum heim á leið, til þess að vinna ríki sitt aptur af Mórizi; við það tvístraðist her bandamanna í Baiern, svo að keisarinn gat þar einn öllu ráðið. Því næst hèlt keisarinn liði sínu til Saxlands, til þess að greiða kjörfurstanum makleg málagjöld. Þar kom Móriz til móts við keisarann. Litlu síðar varð orustan við *Muhlberg*, lítinn bæ við Elfuna (1547). Keisarinn var liðfleiri og fekk sigur, en kjörfurstinn var höndum tekinn og settur í varðhald. Keisarinn fekk því næst Mórizi kjörfurstatignina á Saxlandi í hendur, en lýsti yfir því, að Jóhann Friðrik og allir aðrir þjóðhöfðíngjar og borgir á Þýzkalandi, er gjört hefðu uppreisn á móti sèr, væru sekir orðnir um landráð. Það var um þessar mundir, að Karl keisari kom til Wittenbergs og lèt sýna sèr legstað Lúthers. Í för með Karli var hertoginn af Alba, (er síðar mun getið); hann gaf keisara það ráð, að láta grafa Lúther upp og brenna bein hans, en Karl svaraði: «eg á í ófriði við þá sem lifa, en eigi við hina, sem dauðir eru». Skömmum tíma eptir orustuna við Muhlberg gafst landgreifinn af Hessen upp og gekk á vald keisarans. Nú þóttist keisarinn einvaldur á Þýzkalandi; en þó svo væri, þá gjörði hann enga gángskör að því, að kúga prótestanta til katólskra siða, og þegar páfinn sá það, var úti um vináttu hans við keisarann. Í annan stað geðjaðist prótestöntum miður að mörgu í fyrirskipunum keisarans, og undu hvorirtveggju illa sínum hlut, bæði pápiskir menn og prótestantar. Hèr var úr vöndu að ráða. Keisarinn reyndi til þess, og stefndi þíng í Augsborg; á því þíngi (1548) voru settar reglur (Augsborgar Interim) um það, hvernig menn skyldu hegða sèr í trúarmálefnum *þángað til* þíngið í Trídent hefði lokið sínum störfum, og kveðið á fulla og fasta skipun um allar trúargreinir og kirkjuleg málefni. En þetta Augsborgar «Interim» varð hvorigum til hæfis, hvorki katólskum eða prótestöntum. Eptir Augsborgarþíngið fór keis-

arinn til Niðurlanda og dvaldist þar alt að tveim árum. Á Þýzkalandi var illur kur í mönnum. Margir lútherskir klerkar og kennimenn, sem urðu mjög háværir móti Augsborgar reglunum, voru reknir frá embættum; leytuðu flestir þeirra til Magdeborgar, sem var mikil borg og auðug í þá daga; þar áttu þeir víst hæli. Þess vegna varð keisarinn stórreiður þeirri borg, og bauð Mórizi kjörfursta að kúga hana til hlýðni. Kjörfurstinn hafði liðsafnað og hèlt þángað 1550 á áliðnu ári.

Um þessar mundir hafði Karl keisari fast í huga, að Filippus sonur hans gæti náð rómverkri keisaratign að sèr látnum, en Ferdinand bróðir keisarans vildi ekki til slaka og sleppa því tilkalli, er hann hafði til keisaradóms fyrir sig og sína niðja; þó lèzt hann mundi gefa kost á, að Filippus yrði keisari eptir sig, en þar næst Maximilian sonur sinn. Þá barst það mönnum til eyrna, að Karl ætlaði sèr að láta keisaratignina gánga að erfðum til ættmanna sinna, og þótti hinum þýzku þjóðhöfðíngjum það allíll tíðindi. Keisarinn skýrði þeim frá samníngum þeirra Ferdínands bróður síns, og beiddist samþykkis kjörfurstanna, en þeir settu þar þvert nei fyrir. Keisarinn hafði haft Filippus son sinn með sèr til Þýzkalands, en Þjóðverjum þótti hann óþýður og skuggalegur, og leizt eigi á þá ýglibrún. Keisarinn sá, að hann mundi eigi fá vilja sínum fram komið og sendi Filippus til Spánar. Að því búnu fór keisarinn sjálfur um haustið 1551 til borgar þeirrar, í Tyról, er *Innsbruck* heitir og ætlaði sèr að dveljast þar um stundarsakir, því að bæði gat hann verið þar í næði, og þess þurfti hann við sökum veikinda sinna, og svo var hann þar í nánd við Trídent, og gat haft stöðugar gætur á öllu því, er gjörðist bæði þar og á Þýzkalandi. En alt um það, hann mátti eigi við öllu sjá, og brögð og svik komu yfir hann úr þeirri átt, sem hann sízt hugði.

Landgreifinn af Hessen var enn í varðhaldi keisarans og haldinn hart. Móriz kjörfursti hafði margbeðið keisarann veita tengdaföður sínum lausn, en það var ekki nærri slíku komandi. Þessi harka keisarans sveið mörgum, og Mórizi eigi hvað minst. Annars vegar hafði Móriz á sèr ámæli trúarbræðra sinna (prótestantanna), því að hann hafði sölsað undir sig lönd frænda síns, Jóhanns kjörfursta; þessu ámæli vildi Móriz hrinda af sèr. Í þriðja lagi gátu prótestantar við öllu búizt af keisaranum, að

enduðu þingi í Trídent. Alt þetta til samans knúði Móriz, hinn metnaðargjarna og hugstóra mann, áfram að vinna sèr til frægðar, kúga keisarann sjálfan, en hjálpa tengdaföður sínum og trúarbræðrum. Þegar Móriz var búinn að afráða þetta með sjálfum sèr, gjörir hann samband við *Hinrik annan* Frakkakonúng, er til ríkis var kominn eptir föður sinn Franz fyrsta. Og alt fór þetta fram með svo megnu snarræði og mikilli leynd, að keisarinn varð einskis vís fyr en Móriz var kominn með liði því, er hann hafði haft til umsáturs við Magdeborg, á leið til Tyrólar. Keisarinn var þar næsta fáliðaður fyrir og varð að flýja frá Innsbruck og suður að sjó, en hinir katólsku þíngmenn frá Trídent tvístruðust víðsvegar, ella hefði Móriz handsamað þá alla. Um sama leyti brauzt frakkneskur her inn í Lothringen og lagði undir sig hinar þýzku borgir *Mez, Toul* og *Verdun*. Þessi óvænti atburður krepti svo mjög að Karli keisara, að hann varð að gánga að svo feldri *sætt* (1552) í borg þeirri sem *Passau* heitir: að prótestantar sem fylgdu Augsborgarjátníngunni, skyldu hafa trúarbragðafrelsi, landgreifinn af Hessen verða laus af varðhaldi, og allur ágreiníngur um trúarbrögðin leiðast til lykta á almennum ríkisdegi, og því var viðbætt, að þó mönnum gæti eigi í málefnum trúarinnar komið saman á þeim fyrirheitna ríkisdegi, þá skyldi samt sú sætt standa óhögguð sem gjörð var í Passau. Þau afdrif málanna sem nú voru orðin, voru að vísu prótestöntum í hag, og miklu betri en á horfðist, því að eptir orustuna við Muhlberg var eigi annað fyrir að sjá, en að prótestantar og trú þeirra yrði alsendis ofurliða borin á Þýzkalandi. Lúther var dáinn, en Melankthon og hinir helztu lærifeður siðabótamanna fóru huldu höfði land af landi og máttu við öllu illu búast, nema einhver bjargaði. Þessi bjargvættur siðabótanna, að því sinni, varð Móriz kjörfursti, því verður als eigi neitað, hvert sem áform hans að öðru leyti hefir verið. Þegar nú þessi stundarfriður var fenginn á Þýzkalandi, bjóst keisarinn, þótt hann væri þá sjúkur, að hefna sín á Frökkum og reka þá burt af Lothringen. Hann hèlt her sínum til borgarinnar Mez og settist um hana, en árstíminn var illa valinn, og *Frans* hertogi af *Guise* varði borgina af mikilli hreysti, svo að keisarinn fèkk eigi unnið hana, en beið hið mesta manntjón og varð frá að hverfa við svo búið. »Hamíngjan er eins og kona» sagði hann,.

»meðan vèr erum úngir, þá brosir hún við oss, en þegar vèr eldumst, þá snýr hún við oss bakinu». Á Þýzkalandi hefði nú verið góður friður, ef *Albrekt* markgreifi af Brandenborg (er menn gáfu viðurnefnið Alkíbíades) hefði viljað láta af óspektum. Hann var hinn mesti óeirðamaður og sagði, að sættin í Passau kæmi sèr ekkert við, og Móriz hefði illa gjört að gánga að henni. Albrekt hafði sem Móriz tekið Lúthers trú, og ásamt Móriz gengið í samband við Hinrik Frakkakonúng. En sá var munur þeirra, að Móriz vildi friðinn með vissum skildögum, en Albrekt vildi als eigi frið. Hann fór sveit úr sveit með ránum og manndrápum og gjörði hinn mesta skaða. Menn söfnuðu liði í móti þessum óaldarflokki, en varð lítið ágengt áður Móriz kjörfursti kom til sögunnar. Hann lagði til orustu við Albrekt á Lüneborgarheiði (1553) og fèkk sigur, en varð sár til ólífis og andaðist tveim dögum síðar, rúmlega þrítugur. Þótti mönnum það hinn mesti skaði, því að engin var líklegri til mikilla framkvæmda en hann um þær mundir. Það er mælt að Karli keisara hafi eigi þótt það nein gleðifrètt, er hann heyrði lát Mórizar, en Granvella, ráðgjafi Karls, hèlt dýrðlega veizlu af miklum fögnuði. Á því sama ári sem Móriz fèll fór keisarinn af nýju með her á hendur Frökkum, en fèkk litlu til leiðar komið, og skömmu síðar gjörði hann vopnahlè við þá í bæ þeim er *Vaucelles* heitir; hèldu Frakkar borgum þeim, er þeir höfðu unnið; seinna komst algjörður friður á milli landanna.

Það var eitt í Passauar-sættinni, að almennur þjóðfundur (eða ríkisdagur) skyldi haldinn sem fyrst, til þess að leiða til lykta ágreiníng manna í trúarefnum á Þýzkalandi. Árið 1555 var sá ríkisdagur settur í Augsborg af Ferdínandi keisarabróður, og sama ár var saminn svofeldur friður: að þeir *þjóðhöfðíngjar* og þær *hinar frjálsu borgir* á Þýzkalandi, er fylgdu Augsborgarjátningunni, skyldu njóta fullkomins trúarbragðafrelsis til jafns við katólska menn; en um *þegnana* var það til skilið, að þeir skyldu fylgja þeirri trú, sem *landshöfðinginn* fylgdi[1]; en vildu þeir eigi að þeim kostum ganga, skyldi þeim heimilt að fara í friði af landi burt. Það atriði sem lengst var um þráttað á

1) Menn orðuðu það þannig: *cujus est regio, illius quoque religio*, þ. e. þess sem landið er, þess hins sama er einnig trúin. Lengra náði eigi trúarfrelsið á þeim tímum.

ríkisdeginum var það, hvort að þeir biskupar, eða andlegrar stèttar höfðíngjar, sem síðar meir tækju trú prótestanta, skyldu halda tekjum sínum og stöðum eins eptir sem áður, eða missa af þeim. Prótestantar kröfðust hins fyrra, en katólskir menn hins síðara, og niðurstaðan varð sú, að menn urðu eigi ásáttir um það atriði. Páfatrúarmenn heimtuðu að þetta skilyrði (*reservatum ecclesiasticum*) yrði sett með berum orðum í friðarsamníngin, og svo var gjört, en af því spunnust síðan mikil vandræði.

Þannig höfðu menn um síðir náð því takmarki, er um hafði verið deilt fullan mannsaldur, margur ágætismaður látið lífið fyrir, og tveir hinir helztu landshöfðíngjar orðið að sæta afarkostum og hraknínguin. Annar þeirra, Jóhann Friðrik kjörfursti, dó ári fyr en Augsborgarfriðurinn komst á, en Filippus landgreifi lifði enn nokkur ár, og þótti hinn nýtasti þjóðhöfðíngi.

Nú var svo komið, að prótestantar höfðu náð einskonar jafnrètti við páfatrúarmenn á Þýzkalandi, en veldi og viðgángur Frakklands fór vaxandi. En hvorugt þetta var að skapi Karls keisara, eins og gefur að skilja, af því sem áður er sagt. Þar við bættist og það, að hann var orðinn svo hnígiun að heilsu, að hann var naumast fær um að gegna margbrotnum stjórnarstörfum. Eljunarmaður hinn mesti hafði hann verið, og mátti með sanni segja »að hann hefði haft meira starf og ófrið og vandræði í ríkinu en hóglífi». Nú var hann orðinn þreyttur og vildi hvílast; þess vegna rèð hann það af, að láta af ríkisstjórn, og lifa í næði það sem eptir var æfinnar, eins og Dióklezianus keisari hafði forðum gjört. Karl keisari sat um þetta leyti í borg þeirri á Niðurlöndum, er Brüssel heitir. Þangað lèt hann um haustið 1555 Filippus son sinn koma til fundar við sig, og gaf honum vald yfir Niðurlöndum (litlu áður var Filippus orðinn konúngur í Neapel); en ári síðar (1556) fèkk keisarinn Filippusi öll yfirráð yfir Spáni og öllum þeim þjóðlöndum, er lutu því ríki. Keisarinn leiddi syni sínum fyrir sjónir, að hann fengi konum til forráða mörg og mikil lönd, og lagði ríkt á við hann, að stýra þeim með rèttvísi og mildi. En keisaradóm og erfðalönd Habsborgarmanna á Þýzkalandi fèkk Karl í hendur Ferdínand bróður sínum, er áður var orðinn konúngur í Úngarn og Böhmen. Á því

sama ári (1556) fór Karl keisari alfari af Niðurlöndum suður á Spán, og settist þar að í húsi einu, er hann lèt gjöra sèr hjá St. Just klaustri við Plasenzia í Estremadúra. Þar var hann 2 ár og hafði sèr ýms störf, einkum þó garðyrkju, til dægrastyttíngar, en þess á milli iðkaði hann mjög föstur og bænahald. Hann andaðist á ofanverðu ári 1558. Karl keisari var umfram aðra þjóðhöfðíngja, er uppi voru honum samtíða, og í mörgum greinum hið mesta mikilmenni. Hann hafði yfir fleiri lönd og fleiri þjóðir að líta, en nokkur annar konúngur á þeim tímum; en það hið mikla víðlendi varð honum þó eigi að meiri vandræðum en smáríkin mörgum þeim, er yfir minna höfðu að sjá; og þó keisarinn hefði marga ágæta menn í sinni þjónustu vildi hann sjá alt með sjálfs síns augum. Þess vegna var hann á sífeldum ferðum um ríki sitt, á Spáni, í Niðurlöndum, á Þýzkalandi, í Ítalíu, þar að auki fór hann til Englands og tvær herferðir til Afríku. Það sem helzt verður að honum fundið, er það, að hann var siðabótinni motfallinn og jafnvel erfiður. En þegar hins er gætt: að hann var alinn upp í katólskum sið, og var hinn mesti trúmaður; að siðabótin á Þýzkalandi hófst á hans æskuárum og við upphaf ríkisstjórnar hans, en hafði í för með sèr sundurlyndi og óeirðir og tvískiptíngu á ríkinu, og það einmitt voru Þjóðverjar, sem þessar óspektir gjörðu, þeir menn, er hann hafði miklu minni mætur á en Niðurlendíngum eða Spánverjum, þá má það alleðlilegt virðast, að Karl fimmti liti ómildum augum á siðabótina og væri henni mótfallinn. Þótt hann væri hinn mesti aðkvæðamaður, var honum eigi það veitt, að geta hafið sig yfir aldarháttinn, eða skilja til fulls teikn tímanna, því að hefði svo verið, mundi hann hafa tekið siðabótina sèr í hönd og beint braut hennar, hver veit hvað lángt út yfir löndin. En það má telja Karli keisara til gildis, að miklu var hann mildari siðabótamönnum, en flestir aðrir katólskir þjóðhöfðíngjar um hans daga, og lengi þar á eptir.

Karl fimmti var fríður maður sýnum og hreystimaður mikill á ýngri árum, herði og heilsu sína og líkams afl við dýraveiðar og riddaralegar íþróttir; þegar ellin færðist yfir hann, þjáðist hann mjög af iktsýki, en hlífði sèr þó aldrei meðan hann gat við vosi og vökum. Fram á hans daga völdu menn keisurum og konúngum það tignarávarp, að kalla þá «náðugi herra», eða

«hái herra», en á hans dögum var fyrst tekið upp «hátignar» nafnið (*majestas*) og hefir það haldizt síðan.

### Páfatrúin gegn siðabótinni. Kristmúnkar. Kirkjuþíngið í Trídent.

Siðabótin ruddi sèr braut til flestra landa í Norðurálfunni. Að minsta kosti var hinn nýi siður boðaður því nær í öllum löndum, og í sumum þeirra festi hann rætur. Það var ekki þar með búið, að hin nýja trú gengi um Þýzkaland og Norðurlönd, austur á Pólverjaland og Úngarn, Böhmen og Mären, heldur sneru menn einnig ritum Lúthers, Melankthons og Zvínglis á italska túngu, og lásu þau suður um alla Ítalíu; vestur á Frakkland, Spán og Portúgal, kom einnig hin nýja trú, og ekki var annað fyrir að sjá, en að páfatrúin mundi eyðast og líða alveg undir lok. Páfinn og hin katólska kirkja neyttu allra bragða til að sporna við slíkum ófögnuði; og þessi viðleitni páfadómsins hafði þann árángur, að útbreiðsla siðabótarinnar stöðvaðist, og í sumum löndum varð henni algjörlega útrýmt. Eigi verður því neitað, að margt breyttist til hins betra í katólsku kirkjunni á þeim tímum, því að árásir siðabótamanna knúðu hina katólsku klerka til að bæta ráð sitt í ýmsum greinum, og þess vegna geta menn með gildum ástæðum sagt, að Lúther og aðfarir hans hafi unnið katólsku kirkjunni mikið gagn. En það sem mest studdi páfadóminn í þessu stímabraki, það var sú hin öfluga liðveizla, er *kristsmúnka fèlagið* (*Jesuiternes Orden*) veitti honum.

*Ignatíus Loyóla* er maður nefndur, hann var spánskur að ætt og uppruna. Þegar Frakkar hèldu liði sínu suður á Spán (árið 1521) og settust um borg þá, er Pampelona heitir, var Loyóla einn af þeim er verja áttu borgina, og gjörði hann það af mestu hreysti, en fekk þar þau sár, að hann varð óvígur og komst undir lækna hendur um lángan tíma. Sèr til dægrastyttíngar las hann þá ýmsar helgra manna sögur, en allur sá lestur hafði þau áhrif á hugarfar hans, að hann einsetti sèr að leggja af hernaðaríþróttina, en helga það sem eptir var æfinnar guði til þjónustu. Það tjáðu engar úrtölur, mótmæli nè torfærur, það varð fram að gánga sem Loyola vildi. Þessu næst fór hann pílagrímsferð til landsins helga, og þar kom honum fyrst

til hugar að stofnsetja *nýtt fèlag* hinni katólsku trú til eflíngar. En af því að hann sá, að hann gæti litlu komið til leiðar nema hann aflaði sèr meiri mentunar en hann hafði, þá settist hann við — og var þá kominn yfir þrítugt — og las guðfræðibækur af öllum þeim mikla ákafa og öllu því mikla þreki og þolgæði, sem honum var gefið, fyrst við háskólann í París og síðan í Salamanka á Spáni, og þar komst hann í kunníngsskap við nokkra aðra námsmenn, sem honum voru skaplíkir. Árið 1534 unnu þessir menn eiða að því, að þeir skyldu allir bindast í eitt fèlag og játast undir allar hinar almennu klaustrareglur, fátækt, skírlífi og hlýðni, og þar á ofan heita páfanum sèrstaklegri hlýðni og hollustu, og í öllum greinum fylgja hans boðum og banni skilyrðislaust. Tóku nú fèlagsbræður þessir til starfa, fóru um lönd og borgir, fræddu menn og prèdikuðu og snèru ýmsum til katólskrar trúar, sem frá voru fallnir; af öllusaman þessu fekk Loyóla á sig svo mikið orð, að Páll páfi hinn þriðji með því nafni, er sá að fèlag þetta gæti orðið páfastólnum til hins mesta liðs, gaf því fullkomið samþykki sitt og staðfestíngu, árið 1540. Síðan eru þeir, sem í fèlag þetta gánga, nefndir *kristmúnkar* (*Jesúítar*). Þessi hin nýa múnkaregla var að miklu leyti löguð að hermannasið. Aðalforíngi, eða æðsti yfirmaður hennar, var nefndur «General», og hafði aðsetu í Rómaborg og ráðuneyti hans með honum; kristnum löndum var skipt í fylki, og í hverju fylki setti «generalinn» forstöðumann, er hafði tilsjón með öllum þeim fèlagsbræðrum, sem þar áttu störfum að gegna; þessir fèlagsbræður skiptust í flokka, er sumir höfðu æðri störf á hendi, sumir óæðri, og gat það gengið svo fleiri stig niður; en það var stöðug regla þessa fèlags, að hinn óæðri fèlagsbróðir skyldi hlýðnast hinum æðra skilmálalaust, eins og tíðkast meðal hermanna; mjög fáir komust til hinna æðri valda í múnkafèlagi þessu, allur fjöldinn gegndi störfum sínum í blindni eins og hvert annað verkfæri, án þess að hafa ljósa hugmynd um aðalstefnu og aðal-framkvæmdir fèlagsins. Ignatíus Loyóla var hinn fyrsti aðalforingi (General) þessa múnkafèlags; þó kom hann ekki fullu eða föstu skipulagi á fèlagið, heldur sá sem eptir hann kom og hèt *Lainez*. Ignatíus Loyóla dó 1558. Sá var tilgángur kristmúnkafèlagsins: *að efla og útbreiða hína katólsku trú og einveldi páfans meðal heiðinna þjóða og meðal þeirra, sem*

eptir fèlagsins skoðun *fóru með villulærdóma.* Þessum tilgángi fèlagsins reyndu kristmúnkar til að ná með þrennu móti: með því að gjörast *kennendur* úngra manna, *trúarboðendur* meðal heiðinna þjóða, og *skriptafeður* þeirra sem til varð náð. Sem *kennendur* leituðust þeir helzt við að fræða sem flesta únga menn, einkum heldri manna börn og prótestanta, sömuleiðis að stofna skóla og kenna þar ymsa fræði, sèrílagi þá sem snerti daglega atvinnu manna; múnkum þessum var um það eitt hugað, að gefa anda hinnar uppvaxandi kynslóðar þá stefnu, sem þeim sjálfum gat að gagni komið, en hitt forðuðust þeir sem heitan eld, að innræta úngum mönnum andlegt frelsi eða háleytar hugmyndir; þeir gjörðu hvað þeir kunnu til að halda lærisveinum sínum í andlegum þrældómi og ánauð. Siðafræði kristmúnkanna er viðbrugðið. Það var í þeirra skólum að hinar alræmdu lærdómssetníngar mynduðust, er síðan gengu út um víða veröld, t. a. m. þessar: að áformið rèttlætti eða helgaði meðalið, að eiðar og loforð hefðu ekkert gildi þegar hugur fylgði eigi máli o. fl. Þannig gátu hinir verstu glæpir t. a. m. morð rèttlæzt, þegar áformið var að vinna kirkjunni eitthvað í haginn. Þeir, sem voru *kristniboðendur*, fóru ótrauðir um ýms lönd meðal heiðinna þjóða, til Indlands, Kínverjalands, suður á Afríku og vestr á Ameríku, og settu jafnvel ríki eitt á stofn þar sem Paraguay heitir í Suðurameríku. Víðast varð kristniboðendum þessum vel framgengt, því þá skorti hvorki hug eða dug til síns ætlunarverks. Þeir sem voru *skriptafeður* veittu mönnum syndafyrirgefníngu, eða neituðu því, eptir því sem bezt þótti viðeiga; þeir kyntust þannig leyndarmálum manna, og fengu hin mestu áhrif á hugi þeirra og hjörtu; þeir urðu skriptafeður konúnga og annara þjóðhöfðingja og sátu einatt í ráðaneyti þeirra; er því auðskilið, að þeir hafa getað komið miklu til leiðar, og orðið hinir skæðustu mótstöðumenn siðabótarinnar og als andlegs frelsis. Svo liðu tvö hundruð ára, að múnkafelag þetta náði miklum vexti og viðgángi, og hèlt óskertu áliti sínu í hinum katólsku löndum Norðurálfunnar[1], jafnvel þótt önnur múnkafèlög sæu ofsjónum yfir upp-

1) Árið 1540 þegar Loyóla fekk staðfestíngu páfa til að stofna kristmúnka fèlagið, voru lærisveinar Loyólu að eins 10; þegar Loyóla dó voru yfir 1000 manna gengnir í fèlag hans, og öndverðlega á 18. öld voru kristmúnkar að tölu frekar 20 þúsundir manna.

hefð þess, þjóðirnar hötuðust við það, og sumir þjóðhöfðíngjar væru því alt annað en vinveittir. Þegar mentunin fór að lifna á átjándu öldinni, var kristmúnkum að sönnu vísað á braut úr flestum löndum, en menjar þeirra urðu samt þar eptir, og á vorri öld hafa þeir jafnvel komið aptur til sögunnar.

Þegar kristmúnkafèlagið hafði fengi staðfestíngu páfans, hófust jafnskjótt ofsóknir á Ítalíu gegn siðabótarmönnum. Páll páfi sá sem fyr var nefndur, kvaddi menn í dóm (1542) og lagði ríkt á við þá, að eyða og uppræta hinn nýja villulærdóm, hvar sem vart yrði við hann. Þessu boði var fylgt af alefli; ofsóknir, sakargiptir, dómar og dauði gengu um endilánga Ítalíu, og svo fór, að siðabótin leið þar algjörlega undir lok.

Á kirkjuþínginu í Trídent, sem Páll páfi hinn þriðji, eptir ýmsra manna áeggjun, setti árið 1545, en sem öðru hverju hafði orðið að hætta störfum sínum vegna óeirða, reyndu að vísu spánskir og frakkneskir biskupar að koma á nokkurri endurbót, og eyða ýmsum ósiðum og óstjórn páfaveldisins, en það gat eigi tekizt, því að flokkur hinna ítölsku biskupa var fjölmennastur á þíngi, og vildi enga tilslökun gjöra, enda studdu krist múnkar þann flokkinn rækilega. Þíngi þessu var loks slitið 1563, og urðu þar þau málalok, að banni var lýst yfir öllum trúargreinum siðabótarinnar, er eigi væru samkvæmar kenníngu katólskra klerka; páfatrúin, eins og hún var orðin afbökuð á miðöldunum, var staðfest í aðalatriðum sínum, og páfinn sagður sá eini, er eigi getur skjátlazt í því efni. Margir höfðu búizt við að þíngi þessu mundi heppnast að þoka mönnum saman í trúarefnum, en því fór svo fjærri, að ágreiníngurinn milli prótestanta og páfatrúarmanna varð öllu meiri eptir en áður.

## Filippus annar Spánarkonúngur (1556—1598).

Það er skýrt frá því hèr að framan, að páfinn og klerkalýður hans og einkum kristmúnkar hafi gjört alt, er þeir gátu, til þess að eyða siðabótinni. En nú kemur sá maður til sögunnar, er beitti hinu mikla valdi, er honum hafði hlotnast, alveg í sömu stefnu, að sama marki og miði. Sá maður er *Filippus annar,* sonur Karls keisara fimmta, og eptirmaður hans á Spáni og í fleirum erfðalöndum hans. Þegar Karl keisari lèt

af ríkisstjórn, skiptist ríki hans þannig: að Ferdínand bróðir hans fèkk keisaratign og hin þýzku lönd, þar við bættist alt Bæheimsríki (Böhmen, Mähren og Slesía), og sá hluti Ungarns, sem Tyrkir höfðu eigi brotið undir sig. En Filippus sonur Karls fèkk hin mestu og beztu löndin: Spán, Niðurlönd, ítölsku löndin, og öll hin afarmiklu nýfundnu lönd í Ameríku. Filippus annar var þannig víðlendastur og voldugastur allra þeirra konúnga, er honum voru samtíða, en alt um það fór hann svo illa að ráði sínu, að alt andlegt fjör og frelsi, allur líkamlegur þroski og þrifnaður hinnar spánversku þjóðar, veslaðist upp og varð að óþrifum undir hans harðstjórnar hendi. Filippus konúngur var grimmur maður og ákaflega dulur, og allra manna tortrygnastur, starfsmaður hinn mesti, og vildi sjá alt með sjálfs síns augum, ekkert var honum jafnríkt i skapi sem það, að uppræta siðabótina með öllu, auka veldi sitt á allar lundir, en brjóta á bak aptur alt mannfrelsi og öll þjóðrèttindi, hann hèlt fram með hinum mesta trúarofsa öllum hindurvitnum katólskra klerka, og einkum lærdómssetníngum kristsmúnka. Karl keisari faðir hans var að vísu enginn þjóðfrelsis vinur, en hann var bæði hinn mesti stjórnvitríngur og ágætur hermaður; Filippus þar á móti hafði hvorigan þann kost til að bera, og þess vegna beitti hann mest og bezt undirferli og grimd í stjórn sinni; ávextirnir urðu eins og við mátti búast: ótti, fyrirlitníng, apturför og missir lýðs og landa. Filippus var fjórkvæntur, og átti fyrst (1543) Maríu dóttur Jóhanns konúngs 3. af Portúgal; þeirra son var *Don Carlos,* er Filippus að sumra manna sögn lèt taka af lífi. Önnur kona hans (1554) var María Englands drotníng; þau áttu ekki barna. Þriðja konan (1562) var Ísabella eða Elísabet, dóttir Hinriks annars Frakkakonúngs, og fjórða konan (1570) Anna, dóttir Maximilíans keisara annars. Þeirra son Filippus 3. Spánarkonúngur.

Þegar Filippus konúngur kvæntist Maríu Englands drotníngu, hugðist hann mundu ná yfirráðum á Englandi, og hafði að vísu þann styrk af því kvonfángi, að Englendíngar gengu í lið með honum móti Frökkum, en María drotníng lifði skamma stund og dó barnlaus (1558). En ófriðurinn milli Frakka og Filippusar var svo undir kominn, að *Páll* páfi hinn fjórði þess nafns, var svarinn óvinur Spánverja, og blæddi mjög í augum

hve mikil landráð þeir höfðu á Ítalíu. Hann var að sönnu áttræður er hèr var komið, en veraldarhyggja og áræði jafnt sem áður. Hann gjörði samband við Hinrik annan Frakkakonúng og jafnvel við Tyrki, og Frakkar rèðust á Neapel. Þar hafði Filippus konúngur öruggan landstjóra, hertogann af *Alba*. Hertoginn var hinn mesti kappi og rak Frakka af höndum sèr, og hèlt alla leið til Rómaborgar, varð þar lítil vörn fyrir og tók Alba borgina; en fyrir þá sök að Filippus konúngur var eins mikill vinur katólskunnar, eins og páfinn, ef eigi meiri, þá fèkk páfinn grið og frið með góðum kostum. En ófriður stóð enn um hríð milli Frakka og Filippusar, og veitti Filippusi betur, því að hann hafði ágæta hershöfðíngja fyrir liði sínu, *Filibert* hertoga af Savoyen og *Egmont* greifa úr Niðurlöndum; liðið var bæði af Spáni og af Niðurlöndum. Þeir Filibert og Egmont unnu algjörðan sigur á Frökkum í orustunni við *St. Quentin* (1557) og Egmont einn við *Gravelingen* eða *Gravelines* (1558). Englendíngum þar á móti veitti allerfitt og mistu *Calais*; þá borg áttu Englar síðasta á meginlandinu og höfðu haft umráð yfir um 200 ára tíma[1], en hershöfðínginn *Frans Guise* vann hana nú aptur undir Frakkakonúng. Nú var saminn friður í *Chateau Cambresis* (1559); hèlt Frakkland þá Calais, en varð að láta lausa við Spánverja nokkra víggirta staði á landamærum sínum, og setja Filibert af Savoyen aptur til ríkis í löndum þeim er Frakkar höfðu frá honum tekið. Það gjörðist og á þessum friðarsamníngi, að Filippus skyldi fá dóttur Frakkakonúngs.

Þegar þessum ófriði var lokið einsetti Filippus konúngur sèr fyrir fult og fast að eyða öllum trúvillumönnum í ríki sínu. Hinn óttalegi *ransóknarrèttur* (*Inkvisitionen*)[2] tók nú til starfa, og á stuttum tíma (hèr um bil á 10 árum) tókst honum með dæmalausri grimd og ofsóknum, að uppræta allar menjar siðabótarinnar á Spáni. Filippus vildi einnig setja spánskan ransóknarrètt í löndum sínum á Ítalíu (Neapel og Milanó), en Ítalir vildu það eigi; þó er það eigi svo að skilja, að siðabótamönnum væri hlíft þar fremur en á Spáni, munurinn var einúngis sá, að rannsóknarrèttur páfans hafði öll hin sömu störf á hendi á Ítalíu, sem ransóknarrèttur konúngs hafði á Spáni. Hinn

1) Miðaldasaga bls. 159.
2) Miðaldasaga bls. 198.

stjórnlausi trúarofsi Filippusar, og annara hans líka, varð yfirsterkari og tókst að eyða siðabótinni og framförum mannkynsins á Spáni og á Ítalíu; en þær hinar sömu óguðlegu aðfarir Filippusar, er hann vildi beita á Niðurlöndum, þær ollu því, að hin auðugustu og beztu skattlönd hans og þegnar gengu undan honum, eins og síðar mun sagt verða.

Ferdínand katólski og Ísabella drotníng hans höfðu brotið undir sig ríki Máranna á Spáni, eins og frá hefir verið skýrt í Miðaldasögunni, lofað þeim öllu fögru, en svikið þá síðan í tryggðum, og kúgað þá til að skírast. Þessi nauðúngartrú Máranna var, einsog nærri má geta, helzt á vörunum en lítil í hjartanu; undir niðri og í pukri fylgdu þeir trú feðra sinna, sem allir voru Mahómets dýrkendur. Um daga Karls keisara fimmta áttu þeir við all sæmileg kjör að búa, og lítil gángskör var að því gjörð, hverjum trúarbrögðum þeir fylgdu. En þegar Filippus annar var kominn til ríkis, þá kvað bráðum við önnur bjalla. Klerkarnir katólsku spöruðu eigi umkvartanir við Filippus um þessa niðja Máranna — er menn kölluðu *Móriskos* —. Klerkarnir sögðu, að þeir tryðu á Mahómet og væru verri en drepsótt í landinu. Þessu trúði Filippus, sendi lið á hendur þeim, krafðist að þeir seldi af hendi vopn sín og tæki upp aðra túngu og aðra siðu en þeir og feður þeirra hefðu haft. Þetta vildu og gátu Móriskar eigi gjört svo í skyndi; það urðu síðan orustur með þeim. Móriskar vörðust af mestu prýði um tveggja ára tíma, þángað til að *Don Júan* af Austurríki, sonur Karls fimmta og hálfbróðir Filippusar, hinn mesti garpur, gat yfirbugað þá. Voru þeir, sem þá lifðu eptir, teknir og fluttir burt úr Granadabygðum, og settir niður sem ófrjálsir menn annarstaðar um ríkið (1568).

Um þessar mundir var það, að *Don Carlos*, sonur Filippusar konúngs, lèt líf sitt. Sagnaritendum ber eigi alveg saman um æfi-atriði konúngssonar þessa. En það þykir sönnu næst, að hann hafi enginn atgjörfimaður verið, hvorki til sálar eða líkama, en grimmur og ófyrirleitinn í lund, og eigi þolað yfirdrotnan föður síns, og varð af því öllu saman fullur fjandskapur með þeim feðgum. Pilippus hafði hann grunaðan um samband við óvini sína á Spáni og í Niðurlöndum, og jafnvel um samsæri, gegn sèr, og bjóst við öllu illu af honum; lèt því taka hann

höndum og setja í varðhald, og ransóknarrèttinn dæma hann til dauða. Í því varðhaldi dó Don Carlos 23 vetra gamall. Honum hafði með fyrsta verið ætluð Ísabella af Frakklandi, en Filippus tók hana frá syni sínum og gekk sjálfur að eiga hana, eins og fyr er sagt.

Filippus annar átti um mikinn hluta æfi sinnar í ófriði við Tyrki, og víkínga á Norðurafríku ströndum. Meðan Sólíman annar Tyrkjasoldán var á dögum, áttu kristnir menn á Miðjarðarhafsströndum og á Miðjarðarhafseyjum einatt þúngum búsifjum að mæta, bæði af Tyrkjum, og af víkíngum þeim, er nú voru nefndir. Ári áður en Sólíman dó (1566) rèðst hann með miklu liði á Maltey, þar sem Jóhannesriddarar höfðu aðsetu, en foríngi (*stórmeistari*) þeirra, sem þá var, hèt *Jóhann* de *Valette*, og varði hann eyuna svo rösklega, að Tyrkir fengu eigi náð henni. Um síðir komu herskip frá Spáni til liðs við riddarana, og urðu Tyrkir þá frá að hverfa. Eptir Sólíman kom *Selím annar*, sonur hans, til ríkis. Hann var, eins og Tyrkjasoldánar alment síðan, enginn hreystimaður, en mjög hneigður til munaðar; en þó að Tyrkjaveldi upp frá því færi hnignandi, voru þeir samt sem áður allskæðir óvinir kristinna manna. Á árunum 1570—1571 tóku þeir þannig Cýprus-ey frá Veneziumönnum; leituðu Veneziumenn sèr liðs hjá páfa og hjá Filippusi öðrum; sendi Filippus mikinn flota móti Tyrkjum, og var *Don Júan* af Austurríki, hálfbróðir Filippusar, yfirforíngi þess leiðángurs; fundur þeirra varð við *Lepantó*, utarlega í Korintuborgarflóa (1571), og vann Don Júan þar hinn frægasta sigur á Tyrkjum. Þó varð minna gagn af þeim sigri en verða mátti, ef höfðíngjar hefðu orðið vel ásáttir, og hèldu Tyrkir Cýprus-ey eptir sem áður. Það er og mælt, að Filippusi hafi þótt nóg um afreksverk og frægð frænda síns, og þess vegna lèt hann Don Júan hætta aðförum við Tyrki, en fekk honum yfirráð nokkur í Niðurlöndum — en þar var þá ófriður sem mestur —; gekk Don Júan þar vel fram og vann konúngi mikið gagn. Þó lèt Filippus hann að síðustu skorta þar bæði fè og fólksafla, og setti menn til höfuðs honum, og þar dó Don Júan (1578).

Nú víkur sögunni til Portúgalsmanna. Þeir höfðu, eins og fyr er ritað[1], unnið mikil og auðug lönd austur á Indlandi og

1) Sjá Miðaldasögu bls. 221—223.

haft þaðan alsnægtir og verið í miklum uppgángi, en sú gullöld þeirra stóð skamma stund. Á dögum *Jóhans* konúngs þriðja, Emanúelssonar mikla (1521—1557), komu kristmúnkar til Portúgals og náðu þar fótfestu; fengu þeir þar síðan hin mestu yfirráð í landi, og mátti kalla að þeir legði þjóðina í andlega fjötra og ófrelsi, og öllu hnignaði þar á stuttum tíma. Eptir Jóhann kom sonar sonur hans *Sebastian* til ríkis (1557—1578); hann var úngur að aldri og rèðu krístmúnkar þá öllu. Bæði þeir og Filippus annar á Spáni eggjuðu Sebastian á að fara herferð til Afríku og herja á Múhameðsmenn í Marokkó; hèt Filippus liðveizlu sinni, en sveikst um það alt þegar til kom. Sebastian fór með fríðu liði yfir til Marokkó (1578); komu landsmenn þar í móti honum og áttu við hann orustu hjá *Alkassar*, og fengu þeir sigur. Þar fèllu 12000 Portúgalsmanna, en konúngur þeirra hvarf í mannþrönginni og sást aldrei síðan. Sögðu sumir hann hefði fallið, en aðrir sögðu hann handtekinn og í varðhaldi í Marokkó. En það varð tilefni til þess, að löngu síðar komu þrír menn, hver eptir annan, og þóttust vera Sebastian konúngur, sloppinn úr varðhaldi. Var einkum einn þeirra mjög líkur honum og færði ýmsar líkur til síns máls. En enginn þeirra komst til ríkis á Portúgal. Eptir ófarir Portúgalsmanna í Marokkó kom *Hinrik*, sonur Emanúels mikla og föðurbróðir Sebastians, til ríkis á Portúgal. Hann var þá kominn hátt á áttræðisaldur og ekki til frambúðar. Það varð því helzt umtalsmál fyrir honum og þjóðinni, að fá því til lykta ráðið, hver til ríkis skyldi koma af konúngs frændum að honum látnum. En áður það mál væri útkljáð andaðist Hinrik konúngur (1580). Filippus annar, Spánar konúngur, var dótturson Emanúels mikla, og því einn af þessum konúngsfrændum. Hann gjörði þegar tilkall til ríkiserfða á Portúgal, en landsmönnum þar gazt eigi vel að Filippusi, og kusu þann til konúngs yfir sig, er *Antónius* hèt, og var kominn af Emanúel mikla. Filippus undi eigi við svo búið; gjörði hann nú bæði að bera fè á ýmsa höfðíngja og heldri menn í Portúgal, og fá þá þannig til fylgis við sig, og í annan stað sendi hann hertogann af *Alba*, sem áður er nefndur, með miklu liði þángað, til þess að fram fylgja kröfum sínum. Alba átti orustu við landsmenn og vann sigur, og litlu síðar gafst höfuðborgin Lissabon upp og gekk á vald hans, en Antóníus flýði til Frakk-

lands og dó þar í volæði. Filippus lagði nú alt Portúgals ríki undir sig, og var það síðan undir Spánar konúngi um sex tugi ára (1580—1640); undu Portúgalsmenn illa sínum hag, enda fór þeim þá stórum aptur á því tímabili, því bæði voru þeir kúgaðir af hinum illu og óvitru konúngum, og svo mistu þeir því nær allar nýlendur sínar, er Niðurlandamenn — óvinir Spánverja — unnu af þeim. Hefðu Spánarkonúngar kunnað að stýra lýðum og löndum, gat það orðið hvorritveggja þjóðinni, Spánverjum og Portúgalsmönnum, til góðs, að einn var konúngur yfir báðum; það hefði og verið innanhandar hverri viturri og góðri stjórn í þá daga að sameina þessar tvær þjóðir, því að þær voru í flestum greinum engu síður samrýndar hvor annari, en Kastilíu- og Arragoníu menn hvorir öðrum. En fyrir því að hin skammsýna spánverska stjórn kúgaði Portúgalsmenn á allar lundir, þá óx óvild þeirra til Spánverja þángað til þeir um síðir brutust undan Spánarkonúngi (1640) og tóku *Jóhann* af Braganza til konúngs yfir sig.

Filippus annar hafði lengi haft íllan augastað á Englandi og *Elísabetu* drotníngu, er þar sat þá að ríkjum. Filippus hafði beðið Elísabetar en fengið afsvör; hún hafði styrkt Niðurlendínga í frelsisstríði þeirra móti Filippusi, því að hún hafði tekið prótestanta trú eins og meiri hluti Englendínga; þar á ofan bættist það, að Elísabet hafði látið taka af lífi *Maríu Stúart*, Skotadrotníngu. En María fylgdi katólskum sið. Allt þetta var meira en svo að Filippus gæti borið það, og fyrir því varð hann manna fegnastur, er páfinn bannfærði Elísabetu, og fól Filippusi á hendur, að vinna England úr villutrúar höndum, og koma því aptur á rèttan (katólskan) veg. Það var árið 1588 að Filippus bjóst að vinna England, tækist honum að vinna það, þá voru prótestantar sviptir einni hinni helztu stoð, og Niðurlendíngar auðunnir á eptir. Þess vegna lagði konúngur allan hug á þetta fyrirtæki og sparaði til þess engan kostnað. Filippus átti yfir miklum flota að ráða, einkum síðan Portúgal sameinaðist Spáni. Þenna flota jók Filippus sem mest hann mátti, og bjó að öllu sem bezt. Síðast í maí-mánuði 1588 lagði þessi mikli floti út frá Lissabon. Herskipin voru samtals 130 með 20,000 manns og 2600 fallbyssum. Slíkan flota höfðu menn aldrei sèð, og þótti konúngi flotinn svo mikill og fríður, að hann

kallaði hann »*ósigranda*« (»*den uovervindelige Armada*«). Hertoginn af *Medína Sídonía* hafði yfirstjórn, en þó hann væri hreystimaður og vanur orustum, var hann enginn sjógarpur sagður. Þegar flotinn var lagður út, gjörði á veður mikil, og komst hann með íllan leik norður með Frakklands ströndum, enda voru Englendíngar og Niðurlendíngar úti á herskipum sínum, og gerðu Spánverjum allopt mikinn skaða. Loksins kómst floti þessi til hafnar við *Calais*, en þar komu Englendíngar, og brendu fyrir Spánverjum mörg skip. Svo hafði verið til ætlað, að flotinn skyldi taka um 30 þúsundir manna í Niðurlöndum undir herstjórn *Alexanders Farnese af Parma*, og hleypa því liði á land í Englandi, til þess að ná Lundúnaborg og síðan landinu öllu, en sú fyrirætlun varð að engu, því að Englendíngar og Niðurlendíngar voru alstaðar fyrir og höfðu hinar frægustu sjóhetjur fyrir skipum sínum, t. a. m. *Franz Drake, Hawkíns* og fl. Týndi nú floti Spánverja mjög tölunni, og svo fór, að aðalforíngi hans sá sèr ófært að leggja nokkurstaðar að Englandi; eigi þorði hann heldur að snúa hina sömu leið heim aptur til Spánar, sem hann var kominn, en í þess stað rèð hann af, að halda norður fyrir England og Skotland, og síðan djúpleið suður og fyrir vestan öll lönd. En er flotinn var kominn norður að Orkneyjum, hrepti hann veður mikið, fórust þá enn mörg skip, og sum hröktust undan til Norvegs. Í leiðángri þessum urðu Spánverjar fyrir ógurlegu tjóni á skipum og mönnum, því að sagt er, að 72 stórskip hafi týnzt auk margra smáskipa, og yfir 10 þúsundir manna. Hertoginn komst loksins heim til Spánar með nokkrum skipum og sagði sínar farir eigi slèttar. Filippus varð vel við skaða sinn og sagði: »eg sendi flota minn móti mönnum, en eigi móti stormi og sjáfarhömrum«. Fn aldrei varð Spánn samur og jafn eptir þessar miklu ófarir. Englendíngar gjörðust nú miklu áleitnari og nærgöngulli Spánverjum, en áður hafði verið, og lètu sèr eigi nægja að eyða fyrir þeim mörgum kaupförum, einkum vestur við Ameríku, og spilla verzlun þeirra, heldur herjuðu þeir á Spán sjálfan og tóku þar borgir með sjó fram, og gekk svo um nokkur ár, þangað til friður komst á milli landanna (1604).

Litlu betur gekk Filippusi öðrum, er hann nokkrum árum síðar vasaðist í málum manna á Frakklandi, bæði trúarbragða-

deilum og ríkiserfðum, áður en Hinrik fjórði komst þar til valda. Filippus vildi koma dóttur sinni þar til ríkis (því að hún var dótturdóttir Hinriks annars Frakkakonúngs), en fór halloka í viðureign sinni við Hinrik fjórða, og varð loks að semja frið í Vervíns, hið síðasta ár sem hann lifði, og hafði enga sæmd af.

Þegar hèr var komið, var Filippus annar rúmlega sjötugur að aldri, og hafði konúngur verið 42 ár. Nú var hann þrotinn að heilsu og þreyttur af margskonar andstreymi; en þetta andstreymi hafði hann bakað sèr sjálfur. Hann hafði tekið við blómlegu ríki og svo víðlendu, að hann gat með sanni sagt: «að sólin gengi aldrei undir í ríki sínu». Hið spánska einveldi hafði þá mikið orð og álit á sèr meðal allra annara þjóða. En þegar Filippus skildi við, þá var alt komið í annað horf; hið mesta óorð var komið á hina spánversku stjórn, því að hún var kunn að undirferli, harðýðgi og trúarofsa; marga af sínum beztu þegnum hafði Filippus látið af lífi taka, margir, sem ríkir höfðu verið, voru snauðir orðnir, og margir flúnir af landi burtu, alt af hans völdum; atvinnuvegir voru lagstir í dá, verzlun komin í hendur annara þjóða; ríkisskuldirnar voru um 140 millíónir »dúkata», og námurnar í Mexíkó og Perú gjörðu eigi betur en gjalda vextina af svo fáheyrðum skuldum í þá daga. Filippus gjörði borgina *Madríd* að aðseturstað Spánarkonúnga. Ferdínand og Ísabella höfðu setið í Valladólið. Skamt frá Madríd lèt Filippus reisa höll þá, er *Eskoríal* heitir, og er hún eitthvert hið skrautlegasta stórhýsi á jörðu. Í þeirri höll sat Filippus löngum, og þar andaðist þessi járnharði maður eptir miklar og lángar þjáníngar 13. sept. 1598.

Eptir Filippus annan kom sonur hans *Filippus þriðji* til ríkis á Spáni (1598—1621). Hann var föður sínum næsta ólíkur um flesta hluti: meinlaus maður cg gagnslaus, og lèt ráðgjafa sinn, hertogann af *Lerma*, ráða öllu eptir sinni vild. Hertoginn var enginn stjórnvitríngur, og hugsaði mest um að auðga sig og ættmenn sína, hvað sem öðru leið. Árið 1609 fengu klerkarnir konúng til að reka alla *Moriskos* burt úr landi, og misti Spánn þannig um 800 þúsundir af hinum þörfustu akuryrkju- og iðnaðarmönnum, og var það landinu óbætanlegur skaði, enda fór nú mörgu aptur, en klerkavaldið stóð með miklum blóma. Þar voru um 1000 klaustur í

landi, og múnkasæguriun óteljandi. En þó má það allmerkilegt virðast, að um þessar mundir voru uppi allmiklir vísindamenn á Spáni, og eru tveir af þeim lángfrægastir: *Cervantes*, sem ritað hefir riddarasögu þá, er nefnist *Don Qvixote*, og er í sinni tegund talin óviðjafnanlegt snildarverk. Cervantes var einn af liðsmönnum Don Júans í orustunni við Lepanto, fèkk þar þau örkumsl, að hann var einhentur síðan, eptir það var hann handtekinn af Serkjum, og sat í varðhaldi 5 ár, komst þó til Spánar, en lifði þar við fátækt alla æfi og dó 1616. Hinn afbragðsmaðurinn er *Lope de Vega*. Hann var fyrst hermaður og var á flotanum mikla, er vinna átti England, síðan varð hann klerkur. Hann hefir ritað meira en flestir, ef eigi allir aðrir, rithöfundar, er sögur gánga af. Og er svo sagt, að hann hafi ort um 2000 leikrita, og þar að auki mjög margt annað, og flest af hinni mestu snild; menn undrast hið óþrjótanda yrkisefni, sem þetta hið mikla skáld hafði jafnan á reiðum höndum, og dáðst að liðugleik og málfegurð í kvæðum hans. Hann dó 1635. Því nær samtíða þessum tveimur mönnum, sem nú voru nefndir, lifði *Luis Camoens*, höfuðskáld Portúgalsmanna; hann var lengi í Austindíum, þar orti hann sitt nafnfræga kvæði «*Os Lusiades*» (þ. e. Lúsitanar eða öðru nafni Portúgalsmenn). Kvæði þetta er í 10 bókum eða kviðum, og skýrir frá afreksverkum Portúgalsmanna á Indlandi og frá ýmsu úr fornsögu þeirra. Camoens átti alla æfi mjög erfitt uppdráttar, og dó í Portúgal bláfátækur 1579.

### Ítalía. Sixtus páfi hinn 5.

Það er kunnugt af því sem fyr er ritað, að Ítalía hafði um lángan aldur verið sundurskipt meðal ýmissra þjóðhöfðíngja. Eptir friðargjörðina í Chateau Cambresis (1559)[1], rèðu Spánverjar mestu á Ítalíu. Þeir áttu þar, eins og menn vita, hertogadæmið Milano, Neapelsríki, Sikiley og Sardiníu, og hèldu þeim löndum öllum í harðri ánauð, og hin önnur ríki á Ítalíu þorðu hvorki nè gátu fylgt, svo teljandi sè, öðrum stjórnarreglum en Spánarkonúngur. En þó að nú stæði friður um mörg ár á Ítalíu, þá var hagur manna og ástand alt þar í landi engan veginn ákjósanlegt. Hinar ítölsku þjóðir höfðu orðið að þola mikið og

1) Sjá bls. 51 hèr að framan.

margt ilt af ófriði og ásælni útlendra konúnga alt í frá dögum Karls 8. Frakkakonúngs, og ekki sízt meðan þeir voru uppi Karl 5. og Franz 1. og börðust um yfirráðin; slíkur ófriður lamaði stórum lífsafl þjóðarinnar. Þar á ofan bættist andlegt ófrelsi með öllum þess ókostum.

Venezía, er áður átti hina blómlegustu verzlun, fèkk banasárið þegar Ameríka var fundin og sjóleiðin austur til Indlands. Nú var svo komið, að Venezía gat eigi varizt árásum Tyrkja. Þeir náðu ýmsum eyjum í Miðjarðarhafi og ýmsum bæjum og borgum á Grikklandi, sem Veneziumenn höfðu áður átt, og kreptu nú að þeim á allar lundir ár eptir ár.

Þegar Mílanó og Venezía eru talin, voru hertogarnir af Savoyen, sem einnig rèðu fyrir Piemont, þeir einu, sem teljandi sè að nokkur völd hefðu á Norður-Ítalíu. En ríki þetta var ýmist í höndum Frakka eða Spánarkonúngs, meðan þeir Franz 1. og Karl 5. áttust við. Emanúel Filibert (Savoyu-hertogi 1553—1580) nafnkendur meðal hershöfðíngja Karls 5. og Filippusar annars, fèkk mestan part ríkis síns aptur eptir friðinn í Chateau-Cambresis.

Cosmus af Medici rèð fyrir Flórenz og Siena um þessar mundir, og var ríki hans árið 1569 af Píusi páfa hinum 5. gjört að stórhertogadæmi og síðan kallað *Toskana*. Stórhertogar þeir, sem þar rèðu fyrir, fylgdu lengi siðum forfeðra sinna, og gáfu sig mjög við verzlun, og voru vellauðugir, og því að eins gátu þeir eflt fagrar listir svo ríkmannlega eins og þeir einatt gjörðu.

Að páfastóli sátu þeir hver á eptir öðrum *Píus fjórði* (1559—1565), og *Píus fimmti* (1566—1572). Píus fjórði sleit hinu nafnkunna kirkjuþíngi í Trídent. Píus fimmti var harður maður og óvæginn, lèt ofsækja prótestanta og bannfærði Elísabetu Englands drotníngu. Eptir hann varð páfi *Gregoríus* hinn þrettándi; hann var mýkri maður í lund heldur en Píus, en þó var stjórn hans eigi góð, og stórum efldi hann kristmúnka gegn siðabótamönnum. Hann er nafnkendur fyrir þá sök, að hann lèt leiðrètta tímatalið. Menn höfðu fram á hans daga fylgt tímatali því, sem kent hefir verið við Júlíus Cæsar (*Julianske Calender*), og voru eptir þeim reikníngi 365 dagar og 6 stundir í árinu. Á kirkjuþínginu í *Nicæa* (325) var kveðið á, að halda skyldi páska fyrsta sunnudag eptir fyrstu túnglfyllíngu eptir vorjafndægur.

Það ár, sem nú var nefnt (325), voru jafndægur 21. dag marz-mánaðar. En þegar aldir liðu fram fundu stjörnufróðir menn, að jafndægrin færðust frá 21. marz, og þokuðust aptur á bak að árs upphafi; þeir fundu, að orsökin var sú, að sólárið, eða sá tími, sem jörðin þarf til þess að gánga í kríng um sólina, er lítið eitt styttri en 365 dagar og 6 stundir, semsè: 365 dagar, 5 stundir, 48 mínútur og 48 sekúndur. Árið 1582 var villa þessi eða mismunur orðinn svo mikill, að munaði 10 dögum, og eptir því urðu jafndægur 11. marz það ár. Sáu menn að svo búið mátti eigi standa, og fyrir því gjörði Gregoríus þá fyrirskipun: 1, að hlaupa skyldi yfir þá 10 daga, sem menn voru orðnir á eptir rèttu tímatali, og telja (þá þegar um haustið 1582) 15. dag októbr-mánaðar (en eigi 5.) næstan eptir 4. október; og 2, að á hverjum 400 ára mótum skyldi hleypa úr almanakinu 3 dögum, því að á þann hátt gætu vorjafndægur verið óhögguð 21. dag marz-mán. Þetta tímatal er síðan kent við Gregoríus (*Gregorianske Calender*). Katólskir menn fylgdu því þá þegar, en prótestantar á Þýzkalandi eigi fyr en árið 1700, og varð þá, í þess árs almanaki, 1. marz næsti dagur eptir 18. febrúar. Rússar og Grikkir fylgja enn hinu eldra tímatali.

Á dögum Gregoríuss páfa hófst sá ósiður á Ítalíu, er síðan hefir legið þar í landi, að margir af þeim mönnum, er gengið höfðu á mála meðan ófriðaröldin stóð, en nú voru atvinnulausir, lögðust út og gjörðust ránsmenn, og lètu greipar sópa um eignir manna, en drápu suma; var að slíku hinn mesti ófögnuður. Urðu stigamenn þessir því skæðari og verri viðureignar sem ýmsir heldri menn, er látið höfðu eignir sínar og óðöl fyrir páfanum, gengu í sveit með þeim og gjörðust foríngjar þeirra. Varð af þessu öllu saman hin mesta óöld í landinu, en ríkisstjórnin eptirgángslítil og lin í refsíngum: Gregoríus páfi andaðist 1585. Kom þá í hans stað *Sixtus* hinn 5. með því nafni, hinn merkasti maður. Hann var borinn og barnfæddur í þorpi því, er Montaldó heitir, og skírður *Felix*. Faðir hans hèt Peretti og var af slafneskum ættstofni; hafði einn af forfeðrum hans flúið fyrir Tyrkjum vestur á Ítalíu og sezt þar að. Peretti var fátækur maður, og varð að koma Felix syni sínum 9 vetra gömlum í vist hjá bónda einum. Þar gætti Felix svína, og liðu svo nokkur ár. Þá bar það til einhverju sinni, að múnkur nokk-

ur, af Fransiskusar reglu, var á ferð og viltist, hittir sveininn Felix og biður hann fylgja sèr á rètta leið. Felix gjörir svo, en segir sèr leiki mjög hugur á, að komast til góðra manna og geta numið eitthvað fróðlegt. Verður það þá úr, að múnkur þessi tekur hann og kemur honum í klaustur. Það var þá siður, er menn gengu í klaustur, að taka sèr nýtt nafn og leggja hitt niður, er þeir áður hètu. Eigi vildi Felix gjöra það, þvíað honum þótti það nafn gott, er hann hafði. Skamma stund hafði hann verið í klaustrinu áður hann skaraði fram úr öllum þeim, er þar voru, að námsgáfum, og svo var hann kostgæfinn og reglufastur í öllu sem fyrir hann var lagt, að enginn komst til jafns við hann, en mjög var hann vandlátur við aðra og ráðríkur, og þoldu menn honum það illmisjafnt; gjarnt var honum og að gefa sig í kappræður við menn, og gat enginn við hann jafnazt í þeirri list. Af öllu þessu varð hann svo óvinsæll í klaustrinu, að hann varð að fara þaðan. Hann var síðan í ýmsum klaustrum á Ítalíu; alstaðar þótti hann vera afbragð annara manna að vitsmunum og dugnaði, en mörgum varð kalt í geði til hans sökum vandlætínga hans og drotnunargirni. Hann varð brátt svo nafngetinn, að honum voru falin ýms vandaverk á hendur, og leysti hann þau öll vel af hendi. Þegar Píus 5. settist að stóli, gjörði hann Felix að yfirmanni allra Fransiskusmúnka, litlu síðar veitti hann honum biskupsdæmi og 1570 kardinálstign. Þegar Felix var orðinn kardináli, breytti hann fyrst nafni sínu og nefndi sig *Montaldó*, eptir bæ þeim er hann var borinn í. En úr því hann hafði komizt til þeirrar upphefðar, var allur hans hugur sá, að geta orðið páfi. En til þess að geta orðið það, breytti hann öllu ráði sínu og dagfari. Alt til þess tíma hafði hann verið mjög vandlátur við sjálfan sig og aðra, starfsmaður hinn mesti og ákaflega ráðríkur. Nú þar á móti lèt hann sig litlu skipta, hvað aðrir höfðust að, sýndi öllum hið mesta umburðarlyndi og lèzt vera mjög heilsutæpur. Eptir að Gregoríus 13. kom til ríkis, breytti Montaldó eigi frá uppteknum hætti, ráðfærði sig einatt við aðra og skoraðist undan ýmsum störfum, sem honum voru á hendur falin. Meðal annars sagði hann þá einhverju sinni, að auk þeirra þriggja heityrða, sem hann hefði giört, hefði hann bætt hinu fjórða við, og væri það: þakklátsemin; með því lèt hann skilja á sèr, að hann

mundi reyna að endurgjalda þeim er styddu sig, þegar að því kæmi. Það er og mælt, að hann hafi í allri framgöngu sinni verið sem gamalmenni, heilulaus, með sífeldu hóstakjöltri, og einatt talað um það, að hver dagurinn mundi verða sinn síðasti.

Þegar Gregoríus 13. andaðist, voru kardínálar á ýmsum áttum, hvern kjósa skyldi til páfatignar. Menn gátu eigi orðið sammála og komið sèr niður á neinum af hinum ríku og ættgöfugu kardínálum, og það þótti þá bezt fallið að kjósa Montaldó; hann var fátækur í samanburði við flesta hina, hann var heilsulaus og kominn að fótum fram, og allar líkur til, að hver mundi geta farið sínu fram fyrir honum. En þegar búið var að kjósa hann, þá var heilsuleysið horfið, stafprikinu var kastað, sem hann áður hafði stuzt við, og hinn nýkjörni páfi stóð mitt á meðal þeirra, líkur styrkri hetju sem treystir bæði hreysti sinni og hamíngju. Fólkið horfði á og undraðist, hve tignarlegur páfinn var, er hann gekk meðal kardínálanna til Pèturskirkjunnar, og einn af þeim sagði við hann: «að mjög væri hann nú orðinn breyttur frá því sem verið hefði». Sixtus[1] leit við honum og mælti: «meðan eg var kardínáli gekk eg boginn og niðurlútur og leitaði að lyklum himnaríkis á jörðunni, en nú síðan eg fann þá, lít eg upp til himins, því að eg sakna nú einskis framar á jörðunni». Jafnskjótt sem Sixtus var seztur að völdum, varð mönnum það ljóst, að hann vildi einn ráða öllu, og mörgu breyta frá því sem verið hafði á dögum fyrirrennara hans. Það hafði áður verið venja þann dag, er páfar voru krýndir, að kasta peníngum út meðal lýðsins; Sixtusi þótti slíkt hinn mesti ósiður, og bauð í þess stað að færa fátækum þá peninga heim í hús þeirra og spítala; eigi lèt hann heldur veizlu halda sem áður var títt, og lagði blátt bann fyrir, að nokkur bandíngi væri laus látinn, er í varðhaldi hafði setið frá dögum hinna fyrri páfa. En hvorttveggja hafði þó jafnan verið gjört við hver páfaskipti. Ýmsir óhlutvandir menn, sem lög og landsstjórn hafði látið óhegnda, eða eigi getað hönd á fest, gengu sjálfviljugir á vald Sixtusar í von um uppgjöf á sekt sinni, en sú von brást þeim með öllu. Sixtus svaraði: «nægir mönnum eigi að dómendur hafa verið aðgjörðalausir um undanfarin 13 ár? Hèr er eigi um miskun að ræða heldur um rèttlæti, og til þess að sýna mönn-

1) Þetta nafn tók Montaldó sèr þegar hann varð páfi.

um, að guð hefir sett oss í postullegt sæti til þess að endurgjalda hverjum eptir hans verkum, þá bjóðum vèr, að fjórir hinir verstu illræðismenn verði af lífi teknir á krýníngardegi vorum». Hann kvaðst mundi ríkt eptir því gánga, að öllum þeim mönnum yrði þúnglega refsað, er skýlt hefðu eða skýla vildu skálkum og illvirkjum. Enda var þess og öll þörf, að hèr væri tekið í taumana. Ránsmenn höfðu vaðið að ósekju um landið, siðaspillíng var mikil í Rómaborg; embætti voru seld og keypt, menn og feður lètu konur sínar og dætur falar, ef fe var í móti boðið, atvinnuskortur og örbyrgð gátu af sèr ótal lesti.

Gregoríus 13. hafði allmikið lið í sinni þjónustu og dreifði því víðsvega út um landið, til þess að halda ránsmönnum og öðru illþýði í skefjum; þó kom það alt að litlu haldi, en kostaði ærið fè. Þegar Sixtus var tekinn við stjórn, lèt hann alt það lið fá heimfararleyfi, og fækkaði löggæzlumönnum til helmínga. Hann vildi sýna mönnum, að hann ætti mest undir sjálfum sèr, en eigi hinum mörgu þjónustusveinum. Eigi vildi hann heldur hafa mörg lög eða margbrotin, en um hitt sá hann, *að lögunum væri rækilega hlýtt.* Úngmenni nokkurt tók einhverju sinni konu eina og hljóp á burt með hana. Frændi þess, er konuna nam, var góðkunníngi Sixtusar og þótti sem auðsótt mundu griðin hjá páfa til handa hinum únga manni; en Sixtus svaraði: «eigi hefi eg enn gleymt vináttu okkarri, en það kemur als eigi til frænda þíns. Viljir þú leita honum líknar, þá bið þú guð að varðveita sálu hans». Litlu síðar var hinn úngi maður festur á gálga fyrir húsdyrum konu þeirrar, er hann rænti. Stundum bar það til, að ýmsir ríkir menn eður annað stórmenni út um landið skaut skjólshúsi yfir ránsmenn og spillvirkja; kæmist Sixtus að slíku, tók hann hallir og eignir slíkra manna, en rak þá sjálfa af landi burt. Það bar til einn dag, að Sixtus var á strætum úti í Rómaborg, og mætti yfirforíngja þeirra manna, er gæta skyldu friðar og góðrar reglu á landsbygðinni. «Hver ert þú?» mælti páfinn. Maðurinn sagði til nafns síns. «Þú lýgur því!» svaraði Sixtus. «Hvernig getur þú átt embætti að gegna útí á landi og verið aðgjörðalaus hèr inni á strætum? Leggið hann samstundis í fjötra!» Þegar kveld var komið lèt Sixtus kalla þenna mann á sinn fund, og bèt að láta

hann lausan og gefa honum upp sakir, ef hann næði 6 stigamönnum, og sendi sèr þá áður vika væri liðin. Hinn varð glaður við, fór sem skjótast til sýslu sinnar, og hafði allar klær úti, og fèkk handsamað 7 ræníngja og sent páfa áður fresturinn var liðinn. Varð Sixtus þá hinn blíðasti og gaf honum góðar gjafir.

«Nýir vendir sópa bezt», segir máltækið, og margir höfðu því hugsað, að Sixtus mundi fara sèr hægra þegar frá liði, og gánga þá eigi jafnríkt eptir í öllum greinum eins og fyrst, en þeim brást sú von. Alla þá stund sem hann sat að stóli, var hann sjálfum sèr líkur og óþreytandi, og friðaði ríki sitt á svo stuttum tíma að furðu gegndi. Áður en ár var liðið frá því hann settist í völdin, mátti kalla að ræníngjar væru allir horfnir í ríki hans. Þegar konúngar í næstu löndum við páfaríkið kvörtuðu yfir því, að ránsmenn og alskonar illþýði flyktust inn í sín lönd og hefðust þar ílt eitt að, þá segja menn að Sixtus hafi mælt: «fylgi þeir mínum ráðum, eða fái þeir mèr lönd sín, þá skal eg hreinsa þau af öllum stigamönnum».

Af allri hinni miklu röggsemi Sixtusar páfa og jafnvel hörku, sem hann opt beitti, stóð mörgum hinn mesti ótti, svo það varð að orðtaki manna, þegar einhver sagði eitthvað tvírætt: «Sixtus stýrir!» Þegar úngbörn voru óhlýðin mæðrum sínum, sögðu þær við þau: «nú kemur Sixtus!» þá urðu börnin góð. Sixtus vissi að menn óttuðust hann, og þótti honum það eigi miður. Hann hafði og sína menn úti um ríkið, er sögðu honum flest það er gjörðist. Hann lèt og hegna mörgum glæpamönnum fyrir íllverk þau, er þeir höfðu unnið löngu áður en hann kom til ríkis. Því var það, að einn morgun í Rómaborg sáu menn, að líkneskja Pèturs postula, er þar stóð á torgi einu, var komin í föt og búin sem til brottferðar. Þar gagnvart stóð líkneskja Páls postula, og í munni hennar var seðill með þeirri spurníngu: hvort Pètur ætlaði að fara úr borginni? «já, var svarið, til þess að komast úr höndum Sixtusar, áður en hann lætur höfða sök á hendur mèr fyrir eyrað, sem eg hjó forðum af manninum í Getsemane».

Þó Sixtus þætti ærið harður og refsíngasamur, þá urðu menn að játa, að hann var stórvitur maður, og bar hina mestu umhyggju fyrir framförum og vellíðan þegna sinna; hann var hinn mesti bjargvættur allra íþróttamanna, als iðnaðar og bú-

sýslu. Þegar óáran var í landi og harðrètti milli manna, lèt hann snauða menn fá korn sem þeir við þurftu úr forðabúrum sínum. Silkivefnaður og ullarvinna var að mestu leiti horfin og hætt í ríkinu þegar Sixtus tók við stjórn; hann kom hvorutveggju aptur á fót, með því að setja atvinnulausa menn og iðjuleysíngja til þeirra starfa. Og þegar hann frètti, að fjöldi kaupmanna ætti þröngt í búi fyrir því, að aðalsmenn voru í stórskuldum við þá, en guldu þeim ílt eitt í staðinn, og jafnvel lömdu á þeim, ef þeir kröfðust fjárins, þá bauð hann kaupmönnum eitt sinn, að þeir skyldu senda sèr allar skuldabækur sínar. En jafnskjótt sem aðalsmenn heyrðu það, hröðuðu þeir sèr hver sem betur gat, og greiddu kaupmönnum alt það þeir voru þeim um skyldir, því að það vildu þeir sízt af öllu, að Sixtus færi að krefja sig um skuldir. Af þessu fèkk páfinn hið mesta lof. Það þótti og fagurt í fari hans, að hann gleymdi engum þeirra, er verið höfðu honum vel áður hann komst til uppheffðar og valda; öllum þeim veitti hann ríkuglega umbun.

Sixtus lèt sèr mjög ant um, að efla og prýða Rómaborg. Hann lèt reisa þar mörg hús af nýju; gaf út ýms lög, er miðuðu til að auka þrifnað og hreinlæti í borginni og bæta heilsufar manna; hann lèt veita vatni um 30 mílur vegar utan úr landi og leiða um ræsi inn í borgina; var það hið mesta þrekvirki og hin þarfasta bæarbót; hann jók og prýddi páfagarðinn stórum; hann lèt og setja húfuna (*Kuppel*) miklu á Pèturskirkjunna í Rómaborg, og flytja steinsúlu (*Obelisk*) þá hina miklu, — er Kaligúla keisari forðum hafði látið sækja til Egyptalands, en um margar aldir legið í hirðuleysi í Rómaborg — fram á torgið fyrir framan Pèturskirkju og reisa hana þar upp, sem hún nú stendur. Súla þessi er um 150 feta á hæð, og svo þúng, að undrum gegnir að mannlegt afl hafi orkað að færa hana úr stað. Það er sagt að Sixtus hefði 800 manns og 150 hesta til þess að flytja súlu þessa.

Þegar Sixtus tók við stjórn, voru allar fjárhirzlur ríkisins tómar. Á stuttum tíma hafði hann safnað ærnu fè, og hafði hann til þess mörg ráð, en, ef til vill, eigi öll sem bezt. Að vísu var hann hinn mesti hófs- og sparnaðarmaður, og fyrirhyggjan framúrskarandi, en hann seldi líka embætti eins og aðrir páfar höfðu gjört, og safnaðist ríkinu þannig mikill auður.

Það ræður að líkindum, að slíkt mikilmenni sem Sixtus hafi, að því er unt var, haldið við hefð valdi og virðíngu páfadómsins, enda skarst hann mjög í þjóðmálefni sinna samtímismanna. Þess vegna studdi hann með fyrsta Filippus annan Spánverjakonúng gegn Elísabetu Englandsdrotníngu, og bannfærði hana; en þegar Sixtus þóttist sjá fyrir, að Filippus mundi einn vilja öllu ráða, og einúngis hafa gagn af páfanum eins og verkfæri í sinni hendi, þá tok vináttan að kólna milli þeirra, og var þá eigi trútt um, að páfinn legði tálsnörur fyrir konúng, og kæmi honum i enn meiri vafnínga við Engla og Frakka en áður var. Það segja menn, að Sixtus hafi haft allan hug á að minnast á fornar kröfur og ná Neapelsríki undan Spánverjum, þegar Filippus konúngur félli frá, en það átti eigi að auðnast. Sixtus dó á ofanverðu ári 1590, eptir 5 ára ríkisstjórn, og er það sögn sumra manna, að Filippus annar hafi stytt honum aldur, og látið gefa honum eitur. Ráðið rómverska hafði látið reisa súlu til virðíngar við Sixtus páfa og þar á mynd hans kostuglega gjörða. Jafnskjótt sem Sixtus var liðinn, reif lýðurinn í Rómaborg þann minnisvarða niður til grunna. Þannig mintist hin rómverska alþýða einhvers hins mesta manns, er setið hafði að páfastóli.

## Viðureign Filippusar annars og Niðurlendínga.

Þess er áður getið[1] hvernig það atvikaðist, að *Niðurlöndin* komust í hendur Habsborgarmönnum undir endalok fimtándu aldar. Karl keisari hinn 5. var einn af þeim ættmönnum, og réð bæði fyrir Spáni og Niðurlöndum, sem fyr er ritað. Þó er það eigi þannig að skilja, að Niðurlendíngar væru í nokkru háðir Spánverjum; hvortveggja þjóðin hafði að eins einn og hinn sama konúng yfir sèr (*personel Union*). Niðurlöndin greindust í 17 fylki. Hvert fylki var sjálfu sèr ráðandi. Án þess fylkjastjórnin leyfði, gat landshöfðínginn (Spánverjakonúngur) hvorki lagt skatta á landið, eða sent þángað útlent herlið, eða komið þar útlendum mönnum til valda. Frelsi og friður hafði náð bólfestu á Niðurlöndum, og í skjóli þeirra þróaðist verzlun og iðnaður, vísindi og fagrar listir; þjóðin var í miklum uppgángi. Calvíns trú (*reformeraða trúin*) hafði náð þar fótfestu í hinum norðlægu fylkjum, einkum meðal bænda og borgalýðsins, og

1) Miðaldasagan bls. 186.

landsfólkinu geðjaðist vel að hinum nýja sið. Karl keisari var enginn vinur siðabótanna, eins og fyr er sagt, og varð þeim að vísu allsárbeittur, er hinn nyja sið tóku, en þó fór hann að öllu með gætni, og hlífðist við að brjóta lög á mönnum, því að honum var gott í þeli til Niðurlendínga, og þeim til hans.

En það skipti fljótt um, er Filippus annar, sonur Karls, settist að völdum. Hann var *alspánskur* í huga og hjarta, og Niðurlendíngar urðu þess skjótt varir, að hann setti þá skör lægra en Spánverja, og vildi í öllu fara með þá eins og skattlendínga. Hann setti spánska menn til hinna æztu valda í Niðurlöndum beint á móti lögum þeirra. Og þó þeim þætti Karl verið hafa harður við siðabótamenn, þá komst sú harka í engan samjöfnuð við þá, sem Filippus beitti, því að Filippus ofsótti alla siðabótamenn með báli og brandi. Áður hann fór frá Niðurlöndum 1559, setti hann hálfsystur sína, *Margrètu*[1] *af Parma* þar til landstjórnar, og fèkk henni nokkra menn til ráðaneytis, en æztur þeirra ráðgjafa var sá maður, er *Granvella* het; hann var biskup, útlendur maður, harður og slægvitur, og þótti hann þar öllu spilla. Filippus lèt og eptir í Niðurlöndum 4000 spánskra hermanna, til þess að styrkja stjórn sína; það var útlendur her, og fyrir því var það lagabrot. Enn fremur setti Filippus, að páfans ráði, 14 biskupsstóla katólska í Niðurlöndum, en Granvella var gjörður að erkibiskupi; síðan skipaði konúngur ransóknarmenn og ransóknarnefnd í landinu, til þess að útrýma algjörlega hinum nýja sið. Varð nú af þessu öllu saman hinn mesti kurr meðal landsmanna, hverrar trúar sem þeir voru. Menn kendu Granvellu um allan þann ójöfnuð, og alt það ofríki, er nú dundi yfir, en hins vegar bygðu menn allar vonir sínar á þessum þremur mönnum: *Vilhjálmi*[2], prinz af Nassau-Oranía, og greifunum *Egmont* og *Horn*. Vilhjálmur prinz hafði alizt upp við hirð Karls fimmta, og verið í engu minni kærleikum

1) Margrèt var óskilgetin dóttir Karls keisara, og gipt sonarsyni Páls páfa hins þriðja. Frá henni er Farnese-ættin komin, er rèð fyrir hertogadæminu Parma á Ítalíu. Karlleggur þeirrar ættar var aldauða 1731.

2) Hann var kominn af höfðíngjaætt þeirri, er rèð fyrir Nassau á Þýzkalandi, og hann átti fylki eitt á Suður-Frakklandi, er hèt Orange (Oranía).

við keisarann en Filippus sjálfur sonur hans. Vilhjálmur var stórvitur maður og allra manna þrautbeztur, stiltur vel og fámálugur. Hann var kallaður hinn þögli. Hann fylgdi trú prótestanta, og var svarinn óvinur als andlegs ófrelsis. Filippus annar bældi frelsið niður, hvar sem hann gat því við komið. Það þarf því eigi að undra, þó þessum tveimur mönnum lenti saman, og að viðureign þeirra yrði bæði löng og hörð. Egmont og Horn voru hinir mestu ágætismenn, þótt eigi væru þeir Vilhjálms makar; einkum var Egmont frægur af sigri þeim, er hann vann á Frökkum við Gravelines (1558), eins og fyr er ritað (sjá bls. 51). Horn var admirall og hafði yfirstjórn herskipaflotans. Nú var Egmont landstjóri í Flandern, er hèr var komið, en Vilhjálmur hafði landstjórn á hendi í Hollandi, Zeelandi og Útrekt.

Þegar þeir Vilhjálmur, Egmont og Horn sáu hvað verða vildi, að öllu þjóðfrelsi Niðurlandanna var háski búinn, hættu þeir komum sínum í ríkisráðið, og rituðu Margrètu konúngssystur brèf, og kváðust eigi vilja sitja í ráðinu sem einberir skuggar. Margrètu leizt eigi á blikuna, þótti enda nóg um ráðríki og uppgáng Granvellu, og beiddi Filippus konúng bróður sinn, að kveðja ráðgjafann heim aptur til Spánar, og gjörði Filippus það um síðir (1564). En þó svo væri, urðu þeir helzt of margir eptir við hirð Margrètar, er fylgdu fram uppteknum hætti Granvellu: siðabótarmenn sættu ofsóknum, aðalsmönnum sumum hèlzt uppi ein eður önnur ósvinna, svo lögin gengu eigi jafnt yfir alla, og óánægjan var megn. Eptir ráðum Vilhjálms sendi Margrèt Egmont greifa suður á Spán, til þess að beiðast rèttíngar á málum manna, en einkum til þess, að vægt yrði til í ýmsu við siðabótamenn, og hætt hinum grimmustu ofsóknum gegn þeim. Filippus konúngur svaraði því máli svo: að fyr vildi hann láta líf sitt þúsundsinnum, en slaka til hið minsta í trúarbragðaefnum. Hann bauð og að fylgja skyldi fastlega öllum þeim reglum, er þíngið í Trídent hafði þá sett fyrir skemmstu. Egmont sneri heim við svo búið. Ófrelsi og ofsóknir fóru vaxandi á Niðurlöndum; ótti og harmur fylti hugi manna. Margir hinir helztu og huguðustu af höfðíngjum Niðurlendínga, hvort sem þeir fylgdu katólskri trú eða ekki, gjörðu nú samtök sín í millum og unnu eiða að því (1565), að þeir skyldu verja fjör og frelsi

ættjarðar sinnar og þjóðar gegn ransóknarnefndinni (*Inkvisitionen*) og ofsóknum hennar, og á næsta vori (1566) fóru þeir fjölmennir til Brussel, höfuðborgarinnar, þar sem Margrèt sat, og var *Hinrik* greifi af *Brederode* fyrir þeim. Þeir færðu Margrètu bænarskrá þess efnis, að lögin um ofsóknir gegn siðabótarmönnum yrðu numin úr gildi. Margrètu varð hverft við komu þeirra og gaf þeim tvíræð svör, en einn af ráðgjöfum hennar sagði, að ekkert væri að óttast, það væru einúngis nokkrir ölmusumenn (*Gueux,* Geuser, Göisar). Tóku bandamenn sèr síðan það kenníngarnafn, og þótti lengi eptir það sæmdarnafn á Niðurlöndum.

Meðan þessu fór fram fjölguðu siðabótamenn drjúgum í landinu. Útlendir klerkar komu þángað og fluttu kenníngar sínar fyrir landsmönnum, hvar sem því varð við komið, úti á torgum og strætum, jafnvel á víðum völlum utanborga. Dag af degi óx óvildin gegn páfadómi, lýðurinn æstist, og hèr fór sem optar, að menn gættu eigi stillíngar og hófs. Þeir rèðust fyrst á krossa og heilög tákn katólskra manna, þar sem þau stóðu við þjóvegi um landið, og brutu þau, síðan fóru menn í þorpin og loksins í borgir, og spilltu og eyddu kapellum, klaustrum og kirkjum og ýmsum dýrum dómum. Það er mælt, að á 3 dögum hafi þá verið brotin 400 kirkna.

Margrètu þótti nú vandast málið og gjörði samníng við bandamenn þá, sem áður eru nefndir, hèt að gefa mönnum upp sakir, og slaka til í ýmsu frá því, sem verið hefði. En Filippus konúngur var als annars hugar. Hann safnaði liði, setti hertogann af *Alba,* hinn grimmasta mann, yfir það lið og sendi til Niðurlanda. Þegar Niðurlendíngar heyrðu að hans væri von, bjuggust þeir við öllu íllu; gátu þó eigi orðið á eitt sáttir, svo að margir tóku það þá til bragðs, að flýja af landi burt, og er sagt að tala þeirra hafi numið 100 þúsundum manna. Vilhjálmur af Óraníu fór til Þýzkalands, en Egmont og Horn urðu eptir. Alba kom til Niðurlanda með herinn á áliðnu sumri 1567, en Margrèt lagði skömmu síðar niður völdin, og rèð Alba þar nú einn öllu og tók þegar til óspiltra mála. Eitt hið fyrsta sem Alba gjörði var að kveðja menn í dóm til þess að prófa mál allra þeirra manna, er ransóknarnefndin hafði grunaða, einkum í trúarbragðaefnum. Þessi dómur hèt upphlaupsmannadómur, en Niðurlendíngar kölluðu hann *blóðdóm,* og svo var hann rètt

nefndur. Um það leyti fèkk Alba á sinn fund greifana Egmont og Horn. Hann þóttist þurfa að ráðfæra sig við þá um ýms vandamál; en jafnskjótt sem þeir komu greifarnir, var þeim varpað í dýflissu, og síðan voru þeir báðir dæmdir til dauða og teknir af lífi. Þetta hafði Vilhjálmur sèð fyrir, og þess vegna farið af landi burt. En þegar nú þjóðin þannig var svipt þremur sínum helztu forvígismönnum, þá tók Alba fyrst algjörlega að sýna Niðurlendíngum í tvo heimana. Nú gekk eigi á öðru en ofsóknum, stefnum, dómum og dauða. Aldrei kom sá dagur, að eigi væru margir menn brendir, hengdir eða hálshöggnir, og allar eigur þeirra gjörðar upptækar. Það var jafnvel dauðasök, að beiðast vægðar á ofsóknum og ransóknardómum, eða hlýða á ræðu, er prestar prótestanta fluttu. Svo hefir Alba sagt sjálfur, að hann lèti böðulinn taka 18 þúsundir manna af lífi þau ár, sem hann var í Niðurlöndum, og þóttist meiri maður eptir en áður; enda fèkk hann virðulegar gjafir af páfanum, Píusi hinum 5., svo sem forvígismaður katólsku trúarinnar. Eignir manna og óðöl, sem Alba gjörði upptækar á ári hverju, lagði hann sjálfur til jafns við 500 þúsundir »dúkata«. Undir þessum ókjörum máttu Niðurlöndin búa, og þar er als enginn efi á, að þau hefðu skjótt örmagnast og beygt sig undir harðstjórn Filippusar, ef bjargvættur þeirra hefði eigi lifað, og verið slíkt mikilmenni sem hann reyndist. Vilhjálmur af Oraníu var að vísu farinn af landi burt, eins og fyr er ritað, en hann var eigi aðgjörðalaus. Hann lagði jafnan ráðin á, hvað gjöra skyldi í Niðurlöndum, til þess að verjast kúgun Spánverja; hann hafði sína sendisveina í öllum áttum, jafnvel í Róm og við hirð Filippusar á Spáni, og vissi þannig hvað gjörðist; alstaðar reyndi hann að tefja fyrir og eyða framkvæmdum Filippusar og ransóknarnefndarinnar; hann komst einatt yfir brèf konúngs; fèkk tælda frá honum trúnaðarmenn hans með fègjöfum; gjörði svik hans og undirferli og leyndarmál opinber. Að öllu þessu fór hann með hinni mestu hægð og spekt, eins og hann kæmi hvergi nærri. Hann fèkk *Loðvík af Nassau*, bróður sinn, til að taka að sèr herstjórn og ráðast á katólska menn í Niðurlöndum, og sjálfur kom Vilhjálmur þángað með sveitir manna, er hann hafði dregið að sèr á Þýzkalandi. Varð þeim með fyrsta lítið framgengt, og fór Loðvík halloka fyrir Alba, er bæði hafði meira og röskara

lið, en síðan unnu þeir Loðvík meira á. Í annan stað kom Vilhjálmur því til leiðar, að fjöldi manna, er farið höfðu landflótta af Niðurlöndum fyrir Alba, lögðust út á herskipum sem víkíngar, og tóku kaupför Spánverja, og gjörðu verzlun þeirra og atvinnu hinn mesta skaða. Víkínga þessa kölluðu menn »*hafgöjsa (Havgeuser»*). Urðu þeir Spánverjum á marga vegu hinir skæðustu og efldust að skipum og liði; loks náðu þeir siáfarborg þeirri, er *Briel* heitir, og gjörðu þar sterkar varnir; gengu þá ýmsar borgir á Hollandi og í norðurfylkjum landsins í fèlag með þeim, og gátu Spánverjar eigi við gjört. Allar þessar borgir lutu Vilhjálmi. Kom hann nú aptur til Niðurlanda, og á þíngi einu í *Dortrekt* (1572) var hann tekinn til landstjóra í þeim þremur fylkjum: *Hollandi, Zeelandi* og *Útrekt.* Það voru fyrstu tildrög til ríkis þess, er seinna var nefnt *hin sameinuðu Niðurlönd,* eða *Holland*, eptir helzta og auðugasta fylkinu. Ári síðar (1573) lagði Alba niður völdin eptir boði Filippusar og fór burt af Niðurlöndum; hafði Vilhjálmur komið því til leiðar sem öðru.

Þegar Alba var farinn setti Filippus þann til landstjórnar í Niðurlöndum, er *Reqvesens* hèt. Hann hafði verið landstjóri í Mílanó, og var sagður vitur maður og dugandi hershöfðíngi og miklu mýkri í lund en Alba, enda hafði honum jafnan þótt Alba beita ofmikilli hörku við Niðurlendínga. Nú ætlaði Reqvesens að vinna það með góðu, sem Alba gat eigi með illu, en sú góðmenska kom um seinan. Niðurlendíngum var orðið svo gramt í geði við Filippus og Spánverja, að þeir tráðu engu orði sem úr þeirri átt kom; ófriður stóð því enn sem fyr með mönnum. Reqvesens vann að vísu sigur á Vilhjálms mönnum (1574) í orustunni á Mokerheiði skamt frá Nímvegen, og fèllu þá tveir af bræðrum Vilhjálms, en Spánverjum varð lítið gagn að þeim sigri. Því næst settust þeir um borg þá, er *Leyden* heitir, og höfðu mikið lið. Borgarmenn vörðust bæði vel og lengi; varnir og vistir voru að þrotum komnar, um 6000 manna voru dauðir af sulti og seyru, þó vildu borgarmenn eigi gefast upp. Þá gaf Vilhjálmur það ráð, að brjóta skyldi skörð í flóðgarða þá hina miklu, er Niðurlendíngar hafa fyrir öndverðu sett landi sínu til varnar móti sjáfar- og vatnaflóðum. Svo var gjört; vatnið streymdi inn yfir akra og aldingarða; Spánverjum hèlt við druknun og flýðu sem fætur toguðu, og urðu að hætta við

svo búlð. Fyrir þessa ágætu vörn fèkk Leyden þá sæmd, að þar var árið eptir settur háskóli, sem þar er enn, og varð mjög nafnfrægur. Er það eitt til marks um það, að Niðurlendíngar vildu eigi slíta trygðir við Filippus konung sinn að raunarlausu, að öll þau skjöl og skilríki, er snertu stofnsetníngu háskóla þessa, voru samin og sett í konúngs nafni. En Reqvesens hèlt fram ófriðnum af miklu kappi, og krepti mjög að landsmönnum. Lagði Vilhjálmur það þá til (1575), að menn skyldu segjast undan hlýðni og hollustu við Spánverjakonúng, og bjóða öðrum konúngum sína þjónustu. En hvorki Englendíngar nè Frakkar vildu taka við Niðurlöndum. Meðan á þessu stóð dó Reqvesens á öndverðu ári 1576 en, þángað til nýr landstjóri yrði settur af konúngi, gætti ríkisráðið allra stjórnarmálefna og fór þá alt í ólestri. Ráðherrarnir urðu eigi vel ásáttir, herliðið vantaði mála, og reis af því bæði agaleysi og óspektir. Þá var það, að spánverskir hermenn rèðust á ýmsar borgir, helzt þær sem auðugar voru, t. d. *Mastrikt* og *Antverpen,* og drápu þar fjölda manna og ræntu þaðan stórmiklu fè. Leiddi það til þess, að Vilhjálmur fèkk öll fylki í Niðurlöndum, bæði hin *syðri* (*Belgi* eða *Vallóna*), er fylgdu katólskum sið, og hin *nyrðri* (*Batavia* eða *Holland, Zeeland* o. s. fl.) er fylgdu prótestanta sið, til þess að bindast í eitt fèlag og verja rèttindi sín. Þessi samtök gjörðust 1576 í borg þeirri, er *Gent* heitir (*Pacification i Gent*). Alt til þessa höfðu Niðurlandamenn mestmegnis barizt fyrir trú sinni, en eptir þessi samtök fèkk uppreisn þeirra annan blæ á sig; nú var barizt fyrir lands- og þjóðrèttindum, og nú tóku katólskir menn fullan þátt í ófriðnum gegn Spánverjum, eins og Lúthers-eða Calvínstrúar menn.

Þegar hèr var komið sendi Filippus hálfbróður sinn, *Don Júan af Austurríki,* til Niðurlanda, og setur hann þar til landstjórnar. Don Júan var fullhugi mikill og hinn framgjarnasti, og frægur mjög af herferðum sínum og sigri á Tyrkjum við Lepantó. Hugðu Spánverjar gott til framkvæmda af hans hálfu, en það rèðst nokkuð á annan veg. Don Júan hafði lengi haft hugfast, að eignast ríki og verða einvaldur yfir; fyrst vildi hann koma fótum undir ríki eitt á Norðurafríku, en Filippus konúngur vildi það eigi, og fórst það þá fyrir; þar næst kom honum til hugar, að leysa María Stúart úr varðhaldi, kvongast henni og

vinna bæði Skotland og England, og að þeirri fyrirætlan styrkti bæði páfinn í Róm og Guisarnir á Frakklandi. En sem Filippusi komu njósnir af þessu áformi bróður síns, mislíkaði honum það stórlega. Það var fjærri hans skapi, að Don Júan kæmist til slíkrar upphefðar. Filippus vildi hafa hann sem aðra, einúngis að vopni eða verkfæri í sinni hendi, og ekki til annars eða meira. Filippus beitti þess vegna, sem hann var vanur, undirferli og svikum gegn hugrekki og ákefð bróður síns; lèt hann vanta fè og liðsafla heiman af Spáni, og gjörði honum alt til skapraunar. Don Júan sýndi í ýmsum viðskiptum við Niðurlendínga bæði vit og hreysti, en er minst varði sýktist hann og dó (1578) rúmlega þrítugur, af sorg og gremju, að því sem sagt er.

Áður en Don Júan lèzt, hafði hann æskt þess, að *Alexander Farnese,* frændi hans, og sonur Margrètar þeirrar, sem fyr er nefnd, yrði eptirmaður sinn í landstjórn á Niðurlöndum. Svo varð og. Tók Alexander Farnesi þar við stjórn 1578, og varð hann Niðurlendíngum hinn hættulegasti mótstöðumaður, því að bæði var hann afbragðs hershöfðíngi og hinn slægvitrasti maður. Alexander sá þegar, að hin sundurskiptu trúarbrögð, suður og norður í landinu, ollu ágreiníngi og sundurþykkju milli hinna norðlægu og suðlægu fylkna. Þessa sundurþykkju notaði hann með mikilli kænsku, og gjörði hvað hann kunni til þess að ala og æsa trúarofsa katólskra manna í suður fylkjunum, og vekja óbeit aðalsmanna þar í landi gegn Vilhjálmi og öllum hans yfirráðum. Það segja menn, að Alexander Farnesi hefði lángt komizt að ná aptur öllum Niðurlöndum undir yfirráð Filippusar, ef konúngur hefði látið sefast og lægt hatur sitt og ofsóknir móti prótestöntum. En þess var engi kostur. Alexander kom því til leiðar, að nokkur af suðurfylkjunum gjörðu samband sín í millum (1579) til þess að vernda katólska trú, og það kom Vilhjálmi til þess, að sameina fyrir fult og fast hin norðlægu fylki (þar sem siðabótin hafði náð fótfestu), *Holland, Zeeland, Útrekt, Gröningen, Frísland* og *Overyssel.* Var sá samníngur gjörður í Útrekt 1579, og telja menn hann sem grundvöll að bandaríki Niðurlanda. Fulltrúaþíng (*Generalstaterne*) þessa hins nýja bandaríkis tókst landsstjórnina á hendur, og sýndi þannig í verki, að þjóðin viðurkendi eigi konúngdóm Filippusar. Þetta þótti hon-

um allótrúlegt; hann hafði reyndar búizt við, að óeirðirnar í Niðurlöndum gætu staðið lengur eða skemur, en við hinu var hann eigi búinn, að þau mundu nokkurn tíma dirfast að neita »guðdómlegum yfirráðum» konúngdómsins. Honum hafði lengi staðið stuggur af Vilhjálmi, en nú fyrst fèkk hann geig af honum, eptir 20 ára viðskipti. Hann tók það nú til bragðs, að bjóða Vilhjálmi góð boð. Vilhjálmur hafði eytt öllum sínum eigum í þarfir fósturjarðar sinnar, og var kominn í stórskuldir; sonur hans var búinn að sitja um 13 ár í varðhaldi suður á Spáni. Filippus bauð að gjalda fyrir hann allar hans skuldir, og láta hann fá allar jarðeignir sínar aptur, og sleppa syni hans úr varðhaldi og setja til valda á Hollandi. En Vilhjálmur vildi fyrir engan mun skiljast við Niðurlöndin, hann vildi verja þau gegn andlegu og líkamlegu ófrelsi og sjá þeim borgið úr klóm hins gamla dreka í Eskúrial; þess vegna vildi hann engum þeim kostum taka, er Filippus konúngur bauð. Þegar þetta brást lagði Filippus 30,000 krónudala til höfuðs Vilhjálmi, og þá fyrst var það (1580), að þíng bandaríkjanna á Niðurlöndum lýsti yfir því hátíðlega, að Filippus væri settur frá öllum yfirráðum þar í landi, en bandaríkin sjálfum sèr ráðandi og með öllu óháð útlendri stjórn.

Þegar hèr var komið, hefði Vilhjálmi veitt allhægt að gjörast konúngur eptir Filippus annan í fylkjum þeim, er frá honum voru horfin, en það kom Vilhjálmi als eigi til hugar. Það sem hann vann, það vann hann ættjörð sinni og þjóð, og þess vegna studdi hann að því af alefli, að hertoginn af *Anjou*, frakkneskur prinz, var kjörinn til landstjórnar. Vilhjálmur var svo framsýnn, að hann sá, að slíkt mundi ala óvild milli Frakka og Spánverja, en sú óvild var Niðurlöndum einmitt til hagnaðar; tækist hann þar á móti sjálfur hin æztu völd á hendur, þá máttu aðrar þjóðir ætla, að hann hefði unnið mest fyrir sjálfan sig, og þá var velvild þeirra og hlutdeild í málefnum Niðurlanda á förum. En þótt annar hefði í orði kveðnu hin æztu völd í bandafylkjunum, þá lá eigi Vilhjálmur á liði sínu fyrir það; ráð og framkvæmdir allar voru honum að þakka eptir sem áður.

Alexander Farnese varð vel framgengt suður í landi, og vann þar nokkur fylki, en Vilhjálmur bjóst sem bezt um í norðurfylkunum. Svo fór, að mönnum þótti hertoginn af Anjou til einsk-

is nýtur nema til þess að seilast eptir auði og veldi. Á þíngi bandafylkjanna 1582 var því Vilhjálmi fengin í hendur öll hin sömu yfirráð, yfir lýð og landi, sem Filippus annar hafði haft, og nefndur Vilhjálmur hinn fyrsti. Hertoginn af Ánjou fór síðan af landi burt. Eins og áður er sagt, hafði Filippus annar lagt stórfè til höfuðs Vilhjálmi. Fyrir því urðu margir til að sitja um líf hans; einn þeirra veitti honum mikinn áverka á öndverðu ári 1582, en Vilhjálmur varð þó græddur af því sári. Tveim árum síðar tókst loksins manni þeim, er *Baltazar Gerard* hèt, að myrða Vilhjálm. Sá maðr var frakkneskur að ætt og uppruna, en gekst fyrir fè því, er Filippus hafði heitið þeim, er yrði banamaður Vilhjálms; enda höfðu tveir múnkar eggjað hann til þessa verks, og Alexander Farnese verið því samþykkur. Vilhjálmur var staddur í borg þeirri, er *Delft* heitir. Þángað kom maður þessi og sat um hann, og bar á sèr tvær pistólur hlaðnar. Einn dag (7. júlímán. 1584), er Vilhjálmur gekk frá borðum, stóð þessi maður þar fyrir dyrum úti og sendi Vilhjálmi skotið í því er hann gekk út úr dyrunum. Skotið gekk gegnum Vilhjálm. Hann mælti þetta er hann fèll: «guð hjálpi mèr og mínum fátæka lýð!» Þá var Vilhjálmur 52 ára, er hann var veginn. Flestum ber saman um, að hann hafi verið einhver hinn merkilegasti maður allra þeirra, er honum voru samtíða, og að trauðlega muni finnast staðfastari maður eða þrekmeiri en hann var. Vilhjálmur var fjórkvæntur, og hèt ein af konum hans *Anna*, dóttir *Móriz* kjörfursta af Saksen; þeirra son var *Móriz*, er enn mun getið. Hin fjórða og síðasta kona Vilhjálms hèt *Lovísa*, dóttir *Colignýs* aðmíráls af Frakklandi, hins ágætasta manns. Þeirra son var *Friðrik Hinrik,* og segir síðar frá honum. Hollendíngurinn *van Lennep* hefir lýst Vilhjálmi á þessa leið: «Hann ólst upp við hirð og í herbúðum Karls fimmta og varð snemma vel að sèr í stjórnvísi og hernaðaríþrótt. Enginn var hans jafníngi í þeirri list, að dylja áform sín og hugsanir fyrir öðrum, og þess vegna var hann kallaður *hinn þögli.* Þó mega menn eigi halda, að hann hafi verið fámálugur í þeim skilníngi að leiðindi væru að; það var öðru nær: hann var skemtinn og fjörugur í viðræðum og viðmóti, og einkum höfðu konur miklar mætur á honum, enda var maðurinn fríður sínum, hermannlegur mjög, og hinn háttprúðasti. Í því var snild hans

fólgin, að öllum fanst hann vera ódulur og bersögull í sömu andránni sem hann alveg duldi þá þess, er honum bjó þá ríkast í skapi, en fèkk þá til að segja sèr sín trúnaðarmál. Minni hans var dæmafátt — sem margra í þeirri ætt — ekki einúngis til þess að muna hluti og viðburði, heldr einnig menn og staði. Hann var vel máli farinn, og var einatt gjörður góður rómur að orðum hans, ekki af því, að hann beitti sèrlegri orðgnótt eða skrautyrðum, heldur af hinu, að ræður hans voru jafnan efnisríkar og kjarkurinn mikill í málinu. Fáir þjóðhöfðingjar hafa jafnast við hann að vitsmunum og hyggindum, og því færri að ástsæld og starfsemi. Hann var að vísu eigi fráskilinn mannlegum breiskleika, og framan af æfinni eigi laus við slægð í stjórnarathöfn sinni, en eptir því sem hann reyndist, varð hugurinn hreinni, og á fullorðinsárum sínum var hann rèttnefnd fyrirmynd annara í þolinmæði, umburðarlyndi og kristilegu lítillæti».

Vilhjálmur var nú dáinn, en hugur hans lifði hjá þjóðinni, og hafði tekið sèr þar bólfestu. Um þessar mundir var landið í miklum vanda eins og að líkindum ræður. Alexander Farnese hafði lagt undir sig suðurfylkin — sem nú tilsamans heita Belgía —; hann hafði 18 þúsundir einvalaliðs, og vofði á hverri stundu yfir norðurfylkjunum. Þau höfðu þar í móti um 5000 vígra manna, og engan fyrirliða; í sumum þeim fylkjum var sundurþykkja með mönnum og jafnvel flokkadrættir; í sumum var hin mesta örbyrgð og volæði, því að óvinir höfðu ruplað þar og rænt. Frá þeim fylkjum var því lítillar liðveizlu að vænta; allur kostnaður og útgjöld lögðust þannig á Holland og Zeeland. En Vilhjátmur hafði þar vel um búið meðan til vanst; hann hafði komið þar fótum undir blómlega verzlun, er færði landinu mikinn auð. En það rættist hèr sem optar, að «þegar neyðin er stærst, þá er hjálpin næst». Menn gjörðust sáttir og sammála í norðurfylkjunum; þjóðþíngi þeirra kaus nefnd manna, eða ríkisráð, til að stýra þeim 7 fylkjum: Brabant, Flandern, Hollandi, Zeelandi, Útrekt, Mecheln og Míslandi, og setti Móriz son Vilhjálms til forseta í ráðinu. Hann var þá 17 vetra og til læríngar í háskólanum í Leyden. Hann varð því að hætta náminu og taka til annara starfa. Að vísu var hann eigi þá þegar vaxinn því, að mæta viturleika Alexanders Farnese og vèl-

um Filippusar annars, þó hann yrði það seinna; en nú lèt forsjónin önnur atvik bera að hendi, sem stöðvuðu um hríð yfirgáng Spánverja á Niðurlöndum. Sixtus 5. settist á páfastól 1585 — eins og áður er sagt — og var þá úti með vináttu hans og Filippusar. Páfunum hafði lengi þótt Filippus taka sèr meiri völd í kirkjunnar málefnum á Spáni, en hófi gegndi, og þá batnaði ekki þegar jafn ráðríkur maður og umfángsmikíll sem Sixtus 5. gjörðist yfirmaður kirkjunnar. Filippus var óvinur Elízabetar drotníngar á Englandi. Sixtusi var það vel kunnugt, og kom hann því til leiðar svo lítið bar á, að Elísabet sendi jarlinn af *Leicester* með liði nokkru til Niðurlanda. Þetta enska lið gjörði reyndar Niðurlendingum minna gagn en margur hafði ætlað, en það varð þó til þess, að Filippus stóðst eigi lengur mótgjörðir Elísabetar og sneri reiði sinni gegn henni. Var það þá áform hans að vinna England, og þegar það væri unnið, þóttist hann eiga als kostar við Niðurlendínga. Hann hafði því viðbúnað mikinn bæði á sjó og landi, og sendi (1588) hinn mikla flota (*armada*), sem áður er um getið, til Englands. En meðan Filippus hafði hugann á Englandi, varð hlè nokkurt á viðureign hans við Niðurlendínga, og kom það þeim í góðar þarfir, enda launuðu þeir nú Englendíngum liðveizluna og gjörðu út fjölda herskipa. Voru sum af þeim í flota með Englendíngum og börðust við Spánverja og eyddu skipum þeirra, en sum höfðu gætur á Alexander Farnese, og bönnuðu honum að koma landhernum af meginlandinu yfir á England. Það er nú kunnugt af því, sem fyr er ritað, að floti Spánverja eyddist að mestu leyti í för þessari bæði fyrir vopnum og veðrum; beið Filippus konúngur og ríki hans þar af hinn mesta skaða. En af skaða Spánverja höfðu Niðurlendíngar gagn. Um þessar mundir var það og, að Filippus vildi koma *Ísabellu* dóttur sinni (dótturdóttur Hinriks 2. Frakkakonúngs) til ríkis á Frakklandi, og drógst svo hugur hans þángað en frá Niðurlöndum. Og ofan á alt þetta bættist það, að Alexander Farnese andaðist undir árslokin 1592. Hann var búinn að vinna undir Spánverja öll suðurfylki Niðurlandanna og bæla þar niður trú prótestanta, en norðurfylkin hèldu enn frelsi sínu og trú; og nú þegar Alexander var frá, slíkur hershöfðíngi sem hann hafði verið, var það eigi á annara færi að sigrast á Móriz og hans hersveitum. Filippus sá,

að hann mundi eigi geta brotið norðurfylkin undir sig, og tók það til bragðs, hið sama ár sem hann dó, að hann afsalaði sèr öllum yfirráðum á Niðurlöndum og fèkk þau í hendur dóttur sinni þeirri, er áður var nefnd, og sem var gipt Albrekt erkihertoga af Austurríki. Hin norðlægu fylki vildu hvorki heyra nè sjá Ísabellu; en hinum syðri fylkjum stýrði hún til dauðadags (1633); komust þau þá aptur undir Spán, því að Ísabella dó barnlaus.

Þegar Spánverjar höfðu farið ófarirnar til Englands og mist megnið af flota sínum, gjörðust Niðurlendíngar djarfir og víðförulir um sjóinn. Til þeirra tíma höfðu Spánverjar og Portúgalsmenn einir setið yfir allri verzlun vestur á Ameríku og austur á Indlandi, og dulið aðrar þjóðir leiðar þángað. Varníng þann, sem þaðan fluttist híngað til álfunnar, urðu Niðurlendíngar að sækja til Lissabonar, og selja hann síðan til Norðurlanda. Nú hugðist Filippus að eyða þeim atvinnuvegi Niðurlendínga, og bannaði þeim allar hafnir í ríki sínu; en bannið varð þeim til auðs og uppheféar. Þeir freistuðu sjálfir að finna leið til Indlands og það tókst. Árið 1595 komst *Cornelíus Houtmann*, hollenzkur maður, alla leið til Austindía, og má för hans heita ný landnámsferð til Indlands; það var hèr um bil einni öld eptir að Vaskó da Gama kom þar fyrst við land. Þegar Niðurlendíngar höfðu fundið leið til Indlands og náð þar fótfestu, urðu skjót umskipti. Verzlun Portúgalsmanna og Spánverja hnignaði, því að þeir kunnu eigi með að fara, en Niðurlendingar voru bæði ötulli menn og starfsamari, og þar að auki miklu siðprúðari í öllum viðskiptum við landsmenn þar austur. Náðu Niðurlendíngar þannig undir sig allri verzlun á *Ceilon, Malakka, Japan* og *Mólúkkaeyjum*, og safnaðist þeim nú mikill auður[1]. En auðurinn hafði í för með sèr alskonar gæði, bæði andleg og líkamleg; atvinna og iðnaður Niðurlendínga varð fjölbreyttur og arðsamur, vísindi og íþróttir tóku miklum framförum, landher og herskipafloti varð mikill og geigvænlegur.

Ófriður stóð enn milli Spánverja og Niðurlendínga um nokk-

1) Höfuðból Niðurlendínga í Austindíum varð borgin *Batavía* á ey þeirri, er *Java* heitir, mikil borg og auðug. Eiga Niðurlendíngar alt til þessa dags mikið ríki þar austur um eyjar, eins og sjá má í landafræða bókum.

ur ár, og veitti Spánverjum miður, enda skorti þá hershöfðíngja, og gjörðust linir í sóknum, en Móriz hinsvegar öruggur fyrirliði, framgjarn og harðdrægur. Loksins var sett vopnahlè milli landanna (1609), er standa skyldi um 12 ár, og viðurkendu þá Spánverja að nokkru leyti sjálfsforræði Niðurlendínga.

Meðan á þessum styrjöldum stóð var þjóðveldi Niðurlendínga komið á fastan fót, og hafði sá maður er *Olden Barneveld* hèt, unnið þar mest og bezt að, hann var ráðherraforíngi þar í landi, og góðgjarn maður og vitur. Hvert fylki átti sèr þíng (stèttaþíng, fylkisþíng) og rèð til lykta sèrstaklegum málefnum sínum, en aðallöggjöf og skattálögurèttur voru lögð til *fulltrúaþíngsins* eða *þjóðþíngsins* (*Generalstaterne*); á því þíngi sátu fulltrúar úr hverju fylki. Landstjórinn ásamt *ráðinu* hafði framkvæmdarvaldið í höndum, en hermálefnum stýrði landstjórinn aleinn. Snemma bryddi á ósamlyndi milli þeirra, er halda vildu fram þjóðstjórn, og hinna er drógu taum landstjórans. Kom sá flokkadráttur einkum fram í trúarbragðadeilum þeim, er risu upp í Niðurlöndum, jafnskjótt sem af lètti ófriðnum við Spánverja. Þeir sem fylgdu Zvínglis kenníngu deildu við hina, sem Calvíns trú höfðu (út af frjálsræði manna og ákvörðun guðs frá öndverðu um eilífa glötun þeirra eða eilífa sælu). Háskólakennari í Leiden *Gomarus* að heiti, fylgdi fast fram kenníngu Calvíns. Með honum stóð hart nær allur klerkalýðurinn, er hafði fengið mentun sína í Genf, og sömuleiðis allur þorri manna, er hafði lært fræðin af klerkunum. Móriz landstjóri fylgdi einnig þeim flokki, því að hann var fjölmennastur og líklegastur til að styðja Móriz til þeirra hluta, sem hann vildi hafa fram. En hinsvegar hèlt annar háskólakennari í Leiden, *Arminíus* að nafni, fram lærdómsgreinum Zvínglis, og var flokkur hans við hann kendur og kallaður: *Arminíanar* og Remonstrantar. Að þessum flokki hneigðist Olden Barneveld og hinn nafnkendi lærði maður *Húgo Grotíus*. Á kirkjuþíngi í *Dortrekt* (1618) urðu Arminíuss menn undir og kenníng þeirra fordæmd. Olden Barneveld og Húgó Grotíns voru handteknir; hinn fyrnefndi dæmdur til dauða og tekinn af lífi, en hinn síðarnefndi slapp úr varðhaldi fyrir snjallræði konu sinnar[1], og komst undan til Frakk-

1) Henni var leyft að senda honum bækur til lesturs þar sem hann sat í varðhaldinu, og voru þær bornar þángað í kistu;

lands. Síðan gekk hann í þjónustu Kristínar Svíadrotníngar, og varð hinn frægasti maður af ritum sínum.

Vopnahlèð milli Spánar og Niðurlanda var á enda árið 1621, og hófst þá ófriður að nýju; en þess ófriðar gætti eigi sèrstaklega, því að hann rann saman við *þrjátigi ára stríðið*, er þá var nýbyrjað. Móriz dó 1625 og þótti mikið hafa að honum kveðið, þótt honum færist illa við Olden Barneveld. Gjörðist þá *Friðrik Hinrik,* hálfbróðir Mórizar, landstjóri Niðurlendínga (1625—1647). Hann var ágætur hershöfðíngi sem bróðir hans hafði verið, en frjálslyndari maður og mildari. Á hans ríkisstjórnarárum gjörðu Niðurlendíngar samband við Frakka gegn Spánverjum, og unnu þeim margt ógagn. Þannig vann hinn hollenzki aðmírall *Marteinn Tromp* mikinn sigur á Spánverjum (1639) og gjöreyddi fyrir þeim flota þeirra. Höfðu Spánverjar aldrei beðið slíkt tjón, síðan þeir mistu «*flotann mikla*» á dögum Filippusar annars. Þegar þrjátigi ára stríðinu var lokið, og *vestfalski friðurinn* saminn, var Spánn að þrotum kominn, og varð að játa sjálfsforræði Niðurlanda, og jafnvel láta lausan við þau nokkurn hluta af Flandern, og Brabant og Limbúrg, sem Hollendíngar höfðu unnið af þeim (menn kölluðu þá landshluta *Generalitets-lönd*). Spánverjar urðu einnig að samþykkjast því, að öll siglíng yrði bönnuð á *Schelde-fljóti*, og var það beinlínis til þess að eyða allri verzlun í Antverpen; en sú borg var einhver hin helzta í þeim hluta Niðurlanda, sem lá undir Spán. Þannig lauk hinni löngu og merkilegu viðureign Spánverja og Niðurlendínga. Hin litla þjóð gekk sigri hrósandi burt að leikslokum, og hafði stórum vaxið í augum allra þjóða. Hinn víðlendi og voldugi Spánn, er flestir hugðu ósigrandi, hafði mist ógrynni fjár og manna, og þar á ofan látið frægð sína og hamíngju.

## England um daga Hinriks áttunda (1509—1547).

*Hinrik sjöundi* varð konúngur á Englandi árið 1485, eins og fyr er ritað[1], og stýrði því ríki til dauðadags (1509). Hann

---

þegar þær voru lesnar, og skyldu á brott bornar fyrir aðrar nýjar, lèt hún mann sinn leggjast í kistuna í stað bókanna, og þannig komst hann á burt.

1) Miðaldasagan bls. 171.

var ráðríkur í stjórn sinni og hèlt ríkt fram konúngsvaldinu, fèkk hann og litla mótstöðu, því að flest stórmenni og ribbaldar voru undir lok liðnir í ófriðnum mikla (*rósastríðinu*), en landsfólkið þráði hvíld og næði, og hugði mest á friðsamleg störf; var því allgóður friður og framför í landi um hans daga. Hinrik konúngur átti tvo sonu; hèt hinn eldri *Arthúr*, en hinn ýngri *Hinrik*. Það var í ráði, að Arthúr tæki konúngdóm eptir föður sinn, en Hinrik skyldi verða erkibiskup, og fyrir því var hann settur til bókmenta, og nam þau fræði, er þá voru mönnum kend. Arthúr var kvæntur, og átti *Katrínu* af Arragoníu, dóttur Ferdínands katólska og Ísabellu; en Arthúr lifði skamma stund og dó á undan föður sínum (1502). Hinrik varð því konúngur yfir Englandi og Írlandi þá er faðir hans dó, og gekk að eiga Katrínu ekkju bróður síns. Hann var nefndur *Hinrik áttundi*. Á hinum fyrstu ríkisstjórnarárum sínum, gaf hann sig mjög lítið við alþjóðlegum málefnum, en lèt ráðgjafa sína sjá fyrir þeim, og hugði sjálfur mest á glaum og gleði, hirðveizlur, turnreiðir og dýraveiðar. Hinrik konúngur faðir hans hafði verið fègjarn maður og naumur, og safnað saman miklum auð. Sonur hans fylgdi öðrum sið, og lèt fèð óspart af höndum rakna, eins og svall hans og geðfrekja kallaði eptir. Um þetta leiti var greifinn af *Súrrey* (hertogarnir af Norfolk eru af þeirri ætt) í mestum metum hjá Hinriki. Þótti mörgum það um of, og lögðu hatur á greifann, og fengu komið þeim manni í kærleika við konúng, er *Wolsey* hèt. Hann var klerkur, úngur að aldri, af lágum stigum, en afbragðsmaður að vitsmunum og snilli. Hann komst brátt til mikilla valda, varð erkibiskup í York (*Jórvík*), og ráðgjafi konúngs, en páfinn veitti honum kardínals tign. Wolsey varð stórauðugur maður; hann var hið mesta skrautmenni, og hinn fyrsti af klerkalýðnum á Englandi, er bar klæðnað af silki og gullofinn; opt hafði hann 800 manna í för með sèr, og þegar hann gekk um strætin, gengu jafnan tveir klerkar fyrir honum, bar annar þeirra kardínals kross, en hinn erkibiskups kross, og þegar hann söng messu í Pálskirkjunni, þjónuðu honum biskupar og ábótar. Karl fimmti og Franz fyrsti höfðu Wolsey í miklum hávegum og keyptu vinfengi hans dýrum dómum.

Þess er áður getið, að Hinrik konúngur átti hlut að málum

útlendra þjóðhöfðíngja, og gaf sig fram í ófrið þann, er þeir áttu saman, en hafði litla sæmd af liðveizlu sinni sökum ótrygðar og þrekleysis, þegar mest lá við. Fyrst vildi hann hefna páfans og kirkjunnar á Loðvíki tólfta; þar næst gekk hann í lið með Karli fimmta gegn Franz fyrsta, og fylti keisarans flokk, þángað til Franz konúngur beið ósigurinn við Pavía, þá skipti Hinrik um skildi og gekk í lið með Frökkum, og að síðustu varð hann af nýju með keisara og í móti Frökkum. Til allra þeirra leiðángra eyddi Hinrik bæði fè ríkisins og fjöri manna sinna, án þess að koma nokkru, sem teljandi sè, til leiðar. Þegar fè það, sem »*parlamentið*« veitti konúngi, hrökk eigi til kostnaðarins, lagði Hinrik konúngur skatta á landið eptir sjálfs síns geðþótta, og kúgaði þannig fè út hjá mönnum, hlífði eigi heldur klerkum í þeirri grein, þegar svo bar undir, jafnvel þó klerkalýðurinn væri þá enn í miklu gengi á Englandi, og páfinn hèldi þar allri sinni tign og yfirráðum, enda sagði hann: »að England væri hinn fegursti gimsteinn í kórónu sinni«, því að frá engu landi kom jafnmikið fè í páfagarð sem frá Englandi. Siðabótin fluttist yfir á England og fekk þar marga áhángendur, eins og við mátti búast í því landi, þar sem Jóhann Wycliffe[1] hafði lifað og kent; en Hinrik stóð fast á móti allri siðabót, og til þess að sýna mönnum, að hann kynni nokkuð í fræðunum, ritaði hann bækling móti kenníngu Lúthers (*de septem sacramentis*, þ. e. um þau sjö sakramenti); geðjaðist páfa svo vel að því riti, að hann gaf konúngi nafnbót og kallaði hann »*verndarmann trúarinnar*« (*defensor fidei*). En vinátta stóð aldrei lengi þar sem Hinrik áttundi var öðrum þræði. Hann varð litlu síðar hinn mesti óvinur páfans, og kom það svo til. Hinrik átti Katrínu, ekkju bróður síns, eins og áður var sagt, og hafði fengið leyfi hjá páfa til þess að kvongast henni, því að kirkjurètturinn bannaði. Þau konúngur og drotníng áttu eina dóttur barna, er *María* hèt, og segir síðar af henni. Nú höfðu þau búið svo saman nokkur ár, að alt fór slysalítið. Þá fekk konúngur ástarhúg til einnar af hirðmeyjum drotníngar; sú hèt *Anna Boleyn*, dottur dóttir Súrreys greifa, þess er fyr var nefndur, hin fríðasta mær og bezti kvennkostur. Hún vildi með engu móti þýðast konúnginn, og kom honum þá til hugar að segja

1) Miðaldarsaga bls. 168—169.

skilið við drotníngu sína, kvongast Önnu og setja hana í drotníngar sess. Katrín drotníng vildi eigi gefa samþykki sitt til skilnaðar, en konúngur, er vildi fara að þessu öllu sem bezt fyrir manna sjónum, leitar páfans, kveðst eigi lengur geta búið saman við Katrínu fyrir samvizkunnar sakir, og beiðist skilnaðar við hana. Nú var páfinn (Klemenz VII.) í allmiklum vanda staddur. Hinrik konúngur, hlífiskjöldur trúarinnar, var annarsvegar, en hinsvegar Karl keisari fimmti. Karl var systursonur Katrínar drotníngar, og allra konúnga voldugastur; það var ískyggilegt að styggja hann, og það því fremur, sem þeir voru fyrir skemstu orðnir sáttir, páfinn[1] og keisarinn, og Karl hafði beinlínis mælzt til þess, að Klemenz legði eigi samþykki sitt á hjónaskilnað Hinriks án sinnar vitundar. Klemenz vildi hvorugan styggja og tók það ráð, að hann fól Wolsey kardinála á hendur, að ransaka málið, og sendi þar að auk legáta sinn litlu síðar (í október 1528) til Englands í þeim erindum; en það sagði páfinn þeim einslega, að fresta sökinni það þeir frekast kynnu; þeir reyndu fyrst kardínálarnir, að fá drotníngu til þess góðmótlega, að skilja við konúng og gánga í klaustur, en þegar hún setti þar þvert nei fyrir, þá lètu þeir sökina koma í dóm. Drotníng undi eigi við svo búið og skaut máli sínu til páfans.

Nú þótti konúngi vandast málið; verður hann ákaflega reiður, og kennir Wolsey um alt hvernig farið hafði, og rekur hann úr völdum. Litlu síðar lætur konúngur taka Wolsey höndum, og býður að flytja hann til Lundúna, og höfða sök á hendur honum fyrir drottinssvik. Fekk þetta alt Wolsey svo mikillar áhyggju, að hann lagðist veikur og dó skömmu síðar. Á banasænginni mælti Wolsey: «hefði eg þjónað guði eins dyggilega og konúngi, þá mundi hann eigi hafa rekið mig frá sèr á elliárum».

Meðan verið var að velta því fyrir sèr, hver ráð mundu líklegust til þess að samþykki páfa fengist til hjónaskilnaðarins, lagði klerkur einn, er *Cranmer* hèt, það til ráðs, að leita skyldi atkvæða hinna nafnfrægustu háskóla, og vita hvað þeir segðu um málið. Svo var gjört, og urðu fleiri á því, að skilnaður skyldi fram fara. Þetta lèt Hinrik sèr nægja hvað sem páfinn sagði;

1) Páfinn var þá nýlosnaður úr varðhaldinu á Engilsborg (sjá að framan bls. 32).

hjúskapur konúngs og drotníngar var dæmdur ógildur. Hinrik kvæntist Önnu (1532), og Cranmer varð erkibiskup í Kantaraborg.

Öll þessi hjúskapar umsvif Hinriks konúngs leiddu eptir sig önnur og meiri tíðindi. Honum var orðið svo gramt í geði við páfann, að hann vildi hvorki heyra hann eða sjá. Þess vegna lèt hann «parlamentið» — er um þær mundir var að eins verkfæri í hans hendi — lýsa yfir því, að hin enska kirkja væri að fullu og öllu laus af páfans valdi og afskiptum, en *konúngur einn hennar æðsti biskup og yfirráðandi.* Konúngur kastaði eign sinni á margt og mikið kirknagóz, og tók undir sig öll klaustur í landinu, og skiptu þau hundruðum; misti páfastóllinn þar miklar tekjur. En fyrir þá sök, að konúngi var jafnílla til Lúthers sem til páfans, þá breyttist trúin lítið til hins betra fyrir allar þessar aðfarir konúngs. Hann brauzt miklu fremur í móti páfa en katólskum sið; honum var alt um að gjöra, að verða sem einráðastur í öllu. Hann krafðist af þegnum sínum, að þeir skyldu sverja sèr, sem yfirráðanda kirkjunnar, nýja hollustu-eiða (Suprematseið), og fylgja í öllu þeim 6 trúargreinum, sem hann sjálfur fyrirskipaði, og hvort sem það voru katólskir menn eða prótestantar, sem skoruðust undan þeim eiðum, þá lèt hann refsa þeim vægðarlaust, eða taka af lífi. Á meðal hinna mörgu, sem þannig lètu líf sitt, má hèr nefna *Fisher* biskup og *Tómas Mórus*, kansellera, hina lærðustu menn og merkustu.

Samvístir þeirra Hinriks og Önnu Boleyn urðu skammvinnar. Honum leizt vel á mey þá, er hèt *Jóhanna Seymour*, og sem var þar við hirðina. Óvinir Önnu drotníngar urðu þess vísari og báru skjótt óhróður á drotníngu, og trúði konúngur rógi þeirra gjarnsamlega, lèt síðan dæma hana til dauða og hálshöggva (1536). Dóttir þeirra Hinriks og Önnu var *Elísabet*, er síðan varð drotníng á Englandi og mjög fræg. Degi síðar en Anna drotníng lèzt, gjörði Hinrik brúðkaup sitt til Jóhönnu Seymour, og var þá hinn kátasti. Litlu síðar hèlt hann ræðu í parlamentinu, og gat þess meðal annars, að áður tvívegis hefði hann átt litlu láni að fagna í hjúskapnum, en þó hefði hann nú ráðizt í, að kvongast í þriðja sinn, af einberri umhyggju fyrir þegnum sínum. Var gjörður mikill rómur að ræðu hans, og einn af þíngmönnum svaraði máli konúngs svo: að hann ætti engan sinn líka, að speki væri hann sem Salómon, að afli og

hreysti sem Samson, og að fegurð sem Absalon. Þannig töluðu menn á Englandi í þær mundir. Hinrik konúngur gat son við Jóhönnu drotníngu sinni (1537); hann var nefndur *Játvarður*, og varð síðan konúngur, en móðir hans andaðist af þeim barnburði. Konúngur undi illa einlífi og kvæntist hið fjórða sinn, og fekk, eptir tillögum ráðgjafa síns, er *Cromwell* hèt, *Önnu*, systur Vilhjálms hertoga af Cleve. En er konúngur sá hana, þóttist hann gabbaður af ráðgjafanum, því að Anna var miklu ófríðari sýnum en mynd sú, er konúngur hafði sèð. Lèt konúngur slíta þeim samvistum sem fyrst hann kunni, og taka ráðgjafann af lífi. Fáum vikum síðar fèkk konúngur fimmtu konunnar; hún hèt *Katrín Hóward,* frændkona hertogans af Norfolk. En það fór sem fyr, hún varð ekki ellidauð í drotníngar sessi; henni var gefið að sök, að hún væri ótrú manni sínum, og lèt konúngur stytta henni aldur eptir tveggja ára sambúð (1542). Í sjötta og síðasta sinni kvæntist konúngur og átti *Katrínu Parr,* ekkju lávarðar eins í ríki sínu. Það lá við sjálft, að drotníng þessi fengi sömu afdrif sem Anna Boleyn eða Katrín Hóward, en með vitsmunum sínum og stillíngu fèkk hún afstýrt þeim óförum. Hinrik 8. dó 1547, og var þá 56 ára að aldri, en konúngur hafði hann verið 38 vetur. Harmaði engi maður hans lát, því að hann hafði beitt hinu mesta ofríki við þegna sína, bæði í trúarefnum og öðrum greinum, og látið margan saklausan af lífi taka, en sóað burt fè ríkisins, og rýrt sæmd þess í augum annara þjóða, enda er enginn vafi á því, að England hefði miklu getað til vegar komið á þeim tímum, meðan þeir Karl fimmti og Franz fyrsti deildu um völdin, ef konúngur þess hefði verið meiri og betri maður en Hinrik áttundi var.

### Játvarður sjötti (1547—1553). María (1553—1558).

Þegar Hinrik áttundi var látinn, var *Játvarður* sonur hans til konúngs tekinn, *hinn sjötti* með því nafni (1547—1553). En með því að hann var þá barn að aldri, voru nefndir til menn að hafa öll ríkisforráð á hendi, og var móðurbróðir konúngs, *Játvarður Seymour* hertogi af *Sommerset,* þeirra fyrstur og fremstur. Hertoginn var vinveittur siðabótinni og náði hún því skjótt miklum vexti og viðgángi á Englandi, einkum fyrir viturleg ráð og framgöngu *Cranmers,* erkibiskups af Kantaraborg, er telja

má höfund siðabótarinnar á Englandi. En Játvarður konúngur var heilsulaus og andaðist 16 vetra gamall 1553. Kom þá hálfsystir hans *María,* dóttir Hinriks áttunda og Katrínar af Arragoníu, til ríkis (1553—1558). María var allra kvenna grimmust og ramkatólsk, og hugðu margir hið versta til hennar. Játvarður sjötti, sem einnig fylgdi hinum nýja sið og hafði óbeit á Maríu, vildi að Elísabet systir sín tæki ríki að sèr látnum, en hertoginn af *Northumberland* (Norðymbraland), er öllu rèð eptir að Sommerset var dáinn, kom því til leiðar, að *Jóhanna Grey,* er komin var í kvennlegg af Hinriki sjöunda, var kjörin til drotníngar. Jóhanna var gipt syni hertogans, úng að aldri og öllum kvennkostum búin. Hún tók nauðug við þeirri tign, sem tengdafaðir hennar hafði sett hana í, og hèlt henni líka stutta stund, því að María safnaði liði og varð fjölmenn; hertoginn var tekinn höndum og hálshögginn, og litlu síðar fèkk Jóhanna og maður hennar sömu afdrif. María settist að ríkisstjórn og kom skaplyndi hennar þegar í ljós. Hún lèt sèr mest um það hugað, að bæla siðabótina niður og eyða því öllu, er gjört hafði verið henni til eflíngar, meðan Játvarður bróðir hennar bar konúngs nafn; en parlamentið var svo duglaust og leiðitamt, að það ónýtti öll þau lög um kirkna og trúarbragða málefni, sem sett höfðu verið á dögum Játvarðar; dirfðist nokkur að mæla í móti var hann drepinn, en margir lètu eignir sínar og óðöl, og flýðu af landi burt til Þýzkalands eða Sveizalands. Elísabetu systur sína lèt María setja í varðhald, og lèt hana gjalda þess saklausa, að móðir sín hefði orðið að víkja úr sessi fyrir Önnu Boleyn móður Elísabetar. Cranmer erkibiskup var tekinn, og sat lengi í dýflissu áður hann var brendur á báli 1556. Sömu æfilok fengu ýmsir ágætismenn á Englandi á þeim árum, sem þessi blóðþyrsta drotníng sat þar að völdum; enda var hún kölluð *Blóð-María.*

Árið 1554 giptist María Filippusi öðrum Spánarkonúngi, og jók það eigi á vinsældir hennar í Englandi, því að landsmönnum leizt illa á hann, og þóttust vita fyrir víst, að sá ráðahagur mundi alls eigi vera stofnaður af umhyggju fyrir Englandi, heldur miklu fremur af ábatavon, til þess að efla Filippus konúng og ríki hans á Spáni. Að vísu var svo á kveðið, að Filippus skyldi að eins bera konúngs nafn á Englandi, en als engi ráð

hafa á ríkismálefnum, spánverskir menn eigi hafa þar embætti á hendi, og engu skyldi breytt í landslögum fyrir konúngs sakir eða kvonfángs hans. En þó nú svo væri, þá vissu menn samt, að slíkur maður sem Filippus mundi engin góð áhrif hafa á Maríu drotníngu sína, eða hennar ríkisstjórn. Filippus sá, að Englendíngum var kalt í geði til sín, enda galt hann þeim líkt í móti, og var við þá fátalaður, reigíngslegur og stirður. Hann hafði litla viðdvöl á Englandi, og þótti Maríu það þúngur kostur, því að hún unni honum mjög, og mátti eigi af honum sjá, og í engu móti honum láta. Þegar hann hafði tekið við ríki, kom hann aptur til Englands (1557), en einúngis í þeim erindum að fá þar liðveizlu, og koma Englandi í ófriðinn með sèr gegn Hinriki öðrum Frakkakonúngi. Hann sagði drotníngu, að hann kæmi eigi optar til Englands, ef hún yrði eigi við þessari bón hans. María gjörði alt, sem í hennar valdi stóð, til þess að sjá honum fyrir fè og liðveizlu. Ríkisráðið synjaði í fyrstu, en lèt um síðir að vilja drotníngar. Lèt hún þá kúga fè út hjá landsmönnum, og, ef þeir tregðuðust við að gjalda, var þeim varpað í dýflissur. Eins og landsmenn grunaði, hafði England ekki annað af sambandi þessu og fylgd sinni við Filippus annan, en mínkun og manntjón. Englendíngar mistu *Calais*-borg (1558), sem *Franz hertogi af Guise*, frakkneskur hershöfðíngi, vann af þeim. Þá borg höfðu Englendíngar átt framan úr miðöldum, eins og fyr er ritað. Maríu drotníngu fèlst svo mjög um þenna missi, að hún dó á ofanverðu því sama ári (1558). Þau Filippus áttu ekki barna, og þótti flestum það betur farið.

## Elísabet (1558—1603), og María Stúart.

Þegar María var dáin, og Elísabet kemur til sögunnar, þá er sem sorta dragi af Englandi og birti yfir landi og lýð. Hin enska þjóð hafði verið þjáð og þúngt haldin; hún þurfti læknar við, og fèkk hana. Það er sagt, að hið enska «parlament» hafi setið á ráðstefnu, þá er því barst fregnin um lát Maríu drotníngar, og hafi allur þíngheimur svarað þeim boðskap einum rómi og sagt: «guð varðveiti Elísabetu drotníngu, lifi hún og ríki lengi og vel!» Kom hún þá skjótt til Lundúna, þaðan sem hún hafði setið í varðhaldi, fèll á knè fyrir allra sjónum og þakkaði guði, er svo dásamlega hefði varðveitt hana

frá öllum ofsóknum. Elísabet hafði reynt mikið og margt; móðir hennar verið hálshöggvin, stjúpmæður hennar verið henni harðar, og systir hennar þessa verst. Í einveru sinni hafði hún stundað vísindi og fagrar listir af miklu kappi; hún talaði og ritaði vel latínska túngu, og var vel að sèr í mörgum fornum fræðum, og mælti á margar hinar nýjari túngur. Þó að hún hefði setið í dyflissu og verið opt harðlega haldin, var hún samt hraust og heilsugóð; hún var vel vaxin og höfðíngleg á velli, svipfögur, og sómdi sèr hverri konu betur á hestbaki; hugurinn frábærlega kjarkmikill; hún var stórvitur og vel stilt, og því var það eðlilegt, að henni væri vel lagið að stjórna öðrum. Jafnskjótt sem Filippus konúngur annar frètti, að Elísabet væri sezt að ríkjum, var hann eigi seinn á sèr að biðja hennar. En Elísabet vissi, að landsfólkinu var illa til hans, enda kveið hún því, að bæði sá ráðahagur og hver annar mundi hepta frelsi sitt og leggja fjötur á framkvæmdir sínar í ýmsum greinum ríkisstjórnarinnar; þess vegna neitaði hún þeim ráðahag. Ýmsir göfugir menn og konúngasynir urðu til að biðja hennar — einn af þeim var *Eiríkur fjórtándi*, Svíakonúngur, — en hún neitaði þeim öllum. Þjóðþíngið (parlamentið) vildi að hún giptist, í þeirri von, að ríkiserfðum mundi þá betur borgið, en hún svaraði: «England er maðurinn minn, og hin enska þjóð börnin mín, allur sá mikli barnahópur liggur mèr ríkt í skapi, eg má eigi skipta hug eður hjarta til annara út í frá, eg æski helzt að á legsteini mínum standi þessi orð: »hèr hvílir Elísabet sem lifði og dó meydrotníng« (*Here lies Elisabeth, who lived and died a maiden queen*»). En þó að Elísabet vildi eigi giptast, var henni samt einkar kært, og það fram á elliár, að heyra sèr hælt fyrir fegurð og ýmsa þá kosti, er menn segja að konum þyki alment ljúft að heyra að þær hafi.

Eitt hið fyrsta, sem Elísabet sá að lagfæríngar þurfti við í ríkinu, voru trúarbrögðin. Sjálf var hún fædd og alin upp í trú prótestanta; henni var því mjög ant um að viðrètta siðabótina (sem stórum hafði eyðst á Englandi fyrir ofsóknum Maríu systur hennar), og hafði í því efni góðan ráðanaut þar sem var ráðgjafi hennar, *Burleigh* lávarður, hinn vitrasti maður, og hinn ótrauðasti talsmaður siðabótarinnar. Það leið eigi á löngu, áður drotníng staðfesti lög þau um trúarbrögð og kirkjumálefni, er

Játvarður sjötti hafði sett, og lèt hún varða hegníngu, ef nokkur mælti í gegn yfirráðum krúnunnar yfir kirkju og kirkjunnar málefnum. Þótti katólskum mönnum, sem við var að búast, sèr allmjög misboðið í þessu, og varð gramt í geði til drotníngar. Hún lèt semja trúarjátníngu í 39 greinum, og gilda þær enn í hinni ensku kirkju, er menn nefna «*biskuplega eða episkópalkirkju*», því að auk þess sem konúngur hefir þar æztu stjórn kirkjunnar, þá hafa biskupar þar meiri yfirráð en í öðrum siðabótarlöndum; að öðru leyti er trúarregla ensku kirkjunnar líkust kenníngu Calvíns, jafnvel þó sumu væri haldið af siðum katólskra manna. Hin enska kirkja er þessvegna nokkuð sèrstakleg í eðli sínu. Sumir af þegnum drotníngar, þótt prótestantar væru, undu ílla þessum setníngum og fyrirskipunum, og sögðu skilið við þjóðkirkjuna, og mynduðu söfnuði fyrir sig; fengu þeir ýms nöfn og hafa verið kallaðir »*Dissentar*» og «*Nonconformistar*» ; en að því leyti sem þeir vildu hreinsa guðsþjónustugjörð sína af öllum þeim kirkjusiðum, af allri þeirri viðhöfn, er líktist siðum pápiskra manna, voru þeir nefndir »*Púrítanar*«, en »*Presbyterianar*« að því leyti sem þeir vildu, að hinir elztu í söfnuðunum stýrðu kirkjunnar málefnum. Hin enska þjóðkirkja átti þannig við tvennskonar mótstöðumenn að stríða, annars vegar *katólska flokkinn*, hins vegar *Dissenta-* eða *Púrítanaflokkinn;* þjóðkirkjan sjálf hèlt einskonar meðalveg millum beggja hinna flokkanna.

Katólski flokkurinn var fjölmennur á Englandi, og taldi marga göfuga menn og málsmetandi; sá flokkur gat því orðið Elísabetu allgeigvænlegur, og það því fremur, sem hann neitaði því, að hjónaband Hinriks áttunda og Önnu Boleyn hefði verið lögmætt, og þar af leiddi þá beinlínis, að Elísabet var eigi borin til ríkiserfða, heldur *María Stúart* sem komin var af Hinriki sjöunda Engla konungi*.

Skotar koma mjög við Englands sögu á dögum Elísabetar. *Stúarta-ættin* hafði ráðið ríkjum á Skotlandi frá því á ofanverðri 14. öld (1371) og hètu nokkrir konúngar af þeirri ætt Jakobar. Einn þeirra var Jakob 3., sem kvæntist Margrètu, dóttur Kristjáns fyrsta Danakonúngs, og fèkk í stað heimanmundar með henni Hjaltland og Orkneyjar[1] er síðan hafa fylgt Skotlandi.

1) Sjá Miðaldasögu bls. 276.

*) *Hinrik* 7. (af Túdor)
Englands konúngur, † 1509

Arthúr † 1502.

*Hinrik 8.*
Engl. konúngur, † 1547.

*María*
gipt Filipp. 2.
Engladrotníng
† 1558.

*Elísabet*
Engladrotníng
† 1603.

Játvarður 6.,
Englakonúngur
† 1553.

*Margrèt*
gipt Jacobi 4. Skota konúngi

*Jacob 5.*
Skota konúngur † 1542,
átti Maríu af Guise

*María Stúart* † 1587
gipt Hinriki Darnley † 1567

*Jacob 1.* (6.)
konúngur Stórbretalands og Írlands
† 1625,
giptur Önnu af Danmörku

Karl 1. † 1649.

Siðabótin fluttist einnig til Skotlands, en *Jakob konúngur fimmti* hèlt fast við fornan sið, og vildi fyrir engan mun missa yfirráð páfans, og flæktist fyrir þá sök í ófrið við Hinrik áttunda móðurbróður sinn, en hafði ógagn af og dó litlu síðar 1542. Hann lèt eptir sig eina dóttur nýfædda, er *María* hèt. Drotníng Jakobs fimmta hèt *María af Guise* (systir Franz hertoga þess er vann Calais, og þeirra bræðra hans). Hún stýrði Skotlandi fyrir hönd dóttur sinnar meðan hún var í bernsku, og spornaði hvað hún kunni, eins og ættmenn hennar á Frakklandi, móti siðabótinni, og fèkk til þess styrk af hinni frakknesku stjórn. Drotníng sendi og Maríu dóttur sína til Frakklands, og ólst hún þar upp við hirðina, en hirðlífið í París var um þær mundir mjög blendið. Nú þótt siðabótamenn væru ofsóttir á Skotlandi, fjölguðu þeir þar óðum, einkum eptir að Elísabet kom til ríkis á Englandi. Þjóðþíng Skota setti þau lög (1560), að Calvíns trú skyldi fylgt verða þar í landi, og kirkjumálum öllum skipað á þá leið, sem siður var til í Genf., enda hafði *Jón Knox*, hinn mikli og merki forvígismaður siðabótarinnar á Skotlandi, lært í Calvíns skóla.

María Stúart ólst upp á Frakklandi, eins og fyr var sagt, og var allra kvenna fríðust sýnum. Hún giptist á únga aldri Franzi, elzta syni Hinriks Frakka konúngs annars, og varð hann konúngur eptir föður sinn (1559—1560) og nefndur *Franz annar*. Var nú Frakkland og Skotland nákvæmlega sameinað, er María var drotníng beggja landanna; en sú sameiníng stóð að eins stutta stund, því að Franz konúngur andaðist eptir eins árs ríkisstjórn. Þau María átttu eigi börn saman, og fór hún þá burt af Frakklandi, þó henni væri það mjög á móti skapi, og til ríkis síns á Skotlandi; þá var hún 19 vetra að aldri. Um þær mundir dó þar drotníngin, móðir hennar. María Stúart hafði numið katólska trú á Frakklandi og hèlt fast við hana, en varð að láta sèr lynda, að Calvíns trú, eða, sem hún alment nefndist á Skotlandi, *presbyterianska* trúin, hèldist sem þjóðtrú á Skotlandi. Skamma stund hafði María verið á Skotlandi og stýrt ríki sínu, áður kólna tók vináttan með henni og Skotum. Þeir undu því illa, að drotníng gjörði meiri veg og virðíngu frakkneskra manna þar í landi heldur en þegna sinna, að hún hugði fremur á alskonar munaðarlíf heldur en alvarleg störf; en Skotar voru al-

vörumenn miklir og siðavandir; en það sem þeim einkum mislíkaði var það, að drotníngin var katólsk, og katólskum sið var fylgt við hirðina. Landsmenn bjuggust á hverri stundu við, að drotníngin, með tilstyrk Frakka og annara pápiskra manna, mundi bæla niður eða eyða trú þeirra. Ástandið var því engan veginn skemtilegt á Skotlandi. En alt um það urðu þó margir menn til þess að eggja drotníngu á að giptast; voru þá tilnefndir ýmsir, er líklegir þóttu til þess ráðahags, og varð sá maður hlutskarpastur í kjörinu, er *Hinrik Darnley* hèt, tvítugur að aldri og hinn fríðasti sýnum, en þá er líka alt upp talið. Hann var sonur greifans af *Lenox,* frænda Stúartanna, en þar að auki náskyldur Maríu drotníngu í móðurætt, því að *Margrèt,* móðir Darnleys, var systurdóttir Hinriks áttunda.

María Stúart þóttist borin til ríkis á Englandi og hafði gjört tilkall til þess; frændur hennar Guisarnir studdu fast að því, og katólski flokkurinn á Englandi, eins og fyr var getið; þess vegna vakti Elísabet drotníng nákvæmlega yfir áformum og fyrirtækjum Maríu. Elísabet vildi helzt, að María giptist aldrei, allra sízt útlendum manni; hún lèt það svo vera, að hún ætlaði að eiga Darnley, henni var ekki um það, en hún hugðist þó hafa ráð hans í hendi sèr, því að þeir feðgar áttu lendur miklar á Englandi. Nú þegar hèr var komið, lèt María hana vita, að hún ætlaði sèr að giptast Darnley. Elísabet bar þetta undir ráðgjafa sína og leizt þeim illa á; þeim þótti landstjórninni á Englandi meiri hætta búin en áður, af því að Darnley var líka kominn af Hinriki sjöunda, og prótestantatrúnni hætta búinn, af því að Darnley var katólskur. Elísabet gat eigi annað gjört, til að aptra þessu hjónabandi, en að boða þá báða Lenox greifa og son hans heim í ríki sitt, þar sem jarðeignir þeirra voru; en hvorugur þeirra kom, og gjörði drotníng þá upptækar eignir þeirra og lagði til krúnunnar. María giptist Darnley 1565 um miðsumarsleiti og gaf honum konúngsnafn. En það, sem margan hafði grunað, kom nú brátt í ljós og varð að fullri vissu. Samfarir þeirra Darnleys og drotníngar urðu hinar verstu. Hvorugt hafði annað þekt, en hrapað að hjúskapnum eins og börn. María var munaðargjörn og lèttlynd og gat sèr um fátt neitað það er hugurinn girntist; Darnley var drambsamur og drotnunargjarn, svallsamur og ósiðlátur. Þar við bættist og, að þar var söng-

maður einn við hirðina, ítalskur að kyni, er *Rizió* hèt. Þann mann hafði María drotníng í hinum mestu hávegum, og fèkk jafnvel óorð af. Landsmenn undu því mjög illa og það því fremur, sem menn vissu, að brèf fóru milli Riziós og páfans; trúarbrögðum Skota gat verið hætta búin. Þar kom að nokkrir menn gjörðu samsæri gegn Rizió, en Darnley var sjálfur oddviti þeirra. Einn aptan (9. marz 1566) sat drotníng að kveldverði ásamt Rizió og fleiri mönnum. Þá var hrundið upp hurð að herbergi drotníngar; var þar Darnley kominn og þeir fèlagar hans. Drotníngu varð hverft við og spurði hvað um væri að vera; þeir kváðu hana skyldu eigi saka, en Rizió hafa makleg málagjöld; veittu honum þegar í stað aðgöngu og drápu hann þar, hvað sem drotníng sagði; varð hún nú ákaflega reið og hèt að hefna slíkrar skapraunar, og efndi þau hótunaryrði á nokkrum þeirra, er hún lèt af lífi taka; þótti Darnley illa skiljast við fèlaga sína, er hann kom þeim eigi undan, og fèkk hann ámæli mikið af öllum, og þó að Maríu væri illa við hann áður, þá varð það nú hálfu ver eptir morðið á Rizió. Skömmum tíma þar á eptir varð drotníng lèttari og ól sveinbarn. Sá sveinn var nefndur *Jakob*, og varð seinna konúngur. Eigi þótti Elísabetu það góðar frèttir.

Þegar Rizió var dauður, komst maður sá í mikla kærleika við Maríu, er *Bothwell* hèt, hann var af göfugum ættum á Skotlandi, djarfur maður og hugrakkur, en ójafnaðar maður hinn mesti og óhlutvandar í flestu. Á öndverðu ári 1567 varð Darnley mjög sjúkur þar sem hann var staddur í Glasgow, og grunaði marga, að af eitri mundi vera; þó batnaði honum, og kom drotníng til hans og var þá allblíð; varð hann henni samferða til Edinborgar, og settist að í garði einum skamt fyrir utan borgina; var drotníng þar nokkra daga hjá honum. Eitt kveld fór hún til borgarinnar og kvaðst mundu verða þar um nóttina. En þá sömu nótt urðu þau tíðindi á garði þeim, er Darnley var í, að húsin flugu í lopt upp; lèt Darnley þar líf sitt (1567).

Það var ætlun margra, að drotníng mundi vera í vitorði um vígið Darnleys, en að Bothwell hefði verkið unnið. Þó þorðu menn eigi að hafa slíkt í hámælum. Lenox höfðaði sök á hendur honum, en veitti þó allerfitt, því að drotníng breytti í engu til um upptekna hætti, og var Bothwell vinur hennar fullkominn

eptir sem áður; dæmdu dómendur hann sýknan, og varð nú eigi aðgjört. Nokkrum dögum síðar fèkk Bothwell skjal eitt, og var hann þar beðinn að kvongast og eiga Maríu drotníngu. Lèk það orð á, að þeir menn, sem skjalið sömdu, hefðu gjört það fyrir beiðni hans og fögur loforð og jafnvel hótanir. Um þètta leyti fór drotníng úr borginni og til bæar þess er Stirlíng heitir. Þángað kom Bothwell með 1000 manna, tók drotníngu og hafði hana á brott þaðan og kvongaðist henni, hvað sem hver sagði, og þvert á móti ráðum Elísabetar og frænda hennar á Frakklandi. Eigi er þess getið, að drotníngin lèti sèr mislíka slíkar aðfarir. Þá voru liðnir 3 mánuðir frá vígi Darnleys. Bothwell var kvæntur annari konu fyrir sex mánuðum, og sagði samstundis skilið við þá konu. Alt þetta bendir til þess, að drotníng hafi eigi látið sèr alt í augum vaxa. En þó að það verði eigi varið, að Maríu Stúart hafi í mörgu yfirsèzt, þá er hitt engu síður satt, að fáar konur hafa sárari bótum svarað fyrir yfirsjónir sínar en hún.

Mikið þótti nú aðgjört. Konúngur verið drepinn, og sá kominn í hans stað, er allir grunuðu um morðið. Það var meira en þjóðin gæti borið. Alt stórmenni landsins gjörði uppreisn og ætlaði að taka Bothwell höndum, en hann komst undan og til Orkneyja, og gjörðist þar víkíngur um nokkra hríð; þó varð honum þar eigi viðvært, og flýði þá til Norvegs, og þaðan til Danmerkur; var hann settur þar í dýflissu, og sat þar nokkur ár áður hann misti vitið, og dó þannig í eymd og volæði. En það er frá Maríu drotníngu að segja, að hún gafst upp fyrir mótstöðumönnum sínum og gekk á vald þeirra; fluttu þeir hana fyrst til Edinborgar, og síðan settu þeir hana í varðhald í höll þeirri, er *Lochleven* heitir, og höfðu sterkar gætur á henni. Þar varð hún að afsala sèr ríkisstjórn og öllum rètti til hennar, en Skotar tóku til konúngs yfir sig Jakob, son hennar og Darnleys, var hann þá ársgamall, og nefndur *Jakob sjötti* (1567). Jarlinn af *Murray,* hálfbróðir Maríu, tókst á hendur að hafa ríkisforráð meðan Jakob var í bernsku.

En María lèt eigi hugfallast fyrir þetta, og vildi freista hamíngjunnar. Hún slapp úr varðhaldinu, safnaði liði og vildi brjótast til ríkis, en Murray jarl varð þar yfirsterkari og varð drotn-

íng að flýja. Til Frakklands gat hún eigi komizt, og var þá enginn annar kostur en leita til Englands á náðir Elísabetar (1568). En er Elísabetu kom sá boðskapur, kallaði hún saman ráðgjafa sína og rèðst um við þá hvað gjöra skyldi. Hèr var um þrent að gjöra: leyfa Maríu óhindraða för til Frakklands; veita henni landsvist með fullu frelsi á Englandi, eða í þriða lagi: styrkja hana aptur til ríkis á Skotlandi. Ráðgjöfum þótti allir þessir vegir ófærir, því að katólskan var megn og hafði augastað á Maríu, og vildi koma henni til ríkis á Englandi; þeir sögðu, að ríkstjórn Elísabetar og þjóðtrú Englands væri hætta búin, og þannig væri eina ráðið, að hafa Maríu Stúart í varðhaldi, og geyma hennar vandlega þángað til útgjört væri um málefni milli hennar og landsmanna á Skotlandi. Elísabet hèt Maríu að hún skyldi ransaka sakargiptir þær, er Skotar báru á hana, og reyndist það þá, að hún væri laus af öllu vitorði um dráp Darnleys, þá kvaðst Elísabet mundu styrkja hana aptur til ríkis á Skotlandi. Að þessum kostum gekk María; var hún nú flutt til hallar einnar á Englandi, og hafði á henni sterkar gætur; menn voru nefndir í gjörð, og María kvaddi þá til, er halda skyldu svörum og vörn uppi af hennar hendi fyrir gjörðarmönnum. Murray jarl gekk sjálfur að dómum, og bar sakir á drotníngu um vitorðið, og sýndi ýms brèf og skilríki til þess að færa sönnur á sitt mál. Nú bjuggust allir við, að talsmenn Maríu mundu færa fram vörn og sýna sýknu hennar af málinu, en í þess stað fóru þeir fram á, að allri ransókn væri þegar hætt, og síðan skyldi samið og sætzt á málið. Það vildu hinir ensku gjörðarmenn als eigi; var þá hætt við svo búið. Elísabet lýsti yfir því, að hún vildi eigi sjá Maríu fyr en hún hefði hreinsað sig algjört undan ámæli því, er á hana var borið. Fór það svo, að þær sáust aldrei.

Um þessar mundir varð órói nokkur á Englandi af katólskum mönnum, er leysa vildu Maríu úr varðhaldi og bjarga síðan trú sinni; en þeir fóru ráðlauslega, og fekk Elísabet eytt flokki þeirra. Nú kom páfinn til sögunnar, og lèt það boð út gánga, að Elísabet hefði fyrirgjört drotníngartign og ríki sínu, en þegnar hennar lausir allra mála við hana. Elísabet lèt hart mæta hörðu, og gaf út snarpari lög en áður gegn katólskum mönnum í ríki sínu.

Á Skotlandi var hin mesta óöld og flokkadrættir. Murray var drepinn, og drotníngarmenn börðust við mótstöðumenn sína. Elísabet gjörði hvað hún kunni til að koma þar friði á, og kvaðst mundi gefa Maríu lausa, ef Skotar vildu gánga að þeim skilmálum, er hún setti þeim. En Skotum var mörgum svo illa við Maríu, að eigi var nærri því komandi, og fórst það þá fyrir. Árið 1571 var nýr samblástur á Englandi til þess að ná Maríu úr varðhaldi, en það samsæri komst upp, og voru oddvitar teknir af lífi. Svo var þíngmönnum í alþýðuhúsinu — neðri málstofu hins enska parlaments — gramt í geði við Maríu, að þeir báðu drotníngu, að María væri tekin og pínd til sagna; en það vildi Elísabet með engu móti. Hefir sú harka þíngmanna að líkindum komið af því, að um það leiti (1572) barst fregnin af hinum miklu níðíngsverkum, sem katólskir menn unnu *blóðveizlunóttina* á prótestöntum í París, og urðu siðabótamenn á Englandi og annarstaðar bæði hryggir og reiðir við þau hörmulegu tíðindi, og bjuggust við öllu illu af katólskum mönnum. Filippus annar og kardínallinn af Lóthríngen höfðu, hvor um sig, stofnað skóla á Frakklandi; í þeim skólum kendu kristmúnkar enskum mönnum katólskum, er farið höfðu af landi burt, og sendu þá síðan, þegar þeir voru fullnuma, heim á ættjörðu sína, til þess að styrkja hina fornu trú og kirkju, og æsa sem flesta gegn Elísabetu. Komu þessir katólsku klerkar á hverju ári til Englands, og ráku djarflega sitt erindi. Það leiddi til þess, að einn þeirra, er *Mayne* hèt, var hengdur árið 1577, og stjórnin enska tók að ofsækja katólska menn þar í landi. María hafði nú setið 13 ár í varðhaldi og verið hart haldin; hún ritaði þá (1582) Elísabetu brèf og taldi henni raunir sínar og beiddist vægðar á þeim, gat þess og, að hún vildi afsala sèr stjórn í hendur Jakobi syni sínum, en vera sjálf kyr á Englandi, undir tilsjón þeirra manna, sem til þess yrðu settir. Elísabet trúði henni eigi, og varð því ekki við tilmælum hennar. Jakob konúngur, sonur Maríu, gjörði als engar tilraunir til þess að hjálpa móður sinni, þó honum stæði það til boða. Altaf var öðru hverju verið að gjöra samtök og samsæri til þess að ráða Elísabetu af dögum, en ná Maríu úr varðhaldi; menn þóttust því vita, að María mundi vera í ráði með þessum samsærismönnum, og því var það að lögum gjört árið 1584, að hver sá skyldi tekinn undir ransókn, sem vekti

ófrið til að styrkja þann til ríkis, er tilkall gjörði til konúngdóms. Árið eptir varð sá atburður, er rèð því til lykta, hver endir varð á kjörum Maríu. Einn úngur og ættgöfugur maður að nafni *Babíngton*, og fleiri menn með honum, tóku ráð sín saman til þess að myrða Elísabetu, en frelsa Maríu. *Walsíngham* ráðgjafi Elísabetar fekk komizt að fyrirætlan þeirra, og voru þeir teknir og hafðar af þeim sannar sögur; fundust þá hjá þeim brèf frá Maríu Stúart, er sýndu, að henni hafði verið kunnugt um ráðagjörð þeirra. Voru þeir síðan teknir af lífi, en rannsókn höfðuð gegn Maríu; hún neitaði að hafa nokkra vitneskju um eða þátt í samsæri þeirra Babíngtons, en alt um það var hún dæmd til dauða, og parlamentið samþykti þann dóm fáum dögum síðar; beiddi Elísabet þjóðþíngið enn að nýju, að athuga þetta vandamál sem bezt og finna til ráð, ef kostur væri, að hún sjálf mætti vera óhult um líf sitt, og í annan stað, að Maríu yrði svo gætt, að hún skaðaði engan en hèldi þó lífi. Þíngið svaraði einum rómi, að það sæi engin úrræði til þess. Elísabet lèt nú kunngjöra dóminn, en hikaði við að láta framkvæma hann. Þó kom þar að þetta var gjört, og var María hálshöggvin 8. febr. 1587. Lèt María Stúart þannig líf sitt á 46. aldurs ári, og hafði setið 19 ár í varðhaldi, og stundum verið hart leikin.

Um það leyti sem María Stúart andaðist var hagur prótestanta mjög misjafnlega staddur. Í Frakklandi rèðu hinir katólsku bandamenn (*Ligue*) öllu, á Niðurlöndum fór veldi Filippusar annars vaxandi sökum sigursælda Alexanders Farnese. Elísabet hafði að vísu styrkt prótestanta, trúarbræður sína, bæði á Frakklandi og á Niðurlöndum, en farið þó hægt og gætilega að öllu. Það voru að vísu orðnar dylgjur miklar með Spánverjum og Englendíngum, en ekki fullur fjandskapur. En hans var eigi lángt að bíða. Spánverjar og Portúgalsmenn höfðu verzlun alla í Ameríku og á Indlandi, og öfluðu þar bæði fjár og frama. Þetta frèttu Englendíngar sem aðrar þjóðir. Elísabet kom fótum undir sjómensku Englendínga. Þeir tóku sig nú til, og hèldu út í heim þángað sem Spánverjar höfðu áður farið, og urðu þeim þar óþarfir gestir. Þegar einhverjum gekk vel, vaknaði hugur hjá öðrum til slíkra ferða og framkvæmda og gekk svo koll af kolli. Náðu þá ýmsir enskir menn allmiklum auði og

frama, en lángfrægastir urðu þeir *Franz Drake* og *Cavendish*. Drake varð fyrstur manna af Englandi til þess, að sigla alla leið umhverfis jörðina, og komast heim aptur heilu og höldnu og með offjár. Það var 1580 er hann kom heim úr lángferð þessari; var þá mikið um dýrðir í Englandi, og bauð hann drotníngu til ríkuglegrar veizlu á skipi sínu. Hann fór síðan fleiri ferðir vestur um haf, og varð Spánverjum hinn óþarfasti maður. Hann varð aðmírall og andaðist 1596. Cavendish fór víða með Afríkuströndum, og ónáðaði Spánverja þar sem hann hitti þá. Þegar hann kom heim aptur til Englands, og lagði skipum sínum inn í Themsfljótið, lèt hann menn sjá, að hann hefði auðgazt, og hafði segl öll af «damaski», en allir sjóliðar hans gengu á silkiklæðum. Það var um þessar mundir að enskur farmaður, að nafni *Valter Raleigh*, nam land í Norðurameríku (í bandaríkjum þeim sem nú eru) og kallaði landnám sitt *Virginíu* (þ. e. meyjarland) til heiðurs við drotníngu sína, er var meykonúngur. Hann var síðan herskipaforíngi, og barðist við Spánverja, og jafnan í förum, en átti marga öfundarmenn, og var loks tekinn af lífi á dögum Jakobs fyrsta (1618). Virginía varð enskt skattland undir krúnuna.

Enskir farmenn gjörðu Spánverjum mikinn skaða bæði fyrir vestan haf og hèr í Norðurálfunni. Filippus annar lèt það í móti koma, að hann styrkti fjendur Elísabetar hvar sem þeir voru, en ekki kvað hann upp úr með fjandskapinn fyr en Elísabet hafði sent Leicester til Niðurlanda, og látið taka Maríu Stúart af lífi. Þá þótti Filippusi eigi lengur viðvært, og sagði Elísabetu stríð á hendur. Það var ráð hans, að vinna England í einni ferð og einu vetfángi, og sjá svo um, að þjóð sú, er þar bygði, gjörði sèr engan skaða framar; og til þess að eigi skyldi undan draga, þá bjó hann árið 1588 flota þann hinn mikla, er slíkur hafði aldrei fyr sèzt, og sendi hann til Englands. Flotinn var ógurlega mikill; Filippus sjálfur kallaði hann »hinn ósigranda», og hættan vofði yfir Englandi. En Elísabet og þegnar hennar sýndu þá, að dugur var í þeim. Drotníng fór um landið og eggjaði menn sína til drengilegrar viðtöku; varnir voru settar með sjó fram alstaðar þar sem búizt varð við landgöngu; skip voru búin og mönnuð sem bezt varð; allir vildu verja fóst-

urjörð sína og fjör og frelsi, og mátti heita, að vopn væri þá í hvers manns hendi á Englandi.

»Hinn ósigrandi floti» varð sigraður, eins og fyr er ritað, og Englendíngar glöddust og styrktust af sigri þessum; þeir fundu, að þeim var vísað til atvinnu og auðs á hafinu, og hinn starfsami þjóðarandi þeirra vaknaði nú algjörlega. Nú hófst siglíng þeirra og verzlun af alefli; enskir kaupmenn ráku sumir verzlun inn um Eystrasalts strendur, sumir austur á Tyrkland og um Miðjarðarhaf, og enn aðrir út á Indland; enskir víkíngar sátu fyrir Spánverjum, þar sem þeirra var von, og tóku fjölda skipa fyrir þeim. Einhverju sinni náðu enskir víkíngar 2 spánverskum skipum, er höfðu meðferðis meðal annara gersema 2 millíónir af syndakvittunarbrèfum. Víkíngar höfðu þeirra að vísu engin not, en Filippus annar hafði keypt þau í Rómaborg fyrir 300 þúsundir «gyllina», og hefði að minsta kosti fengið 5 millíónir fyrir þau á Indlandi, ef þau hefðu komizt alla leið og öll til skila. Auk þessa gjörði Elísabet Filippusi og öðrum fjandmönnum sínum mikinn skaða, með því að styrkja Niðurlöndin og Hinrik af Navarra. Árið 1596 unnu Englendíngar *Cadix,* mikla og auðuga borg á Spáni, og fengu þar ógrynni fjár. Þannig varð Elísabet Filippusi öðrum alstaðar til fyrirstöðu; dugnaði hennar og hamíngju er það að þakka, að ráð og fyrirætlan Filippusar urðu að engu, en það var, að Spánn skyldi ná yfirráðum allrar Norðurálfunnar, og þau yfirráð bygð á katólsku trúnni.

Þegar hèr var komið, var Filippus eigi fjarlægur því, að semja frið, en Elísabet vildi eigi, því að henni þótti gott, að menn sínir hefðu nokkuð að starfa meðan þeir vildu, og meðan alt gekk að óskum; þeim var framför að því. Búrleigh, ráðgjafi hennar, er þá var maður gamall, eggjaði mjög til friðarins, en annar maður var þar, sem *Essex* hèt, úngur greifi og framgjarn, og mesta eptirlætisgoð drotníngar; hann stóð fast í móti hinum gamla ráðgjafa, og vildi engan frið hafa. Búrleigh dó 1598 og hafði þjónað drotníngu sinni og Englandi bæði vel og lengi.

Essex greifi er nafnkendur orðinn af afdrifum þeim, er hann hrepti. Hann var stjúpsonur Leicesters, þess er sendur var til hjálpar Niðurlendíngum; var Essex þar í förinni með stjúpa sínum, og þótti vera hinn vaskasti maður; hann var skrautmenni mikið, manna gjörfilegastur og vinsælastur, og svo mikill ást-

vinur drotníngar, að sagt var að hún gæti fátt á móti honum látið.

Á ofanverðum dögum Elísabetar var róstusamt á Írlandi, eins og löngum hefir þar við brunnið. Síðan um daga Hinriks annars[1] hafði Írland, í orði kveðnu, legið undir England, en það var þó í raun rèttri ekki nema austurhluti landsins, er Englendíngar höfðu yfirráð yfir. Þegar Elísabet reyndi að fá Íra til þess að taka við siðabótinni, gjörðu þeir uppreisn, og gátu drotníngarmenn eigi við ráðið; sendi hún þá allmikið lið til eyjarinnar, gjörði Essex greifa að landstjóra á Írlandi, og setti hann yfir herinn. Hann var því starfi eigi vaxinn, og fór halloka fyrir Írum, og varð að gjöra vopnahlè og samnínga við þá, og þótti verða undir. Þessi óhöpp hans færðu öfundarmenn sèr í nyt, og rægðu hann á allar lundir við drotníngu; barst hónum það til eyrna, og af því að hann bjóst við engu góðu, brá hann við, og fór að fornspurðri drotníngu frá liði sínu til Lundúna á fund Elísabetar; tók hún honum að vísu betur en við mátti búast, en lèt þó ransaka málstað hans. Lauk þeirri ransókn þannig, að landstjóra embættið var af honum tekið, og honum var bannað að láta sjá sig við hirðina. Þá reiddist Essex og leitaðist við að hefna sín bæði á mótstöðumönnum sínum og drotníngunni; varð hann um það sannur að sök, og var dæmdur til dauða og höggvinn 1601; var hann þá 33 ára gamall. Margur harmaði forlög þessa manns, og drotníng eigi minst, þó að hún fengi eigi viðráðið. Eigi mjög löngu þar á eptir andaðist Elísabet drotníng, sjötug að aldri (24. marz 1603); hafði hún litlu fyrir andlát sitt lýst yfir því, að *Jakob sjötti,* Skotakonúngur, og sonur María Stúart, skyldi erfa ríki eptir sig á Englandi. Ýmsir sagnaritendur hafa ásakað Elísabetu um hörku og jafnvel grimd í stjórn sinni; verður því að vísu eigi neitað, að hún beitti hörðu við María Stúart, og marga katólska menn í ríki sínu, sem af lífi voru teknir á stjórnarárum hennar. En þess ber þó að gæta, að hún lifði á þeim tímum, er aldarháttur var miklum mun harðari en nú á sèr stað; og hvað komst hennar harka í samjöfnuð við þá grimd, er katólskir menn sýndu í öðrum löndum t. a. m. á Frakklandi og á Spáni? Elísabet átti og alla jafna í vök að verjast móti páfanum, Filippusi öðr-

1) Samanber Miðaldasögu, bls. 129—130.

um og hinni frakknesku stjórn, er höfðu sína erindisreka víðsvegar um England, til þess að æsa óeirðir gegn henni, og reka hana frá völdum, eða deyða að öðrum kosti; hún átti því löngum bæði fjör og fè að verja. En hennar framúrskarandi dugnaður og vitsmunir urðu hèr sigursælli. Englandi fór stórum fram í öllum greinum um hennar daga. Siðabótin náði þar fullkominni fótfestu, siglíngar og verzlun, og allir atvinnuvegir tóku stórkostlegum framförum. Vísindi og bókmentir þróuðust allvel, og að minsta kosti voru á þessu tímabili uppi tveir hinir frægustu vísindamenn Englendínga: *Vilhjálmur Shakespeare* (1564—1616), ef til vill hið mesta skáld, sem nokkru sinni hefir uppi verið, og *Franz Baco af Verulam* (1561—1626), stjórnvitríngur og heimsspekíngur öllum meiri á sinni tíð; hafa báðir þessir afbragðsmenn haft mikil áhrif á mentalíf þjóðar sinnar. Elísabet var ráðrík í stjórn sinni, eins og þeim Túdorsmönnum var gjarnt, þó gætti hún sanngirni við parlamentið, þegar því þótti hún kreppa að rèttindum þess, og það kvartaði undan því; þess vegna var hún jafnan vinsæl af þegnum sínum, og allir gátu sèð, að England var í miklum uppgángi, og óx að virðíngu í augum annara þjóða.

### Stúarta-ættin hefst til ríkis. England og Skotland sameinast. Jakob fyrsti (1603—1625).

Ríkisstjórn Túdors-ættarinnar á Englandi var lokið þegar Elísabet dó, og komu þá Stúartar þar til ríkis; var Jakob (6.) Skota konúngur viðstöðulaust til konúngs tekinn á Englandi og nefndur þar *Jakob fyrsti*. Hann hafði setið aðgjörðalaus og látið sig litlu varða, þó móðir hans væri dæmd til dauða og líflátin, því að bæði hafði honum verið innrættur frá barnsbeini viðbjóður á páfatrúnni, og fældi sá viðbjóður hann frá móður sinni, og í annan stað vildi hann forðast að styggja Elísabetu, til þess að missa eigi tilvonandi konúngdóm á Englandi eptir hennar dag.

Þannig sameinaðist England og Skotland undir einum konúngi, en þó var sú sameiníng engan veginn náin, því að Skotland hafði þjóðþíng og löggjöf fyrir sig þángað til 1707, en af því að England var meira og auðugra land, og konúngur hafði þar aðsetu, þá rèð England mestu, þegar um útlend málefni var að ræða.

Uppreisn sú, sem átti sèr stað á Írlandi, og áður var um getið, var niðurbæld og landið friðað um stund; það var því alllíklegt, að þessi þrjú þjóðlönd, England, Skotland og Írland, væru öll til samans mikið og voldugt ríki, en það reyndist þó eigi svo, meðan Jakob fyrsti lifði og rèð fyrir þeim (1603—1625), því að hann var ónýtur konúngur, og vegur Englands þótti mínka en eigi vaxa meðan hann sat uppi. Hann var allvel lærður, en þóttist vera stórvitur; hann var ákaflega drambsamur og drotnunargjarn, og lèt ýmsa menn, sem engan veginn voru þjóðhollir, ráða mestu í stjórnarstörfum sínum. Af þeim mönnum er hertoginn af *Buckingham* nafnkendastur. En það er til marks um drotnunargirni Jakobs, að hann, sem var alinn upp í *presbýteratrúnni* á Skotlandi, vildi þó þröngva Skotum til að taka *biskupatrúna* ensku, af því að konúngar höfðu miklu meira vald yfir kirkju og klerkalýð eptir hinni ensku þjóðtrú, en eptir hinni skozku. Katólskir menn á Englandi höfðu búizt við góðu af syni Maríu Stúart, og Jakob var þeim undir niðri engan veginn móthverfur, en hann vildi með engu móti, að páfinn fengi yfirráð í ríki sínu; hann vildi hafa þau sjálfur. Þess vegna brást hann katólskum mönnum algjörlega. Fengu þeir nú hið stækkasta hatur á honum, og því var það, að þeir ásamt einum erindsreka kristmúnkanna stofnuðu hið voðalega samband, sem menn hafa nefnt «*púðursamsærið*», og laut að því, að sprengja konúng og parlamentið í lopt upp, þegar hann og þíngið sæti á ráðstefnu í einu og sama húsi. Í því skyni höfðu samsærismenn komið púðri í kjallara einn undir þínghúsinu, og ætluðu svo að bera eld að og kveikja í öllu saman, en svo heppilega vildi til, að einn af þíngmönnum fèkk njósnir af og gat varað menn við í tíma, og afstýrt miklum vandræðum (1605). Urðu nú allir katólskir menn á Englandi að vinna konúngi trúnaðareiða af nýju, og heita honum æfinlegri trú og hollustu, enda þótt páfinn segði og byði hið gagnstæða.

Á dögum Jakobs fyrsta byrjar hið merkilega stríð milli konúngdóms og parlaments á Englandi, sem alt af átti sèr stað, meðan Stúartar sátu þar að ríkjum. Jakob reyndi hvað hann gat, að skerða rèttindi þíngsins (*parlamentisins*); en þó að menn hefðu þolað Elísabetu slíkt, þá var það sök sèr, því alþjóð manna virði hana, en um Jakob var alt öðru máli að gegna. Elísabet

hafði við haft hinn mesta sparnað, og þurfti einatt á minna fè að halda, en þíngið vildi veita, og fyrir þá sök var hún þínginu miklu óháðari en ella hefði verið, en Jakob var eyðslumaður og opt í fjárþrotum, og varð svo löngum að beiðast leyfis af þínginu til að leggja nýja skatta og skyldur á landið. Þíngið var eigi ljúft á það, og þegar konúngur vildi beita stórmensku og sagði, að sá rèttur, sem þíngið hefði, væri veittur því af einhverri miskun konúnganna, þá lèt þíngið ekki á sig gánga, en gætti rèttinda sinna með greind og manndómi. Í viðskiptum sínum við útlendar þjóðir var Jakob konúngur bæði hræddur og huglaus; hann samdi frið við Spánverja þegar er hann var kominn til ríkis; hann sagðist úr sambandi við Niðurlendínga, og leitaði jafnvel kvonfángs á Spáni til handa syni sínum, og var Englendíngum að öllu þessu hin mesta skapraun. En þó ekkert yrði úr þessu spánska kvonfángi, þá kvæntist þó *Karl* konúngsefni (sonur Jakobs fyrsta) litlu síðar *Henriettu* af Frakklandi, systur Loðvíks konúngs þrettánda; var konúngsdóttir katólsk og hafði um sig katólska menn, og líkaði Englendíngum það ílla. Jakob konúngur átti dóttur eina, er Elísabet hèt, hana gipti konúngur *Friðriki* kjörfursta af Falz, og gjörðu prótestantar í Böhmen Friðrik að konúngi sínum, en eigi hafði Jakob lund eða þrek til þess að styðja Friðrik tengdason sinn eða prótestanta, er stórum þurftu þá liðveizlu við, og var hin enska þjóð þó allfús til liðveizlu við þá. Jakob fyrsti dó 1625, og kom þá *Karl fyrsti* sonur hans til ríkis.

## Frakkland um daga Hinriks annars og sona hans (1547—1589).

Nú víkur sögunni til Frakklands og þar að, sem Franz konúngur fyrsti var dáinn (1547), en sonur hans *Hinrik annar* kominn til ríkis (1547—1559). Franz fyrsti hafði verið nýtur konúngur í mörgu, og margt vel gefið, þó sumt megi að honum finna, en Hinrik annar var lítt nýtur konúngur, og vildi helzt ekki koma nærri stjórnarstörfum, heldur fela þau öðrum á hendur. Drotníng hans hèt *Katrín* af Medicea-ættinni í Flórenz, og optast nefnd *Katrín af Medicis;* hún var grimm í skapi, slægvitur og illgjörn í ráðum, og vildi eiga sem mestan þátt í ríkisstjórninni, þó hún kæmi sèr eigi algjörlega við meðan Hinrik

lifði og frilla hans, *Díana* af *Poitiers*, sem hafði alt vald yfir konúngi. Það var fyrst þegar Hinrik var dáinn, en synir hans og Katrínar komnir til ríkis, að Katrín drotníng rèð mestu á Frakklandi og sýndi hver hún var.

Franz konúngur hafði ráðið Hinriki syni sínum ýms heilræði á banasænginni; eitt var það, að láta eigi *Guisana* fá ofmikil völd í hendur. Hinrik fylgdi eigi þeim ráðum. En það er að segja frá *Guisum*, að þá eru helzt nefndir til bræður tveir, *Franz* hertogi af *Guise*, hinn hraustasti maður og herkænasti, og *Karl* erkibiskup og kardínáli, og jafnan nefndur «*kardínállinn af Lothringen*»[1]. Þeir voru komnir af Renatus hertoga af Lothringen, sem forðum átti í höggi við Karl djarfa. Kardínállinn var vitur maður og kænn við ríkisstjórn. Þeir bræður voru ákaflega drotnunargjarnir, og hafði Franz konúngur sèð það fyrir, að þeir gætu orðið konúngi ofjarlar ef svo bæri undir, og fyrir því varað son sinn við þeim. Þeir bræður höfðu báðir komið sèr svo í mjúkinn hjá drotníngu og konúngsfrillunni, að þeir rèðu manna mest við hirðina og alloptast til hins verra.

Þess er áður getið, að Hinrik annar gekk í ófriðinn milli Mórizar af Saxen og Karls keisara hins fimmta, og brautzt inn í Lothringen, sem þá lá undir Þýzkaland, og lagði þar undir sig 3 biskupsdæmi: *Mez*, *Toul* og *Verdun*, hin ágætustu hèröð. Styrjöldinni milli Frakka og keisarans lauk að sönnu með vopnahlè því, er þá var sett, en ófriður tókst af nýju milli Frakklands og Spáns, þegar Filippus annar var tekinn þar við ríki. Í þeim ófriði vann Franz af Guise borgina Calais af Englendíngum, sem legið hafði 210 ár undir England. Sá ófriður endaði með friðnum í Chateau Cambresis (1559), og hallaðist á Frakka í þeim viðskiptum þeirra við Filippus konúng.

Á dögum Franz fyrsta kom *Calvínstrú* («*reformeraða trúin*») til Frakklands, og fèkk þar marga áhángendur, þó konúngur væri mótsnúinn. Þegar Hinrik annar var kominn til ríkis hèlt hinu sama fram. Siðabótamenn fjölguðu óðum á Frakklandi, einkum suður í landi. En þó að þeir feðgar Franz og Hinrik styrktu siðabótamenn á Þýzkalandi gegn keisaranum og þeim Habsborgarmönnum, þá ofsóttu þeir engu að síður siðabótamenn heima á Frakklandi, og það stundum af svo mikilli grimd, að

1) María, systir þeirra bræðra, var móðir Maríu Stúárt.

hryllilegt er til frásagna. Guisarnir og Diana af Poitiers voru hinir ótrauðustu hvatamenn til ofsókna þessara. En alt um það, mikill fjöldi mentaðra manna, og margir aðalsmenn á Frakklandi tóku við Calvíns trú, og voru þeir allir, sem þeirri trú fylgdu þar í landi, nefndir *Hugenottar*. Konúngur og hirð hans, og alþýðumenn, sem enga mentun höfðu, hèldu katólskum sið. Á kirkjuþíngi einu í París (1559) settu Hugenottar fastar reglur um trú sína og kirkjuleg málefni. Á hinu sama ári andaðist Hinrik konúngur með þeim atvikum: Það var glaumur mikill og gleði í konúngsgarði og mikið um dýrðir, því að hann gipti þá dóttur sína Filippusi öðrum; var það þá eitt til skemtunar haft, að ríða turnreiðar eða burtreiðar. Hinrik var hverjum manni fræknari í þeim leik og braut burtstengur fyrir mörgum manni. Loks skoraði konúngur á einn úngan riddara, *Montgommery* greifa, að þreyta þenna leik við sig; riðust þeir síðan á og brotnaði burtstöng greifans á járnhlífum konúngs, en oddurinn hrökk í auga konúngi og snerti heilann; þjáðist konúngur af sárinu nokkra daga og dó síðan (10. júlí 1559). Var nú Franz sonur hans til konúngs tekinn og nefndur *Franz annar* (1559—1560). Hann var elztur þeirra Hinriks sona, og þó að eins 16 vetra, veikur á sál og líkama og lítt fallinn til ríkistjórnar. Hann var nýkvæntur María Stúart. Komust nú Guisarnir, móðurbræður drotníngar, í enn meira gengi en áður, og Katrín ekkjudrottníng var aldavinur þeirra; stóð mörgum manni stuggur af því sambandi, en þó engum meir en *Bourbona-ættinni*. Sú ætt var komin af Loðvíki konúngi níunda[1], og stóð næst ríkiserfðum á Frakklandi eptir Hinrik annan og hans niðja. Af Bourbonaættinni voru, þegar hèr var komið, þessir tveir hinir helztu: *Anton*, er hafði fengið með konu sinni hèrað eitt, er *Bearn* hèt, og sem var nokkur hluti af hinu forna konúngsríki *Navarra;* var Anton nefndur konúngur af Navarra. Hinn var *Loðvík* prinz af *Conde*, bróðir Antons. Bræður þessir voru all-ólíkir, því að Anton var kjarklítill og vissi stundum eigi hvern flokkinn hann skyldi fylla, en Loðvík af Conde var framkvæmdarmaður hinn mesti, og þar á ofan góður drengur. Guisarnir höfðu geyg af honum. Hann fèkk í fylgi með sèr ýmsa menn af Hugenottum, er mikils var um vert t. d. *Caspar Coligny*, aðmíral, einn hinn mesta ágætis-

1) Sbr. Miðaldasögu, bls. 158.

mann á Frakklandi. Bourbonar hèldu þessu næst fund í Verdun og rèðu ráðum sínum. Urðu allir fundarmenn á það sáttir, að nauðsyn bæri til að Guisum væri steypt úr völdum, en menn greindi nokkuð á um hitt, hver ráð skyldi til þess hafa. Coligný lagði það til, að farið skyldi með spekt að öllu, og drjúgast mundi að fá komið Katrínu drotníngu á sitt mál. Var þá Anton konúngur sendur af hendi fundarmanna til drotníngar; var honum tekið heldur fálega við hirðina; Katrín svaraði engu góðu, en Franz konúng fèkk hann hvorki að heyra nè sjá. Prinzinum af Conde hafði áður verið gramt í geði til konúngs og Guisanna, en nú vesnaði um allan helmíng. Coligny gaf það ráð, að Bourbonar skyldu sameina sig Hugenottum og gjöra þeirra málefni að sínu. Var þetta viturlegt og hvorumtveggja hinn mesti styrkur, enda líkaði öllum það vel. Hugenottar voru orðnir svo fjölmennir, að sagt var um þær mundir, að kirkjur þeirra á Frakklandi væru frekar 2000 að tölu. Nú vildi stjórnin fyrir hvern mun eyða þessum flokki sem fyrst, og lèt það boð út gánga, að rífa skyldi til grunna allar kirkjur og samkunduhús Hugenotta, en ef þeir dirfðust að halda helgar tíðir, þá skyldu þeir engu fyr týna nema lífinu. Menn voru sendir í allar áttir til að njósna um athafnir þeirra; var þá margur góður maður tekinn, fyrir litlar eða engar sakir, og vægðarlaust ráðinn af dögum. Þá urðu til nokkrir menn af Hugenottum og rèðu aðför við Guísana, en þeim bárust njósnir af ráðagerðinni og drápu þá flesta, er í því sambandi höfðu verið, en Conde var eignað, að hann væri upphafsmaður sambandsins. Guísarnir náðu honum með svikum á sitt vald og var hann dæmdur til dauða. En þá bar svo til, að Franz konúngur andaðist (1560). Kom þá bróðir hans *Karl 9.* til ríkis; hann var 10 vetra gamall og gat engu stjórnað, en móðir hans Katrín af Medicis, hafði öll landráð hans vegna, og gekk svo meðan konúngur lifði. Það er sagt, að Katrín hafi hvatt en eigi latt sonu sína til als þess munaðar og allrar þeirrar óhæfu, er þá átti sèr stað við hirðina í París, til þess að þeir sneru huganum frá öllum stjórnarstörfum, en að hún gæti ein öllu ráðið. En hina helztu og göfugustu menn í landinu, sem hún hafði einhvern beyg af, þá rægði hún saman, til þess að þeir ættust ílt við og dræpu hvorir aðra; þannig tókst Katrínu að byggja upphefð sína á niðurlægíngu annara. Hún

gaf þess vegna Loðvík af Conde lausan af varðhaldi, til þess að hann skyldi halda Guísunum í skefjum, því að þeirra ofurvald óttaðist hún nú mest. Hún vissi sem var, að Conde og allir Hugenottar hötuðust við Guisa og allan þann flokk, er þeim fylgdi. Þessu næst fèkk hún því til leiðar komið, að í janúarmánuði 1562 var það nýmæli gjört, að Hugenottum var leyfð guðsþjónustugjörð á landsbygðinni fyrir utan borgir og bæi; var það leyfi einkum að þakka góðgirni og viturlegum ráðum *L' Hospítals*, er þá var kanselleri, og hinn mesti ágætismaður. Þá var það einhverju sinni, að Franz Guise var á ferð og flokkur manna með honum, og komu að þorpi einu í Champagne, er Vassy hèt. Þar voru fyrir nokkrir af Hugenottum og fluttu helgar tíðir; veittu þeir Guise þeim þègar aðgöngu og drápu þar marga menn, bæði konur og karla; þótti katólskum mönnum þetta karlmannlega gjört af Guise, og tóku honum tveim höndum, er hann kom til Parísar.

Um þessar mundir (1562) gjörðu Guisarnir hvað þeir kunnu til þess að fá Anton af Navarra til að skiljast við Hugenotta og þeirra málefni, og tókst þeim það með tilstyrk tveggja sendiherra, er þá voru í París; var annar frá páfa en hinn frá Filippusi öðrum; Filippus bauð Anton konúngi Sardiníu til forráða, ef hann vildi skerast úr sambandi við Hugenotta; gekst Anton fyrir því tilboði og sagði skilið við bandamenn sína. Katrín drotníng lèzt vera vinur Hugenotta um þessar mundir og beiddi Conde að láta eigi hugfallast, enda var henni ríkt í skapi, að Guísarnir næðu eigi meiri völdum en þeir þá þegar höfðu. Nú var byrjað *trúarstríð* það hið mikla, er stóð því nær um mannsaldur á Frakklandi (frá 1562 til 1593), og var háð af hinni mestu grimd. Hugenottar brutu krossa fyrir katólskum mönnum og heilög tákn, en hinir gjörðu alt ílt í móti; og til þess, að auka enn meir á eymdir Frakklands, leituðu hvorirtveggja sèr liðs hjá útlendum konúngum, og fengu þaðan bæði fólk og fè. Filippus var jafnan til taks þá er hans var leitað um hjálp gegn siðabótamönnum, en Englendíngar og prótestantar á Þýzkalandi vildu eigi að trúarbræður þeirra á Frakklandi yrðu undirokaðir eða drepnir niður. Eigi hafði ófriður lengi staðið, áður mjög tók að hallast á Hugenotta, því að katólskir menn höfðu ofurefli liðs. Franz Guise vann af þeim ýmsar borgir, þar á meðal

*Rouen* (*Rúðu*); þar fèll Anton af Navarra. Því næst settist Franz Guise um *Orléans*, hinn helzta aðseturstað Hugenotta; en er að því var komið, að katólskir menn ynnu þá borg, var Guise myrtur af einum þeirra Hugenottanna. Varð Katrínu þá hughægra, og tók að miðla málum með mönnum; samdist þá friður með þeim (katólskum mönnum og Hugenottum) í borg þeirri, er *Amboise* heitir (1563). Hinir helztu og auðugustu lènsherrar fengu fullkomið trúarfrelsi fyrir sig og sína undirmenn, bæði heima á búgörðum sínum og á leigulöndum, aðrir aðalsmenn á heimilum sínum, en borgarar á einum tilteknum stað í hverju hèraði. París og nágrenni borgarinnar var undanskilið þessari friðargjörð. Coligný hafði eigi viljað gánga að þessum friðarkostum, því að hann grunaði að Katrín mundi eigi trygg, og vildi hann að haldið væri fram ófriðnum fyrir því að líkindi voru til, að Hugenottar yrðu sigursælli en áður, eptir að Franz Guise var fallinn. En þeir urðu færri sem fylgja vildu ráði Colignýs, og fórst það svo fyrir. Franz Guise átti 3 sonu á lífi, er hann var veginn, en þeir voru enn þá svo úngir, að eigi þurfti þá að óttast. En kardínállinn af Lothringen og *Montmorency* marskálkur, gamall hershöfðíngi, voru nú oddvitar katólskra manna, og hinir áköfustu; og þó að nú hèti friður í landinu um þessar mundir, þá var sá friður eigi tryggari en svo, að samsæri var gjört, og átti að myrða í einu 300 Hugenotta í París, en Katrín komst að því og lèt grípa samsærismenn og hengja þá framan á húsum þeirra, og sluppu Hugenottar í það skipti. Konúngurinn Karl níundi var nú kominn til lögaldurs; þótti hann allvel viti borinn, en grimmur og ótryggur, og væntu menn eigi góðs af honum. Hann var þessi árin á ferð um ríki sitt og Katrín móðir hans með honum. Þá var það einhverju sinni, að þau hittu hertogann af Alba, sem áður er nefndur, og áttu tal við hann um ýmsa hluti. Alba var svarinn óvinur siðabótamanna, og gaf það ráð, að drepnir væru allir Hugenottar. Katrín kvaðst hlífa vilja foríngjunum. »Sízt þeim» mælti Alba, «tíu þúsundir froska eru margfalt minna verðir en eitt *laxhöfuð*«. En laxhöfuð var markað á skjöld Colignýs. Katrín festi þessi orð í huga sèr eins og síðar kom fram.

Fáleikar voru miklir með mönnum, og fyrirsjáanlegt, að til vandræða horfði, þó Katrín reyndi, eða lèti sem hún reyndi, að

afstýra þeim. Hugenottar kváðu kosti sínum þröngvað á ýmsa vegu, og skilmála við sig rofna, og byrgðu sig að vopnum og vistum sem bezt þeir kunnu, því að árása væntu þeir á hverri stund; katólskir menn sögðu hinsvegar, að Húgenottar væru miklu heimtufrekari en lög og samníngar leyfðu þeim, og þættust hafa öll hin sömu rèttindi sem þeir er væru rèttrar trúar (þ. e. katólskir menn). Konúngur vildi láta beita hörðu við Hugenotta, og það tjáði eigi, þó L'Hospital kanselleri hans reyndi að telja hann af því. Konúngur hafði liðsafnað, og lèt í veðri vaka, að svo væri gjört vegna ófriðarins á Niðurlöndum. En Conde og hans menn vissu vel, hvað konúngur ætlaði sèr, og beið þessvegna ekki boðanna, heldur bjó liðsmenn sína sem skjótast, og, fyr en konúngur vissi, höfðu þeir Conde og Coligný tekið 50 borgir, og voru komnir með herinn í nánd við þann stað, sem konúngur var þá með hirð sinni (í sept. 1567). Skömmu síðar varð orusta hjá bæ þeim er heitir *St. Denis;* höfðu þeir Conde miklu færra lið en konúngur, og urðu að láta undan síga. Montmorencý var fyrir konúngsmönnum, og varð sár til ólífis, og andaðist litlu síðar. Það er mælt, að klerkur einn kæmi til hans og vildi hughreysta hann og búa undir andlátið, en Montmorency beiddi hann verða á burt og mælti: »það er ílla þá, ef eg kann eigi að deyja stutta stund, þegar eg hefi kunnað að lifa því nær 80 ár«. Eigi lèt Katrín drotníng sèr það miður líka þó Montmorencý fèlli, og mælti, er hún frètti lát hans: »eg á forsjóninni fyrir tvent að þakka: það fyrst, að Montmorency hefir hefnt konúngs á óvinum hans, og það annað, að óvinir konúngs hafa frelsað hann frá Montmorencý«.

Um vorið eptir (1568) voru grið sett með mönnum og samið um frið, en af því að hvorirtveggja sátu á svikráðum við aðra, þá gat enginn friður á komizt. Hugenottar náðu borg þeirri, er heitir *La Rochelle;* hún stendur við sjó fram og er sterk borg og víggirt; höfðu þeir þar örugt athvarf og sitt hið helzta aðsetur; urðu nú margar orustur og smáar og veitti ýmsum betur, en þá er til höfuðorustu kom, urðu Hugenottar jafnan undan að láta, því að við ofurefli liðs var að etja. Árið 1569 fèll Conde, og mistu Hugenottar þar annan sinn mesta og bezta fyrirliða, en öldúngurinn Coligný var enn á lífi, og þó hann biði stundum ósigur, þá þreyttist hann ekki og varð aldrei ráða fátt; var hann

Katrínu og katólskum mönnum að sínu leiti eins erfiður, eins og Vilhjálmur af Óraníu var Filippusi öðrum, enda lagði parlamentið í París fè til höfuðs Coligný, alt að 50 þúsundum ríkisdala. Um þessar mundir var það, að *Jóhanna* drotníng af Navarra, ekkja Antons konúngs, sem fyr er nefndur, kom til Colignýs og hafði með sèr *Hinrik* son sinn 16 vetra gamlan, hinn mannvænlegasta. Jóhanna var dóttir Margrètar, systur Franz konúngs fyrsta, vitur kona og góðgjörn, eins og móðir hennar hafði verið, og styrkti Hugenotta af öllum mætti Þrem árum síðar en hèr var komið dó Jóhanna, af völdum Katrínar af Medicis, að því sem sagt hefir verið. Hugenottar tóku nú Hinrik af Navarra til höfðingja yfir sig, þótt úngur væri, en Coligný hafði herstjórn alla á hendi af hans hálfu og í hans nafni. *Hinrik* hertogi af *Anjou,* bróðir Karls 9. og sonur Katrínar af Medicis, hafði yfirstjórn konúngsmanna, en helzti sigurinn, sem þeir unnu á Hugenottum við *Moncontour,* var þó eigi honum að þakka, heldur einum af undirforíngjum hans, er Tavannes hèt. En þó Coligný biði þann ósigur, þá var enn sem fyrri, að hann rètti skjótt við aptur, og var jafnvel geygvænlegri konúngsmönnum eptir en áður. Leiddi það til þess, að friður komst á í *St. Germain en Laye* (1570), og náðu Hugenottar þar betri kostum en að undanförnu. Þeir fengu fult trúarfrelsi á landsbygðinni og í mörgum borgum, og þar á ofan til tryggíngar því, að trygðir og friður skyldi haldast, 4 borgir, sem þeir máttu hafa setulið í; ein af þeim borgum var La Rochelle.

Nú var friður orðinn á Frakklandi; Karl konúngur, Katrín drotníng móðir hans, og hirðin öll, var Hugenottum mjög vingjarnleg, og margir hinna betri manna hugðu, að nú mundi öllum ófriðar stormi lokið, en friður og ársæld fyrir hendi. En sú vár enganveginn fyrirætlan Katrínar drotníngar. Hún sá að Hugenottar urðu eigi unnir í vopnaviðskiptum með hreysti og drengskap; hèr varð því annað til bragðs að taka, og þess vegna kostaði hún kapps um, að gjöra sig í öllu sem blíðasta við þá, og þegar þeir væru orðnir grunlausir, þá að láta hefndina dynja yfir þá eins og reiðarþrumu, og ráða svo marga þeirra af dögum sem auðið yrði. Um þessar mundir kvæntist Karl konúngur Elísabetu dóttur Maximilians keisara annars, og Katrín bauð Hinriki af Navarra, hinum únga konúngi og foríngja Hugenott-

anna, Margrètu (af Valois) dóttur sína til eigin konu. Jóhönnu móður Hinriks leizt miðlúngi vel á þenna ráðahag, og grunaði að eitthvað illt mundi undir búa, þó gaf hún samþykki til þess um síðir og fór til Parísar; tók Katrín henni með mikilli blíðu. Coligný var einnig þángað boðið; var hann lengi tregur, en fór þó, er konúngur lèt segja honum, að hann hefði í huga, að hefja ófrið gegn Spánverjum, og veita Niðurlendíngum móti Filppusi öðrum; því að sá hlutur var Coligný kærastur, að geta styrkt trúarbræður sína á Niðurlöndum, er um þær mundir vörðu fjör sitt og frelsi gegn Spánarkonúngi. Karl konúngur hafði Coligný í miklum hávegum, gaf honum góðar gjafir, og tók hann í sitt ráðaneyti; hirðmenn keptust hver við annan að sýna hinum ágæta öldúngi allan sóma, svo að eigi var trútt um, að Katrínu og Hinriki af Anjou, syni hennar, þætti nóg um. Þau óttuðust mest af öllu, að Coligný og hans flokkur fengi um of yfirráð yfir Karli konúngi; en kæmi þar að, þá voru yfirráð Katrínar á enda. Við því vildi hún sporna og það sem allrafyrst, enda bar nú vel til veiða, því að bæði Coligný og fjöldi manna af Hugenottum var kominn til Parísar, og dvöldust þar meðan stóð á brúðkaupi konúngs og Hinriks af Navarra; voru þar þá veizlur stórar og mikið um dýrðir. Meðan á þessu stóð hafði Katrín og þau Hinrik fengið til mann einn að myrða Coligný, því að í honum þótti þeim veiðurin mest. Það var einn dag (22. ágúst 1572), er Coligný kom frá konúngi og gekk um stræti borgarinnar, að skotið var á hann úr húsi einu þar sem leið hans lá fram hjá; tók kúlan einn fíngur af hægri hendi hans og særði hann á vinstra handleggi; morðínginn náðist ekki; sló nú miklum ótta á Hugenotta, og kváðu eigi annað fært, en leita sem fyrst á burt úr borginni, því að nú væri mönnum sýnt, að setið væri á svikráðum við þá. En konúngur sór og sárt við lagði, að tilræði þetta væri með öllu á móti vilja sínum og vitund, og gjörði hvað hann kunni til að friða Coligný og hans menn; lètu þeir þá sefazt og fóru hvergi. Þegar nú tilræðið við Coligný hafði mistekizt, sá Katrín drotníng, að eigi mundi svo búið duga, tekur því það ráðs, að hún gengur til fundar við Karl konúng son sinn, og nokkrir af hinum æztu tignarmönnum með henni, og skýrir honum frá og leiðir honum fyrir sjónir á marga vegu, að Hugenottar sitji allir á svikráðum við hann, og til þess

að afstýra slíkum vandræðum, sèu þau ein úrræði, að verða fyrri til taks, og drepa alla fyrirliða þeirra, og svo marga menn af þeim flokki, sem til verði náð. Varð sá endir á viðræðum þeirra, að Karl konúngur lagði fult samþykki sitt á, að hvert mannsbarn af Hugenottum í ríki sínu yrði drepið. Nú tóku þau Katrín ráð sín saman hversu öllu skyldi tilhaga um manndrápin. Menn skiptu störfum með sèr. Tavannes hershöfðíngi skyldi skýra katólskum hermönnum í borginni frá fyriræltan þessari, og segja þeim síðan fyrir verkum; en Hinriki hertoga, syni Franz af Guise, sem fyr er nefndur, var ætlað að sjá um, að Coligný yrði veginn; nóttina milli 24. og 25. ágúst (næsta eptir Bartólómeusmessu) skyldu morðvíg þessi byrja, á þeirri stundu, er konúngur lèti hríngja klukkum í höll sinni; þá skyldu blys kveikt víðsvegar um borgina, og járnrekendur settar um þver stræti; katólskir menn bera hvítt krossmark á höttum, og hvítan dúk um handlegg sèr, til aðgreiníngar frá Hugenottum. Ráðagjörð þessi fór svo dult, að Hugenottum kom enginn pati af. Nú kom hin voðalega *Bartólómeusnótt*[1]. Hugenottar gengu til hvíldar, og áttu einskis ílls von; óvinir þeirra sátu með vopnum búnir til einhvers hins versta íllvirkis, sem unnið hefir verið af kristnum mönnum. Þegar klukkan kvað við í höllinni, þustu morðíngjar þessir út á strætin. Guise og hans flokkur stefndi að húsi Colignýs, brutust þar inn, veittu honum bana, og köstuðu líki hans út um gluggann. Þegar harkinu og óhljóðunum laust upp úti á strætum borgarinnar, vöknuðu Hugenottar við vondan draum, og hlupu þá margir út og vildu flýja húsin. Sumir leytuðu þángað sem Coligný átti heima, en þar var Guise fyrir og drap hvern sem að kom; sumir fóru til hallarinnar og vildu leyta sèr hælis hjá konúngi, en þeir voru allir höggnir niður af varðmönnum hans, og suma skaut konúngurinn sjálfur til bana. Nú kom Tavannes með sínar sveitir og gjörði bæði, að drepa þá sem náð varð á flótta um strætin, og að brjóta upp húsin þar sem von var Hugenotta inni fyrir, og drepa þar hvert mannsbarn; gekk svo alt til morguns. Þegar birti af degi komu næturverkin í ljós; manna búkarnir lágu þúsundum saman; úti og inni var borgin

1) Öðru nafni kalla menn það *blóðhátíðar-* eða *blóðveizlunótt*, af því að brúðkaupin voru þá nýlega um garð gengin í París.

blóðug. Katrín drotníng og hirðmeyjar hennar gengu um strætin til að skignast um, lofaði drotníng mjög þessi verk og var hin kátasta. En þessum morðvígum var eigi þar með lokið. Þau stóðu enn í fulla 3 daga, bæði í París og alstaðar um Frakkland þar sem Hugenottar voru; því til þess var leikurinn gjörður, að enginn þeirra skyldi eptir verða lífs á Frakklandi. Mönnum heflr eigi borið saman um það, hve margir menn hafi látið lífið í þessu syndaflóði sem gekk yfir Frakkland. Sumir segja það hafi verið frekar 30000 manna, sumir alt að 100 þúsundum. En hvað sem um það er, þá er þessi atburður einn hinn svartasti blettur í sögu kristinna þjóða. Hins vegar er þó skylt að geta þess, að þeir menn fundust meðal katólskra manna, er hrylti við slíkum níðíngsverkum, og neituðu að vinna þau þótt konúngur byði. Greifinn af *Tende,* landshöfðíngi í Provence, reif þannig í sundur brèf þau, er konúngur sendi hónum þess erindis, að taka alla Hugenotta þar í sveitum af lífi; og greifinn af *Orthe,* höfuðsmaður í Bayonne, ritaði konúngi og segir þar svo: »Eg hefi herra, kunngjört skipun yðar bæði hermönnum og öðrum bæarbúum, og hitt hvervetna fyrir bæði hrausta drengi og góða þegna, en ekki einn einasta böðul. Þeir og eg biðjum því yðar hátign, að yður mætti þóknast að láta oss vinna þau störf, sem *unnin verða,* hversu mikil hætta sem þeim fylgir«. Báðir þessir göfuglyndu menn dóu skömmu síðar, og sögðu margir, að óhlýðni þeirra hefði verið þeim goldin með eitri.

Það hafði komið til umtals, að þeir nafnar væru báðir af lífi teknir, Hinrik af Navarra og Hinrik Conde (sonur Loðvíks Conde sem fyr er nefndur), en það þótti ógjörandi, að konúngur lèti drepa konúngborna menn, og fyrir því hèldu þeir lífi; en þó með því skilyrði, að þeir köstuðu Calvins trú og tækju upp katólskan sið.

Þegar tíðindi þessi, sem nú voru sögð, spurðust til annara landa, var þeim sem von var mjög misjafnlega tekið; flestum þóttu þau íll, en Filippus annar Spánarkonúngur og páfinn, Gregorius þrettándi, urðu stórum glaðir; páfinn lèt í því skyni halda dýrðlega þakkarhátíð og slá kostulegan minnispeníng til merkis um afreksverkin á Frakklandi.

Hugenottar þeir, sem lifðu eptir morðvígin á Frakklandi, forðuðu sèr hvað þeir kunnu, og leituðu sumir þeirra til trúar-

bræðra sinna á Englandi og í Sveiz, en sumir til þeirra fjögra griðastaða á Frakklandi, sem áður er getið, einkum til Rochelleborgar, því að þar voru vígi allsterk og lið til varnar. Það var því alt öðru nær, en að hinni grimmu Frakkastjórn hefði tekizt að uppræta þenna trúarbragðaflokk og eyða honum með öllu, að hann þvert á móti efldist að nýju, þar sem Hugenottar hèldu nú sem fastast saman, og gjörðu statt og stöðugt með sèr, að verjast allir sem einn maður, og láta eitt yfir alla gánga, hvað sem að höndum bæri, því að þeir þóttust vita fyrir víst, að skamma stund mundi þeim til setunnar boðið. Þess var eigi heldur lángt að bíða, áður Hinrik hertogi af Anjou var sendur með her manns á hendur þeim og settist um Rochelle-borg; en borgar menn vörðust svo vel, að Hinrik fèkk eigi tekið borgina, og að 5 mánuðum liðnum leiddist honum þófið og gjörði frið við þá (1573) með líkum skilmálum, og þeim, er gjörðir höfðu verið við Hugenotta árið 1570 í St. Germain en Laye. Um þessar mundir var Hinrik hertogi kjörinn til konúngs á Pólverjalandi, og fór nú þángað til að gæta ríkis síns.

Katrín af Medícis átti son þann, er *Frans* hèt; hann var hertogi af *Alencon*, og hefir hans eigi verið getið til þessa. Hann varýngstur þeirra bræðra Katrínar sona, óeirðarmaður mikill og metorðagjarn. Nú er Hinrik bróðir hans var orðinn konúngur[1], og af landi farinn, vildi Franz fá meiri völd í hendur á Frakklandi, en hann hafði haft til þessa, en móðir hans og bróðir vildu eigi veita honum þá bæn, einkum fyrir þá sök, að þau óttuðust, að slíkt mundi verða Húgenottum til eflíngar, því að hertoginn hafði aldrei viljað fylla þann flokk, er ofsótti menn sökum trúarbragða. Hertoganum þótti sèr órèttur gjör í þessu, og leiddi það til þess, að flokkur sá reis upp í Frakklandi, er *stjórnmanna flokkur* (»Politikere«) nefndist[2]; var hertoginn oddviti þeirra manna, en margir þeirra voru hinir göfugustu menn, þar á meðal Hinrik af Navarra, Hinrik af Conde og ýmsir aðrir, þótt því nær allir þeirra fylgdu katólskum sið. Það

1) Eptir að Hinrik var orðinn konúngur Pólverja, var Franz nefndur hertogi af Anjou.

2) Svo voru þeir nefndir, af því þeir lètu sig miklu meir um það varða, hverjir landinu stýrðu, og hvernig stjórnin fór fram, heldur en um hitt, hver trúin það var sem drotnaði.

var mark og mið þessa flokks, að sýna Húgenottum alla sanngirni, og koma því til leiðar, þá er Karl 9. væri dáinn, að Hinrik bróðir hans, Pólverja konúngur, kæmist eigi til ríkisstjórnar á Frakklandi, að Katrínu drotníngu yrði vikið frá völdum, en Franz hertogi af Anjou tekinn þar til konúngs. Karl 9. var, þegar hèr var komið, þrotinn að heilsu bæði af svalli og sællífi, og þar á ofan bættust andlegar þjáníngar af illri samvizku, er ofsóttu hann allt í frá Bartolómeusnóttunni. Hann dó barnlaus 1574, vart 24 ára gamall, og kvað svo á litlu fyrir andlát sitt, að móðir sín skyldi stýra ríkinu, þángað til Hinrik bróðir sinn gæti komið til Frakklands og tekið þar við ríkisstjórn.

Þá er Hinrik frèttir, að Karl bróðir hans er andaður, bregður hann við sem skjótast, fer á næturþeli burt af Pólverjalandi, eins og flóttamaður, og kveður þar engan mann. Þó er það eigi þann veg að skilja, að hann hraðaði ferð sinni til Frakklands, heldur fór hann krók á sig til Vínarborgar og Venezíu, dvaldist þar um hríð og skemti sèr hvað hann kunni. En Katrín móðir hans stýrði Frakklandi á meðan; flokkadrættir voru miklir í landi, og það var með naumindum að friðurinn hèlzt. Þegar Hinrik konúngur var seztur að völdum var hann nefndur *Hinrik þriðji* (1574—1589). Margir hugðu allgott til hans ríkisstjórnar, því að hann hafði að undanförnu verið allötull í sumum greinum, og margt var honum af ósjálfráðu vel gefið, en hann var sem bræður hans af illu foreldri kominn, og uppeldið undir handleiðslu Katrínar móður hans verra, en orðum verði að komið. Það var því engin furða, þótt góðar vonir um ríkisstjórn hans brigðust mönnum algjörlega; enda var eigi við góðu að búast af þeim konúngi, er verið hafði einn af hvatamönnum að Bartolómeus-vígunum.

Það var enn sem fyr grunt á því góða milli katólskra manna og Hugenotta. Nokkrir góðgjarnir menn gáfu Hinriki það ráð, að beita eigi hörðu við Hugenotta, en hinir urðu þó miklu fleiri, og þar á meðal var Katrín móðir hans, sem rèðu konúngi að kúga þá og útrýma þeim á allar lundir, og því ráði fylgdi hann. Hinrik af Conde hafði farið burt af Frakklandi og safnað liði norður á Þýzkalandi, og hèlt þeim hersveitum til Frakklands; Franz hertogi, konúngsbróðir, hafði flúið hirðina og gengið í lið með Hugenottum; slíkt hið sama gjörði Hinrik af Navarra.

Höfðu Hugenottar nú mikið lið og örugga foríngja. Nú, þegar ófriðnum laust upp, sá Hinrik þriðji eigi annað ráð vænna, en að semja frið (1576), og þannig náðu Hugenottar miklu betri friðarkostum nú, en þeir höfðu nokkru sinni áður fengið. Nú var þeim leyft að halda trú sinni leynt og ljóst alstaðar á Frakklandi nema í París, eiga setu á þjóðþíngum öllum til jafns við katólska menn, og komast til allra valda án alls greinarmunar, og griðastöðum þeirra, sem áður höfðu að eins verið 4, var nú fjölgað um 8. Franz hertogi af Anjou fékk ríki mikið til forráða vestur í landi og settist þar um kyrt.

Katólskir menn undu illa þessum málalokum, og tóku ráð sín saman. Varð það þá úr, að þeir stofnuðu félag með sèr, er magnaðist dag frá degi og náði yfir allt Frakkland. Allir sem í það fèlag gengu, og voru þeir ærið margir, urðu að vinna eiða að því, að vernda katólska trú með lífi og gózi, en eyða óvinum hennar, og af því að þetta þótti gjört guðs og kirkjunnar vegna, þá kölluðu þeir flokkinn: *hið helga fèlag* (*den hellige Ligue*). Formaður fèlagsins var Hinrik hertogi af Guise. Hann var þá hálfþrítugur og hinn mesti afreksmaður, eins og faðir hans hafði verið, hraustur, slægvitur, grimmur og ákaflega drotnunargjarn. Það hèt svo í orði kveðnu, að fèlagið vildi styrkja konúnginn og stjórn hans, en undir niðri var þó áformið, að eyða öllum Hugenottum, draga hertogann af Anjou fyrir lög og dóm, fyrir því að hann efldi flokk Hugenotta, setja Hinrik konúng þriðja í klaustur, en taka Hinrik af Guise til konúngs yfir Frakkland, því að hann væri kominn af Karlamagnúsi í beinar ættir. Þetta frèttir nú Hinrik konúngur, og þótti mikil tíðindi og ill. Tók hann þá það ráðs, er fèlagsmenn grunaði sízt, og það var, að hann gekk sjálfur í fèlagið og gjörðist oddviti þess. Nú bar lítið til tíðinda á Frakklandi um nokkur ár; fjárhagur ríkisins var að þrotum kominn, sökum ófriðarins í landinu og einkum sökum hinnar óhóflegu fjáreyðslu stjórnarinnar; engum nytsamlegum fyrirtækjum varð til leiðar komið; konúngur og gæðíngar hans hugðu mest á skemtanir; þeir sem helzt var dugur í, voru blindaðir af trúarofsa, eins og Katrín drotníng og Guisarnir; fèlagið helga vann lítið á Hugenottum, því að fyrirliðar þeirra, Hinrik af Navara og Hinrik Condé, voru bæði vitrir og starfsamir, enda styrkti konúngur fèlagið ekki svo teljandi sè, því að öðrum þræði

óttaðist hann yfirráð þess og Guisanna, ef það magnaðist stórum; hinn helzta styrk, sem fèlagið hafði um þessar mundir, veitti Filippus annar því, eins og við var að búast af slíkum manni. Árið 1584 dó Frans hertogi af Anjou; voru þá dauðir 3 af sonum Katrínar, allir barnlausir og á únga aldri. Hinrik 3 var nú einn eptir af þeim bræðrum, en hann átti ekki börn, og var því eigi annað sýnna, en að Valois-ættin væri þegar aldauða. Þá stóðu Bourbonar næstir til ríkiserfða; en Hinrik af Navarra, helzti maðurinn af þeim frændum, fylgdi Calvíns trú (Hugenottum), og var fyrir þá sök trúvillumaður í augum katólskra manna og óhæfur til konúngstignar á Frakklandi. Nú vaknaði nýr hugur og dugur í Hinriki af Guise og fèlaginu helga; gripu þeir nú til vopna, unnu ýmsar borgir og settust þar að og lètu allólmlega. Konúngi varð hverft við, og beiddi Katrínu móður sína að semja við Guise og þá fèlaga. Hún gjörði svo, og kröfðust þeir þá, að konúngur skyldi harðlega banna aðra trú og önnur helgihöld en hin katólsku, svipta Hugenotta öllum embættum, og taka af þeim alla þeirra griðastaði. Konúngur þorði eigi annað en gjöra þeim Guise til hæfis. Þannig hófst ófriðurinn að nýju, og hafa menn kallað hann «*Hinrika stríðið*», eptir þeim þremur nöfnum: Hinriki af Guise, Hinriki þriðja, og Hinriki af Navarra. En meðan hinir börðust kom Hinrik þriðji hvergi nærri, heldur sat hann heima um kyrt og lèk sèr að hundum sínum, apaköttum og páfagaukum. Af öllu sínu athæfi varð nú Hinrik þriðji svo fyrirlitinn af þegnum sínum, og það engu síður hinum katólsku, að þeir höfðu við orð, að taka hann höndum, og gjöra Hinrik Guise að konúngi. Nú urðu margar orustur með mönnum; stóð ein hin helzta af þeim við borg þá, er *Coutras* heitir, vestur á Frakklandi (í októbr. 1587). Þar börðust Hugenottar við ofurefli liðs af «fèlaginu helga». Hertoginn af *Joyeuse* stýrði fèlagsmönnum, en Hinrik af Navarra Hugenottum. Þar sýndi Hinrik fyrst að hann var afbragðs hershöfðíngi. Áður en orustan tókst mælti Hinrik við þá frændur sína, Hinrik prinz af Conde og Karl (af Bourbon) greifa af Soissons, er báðir voru í liði hans: «minnist þess, að þið eruð Bourbona-ættar! hvað mig sjálfan snertir skal eg, svo sannlega sem guð er til, sýna að eg er ykkar elztur!» hann efndi orð sín og vann frægan sigur þann dag. Hertoginn af Joyeuse fèll, og margar þúsundir af katólsk-

um mönnum, en margir urðu sárir og handteknir. Hinrik var þeim eins og þeir væru bræður hans, og gaf þeim öllum, sem ferðafærir voru, heimfarar leyfi án nokkurs lausnargjalds. Nokkru síðar en þessi orusta varð dó prinzinn af Condé, rúmlega þrítugur að aldri, til mikils harms fyrir alla Hugenotta, því að hann var hinn vaskasti maður og góður drengur; það var altalað, að hann hefði dáið af eitri.

Víða var róstusamt á Frakklandi um þessar mundir, en þó hvergi fremur en í París, enda var þar manngrúinn mestur, og Hinrik Guise sparaði ekki að blása eldi að þeim kolum. Konúngur hèlzt þar ekki við og flýði burt, en Hinrik Guise rèð þar einn öllu sem hann væri konúngur; það fanst því nær enginn sá maður, er dirfðist að mæla í móti honum. Þó er þess getið, að einhverju sinni gekk hann til fundar við þann mann, er *Akkilles Harlay* hèt, og var forseti «parlamentsins». Akkilles var staddur í aldingarði sínum, er Hinrik hertogi kom; hertoginn mælti til hans vingjarnlegum orðum, en hinn svaraði, «það er sárt til þess að vita, að þjónninn skuli reka húsbóndann á brott; en að öðru leyti er sál mín á drottins valdi, hjartað á konúngsins valdi, og líkaminn á valdi hvers þess illmennis, er á hann vill hendur leggja». Eigi er þess getið, að honum yrði meint af þessari bersögli.

Katrín af Medicis varð eptir í París, til þess að miðla málum af hendi Hinriks konúngs sonar síns við hertogann af Guise, en svo fór, að konúngur varð að gánga að öllum þeim skilmálum, er Guise setti. Einn af þeim skilmálum var sá, að konúngur hèti að eyða öllum Hugenottum á Frakklandi, á hvern þann hátt sem orðið gæti. En nú var svo komið, að konúngi þótti eigi lengur viðvært, og hugði á hefndir. Hann greip þá til þeirra úrræða, sem almenn voru um hans daga á Frakklandi: hann fekk 8 af hirðmönnum sínum til þess að myrða Hinrik hertoga. Það er mælt, að hertoginn fyndi einn dag, er hann settist að matborði, seðil undir diski sínum, er á voru rituð þessi orð: «menn vilja myrða yður»; hann ritaði þar neðanundir: «það þorir enginn að gjöra». Daginn eptir ætlaði Hinrik hertogi að gánga á ráðsstefnu, en þeir átta, sem til þess voru settir, rèðu þá á hann og veittu honum bana (23. desember 1588. Bróðir hans *Lodvík af Guise* kardínáli, var einnig

tekinn af lífi, en hinn þriðji bróðirinn, Karl hertogi af *Mayenne*, leitaði undan og forðaði svo fjörvi. Hinrik konúngur þóttist nú vel hafa veitt, og var hinn kátasti, en Katrín móðir hans kvað það mundu kosta hann konúngdóminn. Hún var sjúk um þessar mundir og dó litlu síðar (5. jan. 1589).

Spá Katrínar rættist fyr en varði. Flestum katólskum mönnum þótti víg þeirra bræðra svo illt verk, að þeir sögðu Hinriki konúngi upp hlýðni og hollustu; gengu nú undan honum bæði borgir og hèruð, en Karl af Mayenne gjörðist foríngi »fèlagsins helga« og ríkisforseti. Hinrik þriðji hafði nú eigi önnur úrræði en að flýja á náðir Hugenotta, og heita þeim öllu fögru. Bar þá brátt saman fundum þeirra nafna, Hinriks þriðja og Hinriks af Navarra. Hèldu þeir síðan báðir til Parísar, höfðu allmikið lið og settust um borgina, en Karl af Mayenne var þar fyrir og varði hana.

Frá því er Guisarnir voru drepnir, og Hinrik þriðji var kominn á náðir Hugenotta, æstu klerkarnir lýðinn hvað þeir kunnu til hefnda gegn honum; þeir sögðu, að sá maður ynni sèr til mikillar frægðar og mikilla launa, bæði þessa heims og annars, er dræpi slíkan konúng, er á ofan allt annað hefði skilizt við heilaga kirkju. Þessi kenníng bar sína ávexti. Múnkur einn af Dominíkusar reglu, *Jakob Klement* að nafni, varð svo hrifinn af slíkri kenníngu, að hann einsetti sèr, að ráða konúng af dögum. Með þeim huga fór hann til *St. Cloud*, þar sem Hinrik þriðji hafði þá aðsetu, og náði hans fundi og veitti honum banasár (1. aug. 1589). Konúngur andaðist degi síðar, en lýsti yfir því áður hann lèzt, að Hinrik af Navarra skyldi erfa ríkið eptir sinn dag. Þannig leið *Valois-ættin* undir lok, eptir að hafa setið að ríkjum á Frakklandi rúma 260 vetra. En þó að nú Hinrik af Navarra ætti tilkall til konúngdóms, þá var alt um það mjög óvíst að hann næði honum, því að katólskir menn hötuðust við hann, sökum þess að hann fylgdi Calvíns trú; París var í höndum Karls af Mayenne og fèlagsins helga, og Filippus annar á Spáni var sjálfsagður að styðja og styrkja pápiska menn móti Hinriki. Hann hlaut því að berjast og vinna sigur, ef hann vildi konúngur verða á Frakklandi.

## Bourbona-ættin hefst til ríkis á Frakklandi með Hinriki fjórða.

*Valois-ættin*, sem lengi hafði ráðið ríkjum á Frakklandi, var liðin undir lok með Hinriki þriðja. Hinir síðustu konúngar af þeirri ætt — Franz annar, Karl níundi og Hinrik þriðji — höfðu verið hver öðrum verri og ónýtari; þeir voru rèttnefndir voðaverkfæri Katrínar móður sinnar af Medicis, og vandræðamenn þjóðarinnar; við hirðina drotnaði saurlifnaður, trúarofsi og grimd, og dreifðist þaðan víðsvegar út um landið; slík óöld sem þá gekk yfir Frakkland, truflaði öll friðsamleg störf og framfarir þjóðarinnar; velmegun manna hnignaði, ríkisskuldirnar gengu fram úr hófi. Það var ekki eitt, heldur alt, sem þurfti lækníngar við á Frakklandi; en til þess að græða slík þjóðarmein þurfti einhvern afbragðsmann ef duga skyldi. Frakkar áttu ráð á slíkum manni, en svo voru þeir þá orðnir fráhverfir — eins og hent hefir fleiri þjóðir — að þeir brutust í móti honum með oddi og eggju. Þessi maður var Hinrik af Navarra, sem getið hefir verið hèr að framan. Hann var einn af Bourbona-ættinni, eins og fyr er ritað, og hafði verið höfðíngi hennar síðan Anton konúng leið föður hans; var Hinrik þá að eins 16 vetra, en nú voru síðan liðin 20 ár; hann hafði á þeim tíma komizt í miklar mannraunir, en jafnan sýnt ágæta hreysti, góðgirni og viturleik, svo að Coligný sjálfum, er kunni að meta mikla mannkosti, fanst mikið um hann og unni honum hugástum. Eptir víg Colignýs var Hinrik foríngi Hugenotta, og það var eflaust einkum hans ráðum og framgöngu að þakka, að eigi var búið að kúga þá að fullu og öllu. Það er sagt, að Hinrik hafi haft flesta þá kosti til að bera, er konúng mega prýða, bæði andlega og líkamlega; hann var íþróttamaður umfram aðra menn, manna hugprúðastur, og sögðu menn, að hann væri á vígvellinum sem örn meðal annara fugla, en svo var hann þó mildur óvinum sínum, er þeir komust á hans vald, að vinir hans töldu sumir á hann fyrir þá sök; hann var hinn mesti starfsmaður. Það var venja hans að rísa úr rekkju 2 stundum fyrir miðjan morgun, og sögðu menn því, að svefnstund hans væri styttri en matmálsstund Karls af Mayenne. Til þessa bendir einnig svar það, er Hinrik gaf eitt sinn, er menn hældu Karli hertoga, og sögðu hann vera dugandi

hershöfðíngja: «hertoginn er það að sönnu, en eg vinn af honum 5 stundir dag hvern».

Jafnskjótt sem Hinrik þriðji var látinn, var Hinrik af Navarra tekinn til konúngs yfir Frakkland af öllum Hugenottum og liði því, er honum fylgdi, og nefndur *Hinrik fjórði*, og þó að konúngstign hans væri eigi viðurkend um alt ríkið fyr en fjórum árum síðar, þá eru þó ríkisstjórnar ár hans alment talin frá 1589 til 1610. Það var Hinriki konúngi mjög í móti skapi, að þurfa að berjast við þegna sína, og fyrir þá sök reyndi hann að gjöra sátt og samnínga við Karl hertoga af Mayenne, sem var oddviti «félagsins helga», sat í Parísarborg og hafði þar miklar varnir; en það var ekki nærri því komandi. Hinrik varð því að treysta hamíngjunni og vopnum sínum, þó að þeir stæðu mjög ójafnt að vígi hann og Karl hertogi. Allur meginþorri landsmanna stóð enn sem komið var með hertoganum, og klerkalýðurinn pápiski gjörði hvað hann gat, að æsa menn til ófriðar gegn konúngi. Hertoginn var vitur maður og hinn herkænasti. Hann kom því til leiðar, að katólskir menn tóku til konúngs yfir sig föðurbróður Hinriks fjórða, Karl kardínála af Bourbon, og nefndu hann Karl 10., en hertogann sjálfan gjörðu þeir að ríkisforseta, og voru ráðin öll þar sem hann var, því að Karl af Bourbon var gamall maður og aðkvæðalítill. Katólskir menn höfðu miklar áhyggjur af því, hver verða mundi konúngur þeirra að Karli 10. dauðum. Hertoginn hafði reyndar beztu vonir um, að geta þá náð í konungstignina, en Filippus annar á Spáni þóttist, engu síður en hann, eiga tilkall til ríkiserfða á Frakklandi fyrir hönd dóttur sinnar, því að hún var systurdóttir Hinriks þriðja og þeirra bræðra; hafði Filippus konúngur, eptir beiðni félagsins helga, sent her manns til Parísar til liðs við félagið og aðra óvini Hinriks fjórða. Nú urðu lítil tíðindi með mönnum til þess er fundum þeirra Hinriks konúngs og Karls af Mayenne bar saman hjá borg þeirri, er *Ivry* heitir, og er þar vestur í landi. Snemma morguns þann dag, er orustan stóð (14. marz 1590), fylkti Hinrik konúngur liði sínu, féll síðan á knè og bað guð að láta sig fá að deyja þar, ef hann sæi fyrir að hann mundi verða illur og ónýtur konúngur, en að öðrum kosti vinna sigur. Liðsmönnum hans fanst mikið um þenna atburð, og varð þeim það hin mesta hvöt til drengilegrar framgöngu. Því næst

talaði konúngur fyrir liðinu og lauk svo sínu máli: «en fari svo að þèr látið merki yðar, þá missið eigi sjónar á hinum hvíta fjaðraskúfi á hatti mínum; þar sem þèr sjáið hann, þar er vegurinn til sigurs og sæmdar». Þar vann konúngur frægan sigur, þótt hann hefði lið miklu minna en hertoginn. Konúngur sýndi öllum þeim mönnum, sem hann handtók í orustu þessari, hina mestu mildi, og gjörðust þeir allir hans menn upp frá því.

Eptir þenna ósigur fór Karl af Mayenne til Niðurlanda til fundar við Alexander Farnese (sem fyr er nefndur), og rèðu þeir ráðum sínum, en Hinrik konúngur hèlt til Parísar, og skoraði á borgina að gefast upp, en þess var enginn kostur; settist konúngur þá um borgina og bannaði alla aðflutnínga, lètust þá margir af sulti og seyru, en borgin gafst eigi upp að heldur, og varð konúngur frá að hverfa, því að Karl af Mayenne var þá á leiðinni þángað með sínar sveitir, og Alexander Farnese kom á eptir með miklu liði, eptir boðum Filippusar annars. Um þessar mundir var hið mesta stjórnleysi í landinu, og var eigi annað sýnna, en að ríkið mundi alt leysast sundur og tvístrast í mörg smáríki.

Hinrik 4. var nú í miklum vanda staddur; hann sá, að hèr voru að eins tveir kostir fyrir höndum, annaðhvort að taka katólska trú, ellegar sleppa allri von um konúngdóm á Frakklandi; honum gekk nærri að skiljast við trúarbræður sína, en bæði var það, að sumir þeirra leiddu honum fyrir sjónir, að þeir fengju því að eins að halda trú sinni í friði að hann yrði konúngur, og mörgum katólskum manni var vel til Hinriks, þó þeim væri illa við trú hans (Calvíns trú), og þessir kváðust gjarnan vilja honum þjóna, ef hann tæki þeirra trú. Hinrik hugsaði þetta mál vel og vandlega, og loks rèð hann það af að taka katólska trú (1593). Nú var aðalástæðan til mótstöðu gegn Hinriki konúngi horfin; París, höfuðborg landsins, lauk upp fyrir honum borgarhliðum sínum; slíkt hið sama gjörðu margar aðrar borgir. Þegar herflokkar þeir sem Filippus annar hafði sent til styrktar við Karl af Mayenne, fóru burt úr París, kvaddi Hinrik konúngur fyrirliðana með þessum orðum: «Berið konúngi yðar kveðju mína og segið honum, að eg vilji feginn eiga hann að, farið svo í friði, en komið aldrei híngað aptur». Sumir menn urðu til þess, að eggja konúng á að hefna sín rækilega á hinum helztu

óvinum sínum, sem nú voru komnir á hans vald. En Hinrik svaraði þeim þessu: «Nei, það sè fjærri mèr; eg vil gleyma öllu, og þar eð guð fyrirgefur mèr, þótt eigi hafi eg til þess unnið, þá vil eg einnig fyrirgefa þegnum mínum».

Eptir að París var gengin undir Hinrik fjórða, batnaði hans hlutur stórum, þó var enn margt og mikið eptir. Karl af Mayenne hafði allmikinn liðsafnað, og allir hinir áköfustu páfatrúarmenn fyltu þann flokk. Hinriki miðaði þó drjúgum áfram að takmarki sínu; mörg hèröð gengu nú undir hann; hertoginn af Guise — sonur þess, er Hinrik þriðji lèt myrða — skildist við Karl af Mayenne föðurbróður sinn, með sínu liði og gekk konúngi til handa. En meðan þessu fór fram, veitti einn úngur maður, *Jean Chatel,* af Jesúíta flokki, konúngi banatilræði, og særði hann (1594). Sá maður var tekinn og drepinn. Voru Jesúítar þá gjörðir útlægir af Frakklandi, þó hèldust þeir við suður í landi, og náðu síðan fótfestu á Frakklandi. En þó innanlands ófriður færi nú mínkandi á Frakklandi, hèlzt enn ófriður milli Hinriks konúngs og Filippusar annars. Spánverskur her brauzt inn á Frakkland árið 1595; en Hinrik fjórði vann sigur á honum, og hafði þó lítið lið. Eptir þann sigur beiddist Karl af Mayenne griða, og varð síðan fullur friður milli hans og Hinriks fjórða. Loks leiddist Filippusi öðrum sá ófriður, enda færðist nú bæði elli og vanheilsa á þann gamla segg; komst því friður á milli landanna í Vervíns-borg 1598; litlu síðar andaðist Filippus annar, eins og fyr er ritað.

Nú hafði Hinrik fjórði friðað ríki sitt, og gat nú fyrst algjörlega tekið til friðsamlegra starfa, og þó hann væri frægur orðinn sem hetja og hershöfðíngi, þá eru það hans miklu afreksverk á friðarárunum, eptir að hèr var komið, sem hafa gjört hann frægastan. Hin frakkneska þjóð var orðín lángþjáð, og lá að kalla mátti í sárum eptir undanfarna ööld og innanlands óeirðir. Hinrik fjórði varði öllum stundum eptir þetta meðan æfi hans entist, til að græða þessi sár, og honum tókst með vitsmunum sínum og mikdi, að bæta kjör þjóðar sinnar í flestum greinum. Eitt af því fyrsta, sem hann gjörði, var, að veita hinum fornu trúarbræðrum sínum, Hugenottum, fult trúarfrelsi og ýms rèttindi, sem þeir áður höfðu orðið án að vera, verið einatt heitið, en eins opt sviknir um það af hinum fyrri konúng-

um. Þessi nafnkenda rèttarbót um rèttindi Hugenottanna var út gefin í borg þeirri, er *Nantes* heitir (13. Apríl 1598), og er síðan kend við þá borg (*Nantes-Edictet*). Hinrik konúngur gaf meiri þorra af liðsmönnum sínum heimfararleyfi, og lagði ríkt á við þá að leggja stund á jarðyrkju; hann styrkti á allar lundir bændalýðinn, sem kominn var í örbyrgð; gaf honum upp skatta og skyldur, studdi iðnaðarmenn og hvatti til framkvæmda, efldi vísindi og allar nytsamar mentir. Ávextirnir komu bráðum í ljós; landinu fór fram, og lýðurinn auðgaðist ár frá ári. Einhverju sinni spurði Karl Emanúel, hertogi í Savoyen, konúng, hversu miklar tekjur hann hefði af Frakklandi: «eins miklar og eg vil — mælti Hinrik —, þegnar mínir unna mèr allir hugástum og neita mèr einskis, sem eg bið þá um. En, ef guði þóknast að láta mig enn lifa nokkur ár, hefi eg þá von, að eg fái komið því til leiðar, að hver bóndi í ríki mínu geti að minsta kosti hvern sunnudag soðið sèr hænu til matar». Eptir það þagnaði konúngur litla stund, og sagði svo: «en þar á ofan hygg eg, að eg muni þó eiga ráð á svo miklu, að eg geti haldið nægan her til þess að krefja þá til reiknings, sem sýna vilja mèr mótþróa sem konúngi». Hertoginn hafði verið einn á meðal þeirra, og gjörði enda óspektir litlu síðar, en konúngur jafnaði á honum, svo hertoginn beiddist friðar.

Afbragðsmenn eru vanir að hafa ágæta þjóna. Svo var um Hinrik fjórða. Hann hafði þann ráðgjafa er *Sullý* hèt, og var hertogi að nafnbót. Sullý var 7 vetrum ýngri en konúngur, og hafði verið með honum frá því hann var á 12. ári, orðið frægur í orustum, en eptir að Hinrik fekk frið og settist um kyrt í ríki sínu, gjörði hann Sullý að fjárstjóra ríkisins, og varð víst eigi til þess fundinn eins vel hæfur maður, því síður annar betri. Þegar Sullý tók við fjárstjórn, voru ríkisskuldirnar orðnar svo miklar, að sagt er að numið hafi 1000 millíónum ríkisdala í vorum peníngum; en þegar hann lagði niður völdin, voru eigi að eins allar þær skuldir goldnar að fullu, heldur þar á ofan búið að safna í sjóð 60 millíónum ríkisdala, og þó voru skattar aldrei mjög þúngbærir á landsfólkinu um daga Hinriks fjórða. En Sullý var ekki einúngis hinn bezti ráðgjafi Hinriks, heldur einnig hans bezti vinur, og konúngi þótti ekkert ráð ráðið, nema hann rèðist áður um við Sullý. Þessir tveir menn voru svo

samvaldir, að ef það bar við, að konúngur sýndi ofmikinn linleika í málum, eður hann lèti tauminn slakan um of við þann breiskleika, sem að honum hefir verið fundinn, en það var hviklyndi hans í kvenna ástum, þá var Sullý honum til annarar handar með kjarkinn og siðvendið, og kipti öllu í lag; en ef Sullý ætlaði að verða ofharður og ónærgætinn, þá var konúngur þar og mýkti málin, svo alt jafnaði sig. Þó að illir menn gengi á milli og reyndu að spilla vinfengi þeirra, var þess enginn kostur, og stóð það óhaggað meðan þeir lifðu báðir. Það var einhverju sinni að Sullý vildi bæta búgarð sinn. Þá ritaði konúngur honum brèf og segir þar svo: «Eg hefi heyrt, kæri Sullý, að þèr látið um þessar mundir planta yður skemtiskóg á búgarði yðar. Svo sem vinur allra þeirra, er gaman hafa af húsasmíði og jarðabótum, og svo sem yðar góði konúngur sendi eg yður hèr með 6000 ríkisdala, til þess að styðja að því, að þetta, sem þèr hafið í smíðum, geti orðið allsnoturt».

Hinrik konúngur átti Margrètu af Valois, dóttur Hinriks annars og Katrínar af Medicis, eins og áður er sagt, en samfarir þeirra urðu eigi góðar og skilin voru þau að samvistum fyrir löngu; en árið 1599 gjörði páfinn skilnað með þeim að fullu og öllu, og kvæntist konúngur árið eptir, Maríu af Medicis, dóttur Franz hertoga af Toskana. Börn þeirra Hinriks og Maríu voru *Loðvík*, (er síðan varð konúngur), *Gaston* og *Henriette;* hún giptist Karli fyrsta á Englandi.

Á ofanverðum árum Hinriks fjórða, þá er alt var komið á fastan fót í ríki hans, snèri hann huga sínum til útlendra þjóða. Hinn háfleygi andi þessa afbragðsmanns lèt sèr eigi nægja það sem heima fyrir var að starfa. Eins og hann, með aðstoð Sullý vinar síns, hafði viðrètt Frakkland, eins vildi hann viðrètta það og laga, sem honum þótti ábótavant í öðrum löndum Norðurálfunnar; hann vildi efla frið og framfarir mannkynsins; hann vildi koma á þeim jöfnuði meðal þjóðanna, að hver mætti sitja óhultur að sínu. Þess vegna vildi hann umfram alt minka ofurveldi og yfirgáng þeirra Habsborgarmanna, þ. e. keisarans af Austurríki og konúngsins á Spáni, enda hafði mörg ill alda runnið þaðan yfir Frakkland. Til þess að koma þessu öllu í það horf, er hann hafði hugsað sèr, vildi hann skipta allri Norðurálfunni í mörg ríki og svo jöfn, að ekkert þeirra væri vold-

ugra en annað; þá þótti honum sem almennur friður og alment trúarbragðafrelsi mundi geta haldizt um lánga æfi. Til þess að skerast í þessi stórræði, bauðst nú hið bezta færi. Á Þýzkalandi voru óeirðir kviknaðar milli katólskra manna og prótestanta, þar sem hvorirtveggja vildu ná til arfs eptir Jóhann hertoga af Cleve, er dó barnlaus árið 1609, og lèt eptir sig lönd og lausa aura. Hinrik fjórði bjó lið sitt og ætlaði að halda því til Þýzkalands og hjálpa prótestöntum, sem voru hans bandamenn. Um vorið 1610 bjóst konúngur til burtfarar af ríki sínu, en það tafði hann, að drotníng hans vildi krýnast áður hann færi, ef svo kynni fara, að hann kæmi eigi aptur. Konúngi var það mjög móti skapi, því að honum þótti það valda sèr töf og ríkinu kostnað. Hann hafði orð á því við Sullý, á þessa leið: «Eg veit eigi hvað það er, vinur minn, en hugur minn spáir mèr einhverri ógæfu. Eg dey í þessari borg og kemst aldrei hèðan lifandi. Þeir myrða mig, því eg sè glögt, að það eru þau einu úrræði sem þeir hafa». Sullý brá í brún, er hann heyrði þessi orð, og gaf það ráð, að fresta skyldi krýníngunni, en drotníngu mislíkaði stórum, og lèt konúngur það þá eptir henni; var hún því næst krýnd 13. dag maímánaðar. Daginn eptir (14. maí 1810) um nónbil lèt konúngur leiða fram hesta sína og beita fyrir vagn, og steig þar á sjálfur og nokkrir af hirðmönnum hans með honum. Ökumaður spurði hvert halda skyldi. Konúngur svaraði og heldur stutt: «komdu mèr einúngis burt hèðan!» Þar varð á stræti einu, er konúngur ók um, þröng mikil af vögnum og mönnum, svo að konúngur nam staðar, meðan sveinar hans hlupu af vagninum til þess að rýma því úr vegi, er fyrir var. Meðan á þessu stóð, hljóp maður upp á vagnhjólið aptara, þeim megin sem konúngur sat, beygði sig yfir hann fram og lagði knífi á brjósti honum, og kom í hjartað. Konúngur æpti við, er hann fèkk lagið: »*eg er særður!*« og dó samstundis. Þessi atburður varð með svo skjótri svipan, að enginn veitti því eptirtekt fyr en þeir heyrðu konúnginn kalla. Vegandinn stóð kyr í sömu sporum og lèt taka sig höndum. Hann hèt *Franz Ravaillac,* hafði áður verið múnkur, en var, þá er þetta gjörðist, skólameistari í Angouleme. Hann fèkst eigi til að játa, að aðrir væru í vitorði með honum, og var síðan af lífi tekinn eptir

hryllilegar kvalir, eins og þá var tíðska. Þannig dó Hinrik fjórði, hinn bezti konúngur, er verið hefir á Frakklandi.

Eldri sonur Hinriks fjórða, *Loðvík* hinn 13. með því nafni, var til konúngs tekinn eptir föður sinn (1610—1643). Hann var í bernsku, er faðir hans dó, og stýrði því María drotníng móðir hans ríkinu fyrst um sinn. Skipti þá stórum um til hins lakara í allri ríkisstjórn á Frakklandi. Sullý lagði niður völdin; öðrum stjórnarháttum var fylgt en þeim, er verið höfðu um daga Hinriks fjórða; kosti Hugenotta var þröngvað; katólskir menn voru heldur ekki ánægðir, því að margt færðist nú úr lagi; fjársjóðir ríkisins eyddust, og ítalskur maður, *Concini* að nafni, rèð mestu með drotníngu, og varð mjög óþokkaður af Frökkum. Prinzinn af Conde var oddviti fyrir þeim flokki, er helzt stóðu í móti stjórninni; fengu þeir því til leiðar komið, að allar 3 ríkisstèttir (ɔ: aðalsmenn, klerkar, borgarar) voru kvaddar til þíngs (1614). Þjóðþíng þetta var sjálfu sèr sundurþykt, málin lentu þar öll í vafníngum, og svo var því slitið. Eptir það var slíkt alsherjarþíng aldrei háð á Frakklandi fyr en stjórnarbyltíngin mikla hófst þar 1789. Árið 1615 kvongaðist Loðvík 13. og átti Önnu, dóttur Filippuss þriðja Spánarkonúngs. Hafði þá um nokkur ár verið mikil vinátta með stjórnendum á Frakklandi og Spáni. Við þeim mægðum hafði Hinrik fjórði vist eigi búizt.

Árið 1617 varð sú breytíng í stjórninni á Frakklandi, að Concini var steypt úr völdum og tekinn af lífi, en Maríu drotníngu vikið burtu. Komst sá maður þar þá til æðstu valda, er *Luynes* hèt, og stóð svo til þess er hann dó 1624. En þá kom *Richelieu* kardínáli til sögunnar. Hann varð ráðgjafi Loðvíks, og er einhver hinn merkilegasti maður sem verið hefir á Frakklandi. Frá því er Richelieu settist að stjórn, og til þess, er hann dó 1642, var hann einvaldur, en Loðvík 13. bar að eins konúngsnafnið; gjörði konúngur bæði að hata hann og hræðast, en mátti þó eigi án hans vera, því að konúngur var sjálfur dáðlaus til allra framkvæmda, kaldlyndur, tortryggur, og vildi helzt fara einförum. Loðvík konúngur átti 2 sonu með drotníngu sinni, Loðvík (14.) og Filippus (af Orleans), og dó 1643 sama mánaðar dag sem faðir hans.

## Rússland.

Þess hefir verið getið í miðaldasögunnu (bls. 236), að Rússland var um lánga æfi undir yfirráðum Mongóla, þangað til *Ívan* stórfursta *Vasilíevíz I.*, á ofanverðri 15. öld (1480), tókzt að losa ríki sitt undan þeirra valdi. Hann tók sèr fyrstur einvaldsnafn yfir öllum Rússum. Sonur hans *Vasilíus Ívanóviz* (1505—1533) var sá fyrsti af einvöldum Rússa er nefndi sig *Czar* (þ. e. *Cæsar*, eða *keisari*), og jók ríki sitt um nokkur lönd og borgir, er hann vann. Sonur hans *Ívan Vasilíeviz* II. (1533—1584), var kallaður «*hinn óttalegi*», og var sá, er fyrst og fremst lagði grundvöllinn til hins geysistóra Rússaveldis. Ívan sat um 50 ár að völdum, og hafði sverðið jafnan á lopti, og átti í höggi við allar þjóðir, sem hann gat til náð, t. d. við ýmsar Tartara þjóðir, Pólland, Svíþjóð, Lífland og Tyrkland; stóð öllum af honum hinn mesti ótti, bæði utanlands og innan. Hörðust var viðureign hans við Líflendínga (1577—1583). Það var um Lífland, að hinar norðlægu þjóðir börðust að sínu leiti eins og hinar suðrænu um Mailand (Milanó) á Ítalíu. Ívan vann meiri hluta Líflands, og þegar landsmenn sáu, að þeir fengu eigi varizt Rússum, leituðu þeir liðs hjá Pólverjum, og landið varð pólverskt lènsríki. Pólverjar vörðu þetta nýfengna land svo hraustlega, að Ívan varð að láta það laust. Seinna á tímum börðust Svíar og Pólverjar um Lífland, og lauk þeirra viðskiptum þannig, að Svíar náðu landinu, þegar friðurinn var saminn í *Olíva* 1660. *Kasan* og *Astrakan*, sem voru leifar af ríki Mongóla (*Kaptschak*), lagði Ívan undir sig, og sömuleiðis mikinn hluta af Síberíu. En þótt Ívan annar væri lengstum í hernaði, studdi hann þó mentir og friðsamleg störf í ríki sínu; hann setti yms lög í landi, efldi verzlun, og setti hina fyrstu prentsmiðju á stofn í Rússlandi (1564). Hann hafði aðsetu í Moskwa. Í Rússlandi drotnaði um þessar mundir, og lengi frameptir öldum, hin mesta harðstjórn. Lýðurinn sem bygði landið (segja ýmsir sagnaritarar), mátti eigi heita þjóð, heldur þrælahjörð. Aðallinn (Bojarar), sem á Pólverjalandi rèð öllu, kúgaði að sönnu þá, sem honum voru undirgefnir, en stórfurstinn eða Czarinn gjörði slíku stórmenni í ríki sínu jafnhátt undir höfði sem bændalýðnum. Klerkastèttin orkaði litlu, jafnvel þó erkibiskupinn í Rússlandi hætti að leita staðfestíngar «patríarkans» í Konstantínópel, eptir að sú borg var unnin af

Tyrkjum, og hin rússneska kirkja væri þannig laus við útlend yfirráð. Þau yfirráð urðu nú innlend og í höndum Czarsins.

Eptir Ívan kom *Fedór* (eða Feódór) ýngri sonur hans til ríkis (1584—1598), aðgjörðalítill maður, og sumir segja geðveikur, og fèkk mági sínum *Bóris Gúdonow* ríkisstjórnina í hendur. Bóris var dugandi maður og var tekinn til Czars, þegar Fedór dó 1598. Fedór dó barnlaus og var þá Rúriks-ætt aldauða á Rússlandi, er þar hafði setið að völdum rúm 700 ár. Þegar Bóris Gúdonow hafði verið Czar um nokkur ár, kom sá maður þar í land, er *Gregoríus Otrepiew* hèt; hann var múnkur, en kvaðst vera *Demetríus* bróðir Fedórs Czars. Sá Demetríus hafði horfið nokkrum árum fyrir lát Fedórs, og sögðu sumir að Bóris hefði látið ráða honum bana. Þessi Svika-Demetríus brauzt til valda á Rússlandi, en Bóris fèll (1605). Ári síðar var sá Demetríus drepinn. Eptir það komu þrír hver eptir annan, með því nafni, og gjörðu tilkall til ríkiserfða á Rússlandi. Pólverjar studdu þessa menn að málum, og loksins þröngvuðu þeir Rússum til að kjósa til Czars *Vladislav,* son Sigmundar Pólverjakonúngs. Um sama leyti höfðu Svíar hönd í með á Rússlandi, og komu svo sínu máli, að Karl Filippus, bróðir Gustafs Adolfs, en sonur Karls 9. Svíakonúngs, var kosinn til Czars á Rússlandi.

Um síðir lètu Rússar til sín taka. Þeim sveið það mest, að Sigmundur konungur vildi þrísta þeim til að taka katólska trú í stað hinnar grísku, er þeir fylgdu. Söfnuðu þeir nú liði og ráku Pólverja af höndum sèr. Síðan stefndu þeir alsherjarþíng hjá sèr, og kusu til Czars úngan mann að nafni *Mikael Fedóroviz Rómanów.* Faðir hans var erkibiskup, en móðirin dóttir Ívans annars. Með Mikael kom þannig nýr ættleggur til ríkis á Rússlandi 1613. Rússland var eptir þessar óeirðir í miklum kröggum og gat eigi reist rönd við óvinum sínum, Svíum og Pólverjum; þessvegna samdi Czarinn frið við þá hvoratveggju: Svía í *Stolbóva* (1617), og lèt laust við þá Ingermannland; en Pólverja í *Divilína* (1618), er fengu Smolensk og fleiri hèröð. Fèkk Mikael þannig næði til að færa margt í lag hjá sèr innanlands. Mikael Rómanów dó 1645.

## Pólverjaland.

Konúngar af *Jagiellons*-ætt rèðu fyrir Pólverjalandi er þetta

tímabil hefst og fram að 1572, er karlleggur þeirrar ættar leið undir lok. Þessir tveir voru síðastir konúngar af þeirri ætt: *Sigmundur fyrsti* (1506—1548), og sonur hans *Sigmundur annar* (1548—1572). Siðabótin kom til Pólverjalands, en vann þar lítið á, því að konúngar hèldu fast við hinn forna sið; þar á móti færðu þeir sèr í nyt byltíngar þær, er siðabótin hafði í för með sèr, og juku ríki sitt á tvo vegu. Sigmundur fysrti náði (1525) undir sig Vestur-Prússlandi og lènsrèttindum yfir Austur-Prússlandi, þá er Albrekt af Brandenborg, yfirmeistari (Stormester) hinna þýzku riddara, tók Lúthers trú og gjörðist hertogi yfir Austur-Prússlandi. En Sigmundur annar hafði einnig hag af því, þegar sverðriddarafèlagið leið undir lok, einum mannsaldri síðar (1561). Valter af Plettenberg, foríngi riddaranna, hafði lengi varizt óvinum sínum, en þegar eptirmaður hans Gotharð Kettler gat eigi lengur varizt Ívani öðrum af Rússlandi, þá sundruðust lönd þau, sem riddararnir áttu, og þá komst Lífland undir Pólverjakonúng, en Gotharð Kettler hèlt eptir að eins Kúrlandi fyrir sig og sína niðja.

Þegar Sigmundur annar dó, var *Hinrik* af *Anjou*, frakkneskur konúngsson, kjörinn til konúngs yfir Pólverjum, eins og fyr er ritað, en hafði þar enga viðdvöl, er bróðir hans var dáinn á Frakklandi, og hann sjálfur varð þar konúngur. Fengu Pólverjar því næst þann konúng yfir sig, er *Stefán Bathory* hèt; hann var höfðíngi yfir Siebenbürgen, og átti Önnu dóttur Sigmundar fyrsta. Hann stýrði Pólverjum frá 1575—1586, og þótti hinn nýtasti maður; hann setti háskólann í Vilna og var vægur við siðabótarmenn (er þar í landi voru nefndir *Dissidentar*). Þegar Stefán konúngur dó, kusu Pólverjar þann konúng yfir sig, er *Sigmundur* hèt (1587). Hann var sonur Jóhanns þriðja, Svíakonúngs, og Katrínar dóttur Sigmundar fyrsta, Pólverjakonúngs. Hann er nefndur Sigmundur hinn þriðji. Þegar Jóhann konúngur faðir hans dó (1592), erfði Sigmundur einnig konúngdóm yfir Svíum, og rèð þannig fyrir flestum þeim löndum, er liggja að Eystrasalti. Hann hefði því vel getað verið einn með ríkustu konúngum Norðurálfunnar, ef hann hefði kunnað á að halda sinni tign. En hann var ramkatólskur, og fyrir þá sök gekk Svíþjóð undan honum; átti hann síðan, og synir hans, í löngum og hörðum ófriði við Svía, er um síðir varð til

lykta leiddur við friðinn í Oliva (1660). Urðu þá Pólverjakonúngar að afsala sèr öllu tilkalli til ríkiserfða í Svíþjóð, og láta Lífland laust við Svíakonúng. Sigmundur þriðji dó 1632, sama árið sem frændi hans Gustaf Adolf fèll á Þýzkalandi. Við hann hafði Sigmundur átt lángvinnan ófrið, en lotið jafnan í lægra hald, eins og við var að búast, þar sem slíkt mikilmenni var í móti sem Gustaf Adolf. Eptir Sigmund komu synir hans til ríkis, fyrst *Ladislás fjórði* (1632–1648), og þar næst *Jóhann Casimír*. Þegar Jóhann hafði setið að ríkjum 20 vetur, lèt hann af konúngdómi (1668), gekk í klaustur og dó 1672. Með honum var aldauða Vasa-ættin á Pólverjalandi. Þótt Pólverjaland væri um þessar mundir mjög víðlent ríki — það náði austur að Rússlandi og Dniepr-fljóti, suður að Karpatafjöllum, vestur að Slesíu og Pommern og norður að Austursjónum[1] — og landið væri víða hvar vel frjótt, mátti það alt um það heita óstyrkt ríki, lèt ekkert til sín taka í utanríkismálefnum, og eigi fært um að verja sig fyrir öðrum. Var það því að kenna, að stjórnarskipun landsins var mjög illa og óhönduglega fyrir komið. Konúngsvaldið var því nær sem ekkert; ríkið var jafnvel kallað lýðveldi eða þjóðveldi; aðallinn hafði alt vald í höndum; bændalýðurinn í þrældómi, og öll atvinna í höndum Gyðínga. Aðalsmenn kusu konúnginn, og þegar þær kosníngar bar að hendi, þá brugðust þar aldrei flokkadrættir, og öll sú óhamíngja, er samtakaleysi og sundurlyndi hefir í för með sèr.

## Danmörk og Norvegur frá 1523 til 1648.

Þar lukum vèr síðast frásögu vorri um Norðurlönd (Miðaldasaga bls. 281), er Kristján annar flýði ríki sitt í Danmörku (1523), og hèlt til Niðurlanda í von um liðsafla hjá Karli keisara 5. mági sínum. Norvegsmenn höfðu engan hlut átt í með Dönum að uppreist þessari gegn konúnginum, og það er eigi ólíklegt, að honum hefði farnast betur, ef hann hefði farið til Norvegs og leitað þar halds og trausts.

Friðrik hertogi, föðurbróðir Kristjáns annars, hafði lengi

1) Á dögum þrjátigi ára stríðsins var hið pólska ríki því nær 18000 □ mílur á stærð; á síðari hluta 18. aldar, áður Rússar, Austurríkismenn og Prússar rændu það löndum og lýði, var það um 13000 □ mílur með 15 milliónum manna.

litið öfundaraugum til Hans konúngs bróður síns og Kristjáns konúngs sonar hans, og óglaðzt af því, að þeir áttu yfir meiru að ráða en hann. Beið hann því ávalt þess, að tækifæri byðist til upphefðar. Nú var tíminn kominn og tækifærið bauðst. Aðallinn bauð honum konúngstign, og hann tók fegins hendi í móti, en það varð hann til að vinna, að gánga að þeim kostum, að aðallinn í Danmörku, er bæði var fjölmennur og stórríkur, hefði því nær ótakmarkað vald yfir öllum undirmönnum sínum, eins og þá var títt í hertogadæmunum og suður á Þýzkalandi. Friðrik varð þannig konúngur í Danmörku og nefndur *Friðrik hinn fyrsti.* En þó alt stórmenni hefði tekið Friðrik til konúngs yfir sig, þá voru hinir margir meðal borgamanna og alþýðu, er eigi vildu skiljast við Kristján annan. Borgarlýðurinn í Kaupmannahöfn og Málmey hafði heitið Kristjáni, að gánga eigi öðrum konúngi til handa hina næstu 3 mánuði; því að hann kvaðst mundu koma með liði frá Niðurlöndum áður sá tími var liðinn; en Kristján kom eigi, og vörðust borgir þessar aðra 3 mánuði, áður þær gengi Friðriki konúngi á vald (1524). Á því sama ári gekk Norvegur undir Friðrik konúng, því að Kristján annar hafði enga vísbendíngu gjört Norðmönnum. Þó varð Friðrik konúngur að heita þeim því: að nefna sig eigi erfíngja að Norvegsríki; að landið skyldi vera kjörríki; lènin eigi gánga til útlendra manna, og Orkneyjar hverfa aptur undir Norveg. Sá maður, sem aldrei vildi gánga Friðriki fyrsta til handa, var *Sören Norby* (Söfren Norðby[1]); hann hafði verið herskipaforíngi Kristjáns annars, og var hinn mesti kappi. Hann hafði haft Gotlandseyju að lèni af Kristjáni öðrum, en nú, er hann gat eigi lengur við það verið, lá hann öllum stundum úti á herskipum og herjaði bæði á Dani og Svía, en varð um síðir að hrökkva fyrir og leyta burt af Norðurlöndum, gekk síðan í lið hjá Karli keisara fimmta og fèll suður við Flórenz-borg á Ítalíu 1530.

Friðrik fyrsti var nú orðinn einvaldur yfir hertogadæmunum (Holsetalandi og Slesvík) og Danmörku, en þó fór fjærri því, að sambandið milli þeirra og Danmerkur yrði nánara fyrir það. Konúngur hafði jafnan aðsetu á Gottorp í Slesvík, eins og áður, því að hann undi sèr þar bezt, og var aldavinur riddaranna þar í landi. Siðabótin kom um þær mundir til hertogadæmanna, og

1) Sjá Ísl. Árbækur, ár 1515.

breiddist þar viðstöðulítið út meðal manna; og litlu þar á eptir tók danskur maður, *Hans Tausen,* að boða Lúthers trú í Vebjörgum á Jótlandi og varð vel framgengt, því að konúngur sá sinn hag og varð honum liðsinnandi. Ýmsir menn gengu í lið með Hans Tausen og gjörðu bæði í ræðum og ritum að boða hinn nýja sið. Hans Mikkelsen og litlu síðar Kristján Pedersen urðu fyrstir til að snúa Nýjatestamentinu á danska túngu. Hinir katólsku biskupar risu reyndar í móti siðabótinni, sem við mátti búast, og sögðu, sem satt var, að konúngur hefði lofað þeim, að hann skyldi standa í móti Lúthers trú, en konúngur færðist undan með hægð, og kvaðst vilja hafa trúarfrelsi í ríki sínu. Á þíngi í Ódense 1527 var það lögleitt; að hinn nýi og hinn forni siður skyldu njóta jafnréttis, og að klerkar mættu kvongast, og að biskupar skyldu þaðanaf hafa staðfestíngu konungs en eigi páfans til embætta sinna. Þó fór alt með kyrð og spekt fram í þessum efnum þángað til 1530; þá tóku siðabótamenn að gjöra óspektir og brutu kirkjur og helga dóma fyrir katólskum mönnum, bæði í Kaupmannahöfn og annarstaðar í Danmörku, og ráku víða múnka af klaustrum. Í þessum óspektum áttu aðalsmenn mikinn þátt, því að þeir vildu sem fyrst hafa hinn katólska klerkalýð flatan, til þess að geta náð í hin afarmiklu auðæfi, bæði í löndum og lausum aurum, sem lágu undir klaustur og kirkjur.

Í Norvegi hafði Lúthers trú alt til þessa miðað lítið áleiðis, og Norðmenn undu því illa, er danskir aðalsmenn, sem slæddust inní landið, brutu þar kirkjur og köstuðu eign sinni á klaustrin. Biskupar höfðu þar enn mjög mikil völd. Fyrir þá sök tóku þeir sig til, og *Ólafur Engilbertsson* erkibiskup í broddi fylkíngar, og leituðu uppi Kristján annan, til þess að koma honum aptur til ríkis. En það er af honum að segja, að hann hafði reikað um þurra staði í útlöndum, ýmist í Niðurlöndum eða á Þýzkalandi, og alstaðar orðið illa til liðs. Karl keisari mágur hans var honum afundinn, einkum fyrir þá sök, að Kristján hafði tekið Lúthers trú, en Kristján hugsaði með sèr, að láta það eigi í vegi standa, og kastaði trúnni jafnharðan; þá safnaðist honum lið; hèlt hann þvínæst til Norvegs 25 skipum (1531), en hreppir storma mikla og missir mörg skip; tekur þó um síðir land í Norvegi á öndverðum vetri það ár. Ríkisráðið í Norvegi gekk honum til handa, og alt gengur vel með fyrsta, en bráðum kem-

ur herskipafloti mikill frá Danmörku og Lybek (Lybiku), og Kristján sèr þann kost beztan, að semja við skipaforíngjann Knút Gyldenstjerne. Verður það þá úr, að Kristján fari til Kaupmannahafnar og semji við föðurbróður sinn, Friðrik fyrsta; er Kristjáni jafnframt heitið því, að honum skuli engin hætta búin, en alt um það lèt Friðrik taka hann höndum og setja í dýflissu á Suðurborg á Alsey 1532. Erkibiskup og nokkrir aðrir með honum urðu að svara þúngum sektum, og Norvegur gekk aptur undir Friðrik konúng. Litlu síðar en hèr var komið, dó Friðrik fyrsti á skírdag 1533. Hann hafði verið tvíkvæntur, og átti fyrst Önnu af Brandenborg; þeirra son var Kristján þriðji. Seinni kona Friðriks hèt Soffía frá Pommern; þeirra synir voru hertogarnir: Hans hinn eldri og Adolf af Slesvík og Holstein, og Friðrik biskup af Slesvík. Friðrik fyrsti hèlt alla æfi frið við nágranna sinn Gustaf Vasa Svíakonúng, og við Lybikumenn, því að honum var um það mest hugað, að geta varið óskiptu afli sínu gegn Kristjáni öðrum og yfirstígið hann, sem honum og auðnaðist. Jóhann Ranzau var hans helzti hershöfðíngi; hann vann Kaupmannahöfn, og fyrir honum varð Sören Norby að hrökkva úr landi.

*Kristján þriðji*, sonur Friðriks fyrsta, var þrítugur að aldri þá er faðir hans dó. Hann hafði aðsetu í Slesvík eins og faðir hans hafði haft, og var jarl hans eða landstjóri í hertogadæmunum, og þótt hann væri allvel mentaður maður, og hefði verið í Wittenberg og tekið Lúthers trú, lærði hann aldrei danska túngu fremur en faðir hans eða sonur (Friðrik annar). Litlu síðar en faðir hans dó, tókst hann á hendur stjórn hertogadæmanna sem «erfðahertogi», bæði í sjálfs síns nafni og hálfbræðra sinna, er þá voru enn eigi komnir til lögaldurs. En í konúngsríkjunum, bæði Danmörku og Norvegi, varð bið á því að hann næði konúngdómi. Aðallinn danski vildi reyndar kjósa Kristján hertoga til konúngs, því að hann var þeirra vinur, eins og faðir hans hafði verið, en hinir katólsku biskupar og klerkar, sem vissu, að Kristján hafði tekið Lúthers trú og eflt hana í hertogadæmunum, voru því mjög mótfallnir, og vildu hafa til konúngs Hans hálfbróður Kristjáns, 12 vetra gamlan únglíng þegar hèr var komið, því að þeir hugsuðu sèr, að ala hann upp í katólskum sið. Alþýðan og borgmannastèttin, bæði í Danmörku og Nor-

vegi, vildi helzt hafa Kristján annan til konúngs yfir sig, en hann sat fastur í Suðurborg, og eigi auðgefið að ná honum þaðan. Nú var stefnt þíng í Kaupmannahöfn (slík þíng voru á þeim tímum nefnd: «*herra dagar*», því að höfðíngjar einir áttu þar setu), til konúngskosníngar; áttu þángað að koma nokkrir menn úr hinu norska ríkisráði til þess að taka þátt í kosníngunni af hendi Norvegsmanna. En þeir komu eigi, og var fyrir þá sök kosníngunni slegið á frest til næsta árs. En það komst eigi svo lángt að af því þíngi yrði. Á meðan á þessu stóð, hafði ríkisráðið landstjórn á hendi í Danmörku, en í Norvegi erkibiskup og ríkisráðið norska. Til þíngsins («herradagsins») í Kaupmannahöfn sendi bæði Kristján hertogi og Lybika sendimenn. Hertogans menn og Danir komu sèr allvel saman og urðu ásáttir um samband sín í millum á þá leið, að hvorirtveggja skyldu öðrum veita ef ófrið bæri að höndum, sömuleiðis gjorðu hvorirtveggja samband við Niðurlendínga, og veittu þeim mikið verzlunarfrelsi í Danmörku. Þetta þótti Lybikumönnum ískyggilegt, því að verzlun þeirra var með þessu hinn mesti háski búinn. Fyrir því tóku þeir það ráðs, að hæna að sèr borgamenn og alþýðu Dana, og lètu í veðri vaka, að áform sitt væri að koma Kristjáni öðrum aptur til ríkis. Það þótti alþýðunni óskaráð, því að hún þráði alt af apturkomudag Kristjáns. Urðu af þessu full og föst samtök millum hennar og Lybikumanna, er því næst leiddu til hins megnasta ófriðar í Danmörku.

Þessi ófriður hófst 1534, og hafa menn nefnt hann *Greifastríðið* («*Grevens Fejde*»), fyrir þá sök, að Lybikumenn sendu *Kristófer greifa* af *Aldinborg* með her manns til Danmerkur til liðs við bandamenn sína þar. Fyr en nokkurn varði var greifinn kominn með liði sínu til Sjálands í nánd við Kaupmannahöfn, og lýsti yfir því, að hann væri þángað kominn til þess, að leysa Kristján konúng frænda sinn úr varðhaldi, hjálpa lægri stèttar mönnum undan kúgunarvaldi höfðíngjanna, og vernda trúna. Bændur og borgamenn urðu fegnir komu hans og gengu þegar í lið með honum, en aðalsmenn þorðu eigi að veita mótstöðu. Á skömmum tíma hafði greifinn þannig fengið yfirráð í öllum þeim hluta Danmerkur, sem lá fyrir austan Beltissund (Storebelt).

Í annan stað átti nú ríkisráðið og aðallinn fund með sèr

vestur á Jótlandi, og þó að biskupar væru tregir til, var Kristjáni hertoga á þeim fundi gefið konúngsnafn yfir Danmörku. En það var minstur hluti hennar, er hann þá þegar fèkk yfirráð yfir, því að greifinn náði undir sig Fjóni auk þess, sem hann áður hafði náð á sitt vald; og mikill hluti Norður-Jótlands gekk einnig undan hinum únga konúngi, svo að um haustið 1534, var flokkur greifans og Kristjáns annars ráðandi fyrir mestum hluta Danmerkur, en herskip Lybikumanna höfðu þar á ofan yfirráðin um alt Eystrasalt. Meðan þetta gjörðist sat Kristján annar í ströngu varðhaldi í Suðurborg, og vissi eigi, að menn voru að berjast til ríkis í hans nafni.

En Kristófer greifi og hans flokkur átti skamma stund þessu láni að fagna. Jóhann Ranzau, hershöfðíngi Kristjáns þriðja, vann sigur á bændalýðnum á Norður-Jótlandi og braut þar undir sig, með hinni mestu grimd, allar þær sveitir, er gjört höfðu uppreisn móti konúnginum, og vorið eptir (1535) hèlt hann yfir á Fjón og vann þar algjörðan sigur á bændum, þar sem heitir Öxnaberg (Öxnebjerg). Meðan Jóhann Ranzau þannig vann Jótland og Fjón til handa Kristjáni þriðja, styrkti Gustaf Vasa Svíakonúngur hann einnig til þess að vinna hin eystri fylkin (Skán, Halland og Blekíng, sem Danir þá áttu). Svíakonúngur óttaðist veldi Lybikumanna, og í annan stað vildi hann með engu móti, að Kristján annar kæmist aptur á frjálsan fót; þess vegna veitti hann Kristjáni þriðja mági sínum[1]. Um sama leyti vann *Pètur Skram*, sjóforíngi Kristjáns þriðja, sigur á Lýbikumönnum, og sömdu þeir síðan frið við Danakonúng, en þó var eigi þessu greifastríði lokið fyr en árið eptir (1536), er Kaupmannahöfn, höfuðborg ríkisins, gafst upp fyrir Jóhanni Ranzau og Pètri Skram, og gekk konúngi til handa.

Lúterskur konúngur hafði þannig unnið sigur fyrir tilstyrk aðalsmanna. Afleiðíng sigursins varð því sú, að Lúthers trú varð drotnandi í Danmörku og að aðallinn magnaðist í völdum. Jafnskjótt sem Kaupmannahöfn var unnin, urðu konúngur og hinir verzlegu ríkisráðherrar ásáttir um, að svipta biskupana því mikla valdi, er þeir höfðu haft alt til þessa. Lèt konúngur því næst taka biskupa höndum; en er þeir afsöluðu sèr embættin og gengu að þeim kostum, er konúngur setti, lèt hann þá flesta lausa apt-

1) Gustaf Vasa og Kristján þriðji áttu sína systirina hvor.

ur. Þessu næst var stefnt fjölment þíng (ríkisdagur) í Kaupmannahöfn, og var þá Lúthers trú lögleidd í landi, en biskupaveldið afmáð, og aðrir biskupar settir af nýju, er ekkert verzlegt vald skyldu hafa; hið mikla jarðagóz, er biskupstólunum hafði áður fylgt, var lagt til krúnunnar, eður til skólanna og annara stofnana; Friðrik var kjörinn til ríkiserfíngja, sonur Kristjáns þriðja, og var þá tvævetur; í ríkisráðinu fengu nú eigi aðrir setu en aðalsmenn, og nú er klerkaveldið var úr sögunni, urðu aðalmenn hartnær einráðir í landinu, og jók það eigi lítið metnað þeirra og auð, að þeim var leyft að eignast aptur þær jarðir, er forfeður þeirra höfðu gefið til kirkna; urðu þá sumir aðalsmenn stórríkir, og höfuðból þeirra sem konúngasetur.

Þegar greifa-styrjöldin hófst í Danmörku, vildu hvorir tveggja, bæði greifa flokkurinn og konúngsmenn, fá liðsafla af Norvegi, en Ólafur erkibiskup gaf það ráð, að menn skyldu láta Dani eigast eina við og sjá hverju fram færi í málum þeirra; fylgdu Norðmenn því ráði að mestu leyti. Þegar Kristján konúngur hafði borið hærra hlut í Danmörku, gekk Norvegur svo að segja tregðulaust undir hann, en erkibiskup fór af landi burt og dó litlu síðar í Niðurlöndum. En ríkisráðið og aðallinn í Danmörku, hugði að konúngurinn mundi verða um of einvaldur yfir Norvegi, og fyrir því varð konúngur í skuldbindíngarskrá sinni, að lofa því, að Norvegur skyldi ekki vera lengur sem ríki út af fyrir sig, heldur skyldi honum stýrt sem dönsku skattlandi. Hið norka ríkisráð var afnumið, og öll lèn og æðri embætti þar í landi voru fengin dönskum aðalsmönnum í hendur. Þó var landið kallað konúngsríki, og hèlt að nókkru leyti hinum eldri landslögum og innlendu stjórnarfyrirkomulagi.

Til þess að koma málefnum kirkjunnar á fastan fót, fekk Kristján þriðji nafnfrægan guðfræðíng frá Wittenberg, að nafni *Jóhannes Bugenhagen*, vin og aðstoðarmann Lúthers. Hann krýndi bæði konúng og drotníngu og vígði þá 7 biskupa, er settir voru í stað hinna katólsku, sem frá urðu að fara; hann samdi *kirkju-ordínanzíu* þá (1537), sem síðan var lögleidd bæði í Danmörku og Norvegi; hann átti og mikinn þátt í þeirri endurbót, sem háskólinn í Kaupmannahöfn þá fèkk, og að latínuskólar voru settir víðsvegar um landið.

Í Norvegi gekk miklu miður en í Danmörku að koma siða-

bótinni fram, en Danir gengu að því starfi með hörðu, og rændu víða klaustur og kirkjur, ráku frá stöðum hina katólsku klerka og settu lúterska í staðinn. Bar það þá stundum við, að alþýðan ýfðist í móti, og annaðhvort drap hina lútersku klerka, eða rak þá burtu með harðri hendi; liðu svo nokkur ár, þángað til Norvegsmenn sáu, að breytt var til hins betra, og sættu sig við hinn nýja sið.

Á dögum Kristjáns þriðja tók innlend verzlun í Danmörku talsverðum framförum, en yfirgángur og einokun Hansastaðanna mínkaði að því skapi, og margt var það, sem Kristján konúngur bætti í ríki sínu, en þá þótti hann sjá helzt til illa fyrir Danmörku, er hann skipti hertogadæmunum (1544) með bræðrum sínum, þvert á móti tillögum Jóhanns Ranzaus, þannig: að *Hans* (*hinn eldri*) fèkk konúngsgarð í Haderslev, Norður-Slèsvík og vestri hluta Mið-Slèsvíkur; konúngur sjálfur áskildi sèr konúngsgarð í Suðurborg og allan eystri hluta Mið-Slèsvíkur, en *Adolf* fèkk konúngsgarð á Gottorp og Suður-Slèsvík; á líkan hátt skiptu þeir með sèr Holsetalandi. Riddararnir í hertogadæmunum fengu klaustrin, og fylgdu þeim mikil hlynnindi. Þannig voru hertogadæmin fjórskipt, og í litlu sambandi við Danmörku, og fyrir því var það eðlilegt, að illa vildi saman gróa Danmerkurríki, þá er fram liðu stundir.

Það var um tíma, að til ófriðar horfði með Karli keisara 5. og Kristjáni þriðja, en þeir sömdu svo með sèr í *Speier* (1544), að friður raskaðist eigi; hèt konúngur þá keisara því, að mýkja skyldi til um varðhald á Kristjáni öðrum.

Alt til þessa hafði Kristján annar verið hart haldinn; hann sat í litlu herbergi í turni einum á Suðurborg; jafnskjótt sem hann var kominn þar inn, var grjóti hlaðið vandlega í dyrnar og veggjalím dregið yfir; gluggi lítill með járnstöngum í efst á einum veggnum; matur var honum rèttur um smugu eina á múrnum. Í þeirri dýflissu hafði Kristján setið rúm 12 ár og aldrei komið undir beran himin. Nú var skipt um herbergi, og var honum leyft að koma út, og eptir að hann hafði afsalað sèr öllu tilkalli til konúngdóms í Danmörku, og sömuleiðis dætur hans og tengdasynir[1], þá var hann (1550) fluttur til Kallund-

---

1) Kristján annar átti 4 sonu, er allir dóu úngir, og 2 dætur: *Dórótheu*, er giptist Friðriki 2. kjörfursta af Pfalz, og

borgar og fengin sæmileg höll til íbúðar, nægilegur forlagseyrir og þjónustumenn að því skapi, farið gat hann og á dýraveiðar ef hann vildi. Var konúngur vel til hans upp frá því, og þá er Kristján þriðji dó, á nýársdag 1559, er sagt hinn gamli konúngur hafi grátið, en 3 vikum síðar andaðist hann sjálfur, 78 ára gamall.

*Friðrik annar* (1559—1588) tók við ríkisstjórn eptir föður sinn, Kristján þriðja, og fór þegar á fyrsta ári síns konúngdóms herferð vestur á Þèttmerski (Ditmarsken), með þeim föðurbræðrum sínum, Hans og Adolfi, en Jóhann Ranzau var fyrir liðinu. Höfðu þeir frændur ofurefli liðs, áttu þar harðar orustur, en drápu margar þúsundir manna og lögðu landið undir sig, og skiptu því síðan með sèr. Þegar konúngur kom heim eptir sigurför þessa var hann krýndur, en gánga varð hann að harðri skilmálaskrá aðalsmönnum í vil.

Á öndverðum ríkisstjórnarárum Friðriks annars gekk hið grimma *sjö ára stríð (den nordiske Syvaarskrig)* yfir Norðurlönd (1563—1570). Meðan þeir lifðu Kristján þriðji í Danmörku og Gustaf Vasa í Svíþjóð, lá stundum nærri að kólnaði vináttan milli landanna. Danir gátu eigi gleymt því, að þeir höfðu mist yfirráðin á Norðurlöndum, og til þess, að minna menn á þau fornu yfirráð og sýna hvað þeim bjó í brjósti, settu Danakonúngar í skjaldarmerki sitt 3 kórónur, en það var einmitt hið sama mark sem Svíar höfðu, hinsvegar gjörðu Svíar altaf tilkall til Gotlands.

Ári síðar en Kristján þriðji dó, andaðist Gústaf Vasa, og Eiríkur fjórtándi, sonur hans, varð konúngur í Svíþjóð. En þá var líka friðurinn úti. Dönum og Svíum hafði einnig lent saman austur á Líflandi og Estlandi; þar voru Sverðriddarar í það mund að detta úr sögunni, en bæði Pólverjar, Rússar, Danir og Svíar vildu ná í þau lönd. Ófriður þessi byrjaði fyr á sjó en á landi. Svíar áttu fleiri og stærri herskip en Danir, þó unnu hvorugir á öðrum fyrst framan af. *Pètur Skram* var yfirforingi danska flotans fyrsta árið; hann var þá gamall og lagði niður herstjórn; tóku þeir þá við *Herlúf Trolle* og *Ottó Rúd* og þóttu dugandi menn. Þeir unnu sigur á Svíum undir Eylandi, en ári

*Kristínu,* er átti Franz hertoga af Lothringen, af henni er kominn Franz Jósef Austurríkiskeisari, og þeir frændur hans.

síðar varð Herlúf Trolle sár til ólífis, og skömmu þar á eptir varð Ottó Rúd handtekinn og settur í varðhald í Svíþjóð og haldinn hart. Gekk þá Dönum miður á sjónum úr því, einkum eptir að þeir liðu mikið tjón á skipum og mönnum í ófsaveðri undir Gotlandi (1566). Er sagt að þar færust 16 skip og 7000 manna.

Á landi gekk Dönum betur, einkum eptir að *Daníel Ranzau* varð yfirforíngi þeirra; hann var ágætur hershöfðíngi, en honum næstur í herstjórninni gekk sá maður, er Franz Brokkenhús hèt, hinn vaskasti maður. Árið 1565 vann Daníel Ranzau mikinn sigur á Svíum við Svartá á Falkenbergsheiði í Hallandi, og voru þó Svíar fjölmennari. Tveim árum síðar hèldu þeir Daníel Ranzau og Franz Brokkenhús liði sínu austur á Svíþjóð og alt fram á Eystra-Gotland, háðu þeir margar orustur á þeirri leið, og einatt við ofurefli liðs, en höfðu jafnan sigur, og komust heilu og höldnu aptur til Danmerkur með offjár og marga menn hertekna. Þótti sú för orðin hin frægasta. Litlu eptir þetta var Eiríkur fjórtándi rekinn úr völdum (1568), og var þá vopnahlè samið milli landanna. En Jóhann þriðji, bróðir Eiríks, er þá kom til ríkis í Svíþjóð, vildi eigi samþykkjast vopnahlèð, þá er hann þóttist orðinn fastur í völdum, og laust þá aptur upp ófriðnum (1569); settust Danir þá um kastalann á Varbergi, er Svíar höfðu unnið, en í þeirri umsát fèllu þeir báðir Daníel Ranzau og Franz Brokkenhús.

Norvegur fór heldur eigi varhluta af ófriði þessum, því að Svíar herjuðu þángað bæði suður og norður í landi, og gjörðu mörg spellvirki, brunnu þar á þeim árum þrjár borgir, Hamar, Osló og Sarpsborg.

Þegar Danir höfðu náð Varbergi voru hvorirtveggja mjög að þrotum komnir, og var þá loks friður saminn í *Stettín* (1570) með svo feldum skilmálum: að báðum skyldi heimilt, Svíakonúngi og Dana, að hafa 3 kórónur í merki sínu; Danakonúngur sleppa öllu tilkalli til konúngdóms í Svíþjóð, og Svíakonúngur öllu tilkalli til Jamtalands, Herdala (Herjadals), Skánar, Hallands, Blekíngs og Gotlands; því skyldi aptur skilað, sem hvorir höfðu af öðrum unnið, en Elfsborg, er Danir höfðu tekið, fengu Svíar móti nokkru fègjaldi.

Þetta sjö ára stríð hafði valdið miklu tjóni á Norðurlöndum

og eigi hvað minst í Norvegi, enda var þar í landi eigi góð stjórn, um þessar mundir; bæði lènsherrar og fógetar, sem því nær allir voru danskir, voru sèrplægnir og harðdrægir við bændalýðinn; þá var settur jarl eða landstjóri (Statholder) yfir landið, er hafa skyldi þar af konúngs hendi æðstu tilsjón allra þjóðmálefna.

Friðrik konúngur annar hafði um nokkur ár stýrt sínum hluta hertogadæmanna svo að ekki bar til tíðinda, en þegar bræður hans *Magnús* og *Hans* (hinn ýngri) komust á legg, þóttust þeir báðir eiga erfðarètt hvor til síns hluta af konúngsparti hertogadæmanna. Konúngur miðlaði svo málum, að Magnús fèkk Eysýslu (Ösel) og lönd hið eystra við Líflandsflóa, en Hans fèkk nokkuð af áðurnefndum konúngsparti, þar á meðal Suðurborg með Als og Erri (Ærö), samt Plöen en þó að eins sem lèn af konúngi. Hans (hinn eldri) í Haðerslev dó ókvæntur (1580), og skiptu þeir þá löndum hans, konúngur og Adolf hertogi. Upp frá því var yfirráðum hertogadæmanna sundurskipt milli tveggja ættkvísla: konúngs-ættkvíslarinnar og Gottorps-ættkvíslarinnar. En þá er Hans ýngri dó, skiptist sá hlutinn, er hann hafði ráðið fyrir milli sona hans, og komu þannig upp 4 ættkvíslir, er tóku nafn af: *Suðurborg, Norðborg, Glukksborg* og *Plöen;* síðan hafa ættir þessar liðið undir lok, svo að nú eru að eins tvær eptir af þeim, en það eru þessar: *Ágústenborgarættin* og *Glukksborgar-ættin,* er báðar koma við sögu vorra daga.

Fjárhagur Dana var kominn á fallanda fót fyrstu árin framan af sjö ára stríðinu, en þá gjörðist *Peder Oxe* fjárvörður ríkisins, og kom góðu lagi á alla ríkisreiknínga, bæði með sparnaði í ýmsum útgjöldum, og með því að gánga ríkt eptir gjöldum þeim, er lènsmenn krúnunnar áttu að svara, svo var og Eyrarsundstollurinn hækkaður; þann toll guldu útlendar þjóðir, er um Eyrarsund sigldu. Safnaðist þá svo í sjóð, að konúngur lèt reisa Krónuborg og Friðriksborgar höll, og hýsa betur en áður ýmsa konúngsgarða; hann lagði og fè til háskólans og studdi á ýmsan veg vísindi í landinu; voru og um þær mundir margir aðalsmenn allmiklir fróðleiks og menta vinir, og má eflaust telja gullöld aðalsmanna í Danmörku á því tímabil, sem hèr er um að ræða.

Á dögum Friðriks annars voru hinir helztu vísindamenn í

Danmörku þessir þrír: *Tycho Brahe* stjörnuspekíngur, *Anders Sörensen Vedel* sagnafræðíngur og *Níels Hemmíngsen* guðfræðíngur. En er Friðrik leið, og komin var önnur stjórn í landi, varð Tycho Brahe að fara af landi burt suður á Þýzkaland, og dó í Prag hjá Rúdólfi keisara öðrum; hinir tveir Anders Vedel og Níels Hemmíngsen komust einnig í óvild við stjórnina og mistu báðir embætti sín.

Friðrik konúngur annar dó 1588, á fjórða ári hins sjötta tugar. Anders Vedel sagði í líkræðunni eptir hann: «Ef hans náð hefði getað neitað sèr um nautn skaðsamlegra drykkja, sem nú keyrir lángt úr hófi alstaðar um heiminn meðal konúnga, aðalsmanna og alþýðu, þá virðist svo fyrir mannasjónum, sem hann hefði getað lifað margan glaðan dag lengur, en nú er reynd á orðin».

Elzti sonur Friðriks, *Kristján fjórði,* var kjörinn til konúngs meðan faðir hans lifði, en var nú að eins 11 vetra er faðir hans lèzt. Hann gat fyrir því eigi þá þegar tekið við stjórn, en ríkisráðið kaus 4 menn af sínum flokki til þess starfa: *Níels Kaas* kansellera, *Peder Múnk* aðmiral, *Jörgen Rósenkranz* og *Kristófer Valkendorf.* Hinn úngi konúngur fèkk gott uppeldi, og varð vel að sèr í ýmsum vísindagreinum og íþróttum, en einkum lagði hann svo mikla stund á stærðafræði og allskonar stórsmíði, bæði húsasmíði og skipasmíði, að hann seinna, þegar hann var seztur við stjórn, gat sjálfur sagt fyrir um slík störf betur en flestir aðrir. Honum var einkar vel lagin öll sjómennska og sjómannastörf, og kom það honum síðan að miklu liði. Árið 1596 var hann kominn til lögaldurs, ritaði þá undir harða skilmálaskrá, eins og faðir hans hafði orðið að gjöra, og tók sjálfur við ríkisstjórn, og stýrði ríki sínu upp frá því með miklum skörúngskap, eljan og atorku; hann vildi helzt sjá alt með sjálfs síns augum; hefði hann í smíðum herskip, eða hallir, eða önnur stórhýsi, þá var hann þar kominn og sagði fyrir verkum eins og yfirsmiður. Opt var hann á ferð í ríki sínu, til að sjá hversu alt færi fram, og til Norvegs fór hann því nær á hverju ári og stundum tvisvar. Enda var honum mjög umhugað um það land, og átti þar, ef til vill, hægra um hönd í sumu, því að aðalsmanna veldið var þar minna og óstyrkara en í Danmörku, og gat því síður haldið því aptur, er konúngur vildi láta hafa fram.

Norvegur bar hans og miklar menjar; hann breytti þar lögum, og samdi nýja lögbók handa Norðmönnum (1604); kom fótum undir silfurnáma á Kongsbergi, og koparnáma á Reyrási, og lèt reisa tvær nafnkendar borgir: *Kristjaníu* (1624) í stað Oslóar sem brann, og *Kristjánssand*.

Á öðrum stöðum í ríki sínu lèt hann reisa borgir og hallir og stórhýsi: Kristjánsstað á Skáni, Kristjanópel í Blekíng, Gluckstadt á Holsetalandi, Kristjánshöfn á Amager og tengja við Kaupmannahöfn; hann lèt og gjöra þar í höfuðborginni, Hólmskirkju, Trínitatiskirkju með sívalaturni, Frelsaranskirkju, Rósenborgarhöll, Regentsen (þar er bústaður handa 100 stúdentum) og fl. Um verzlunina lèt hann sèr mjög ant. Hann kom því á, að stofnuð voru ýms verzlunarfèlög, þar á meðal eitt til Austindía-verzlunar, voru þángað send skip, og verzlun sett á fót í Trankebar, er stóð um lángan aldur; hann braust og í því, að láta finna leið norðanum Ameríku til Asíu, og leyta Austurbygðar á Grænlandi, en hvorugt hepnaðist; hann lèt setja á stofn ótal verksmiðjur, bætti póstgöngur í ríkinu, og á öllu hafði hann hug og alt fyrir stafni. En þó mikið og margt liggi eptir Kristján fjórða, þá hefði hann komið enn meiru áleiðis, ef aðallinn í Danmörku hefði eigi svo stórum bundið hendur hans.

Kristján konúngur átti þrisvar í ófriði, og þótt hann væri sjálfur hin mesta hetja og hinn ótrauðasti í öllum greinum, þá bar hann eigi sigursæld úr býtum að leikslokum, nema í eitt skipti. Hinn fyrsti ófriðurinn var við Svía, og stóð frá 1611—1613, og er kallað *Kalmar-stríð*, af því að ófriðurinn hófst með því, að berjast um Kalmar. Þá var konúngur í Svíþjóð, *Karl hinn níundi*. Svo stóð á, að Karl vildi heita konúngur yfir Lapplendíngum, og heimti þaðan skatta; í annan stað hafði hann reist bæ þann, er *Götaborg* heitir, vestur við sjó á litlum landsgeira, er Svíar áttu þar milli landamæra Dana og Norðmanna. Hvorugt þetta vildi Kristján 4. láta viðgángast umtalslaust, vopnar því lið sitt og ræðst á *Kalmar*, og fær tekið borgina (1611). Varð Karl 9. þá svo reiður, að hann bauð Kristjáni til einvígis og var þó kominn að fótum fram, Kristján svaraði því máli miður en vera skyldi. Á því sama ári dó Karl konúngur, en sonur hans Gustaf Adolf tók við stjórn. Kristján var þá 34 ára gamall en Gustaf Adolf 17 ára. Danir gjörðu harðar árásir á

Svíþjóð, brendu Gölaborg og unnu Elfsborgar kastala og fleiri vígi. Þó gjörði Svía konúngur alt hvað gjört varð í móti, en hann átti þá í mörg horn að líta, því að þá áttu Svíar einnig ófrið við Rússa og Pólverja. Fyrir þá sök vildi Gustaf Adolf friðast við Dani sem fyrst, og var þá friður saminn í *Knæröð* á Hallandi (1613). Slepti Gustaf Adolf tilkalli til konúngsnafns yfir Lapplöndum, skilaði aptur Jamtalandi, er Svíar höfðu unnið meðan ófriður stóð, og galt 1 million ríkisdala til þess að fá aptur Elfsborg og bygðina þar um kríng. Þóttu það þúng gjöld á þeim tímum, en Gustaf Adolf vildi mikið til vinna, að hafa greiða götu til sjáfar þar vestra. Það var verzlunin og Eyrarsundstollurinn, sem hann hafði fyrir augum.

Í annað sinn átti Kristján fjórði í ófriði, og var sá við Ferdínand keisara annan og páfatrúarmenn á Þýzkalandi. Þar geysaði um þær mundir þrjátígi ára stríðið, og hallaðist mjög á prótestanta. Leituðu þeir þá liðs hjá Kristjáni fjórða, en Hollendíngar, Frakkar og Englismenn hètu fjárstyrk nokkrum. Kristján konúngur hafði allmikið lið, og flest þýðverska menn; en hamíngjan fylgdi honum eigi á þeirri leið. Hann hèlt hernum suður á Saxland (1625) en vildi það óhapp til, að hann fèll með hesti sínum niður af girðíngunum umhverfis *Hamelns*-kastala, í díki það, er þar var grafið til varnar; varð fallið svo mikið, að menn hugðu konúngi eigi líf. Árið eptir (1626) beið hann ósigur, í orustunni við *Lütter am Barensberg* í Brúnsvík, fyrir *Tilly* hershöfðíngja. Þjóðverjar brugðust Kristjáni og voru honum óhlýðnir, og fjárstyrkurinn brást frá Englum og Frökkum, og þar á ofan bættust fleiri óhöpp, svo að Kristján konúngur varð að halda heim og verja ríki sitt. Árin tvö hin næstu þar á eptir, herjuðu þeir *Tilly* og *Wallenstein* norður í Danmörku, lögðu Holsetaland, Slesvík og Jótland undir sig, og gjörðu þar ógurlegan skaða á fólki og fjármunum. Konúngur gat eigi varið land sitt sem hann vildi, því að ríkisráðið (aðallinn) vildi ekki leggja fè í sölurnar, en eyjarnar gat hann varið með herskipum sínum, og komust þeir Wallenstein eigi þángað. Keisarinn hafði beyg af því, að Svíar mundu skerast í leikinn móti sèr, og samdi því frið við Kristján í *Lýbeck* (1629); fèkk Dana konúngur aptur öll sín lönd, en varð að lofa því, að hjálpa eigi optar prótestöntum á Þýzkalandi. Þessi ófriður við þjóðverja gaf tilefni

til þess, að frændsemi og vinátta kólnaði milli Danakonúnga og hertoganna á Gottorp. Friðrik, er nefndi sig hinn þriðja, sem þá var þar hertogi, sonarsonur Adolfs sem áður er getið, lèt árið 1627 Wallenstein fá til umráða alla kastala í ríki sínu, en það mislíkaði Kristjáni fjórða sem vonlegt var, og seinna meir, þá er ófriðaðist með Svíum og Dönum, gjörði sá hertogi samband við Svía, og jafnan voru hertogar þessir síðan í óvinaflokki Dana.

Efnahagur Danmerkur eptir Lýbiku-friðinn var mjög erfiður. Aðallinn var eigi sömu kostum búinn sem fyr, en drambið og stórmenskan hin sama. Alþýðan tók að kvarta undan kúgun þeirri, sem hún lengi hafði orðið að bera með þögn og þolinmæði. Konúngur sá og heyrði hvað fram fór, en gat þó eigi viðráðið, því að aðallinn ónýtti allar tilraunir hans, er miðuðu til að bæta kjör hinna óæðri manna. Aðalsmenn voru margir stórauðugir, en vildu lítið láta af hendi rakna í landsins þarfir; alþýðan gat eigi einsömul risið undir þeim útgjöldum, sem við þurfti, og fyrir því greip Kristján konúngur til þeirra óyndis úrræða, að hækka Eyrarsundstollinn meir en hófi gegndi; þótti Niðurlendíngum og öðrum siglíngaþjóðum slík tollheimta óþolandi, og varð Dönum að því ógagn mikið seinna, þegar kólnaði með þeim og Svíum. En þess var eigi lengi að bíða.

Svíar voru orðnir víðfrægir af framgöngu sinni á Þýzkalandi; lèk Kristjáni næsta öfund á um frægð þeirra, og reyndi að miðla málum svo að friður kæmist á og lokið væri sigurvinníngum þeirra. *Axel Oxenstjerna*, er þá stýrði Svíþjóð, var vel kunnugt um atferli og áform Danakonúngs, og fyrir því býður hann *Lennart Torstensson*, er þá var höfðíngi fyrir hinu sænska liði á Þýzkalandi, að halda því liði norður á Danmörk. Torstensson brá þegar við, og fyr en nokkurn varði var hann kominn á Holsetaland (í desembermán. 1643) og lagði á svipstundu undir sig bæði hertogadæmin og Jótland alt norður á Skaga. Um sama leyti rèðst annar sænskur hershöfðíngi, *Gustaf Horn*, suður á Skán, og var það ráðagjörð þeirra Svíanna, að hvorutveggja herinn skyldi síðan halda yfir á hinar dönsku eyjar og mætast þar. Til þess að flytja herinn út á eyjarnar, var bæði gjörður út sænski herskipaflotinn, og þar að auki fjöldi skipa frá Hollandi, sem Svíar höfðu fengið þar á leigu. En hinsvegar var nú Kristj-

án fjórði eigi aðgjörðalaus, þótt hann væri kominn hátt á sjötugs aldur. Fyrst vann hann sigur á hollenzka flotanum í *Listerdjúpi* við eyna Sylt, og þarnæst hitti hann sænska flotann 6 vikum síðar austur undir Femern þar sem heitir *Kolbergerheide* (í júlímán. 1644). Tókst þar orusta bæði hörð og löng; varð Kristján konúngur sár og misti annað augað, en barðist eigi að síður meðan dagur til vanst; voru herskip Svía þá orðin illa til reika og lögðu inn á Kílarfjörð þá er skyggja tók; setti konúngur sjóforíngja þann, er *Peder Galt* hèt, til að varna þeim brottkomu þaðan, en þó sluppu Svíarnir út hjá honum um nóttina; enda misti Galti lífið fyrir það glappaskot. Litlu síðar komu herskip af nýju frá Hollandi til móts við sænska flotann í Eystrasalti. *Pros Mund* danskur aðmírall barðist þar við þá, en beið ósigur og fèll sjálfur (1644). Nú var illa komið fyrir Dönum. Hertogadæmin og Jótland voru í hershöndum; í hinum eystri fylkjum: Skáni, Hallandi og Blekíng, báru Svíar einnig hærra hlut, og á sjónum voru þeir og Hollendíngar einráðir. Kristján beiddist því friðar, og komst hann á í *Brömsebro* (1645) fyrir milligöngu Frakka. Þeir sömdu friðinn, Axel Oxenstjerna af hendi Svía, og Korfiz Úlfeld af hendi Dana. Urðu Danir að láta Herjadal og Jamtaland, og eyjarnar Ösel (Eysýslu) og Gotland, og auk þessa fengu Svíar tollfrelsi fyrir öll sín skip í báðum Beltum og Eyrarsundi, og Halland um 30 ár að veði fyrir þessu tollfrelsi. Hollendíngar fengu og stórum lækkuð tollgjöld af sínum skipum. Það er sagt að tekjur Dana af skipatollinum hafi árlega verið 300 þúsundir ríkisdala á undan þessari friðargjörð, en aðeins 80 þúsundir eptir friðinn. Þannig lauk þessum þriðja og síðasta ófriði Kristjáns fjórða, og varð hann mjög undir í þessum viðskiptum. Á öndverðum ríkisárum Kristjáns, höfðu Danir haft á sèr mikið orð og staðið fremstir þjóða á Norðurlöndum, en nú var svo komið, að Svíar höfðu rutt sèr til rúms og náð þar öndvegissæti. Danmörk var sárt leikin eptir þenna ófrið, fjárhagurinn að þrotum kominn, en óánægjan megn í landinu gegn ofríki og sèrplægni aðalsmanna, en hvorki konúngur eða alþýða fengu viðráðið. Þrem árum síðar en hèr var komið andaðist Kristján fjórði vetri meir en sjötugur (1648). Hann hafði verið tvíkvæntur, og átti fyrst Önnu Katrínu af Brandenborg. Þeirra synir voru *Kristján*, er fyrir mörgum árum hafði

verið kjörinn til konúngs eptir föður sinn, en dó rúmlega fertugur missiri á undan honum — og *Friðrik*, er síðan varð konungur. Seinni kona Kristjáns fjórða hèt *Kirsten Munk*, og var vígð honum til vinstri handar. Þeirra börn voru mörg, og er *Eleonore Kristine* þeirra nafnkendust; hún átti *Korfits Úlfeld*, hinn göfgasta mann og ríkasta í Danmörku, og þó urðu afdrif hans hin verstu, en Eleónóra hafði enga sök aðra en þá, að hún unni manni sínum og var honum trú, og fyrir þá sök sat hún harðlega haldin 22 ár í «Bláturni» í Kaupmannahöfn, hinni verstu dýflissu. En það var nokkru síðar en hèr er komið sögunni.

Svíaríki (1523—1630).

Þar er þá til að taka, að Svíar höfðu eptir Stokkhólmsvígin (1520) gripið til vopna, gengið undir merki *Gustafs Eiríkssonar Vasa*, og rekið Dani af höndum sèr og öll þeirra yfirráð. En úr því að svo var komið, og eigi annað umtalsmál, en að Svíar tækju sèr innlenda stjórn, þá þótti Gustaf Vasa maklegastur til þeirrar vegsemdar. Hann var því fyrst kjörinn til landsstjóra, og tveim árum síðar á ríkisdeginum í Strengnesi (1523) tekinn til konúngs yfir Svíþjóð. En svo mikill vandi fylgdi þeirri vegsemd, að eigi gátu þá Svíar betur valið en þeir gjörðu. Landið var af stjórnleysi og lángvinnum óeirðum fátækt og í alskonar ólagi; skattarnir hrukku hvergi nærri til ríkisnauðsynja, en að leggja nýja skatta á bændur var ógjörlegt; meir en þriðjúngur landsins var í höndum aðalsmanna og klerka, og af þeim hluta var als ekki goldið til almenníngs þarfa. Borgarar gátu heldur ekki goldið, því að verzlun þeirra var lítil og í höndum Lýbiku-kaupmannna. Aðallinn átti að vísu talsverðar eignir og auð, en það var einkum klerkastèttin sem var stórrík, hana skorti hvorki lönd nè lausa aura. Þaðan varð því fèð að koma, ef nokkuð skyldi framgengt verða í Svíaríki. En að fá fè hjá klerkum og kirkjum í þá tíð til landsins þarfa, það þótti óvinnandi verk. Sumir af stjórnendum Svía höfðu áður freistað þess, en það hafði orðið þeim að fótakefli. Stúrarnir, slíkir sem þeir höfðu verið á sinni tíð, þorðu eigi að reyna slíkt. Gustaf Vasa þorði það. Og að honum tókst það sýnir eitt með öðru hvílíkt mikilmenni hann var.

Þegar Gustaf Vasa slapp forðum úr varðhaldi í Danmörku,

komst hann til Lýbiku, dvaldist þar um hríð og kyntist þar ritum Lúthers og siðabótinni. Hann hugleiddi vandlega hið mikilvæga efni. Þegar hann nú var seztur að völdum í Svíþjóð og sá, að því nær alt þurfti þar breytíngar við og endurbótar, en hvergi fè til nema hjá klerkunum, og að þeir lifðu í alsnægtum og óhófi, og hèldu landslýðnum í villu og vanþekkíngu, þá setti hann sèr það mark og mið, að mínka veldi þeirra, og verja því fè til þarfa lands og lýðs, sem þeir höfðu misjafnlega aflað og eyddu með ósóma; hann einsetti sèr að koma *siðabótinni* á í ríki sínu, en hann gjörði það eins og annað með viturleik og stillíngu, en þó með þeim kjark og manndómi, sem eigi varð í móti staðið.

Bræður tveir eru nefndir til sögunnar, hèt annar *Ólafur*, en annar *Lárus*[1]. Faðir þeirra hèt *Pètur*, og bjó í borg þeirri á Svíþjóð, er Örebro heitir; hann var smiður mikill og góður bjargálnamaður. Þeir bræður voru námgjarnir mjög þegar á únga aldri, og kom faðir þeirra þeim til læríngar í klaustur eitt skamt þaðan. En sem þeir höfðu verið þar um hríð, fóru þeir utan, eins og þá var alltítt, til frekari mennfngar með útlendum þjóðum. Þeir komu til Wittenbergs og heyrðu þar kenníngu Lúthers, sannfærðust um ágæti hennar og fylgdu henni síðan dyggilega. Ólafur var ákafamaður mikill og framgjarn og manna bezt máli farinn, Lárus var spaklyndari, minni mælskumaður en bróðir hans, en rithöfundur öllu meiri; báðir voru þeir bræður vel lærðir.

Þegar þeir komu heim aptur til Svíþjóðar, tóku þeir til starfa. En þá var hið mesta herhlaup og vopnabrak í landinu, og allur þorri manna gaf kenníngu þeirra lítinn gaum; en meðan á ríkisdeginum í Strengnesi (1523) stóð, kom Ólafur Pètursson þar fram, og fór að boða þíngmönnum hinn nýja sið. Alt varð í uppnámi og kom fyrir konúngs eyru; lèt hann kalla Ólaf á sinn fund, og gjörði hann konúngi grein á aðalinntaki fræða sinna. Gustaf lèt sèr það vel líka, en hafði eigi orð á við aðra. Litlu síðar setti hann Lárus til kennaraembættis í guðfræði að Uppsölum, en Ólaf til prestsembættis í Stokkhólmi. Með aðstoð þessara tveggja manna, og svo hins þriðja, er hèt *Lárus*

1) Bræður þessir eru í bókum optast nefndir latínskum nöfnum: *Olaus Petri* og *Laurentius Petri.*

*Andrèsson* (*Laurentius Andreæ*), og sem varð kanselleri Gustafs, tókst honum að greiða götu Lúthers trúar út um landið. Ólafur prestur flutti orðið af mikilli djörfúng og mikilli mælsku í Stokkhólmi. Hinir katólsku klerkar höfðu jafnan verið vanir að halda guðsþjónustu sína á latínska túngu, sem lýðurinn hlustaði á, en skildi ekki orð í. Ólafur prèdikaði á sænsku og hvert mannsbarn skildi það er hann sagði. Streymdi nú til hans múgur og margmenni. Sumum fèll vel í geð hin nýja kenníng, sumir urðu á báðum áttum hverju trúa skyldi, sumir reiddust og kölluðu slíkt hin mestu býsn og undur. Múnkarnir urðu óvægir, áttu orðakast við hann, en urðu þar undir, því að hann var þeim miklu lærðari og betur máli farinn. Þar kom að Ólafur mætti ofsóknum, og var grjóti barður, og einatt í lífsháska, þó lèt hann eigi af að prèdika öllum stundum, er hann komst höndum undan. Hinir katólsku biskupar beiddu konúng gjöra meistara Ólaf landrækan, en konúngur gaf þeim það svar, að þeir beiddu þess eigi optar.

Nú stóð svo á um þetta leyti, að penínga vantaði til þess að gjalda nokkrum útlendum hersveitum mála, er verið höfðu í Gustafs þjónustu; aðalsmenn, borgamenn og bændur skutu fè saman til þeirra útgjalda, en það hrökk eigi til. Þá beiddi Gustaf klerkana láta nokkuð af hendi rakna; þeir kváðust alt annað vilja fyrir hann gjöra, en eignir heilagrar kirkju mættu þeir með engu móti skerða. Þá setti Gustaf þeim aðra kosti, og þorðu þeir þá eigi lengur að skorazt undan gjaldinu.

Nú batnaði ekki í biskupunum. Einn af þeim hèt *Pètur Sunnanväder* og var biskup í Vesturási; hafði þjónað Steini Stúre hinum ýngra, og gefizt þá eigi vel, en nú vildi hann steypa Gustaf Vasa úr völdum og hefja Níels Steínsson Stúre til ríkis, og komast svo sjálfur til upphefðar. Hann tók það ráðs, að æsa Dalakarla upp til ófriðar og leiða þeim fyrir sjónir, að Gustaf væri ránglega orðinn konúngur, þar á ofan væri hann óbærilegur harðstjóri, og enginn ætti annar konúngur að vera í Svíþjóð en Níels Stúre. Þessu líkt ritaði hann norður um alla Dali. En vinir Gustafs konúngs sáu þessi brèf og sendu honum. Konúngur sýndi brèfin og setti dómendur til að dæma orð og gjörðir biskups; hann misti embætti en hèlt lífi. Knútur erkibiskup vefengdi þann dóm, og kvað klerkum einum leyfilegt eptir kirkju-

rèttinum að dæma biskup, en als eigi öðrum. Þá svaraði konúngur: «Sá sem vill skjóta þeim manni undan dómi, er sannur er að landráðum, hann er sjálfur um landráð sekur, og fyrir þá sök eru þèr og öllu valdi sviptur». Þá sló þögn og ófögnuði á alla er viðstaddir voru. Konúngur bauð samstundis að kjósa annan biskup í stað Pèturs í Vesturási. Svo var gjört. Því næst fór hann til Stokkhólms og bauð kanokum í Uppsölum að kjósa annan erkibiskup. Og var það einnig gjört. Konúngur átti um þessar mundir við mörgu að snúast í ríki sínu. Áhángendur Kristjáns annars, einkum Sören Norðby, gjörðu óspektir suður í landi; Friðrik fyrsti Danakonúngur vildi vera yfirkonúngur allra Norðurlanda, — því að Danir gátu eigi gleymt Kalmarsambandinu, — og sendi í þeim erindum menn og brèf til Svíþjóðar. Fór Gustaf Vasa þá suður á Skán til fundar við Danakonúng, og áttu þar tal saman; sagði Gustaf svo: að Dönum hefði aldrei tekizt til fulls að vinna Svíþjóð, og nú væru minni líkur til þess en nokkru sinni áður, sjálfur kvaðst hann skyldu vera vinur Danakonúngs, ef konúngur svo vildi, en undirmaður hans vildi hann aldrei verða. Var því máli síðan aldrei hreift.

Meðan Gustaf konúngur var í suðurför þessari, höfðu katólsku klerkarnir vakið óspektir norður í landi, einkum biskup sá er *Hans Brask* hèt, slúnginn maður og voldugur; þeir bræður Ólafur og Lárus höfðu verið bannfærðir, og meðal alþýðunnar var víða hinn mesti kurr. Konúngur fór um landið, talaði við bændur, og friðaði þá með málsnild sinni. Norðr í Dölum höfðu þeir Pètur Sunnanväder og Knútur, er fyr var erkibiskup, æst lýðinn svo að þar varð upphlaup, en konúngur kom þar og sefaði menn. Hinn nýi erkibiskup, sem kom í stað Knúts, hèt Jóhannes Magnús, var gæflyndur maður, og hafði eigi kjark í sèr til þess að sýna konúngi beinan mótþróa, en mjög var honum illa við það, að konúngur hèlt verndarhendi yfir siðabótarmönnum, og heimtaði fè af kirkjum og klerkum til ríkisþarfa. Erkibiskup hèlt sig mjög ríkmannlega, og fór aldrei svo um biskupsdæmi sitt, að hann hefði eigi 200 vopnaðra manna í för með sèr. Einhverju sinni kom Gustaf konúngur til hans, og tók erkibiskup honum með miklum virktum og lèt búa til veizlu dýrðlegrar; voru þar hásæti tvö, sat konúngur í öðru en erki-

biskup í öðru; að veizlulokum tók erkibiskup bikarinn sèr í hönd, sneri sèr að konúngi og mælti: «Vor náð drekkur yðar náð til». Gustaf var fljótur til svars og mælti: «Þín náð og vor náð komast eigi báðar fyrir undir sama þaki». Litlu síðar varð erkibiskup að víkja af stóli, hèlt eptir það af landi burt og andaðist suður í Róm. Því meir sem konúngur þrengdi að klerkunum, því meiri varð óánægjan í landinu, því að þeir gjörðu alt sem þeir gátu til að ófrægja konúng, og sá hann að svo búið mundi eigi duga, ef siðabótinni ætti að verða framgengt, og landið taka nokkrum framförum. Hann tók það ráðs, að kveðja menn til þíngs að *Vesturási*, og skyldu þar saman koma kjörnir menn af öllum stèttum ríkisins (1527). Katólsku klerkunum sagði illa hugur um fund þenna, því að þeir vildu eigi, að talað væri margt um trúarbrögðin í viðurvist alþýðu, og því síður, að konúngi gæfist færi á að tala til allra stètta um það efni; þeir óttuðust mælsku hans og þau áhrif, sem hún hefði á lýðinn. Þeir tóku þess vegna ráð sín saman og hètu hver öðrum, að vernda eignir sínar og einkarèttindi gegn konúngi. Og þegar er þíngið var sett, lýsti Brask biskup yfir því af hendi klerkastèttarinnar, að það var vilji hennar að halda rèttindum sínum og eignum óskertum í alla staði, eins og að fornu hefði verið. Konúngur spurði því næst ráðherrana, hvernig þeim geðjaðist að orðum biskups. Þeir svöruðu, að hann hefði mikið til síns máls. «Fyrst svo er», mælti Gustaf, «þá lystir oss eigi lengur að vera konúngur; annara andsvara áttum vèr von af yðar hendi en þessara. Nú þykir oss það engi furða, þótt alþýða manna sè orðin ær og sýni oss óhlýðni og baki oss áhyggjur, er hún hefir slíka leiðtoga. Fái menn eigi regn, þá er oss um kent; fái menn eigi sólskin, þá er oss einnig gefið það að sök. Komi harðæri, húngur eða sóttir, eða hvað annað, sem að getur amað, þá er sökin vor. Slíkar þakkir fáum vèr fyrir alt það ónæði og allar þær áhyggjur, er vèr megum á oss taka fyrir land og lýð og yður alla til samans. Vèr vinnum eptir megni yður til gagns og góða, en eigum engi önnur laun í væntum en þau, að þèr sæuð gjarnsamlega að exin stæði föst í höfði voru, þó að engi yðar sè sá fullhugi, að hann þyrði um skaptið að halda. Slíkra launa getum vèr fult eins vel án verið eins og hver yðar. Vèr verðum daglega að gegna meiri störfum og standa í

meiri vanda bæði í innlendum málum og útlendum, en þèr vitið og getið skilið, til þess að vèr getum heitið höfðíngi yðar og konúngur. Þó viljið þèr nú setja yfir oss bæði klerka og múnka, og alt páfans endemi. Í einu orði að segja, allir viljið þèr dæma oss og yfir oss drotna, þótt vèr sèum rètt kjörinn konúngur yðar og herra. En hver getur með þeim kosti verið yðar konúngur? Vèr ætlum, að hinn versti púki í helvíti vilji hafa sig undan þeginn slíkri tign, og því fremur allir mennskir menn. Fyrir því skuluð þèr vita, að vèr afsegjum að fullu og öllu að vera konúngur yðar, og megið þèr nú kjósa hvern þann í vorn stað, er yður gott þykir. Þó skuluð þèr vera við því búnir, að gjöra oss full skil á foreldra arfi vorum, er vèr höfum öllum orðið til að kosta í ríkisins þarfir. Og ef þèr gjörið svo, þá lofum vèr yður því, að fara hèðan af landi burt og koma hèr aldrei síðan. «Að svo mæltu gekk konúngur af þíngi og til hallar sinnar, en þíngheimur sat hljóður og sem agndofa eptir, og mælti engi maður orð.

Nú liðu svo nokkrir dagar. Þíngmenn gátu eigi orðið á eitt sáttir, en því lengur sem þeir ræddu þetta vandamál, því ljósara varð þeim, að ríkið mátti eigi án Gustafs vera. Það var því til bragðs tekið, að senda menn á hans fund og biðja hann, að taka aptur að sèr ríkis stjórn og konúngdóm. Gustaf var lengi tregur en þó kom þar, að hann kvaðst mundu gjöra að ósk þeirra og vilja, ef þeir játuðu honum hlýðni og hollustu, og var nú svo gjört. Var nú aptur tekið til þíngstarfa og að síðustu með lögum ákveðið; 1. að öllum eignum og tekjum biskupa, kirkna og klaustra, sem fram yfir það væri er nauðsyn krefði, skyldi varið í ríkisins og krúnunnar þarfir, og biskupar skyldu lausar láta við konúng allar hinar víggirtu hallir sínar; 2. að alt sem gefið hefði verið til kirkna eður klaustra fyrir daga Karls Knútssonar, skyldi falla aptur til krúnunnar; 3. að alt sem gefið hefði verið, selt eður veðsett kirkjum eða klaustrum eptir daga Karls Knútssonar, skyldi hver sá mega leysa til sín aptur, er sannað gæti erfðarètt sinn; 4. að guðsorð skyldi hreint og óbrjálað upp þaðan í frá prèdikað í öllum kirkjum ríkisins. Þá var og leitt í lög, að konúngur skyldi skipa biskupa, kanúka o. s. frv. en páfinn koma þar hvergi nærri; biskupar skyldu eigi erfa presta, eins og áður hafði verið, heldur rèttir erfingjar;

guðsorð skyldi kenna úngum mönnum í skólunum o. s. frv. Undir alt þetta urðu klerkarnir að játast, með höndum og innsiglum. Þannig lauk þessu merkilega Vesturáss-þíngi (ríkisdegi). Svíar hèldu svo miklu sem frekast varð af kirkjusiðum katólskra manna, og talsvert meiru en Danir, er litlu síðar en hèr var komið leiddu í lög hjá sèr siðabót Lúthers. Hinir fyrstu biskupar í Svíþjóð, eptir að siðabótin var þar lögleidd, voru vígðir af biskupi þeim, er sjálfur hafði verið vígður biskupsvígslu í Róm. Lárus Pètursson (*Laurentius Petri*) varð fyrstur erkibiskup í lútherskum sið í Svíþjóð, og vann af viti og stillíngu stórum að útbreiðslu siðabótarinnar þar í landi; hann á og mestan þátt í hinni fyrstu þýðíngu biflíunnar á sænska túngu, og bæði hann og Ólafur bróðir hans rituðu margt og mikið til þess að fræða landsfólkið um guðs orð og góða siði.

Eptir að Gustaf Vasa hafði þannig brotið klerkavaldið á bak aptur, og lagt mikinn hluta eigna þess og auðæfa undir krúnuna, magnaðist að því skapi konúngsvaldið í Svíþjóð. Aðallinn hafði að sönnu ráðið þar miklu að undanförnu, en hann hafði orðið fyrir stórmiklu skakkafalli af Kristjáni öðrum; nú fèkk hann reyndar nokkuð af þeim auði sem klerkarnir mistu, en eigi náði hann slíku einveldi sem aðallinn í Danmörku, og ríkisráðið varð nú að eins ráðaneyti konúngs. Af alþýðunni mætti konúngur þegar fram í sótti talsverðri mótspyrnu, því að hún hafði löngum átt hendur sínar að verja móti konúngum meðan Kalmarsambandið stóð, og hafði fyrir þá sök til að bera miklu meiri dug og djörfúng en t. a m. alþýðan í Danmörku. Alþýðan í Svíþjóð sá að Gustaf Vasa var ráðríkur og afskiptasamur um öll málefni, og þótti hann ganga of nærri fornu frelsi og fornum rèttindum sínum. Konúngur gat að vísu opt sefað lýðinn með orðum einum, er hann kom sjálfur til viðtals, en alt um það urðu þó stundum upphlaup þar í landi, svo að til vopna kom og vandræða. Skal hèr nú getið hinna helztu óspekta. Pètur Sunnanväder, sá sem fyr var nefndur, lèt eigi af að æsa menn til ófriðar móti konúngi. Hann hitti norður í Dölum einn úngan bóndason, er líkur var í sjón Stúra-ættinni. Pètur gaf honum það ráð, að hann skyldi segjast vera sonur Steins Stúra hins ýngra, og freista svo ef hann gæti brotizt til ríkis, því að Gustaf hefði hrifsað ránglega undir sig þau völd, er Stúrarnir

ættu með öllum rètti. Og sem Pètur hafði komið þeirri flugu í munn hinum únga manni, þá fór hann um bygðina og beiddi sèr liðs, og urðu margir til, er ginnast lètu af hans fortölum. Síðan fór hann vestur í Þrándheim og kom þar svo ár sinni fyrir borð, að Ólafur erkibiskup og ýmsir meiri háttar menn trúðu honum og lètu talsvert fè af hendi rakna honum til styrktar. Með þeim fjárafla hèlt hann aptur austur í Dali og efldi flokk sinn móti konúngi, en sá varð endir þess máls, að konúngur bældi ófriðinn niður, og exin stytti hvorumtveggja aldur, bæði Pètri Sunnanväder og hinum únga manni, er svo hafði rasað fyrir ráð fram. Öðru sinni kviknaði ófriður í Dölum fyrir þá sök, að konúngur hafði boðið, að hver sú kirkja, er ætti tvær klukkur, skyldi láta aðra til þess að goldnar yrðu ríkisskuldir. Um það leyti kom Kristján annar til Norvegs (1531), og vildi brjótast aptur til ríkja sinna á Norðurlöndum, og gat Gustaf því eigi snúizt við Dala-uppreist þessari fyr en Kristján var handsamaður og settur í varðhald, eins og fyr er ritað; en þá sefaði Gustaf þenna klukknahljóm Dalamanna. Skæðastar urðu þær óspektirnar, sem kviknuðu í Smálandi (1542), og kalla má *Dakkahríð*. Bændum og borgamönnum var víða gramt í geði til aðalsins og fógetanna, því að þeir sættu opt afarkostum af þeim, og þó konúngur rètti einatt hluta bændanna, þá gat hann eigi vitað alt, sem fram fór í ríki hans. Það sat og í bændum og borgamönnum, að höfðíngjar einir höfðu á þíngi í *Örebro* (1540) ráðið því með konúngi, að Svíþjóð þaðan af skyldi vera *erfðaríki*, en eigi kjörríki, eins og áður, en bændur höfðu als eigi verið til þess þíngs kvaddir. Ýms lög hafði og konúngur sett, er að vísu miðuðu bændalýðnum til góðs, en bændum líkuðu ekki lögin, og þóttu þau skerða frelsi sitt. En þó Svíar væru harðfengir og hneigðir til sjálfræðis og óspekta, þá voru hvergi meiri brögð að því en í Dölum, og einkum í Smálandi[1]. Smálendíngar höfðu tíðum stytt fógetum konúngsins aldur, og sætt í staðinn þúngum hegníngum og sektum af konúngi; hlupu þá sumir frá húsum og heimilum og lögðust út, og drógu slíkir menn að sèr alskonar íllþýði, og urðu að lokum margir saman og unnu ýms fólskuverk.

1) Smálendíngar voru eins og *Tegnér* segir á einum stað: »Männer för sig, en vikingastam, med styrkan till lagbalk».

*Níels Dakki* er maður nefndur; hann bjó á Dakkamúla; hann var auðigur að fè, harðfengur og ódæll; hann deildi við annan mann um land, og dæmdi fógeti af honum landið. Þá reiddist Dakki og drap fógetann; var hann þá tekinn og settur í varðhald, en leyndist þaðan á brott og komst til skógar; hitti Dakki þar brátt stigamenn og gjörðist foríngi þeirra. Bændur, þeir sem óeirnastir voru, gengu til liðs við þá Dakka, rèðust því næst í bygðina og drápu hvern fógeta og aðalsmann, er fyrir þeim varð, en brendu þorp þeirra og bústaði; færðist þessi óaldarstraumur bygð úr bygð yfir landið, og horfði til hinna mestu þjóðvandræða. Konúngur sendi lið í móti, og gekk svo lengi, að bændur urðu eigi sigraðir, og eigi var óspektum þessum lokið fyr en að tveim árum liðnum.

Eptir það bryddi eigi á óeirðum í Svíþjóð, og Gustaf stýrði ríki sínu í friði. Tóku Svíar þá mjög miklum framförum í öllum greinum undir handleiðslu hins vitra og stjórnsama konúngs. Hann hafði, eins og fyr er ritað (bls. 136), tekið þátt í greifastríðinu og styrkt til ríkis Kristján Danakonúng, mág sinn, og bæði þá og síðan varpað af Svíum einokunarverzlun Lýbikumanna, og fóru Svíar nú að eignast skip, og á síðustu árum Gustafs konúngs voru þeir orðnir allmiklir kaupmenn og farmenn, og fluttu vörur á skipum sjálfra sín til annara landa. Herskip lèt konúngur gjöra mörg, og kom fótum undir fastalið í landinu, sem eigi hafði áður átt sèr stað. En þó konúngur legði mikið í kostnaðinn, þá var nóg fè í öllum fjárhirzlum ríkisins, er hann skildi við.

Gustaf Vasa var þríkvæntur, og átti fyrst *Katrínu* af *Saxen-Lauenborg;* þeirra son var Eiríkur, er síðan varð konúngur. Önnur kona Gustafs var sænsk og hèt *Margrèt Lejonhufvuð*, vitur kona og góð, og unni konúngur henni mjög; þau áttu mörg börn, og voru þeir Jóhann og Karl þeirra synir, og urðu báðir konúngar. Þriðja kona Gustafs hèt *Katrín Stenbock*, og var systurdóttir Margrètar drotníngar. Stóð því Laurentius erkibiskup og klerkarnir með honum fast á móti því, að konúngur ætti hana; en það varð fram að gánga í þessu sem öðru, er konúngur vildi. Eigi er þess getið, að Gustaf konúngi yrði barna auðið í þessu þriðja hjónabandi. Þeir synir Gustafs uxu nú upp og voru allir hinir mannvænlegustu. Var Eiríkur þeirra elztur

og borinn til ríkis eptir föður sinn, en fyrir þá sök að Eiríkur var ódæll mjög í uppvexti, hafði hann lítið ástríki af föður sínum, en Jóhanni unni Gustaf hugástum. Þeir móðurfrændur Jóhanns bættu heldur eigi samlyndið milli bræðra þessara; og þannig var margt er að því studdi, að þeirra í millum gjörðist síðan fullur fjandskapur. Til þess að sporna við því, að Eiríkur stofnaði öllu ríkinu í vandræði, fèkk Gustaf konúngur hinum ýngri sonum sínum mikil lönd til forráða, og gaf þeim hertoga nafnbót; þannig fèkk hann Jóhanni Finnland, en Karli Suðurmannaland, Nerike og Vermaland. Að Gustaf hafi sèð fyrír, að róstusamt mundi verða í ríkinu eptir sinn dag, má ráða af því, er honum varð að orði, þá er hann talaði til fulltrúa þjóðarinnar í síðasta sinni. Hann sagði svo meðal annars: «það er kunnugt, að mörgum hefir þótt eg vera ærið harður konúngur. En þeir tímar munu koma, að Svíar mundu kjósa að ná mèr aptur upp úr moldunni, ef þess væri nokkur kostur». Litlu síðar andaðist Gustaf Vasa (1560) hátt á sjötugs aldri, og hafði stýrt Svíþjóð hartnær um 40 ár með hinum mesta skörúngskap.

*Eiríkur* sonur hans, hinn 14. með því nafni, tók því næst konúngdóm yfir Svíum. Eiríkur var námsmaður mikill og vel að íþróttum búinn, og hafði margt til þess að geta orðið hinn nýtasti þjóðhöfðíngi, en hann var tortryggur og hviklyndur, og hafði svo litla stjörn á geði sínu, að þegar því var að skipta, mátti heita að hann væri eigi með öllu ráði. Faðir hans hafði verið hinn mesti sparnaðarmaður, og safnað miklu fè í sjóð. Eiríkur eyddi stórfè bæði til hirðar sinnar og í allar þær mörgu kvonbænaferðir, er hann sendi til ýmsra landa. Hann beiddi margra kvenna og það um sama leiti: Elísabetar drotníngar á Englandi, Maríu Stúart á Skotlandi, hertogadóttur af Lothringen, og landgreifadóttur af Hessen; en alstaðar var honum synjað ráðahags. Þá er hann lèt kryna sig, gjörði hann nokkra af vildarmönnum sínum að *greifum* og *fríherrum*, og fèkk þeim sýslur miklar að lèni, er að erfðum skyldu gánga. Þau tignarnöfn koma þá fyrst fyrir í Svíþjóð. En sá var tilgángur Eíríks með þessu, að fá eitthvert jafnvægi móti bræðrum sínum, Jóhanni og Karli, því að hann óttaðist þá jafnan. Hin fyrstu árin, sem Eiríkur sat að ríkjum, gjörði hann ýmsa hluti, er til gagns máttu verða. Hann setti yfirdóm í ríkinu; hann setti gestaherbergi með öll-

um þjóðvegum, tók of marga óþarfa helgidaga, er loðað höfðu við frá páfadómi, og veitti Kalvínstrúarmönnum hæli í ríki sínu, er í það mund flýðu fyrir ofsóknum af Frakklandi. En óvildin og hatrið milli Eiríks konúngs og Jóhanns hertoga bróður hans á Finnlandi fór dagvaxandi. Jóhann kvongaðist og átti Katrínu Jagellonika af Póllandi um sama leiti sem ófriður hófst milli Svía og Pólverja. En undirrót ófriðarins var sú, að Reval-borg og Estland, er *sverðriddarar* höfðu ásamt með Líflandi afhent Pólverjum, hafði gefizt á vald Svíum, til þess að verða eigi Rússum að bráð. Vildu svo hvorirtveggja bæði Svíar og Pólverjar ná Estlandi. Nú sem Eiríkur frètti kvonfáng Jóhanns bróður síns og það með, að hann hefði lánað Sigmundi Pólverja konúngi stórfè, þá sendir Eiríkur her manns austur á Finnland, lætur taka Jóhann höndum og setja í varðhald í Gripshólma; sat Jóhann þar 4 ár. Þá hófst um sama leyti hið *norræna sjö ára stríð* við Dani og Norðmenn; fèkk allur sá ófriður Eiríki svo mikillar áhyggju, að skapsmunir hans urðu hálfu verri en áður; það spilti honum og stórum, að hann átti illa ráðgjafa, og er Göran eða *Jöran Persson* þeirra nafnkendastur; hann rægði aðalinn á allar lundir við konúnginn. Eiríki þótti mönnum sínum gánga illa á landi í ófriðnum við Dani, og kendi hershöfðíngjum sínum um ófarir þær, er þeir fóru fyrir Danieli Ranzau, og eptir Svartárorustuna lèt konúngur misþirma einum þeirra, er *Niels Sture* hèt, hinum göfugasta manni, sonarsyni Steins ýngra, og litlu síðar lèt konúngur varpa Nielsi í fángelsi, lagði þar sjálfur hönd á hann og lèt drepa hann, og nokkra fleiri af hinum beztu og tignustu mönnum. Varð Eiríkur þá með öllu vitstola, og hljóp út á skóg og fanst eigi fyr en að nokkrum dögum liðnum. En nú kom að honum hræðsla og hugarvíl, og vildi friðmælast við ættíngja þeirra manna, er hann hafði látið drepa, og þá lèt hann Jóhann bróður sinn lausan. En þá var svo komið, að margir þóttust eiga um sárt að binda, og Jóhann þorði eigi að treysta friðarorðum bróður síns; þar til kom og, að Eiríkur hafði kvongast og tekið sèr til drotníngar konu eina *Karínu Monsdóttur* að nafni, af lágum stigum, er áður hafði verið frilla hans — en var að öðru leiti góð kona — og lýst yfir því, að Gustaf sonur þeirra Karínar skyldi erfa ríkið eptir sinn dag. Það þótti Jóhanni hertoga óþolandi og þá laust

upp ófriðnum; gjörðust þeir bræður Jóhann og Karl foríngjar uppreistarmanna, og lauk svo, að Eiríkur varð handtekinn og settur í dýflissu (1568), en Jóhann tók við ríkisstjórn. Hann var krýndur að Uppsölum og nefndur *Jóhann þriðji*. Litlu síðar stefndi Jóhann konúngur mönnum til þíngs í Stokkhólmi til þess að dæma Eirík frá konúngstign og völdum. Eiríkur var færður á þíng til að svara máli sínu. Hann gjörði það svo vel og sköruglega, að mörgum tók að blandast hugur. Þá mælti Jóhann: «þú ert alsendis frá vitinu!» Eiríkur svaraði. «Als einu sinni var eg frá vitinu, og það var þá, er eg lèt þig lausan af varðhaldi». Málið datt niður, en Eiríkur var dæmdur af krúnunni og til æfilángs varðhalds, en þó skyldi fángelsið vera þannig, að konúngbornum manni hæfði. En mjög var síðan út af því brugðið. Beitti Jóhann konúngur hinni mestu hörku við bróður sinn, og lèt hrekja hann úr einni dýflissunni í aðra, og að síðustu eptir 9 ára varðhald, lèt hann drepa Eirík á eitri (1576)[1]. Jóhann ætlaði einnig að láta taka af lífi Gustaf son Eiríks, en sveinninn komst undan og af landi burt, varð frægur af lærdómi sínum, en lifði við fátækt og dó í Rússlandi 1607. Karínu Monsdóttur, ekkju Eiríks konúngs, var Jóhann þar á móti hinn bezti, og sá svo um, að hún liði engan skort. Hún staðnæmdist síðan austur á Finnlandi, og andaðist þar 1612.

Jóhann 3. var þannig orðinn konúngur yfir Svíþjóð, en Karl hertogi bróðir hans rèð þeim fylkjum, sem hann var yfirskipaður, hartnær sem einvaldur konúngur, og margt fór þá fram í Svíþjóð að hans ráðum og vilja, því að Karl var vitur maður og manna harðfylgnastur, er því var að skipta; var því löngum lítil vinátta með þeim bræðrum. Jóhann veitti aðlinum ýms rèttindi, og hafði þaðan styrk móti bróður sínum.

Þess er áður getið, að ófriður (sjö ára stríðið) stóð milli Dana og Svía meðan Eiríkur 14. sat að ríkjum. Þegar Eiríkur var sviptur völdum, stöðvaðist sá ófriður um stund. En síðan lèt Jóhann konúngur hefja þann ófrið að nýju, og halda honum fram, þángað til fullur friður komst á í Stettin 1570. Það sem

1) Eiríkur var lærður maður og skáld gott, og eru til eptir hann sálmar, er hann orkti í fángelsinu. Hann fèkk stundum að hafa hljóðfæri og ritföng þar hjá sèr, til þess að stytta sèr stundir, en stundum var hvorttveggja tekið frá honum.

þá einkum knúði Jóhann til friðar við Dani, var geigur sá, er honum stóð af Rússum. Þá rèð fyrir Rússlandi Ívan Vasiliviz, hinn annar með því nafni, og er hans áður getið. Ívan vildi brjóta undir sig Estland og Lifland, en Svíar höfðu þar þá yfirráð; vildi Jóhann eigt laust láta, og varð af því hinn mesti ófriður. Framan af veitti Svíum miður, en þegar fram í sótti tímann, varð Svíum þar vel framgengt, einkum eptir að *Pontus de la Gardie* varð yfirforíngi hersins. Hann var ættaður af Frakklandi, og er af honum kominn mikill og frægur ættbálkur í Svíþjóð. Svíar náðu aptur löndum þeim, er Rússar höfðu tekið, og þar á ofan unnu þeir Ingermannland (þar er nú Pètursborg) og Kexholm. Lauk óeirðum þessum eigi fyr en 3 árum eptir dauða Jóhanns 3. með Teusinar-friðnum 1595[1]. Rússar sleptu tilkalli til Estlands og Narva, en fengu Ingermannland og Kexholm aptur.

Meðan Jóhann sat í fángelsi sem fyr er ritað, hafði hann fengizt mikið við guðfræði, og hugfest að koma á sátt og samlyndi í ríki sínu í trúarefnum, því að enn var þar eigi um heilt gróið milli hins nýja siðar og hins forna, milli katólskunnar og lútherskunnar. Katrín drotníng Jóhanns fylgdi katólskum sið, og með henni slæddust Jesúítar til Svíþjóðar; hafði bæði hún og þeir mikil áhrif á konúng í trúarefnum, og svo fór, að konúngur tók katólska trú, og fór að semja við páfann um að leiða aptur í lög katólska trú í Svíþjóð með vissum skilyrðum. Og til þess að koma því í kríng lèt hannn búa til nýa *kirkju-ordínanzíu* eða reglu um guðsþjónustugjörð og helgihöld (*Liturgi*); voru í hana teknir margir af siðum katólskra manna, og klerkar þeir, sem eigi vildu þeim sið fylgja, voru reknir frá embættum. En þegar eigi gekk saman með konúngi og páfa um skilyrðin, Katrín drotníng dáin, og Jóhann konúngur kvæntur annað sinn, og sú drotníng (*Gunilla Bjelke*) hèlt fast við Lúthers trú, þá snerist Jóhanni hugur, og hætti þá við katólskuna en hèlt fast við ordinanzíu þá er hann hafði sett, og sem átti að þræða einskonar meðalveg milli páfatrúar og Lútherstrúar. Karl hertogi bróðir Jóhanns var athvarf lútherskra manna í Svíþjóð

---

1) *Teusín* er skamt frá Narva, hinni nafnkendu borg, þar sem fundur þeirra Karls 12. og Pèturs Czars varð árið 1700.

um þessar mundir, og þurfti engi maður að hugsa til að þoka honum af rèttum vegi í þeim efnum.

Gustaf Vasa hafði kent sonum sínum mörg heilræði og þar á meðal þessi: «eitt sinn segja og þar við láta sitja, er betra en hundrað sinnum tala», og, «hafið dugandi menn um yður og hreina í lífernisháttum, menn trúa því um yður, er menn vita um þá». Hvorigu þessu heilræði fylgdi Jóhann; hann var reikull í ráði, míkill í loforðum, en lítill í efndum, og sýndi það sig eigi sízt í trúarefnum, þó var hann maður vel viti borinn og lærður vel; hann hafði misjafna menn sèr við hönd, er eigi bættu heldur spiltu mörgu fyrir honum; urðu mest brögð að því eptir að Katrín drotníng hans var dáin, því að hún hafði jafnan komið þar fram, er til hins betra mátti vera, þótt hún katólsk væri. Jóhann konúngur átti óskilgetin börn á hinum ýngri árum sínum; eitt af þeim hèt Soffía, hennar fèkk hershöfðínginn *Pontus de la Gardie*, sem fyr er nefndur. Jóhann þriðji varð sóttdauður 1592.

*Sigmundur* sonur Jóhanns þriðja og Katrínar erfði ríki í Svíþjóð eptir föður sinn, en áður var hann orðinn konungur á Póllandi; hafði hann alizt þar upp með móðurfrændum sínum og numið þar katólska trú, og fylgdi hann henni rækilega meðan hann lifði. Einhverju sinni á hans ýngri árum höfðu ráðherrarnir sænsku sagt við hann, að hann gæti eigi orðið konúngur þeirra Svíanna nema því að eins, að hann tæki Lúthers trú. Þá svaraði Sigmundur: «heldur kýs eg hina sönnu trú án krúnunnar, en krúnuna án sannrar trúar». Sigmundur konúngur var suður á Póllandi þá er Jóhann faðir hans dó, og gat eigi við snúizt þá þegar að vitja ríkis síns í Svíþjóð. Hafði Karl hertogi þar landstjórn á hendi í fjærvist Sigmundar, og lèt þegar halda þíng fjölment að Uppsölum (1593); var á því þíngi hrundið kirkjureglu Jóhanns þriðja, en Lúthers trú lögtekin sem þjóðtrú yfir alt ríkið. Þessu næst kom Sigmundur til Svíþjóðar, og varð styggur við, er hann heyrði hvað gjörzt hefði að Uppsölum; kvað hann það alt ógilt vera, er þannig væri undirkomið án vilja síns og vitundar; urðu af því hinir mestu vafníngar, en svo lauk, að Sigmundur varð að samþykkjast Uppsalagjörðinni, og að því búnu var hann krýndur til konúngs yfir Svíþjóð. En er frá leið efndi hann orð sín miðlúngi vel og

reyndi á ýmsar lundir að koma á katólskum sið; líkaði Svíum það stórilla. Litlu síðar fór Sigmúndur suður á Pólland, en Karl hertogi tók þá alla ríkisstjórn sèr í hendur í Svíþjóð; þótti ráðherrunum hann ærið afskiptasamur og ráðríkur og undu því illa, hneigðust þeir þá fremur en áður að Sigmundi, því að þeir vissu, að hann var gæflyndur, og, að þeir gætu meiru ráðið undir hans ríkistjórn. Fór þá svo, að ráðherrarnir flestir hrukku af landi burt og leituðu til Sigmundar. Nokkrum tíma þar eptir kom Sigmundur að sunnan með her manns, og voru ráðherrarnir í för með honum; ætlaði konungur nú með valdi að þröngva Karli hertoga og landsmönnum til hlýðni við sig; varð fundur þeirra þar sem heitir *Stángabrú* (1598), skamt frá *Linköping*, og vann Karl hertogi þar fullan sigur. Síðan varð sættum komið á með þeim frændum, og þeir skilmálar settir, að Sigmundur skyldi láta alt standa óbreytt, er Karl hafði fyrirskipað, og þar á ofan selja Karli í hendur alla þá ráðherra, er til hans höfðu flúið, en síðar skyldi á almennu ríkisþíngi ræða öll þau málefni til lykta. Að því búnu eirði Sigmundur eigi lengur í Svíþjóð, en hèlt sem hraðast, eða strauk, suður á Pólland. Svíar kröfðust, að konúngur gjörði annað tveggja, vera þar kyr í landinu, eða senda Ladislás son sinn þángað og láta hann alast þar upp í lúterskum sið. Sigmundur vildi hvorugt gjöra. Áttu Svíar þá þíng í *Linköping* (1600) og var þar lýst yfir því, að Sigmundur og niðjar hans hefðu fyrirgjört konúngdómi í Svíþjóð. Var Karl hertogi nú einvaldur orðinn yfir Svíum, og hófust þá harðar ofsóknir gegn öllum þeim, er fylgt höfðu flokki Sigmundar konúngs; voru flestir af ráðherrum þeim, sem áður eru nefndir, af lífi teknir, (Linköpíngs vígin) og margur fèkk þá að kenna á ráðríki Karls og hörku. Fjórum árum síðar, þegar Jóhann, bróðir Sigmundar, hafði afsalað sèr konúngstign, tók Karl hertogi sèr konúngsnafn og var nefndur *Karl níundi*. Hann hafði að vísu farið fram með mikilli hörku, og margan mann hafði hann lífi svipt fyrir litlar sakir, en hann stýrði ávalt ríki sínu með frábærum viturleik og dugnaði, og var Svíum hinn þarfasti konúngur. Höfðu Svíar átt fremur illri stjórn og ónýtri að venjast síðan Gústaf Vasa leið, þar til nú að Karl sonur hans kom til ríkis. Hann efldi stórum alla atvinnuvegi landsmanna; hann lèt reisa *Gautaborg*, og var það eitt hið mesta nauðsynjaverk; þar

en hvergi annarstaðar, lá Svíþjóð að Jótlandshafi (Kattegat) um þær mundir; hann lèt reisa borgina *Karlstad* á Vermalandi, en alt fram á þá daga var það fylki mönnum lítt kunnugt og að kalla óyrkt. Háskólann að Uppsölum hafði Steinn Stúre hinn eldri sett á stofn, og var sá skóli á fallanda fæti þar til er Karl níundi rètti hann við aptur; og svo var um fleira, er hann leiðrètti og umbætti aptur í ríkinu. Iðnaður, akuryrkja, verzlun og vísindi tóku þannig miklum framförum í Svíþjóð á hans ríkisstjórnarárum. Við nágranna sína: Póllendínga, Rússa og Dani átti Karl 9. lengstum í ófriði. Þegar Sigmundur konúngur frètti, að Svíar hefðu sagt honum upp hlýðni og hollustu, lagði hann Estland undir ríki sitt á Póllandi, því að Sigmundur þóttist eptir sem áður vera konúngur í Svíþjóð, og fyrir því eiga full umráð yfir Estlandi. Í annan stað vildi Karl Svíakonúngur eigi láta rænast, og af þessu reis hinn mikli og lángvinni ófriður milli Svíþjóðar og Póllands, er stóð um hálfa öld; kom sá ófriður ákaflega hart niður á Póllandi. Um þessar mundir voru innanlands óeirðir miklar á Rússlandi (Demetriusarnir). Karl níundi tók þátt í þeim óeirðum, því að hann hafði von um, að geta komið Karli Filippusi, ýngra syni sínum, þar til valda, þótt eigi ætti það að auðnast. Og á hinum síðustu árum Karls konúngs hófst ófriður milli hans og Dana (Kalmarstríðið), eins og fyr er ritað. Svíar áttu þannig ófriði að gegna á allar hendur, þá er Karl 9. andaðist 1611. Karl konúngur var tvíkvæntur, og átti fyrst *Maríu*, kjörfurstadóttur af Pfalz, þeirra dóttir var Katrín, móðir Karls 10. Svíakonúngs, er síðar mun getið. Seinni kona Karls níunda hèt *Kristín*, dóttir Adolfs hertoga af Holsetalandi og Kristínar af Hessen, þeirrar er Eiríkur 14. forðum hafði beðið. Synir þeirra Karls og Kristínar voru þeir *Gustaf Adolf* og *Karl Filippus*. Það lá nærri að Karl Filippus yrði Czar á Rússlandi, en hann andaðist áður það yrði, rúmlega tvítugur, en Gustaf Adolf varð konúngur í Svíþjóð eptir föður sinn, og verður nú frá honum sagt.

*Gustaf Adolf* var borinn og barnfæddur í Stokkhólmi 9. dag december-mánaðar 1594. Það kom þegar í ljós, að hann var vel gjörður bæði til lífs og sálar; líkaminn var hraustur og fríður sýnum, skilníngurinn hvass, hugurinn prúður og kjarkmikill, hjartað viðkvæmt, en hreint og hneigt til alls þess, sem var gott og

fagurt og háleitt; uppeldi fekk hann eitt hið bezta og að því skapi, er slíku úngmenni hæfði. Karl konúngur faðir hans var einatt á ferðum og leit eptir hversu alt fór fram í ríkinu, hann var og stundum í hernaði; en á flestum þeim ferðum hafði hann son sinn með sèr, til þess að herða hann og venja við ýmsa hluti. Þá var það einhverju sinni, er konúngur var kominn að borg þeirri, er Nýkaupángur heitir, og var staddur hjá skógarnefi einu. Þar var þá Gustaf Adolf sonur hans í för með honum, og eigi eldri en fjögra eður fimm vetra gamall; vildi sveinninn í skóginn, en þar var kona ein gömul og mælti: «farðu eigi inn í runnana barn, þar eru höggormar sem bíta þig» «fá mèr þá bareflið» mælti Gustaf Adolf, «eg skal rota þá». «Hann er óhræddur sá litli», mælti konúngur og brosti við, og var því tali svo lokið. Þegar konúngur var í hernaði yfrá Finnlandi, var Gustaf Adolf þar með honum, og er sagt, að honum hafi snemma þótt gaman að sjá hermannafylkíngar, og því fremur sem þær höfðust meira að. Þá sögðu menn: «þar er hinn gamli örn floginn úr heiðrinu og hefir úngann með sèr til þess að kenna honum flugið og venja hann við að hremma». Þegar Gustaf Adolf var heima, var hann sjaldan að leikum sem önnur úngmenni, en sat þá við bóknám eða heyrði á viðræður föður síns og hinna vitrustu manna, og lærði þannig bæði margt og mikið í fornum og nýjum fræðum; hann var eigi eldri en 9 vetra, er faðir hans lèt hann sitja á ráðssamkomum og kynnast stjórnarstörfum, sýndi hann þá þegar svo mikla eptirtekt og svo frábæra greind, að öllum fanst mikið um, og sagði faðir hans einhverju sinni, er hann fann, að hann sjálfur eltist og þreyttist og mundi eigi endast til að koma því fram, er honum bjó í skapi: «*ille faciet*» (þ. e. hann mun gjöra það) og klappaði hendinni á koll syni sínum. Það var eigi faðirinn einn, heldur allir sem til þektu, er gjörðu sèr miklar og fagrar vonir um Gustaf Adolf.

Karl níundi dó, eins og áður er sagt, á ofanverðu ári 1611. Þá var Gustaf Adolf eigi fullra 17 vetra gamall, og til konúngs tekinn, og fengin öll ríkisforráð í hendur, þótt hann hefði eigi náð lögaldri. Ríkið var þá í miklum vanda, því að ófriður var við útlendar þjóðir á þrjár hendur: við Dani, við Rússa og við Pólverja, en innanlands skorti bæði fólk og fè, og það sem lakast var, samlyndið og samtökin voru eigi hin beztu. Þeir voru

margir, er ógjarnan vildu þjóna syni Karls níunda, er svo hart hefði leikið þá eða þeirra frændur, og kváðu Sigmund einan og engan annan rètt kjörinn konúng í Svíþjóð; aptur voru aðrir, er vildu til konúngs taka Kristján fjórða Danakonúng; hann var þá á bezta skeiði, reyndur að vitsmunum og hinn röskasti til allrar framgöngu, hafði og mikinn hluta Suður-Svíþjóðar í sínu valdi, og eigi annað líklegra, en að hann mundi vinna alt landið undir sig, þótti þeim því sá kostur beztur, að gánga sjálfviljugir á hans vald, heldur en veita mótstöðu, og þola högg og hernað af Dönum, en fá þó eigi með úngum og óreyndum konúngi varizt ofurefli Kristjáns Danakonúngs. Af fjandmönnum Gustafs Adolfs voru Danir næstir og voðalegastir; þeir höfðu unnið Kalmar, eitt hið helzta og sterkasta vígið í landinu, og þar að auki margar borgir, en bygðir víða komnar í auðn, og var eigi annað fyrir að sjá, en að þeir mundu taka Stokkhólm, höfuðborgina; var ríkið þá alt komið í útlendra manna hendur, eins og fyrrum. Svíakonúngur sá hættuna og vildi komast hjá henni með góðu móti. Hann sendi því Danakonúngi orð, kvaðst vilja sættast og bauð honum góða friðarkosti. Kristján svaraði engu. Sá Gustaf Adolf þá eigi annað ráð, en verja sig og ríki sitt meðan auðið yrði. Um þessar mundir var hann svo fèlítill, að hann varð að selja borðsilfur sitt og ýmsa dýrgripi til bráðustu nauðsynja. Ríkisdagurinn var konúngi samhuga; mörgum var ílla við Dani, og vildu alt leggja í sölurnar til þess að komast eigi aptur í það sambýli. Þannig safnaðist Svíum nokkurt fè og mannafli; urðu nú orustur með mönnum og veitti ýmsum betur. Danir höfðu meira lið og betur búið og varð þeim víða vel framgengt; en hins vegar var Gustaf Adolf óþreytandi; hann var alstaðar þar sem hættan var mest, og hitti jafnan þau úrræði og veitti jafnan þá hjálp, er bezt átti við. Þjóðin sá hvílíkur afbragðsmaður í honum bjó; vakti það hjá henni bæði ást og traust til hans, og við það óx Svíum hugur og dugur, enda varð nú vörn þeirra meiri og sterkari eptir því sem lengra leið. Danir sáu, að þeir mundu eigi fá unnið Svíþjóð, og urðu fúsari til friðar. Loksins komst friður á í *Knæröð* á öndverðu ári 1613, en þúngir urðu friðarkostirnir Svíum, og eigi batnaði vináttan milli þeirra og Dana, þó þeir væru nú sáttir að kalla. Konúngarnir efndu vel þenna frið meðan þeir lifðu báðir, og vör-

uðust alt er til nýrra vandræða gæti orðið, sýndu enda hvor öðrum öll hin ytri virðíngar og vináttu merki, en þó voru þeir engir vinir. Kristjáni þótti nóg um sigursæld og frægð Gustafs Adolfs, þegar fram í sótti. Og Gustaf Adolf sagði svo, að honum þætti meira kveða að Kristjáni Danakonúngi en nokkrum öðrum þjóðhöfðíngja í Norðurálfu, «en hitt vildi eg gjarna» — bætti hann við — «að lengra væri á milli okkar Kristjáns heldur en er».

Á síðustu árum Karls konúngs níunda og fyrstu árum Gustafs Adolfs stóð hin mesta óöld á Rússlandi. Í þá daga voru Rússar ekkert á veg komnir, kunnu enga manna siði, og voru fyrir þá sök eigi sjálfbjarga. Meðan þessi innanlands ófriður og flokkadrættir lágu þar í landi, leituðu Rússar hjálpar hjá nábúum sínum, Svíum og Pólverjum; en þessir nábúar voru, eins og vant er að vera, sjálfum sèr næstir og hugðu mest á það, að hafa gagn af bágindum og stjórnleysi Rússa. Pólverjar vildu koma einum af sínum mönnnm þar til ríkis; Svíar vildu eigi verða minni. Þess er áður getið, að Svíar höfðu átt vopnaviðskipti við Rússa, og borið af þeim, en þó kvað mest að framgöngu Svía og sigursæld á Rússlandi eptir að Pontus de la Gardie og Karl Horn fengu þar herstjórn. Þegar þeir tveir voru liðnir undir lok gengu synir þeirra *Jakob de la Gardie*[1] og *Evert Horn* í fótspor feðra sinna; voru báðir hinir mestu kappar og unnu mörg hèröð og margar borgir vestan á Rússlandi. Evert Horn fèll þar, en Jakob de la Gardie kom því að síðustu svo fyrir, að Rússar kusu Karl Filippus hertoga, bróður Gustafs Adolfs, til stórfursta (eða Czars) yfir sig (1611). En heima í Svíþjóð vildu menn heldur vinna sem mest af Rússlandi og leggja undir Svíþjóð sem skattland, en senda hertogann þángað og láta hann koma þar fótum undir mikið ríki, er í engu væri Svíum háð. Af þessum rökum drógst það, að hertoginn færi þángað austur, og loksins þegar að því kom, að hann færi (1613), sáu Rússar hvað Svíum bjó í brjósti og tóku þá innlendan mann *Mikael Fedoróviz Romanow* til höfðíngja yfir sig, eins og fyr er ritað. Nú laust ófriðnum upp að nýju milli Rússa og Svía; urðu Svíar drjúgari eins og vant var, og Gustaf Adolf, er þá var orðinn konúngur, fór sjálfur þángað austur og vann þar

1) Jakob de la Gardie lærði hernaðaríþrótt í Niðurlöndum hjá Móriz af Oraníu.

nokkrar borgir. En er honum þótti þar nóg aðgjört, þá samdi hann (1617) frið við Rússa í *Stolbóva,* litlum bæ, skamt í landsuður frá Ladóga-vatni. Eignuðust Svíar þá lönd öll fyrir vestan Ladóga, og að sunnanverðu við Finnlandsflóa; voru það bæði mikil lönd að víðáttu og landkostir hinir beztu. Höfðu Svíar stórum vaxið og auðgazt í þessum viðskiptum þeirra við Rússa, og var nú mikill fögnuður í landi eptir þenna friðarsamníng. Sagði Gustaf Adolf svo, er hann skýrði ríkisdeginum frá friðargjörðinni: «að nú hefðu Svíar eignast margar bygðir og frjóvsamar, fiskríkar stórár og vel lagaðar til flutnínga; nú hefðu Svíar greiðan veg um Neva- og Narvafljót fyrir verzlun sína, sem þeir gætu bannað Rússum hve nær sem vildi; Rússum væri svo algjörlega fyrirmunað Eystrasalt (Austursjórinn), að þeir gætu eigi komið þar einni kænu á flot, þótt þeir vildu. Þar á ofan væru nú landamerkin miklum mun skipulegri og hægri til varnar heldur en áður: Ingermannland væri varið af Peipus-vatni og Narva-fljóti; Finnland, fordyri Svíþjóðar, af Neva-fljóti og hinu breiða Ladóga-vatni[1], og yfir það díki yrði Rússum erfitt að hlaupa». Gustaf Adolf var svo framsýnn, að hann sá hvílíkur háski Svíum var búinn af Rússum, ef þeir næðu föstum fæti við Eystrasalt, enda kom það fram seinna. Öðru sinni sagði konúngur, «fái sá grimdarseggur (Rússinn) að eins stígið fæti sínum inn í fordyrið (Finnland) þá er hann fyr en varir kominn í húsið sjálft».

Þannig var Gustaf Adolf nú laus orðinn við þá tvo óvini, Dani og Rússa, er hann hafði að erfðum tekið eptir föður sinn. Hinn þriðji var eptir, það voru Pólverjar, og víkur nú sögunni þángað.

Sigmundur Pólverja konúngur, sem fyr er nefndur, var ófáanlegur til að sleppa tilkalli til ríkis í Svíþjóð. Hann nefndi sjálfan sig jafnan Svíakonúng, en Gustaf Adolf, frænda sinn, aldrei annað en hertoga af Suðurmannalandi. Þar að auki gjörði hann hvað hann kunni til þess að æsa menn í Svíþjóð til ófriðar móti Gustaf Adolf konúngi þeirra. Svíar höfðu nú átt í ófriði því nær um 60 ár, þegar hèr var komið og óeirðunum

1) *Ladoga-* vatn er allra stöðuvatna mest í Europu, yfir 300 ferh.mílur á stærð, og litlu minna en alt konúngsríkið Würtemberg.

við Rússa var lokið, þóttust því þurfa hvíldar við og næðis, og það vildi konúngur þeirra einnig. Þess vegna bauð hann Sigmundi sættir og fullan frið og gjörði honum góða kosti, en Sigmundur vildi engum sáttum taka nema því að eins, að Gustaf Adolf legði niður konúngstign og fengi sèr hana í hendur, en lèti sèr nægja með hertoga nafnbót, og þau fylki til forráða, er Karl hafði haft faðir hans, áður en hann varð konúngur. Slíka afurkosti þoldu hvorki Svíar nè Gustaf Adolf, og urðu á það sáttir, að láta vopnin skera úr málum. Þannig hófst að nýju ófriður milli Svía og Pólverja (1617), og stóð öðru hverju um 12 ár, framan af einkum á Líflandi en seinni árin barst leikurinn vestur í löndin, um sveitirnar meðfram Weikselfljóti neðanverðu. Þau árin sem þessi pólski ófriður stóð, var Gustaf Adolf vanur að fara á vorin suður á Pólland og berjast þar sumarlángt, en er hausta tók, hèlt hann heim til Svíþjóðar, sat þar á vetrum og gætti ríkis síns; herinn skildi hann eptir á Póllandi og lèt hershöfðíngja sína stýra honum. Skulu hèr nú nefndir nokkrir af þeim.

*Gustaf Horn*, var bróðir Everts Horns, þess sem áður er nefndur. Þeir frændur voru ættaðir af Finnlandi. Gustaf Horn var fæddur 1592, stundaði fyrst bóknám í ýmsum háskólum á Þýzkalandi, síðan gekk hann í herþjónustu hjá Móriz af Oraníu, er þá þótti einna mestur hershöfðíngi, og þegar hann kom heim aptur, gjörðist hann hirðmaður Gustafs Adolfs. Gustaf Horn var vitur maður og vel stiltur, en þó hinn mesti fullhugi. Konúngur setti hann löngum til landstjórnar í ýmsum fylkjum, stundum hafði hanu æðstu herstjórn á hendi, þegar konúngur var eigi við staddur, og einatt var hann sendur til annara þjóðhöfðíngja þegar semja skyldi vopnahlè, eður einhverja þá samnínga gjöra, er vandasamir þóttu. Konúngi þótti svo mikið til Gustafs Horns koma, að hann kallaði hann *sína hægri hönd.* Gustaf Horn átti Kristínu dóttur Axels Oxenstjerna.

*Jóhann Banér*, fæddur 1596, var af góðri og göfugri ætt í Svíþjóð. Faðir hans hèt Gustaf og var einn af ráðherrum þeim, sem Karl 9. lèt höggva í Linköpíng (1600). Jóhann var snemma kvikur, mikill fyrir sèr og einarður. Það er sagt að einhverju sinni kom Karl níundi á bæ þann, er Jóhann var að uppfóstri. Konúngi leizt vel á sveininn, setti hann í knè sèr og mælti:

«Viltu eigi sjá hirðina og fara til mín?» Jóhann lèt sèr eigi bilt við verða og svaraði: «Sá gamli má fara til þín, þú sem lèzt hálshöggva föður minn». Þegar hann var á áttunda ári var hann staddur í höll einni í Svíþjóð, það var suður við sjó; sveinninn sat í glugga einum og horfði á skipin, er þau sigldu frá landi og suður á hafið; glugginn var opinn og þetta var á þriðja lopti; en er minst varði, fèll Jóhann út um gluggann og niður á stræti, en sakaði þó als eigi. «Það er auðsèð að þú ert ætlaður til einhvers mikils», sagði Gustaf Adolf, er hann frètti þetta löngu síðar, þá er Jóhann var genginn í hans þjónustu. Fylgdi Jóhann síðan konúngi trúlega meðan til vanst, og varð stórfrægur maður.

*Lennart Torstensson* fæddist 1603 og ólst upp með ömmu sinni í Svíþjóð, en faðir hans hafði fylgt Sigmundi konúngi og var lengi síðan í útlegð. Lennart kom 15 vetra gamall til Gustafs Adolfs og gjörðist hirðsveinn hans. Konúngur sá skjótt, að þar var mannsefni bæði mikið og gott, og hafði hann með sèr á herferðum sínum. Í einni orustu sendi konúngur Lennart með skilaboð til eins af hershöfðíngjum sínum. Þegar Lennart var kominn á leiðina sá hann, að óvinirnir breyttu fylkíngaskipun sinni, skildist honum þá, að það ráð konúngs mundi eigi að haldi koma, er hann átti að flytja; tekur því ráðið hjá sjálfum sèr og segir hershöfðíngjanum, að svo hafi konúngurinn fyrir mælt, og við það ríður hann aptur til konúngs. En þá hafði konúngur sèð hvað óvinir hans höfðust að, býður því Lennarti að fara um hæl aptur, og segir hvað gjöra skuli; en það var alt hið sama sem Lennart var búinn að segja. Lætur hann nú konúnginn vita, að þetta hafi hann þegar sagt hershöfðíngjanum, og biður konúng fyrirgefa sèr. Gustaf Adolf leit til hans og mælti: «Það á betur við að þú sèrt hershöfðíngi en hirðsveinn». Að átta árum liðnum var Lennart orðinn hershöfðíngi og stýrði öllu fallbyssuliði í hernum, og þótti vel stýrt. Einhverju sinni áttu menn tal við konúng, og barst talið á hershöfðíngja hans; sögðu sem satt var, að þar var saman komið mikið mannval og margir ágætir foríngjar, sitt lagði til hver, og taldi einn öðrum þetta til gyldis, og annar hinum. Þá svaraði Gustaf Adolf: «Hann Lennart minn verður bezta hershöfðíngjaefnið þegar til

als kemur». Það sýndi sig og síðar hvílíkur hershöfðíngi Lennart Torstensson var.

*Niels Brahe*, fæddur 1604; hann var frændi Gustafs Adolfs, því að Margrèt lángamma Niels Brahes, var alsystir Gustafs Vasa. Niels hafði mikið orð á sèr fyrir vit og hreysti og var hinn bezti drengur. Svo sagði Gustaf Adolf, að þegar Lennart Torstensson væri undanskilinn, þá vissi hann eigi annan líklegri til herstjórnar en Niels Brahe. En hann fèll úngur í orustunni við Lüzen.

*Áki Tott*, dóttarson Eiríks fjórtánda, ofstopamaður mikill í skapi, manna vopndjarfastur og hraustastur; hann var foríngi fyrir riddaraliði Gustafs Adolfs, og vann margt frægðarverk; kallaði konúngur hann *snjóplóg* sinn, er hann hefði til að ryðja braut fyrir liði sínu. Áki átti Kristínu systur Niels Brahes.

*Hermann Wrangel* var einn af hinum nafnkendustu foríngjum Gustafs Adolfs í pólska stríðinu; hann var faðir Karls Gustafs Wrangels, þess er seinna varð einn af hinum frægustu hershöfðíngjum Svía í þrjátigi ára stríðinu. Hermann Wrangel var mjög skaplíkur Áka Tott, og áttust þeir einatt ílt við, og var það engum fært nema konúngi einum að sefa slíka ofstopamenn, sem þeir voru. Einu sinni sem optar höfðu þeir Áki og Hermann orðið missáttir og buðu hvor öðrum hólmgöngu. Þetta frèttir Gustaf Adolf, en hann hafði sett þau lög, að sá skyldi lífinu týna, er öðrum byði einvígi. Þegar þeir Áki komu á hólminn, eru þar vopnaðir menn fyrir. Sjá þeir að það eru konúngsmenn og spyrja þá að erindi. Forínginn segir þeim, að þeir viti hvað við liggi, ef þeir ætli sèr að brjóta lögin; konúngur hafi sagt, að þeir mættu berjast ef þá lysti, en samt hafi hann sent híngað böðul, til þess að taka þann þeirra af lífi, er sigur fengi í hólmgöngunni; í því gengur böðullinn fram úr hópnum pruðbúinn, og nemur þar staðar sem þeir Áki standa. En þeir lètu hendur síga, og varð eigi af hólmgöngu í það sinni. Lèt konúngur þá Áka og Hermann sitja nokkrar vikur í fángelsi, þángað til reiðin rann af þeim.

Margir voru fleiri hershöfðíngjar í liði Gustafs Adolfs um þessar mundir, þótt eigi sè þeirra hèr getið.

Það yrði oflángt að telja öll þau hreystiverk og allar þær orustur, sem Svíakonúngur og menn hans unnu á Póllandi öll

þessi ár meðan ófriður stóð milli landanna, en geta skal þess, að þegar Gustaf Adolf vann Ríga-borg (1621) af Pólverjum, sem bæði var mikil borg og auðug og sterklega víggirt, þá fyrst fóru útlendar þjóðir að veita honum eptirtekt; þótti sá sigur hið mesta þrekvirki og vottur þess, að konúngur mundi vera frábær hershöfðíngi, því að það vissu menn, að hann hafði lagt öll ráðin á, hversu borgina skyldi vinna. Pólverjar voru þá, eins og þeir hafa jafnan reynzt, hraustir menn og harðfengir í orustum, þó fengu þeir eigi rönd við reist, og biðu ósigur því nær í hverri orustu. Helzti foríngi þeirra um þær mundir hèt *Koniekpolsky,* hreystimaður mikill og hinn herkænasti.

Gustaf Adolf var allra manna vopndjarfastur og hætti sèr mjög í orustum, var og auðkendur meir en flestir menn aðrir; hann var mikill vexti, frekar þrjár álnir á hæð og þrekinn að því skapi, eins og verið höfðu margir föðurfrændur hans; hann varð einatt sár í orustum, og við bar það, að hann varð handtekinn, en komst þó jafnan úr höndum óvina sinna. Í orustunni við *Dirschau* (1627) var hann skotinn byssuskoti í öxlina hægri, kom kúlan undir viðbeinið lítið eitt fyrir utan hálsinn og nam staðar inn við herðarblað og sat þar föst meðan hann lifði, varð honum höndin jafnan stirðari eptir en áður. Þegar menn hans báðu hann hafa sig eigi svo mjög í hættu, sem hann gjörði, svaraði hann meðal annars þessu: «liðsmenn fylgja dæmi hershöfðíngja síns, sá foríngi, sem hlífir sèr, vinnur hvorki til frægðar eða sigurs; Cæsar var jafnan í broddi fylkíngar, og Alexander kom aldrei á þann vígvöll, að hann vökvaði hann eigi með blóði sínu. Með því nú að guð hefir gjört mig að konúngi, og lagt mèr þessa byrði á herðar, þá má eg hvorki af ótta eða leti láta hræðast eður gugna, eða líta á sjálfs míns hag; en verði það hlutskipti mitt, að deyja í orustu, hvernig getur þá nokkur konúngur fallið við fegri orðstír, en í stríði fyrir guð og sína þjóð»?

Þess var áður getið, að Pólverjum urðu ærið erfið öll viðskipti við Gustaf Adolf, en þó vildi Sigmundur konúngur þeirra eigi sættast, því að bæði var hann manna þrástur, og í annan stað þóttist hann jafnan eiga vísa liðveizlu af Spáni og Austurríki, er honum hafði verið heitið, en sú liðveizla drógst ár frá ári, því að hvorirtveggja, bæði Spánarkonúngur og Austurríkis

keisari, höfðu um þær mundir í mörg horn að líta, og máttu eigi af sínum mönnum sjá. En þegar hèr var komið hafði keisarinn sigrazt á Dönum og kúgað Kristján konúng þeirra (hinn 4). til friðar, en smáríkin á Þýzkalandi voru flest að þrotum komin og þorðu sig hvergi að hreifa fyrir ofurveldi keisarans. Þess vegna gat hann nú efnt loforð sitt við Sigmund konúng og sent honum lið. Sumir menn rèðu keisara, að senda 20000 manna til Póllands, en aðrir kváðu þess enga þörf, því að minna mundi gagn gjöra, og eigi mundi erfitt verða að reka *snækonúnginn*[1] og Svía hans út af Póllandi; voru því sendar að eins 10000 manna til liðs við Sigmund konúng (1629). Forínginn fyrir því liði hèt Arnheim, hraustur maður og slægvitur. En sem Gustaf Adólf frèttir þetta, lætur hann spyrjast fyrir, hverju það sæti að keisarinn sendi herlið móti sèr, þar sem hann hafi honum ekki íllt gjört. Konúngur fær aptur það svar: að keisarinn hafi nú meira herlið en hann þurfi sjálfur á að halda; hann hafi því gefið nokkrum hersveitum sínum heimfararleyfi, en sagt, að þær mættu gánga í þjónustu Pólverjakonúngs vinar síns; sjálfur hafi hann nú als engin yfirráð yfir þeim lengur. Sá Gustaf Adolf nú hvað verða vildi og hafði viðbúníng skjótan og góðan. Þá var það einhverju sinni um sumarið í júnímánuði (1629), að hann hèlt með nokkrar riddarasveitir fram til borgar þeirrar, er Marienverder heitir, og er fyrir austan Weixelfljót neðarlega; konúngur var heldur liðfár, því að meginherinn var annarstaðar. Þetta vissu þeir Koniekpolsky og Arnheim, og gjörðu konúngi fyrirsát. Konúngur fèkk njósnir af fyrirætlan þeirra og sneri aptur; þar var um skóga að fara, og á einum stað var vegurinn bæði þröngur og ógreiður yfirferðar. Þeim stað vildi konúngur ná sem fyrst, og sendir því einn af foríngjum sínum með tveimur herflokkum þángað, og leggur ríkt á við hann, að verða kominn þar á undan fjandmönnum sínum, en ráðast þó eigi á þá, ef þeir verði komnir þar fyrir. Foringinn heldur af stað, og flýtir ferðinni sem hann kann; en er hann kemur að þrengslunum, þá eru þeir Koniekpólsky þar fyrir með ofurefli liðs. Alt um það gleymir forínginn varúðarorðum konúngs og veitir þeim þegar aðgöngu; tekst þar hörð orusta,

1) Ýmsir oflátúngar í hirð keisarans nefndu Gustaf Adolf þessu nafni.

liðsmunur var ærinn og falla Svíar drjúgum; en þá kemur konúngur að með því liði, er honum fylgdi; er nú barizt af miklum ákafa af hvorumtveggja, og gekk svo lengi, að eigi mátti á milli sjá hvorir sigrazt mundu. Koniekpolsky barðist sem hetja og hætti sèr mjög; varð hann eitt sinn höndum tekinn, en menn hans náðu honum aptur, að litilli stundu liðinni. Gustaf Adolf var í þessari orustu sem endrarnær jafnan þar er mest þurfti; varð hann þá einhverju sinni, er bardaginn stóð sem harðast, umkríngdur af *Króötum*[1] og tekinn höndum. Einn af mönnum hans fèkk sèð þetta, rèttir konúngi byssu sína og segir: «taktu við henni kunníngi». Konúngur tók við byssunni, skaut þann, er höndur hafði á honum fest, og sleit sig lausan af hinum með aðstoð fèlaga síns. Litlu síðar náði annar maður höndum í belti konúngs og dróg hann með sèr; konúngur fèkk þó losazt við hann á þann hátt, að hann smeygði beltinu fram yfir höfuð sèr og lèt það laust og misti af sèr hattinn. Hið þriðja sinni varð konúngur handtekinn af óvinum sínum, en höfðíngi einn í liði hans, er hèt Eiríkur Sóp, hinn mesti garpur, kom þá að með sveit manna og varð konúngurinn þá laus. Bardaginn stóð allan dag til kvölds. Þar heitir *Stúm*, er fundurinn varð. Þegar nótt var komin, hèlt Gustaf Adolf til Maríuborgar. Þar hafði hann lið mikið, er Hermann Wrangel stýrði; þóttust menn hafa heimt konúng sinn úr helju. Svo sagði Gustaf Adolf um þenna fund: «aldrei hefi eg áður komið í jafnheitt bað, sem þetta, en það hlægir mig, að nú hefi eg kynzt við keisarans menn».

Eptir þetta hèlt Gustaf Adolf kyrru fyrir um hríð í Maríuborg, og víggirti þann stað sem bezt. Gjörðu þeir Koniekpolský og Arnheim margar árásir á borgina, en fengu eigi aðgjört, og svo fóru leikar, að þeim leiddist þófið, enda höfðu þeir í þeim viðskiptum mist 4000 manna. Arnheim sá, að hann gat engu til leiðar komið, og þar á ofan samdi honum eigi sem bezt við Pólverja, og þar kom að hann lagði niður völdin og gekk í þjónustu kjörfurstans af Saxen. Því næst gjörðist *Júlíus Hinrik*, hertogi af Saxen Lauenborg, foríngi keisarans manna í stað Arn-

1) *Króatar* voru úngverskir riddarar; manna snarastir í orustum og íllvígastir, en lausir voru þeir einatt á velli, ef í fylkíngum skyldi berjast. Þaðan er dregið orðið *Krabat*.

heims, en þá tók eigi betra við. Með Pólverjum og keisarans mönnum varð hin mesta úlfbúð, og þar á ofan bættist vistaskortur, sótt og óstjórn; liðið hèlzt eigi við í herbúðunum og sá varð endir þar á, að alt hið mikla lið tvístraðist, en Svíaher þar sem hann sat, sakaði eigi, því að þar skorti engan hlut, þann er hafa þurfti, og allir voru sem einn maður, eins og að líkindum ræður, er slíkur maður, sem Gustaf Adolf, átti yfir að segja.

Nú þegar hèr var komið og margt þrengdi að Pólverjum, urðu ýmsir til að eggja Sigmund konúng til sátta og friðar við Gustaf Adolf. Sigmundur færðist undan og var lengi tregur, þángað til loksins að einn frakkneskur sendiboði við hirð hans, fèkk svo talið um fyrir honum, að hann lèzt mundi taka sættum. Settu þeir Gustaf Adolf og Sigmundur þá, það hið sama ár (1629), vopnahlè með sèr í bæ þeim, er *Stúmsdorf* heitir, og skyldu þau grið haldast um 6 ára tíma. Sigmundur fèkk að heita erfðakonúngur að Svíþjóð, því að það þótti honum miklu skipta, en Gustaf Adolf hèlt bæði konúngstign og yfirráðum öllum í Svíþjóð eins og verið hafði, þar að auki fèkk hann umráð yfir nokkrum sjávarborgum (Memel, Pillau, Elbingen o. fl.) á Póllandi; var Svíum það hinn mesti hagur, því að þeir áttu þar arðsama verzlun.

Híngað til hefir verið minzt á viðureign Gustafs Adolfs við útlendar þjóðir, og sagt frá herferðum hans og vopnaviðskiptum við þær. Hann hafði, þegar hèr var komið, fengið það orð á sig, að hann væri hinn mesti hershöfðíngi; menn vissu og, að hann hafði í hernaðaríþróttinni eigi látið staðar nema við þá venju, sem fyrir hans daga hafði tíðkazt, heldur breytt í mörgu og miklu út af henni, bæði hvað snerti herstjórn, og vopnabúnað manna, og þótti það alt horfa til mikilla framfara í þeirri grein; en hitt var engu síður merkilegt, að hann hafði með hermannalögum þeim er hann setti, og tilsjón á því að lögunum væri hlýtt, komið því orði á liðsmenn sína, æðri sem lægri, að þeir tæki öllum öðrum hermönnum fram á þeim tímum að mentun, mannúð og hvers konar siðprýði. Og þó átti Gustaf Adolf enn eptir óunnin þau hin miklu afreksverk, er hann síðar vann, og sem halda munu orðstír hans á lopti um ókomnar aldir.

En eins og Gustaf Adolf var mikill hershöfðíngi, eins var hann mikill og merkilegur í öllum friðsamlegum störfum, hvort sem þau lutu að lagasetníngu, landstjórn, eða hverju öðru sem vera skyldi; hann lèt sig um alt varða í ríki sínu, sem orðið gat þegnum hans til þroska og frama í andlegum og líkamlegum efnum, enda var það flest sem á einhvern hátt bar menjar um hans afbragðs vitsmuni og óþreytandi starfsemi. Þegar nú þar á ofan bættist, að hann var bæði rèttlátur og mildur konúngur, þá þarf eigi að undra, þó að til hans veldust margir ágætir menn, og kostuðu kapps um að þjóna honum sem bezt þeir kunnu. Fram að hans dögum hafði lítið verið skeytt um vísindi og mentir í Svíþjóð, en hann bætti úr þeim skorti, með því að setja og endurbæta marga skóla, æðri og lægri, víðsvegar um ríkið; þá fyrst gat alþýða manna fengið þá tilsögn og mentun, sem hún áður hafði farið á mis við, og sem eingöngu hafði átt sèr stað hjá aðlinum; konúngur hafði vakandi auga á prestastèttinni, að hún gætti skyldu sinnar, kendi hreina trú og vandaði líferni sitt; hann efldi stórum háskólann að Uppsölum, með því að leggja til hans 350 jarðir, er hann sjálfur hafði átt og að erfðum tekið eptir forfeður sína, hefir sá háskóli síðan staðið með miklum blóma; konúngur efldi og jók á marga vegu akuryrkju, iðnað og innlenda verzlun, og þá komust ýmsir kaupstaðir á fót, er áður hafði að engu verið getið.

Af þeim mörgu ágætis mönnum Svía, er samtíða voru Gustaf Adolf og ásamt honum unnu að framförum lands og þjóðar, er enginn eins nafnfrægur og *Axel Oxenstjerna.* Hann var af gamalli ætt og göfugri þar í landi, fæddur 1583. Á æsku árum sínum iðkaði hann allskonar vísindi, en þó einkum guðfræði, og þótti hið mesta afbragð sinna jafnaldra. Hann komst snemma í þjónustu Karls níunda, og fanst konúngi svo mikils vert um dugnað hans og vitsmuni, að hann var einn meðal þeirra, er konúngur á deyjanda degi fól á hendur að hafa tilsjón með ríkisstjórn sonar síns. Báðir voru þá úngir: Gustaf Adolf var 17 ára, en Axel Oxenstjerna 28 ára; en vart mun í sögunni finnast konúngur og ráðgjafi, er samvaldari og samhentari hafi verið en þessir tveir menn: báðir voru gæddir frábærum vitsmunum, báðir höfðu hinn bezta og einlægasta vilja til þess að vinna sem mest þjóð sinni til frægðar og frama,

báðir höfðu þeir hyggindi og þrek til að framkvæma það sem þurfti. Og það, sem mest prýddi þá, var hrein og sterk trú og sannur guðsótti; á þeirri undirstöðu voru verk þeirra bygð, og þess vegna urðu þau svo heilladrjúg fyrir margar þjóðir. Gustaf Adolf var að lunderni skapbráðari og ákafa maður meiri en Axel Oxenstjerna, og við bar það, einkum framan af æfinni, að konúngi þótti ráðgjafinn telja helzt of mörg tormerki á sumu því, er hann þá vildi hafa framgengt; sagði konúngur þá einhverju sinni: »ef að hitinn í mèr kveikti eigi líf í yðrum kulda, þá stirðnaði það allt og frysi». Axel Oxenstjerna mælti: «ef að kuldinn í mèr kældi eigi þenna hita, þá væri yðar hátign þegar brunnin». Konúngur brosti, og varð þeim eigi slíkt að ágreiníngi. Því lengur sem þeir kyntust hvor öðrum og unnu saman, því meiri ástvinir urðu þeir, og hèlzt sú vinátta meðan þeir lifðu. Einatt bar það til, að þeir sátu tveir einir saman frá morgni til kvölds og rèðu ráðum sínum, en næðu þeir eigi að talazt við, þá gengu boðin og brèfin á milli þeirra. Meðan konúngur átti ófrið við Pólverja, setti hann jafnan Axel Oxenstjerna á vetrin til yfir stjórnar í þeim fylkjum, er hann hafði unnið þar suður, en var sjálfur í Svíþjóð. Þar sem konúngur var eigi sjálfur, þar varð Axel Oxenstjerna að vera; og þó bar konúngur undir hann öll vandamál sem að var unnið heima í Svíþjóð. Gegnir það allri furðu, hve miklu sá maður fekk afkastað, en það er svo að sjá, sem honum hafi engin störf verið ofvaxin; heilsan var óbilug og hugarrósemin að því skapi. «Þegar eg legg af mèr klæðin», sagði hann, «legg eg einnig af mèr allar áhyggjur». Það var einúngis tvisvar, að honum varð eigi svefnsamt: nóttina næstu eptir að hann frètti lát Gustafs Adolfs, og nóttina eptir að hann frètti ósigur Svía við Nördlingen. Axel Oxenstjerna hafði það sameiginlegt með öðrum stórættuðum mönnum þeirra tíma, að honum þóttu aðalsmenn einir vera sjálfkosnir til hinna æztu embætta og stjórnar starfa, og rèttkjörnir forráðamenn og oddvitar hinnar fáfróðu og fátæku alþýðu. En móti þessum rèttindum höfðíngjanna heimtaði hann af þeim skyldur að því skapi. Fyrst og fremst heimtaði hann af þeim, að þeir tækju hinum óæðri mönnum fram að alskonar mentun, og þar næst, að þeir gengju á undan þeim með góðu eptirdæmi, og væru manna fúsastir til að takast útgjöld á hendur og leggja á sig allar þær

kvaðir, sem fóstorjörðin kallaði til þegar að þrengdi. Þegar Gustaf Adolf átti í höggi við Pólverja og hafði orðið vel framgengt, en skorti fólk og fè til að geta sem þurfti yfirbugað fjandmenn sína og náð fullum friði, þá (1626) ritar Axel Oxenstjerna bróður sínum Gabriel, er var einn í ríkisráðinu, á þessa leið: »guð hefir gefið náð sína og hamíngju til fyrirtækja vorra; vèr höfum krept svo að óvinum vorum, að þeir verða til neyddir að beiðast friðar, ef vèr spillum eigi vorum málum af sjálfskaparvítum. Hèr vantar styrk bæði fjár og manna, en frá Svíþjóð ætti það lið að koma, því að ílla treysti eg útlendum mönnum. En þú veizt sjálfur, að þegar til útboðs skyldunnar kemur, þá eru mörg undanbrögðin. Fyrir því virðist mèr, að aðalsmenn ættu nú að þessu sinni, að láta laus rèttindi sín og undanþágur, og leyfa að bændur á jörðum þeirra væru kvaddir til herþjónustu sem aðrir. Krúnunni væri það ómetanlegt gagn, en aðlinum lítill skaði. Ef að þèr því með góðum vilja og nokkrum dugnaði styðjið konúnginn, í stað þess að vefjast í smámunum, þá hafið þèr fyrst og fremst sýnt mönnum, að almenníngs velferð liggur yður ríkast á hjarta, og þar næst munuð þèr fyrir guðs hjálp koma því til leiðar, að fósturjörð vor nái skjótum og góðum endir á ófriðnum, svo að vèr sjálfir og aðrir landar vorir í Svíþjóð geti setið í friði með konum og börnum undir eikilundum vorum og linditrjám, eins og Ísraels börn forðum undir fíkju-trjánum». Ári síðar (1627) ritar Axel Oxenstjerna frá Póllandi þeim sama bróður sínum og segir svo meðal annars, eptir að hafa minzt á pólska stríðið: «en hèr er því næst á fleira að minnast, sem eykur hug óvinanna en eyðir vorum ef til vill. Það er hið mikla samband, sem keisarinn, konúngarnir á Spáni og Póllandi, og hinir katólsku bandamenn (*katólska Ligaen*) hafa gjört sín í millum, og þar á ofan hinn mikli sigur, er hershöfðíngjar keisarans hafa unnið, og því nær brotið undir sig bæði Danmörku og alt Þýzkaland. Það er enginn efi á því, að eldurinn kviknar hjá oss, þegar hann er útkulnaður í Danmörku. Það kemur hrollur í mig, er eg hugsa til þeirrar hættu, sem þetta voðalega samband hefir í för með sèr. Eg hygg og, að hættan sè nú meiri, en hún nokkru sinni hefir áður verið, bæði í tíð feðra vorra og um vora daga, og gæti vel svo farið, að vèr yrðum hneptir í ánauð andar og lík-

ama, nema guð gjöri þar á meiri miskun. En með því nú hræðsla og harmatölur spilla málum en bæta þau als eigi, og slíkt er eðlilegra konum en karlmönnum, sízt þeim mönnum er landsstjórn hafa á hendi, þá sæmir oss engan veginn að örvænta og leggja árar í bát, eins og Danir hafa gjört, eður ásaka hver annan um orðinn hlut. En hver og einn hlýtur að gjöra það hann megnar, og leggja nokkuð af sínu í sölurnar til þess að geta bjargað hinu. Ef að þèr sýnið hug og dug, þá efast eg als eigi um góðan enda, vona miklu fremur, að guð muni hjálpa ættjörðu vorri, og halda fornu frelsi og fornum orðstír hennar við líði, og gefa það, að vèr getum lækkað drambið í Austurríkis keisara. En dragi hver og einn sig í hlè, og hugsi eigi um annað en sjálfs síns hag, þá er úti um fósturjörð vora, og þá er eigi annað fyrir mig og aðra ættjarðar vini að gjöra, en að berjast og vinna sem mest áður en vèr föllum».

Aðallinn skipaðist við orð Axels Oxenstjerna, og lagði fram bæði menn og fè, svo að konúngur gat haldið áfram herstörfum sínum á Póllandi, þángað til vopnahlè það, sem fyr var nefnt, gjörði enda á viðureign hans og Pólverja.

Áður en sagt er frá hinum síðustu og merkustu afreksverkum Gustafs Adolfs, verður að skýra frá því í stuttu máli, er helzt hafði til tíðinda orðið á Þýzkalandi, frá dögum Karls fimmta til þess er hèr var komið sögunni.

## Þýzkaland frá dögum Karls fimmta fram að þrjátígi ára stríðinu (1556—1618).

Þar var fyr frá horfið, er Karl keisari 5. lagði völdin niður (1556), bjó ferð sína af Þýzkalandi, og settist að suður á Spáni til þess að enda þar æfi sína og deyja (1558). *Ferdínand* bróðir hans fèkk þó eigi keisaratign á Þýzkalandi fyrir fult og fast fyr en 1558, er kjórfurstarnir kusu hann á kjörþíngi í Frakkafurðu. Hann er nefndur Ferdínand *hinn fyrsti*. Hann var að vísu enginn aðkvæðamaður, en hann var vel látinn af þegnum sínum, bæði katólskum og prótestöntum, og þótti allnýtur þjóðhöfðíngi. Þó hann sjálfur fylgdi katólskum sið, lagði hann ekki bann fyrir útbreiðslu siðabótarinnar í ríki sínu; var það nú orðinn fjöldi manna, er tekið hafði hinn nýja sið, bæði á Þýzkalandi og í erfðalöndum keisarans (Böhmen og Austurríki

og jafnvel austur á Úngverjalandi). En þó það hèti svo, að friður væri milli katólskra manna og prótestanta, þá var samlyndið hvergi nærri gott milli þessara tveggja trúarbragða flokka; þeir fyrirlitu hvor annan, engu síður en kristnir menn og Gyðíngar hvorir aðra. Þeir aðgreindu sig jafnvel í klæðaburði hvorir frá öðrum, til þess að vera sem ólíkastir. Trúarbrögðin skiptu landslýðnum þannig í tvo gagnstæða flokka. En svo illt sem þetta var, þá var þó hitt hálfu verra, að prótestantar voru sín í milli mjög sundurlyndir, og deildu með ofsa en engri stillíngu um ýms atriði trúarinnar; landshöfðíngjar á Þýzkalandi tóku flestir þátt í þeim trúardeilum, er fyltu svo hugi manna bæði æðri stèttar og lægri, að önnur þjóðmálefni urðu útundan, landi og lýð til hins mesta skaða. Að þessi mikli ágreiníngur og flokkadrættir milli siðabótarmanna hafi gengið Melankthon mjög til hjarta, má ráða af orðum hans, er hann ritaði á blað fáum dögum áður hann dó (1560), þar sem hann segir um sjálfan sig: «þú kemur til ljóssins og munt fá guð að sjá og son hans; þú færð að skilja þá undarlegu leyndardóma, er þú fèkst eigi skilið hèr í heimi: hví vèr erum þann veg skapaðir sem vèr erum, og eigi á annan hátt; hvernig hið guðdómlega og hið manndómlega eðli Krists er sameinað. Þú losnar við syndina; þú leysist af öllu andstreymi, og frá *æði guðfræðínganna*». Lúther var dáinn fyrir 14 árum þegar hèr var komið.

Ferdínand keisari gaf sig lítið við þessum trúarbragðadeilum, og lèt menn að mestu sjálfráða í þeim efnum. Keisarinn átti jafnan í vök að verjast móti Tyrkjum, og varð því að eiga þegna sína sèr liðsinnandi gegn þeim. Ferdínand keisari var kvæntur Önnu, systur Loðvíks konúngs af Böhmen og Úngarn, og áttu þau margt barna. Maximilian var elztur sona hans; hann varð konúngur á Úngverjalandi og í Böhmen, og litlu síðar kjörinn til keisaratignar, og krýndur áður faðir hans andaðist. Ferdínand keisari dó 1564 og hafði þá tvo um sextugt.

*Maximilian*, hinn *annar* með því nafni, sat að ríkjum frá 1564 til 1576, og þótti bæði vitur og góður í stjórn sinni. Áður hann kom til ríkis, var hann siðabótinni svo meðmæltur, að margir hugðu, að hann mundi taka Lúthers trú, er hann kæmist til keisaradóms, en það varð þó eigi, því að honum mislíkaði stórum ósamlyndi og deilur prótestanta. En þó hann

sjálfur tæki eigi trú þeirra, þá var hann þeim vel í mörgu, og leyfði öllu stórmenni í Austurríki — er alment fylgdu hinum nýja sið — að haga guðsþjónustugjörð og allri trúarbragðafræðslu samkvæmt Augsborgarjátníngunni; hið sama átti sèr stað í Böhmen. Hafði þetta þann árángur, að um þessar mundir var það að eins einn tíundi hluti af öllum Þjóðverjum, er hèlt fast við katólskan sið. Það voru því litlar líkur til, að meiri hluti Þjóðverja mundi hverfa aptur til páfatrúar, og þó kom það síðar fram; áttu kristmúnkar mestan þátt í því, að svo fór. Það var, eins og menn vita, aðal mark þeirra og mið, að sporna í móti siðabótinni og eyða henni með öllu, ef kostur væri á. Meðan Ferdínand fyrsti rèð ríkjum, höfðu múnkar þessir dreifzt víðsvegar út um Þýzkaland, Austurríki, Böhmen og Baiern, stofnað þar skóla og haft úti allar klær til þess að efla páfatrú, en eyða Lúthers; veitti þeim þetta því hægra, sem þeir urðu allir samtaka, en sundurlyndið spilti fyrir hinum.

Maximilian annar átti eigi í ófriði um sína daga svo teljandi sè, nema við Tyrki; hafði hann erft þann ófrið frá föður sínum, en eigi urðu nein stórtíðindi í þeirra viðskiptum, og lyktaði þeim svo, að friður komst á (1567); hèlt keisarinn öllum þeim hèröðum á Úngverjalandi, er hann hafði eignast eptir föður sinn, en hèt að gjalda Tyrkjasoldáni 30 þúsundir úngverskra dúkata á ári hverju.

Þegar Maximilian keisari andaðist 1576, kom elzti sonur hans *Rúdolf*, hinn *annar* þess nafns, til ríkis. Hann hafði alizt upp á Spáni við hirð Filippusar annars, moðurbróður síns, og hafði íllan hug til prótestanta, sem við var að búast eptir þá uppfræðslu, er hann hafði fengið. Eitt hið fyrsta, sem Rúdolf gjörði, var, að hann bannaði lútersk helgihöld í Wínarborg, og öðrum stöðum í Austurríki, og rak lúterska presta þaðan af landi burt. Hann veitti og katólskum mönnum öll hin æðstu embætti, en setti hina hjá, sem voru prótestantar. Vakti þetta, sem við var að búast, megna óánægju í ríkinu. Að öðru leyti var Rúdolf keisari afskiptalaus af allri ríkisstjórn, og einhver hinn ónýtasti landstjóri. Hann lèt Kristmúnka og ýmsa vildarmenn sína ráða öllu, en gaf sig allan við gullgjörð (*Alchymi*) og stjörnufræði, eða þó öllu heldur stjörnuþýðíngum (*Astrologi*),[1] og þess

1) *Alchymi* eða *Alchemi* var upphaflega sömu þýðíngar sem

á milli var hann í hesthúsum sínum, því að hann var hinn hestglöggasti maður í ríkinu. Keisarinn sat í Prag og gaf því lítinn gaum, þó Tyrkir herjuðu á Úngverjalandi, og þó prótestantar kvörtuðu yfir ránglndum katólskra manna. Það lá nærri, að keisarinn misti Úngverjaland, en bróðir hans *Mathias*, er var næstur Rúdolfi að aldri, og sem óttaðist, að ríkið mundi alt fara úr höndum þeirra Habsborgarmanna, skarst þá í leikinn og lèt þá frændur sína kjósa sig til yfirmanns ættarinnar (1606). Mathias lèt Lúthers- og Calvínstrúarmenn á Úngverjalandi fá trúarbragðafrelsi, og samdi frið við Tyrki, er þá afsöluðu sèr öllum kröfum til hins fyrnefnda skattgjalds af keisaranum. Þó vildi Rúdolf eigi samþykkjast þessu eður öðru, sem Mathias hafði gjört; safnaði þá Matthias liði og kúgaði Rúdolf til að gefa upp við sig öll yfirráð yfir Úngverjalandi, Mähren og Austurríki (1608). Þegar Rúdolf hugði, að hitt sem eptir var af ríki hans (Böhmen, Slesía, Lausiz) mundi fara á sömu leið, þá gaf hann prótestöntum í Böhmen þá rèttarbót, að þeir fengu fult trúarbragðafrelsi (1609). En sú rèttarbót kom um seinan, og gagnaði Rúdolf ekki, því að Mathias brautzt litlu síðar til valda í Böhmen og Slesíu, (1611), svo að Rúdolf hafði ekkert eptir nema keisaranafnið eitt. Ári síðar andaðist Rúdolf annar, en Mathiasi var gefið keisaranafn.

Á Þýzkalandi (eður í hinu þýzka ríki), sem Rúdolf keisari hafði látið alveg afskiptalaust, var tvídrægnin engu minni en í erfðalöndum keisarans (Austurríki, Böhmen og Ungarn). Það lutu allar líkur að því, að þar mundi innan skams tíma koma

*Chemi* (þ. e. efnafræði), en er frá leið, varð sú hjátrú almenn meðal efnafræðínga, að menn gætu af rýrum og ódýrum efnum og málmum framleitt, eða myndað aðra kostulegri og dýrari, t. a. m. gull o. s. frv. Slíkar tilraunir, er leiddu á afvegu og í vísindalegar ógöngur, nefndu menn *Alchymi*. Nú er það úrelt orð, síðan efnafræðin komst á rèttari og betri leið. *Astrologia* þýðir reyndar stjörnufræði, en er ætíð viðhaft í þrengri merkíngu um þess konar stjörnufróðleik, er, af ýmislegri afstöðu og sambandi himinhnattanna, þóttist geta sýnt og sagt fyrir óorðna hluti, og einkum forlög manna. Slíkur stjörnufróðleikur eða stjörnuþýðíngar voru mjög almennar, þángað til hinir nafnfrægu spekíngar *Nikulás Kópernikus* (✝ 1543), *Jóhannes Kepler* (1630) og *Ísak Newton* (✝ 1727) komu stjörnufræðinni í annað og rèttara horf.

til vopnaviðskipta með mönnum, til þess að fá fullkominn enda og úrslit á trúarbragða ágreiningi manna. Aðalgallinn við Augsborgarfriðinn var sá, að illa hafði verið sèð fyrir þegnrèttindum alþýðunnar, að eigi hafði verið fastákveðið um kirkna og klerkagózin (klerkaskilyrðið, sjá bls. 44), og, að Calvínstrúarmenn höfðu verið undanskildir friðargjörðinni. Þessir gallar komu æ betur í ljós. Kristmúnkar rèru alstaðar undir og knúðu katólska menn áfram til að heimta alt það jarðagóz aptur undir kirkjurnar, sem prótestantar höfðu dregið undir sig alt í frá þeim tíma, er Passáar-sættin var gjörð (1552).

Nú verður að nefna tvo menn til sögunnar, er mikinn þátt eiga í tíðindum þeim, er gjörðust á Þýzkalandi um þessar mundir. Annar þeirra er *Maximilian* hertogi í Baiern, hinn er *Ferdínand* hertogi í Steyermörk. Ferdínand var sonur Karls hertoga af Steyermörk Ferðínandssonar keisara hins fyrsta. Hertogar þessir voru aldavinir og í mægðum saman; báðir uppaldir í skólum kristsmúnka og hötuðust við alla siðabótarmenn, hverju nafni sem hètu; þeir voru þar að auki vitsmunamenn miklir, ákafir, og kjarkmenn hinir mestu. Þeir settu sèr það mark og mið, að eyða siðabótinni á allar lundir bæði nær og fjær. Í Baiern var búið að útrýma siðabótinni að mestu, þegar Maximilian hertogi settist þar að völdum, en í Steyermörk áttu margir prótestantar heima. Ferdínand hertogi setti þeim tvo kosti, annaðhvort að taka katólska trú eða rýma landið; ef þeir sýndu nokkra tregðu, voru þeir teknir höndum og hengdir á gálga. Að litlum tíma liðnum var siðabótin horfin af Steyermörk. Maximilian, sem við enga siðabótamenn átti að stríða heima hjá sèr, seildist til þeirra í næstu lönd, til þess að ónáða þá og eyða þeim. Þá fóru um síðir að opnazt augun á prótestöntum, þeim kom til hugar, að hætta þarfleysu kriti sín í millum, þoka sèr saman í anda og aðgjörðum, og verjast sameiginlegum óvinum. Þessvegna gengu ýmsir höfðíngjar og ýmsar borgir prótestanta og Calsvínstrúarmanna í fèlag, — og nefndu þeir sig: *evangeliska union*, eða *bandamenn prótestanta* — til þess að vernda trú sína (1608), og var *Friðrik kjörfursti af Falz* formaður þeirra. En sem Maximilian af Baiern varð þess vísari, að siðabótarmenn höfðu gjört þessi samtök, þá kom hann því til leiðar, að ýmsir katólskir biskupar og þjóðhöfðíngjar bundust í fèlag gegn siða-

bótarmönnum (1609). Maximilian var foríngi þessa fèlags, er menn nefndu hina *katólsku bandamenn* (*den katolske Liga*). Nú mátti kalla, að Þýzkaland væri gengið í tvær sveitir, og biði þess, að færi gæfist til vopnaviðskipta. Þá bar svo til, að hertogi sá, er rèð fyrir *Jülich*, *Kleve* og *Berg* (þau hèröð er niður með Rín-fljóti), dó barnlaus. Margir vildu ná í lönd hans, og gáfu sig fram ýmsir þjóðhöfðíngjar, bæði katólskir, og af prótestanta flokki; vildu þar engir fyrir öðrum vægja, og var gripið til vopna. Öðrumegin voru hinir *katólsku bandamenn* og keisarinn, og áttu þeir von liðveizlu af Spáni; hinumegin voru *bandamenn prótestanta* (*hin evangeliska Union*); þeim ætluðu Niðurlendíngar að veita, og, það sem mest var í varið, Hinrik fjórði, Frakkakonúngur. En Hinrik fèll af morðíngja völdum (1610), eins og fyr er ritað, og datt svo ófriðurinn niður að sinni. Menn urðu ásáttir um, að skipta löndum hertogans milli tveggja þeirra, er næstir stóðu til arfs, en það var Falzgreifinn af Neuburg, sem tók katólska trú, til þess að ná í arfinn, og Jóhann Sigmundur kjörfursti af Brandenborg, sem áður var lútherskur, en gjörðist Calvíns trúar maður, til þess að geta náð í arfinn. En þó að þessu erfðamáli lyki betur en á horfðist, og menn væru sáttir að kalla, þá var eldkveykjuefnið alstaðar, og ekki þurfti nema lítið atvik, lítinn neista, til að hleypa öllu Þýzkalandi í bál og brand.

### Þrjátigi ára stríðið (1618—1648).

Mathias keisari var nú setztur að völdum, en hann var kominn hátt á sextugs aldur og farinn að þreytast, og þó hann væri í sumu betur fallinn til ríkisstjórnar en Rúdolf keisari bróðir hans hafði verið, var það samt lángt yfir hans megn, að stýra ríki sínu eins og við þurfti, einkum eins og þá var komið úlfúð og flokkadráttum, bæði í erfðalöndum keisarans og á Þýzkalandi. Mathias var barnlaus eins og Rúdolf bróðir hans. Það varð því að velja einhvern honum til eptirmanns, til þess að konúngdómurinn á Úngverjalandi og í Böhmen færi eigi á ríngulreið, og lenti valið á Ferdínand hertoga af Steyermörk (1617). Var Ferdínand því næst krýndur til konúngs yfir Úngverjalandi og Böhmen, og vann eiða að því, að landsmenn skyldu halda óskertum öllum sínum fornu einkarèttindum, og öllu því trúar-

bragðafrelsi, er rjettarbætur hinna fyrri konúnga höfðu veitt þeim. Það sást bráðum hvernig hann efndi þá eiða. Katólskir menn fögnuðu ríkisstjórn Ferdínands, en siðabótarmönnum sagði þúnglega hugur um. Þó svo væri til skilið, að Mathías keisari skyldi öllu ráða meðan hann lifði, leið eigi á löngu áður Ferdínand gjörðist afskiptasamur um flesta hluti, og fór með engri vægð eða jöfnuði. Þar sem því varð við komið, setti hann katólska menn til valda, en bægði prótestöntum frá, og, fyr en nokkurn varði, voru að hans undirlagi tvær kirkjur prótestanta í Böhmen lagðar í eyði. Mathíasi keisara þótti frændi sinn of mikið að gjöra, og ýmsir málsmetandi menn, sem voru Habsborgarættinni velviljaðir, rèðu Ferdínandi, að fara gætilega. Það kom fyrir ekki, Ferdínand fór sínu fram eptir sem áður. Bæheimsmenn, einkum aðallinn og jafnvel katólskir menn, undu illa slíkum yfirgángi og rángindum, og áttu fund með sèr í Prag (það er höfuðborgin í Böhmen) í maí-mánuði 1618. Gengu þeir síðan fjölmennir í konúngsgarð, og til hallar þeirrar, er ráðgjafarnir sátu í. Mathías og Ferdínand voru þá austur á Úngverjalandi og eigi heima. Greifinn af *Thúrn* var foríngi fundarmanna. Þegar í höllina var komið, báru þeir Thúrn upp erindi sín, og beiddust leiðrjettíngar á málum sínum; ráðherrarnir færðust undan og hètu þeim engri ásjá. «Skiptum eigi orðum við menn þessa», sagði einn af fèlögum Thúrns, «fylgjum fornri venju og vörpum þeim út um gluggana». Óðar en orðið var mælt, lögðu þeir hendur á ráðgjafana, og tveir þeirra, er helzt þóttu hvetja Ferdínand til ójafnaðar, fóru á höfuðið út um hallargluggann. En þó þetta væri á þriðja lopti sem leikurinn gjörðist, og allhátt (um 30 álnir) niður að jörðu, varð þó minna tjón af en til var stofnað, því að sagan segir, að þar hafi mykjuhaugur verið undir, er þeir komu niður. Slík hægindi urðu ráðherrunum til lífs. Eptir þenna viðburð gripu allir Bæheimsmenn til vopna, bæði katólskir menn og prótestantar, og ráku alla Austurríkismenn af höndum sèr. Þannig hófst þrjátigi ára stríðið.

Mathías keisari vildi slaka til við uppreistarmenn, en Ferdínand tók því fjærri, og þótti þetta vel hafa að borið, því að nú gafst honum gott færi á, að svipta prótestanta öllum þeirra rèttindum, og bæla þá algjörlega undir sig, ef svo vildi verkast. Hann tók helzta ráðgjafa Mathíasar, Klesel kardínála, og lèt setja

í varðhald, því hann óttaðist, að hann mundi telja menn til friðar, og fá miklu til vegar komið, því að kardínálinn var mikils metinn af mörgum. Alt þetta gekk Mathíasi keisara svo nærri, að hann andaðist á næsta vori (1619).

Fyrirliði Bæheimsmanna var Thúrn greifi, er fyr var nefndur, hraustur maður og vel að sèr um marga hluti. Til liðs við hann kom *Ernst* greifi af *Mansfeld* með sínar sveitir, hèr um bil 4000 manns. Mansfeld var hin mesta hetja, og lèt aldrei hugfallast, þó hann biði ósigur. Dreif nú til þeirra lið úr ýmsum áttum, svo að þeir höfðu allmikinn her. Ráku þeir því næst alla Austurríkismenn út af Slesíu og Mähren, og nærri lá, að Thúrn hefði með sínum sveitum tekið Wínarborg, þar sem Ferdínand hafði aðsetu, en honum kom hjálp þegar sem harðast stóð, og varð Thúrn þá frá að hverfa. Þessu næst var þíng stefnt í Prag, og var Ferdínandi á því þíngi sögð upp hlýðni og hollusta, en til konúngs tekinn yfir Böhmen og Slesíu, *Friðrik kjörfursti af Falz.* Kjörfurstinn átti Elísabetu, dóttur Jakobs fyrsta á Englandi[1], var í frændsemi og mægðum við Móriz af Oraníu og Kristján 4. Danakonúng, og sjálfur einn af hinum ríkustu höfðíngjum á Þýzkalandi; töldu því Bæheimsmenn sèr vissa von liðveizlu, bæði frá þessum útlendu þjóðhöfðíngjum, og frá öllum prótestöntum á Þýzkalandi. Þar á ofan bættist, að fjöldi manna í Austurríki og á Úngverjalandi fylgdi hinum nýja sið, og bjóst til liðs við Bæheimsmenn, hvenær sem á þyrfti að halda. Alt þetta til samans var ískyggilegt fyrir Ferdínand. En hinsvegar stóð hann eigi einn uppi síns liðs. Hann gat vænt liðveizlu bæði af Spáni, Pólverjalandi, meiri hluta Austurríkis, og einkum frá aldavini sínum Maximilían af Baiern, er var yfirmaður hinna katólsku bandamanna á Þýzkalandi; en bandamenn þessir höfðu mikið lið og harðsnúið. Frakklandi var þau árin illa stjórnað, og þurftu prótestantar þaðan engrar hjálpar að vænta; heldur eigi frá Englandi, því að Jakob fyrsta skorti til þess hug og dug. Prótestantar voru innbyrðis ósamþykkir;

1) Það er mælt, að Friðrik hafi verið í vafa um, hvort hann ætti að þekkjast tilboð Bæheimsmanna, og gjörast konúngur þeirra eða eigi, en þá hafi Elisabet kona hans sagt við hann: «fyrst að þú haldir hug til að biðja konúngsdóttur, þá áttu líka að hafa hug til þess að þyggja konúngs tign». Af Elísabetu fór mikið orð og gott.

lútherskir menn vildu eigi verða til að styrkja Friðrik Bæheims konúng fyrir þá sök, að hann var Calvíns trúar. Jóhann Georg kjörfursti af Saxen brást algjörlega, því að hann sá ofsjónum yfir því, að Friðrík varð konúngur og helzti oddviti allra siðabótamanna á Þýzkalandi. En málefnum prótestanta hafði áður verið stýrt hvað helzt af Saxlands kjörfurstum. Alt þetta færði Ferdínand sèr í nyt með mestu kænsku, og kom því svo fyrir, að hann var kjörinn til keisara eptir Mathías, litlu síðar en Friðrik af Falz mótstöðumaður hans varð konúngur í Böhmen. Ferdínand var hinn *annar* keisari með því nafni á Þýzkalandi. Nú höfðu hvorirtveggja mikinn liðsafnað, og vildu að til skarar skyldi skríða. Keisarinn hafði miklu meira lið, lángt yfir 100 þúsundir manna, og marga og reynda hershöfðíngja, þó þeirra sè eigi allra hèr getið. Nafnkendastur þeirra um þessar mundir var *Tillý*. Hann var borinn og barnfæddur í Niðurlöndum (1560), ólst i æskunni upp hjá Kristmúnkum, og fylgdi síðan alla æfi hinni katólsku trú, en hataði siðabótamenn; því næst varð hann hirðsveinn hertogans af Baiern, en leiddist lángar borðsetur og hóglífi og kom sèr í hernað. Var hann þá fyrst í liði hertogans af Alba á Niðurlöndum, síðan í Úngarn, og þótti alstaðar afbragðsmaður til allrar framgöngu. Loksins gjörðist hann foríngi fyrir liði hertogans af Baiern, og af þeirri forustu varð hann svo frægur, að fáir þóttu hans jafníngjar, og ekkert lið þótti eins vel að vopnum búið, eða eins örugt í orustum, á þeim tímum, eins og það lið, er Tillý stýrði. Maximilían hertogi hafði hann í miklum hávegum, og setti hann yfir herlið hinna katólsku bandamanna; átti hann eptir það miklar orustur og hafði jafnan sigur. Tillý var margt vel gefið; hann var hugprúður maður, og þó forsjáll vel og gætinn, orðheldinn og ósèrplæginn og manna siðprúðastur. Hann sagði um sjálfan sig, að hann hefði aldrei drukkið vín, aldrei þekt kvennaástir, og aldrei beðið ósigur. Hann var hár maður vexti og grannur, ennibreiður og inneygður, kinnbeinaber, nefið bæði lángt og hátt, hrukkur miklar í andliti, hár og skegg stuttvaxið. Hann var vanur að bera spánskan riddarabúníng grænan á lit, með lítinn uppbrettan hatt á höfði, og hèkk úr honum rauð strútsfjöður á herðar niður. Lið keisarans stefndi til Böhmen úr ýmsum áttum, en Friðrik konúngur bjóst til varnar í móti. Hann hafði rúmar 20 þúsundir

vígra manna, og margt af því liði lítt reynt í orustum. Helztu liðsforíngjar hans voru þeir Thúrn og Mansfeld. Í nóvembermánuði 1620, varð fundur þeirra skamt frá Prag, þar sem heitir á *fjallinu hvíta,* og unnu keisarans menn þar algjörðan sigur, eigi sízt fyrir ráð og framgöngu Tillýs. Friðrik flýði undan með drotníngu sína, og nam eigi staðar fyr en vestur á Niðurlöndum og lèt þar fyrir berast; en keisarinn lagði undir sig alla Böhmen og öll þau hèröð, sem uppreisn höfðu gjört í móti honum, og refsaði mönnum þúnglega. Það er mælt, að 30,000 heimili prótestanta hafi þá farið landflótta úr Böhmen, kirkjur þeirra voru rifnar niður til grunna, eignir manna og óðul voru tekin, og fjöldi hinna helztu aðalsmanna af lífi teknir. Siðabótinni var gjöreytt, og landslýðurinn svo sárt leikinn í Böhmen, að landið hefir þess aldrei bætur beðið síðan. Líkar þessu voru aðfarir Ferdínands í Slesíu, Mähren, Austurríki og Úngarn, og þannig bældi hann með grimd og hershöndum undir sig í erfðalöndum sínum alla þá menn, sem risið höfðu í móti honum.

Þegar þessum störfum var lokið, skarst keisarinn í mál manna á Þýzkalandi, og beitti þar hvervetna hinu mesta ráðríki og yfirgángi. Lönd þau, sem kjörfurstinn af Falz hafði átt, voru tekin og skipt milli manna; fengu Spánverjar hinn vestari hlutann við Rín, en Maximilían af Baiern hinn eystri hluta, og kjörfurstatignina í þokkabót. Slíkar aðfarir þóttu ólög á Þýzkalandi, því að keisarinn hafði enga heimild til eptir sjálfs síns þótta, að setja þjóðhöfðíngja þannig frá völdum, og fá lönd þeirra öðrum í hendur; til þess urðu hinir aðrir «ríkisfurstar» eða þjóðhöfðíngjar landsins að gefa sitt samþykki. Óánægjan varð megn um alt land, bæði meðal prótestanta og páfatrúarmanna. Ýmsir hershöfðíngjar, sem unnu þjóðfrelsi, söfnuðu liði og bjuggust til varna. Einna helztir á meðal þeirra, voru þeir Ernst Mansfeld og Kristján hertogi af Brúnsvík[1] — Thúrn var farinn af landi burt og genginn í lið Svíakonúngs. — Bandamannaherinn (katólska sambandið) sem Tillý stýrði, kom skjótt og átti við þá ýmsar orustur; fóru þeir Mansfeld einatt halloka fyrir ofurefli hinna, en bæði af því, að landslýðurinn var þeim víða vel, og af því, að þeir Mansfeld og Kristján voru óþreytandi, þá gekk

1) Það var orðtak Kristjáns: «Vinur guðs, en óvinur allra klerka».

lengi í þessu þófi; herinn rakst fram og aptur um Þýzkaland, ruplaði víða og rændi, og var að öllu þessu hinn mesti ófögnuður. Þar kom þó um síðir, að Tillý varð alstaðar yfirsterkari, og þeir Mansfeld urðu að flýja landið. Mátti nú svo kalla, að Þýzkaland lægi alt varnarlaust fyrir fótum keisarans.

Nú hugðu menn, að Ferdínand keisari mundi veita landinu frið og næði; allir æsktu þess, og allir þurftu þess við. En keisarinn fækkaði ekki liði sínu; hann hafði enn mikinn her og vígbúinn, þó að óvinir hans væru niðurbældir og horfnir. Mönnum leizt eigi á blikuna. Bæði katólskir menn og prótestantar þóttust sjá fyrir, að keisarinn mundi ætla sèr, að brjóta undir sig Þýzkaland og gjörast þar einvaldur yfir. Danir og Svíar urðu eigi ugglausir um sig og sín lönd. Jakob fyrsti Englands konúngur hafði alt af búizt við, að keisarinn mundi taka aptur Friðrik af Falz í sátt við sig, en er sú von brást, lèzt hann loksins mundi hjálpa Friðriki tengdasyni sínum. Þannig fjölguðu mótstöðumenn keisarans, en — það vantaði fyrirliða.

Frakkland hafði lengi haft illt auga á Austurríki. Franz fyrsti, Hinrik annar og Hinrik fjórði höfðu fyrir þá sök styrkt prótestanta á Þýzkalandi, þó að þeir tveir fyrstnefndu væru alt annað en prótestanta vinir heima fyrir. Eptir lát Hinriks fjórða var aðgjörðalítil stjórn á Frakklandi, þángað til að Richelieu kardináli fekk þar taumhaldið, þá skipti skjótt um. Hann sá þegar hver háski Frakklandi og jafnvel allri Norðurálfunni var búinn, ef Austurríkis keisari magnaðist svo, að hann næði að bola undir sig alt Þýzkaland. Niðurlöndunum var þá hættan vís, og þau brotin aptur fyr en síðar undir Spánverja. Var þá Spánar konúngur að sunnan, Austurríkis keisari að norðan, en Frakkland komið í úlfakreppu á milli þeirra. Slíkt mátti eigi svo til gánga. En hvernig varð því afstýrt? Richelieu fann ráðið, og það var, að hjálpa prótestöntum á Þýzkalandi. En þetta sýndist eigi svo auðgjört. Hann var kardináli, ráðgjafi hjá katólskum konúngi, og fann sjer skylt að kúga prótestanta á Frakklandi, en vildi hjálpa prótestöntum á Þýzkalandi. Richelieu setti það eigi fyrir sig, og hafði allar klær úti, til þess að koma fram áformi sínu: hann veitti Niðurlendíngum talsverðan fjárstyrk (1624), til þess að þeir gætu varizt Spánverjum; hann sendi Mansfeld fè, til þess hann gæti af nýju safnað liði móti keisara; hann fekk því til

leiðar komið, að Henrietta, systir Loðvíks þrettánda, giptist Karli (prinzinum af Wales) konúngsefni Englendínga o. s. frv. Richelieu sagði, að Ferdinand keisari lèti það í veðri vaka, að hann berðist til þess að bjarga páfatrúnni, en það væri ekki annað en yfirvarp, því að undir niðri væri allur hans hugur sá, að kúga alt Þýzkaland, og verða þar einvaldur yfir, en þeirri hættu yrðu menn að afstýra í tíma. Nú var einúngis spurn, hvern kjósa skyldi til herstjórnar móti keisaranum. Hèr var um tvo að velja, Gustaf Adolf og Kristján fjórða; báðir fylgdu Lúthers trú, voru konúngar, afreksmenn hinir mestu, og báðir óttuðust aðfarir keisarans. Frakkar vildu kjósa Gustaf Adolf; Englendíngar Kristján fjórða, enda voru þar mægðir í millum. Gustaf Adolf átti þá í stríði við Pólverja, um þær mundir, og varð miklu til að kosta; hann gjörði kost á sèr, en fyrir dýra dóma, eins og vonlegt var. Kristján fjórði hafði setið í friði um 12 ár, og safnað talsverðu fè allan þann tíma. Honum lèk hugur á að reyna mátt sinn og megin, og vinna nokkuð til frægðar sèr sem Svíakonungur; það var þarft verk og fagurt til frásagnar, að hjálpa prótestöntum, og mesta nauðsyn að stöðva yfirgáng og aðfarir keisarans; hann var kominn í nágrenni við Danmörku, og slíkt nágrenni var geigvænlegt. Kristján konúngur var því allfús til að takast á hendur yfirstjórn hersins og berjast í móti keisara. Skilmálar þeir, sem hann setti, urðu fyrir þessar sakir allir vægari en af Svíakonúngs hálfu. Kristján varð því fyrri til að semja við Englendínga, en Gustaf Adolf við Frakka, með því líka, að ýmsar borgir og þjóðhöfðíngjar á Neðra-Saxlandi kusu Kristján til foríngja síns (*Kredsoberst*)[1]. Gustaf Adolf lèt sèr það vel líka, kvað þá, er Kristján höfðu kosið, hafa fengið öruggan fyrirliða, og spáði vel fyrir þeim.

Sumarið 1625 hófst ófriðurinn. Hertogarnir af Meklenborg og höfuðsmaðurinn í Magdeborg gengu í lið með Kristjáni konúngi. Mansfeld og Kristján af Brúnsvík höfðu liðsafnað af nýju og lögðu á stað. Kristján fjórði hèlt liði sínu suður á Saxland og Vestfalen, vann á leiðinni nokkra kastala og stefndi suður á Hessen. Þar kom Tillý í móti honum með allan *bandamannaherinn;* sá Kristján konúngur sèr eigi fært að svo stöddu með lítt vönu liði, að leggja til orustu við slíkan garp sem Tillý, og

1) Sjá Miðaldasögu, bls. 187.

með lángæfðum hersveitum, fór því kænlega undan, og kom sèr hjá bardögum. Það var konúngi hið mesta mein, að margir þjóðhöfðíngjar og helztu menn meðal prótestanta á Þýzkalandi, voru dáðlausir og jafnvel ótryggir; fekk hann því einar 7000 manna hjá þeim til liðs við sig, og fjárstyrkur sá, sem koma átti af Englandi og Frakklandi, brást að mestu leyti. Kristján af Brúnsvík færði honum að vísu nokkuð lið, en það var bæði fátt talsins, eigi vel búið, og þar að auki laust við konúngsherinn. Mansfeld hafði farið með sínar sveitir austur í Brandenborg til móts við keisarans lið, er þángað var von. Her prótestanta var þannig hvergi nærri svo sterkur, sem vera þurfti, og dreifði sèr meira en ráðlegt var. Loksins bar fundum þeirra Tillýs og Kristjáns konúngs saman (27. ágúst 1626) hjá Lutter am Barensberg — það er í Brúnsvík —; barðist konúngur af mikilli hreysti, en beið þar þó ósigur, og varð að hörfa undan og heim aptur í ríki sitt.

Alt til þessa hafði *bandamanna herinn* mest megnis átt í höggi við prótestanta; en sá her var miklu fremur háður Maximilian af Baiern — sem var formaður hinna katólsku bandamanna, eins og áður er sagt — heldur en keisaranum. Ferdinandi keisara var eigi geðfelt, að Maximilian rèði svo miklu á Þýzkalandi, þess vegna var honum mjög ant um, að koma fótum undir herlið, er engum væri háð nema honum sjálfum. En hann skorti bæði efni til þess, og líka þann hershöfðíngja, er yfirstjórn gæti tekizt á hendur yfir miklu liði[1]. En keisarinn þurfti eigi lengi að vera í þeim vandræðum; honum bauðst sá hershöfðíngi, er eigi voru þá á öðrum betri völ í Austurríki. Sá maður var *Albrekt Wallenstein*.

Hann var fæddur í Prag í Böhmen 1583 — og þannig jafngamall Axel Oxenstjerna — af göfugu foreldri. Þótti mjög ódæll í uppvexti, var í ýmsum stöðum til fósturs og fræðslu, en enginn gat stýrt honum; var hann þvínæst sendur til háskólans í Nurnberg, en það fór á sömu leið; hann var þar öllum stund-

---

1) Af hinum nafnkendustu hershöfðíngjum keisarans, voru báðir hinir eldri menn, *Dampierre* og *Boucquoi*, fallnir í ófriðnum á Úngverjalandi móti *Bethlem Gabor*, Siebenborgar höfðíngja, en hinir ýngri: *Pappenheim*, *Piccolomini*, *Gallas* og *Montecuculi* og fl. voru þá lítt komnir til sögunnar.

um í drabbi og áflogum, og var vísað burt úr borginni. Þar á eptir gekk hann í þjónustu hjá markgreifa einum, og er hann hafði verið þar um hríð, bar svo til einhverju sinni, að hann sat í opnum glugga og sofnaði þar, en vaknaði við það, að hann hraut út um gluggann, og niður á stræti; var það geysihátt fall, en hann var jafnheill eptir sem áður. Þessi viðburður breytti honum með öllu; hann varð alvörugefinn, þögull og þúngbúinn; hann taldi það víst, að einhver æðri hönd leiddi sig, og að sèr væri fyrir sett eitthvert mikið og merkilegt ætlunarverk; tók katólska trú, og hóf því næst ferð sína til útlanda og fór víða um lönd, nam þá margt og þar á meðal stjörnuspáfræði (Astrologi), og stundaði þá list alla æfi síðan af miklum áhuga. Þegar Wallenstein kom aptur af ferðum sínum, gekk hann í herþjónustu á Úngverjalandi gegn Tyrkjum, og þótti hinn mesti fullhugi. Eptir að friður komst þar á, hèlt hann heim á Böhmen; þar vildu menn hvorki heyra hann nè sjá, af því að hann hafði kastað feðra trú sinni og var orðinn katólskur. Þó kvongaðist hann þar í landi, og átti ekkju eina, gamla og flugríka; en hún lifði skamma stund, og lèt honum eptir ógrynni fjár. Engan þátt tók hann í óeirðunum milli þeirra bræðra Rúdolfs og Mathiasar, og þegar ófriður kviknaði í Böhmen 1618, vildu landar hans þar gjöra hann að æzta fyrirliða, en hann var meiri vinur Ferdínands en þeirra, og gekk í lið með honum, og vann honum mikið gagn bæði þar og á Úngverjalandi. Hafði Ferdínand hann í miklum hávegum, og gaf honum hèrað eitt í Böhmen til forráða, er kent er við Friedland, og hertoga nafnbót. Wallenstein vildi eigi heima sitja, er hann vissi af ófriðnum annarstaðar; bauð því Maximilian kjörfursta af Baiern þjónustu sína, en Tilly, sem var æzti hershöfðíngi Maximilians, rèð kjörfurstanum að hafna því tilboði, og það ráð hafði Maximilian. Þaðan var sprottin óvildin öll milli Wallensteins og Maximilians. Nú var svo komið, að Ferdínand keisara vantaði bæði lið og hershöfðíngja. Þá bauðst Wallenstein að safna liði og gjöra út á sjálfs síns kostnað — eða rèttara sagt þeirra þjóða, sem hann herjaði á meðal — 40000 manna, og berjast með þeim fyrir keisarann. Keisara þótti það vel boðið, en kvað 20 þúsundir nægja. »Tuttugu þúsundir manna deyja úr húngri», mælti Wallenstein, »en fimmtígi þúsundir geta sjálfar aflað sèr

matar»; og þar við sat. En sem það frèttist, að Wallenstein safnaði liði, streymdi múgur og margmenni til hans úr öllum áttum, og fèkk hann á lítilli stundu 60 þúsundir manna. Með þessu liði hèlt hann norður í land (1625), og settist á fastar stöðvar upp og niður með Elfunni. Vorið eptir elti hann Mansfeld sveit úr sveit og alt suður á Úngverjaland. Var Mansfeld þá þrotinn að mönnum og fè, sýktist sjálfur og dó. Það er sagt, að þá er Mansfeld fann að dauðinn nálgaðist, herklæddist hann, lèt tvo menn styðja sig fram á gólfið og mælti: »hershöfðíngi á að deyja standandi«; og það varð.

Nú var Mansfeld dáinn; Kristján Brúnsvíkur hertogi dó á því sama ári, og Kristján Danakonúngur var flúinn heim í ríki sitt. Tillý veitti honum eptirför norður á Holsetaland. Þángað kom og Wallenstein með liði sínu sunnan af Úngverjalandi, eptir viðureign þeirra Mansfelds. En þeir Tilly og Wallenstein gátu aldrei til lengdar saman verið. Hèlt Tillý þá vestur á Niðurlönd, en Wallenstein lagði undir sig Norður-Þýzkaland, Holsetaland og Jótland alt á Skaga norður; en yfir á eyjar komst hann ekki, því að Kristján konúngur varði honum öll sund.

Höfðíngjar prótestanta á Þýzkalandi höfðu lítið samheldi og litla ráðdeild sýnt í þessum viðskiptum þeirra við keisarann; þeir höfðu varið andlegt og líkamlegt frelsi sitt með hálfvelgju, og sumir jafnvel brugðizt sínum trúarbræðrum og fylt keisarans flokk; hjálp sú, er þeir höfðu fengið frá útlendum höfðíngjum, verið ónóg, og gjört reyndar eigi annað, en að flýta fyrir niðurlægíngu þeirra og yfirgángi keisarans. Eptir hinar mörgu og miklu sigurvinníngar, var Ferdínand annar miklu voðalegri Þjóðverjum nú, en Karl fimmti afabróðir hans í Smalkaldar-stríðinu forðum, eptir sigurinn við Mühlberg (bls. 40). Þegar hèr var komið, má svo að orði kveða, að veldissól keisarans væri gengin í hádegisstað, en Þýzkaland varnarlaust fyrir fótum hans. En hefndargirni Ferdínands og trúarofsi kunni sèr ekki hóf, þess vegna fór veldi hans hnignandi úr þessu. Hann hafði rekið hertogana í Meklenborg frá ríkjum, af því þeir höfðu liðsint Dana konúngi, en gefið Wallenstein lönd þeirra, hvað sem aðrir þjóðhöfðíngjar sögðu; hann hafði gjört Wallenstein að yfirforíngja (*Storadmiral*) yfir Eystrasalti, og falið honum á hendur að

taka þar allar borgir með sjó fram, og efna þar til skipaflota. Norðurlöndum var háski búinn.

Ein af borgunum nirðst á Þýzkalandi, en að sunnanverðu við Eystrasalt, heitir Stralsund (Stræla). Sú borg var ein af Hansastöðum, og í þá daga bæði fjölmenn og auðug. þar var höfn ágæt, og vildi því keisarinn og Wallenstein fyrir hvern mun ná borginni, og hafa þar herskipastöðvar; en borgarmenn vildu eigi gefast upp. Settist Wallenstein þá um hana með ógrynni liðs og gjörði harða skothríð. Bæarmenn vörðust af mestu prýði, enda voru þar allir sem einn maður, og það, sem mestu skipti, var, að bæði Danir og Svíar sendu þeim lið til styrktar, og ágæta fyrirliða. Einn þeirra var Níls Brahe. Lauk svo þeirra viðskiptum, að Wallenstein fèkk eigi tekið borgina, misti þar 12000 manns, og varð frá að hverfa eptir 10 vikna umsátur. En skipum þeim, sem hann setti á flot, eyddi Danakonúngur öllum, svo að Wallenstein hafði «admirals»-nafnið eptir, en ekki eitt einasta skip.

Keisarinn sá, að hann gat engu áorkað við Dani og Svía í sameiníngu, vildi því sundra þeim, og bauð Kristjáni Danakonúngi sættir. Neyðin þrengdi að Kristjáni, og fyrir því gekk hann að þeim kostum, er keisarinn bauð. Komst þannig friður á milli þeirra í Lybek (1629) með því skilyrði: að Kristján konúngur fèkk öll lönd sín aptur, en varð að heita því, að slíta allan fèlagsskap við bandamenn sína, Svíakonúng og hertogana af Meklenborg, og berjast aldrei í móti keisaranum.

Nú var svo komið, að Ferdínand keisari gat aðhafzt hvað hann vildi um endilángt Þýzkaland. Honum var og án als efa hugfast, að verða þar einráður, og hefja þar keisaratignina til fornrar vegsemdar, enda sagði Wallenstein, að á Þýzkalandi ætti að vera einn einvaldur, eins og á Frakklandi og Spáni. Um þær mundir, sem friðurinn í Lybek var saminn, kvað keisarinn svo á, í boðorði því, er menn hafa nefnt *Restitutions-edikt*, að alt kirknagóz, sem gengið var undan katólskum síðan *Passár*-sættin var gjörð 1552, og komið í hendur prótestöntum, skyldi nú tekið af þeim, og hverfa aptur til katólsku kirkjunnar. Með þessu móti komust mörg hèröð og margar þúsundir prótestanta í hendur katólskra klerka; en þar var ekki undanfæri, hersveitir keisarans voru alstaðar; prótestantar áttu að eins um þrent að

velja: dauðann, páfatrúna, landflóttann. Allur sá mikli sægur hermanna, sem keisarinn hèlt á Þýzkalandi, fèfletti landslýðinn vægðarlaust, og enginn þorði í móti að mæla. Þó var þar ein borg, sem ekki vildi láta kúgazt, og hvorki taka við katólskum erkibiskupi, nè gjalda Wallenstein þann þúnga skatt, sem hann lagði á. Það var Magdeborg á Saxlandi við Elfuna, stór borg og auðug. Þegar borgin vildi eigi undan láta, settist Pappenheim um hana með miklu liði; setti hann þá hergirðíngar stórar um borgina, og hafði til þeirra starfa bændur úr næstu sveitum, þó nauðugir væru; því að um rètt og sanngirni var þá eigi spurt.

En það voru eigi prótestantar einir, sem ójafnaður keisarans, og yfirgángur Wallensteins og manna hans kom niður á; katólskir menn á Þýzkalandi voru litlu betur staddir. Margir auðugir menn og stórhöfðíngjar mistu eigur sínar og komust á vonarvöl, en því fátækari sem þeir urðu, því meir auðgaðist Wallenstein og margir af hans mönnum. Þetta keyrði svo úr hófi, að menn foru að taka ráð sín saman þó í hægðum færi. Maximilian af Baiern, sem löngum var fremstur í flokki sinna samtíðarmanna, fèkk því komið til leiðar, að »*bandamenn*« skoruðust undan að fækka liði sínu, þá er keisarinn hafði svo boðið, fyr en þeir fengju kostnað þann endurgoldinn, er þeir höfðu lagt til stríðsins. Enn fremur krafðist Maximilian, og þeir fleiri með honum þjóðhöfðíngjarnir, á ríkisdeginum í Regensborg (1630), að keisarinn setti Wallenstein frá völdum, því að ofsi hans og yfirgángur væri meiri en svo, að nokkur gæti undir risið. Á þeim ríkisdegi vildi keisarinn láta velja son sinn til síns eptirmanns; en kjörfurstarnir gjörðu það að skilyrði, að Wallenstein væri sviptur völdum, og þó að keisarinn færðist undan því, þá lèt hann um síðir að orðum þeirra. Wallenstein hlýðnaðist boði keisarans, settist að á búgarði sínum í Böhmen, og hafði þar hirð um sig og rausn svo mikla, að fáir konúngar komust til jafns við hann.

### Svíar taka þátt í þrjátigi ára stríðinu (1630—1648).

Nú er að segja frá Svíum og Gustaf Adolf konúngi þeirra. Sætt sú, sem þeir gjörðu (1629) milli sín Gustaf Adolf og Sigmundur Pólverja konúngur frændi hans, og sem getið er hèr að

framan (bls. 173), var að miklu leyti orðin af ráðum og framgöngu Richelieu kardínála. Honum var mest um að gjöra, að vaka yfir keisaranum á Þýzkalandi, og takmarka sigursæld hans og yfirgáng, til þess hann yrði eigi ofurefli Frakklands. Þess vegna vildi Richelieu sætta Gustaf Adolf og Pólverja, svo að Svíakonúngur hefði lausar hendur, og gæti snúizt að keisaranum, hvenær sem á þyrfti að halda. Og nú þurfti þess sannlega við. Prótestantar á Þýzkalandi voru uppgefnir og að þrotum komnir; það var eigi annað sýnna, en að siðabótin og ávextir hennar mundu algjörlega undir lok líða, að alt andlegt frelsi og andlegar framfarir yrðu hnept aptur í fjötra páfavillunnar. Prótestantar á Norður-Þýzkalandi höfðu lengi haft augastað á Gustaf Adolf og leitað hans hjálpar. Hann hafði eigi getað við snúizt fyr en nú að hèr var komið. Þó hugsaði hann sig vel um, áður hann hèt þeim sinni liðveizlu, því að hann var ofvitur til þess, að rasa í nokkru fyrir ráð fram; en hann hafði margar ástæður til ófriðar gegn keisaranum. Keisarinn hafði kúgað Danmörku og mikið kapp á lagt, að ná yfirráðum yfir Eystrasalti, og þá var Svíaríki hættan vís fyr eður síðar; keisarinn hafði án allra saka sent Pólverja konúngi lið móti Gustaf Adolf, eins og fyr er sagt, og sýnt honum þá óvirðíng, að leyfa eigi sendiboða hans að koma á sáttafundinn í Lybek, heldur vísað honum með fyrirlitníngu á burt þaðan. En þar að auki knúði æðri köllun Gustaf Adolf til að gánga í þenna ófrið. Siðabótinni var við falli búið, og öllu andlegu frelsi lokið um stundarsakir, ekki einúngis á Þýzkalandi heldur um mestan hluta Norðurálfu, nema því að eins, að keisarans veldi yrði takmarkað. Það var Gustafs Adolfs fagra köllun að ráða bót á slíkum vandræðum; þeirri köllun varð hann að fylgja. Því sagði Axel Oxenstjerna: «konúngurinn er knúinn til þessa af voldugum anda, sem enginn fær í móti staðið».

Hèr var um það vandamál að ræða, að Gustaf Adolf vildi bera það undir beztu menn þjóðarinnar, áður hann afrèði að fullu og öllu, að hefja ófrið móti keisaranum. Hann stefndi því fjölmennan fund í Stokkhólmi (í maímán. 1630), og bar þar upp þetta mál, og mælti engi maður í móti; hin sænska þjóð var svo veglynd og svo framgjörn, að hún vildi eigi teljast undan að fylgja konúngi sínum, þó að í mikið væri ráðizt. Herförin

móti keisara var þannig ráðin. Gustaf Adolf talaði lángt erindi og snjalt að skilnaði, og sagði meðal annars: «Nú legg eg út í miklu erfiðara og merkilegra stríð en áður. Eg gjöri það ekki af lèttúð, þar um er guð til vitnis, eigi heldur fyrir sjálfs míns hagnað eða af löngun til hernaðar. Keisarinn hefir á marga vegu neytt mig til þess. Hann hefir gjört mèr ýmislegt til vanvirðu, veitt óvinum vorum, ofsótt bandamenn vora og trúarbræður, er nú þjást undir andlegu og líkamlegu þrældómsoki og þreyja frelsið, en þeir skulu með guðs hjálp ekki þreyja til einskis. Hvað sjálfan mig snertir, veit eg vel hvað að höndum getur borið. Eg hefi margan blóðdropa mist fyrir Svíþjóð, er og undir það búinn, að missa lífið sjálft í hennar þarfir; þángað til fer skjólan til vatns, að hún brotnar. Þess vegna vil eg nú, áður en eg skil við fósturjörð vora, fela yður alla, sænskir menn, sem hèr eruð eða annarstaðar, guði hinum allrahæzta á vald, bæði til lífs og sálar, og æski þess, að vèr megum allir hittast á síðan til æfinlegs friðar og fagnaðar. Eg kveð yður alla af hjarta, og vera má í síðasta sinn».

Áður en Gustaf Adolf fór úr landi, var *Kristínu* dóttur hans heitið ríkiserfðum eptir föður sinn, og sóru menn henni hollustu eiða. Hún var þá fjögra vetra. Drotníngin, móðir hennar, hèt *María Eleonóra,* systir Georgs Vilhjálms kjörfursta af Brandenborg. Nokkrir ráðherrar voru settir til landgæzlu í fjærvist konúngs, og skyldi Axel Oxenstjerna vera forseti þeirra. En er konúngur var búinn og byr gaf sigldi hann út á haf öllum flotanum, og stefndi til Vindlands (Pommern). Liðsmenn hans voru 15000 manna. Konúngur tók land skamt frá Stralsund á jónsmessudegi (24. jún. 1630). Og jafnskjótt sem hann steig fæti á land, fèll hann á knè og baðst fyrir með þessum orðum, svo hátt að menn hans heyrðu: »Þú drottinn guð, sem ræður yfir vindum og hafi, eins og yfir jörð og himni! Hvernig get eg vegsamað þig og þína gæzkuríku vernd á þeirri háska leið, sem nú er farsællega á enda farin? Eg þakka þèr! Af instu hjartans rótum þakka eg þèr! Þú veizt, að eg hefi tekizt þessa ferð á hendur, ekki mèr heldur þèr til vegsemdar og þinni aðþrengdu kirkju til hjálpar! Veittu oss hamíngju til að vinna þetta þitt heilaga verk, á þeim tíma, og að því takmarki, sem þú hefir sett». Þegar konúngur stóð upp aptur og sá, að menn

13*

hans tárfeldu, mælti hann: «Grátið eigi vinir mínir, en biðjið guð af hjarta! Vel beðið er hálfur sigur». Með slíku hugarfari tók Gustaf Adolf til starfa á Þýzkalandi. Þá rèð fyrir Pommern Búgislás hertogi, gamall og barnlaus og enginn styrjaldarmaður. Kjörfurstinn af Brandenborg stóð þar næstur til ríkiserfða, en fleiri höfðu þó augastað á landinu. Keisarinn hafði að nokkru leyti kastað eign sinni á það, og hafði þar liðsafla mikinn í flestum borgum, þegar hèr var komið. Hertoginn þorði sig hvergi að hræra móti slíku ofurefli, en þá batnaði eigi saggan, þegar Gustaf Adolf bættist þar ofan á, og skoraði á hertogann, að leyfa liði sínu inngöngu í Stettín, aðalborg landsins og aðsetursstað hertogans; kvaðst Svíakonúngur kominn í ríki hans, eigi sem óvinur heldur sem vinur, er hefði þessa för farið til liðs við hann og aðra trúarbræður sína á Þýzkalandi gegn ofríki keisarans. Hertoginn þorði eigi þegar í stað að verða við beiðni konúngs, þó að hann feginn vildi, en Gustaf Adolf bað hann skjótt segja, hvað honum byggi í skapi, því að erindi sitt þildi enga bið. Hertoginn sá sèr ekki undanfæri; konúngur settist að í borginni með nokkru af liðinu og víggirti hana á stuttum tíma, svo ramlega, að hertoginn og hans menn undruðust. Litlu síðar gjörði hertoginn samband við konúng, og að nokkrum vikum liðnum hafði Gustaf Adolf unnið Pommern alla af keisarans mönnum, þó að þeir væru liðfleiri en Svíar. Þótti landsmönnum mikil umskipti orðin þar, síðan Svíar settust í landið, því að keisarans menn höfðu farið þar með ránum og manndrápum og öllu illu athæfi, en Svíar voru siðprúðir og lètu hvern mann í friði, sem eigi gjörði á hluta þeirra, en bæri svo við að út af brigði, þá refsaði konúngur sínum mönnum þúnglega. En þó að höfðíngjar prótestanta á Þýzkalandi mættu sjá, að Gustaf Adolf var þángað kominn þeim til hjálpar, og þó þeir yrðu að játa, að hann einn var þeim störfum vaxinn, þá þorðu þeir eigi þá hjálp að þyggja, og færðust undan öllu sambandi og allri liðveizlu við hann; þeir óttuðust reiði keisarans, og vantreystu því, að nokkurt það afl væri til, er sigrað gæti veldi hans og hamíngju. Þessi tregða þeirra, einkum kjörfurstanna af Brandenborg og Saxen, gjörði Gustaf Adolf miklar tafir, og seinkaði svo ferðum hans, að hann gat eigi bjargað Magdeborg meðan tími var til.

Tilly var orðinn æztur höfðíngi yfir liði keisarans, eptir að Wallenstein lagði völdin niður, hann stýrði og öllum hersveitum hinna katólsku bandamanna, eins og fyr er sagt, og var það mikið lið og geygvænlegt þegar alt var saman komið. Hann hafði sent herflokka í ýmsar áttir móti Svíakonúngi, er banna skyldu honum leiðina um Pommern og Meklenborg, en þeir höfðu alstaðar farið halloka fyrir Svíum. En Tilly og Pappenheim hèldu Magdeborg í umsátri, og sóttu hana með öllum þeim vopnum og vígvèlum, er menn þektu um þær mundir. Höfðu þeir 40 þúsundir hermanna, en borgarmenn vart meira én 8000 manna til varnar. Gustaf Adolf hafði sent þeim einn af herforíngjum sínum, er Falkenberg hèt, og varði hann borgina bæði vel og lengi móti slíku ofurefli sem við var að eiga, og fèll þar við bezta orðstír, þann dag, er þeir Tilly unnu hana (í maímánuði 1631). Aðfarir keisarans manna, þá er þeir brutu og brendu Magdeborg, eru orðlagðar, og er sagt, að fáar borgir hafi nokkru sinni verið eyddar af meiri grimd. Af bæjarbúum hèldu að eins fimm þúsundir manna lífi eptir, en frekar þrjátigi þúsundir dóu þar hörmulegum dauða.

Skömmu áður en Magdeborg hrundi, hafði Gustaf Adolf sagt við kjörfurstann af Brandenborg: »því verður als eigi neitað, að eg hefi tekizt mikið í fáng og teflt mjög á tvær hættur, en það er eigi mèr til gagns, heldur yður, landi yðar og lýð, já, meira að segja, allri kristninni. Ef enginn vill styrkja mig, þá fer eg heim aptur, sættist við keisarann og setzt um kyrt í Stokkhólmi, og gjöri það með góðri samvizku; en á efsta degi verðið þèr kvaddir til reiknings fyrir ragmensku yðar, að þèr þorðuð eigi að taka málstað evangelii. Og jafnvel hèr í lífi mun lítilmennska yðar fá sitt endurgjald, því að, þegar Magdeborg er fallin, og eg er farinn hèðan með mína menn, hvað mun þá taka við fyrir yður og landi yðar?« Kjörfurstinn gjörði loksins samband við Svíakonúng, er hann sá sèr ekki undanfæri.

Þá er Magdeborg var unnin, bjuggust allir við, að Tillý mundi þegar halda öllu liðinu til móts við Gústaf Adolf og ráðast á hann, og það því fremur, sem hann hafði lið miklu meira en konúngur. En Tillý gjörði það eigi, heldur lèt hann Pappenheim eptir í Magdeborg með nokkrar sveitir manna, en sjálfur hèlt hann meginhernum suður á Hessen til þess að vinna það

land undir sig; en þá komu þegar á hæla honum boð frá Pappenheim, að Svíar væru komnir vestur yfir Elfuna; hann hefði ekki liðsmagn í móti þeim, nema hann fengi hjálp. Sneri Tillý þá norður aptur. En það er frá Gustaf Adolf að segja, að þegar hann var kominn vestur yfir ána, bjóst hann um í bæ þeim, sem heitir *Werben*, og er á vesturbakka Elfunnar rètt þar á móti, sem Hawel rennur í hana að austan. Þann stað víggirti konúngur ramlega, hafði 150 fallbyssur, en ekki nema 12000 manna, því að hann hafði orðið að skipta liði sínu í marga staði, og hafa herflokka til varnar móti keisarans mönnum bæði í Pommern,- í Meklenborg og Brandenborg. Þegar konúngur hefir dvalizt á þessum stað um hríð, er honum sagt, að Tillý komi ofan með ánni og hafi 25 þúsundir manna; hann fær og vitneskju um, að þeir menn sèu nokkrir í herbúðum hans, er Tillý hafi gefið fè til að leggja eld í Werben, og reka nagla í púðurholið á öllum fallbyssum Svía, svo að eigi verði af þeim hleypt í því vetfángi, er Tillý komi og ráðist á herbúðirnar. Konúngur fann hèr skjótt ráð í móti. Hann setur menn til að hafa gát á fallbyssum sínum, lætur hlaða þær með ótal smákúlum (Kartescher), draga að við og setja í kesti á ýmsum stöðum í bænum fyrir innan girðíngarnar, bíður svo þess, að Tillý komi. Þess var og eigi lengi að bíða. Þegar Tillý var kominn í skotmál við Werben, voru 32 falllbyssur settar í öndvert fylkíngarbrjóst, og skotið af miklum ákafa á herbúðir Svía. Konúngur lèt að eins svara með einstöku skotum, og jafnframt sást eldur koma upp í herbúðunum hèr og hvar. Tillý þóttist nú vita, að þau ráð hefðu tekizt, er hann hafði tilsett, og skipar liði sínu til atgöngu; er nú svo gjört, og gánga menn hans fylktu liði og stefna á víggarðana. Svíar láta ekki til sín heyra nema skot á stángli. En er minst varði, og Tillýs menn eru komnir svo nærri sem konúngi þykir nægja, lætur hann skotin skella; flugu þá kúlur svo þykt og dundu á Þjóðverjum eins og haglèl gengi yfir sem svartast, en mannfallið var ógurlegt; varð Tilly þá frá að hverfa í þúngu skapi, og þótti eigi ráðlegt að sækja konúnginn heim að sinni. Þetta var seinast í júlímánuði 1631.

Gustaf Adolf hafði sett herbúðir sínar í Werben, og valið þann stað fremur öðrum, af ýmsum rökum: þar var fljótið honum til góðrar varnar einu megin; hann gat bæði eptir því og

eptir Hawel dregið vístir að sèr með hægu móti; hann gat þaðan skjótt komið til liðs við bandamenn sína í Pommern, Meklenborg og Brandenborg, og þar að auki var hann á þessum stað í nánd við kjörfursta *Jóhann Georg* af Saxen, og gat á hverri stundu vitað, hvað hann tæki sèr fyrir hendur. Kjörfurstinn var hinn voldugasti meðal höfðíngja prótestantanna á Þýzkalandi; en hann var ótryggur, og ýmist með keisara ýmist móti honum, eptir því sem honum þótti sèr bezt haga.

Nú hafði Gustaf Adolf marga tilraun gjört, að fá hann í lið með sèr, til að hjálpa sínum trúarbræðrum, en kjörfurstinn sá sèr það engan hag að svo stöddu og færðist því undan. Aðferð hans átti mikinn þátt í því, að Magdeborg varð eigi bjargað í tíma. En tryði Gustaf Adolf honum illa, þá trúði keisarinn honum heldur ekki vel. Gustaf Adolf vissi það gjörla, og sá fyrir, að þar mundi koma, að fullur fjandskapur gjörðist milli þeirra, keisarans og kjörfurstans, og þá hlaut kjörfurstinn að leita hjálpar hjá Svíum. Þetta kom alt fram sem Svíakonúngur hafði fyrir sèð. Keisarinn, sem alt af grunaði kjörfurstann um græsku, bauð Tillý að halda hernum inn á Saxland og kúga kjörfurstann til fylgis við sig, ef hann vildi eigi með góðu. Tillý brá við þegar og fór með 40000 manna til Saxlands, og setti kjörfurstanum ýmsa kosti; kjörfurstinn gaf tvíræð andsvör og góðar vonir, sem hans var venja, en Tillý vildi eigi vera vonbiðill hans, og tók að herja landið. Þá sá kjörfurstinn eigi önnur úrræði, en beiðast hjálpar af Svíum, og sendi Arnheim hershöfðíngja sinn til Gustafs Adolfs í þeim erindum. Sögðu þá ýmsir meðal Svíanna: «um síðir hefir kjörfurstinn lært, eins og hinir aðrir trúarbræður hans á Þýzkalandi, að lesa fyrir konúngi vorum þessa bæn þeirra: «allra augu vona til þín drottinn!». Konúngur setti kjörfurstanum þá kosti, sem honum þótti við eiga, og var sá einn af þeim, að kjörfurstinn lèti alt sitt lið sameinazt Svíum, og að konúngur hefði æztu yfirstjórn þess, eins og sinna manna. Kjörfurstinn tók þeim kostum gjarnsamlega; bættust nú 20,000 vopnaðra manna við Svíaher, og hafði Gustaf Adolf þannig frekar 40 þúsundir manna undir vopnum. Tillý hafði viðlíka margt lið; hann hafði tekið borgina Leipzig, og sat þar með allan sinn her. Þar er slèttlendi mikið fyrir norðan Leipzig, og liggja eptir því skurðir hèr og hvar, og

sumstaðar eru þar smáþorp og bæir. Milli bæanna Breitenfeld og Seehausen gengur lág hæð eða ás frá vestri til austurs, norðan undir ásnum rennur lækur einn, eigi mikill, en ógreiður yfirferðar sökum bleytu, tveir bæir eru niður við lækinn og nokkurt bil á milli, og brýr á læknum sín undan hvorum bæ. Að morgni 7. sept (1631) kom Tillý, og fylkti liði sínu norðan í ásnum, fótgönguliðinu í miðið en riddurum til beggja hliða; fallbyssuliðið stóð að baki hinna upp á ásbrúninni og gat skotið yfir höfuð fótgönguliðsins og riddaraliðsins, er neðar stóð í brekkunni; horfðu Tiilýs menn allir til norðurs og höfðu sól og vind á baki sèr, og þykir það eigi lítill hagur í orustum; Tillý var sjálfur fyrir fylkíngarbrjósti, Furstenberg fyrir hægra en Pappenheim fyrir vinstra fylkíngararmi; vildi hann sjálfur þar helzt vera, því að hann vissi, að Gustaf Adolf var vanur að vera í hægra fylkíngararm sinna manna, en við konúnginn vildi Pappenheim reyna sig.

Þenna sama dag lögðu Svíar og Saxar upp snemma morguns, og stefndu á Breitenfeld, bæ þann, sem áður var nefndur; sáu þeir þá brátt, hvar alt liðið Tillýs stóð norðan í ásnum. Konúngur hafði skipað allan Saxaher í vinstra fylkíngararm, og var Arnheim og kjörfurstinn fyrir því liði. Fyrir hægra fylkíngararmi var konúngur sjálfur, þar sem Pappenheim var í móti. Fyrir miðjum hernum voru þeir Teuffel og Gustaf Horn og ýmsir aðrir höfðíngjar. Að baki þessum stóðu hinar aptari fylkíngar Svíakonúngs; þeim stýrðu og ýmsir foríngjar, og þar var Jóhann Banèr helztur á meðal þeirra. Frammi fyrir miðjum hernum var Torstensson með fallbyssuliðið stórt og smátt. Þegar að læknum var komið, gekk konúngur með sínu liði yfrum á annari brúnni, en Arnheim með sínar sveitir á hinni, og fylktu liðinu eptir því sem yfrum var komið. Það undraðist Tillý mest, hve skipulega Svíum fórst að fara yfir lækinn og gánga í fylkíngar, og er mælt hann hafi þagað um stund, og eigi gætt þess, að svara hershöfðíngjum þeim, er hjá honum voru og töluðu til hans. Konúngur sat á hesti og reið um fylkíngar sinna manna, og sagði svo: »skjótið eigi drengir fyr en þèr sjáið hið hvíta í augum óvina yðar»; og við riddarana mælti hann: »berjið eigi sverð yðar sljó á járnhlífum Austurríkismanna, fellið hestana undir þeim, þá verður hægra að sjá fyrir manninum á eptir».

Þegar fylkíngum var þannig skipað, sem konúngur vildi, reið hann fram fyrir miðjan herinn, og nam þar staðar, tók af sèr hattinn annari hendi, en lèt sverðið síga með hinni; slíkt hið sama gjörðu allir hans menn þeir er næstir stóðu, og ósjálfrátt án þess nokkur skipaði. Þá talaði konúngur þessum orðum svo hátt, að lángt heyrðist um herinn til beggja handa. «algóði guð, sem hefir sigur og ósigur þèr í hendi. Snú þinni mildu ásjónu til vor þinna þjóna. Af fjarlægum löndum, úr kyrrlátum heimkynnum, erum vèr híngað komnir til að berjast fyrir frelsi, fyrir sannleika, fyrir þitt evangelíum. Gef oss sigur fyrir sakir þíns heilaga nafns, amen!». Þessi orð flugu um allan herinn, og vermdu og styrktu hugi manna. Enginn efaðist um sigur.

Nú var komið að hádegi. Svíar sóttu upp undir ásinn, og jafnskjótt dundi yfir þá skothríðin úr fallbyssum Tillýs. Torstensson var þá eigi heldur seinn til svars, og sendi þeim kveðjur í móti. Skutust þeir svo á um hríð; höfðu Svíar fleiri fallbyssur og minni, en Tillý hafði færri og stærri, og stóð betur að vígi; reykinn lagði í andlit Svíum og var þeim það ógagn; fyrir því lèt konúngur liðið alt þoka sèr lítið eitt til hægri handar, til þess að reykinn bæri af þeim. Tillý og Pappenheim sáu þegar, hvað konúngur ætlaði sèr: beiddi Pappenheim þá, að mega fara með sínar sveitir, og ráðast á hægra fylkíngararm Svía. Tillý leyfði það um síðir, og Pappenheim þaut af stað sem eldíng og alt hans riddaralið með honum. Hann var einhver hinn vopndjarfasti maður á Þýzkalandi um þær mundir og hafði einvala lið. Áhlaupið sem hann gjörði á Svía var ógnarlegt, en kallmannlega var í móti tekið. Konúngur lèt Jóhann Banèr koma með sínar sveitir; voru þeir konúngur og hann jafnan þar sem hættan var mest, skipuðu fyrir og eggjuðu til framgöngu. Varð það Pappenheim mest til meins, að konúngur hafði fótgöngulið með hverjum riddaraflokki, og beitti hvorumtveggja jafnframt; þá fylkíngaskipun þektu eða tíðkuðu eigi Þjóðverjar; fèllu Pappenheims menn unnvörpum, og sár bárust á hann sjálfan, eins og hann átti jafnan venju til; en þó hann berðist sem hetja, og þó hann gjörði sjö atreiðar að konúngsliðinu, þá vann hann ekki á, og varð loks undan að flýja og allir hans menn, sem eptir lifðu.

Um sama leyti sem Pappenheim rèðst í móti konúngi, hófst á hinum eystra fylkíngararmi viðureign þeirra Saxanna og

Króatanna, sem þar voru í móti, og leið eigi lengi áður Saxar tóku að svigna fyrir. Nú vildi Tillý eigi að fylkíngararmarnir skyldu lengur eigast við einir saman, og sendir fram allan miðherinn. Torstensson var þar fyrir og gjörði harða skothríð í móti. Tillý leizt eigi að ráðast þar lengra fram, á meginher Svíanna, en hèlt til hægri handar, þar sem Gustaf Horn var með sínar sveitir og Saxaherinn út í frá honum. Tillý grunaði að Saxar mundu eigi lengi standa fastir fyrir, en er þeir væru flúnir, þá ætlaði hann sèr að ráðast á Svía með öllum sínum mannafla. Það sýndist eins og þetta mundi ætla að takast. Þeir Tillý og Furstenberg rèðust báðir í senn á Saxa með ofurefli liðs. Arnheim og hans sveitir tóku vasklega í móti, en riddararnir saxnesku hèldust eigi við og snerust á flótta, og riðu undan hvað þeir kunnu, og rændu á flóttanum bæði farángri Svía og sinna landa. Meðal hinna fyrstu, sem flýðu, var kjörfurstinn Jóhann Georg, og nam eigi staðar fyr en í þorpi einu, 2 mílur þaðan á burt; þángað kom hann uppgefinn og berhöfðaður, taldi ósigurinn sjálfsagðan, og settist að drykkju; það var sagt, að honum þætti ölið gott.

Sumar af hersveitum Tillýs eltu Saxa og ráku flóttann og tóku að ræna ýmsu, er fyrir varð. Tillý bannaði þeim það harðlega og sagði: »látum Saxa renna, en ráðumst allir á Svía, annars höfum vèr ekki unnið«. Svo var nú gjört. Gjörðu þeir Tillý og Furstenberg þá harða aðsókn að vinstra fylkíngararmi Svía. En þar var Gustaf Horn fyrir, hinn ágæti hershöfðíngi. Hann var miklum mun liðfærri en Tillý; en alt um það tók hann svo hreystilega í móti, og skipaði svo vel og viturlega fyrir sínum sveitum, að enginn hans manna ryðlaðist í fylkíngum.

Konúngur varð þessa skjótt vísari; setti Jóhann Banèr yfir hægra fylkíngararminn, en reið sjálfur þángað sem þeir Horn áttust við. Þar lá fjöldi manna fallinn, og Gustaf Horn átti sem mest að vinna, lèt þokast fyrir ofureflinu, en enginn maður hugði á flótta. Konúng bar þar að, er Kallenbakk hershöfðíngi hans var með nokkrar riddarasveitir, svo sem til vara og í viðlögum á baki hinna, sem þá börðust, en hafðist ekki að nè hans menn. »Í guðs bænum, högðu fram, Kallenbakk! högðu fram!« mælti konúngur, og benti þar á, sem honum þótti viðþurfa. Riddararnir þustu fram, og rèðust á þá er fyrir stóðu.

En er saman laust fylkíngum fèll Kallenbakk dauður til jarðar. Konúngur sá, að sínir menn mundu eigi fá staðizt slíkt ofurefli, því að margir voru þá um einn, og mælti: »verjist hraustlega drengir, eg skal senda yður hjálp»; segir þá einum af hershöfðíngjum sínum, að ríða sem skjótast til hinna eptri fylkínga, og koma þaðan með nokkra herflokka, en í því sama vetfángi var sá maður skotinn til bana. Varð konúngur sá sjálfur að fara, og kom aptur að lítilli stundu liðinni með allmarga riddara og fótgöngulið. Varð nú hinn grimmasti bardagi og púðurreykurinn svo mikill, að vart þektust vinir frá óvinum. Þegar konúngur sá, að Gustafi Horn mundi borgið, hèlt hanh aptur til hins hægra fylkíngararms þar sem Jóhann Banèr var og barðist; var Pappenheim þá allur í burt þaðan. Þá lèt konúngur allan þann fylkíngararm þoka sèr af stöðvum, upp og austur á ásinn, eins og áform hans hafði verið með fyrstu, til þess að komast úr reyknum. Þá er orustan tókst stóðu hvorirtveggja, Tillýs menn og konúngs, frá vestri til austurs; en nú, þegar hèr var komið, hafði vinstri herarmur konúngs þokazt aptur á bak, en hinn hægri gengið áfram, svo að nú stóðu herfylkíngarnar frá suðvestri til norðausturs, og vindur og reykur hèr um bil jafn á hvorumtveggja. Konúngur var nú kominn þar á ásinn, er fallbyssur Tillýs voru; eptir stutta hríð fèkk konúngur tekið þær og snèri þeim móti fylkíngum Tillýs þar neðanundir. Pappenheim kom með því liði, er hann gat fengið, og vildi ná aptur fallbyssunum, en þess var enginn kostur; það var eigi laust sem Gustaf Adolf hèlt; fór Pappenheim þá þaðan og ofan á völluna til liðs við Tillý þar sem allur meginherinn barðist. Þessu næst hèlt konúngur með sínar sveitir niður af ásnum, þángað sem Tillýs menn horfðu hliðum við, og sótti að þeim sem fastast; varð þá enn hin harðasta orusta; lauk svo, að konúngur fèkk sigur, en Tillý og hans menn lögðu á flótta. Á vígvellinum lágu dauðar 9000 manna. Af þeim voru 6300 keisarans menn, 2000 Saxar, 700 Svíar; en fjöldi manna sár af hinum sem undan komust. Svíar fengu þar svo mikið herfáng í gulli, silfri og alskonar dýrgripum, að margur hafði nóg fyrir sig að leggja upp frá því. Þannig lauk hinni nafnfrægu orustu, sem síðan er kend við borgina Leipzig. Eptir þenna mikla sigur flaug frægðarorð Gustafs Adolfs um alla Norðurálfu, og

prótestantar urðu glaðari en frá verði sagt, enda breyttist hagur þeirra til batnaðar. Daginn eptir orustuna, kom kjörfurstinn af Saxen til Gustafs Adolfs, og bjóst við þúngum átölum af honum. «Við skulum nú tala um alt annað», mælti konúngur, og var hinn blíðasti; «þèr hafið áður sýnt hugrekki yðar, er þèr genguð í lið með mèr og hvöttuð til orustu, svo að mínum mönnum gafst færi á að vinna sigur í gær». Þjóðverjar voru eigi eins vingjarnlegir við kjörfurstann og kváðu níð um hann.

Eptir þessi tíðindi, sem nú voru sögð, voru flestir á því, að kjörfurstinn með Saxaher skyldi elta Tillý og Pappenheim, er flúið höfðu með það lið, er afkomst, vestur í land, en Svíakonúngur hèldi sínum her suður á Böhmen og þaðan skemstu leið til Wínarborgar og kúgaði keisarann til friðar. En Gustaf Adolf þótti það óráðlegt, því að hann kvaðst enga vissu fyrir því hafa, að Ferdínand keisari lèti kúgazt til friðar, þó Wínarborg yrði unnin, en til hins miklar líkur, að þeir Tillý og Pappenheim yrðu kjörfurstanum yfirsterkari, og þá væri viðsjárvert, að eiga þá Tillý með fjölmennu liði fyrir norðan sig og að baki sèr. Þess vegna lèt konúngur þá Arnheim og kjörfurstann halda hinu saxneska liði suður á Böhmen og Slesíu, til þess að reka keisarans menn úr þeim löndum, en sjálfur lagði hann með meginher Svía vestur og suður á sveitir, til þess að hjálpa prótestöntum, sem þar bjuggu, og sem alstaðar höfðu verið harðlega kúgaðir af katólskum mönnum. Vetur fór í hönd og veður einatt stirð, þó var konúngur optast á ferðum og átti ótal orustur, og alstaðar vann hann sigur og tók hverja borgina eptir aðra, en, hvar sem hann kom, lofuðu allir hans herstjórn og mildi; hann fèkk prótestöntum þau völd og rèttindi aptur í hendur, sem þeir höfðu mist, en þó hann lèti katólska menn greiða sèr ferðakostnaðinn ríflega, þá þröngvaði hann aldrei trúarfrelsi þeirra.

Meðan Gustaf Adolf vann af katólskum mönnum allan suðvesturhluta Þýzkalands, ráku Saxar keisaransmenn burt af Böhmen og Slesíu, en Jóhann Banèr og Bernhard hertogi af Weimar (er litlu áður var genginn í þjónustu Gustafs Adolfs), börðust við þá Pappenheim og Tillý norður og vestur í landi, og báru hærra hlut í þeim viðskiptum.

Nú var Ferdínand keisari í nauðum staddur: liðsmenn hans voru fallnir eða flúnir á Leipzigar-völlum, Gustaf Adolf og

bandamenn hans rèðu mestu á Þýzkalandi, Tillý var lamaður og lángt í burtu, Saxar höfðu unnið Böhmen og sátu í Prag, erfðalönd keisarans og aðseturssstaður hans Wínarborg, voru í hershöndum er minst varði. Í þessum vandræðum sáu menn engin önnur úrræði, en leyta Wallensteins; hann var sá eini maður er hjálpað gat, og gaf um síðir kost á liðveizlu sinni, en með svo hörðum kjörum, að heita mátti að keisarinn hèldi eigi eptir nema nafni einu. En jafnskjótt sem það spurðist, að Wallenstein hefði tekið að sèr herstjórn, þá safnaðist að honum múgur og margmenni, svo að á skömmum tíma hafði hann 40 þúsundir vígra manna, og á svipstundu rak hann Saxa gjörsamlega út af Böhmen; því að kjörfurstinn og Arnheim höfðu ílla fylgt ráðum Gustafs Adolfs, og búizt þar löðurmannlega um meðan tími var til.

Þegar Gustaf Adolf hafði lagt undir sig lönd öll vestan á Þýzkalandi beggja megin við Rhínfljótið, hèlt hann liði sínu austur á Baiern, og segir eigi af ferðum hans, fyr en hann kom að á þeirri, er *Lech* heitir; hún er vestan til á Baiern og allmikið vatnsfall, kemur sunnan af fjöllum og rennur norður í Donau. Þar var Tillý fyrir austan ána með miklu liði og vildi verja konúngi yfirferðina; en konúngur komst það eigi að síður með brögðum og harðfylgi. Þar var Tillý særður til ólífis og dó litlu síðar, en konúngur lagði landið undir sig. En sem Maximilian kjörfursti sá sitt óvænna, og varð að flýja ríki sitt (Baiern), beiddi hann Wallenstein hjálpar, þó eigi væru þeir vinir, og fèkk honum alt sitt lið til forráða. Hafði Wallenstein þá um 60 þúsundir manna, og eptir það stefnir hann öllum hernum suður í lönd Maximilians og býst að taka borg þá, er *Nürnberg* heitir, en Gustaf Adolf vildi það fyrir engan mun; borgin var honum vinveitt, og beiddi hann hjálpar, er menn frèttu til ferða Wallensteins. Konúngur varð skjótari, og kom liði sínu til borgarinnar á undan Wallenstein og bjóst þar um sem bezt hann kunni. Þar sátu þeir lengi sumars (1632), Gustaf Adolf í borginni innan traustra girðínga, og Wallenstein á bröttum hæðum skamt fyrir utan borgina, og beittust brögðum; en hvorigur vann á öðrum, og fengu þó mikinn skaða á mönnum sínum, og margir urðu handteknir af hvorumtveggja, þar á meðal var Torstensson einn. Þegar komið var fram í miðjan sept-

ember-mánuð, var Svíakonúngur þrotinn að vistum, og varð að leita á brott þaðan, en lèt þar þó nægilegt varnarlið eptir í borginni; hèlt hann nú liði sínu suður og austur í leið, og stefndi til Austurríkis. Wallenstein fór litlu síðar burt frá Nürnberg, en eigi veitti hann Svíum eptirför, þó bæði keisarinn og Maxi-an beiddu hann þess á allar lundir, heldur hèlt hann liði sínu norður í land. Skildu þeir þá Wallenstein og kjörfurstinn, því að kjörfurstinn vildi eigi láta ríki sitt varnarlaust eptir. Það var áform Wallensteins, að hefna sín fyrst á Saxlendíngum, og síðan leggja undir sig alt Norður-Þýzkaland, taka borgir þær allar þar nyrðra, er Svía konúngur hafði setulið í, og verja honum þannig allar leiðir til sjávar, og allar samgöngur við Svíþjóð. Í löndum þeim (Franken og Türingen), sem leið Wallensteins lá um sunnan frá Nürnberg og norður á Saxen, var Bernhard af Weimar með liði sínu, og varði þau svo hreystilega, að Wallenstein fèkk litlu áorkað; beygði hann þá til austurs og norður yfir Erzfjöllin og ofan á Saxen og herjaði landið; hrukku landsmenn alstaðar fyrir, en Wallenstein tók hverja borg af annari.

Nú var Jóhann Georg kjörfursti engu betur staddur, en árið áður, þá er Tillý var á ferðum; sendi því hver boðin á fætur öðrum til Svía konúngs, og beiddi hann koma sèr til hjálpar. Konúngur var á leiðinni til Austurríkis, eins og áður var sagt, og er als enginn efi á, að hann hefði lagt landið undir sig og tekið Wínarborg, ef hann hefði viljað halda svo fram stefnunni. En hann vildi það eigi; hann vildi hjálpa bæði kjörfurstanum, þó hann væri þess ómaklegur, og trúarbræðrum sínum norður á Þýzkalandi, sem nú voru í háska staddir; fórst Gustaf Adolf í þessu sem öðru betur en Wallenstein hafði farizt, er hann vildi eigi hjálpa Maximilian af Baiern, sem þó var hans bandamaður. Konúngur brá því við og hèlt norður í land. Á þeirri leið hittust þeir Gustaf Adolf og Axel Oxenstjerna í síðasta sinn. En svo stóð á ferðum Axels þar syðra, að konúngur hafði falið honum á hendur, að koma reglu á stjórnarskipun í þeim löndum vestan á Þýzkalandi, er Svíar höfðu unnið; öðrum en honum varð eigi fyrir slíkum störfum trúað. Þegar konúngur kom norður á Thüríngasveitir, lèt hann Bernhárd af Weimar koma til fylgdar við sig með nokkru af því liði, er hann var yfir skipaður; var konúngsherinn þá samtals um 20 þúsundir manna,

eptir að hersveitir Bernharðs hertoga bættust við. Konúnginn vantaði þrjá af hinum helztu hershöfðíngjum sínum að þessu sinni: Jóhann Banèr, Gustaf Horn og Lennart Torstensson; Jóhann Banèr var vestur í Schwaben (þar heitir nú Würtemberg), en Gustaf Horn í Elsaz, og höfðu þar herstjórn á hendi, en Torstensson sat í varðhaldi suður á Baiern.

Hinn fyrsta dag nóvembermánaðar (1632) var Gustaf Adolf kominn að bæ þeim er Naumburg heitir; sá bær er suður og vestur af Leipzig, og eigi alllángt í milli. Hèr um bil mílu vegar frá Naumburg er annar bær, sem heitir Weissenfels; þar voru þeir Wallenstein og Pappenheim með allan sinn her, því nær 40 þúsundir manna. Það kom til orða með þeim, að ráðast þegar á Svía, en þó þeir Wallenstein hefðu ofurefli liðs, þótti flestum það óráð, því að Gustaf Adolf hafði víggirt Naumburg svo ramlega, að ófært þótti til aðsóknar; vetur fór í hönd, og voru allar líkur til, að Svíar mundu láta fyrirberast í herbúðum sínum vetrarlángt, og var þá svo ráð fyrir gjört, að Wallenstein settist að í Leipzig; en Pappenheim, sem hvorki vildi halda kyrru fyrir, nè heldur vera lengur hjá Wallenstein en nauðsynlegt var, fèkk leyfi hans, að mega halda hersveitum sínum, hèr um bil 12000 manns, vestur í land, til liðs við borgina Köln. Heldur nú Pappenheim með sína menn af stað frá Weissenfels 4. dag nóvembers, en Wallenstein fylgir honum með allan sinn her að bæ þeim, er *Lützen* heitir; þar skilja þeir. Þetta frèttir Gustaf Adolf samdægurs; ræður hann þegar í stað atför að Wallenstein, og leggur upp frá Naumburg hina næstu nótt, en þó vegurinn væri eigi lángur þaðan og norður að Lützen, varð konúngsliðinu seinfarið, því að torfærur miklar voru á leiðinni, og náði herinn eigi fyr, en undir kveld (5. nov.) á völluna fyrir sunnan Lützen. Þar hagar svo til, að þjóðvegur mikill gengur frá Lützen austur til Leipzigar; fram með veginum voru skurðir djúpir, en slèttlendi báðu megin; vegurinn var hlaðinn upp, og allur hærri en landið til beggja handa. Þegar Wallenstein frètti til ferða konúngs, bjóst hann um fyrir norðan veginn, lèt um nóttina dýpka skurðina, og, með því þeir voru þurrir, hafði hann skotmenn þar niðri til þess að skjóta á Svía, er þeir vildu þar yfir fara, en fyrir aptan eða norðan skurðina stóð meginher Wallensteins undir vopnum; áttu Svíar þannig

yfir marga elda að sækja; í hægra fylkíngararminn næst Lützen var hið fræknasta riddaralið Wallensteins, og Colloredo hershöfðíngi fyrir því; í miðið fótgönguherinn, þar var Wallenstein sjálfur og *Piccolomini;* í hinn vinstra fylkíngararm Króatar og fleiri riddarasveitir, sá hèt *Isolani,* er þar var helztur höfðíngi fyrir. Fyrir framan herinn, en aptan skurðina, var fallbyssuliðið. Herinn var allur um 28000 manns; boð höfðu verið send til Pappenheims, að koma sem skjótast. Þessa fylkíngaskipun, sem nú var sögð, hafði Wallenstein látið gjöra um nóttina eptir því sem föng voru fyrir; nóttin var bæði köld og dimm, og biðu menn nú þess að lýsti af degi.

Nú er að segja frá Gustaf Adolf. Honum þótti það illa farið, að hann gat eigi þegar um kveldið ráðizt á óvini sína, áður Wallenstein gat um búizt, en hinsvegar allar líkur til, að Pappenheim mundi koma með sínar sveitir, annaðhvort um nóttina, eður snemma morguns hinn næsta dag, og var þá liðsmunur helzt til mikill. Konúngur ráðgaðist um við hershöfðíngja sína. *Kniephausen,* einn af hinum elztu og helztu, gætinn maður og ótrauður til allrar framgöngu þegar á herti, rèð frá því að barizt væri, en Bernhard hertogi, eldfjörugur maður, áfýsti konúnginn þess mjög; konúngur var því og samþykkur. «Það er bezt», mælti hann, «að þvo sig vel hreinan, fyrst maður er á annað borð kominn í baðið». Það var því ráðgjört, að veita óvinunum aðgöngu fyrir dögun, svo að alt gæti verið úti áður en Pappenheim kæmi. Konúngur sat á vagni um nóttina, og þeir Kniephausen og Bernhard hertogi hjá honum; hann vildi eigi á annan veg taka náðir á sig, úr því að liðsmenn hans allir stóðu undir vopnum og höfðu litla hvíld. Undir morgun lèt konúngur fylkja liðinu þannig: í hægra fylkíngararm voru riddarar: Stálhandski yztur með Finnlendínga, þar næst Eiríkur Soop með Vestgauta, þá ýmsir, og Stenbokk næstur miðhernum með Smálendínga; þar var konúngur sjálfur. Í miðið var fótgönguliðið í mörgum sveitum og ýmsir fyrirliðar, en Niels Brahe yfirhöfðíngi þeirra. Fyrir hinum vinstra fylkíngararmi var Bernhard hertogi; það var flest þjóðverskt riddaralið, er hann var yfirskipaður. Á bak við allar þessar fremri fylkíngar stóðu hinar eptri, og nokkurt bil á milli. Kniephausen stýrði öllum hinum aptari her; fallbyssuliðið var skipað fyrir framan fylkíngar, á

sama hátt sem hjá Wallenstein. Nóttin var óvenjulega dimm og birti lítið þó að dagur rynni upp, því að þokan var svo mikil, að hvergi nærri var vígljóst. Það þótti konúngi mikið mein; lèt þó söðla hest sinn og reið um fylkíngar til þess að líta eptir, hvort öllu væri svo til hagað sem hann hafði fyrir skipað. Konúngur var í kyrtli af elgsdýrsskinni og þar utan yfir í gráum stakki. Sögðu menn honum, að það væri óvarlegt, að vera hlífarlaus þenna dag. «Nei», mælti konúngur, «guð er mín hlíf!» þegar herinn allur hafði lesið morgunbæn sína og súngið á eptir þenna sálm: *Óvinnanleg borg er vor guð,* talaði konúngur fyrir liðinu, sem venja hans var til; fyrst talaði hann til Svía og sagði meðal annars: «ef þèr í þetta sinn látið sigrazt af óvinum yðar, sem góður guð forði yður frá, þá vitið fyrir víst, að úti er um allar bjargir, og að ekki eitt bein af oss kemur aptur til Svíþjóðar». Síðan reið hann þángað sem Þjóðverjar stóðu, talaði fyrir því liði og lauk svo sinni ræðu: «fylgið mèr, því að eg skal vísa yður veg til baráttu, til sigurs, til ævarandi sæmdar; og þèr og afkomendur yðar skulu um ókomnar aldir njóta ríkuglegra ávaxta þessa dags».

Einni stundu fyrir hádegi lètti af þokunni og sá til sólar; herinn hvorratveggja kom í augsýn. Þá kallaði konúngur hátt: »*fram nú í drottins nafni!*« og síðan sagði hann: »hjálpa mèr Jesú, að berjast í dag, þínu heilaga nafni til dýrðar! »Fallbyssuliðið byrjaði skothríðina, og Svía her sótti fram djarflega; komst Niels Brahe þegar með nokkrar sveitir fótgönguliðs yfir skurðina og fèkk tekið fallbyssur Austurríkismanna og hrakið það fótgönguliði, er fyrir stóð, en riddaraliðinu sænska gekk miður; skurðirnir voru bæði breiðir og djúpir og skothríðin ógurleg, voru því hestarnir tregir til framgöngu. Wallenstein lèt riddaralið koma sínum mönnum til hjálpar, er undan hopuðu, og rètti við bardagann. Konúngur fèkk sèð það og eggjar til framgöngu riddara sína, keyrir hestinn sporum og kemst yfir skurðina. Konúngur var fremstur sinna manna og reið svo hart, að fáir gátu fylgt honum. Þar var Piccolomini fyrir með sínar sveitir og bardagi hinn harðasti. Konúngur gaf því engan gaum, hve margir voru í móti, eða hve fáir honum fylgdu. Í þeirri svipan fèkk konúngur skot í vinstra handlegginn. Þeir af hans mönnum, er næstir voru, sáu að hann var blóðugur og hand-

leggsbrotinn. «Ekki sakar»; sagði konúngur, «áfram börn mín!» En blóðrenslið var svo mikið, að konúngur fann að máttur þverraði, og beiddi því Albert hertoga af Lauenborg, er þar var með honum, að ríða með sèr, svo lítið bæri á, burt af vígvellinum. En skamt voru þeir komnir áður nýjar hersveitir riðu að þeim, og hèt sá Falkenberg, er fyrir þeim var. Hann þekti konúnginn og mælti: «þig hefi eg lengi viljað finna»! og í því sama vetfángi skaut hann; kom skotið á konúng miðjan og gekk í gegnum hann. Konúngur fèll þó eigi af hestinum, en mælti: «frelsaðu þig bróðir, eg hefi fengið sem mèr nægir!» Falkenberg var þegar skotinn til bana. Hertoginn reyndi að styðja konúng á hestinum og komast þannig á brott, en þess var engínn kostur fyrir mannþrönginni. Hertoginn gat með naumindum flúið undan og borgið lífi sínu, en konúngur fèll af hestinum; voru þá allir hans menn fallnir, er þar voru nærstaddir, nema einn úngur maður, er *Leubelfingen* hèt; hann leitaðist við að setja konúng á bak, en skorti afl, enda var konúngur þá með öllu máttþrotinn. Í þessu bar þar að nokkra riddara, er spurðu hverjir þar væru. En hvort sem þeim var svarað nokkru eður engu, þá skaut einn þeirra konúnginn til bana, og annar lagði spjóti í gegnum Leubelfingen; flettu þeir þá síðan klæðum og lètu svo liggja. Leubelfingen lifði nokkra daga, og er þessi sögn eptir honum tekin. Aðrir segja lítið eitt öðruvísi frá síðustu augnablikum Gustafs Adolfs. Þjóðverskur maður, er Truchsess hèt, og hafði fylgt konúngi, komst með lífi undan og sagði Bernhard hertoga, að konúngur væri fallinn. Bernhard sagði Kniephausen. Það er sagt, að Kniephausen hafi viljað halda undan, og mælt að hann skyldi ábyrgjast hernum undankomu, en Bernhard svarað, að hèr væri als eigi um undanhald að tala, heldur um hefnd, sigur eða dauða; hann tók til sinna ráða og skipaði fyrir til nýrrar atlögu. Herinn vissi nú, eða grunaði, að konúngur mundi fallinn; harmur og reiði fylti hvers manns brjóst. Gjörðu Svíar nú svo harða atlögu að Austurríkismönnum, að ekki stóðst fyrir; fallbyssur voru teknar, riddarar flýðu, púðurvagnar flugu í lopt upp, herinn ryðlaðist í höndum Wallensteins, orustan var því nær úti og unnin af Svíum. Í þeirri svipan kom Pappenheim og riddaralið hans. «Hvar er Svía konúngur?» sagði hann, og rèðst á hægra fylkíngararm

Svía. Ein hetjan vildi aðra finna, en — þess var eigi framar kostur. Þar var Stálhandski fyrir og hans menn, og svaraði með skothríð. Pappenheim varð fyrir tveim skotum, og varð sár til ólífis. «Eg dey glaður, er eg veit að Gustaf Adolf er fallinn», mælti hann, og dó síðan. Við komu Pappenheims fèkk Wallenstein stöðvað herinn og fylkt liðinu, og tókst nú af nýju hin grimmasta orusta. Wallensteins menn náðu aptur fallbyssum sínum; Niels Brahe fèll og fleiri af höfðíngjum Svía; hinar fremri fylkíngar hopuðu á hæl aptur að hinum eptri, en þar stóð Kniephausen fyrir sem múrveggur, og þar fengu Svíar fótfestu. Þeir Bernhard og Kniephausen eggjuðu til nýrrar framgöngu, og nú sótti fram allur herinn. Við því áhlaupi máttu Wallensteins menn eigi, og lögðu á flótta undan til Leipzigar. Þannig endaði orustan við Lützen; hafði hún staðið alt að níu stundum. Svíar lètu fyrirberast á vígvellinum til næsta dags. Um morguninn eptir komu nokkrar sveitir af Króötum til að sækja fallbyssur Wallensteins, en Svíar tóku altsaman, bæði Króata og fallbyssurnar; níu þúsundir manna láu fallnar á orustustaðnum. Svíar fundu lík konúngs, illa til reika af sárum, og veittu því umbúnað; var það síðan flutt til Stokkhólms í þann legstað, er konúngur hafði sjálfur til tekið áður hann fór heiman.

Wallenstein treystist eigi að nema staðar á Saxlandi eptir tíðindi þau, sem nú voru orðin, og hèlt fyrir því viðstöðulaust suður á Böhmen og settist þar að. Það er mælt, að lið það, er honum fylgdi þángað, hafi verið einar tíu þúsundir manna; hitt alt var annaðhvort fallið, eða tvístrað í ýmsar áttir. En þó Wallenstein sýndi þannig í verki, að hann þættist undir orðinn í viðskiptum þessum, þá litu katólskir menn öðrum augum á orustuna við Lützen. Þeir töldu hana hinn mesta sigur, úr því að Gustaf Adolf var fallinn. Svo mikið þótti þeim að honum einum kveða. Í Wínarborg, Brüssel og Madrid var súngið *Te Deum*, og það eigi ástæðulaust, því að allur sá eindrægnis og samheldis andi, sem Gustaf Adolf hafði skapað meðal prótestanta, og sem hann einn var fær um að halda vakandi, var nú frá þeim vikinn og fallinn í dá. En þó þessu væri svo varið á Þýzkalandi, þá var hamíngja Svía eigi liðin undir lok með konúngi þeirra; þó Gustaf Adolf væri dáinn, þá var Axel Oxenstjerna enn á lífi, og hann var það mikilmenni er stýrt gat

málefnum Svíþjóðar bæði innanlands og utan. Allir bjuggust nú við, að lokið mundi störfum Svía og framgöngu á Þýzkalandi, þeir mundu sem hraðast halda þaðan heim aptur og þakka fyrir að komast það klakklaust. En sú von brást. Það var enganveginn ætlan eða áform Axels Oxenstjerna, að hætta við svo búið. Hann vildi eigi að þau störf, er Gustaf Adolf hafði með svo mikilli frægð og hamíngju byrjað, skyldu verða svo endaslepp, og falla niður sem hálfkveðin vísa; hann hafði og sjálfur átt svo mikinn þátt í þeim, að hann vildi eigi sín vegna hætta að óreyndu við svo búið, og hann vildi að minsta kosti, að Svíar hefðu nokkuð í aðra hönd hjá Þjóðverjum fyrir kostnað sinn og liðveizlu. Eins og áður er sagt, var Axel Oxenstjerna á Þýzkalandi þegar hèr var komið; hann fór um landið og fann ýmsa þjóðhöfðíngja að máli; þeir reyndust marglyndir og þreklausir eins og kúguðum mönnum er tamt; fæstir voru á því, að Svíar hefðu frekari afskipti af málefnum Þýzkalands, en flestir vildu þá þaðan á brott sem fyrst. Kjörfurstinn á Saxlandi þóttist einfær til als, og sjálfkjörinn foríngi prótestanta á Þýzkalandi, enda gjörði alt hvað í hans valdi stóð til að spilla fyrir Svíum, og launaði þeim þannig liðveizluna sem hann var maður til. Frakkar, Englendíngar og Hollendíngar skárust einnig í þessi mál, og vildu allir hafa gagn af, en Axel Oxenstjerna fèkk sèð við öllum þeirra brögðum og sigrað öll þessi vandræði. Það er líka sannast að segja, að hin sænska þjóð sýndi þrek og samlyndi, og hinir sænsku ráðherrar, er heima sátu og höfðu ríkisstjórnina á hendi, studdu mál hans og ættjarðar sinnar í orði og verki[1]. Axel Oxenstjerna vildi, að höfðíngjar prótestanta á Þýzkalandi gengju allir í fèlag og berðust móti keisara fyrir þjóðfrelsi sínu og trú, og með því, að þeir höfðu engan hershöfðíngja, er gæti jafnazt við Gustaf Horn, Jóhann Banèr eða Lennart Torstensson, þegar Bernhard af Weimar var undan skilinn, en hann var með Svíum og þeirra maður, þá vildi Axel, að herstjórnin væri Svíum á hendur falin. Sú varð og niðurstaðan. Nokkrir höfðíngjar prótestanta gengu því í fèlag, og lögðu til fè og menn, og það var afráðið, að halda stríðinu fram og að Axel hefði alla æztu og helztu handleiðslu þess og yfirstjórn þjóð-

1) Nafnkendastir voru þessir: Jakob de la Gardie, Gabriel Oxenstjerna (bróðir Axels), Pètur Brahe og Klas Flemíng.

verskra málefna þángað til friður kæmist á. Gustaf Horn átti reyndar að hafa yfirstjórn hersins, því að hann var elztur hershöfðíngi, en Bernhard hertogi vildi engum hlýða nema Gustafi Adolf einum, og urðu þeir því jafnir í hervöldum Bernhard og Gustaf Horn. Nú gekk sú samvinna þeirra allvel, því að hvorigan skorti vit eður hugrekki, en ólíkir menn voru þeir þó í mörgu. Horn var stillíngarmaður mikill, ósèrplæginn og siðvandur. Bernhard hertogi var manna ákafastur, ágjarn til fjár og landa, og það var auðsèð á öllu hans ráðlagi, að hann vildi engum vera háður, heldur brjótast til valda og eignast ríki eitt eður annað á Þýzkalandi, þar sem hann gæti orðið einvaldur yfir. Að því leyti var hann líkur Wallenstein. En það er frá Wallenstein að segja, að hann sat aðgjörðalítill í Böhmen, og þó hann hefði allmargt lið, og þó keisarinn skoraði á hann, að taka aptur til starfa, þá hafðist hann ekki að, það teljandi sè, heldur lutu allir hans aðgjörðir miklu fremur að því, að hann ætlaði sèr, að verða konúngur í Böhmen og, ef til vildi, taka fleiri lönd frá keisaranum. Í því skyni gengu menn á milli hans og Axels Oxenstjerna og Bernhards af Weimar. En þegar að því var komið, að þetta yrði framgengt, þá lèt keisarinn sviksamlega taka Wallenstein af lífi (í febrúarmán. 1634). Ferdínand, elzti sonur keisarans, varð nú æzti höfðíngi liðsins, en Gallas, sem áður er nefndur, var settur honum til aðstoðar, sem eldri og reyndari hershöfðíngi. Nýtt fjör og nýjar framkvæmdir komu í ljós. Herinn hèlt af stað frá Böhmen og vestur á Baiern; náðu þeir Ferdínand þar ýmsum borgum, sem Bernhard hertogi hafði setulið í til varna, og loksins um haustið 1634 mættust hvorirtveggja við borg þá, er *Nördlíngen heitir*. Sú borg er í Baiern vestarlega og fyrir norðan Dóná; borgin var vinveitt Svíum, og fyrir því vildu þeir Bernhard og Horn verja Austurríkismönnum að ná henni. Liðsmunur var mikill, því að Ferdínand og Gallas höfðu um 35 þúsundir manna, en þeir Bernhard og Horn ekki nema frekar 20 þúsundir. Þess vegna vildi Horn eigi berjast fyr en þeir hefðu dregið til sín meira lið, sem von var á, en Bernhard vildi þá þegar ráðast á keisarans menn; jafnvel nokkrir af hertogans mönnum brugðu Horn um ragmensku, og sögðu að hann þirði eigi að berjast. »Eg skal berjast, mælti Horn, en að því mun koma, er eg segi, að ílt eitt

mun af hljótast». Orustan var bæði hörð og löng, og lyktaði svo, að þeir Ferdínand unnu þar fullan sigur. Bernhard hertogi flýði, en Horn vildi eigi flýja og varð handtekinn; af Svíum fèllu þar 8 þúsundir manna, en 6 þúsundir handteknar, 80 fallbyssur og um 4000 vagna með ýmsum hernaðar áhöldum komust í hendur Austurríkismanna.

Bardaginn við Nördlíngen breytti mjög kjörum manna á Þýzkalandi. Alt til þessa höfðu Svíar haft þar mikinn framgáng og mikil yfirráð. Nú voru þau yfirráð á enda; Svíum varð eigi viðvært á Suður-Þýzkalandi og urðu að hrekjast þaðan á burt; Bernhard hertogi hörfaði vestur yfir Rínfljótið með herleifar þær, er honum fylgdu, og gekk í þjónustu Frakkakonúngs, er hèt að fá honum ríki það til forráða, er Elsaz hèt, — það er fyrir vestan Rínfljótið, en Baden er að austan. — Voru þetta reyndar svik af hertoganum við Svía, því að hann var í þeirra þjónustu og sá her, er honum fylgdi. Kjörfurstinn af Saxen sá, að hann mundi nú eigi lengur hafa hag af sambandi við Svía, og samdi því frið við keisarann (í Prag 1635), og hèt honum sinni liðveizlu til að reka Svía alveg burt af Þýzkalandi. Og þessum manni höfðu Svíar hjálpað, og Gustaf Adolf látið lífið til þess að verja hann og ríki hans. Nú fór svo, eins og við mátti búast, er hinn voldugasti allra þjóðhöfðíngja meðal protestanta var genginn úr sambandinu, að hinir smærri höfðíngjar og borgir prótestanta gáfust upp og gengu til hlýðni við keisarann. Svíar áttu ekki annað eptir á Þýzkalandi en Pommern. Ríkisráðið í Stokkhólmi lèt Axel Oxenstjerna vita, að hann gæti eigi búizt við mikilli hjálp þaðan, því að harðæri hafði á undan gengið þar í landi. En alt um það, Axel Oxenstjerna lèt eigi hugfallast, heldur tók hann sèr nú ferð á hendur til Frakklands og til fundar við Richelieu og Loðvík konúng þrettánda. Axel vissi það vel, að Richelieu mundi alt annað heldur vilja, en að keisarinn og Spánarkonúngur yrðu einráðir á Þýzkalandi og á Niðurlöndum; á því bygði hann von sína um liðveizlu af Frakklandi. Og honum skeikaði eigi. Richelieu gjörði samband í öðru lagi við Niðurlöndin, og í öðru lagi við Svíþjóð, og sagði bæði Spánverjum og keisara stríð á hendur. Við þetta færðist ófriðurinn út, og tók nú yfir margfalt stærra svæði en áður; nú var barizt eigi einúngis á Þyzkalandi, heldur einnig í Niður-

löndum, á Ítalíu, suður við Pyreneafjöll, og úti á hafi. Nú var eigi lengur barizt um trúarbrögðin, því nú voru prótestantar sumir með katólskum mönnum (t. a. m. Saxen og Brandenborg með keisara, Niðurlendíngar og Svíar með Frökkum), heldur var nú barizt um yfirráð yfir löndum og lýðum.

Þegar hèr var komið, fór Svíum að vegna betur. Jóhann Banèr var orðinn yfirhershöfðíngi þeirra á Þýzkalandi; Torstensson var laus úr fángelsi og kominn til liðs við hann; vopnahlè, er standa skyldi um 26 ár, var að nýju samið við Pólverja; Axel Oxenstjerna var farinn heim til Svíþjóðar. Kjörfurstinn af Saxen, Jóhann Georg, sem ætlaði að binda enda á loforð sitt við keisarann, og reka í samfèlagi með honum Svía burt af Þýzkalandi, setti fyrst Jóhann Banèr þá skilmála, er hann eigi gat gengið að, og því næst hèlt hann liði sínu í móti honum; urðu með þeim ýmsar orustur, og veitti Svíum optast betur. Um síðir áttu þeir Jóhann Banèr og Torstensson orustu við Saxa og Austurríkismenn hjá *Wittstokk* í Brandenborg (í sept. 1636), og unnu þar mikinn og frægan sigur. Hefndu Svíar sín þá grimmilega á kjörfurstanum og ríki hans, og fóru með báli og brandi yfir Saxland. Aðfarir þeirra voru nú orðnar engu betri en keisarans manna, og mjög ólíkar því, er tíðkazt hafði meðan Gustaf Adolf var uppi og átti yfir að ráða. Ófriður hafði nú staðið í mörg ár á Þýzkalandi; ýmsir herflokkar farið aptur og fram um bygðina, ruplað og rænt eignum manna, og brent borgir og bæi; mörg hèröð, sem áður voru blómleg, voru nú í eyði, svo að engu kvikindi var þar lífvænt, mannfólkið víða dáið af sulti og drepsóttum, eða flúið undan til annara landa. Jóhann Banèr kemst svo að orði í brèfi einu, er hann (1638) ritar borgarmönnum í Erfurt, sem Saxar hèldu þá í umsát: «eg væri fyrir löngu kominn til hjálpar við yður, ef allar sveitir milli Oderfljóts og Elfar væru eigi komnar í þá auðn, að hvorki hundum eða köttum, því síður mönnum og hestum, er þar lífvænt. Um slík lönd, er óvinir vorir hafa orðið að rýma fyrir sulti og seyru, get eg als eigi farið með mína menn, nema þeir bíði meira tjón en af orustu og ósigri».

Þegar Ferdínand keisari var búinn að semja friðinn í Prag við kjörfurstann af Saxen, og eptir að hann hafði fengið sigur yfir Svíum í bardaganum við Nördlingen, gat hann fyrst komið

því til leiðar, að Ferdínand sonur hans var kjörinn til keisara eptir hans dag, og litlu síðar, er keisarinn hafði þannig ráðstafað sínu húsi, þá andaðist Ferdínand annar (í febr. 1637). Hann hafði stýrt ríki sínu með mikilli staðfestu, og aldrei látið hugfallast þó á móti blèsi, en hann hafði að fullu og öllu eytt prótestanta trú í erfðalöndum sínum, og því verður eigi móti mælt, að trúarofsi hans hafði leitt lángvint stríð yfir landið, og svipt margar þúsundir manna lífi og efnum. Það er sagt, að þá er hann tók við ríkisstjórn væru íbúar í Böhmen um 3 milliónir manna, en vart 800 þusundir, er hann dó. Klerkar og kristmúnkar rèðu helzt of miklu hjá honum; þeir voru í hans augum æðri öllum mönnum, og hann kvað eitt sinn hafa látið sèr þau orð um munn fara, að ef hann mætti á leið sinni engli og klerki, þá ætlaði hann að láta klerkinn sitja í fyrirrúmi, og heilsa honum fyr en hinum.

Keisaraskiptin gjörðu litla sem enga breytíngu á ófriðnum. Suður og vestur í Rínar-löndum barðist Bernharð hertogi við Gallas og ýmsa aðra af hershöfðíngjum keisarans, og varð þeim öllum yfirsterkari eptir að hann hafði fengið liðveizlu nóga af Frakklandi, svo að í árslok 1638 hafði hann unnið af Austurríkismönnum alt Elsaz. Þar ætlaði hann að setja ríki á stofn handa sèr beggja megin við Rín-fljótið, en þá dó hann snögglega (í júlí 1639) á 35. aldurs ári. Þau lönd, sem hann hafði unnið, tók Richelieu, en lið það, er hertoganum hafði fylgt, gekk á mála hjá Frökkum.

Norður á Þýzkalandi átti Jóhann Banèr í höggi við herlið keisarans og þá bandamenn hans. Var Gallas kominn þángað norður með miklu liði og hafði þar yfirstjórn, en Banèr veitti þó betur, og hrakti mótstöðumenn sína suður á Slesíu og suður í Böhmen. Því næst var það áform hans að halda suður á Baiern til móts við Bernhard hertoga og vera í fèlagi með honum, en þá dó hertoginn, svo að sú fyrirætlun varð að engu. Nú var svo komið, að ýmsir æsktu friðar, og lèt keisarinn (Ferdínand þriðji) þá tilleiðast og stefndi fund í Regensborg (1640); komu þángað kjörfurstar nokkrir og fleiri þjóðhöfðíngjar og settust á ráðstefnu. Þá kom Jóhann Banèr til hugar, að gjöra þeim grikk, og taka þá alla höndum. Um þetta leyti hafði hann aðsetu í Brúnsvík; það var um hávetur (í janúar 1641), og engan

grunaði neitt. Þá er minst varði var Jóhann Banèr kominn með her manns suður að Regensborg, og eigi annað í milli hans og borgarinnar en Dóná. En þá vildi svo til, að alt í einu kom bláka og leysti allan ís af fljótinu. Var þá þeirri ráðagjörð lokið. Banèr varð að halda undan og norður aptur, en Piccolomíni og Leopold erkihertogi bróðir keisarans, eltu hann með ofurefli liðs; þó fengu þeir honum lítið mein gjört, og varð hann þeim hvað skæðastur, er að honum krepti sem mest. Á þessari vetarferð sinni varð hann sjúkur, en gaf sèr enga hvíld, því að nóg var til starfa. Hann dó í maí-mán. 1641, og hafði lifað 44 ár. Hann þótti ágætur hershöfðíngi á sinni tíð, og hafði aldrei beðið ósigur í orustum. Eigi var það við skap hans að sækja eður verja víggirða staði, en hitt átti við hann, að fást við óvini sína á víðavángi; þó hann væri ákafamaður mikill, djarfur og framgjarn, þá rasaði hann aldrei fyrir ráð fram, og hafði gát á hverju einu, áður hann lagði til orustu; honum var mjög ant um liðsmenn sína, og vildi aldrei stofna þeim í hættu að óþörfu, en óvinum sínum var hann hinn sárbeittasti; það er sagt, að þau ár sem hann hafði herstjórn á hendi, hafi fyrir honum fallið af Saxlendíngum 30 þúsundir. og af keisarans mönnum 60 þúsundir. Hann var eigi ósvipaður Gustaf Adolf í andliti, en svo líkur honum á vöxt, að sumir villtust á því.

Litlu áður en Jóhann Banèr dó, hafði hann falið yfirstjórn hersins á hendur þremur af liðsforíngjum sínum, þángað til hin sænska stjórn gjörði þar á aðra skipun. Einn af þessum þremur var *Karl Gustaf Wrangel*, er síðan varð mjög nafnfrægur. Foríngjum þessum fórst herstjórnin allvel, og höfðu sigur í viðskiptum við Austurríkismenn, en þeim samdi sjálfum eigi sem bezt, og var þá við illu einu að búast. Stjórnin sænska hraðaði því sem mest, að nýr yfirforíngi yrði settur til herstjórnar. Lennart Torstensson var reyndar sjálfkjörinn til þeirrar sýslu, en hann var þrotinn að heilsu, síðan hann sat í varðhaldi Austurríkismanna, og var nú heima í Svíþjóð, og hafði einsett sèr að lifa þar í kyrð og næði það eptir væri. Fyrir bænastað Axels Oxenstjerna, tókst hann þó á hendur yfirstjórn hersins, og þótti það þjóðhamíngja, því að aldrei var herstjórn Svía í betri höndum en Lennarts, síðan Gustaf Adolf leið. Þó hann tæki sjaldnast á heilum sèr, og gæti sökum fótaveiki hvorki riðið

eða gengið, og þó hann yrði löngum að láta bera sig í rúmi, eða aka sèr á vagni, þá var hann eins og eldíng aptur og fram um alt Þýzkaland; og rættist það fyllilega sem Gustaf Adolf hafði sagt, að í Lennart byggi sitt bezta hershöfðíngja efni. Það brá og undir eins við, er hann var tekinn við æztu herstjórn; öll regla og siðprýði batnaði meðal liðsmanna, rán og rupl leyfðist als eigi, og brá í mörgu til þess sem verið hafði meðan Gustaf Adolf hafði sjálfur herstjórn. Torstensson kom til hersins á öndverðum vetri 1641, og tók þá við yfirráðum; ætlaði hann þá þegar að veita óvinum sínum atgöngu, en hersveitir þær, er Frakkar höfðu sent til liðs við Svía, urðu þá að hverfa heim aptur, því að Richelieu kallaði og kvaðst þurfa þeirra við annarstaðar; þóttist Torstensson þá of liðfár. Þá er komið var fram í marzmánuð og dag tók að lengja, lagði hann af stað úr vetrarbúðum sínum og hèlt til Slesíu. Þar kom Franz Albert hertogi (sem áður hafði verið með Gustaf Adolf), í móti honum með her manns og barðist við hann; lauk þeirra viðskiptum svo, að Torstensson fèkk sigur, en hertoginn fèll. Eptir það lögðu Svíar undir sig alla Slesíu, og hèldu þaðan suður á Mähren, tóku þar ýmsar borgir, þar á meðal kastalaborgina Olmütz, og lètu þar eptir setulið. Í Olmütz höfðu Svíar hið öruggasta vígi, og gjörðu þaðan árásir á landið víðvegar í kríng; þótti Austurríkismönnum mikið mein að því, en gátu þó eigi viðgjört, og sátu Svíar þar alla stund síðan þángað til friður komst á.

Nú ætlaði Torstensson sèr að halda til Wínarborgar, því að skamt var orðið þángað, og kúga keisarann til friðar, en til þess vantaði hann bæði nógan liðsafla, og honum tókst heldur eigi að ná tveimur víggirtum borgum í Mähren, er hann þóttist viðþurfa til þess að geta verið óhultur svo lángt suður í löndum, sem hann nú var kominn. Þess vegna hèlt hann aptur norður í leið, þá er úthallaði sumri; en nú hafði Piccolomini safnað miklu liði og veitti Svíum þegar eptirför; beittust þeir síðan brögðum lángt á haust fram, og leikurinn barst norður á Saxland; vildu hvorugir á aðra ráða, þángað til um síðir (23. Okt. 1642) að til orustu kom skamt frá Leipzig (við Breitenfeld), þar sem Gustaf Adolf og Tillý höfðu barizt fyrir ellefu árum. Liðsmunur var lítill. Svíar höfðu hèr um bil sömu stöðvar sem Tillý hafði haft, en þeir Piccolomini sóttu norðan að eins og

Gustaf Adolf. Torstensson fylkti liði sínu þannig: í hægra fylkíngararmi rèð Wittenberg hershöfðíngi fyrir hinum fremri sveitum, en Stálhandski fyrir hinum aptari, og stóðu þar tvennar fylkíngar Austurríkismanna í móti. Fylkíngarbrjóstinu stýrðu þeir Liljehök og Karl Gustaf Wrangel, en á baki þeim stóð Axel Lilje með sínar sveitir. Í vinstra fylkíngararmi var Slange fyrir framfylkíngum, en Konigsmark fyrir hinum aptari. Bæði í móti brjóstfylkíngum Svía og hinum vinstra fylkíngarmi höfðu Austurríkismenn skipað tvennar fylkíngar, eins og siður var þá til. Fallbyssuliðið byrjaði orustuna; gengu hvorirtveggja vel fram og börðust lengi dags, þar til um síðir að flótti brast í liði Austurríkismanna. Fèllu þar af þeim um 5000 manna, og viðlíka margir urðu handteknir. Svíar mistu um 2000, og tvo af sínum efnilegustu hershöfðíngjum: Liljehök og Slange. Hinn fyrnefndi átti að verða eptirmaður Torstenssons, ef hann hefði lifað, hinn síðarnefndi var nefndur Svíaríkis Leonídas; hann hafði einkum sýnt afbragðs hreysti hinn síðasta vetur sem Jóhann Banèr lifði, þá er Piccolomini veitti þeim eptirförina. Í þessari orustu var Karl Gustaf, er síðan varð konúngur í Svíþjóð; hann var þá sveitarforíngi og þótti vel duga. Eptir þenna mikla sigur gafst Leipzig upp, og lagði Torstensson þar þúng gjöld á þegna kjörfurstans. Þessu næst hèldu Svíar aptur austur yfir fjöll og Suður á Mähren, því að Torstensson hafði fast í huga að taka Wínarborg. Piccolomini var sendur til Niðurlanda móti Frökkum, en Gallas tók aptur við yfirstjórn hins austurríkska herliðs; þótti Svíum það enginn skaði, því að Gallas var að vísu sèður hershöfðíngi og gætinn, en hann skorti bæði dugnað og hreysti á við Piccolomini.

Af því, sem áður hefir verið sagt, vita menn, að einatt hafði ófriður verið milli Svía og Dana. Og þó að þeir væru sáttir að kalla, síðan þeir sömdu friðinn í Knæröð 1613, vildi þó aldrei um heilt gróa með þeim. Þegar Gustaf Adolf var farinn að vinna lönd af Pólverjum með Eystrasalti, og einkum eptir að hann hafði náð fótfestu í Pommern, og frægð hans og framgánga jókst á Þýzkalandi, þá fór Kristjáni fjórða að þykja nóg um uppgáng Svía, og þóttist sjá fyrir, að þeirra veldi yrði sèr og Danmörku engu hættu minna en keisarans. Við þessu vildi Kristján sporna; þannig reyndi hann til á ýmsa vegu að stöðva sigursæld

þeirra á Þýzkalandi, og í annan stað gjörði hann verzlun Svía hið mesta ógagn með ýmsum kröfum og ýmsum tollum, er hann lagði á skip þeirra þau, er leið áttu um Eyrarsund. En verzlun Svía var þá á miklum framfaravegi. Mundi Kristján fjórði hafa gjört í þessu efni margt og mikið, ef ríkisráðið hefði eigi dregið allan dug úr framkvæmdum hans. Eptir því sem fram liðu tímar magnaðist óvildin hjá hvorumtveggja, þángað til 1643, er hèr var komið, að Axel Oxenstjerna, eða, með öðrum orðum, hin sænska stjórn, bauð Torstensson að sleppa keisara um stundarsakir, en snúast við Dönum og jafna á þeim. Torstensson var staddur suður í Mähren, er honum komu þau boð (í septembermán.) frá Stokkhólmi, að hann skyldi halda liði sínu til Danmerkur og gjalda Kristjáni fjórða makleg málagjöld. Þessi ráðagjörð Svía fór svo leynt, að Dönum kom engin njósn fyr en um seinan. Torstensson hagaði ferð sinni svo kænlega, að Austurríkismenn hugðu, að hann mundi ætla vestur á Falz og láta þar fyrirberast vetrarlángt, og svo var hann þá fljótur í förum, þótt aldrei tæki á heilum sèr, að hann fór 100 mílur vegar á hálfum mánuði og það um vetur. Þrettánda dag desembermánaðar hèlt hann liði sínu inn á Holsetaland, og tók þar hverja borg á fætur annari. Í annan stað söfnuðu Svíar liði heima hjá sèr, og sendu það suður í land til að ráðast á Skán, Halland Blekíng, sem Danir þá áttu; yfir þann her var settur Gustaf Horn, er þá var nýkominn heim úr varðhaldi á Þýzkalandi. Þar hafði hann setið 10 ár, og þorðu Austurríkismenn eigi að láta hann lausan alla þá stund; svo mikið þótti í hann varið; en um síðir lètu þeir þó tilleiðast með því skilyrði, að þeir fengu í móti þrjá af sínum hershöfðíngjum úr varðhaldi Svía. Í þriðja lagi bjuggu Svíar herflota sinn; voru skip þeirra bæði mörg og vel búin; en Klas Flemíng hafði þar yfirstjórn. Hann var einn í stjórnarráðinu og í öllu hinn merkasti maður. Auk þessa hafði maður einn í Svíþjóð, en ættaður af Niðurlöndum, að nafni *Ludvig de Geer*, á sjálfs síns kostnað gjört út herskipaflota í Niðurlöndum til liðs við Svía. Þannig var afráðið, að sækja Dani bæði á sjó og landi, bæði að sunnan og að norðan. Við þessu ofurefli máttu Danir eigi, enda lagði Torstensson undir sig alt meginlandið: hertogadæmin og Jótland norður á Skaga; en Gustaf Horn vann því nær alt það land, er honum var ætlað að

vinna; en eyjunum náðu þeir ekki, því að Kristján fjórði varði þær svo harðfengilega á skipum sínum, að Svíar komust aldrei þángað. Hefir áður verið sagt af hans framgöngu í ófriði þessum (sjá bls. 145 og 146). Í þessum vandræðum leituðu Danir liðs hjá ýmsum þjóðum, en engin vildi verða við bón þeirra, nema Austurríkiskeisari, hann sendi um síðir Gallas með liði nokkru til Holsetalands; en Gallas var þar næsta aðgjörðalítill. Um þessar mundir lá Klas Flemíng með sænska flotann á Kílarfirði, og komst eigi út, því að bæði hamlaði vindur og svo lágu herskip Dana þar í fjarðarmynninu og vörðu hinum útsiglíngu. Kristján konúngur hafði komið þar á land hersveitum nokkrum, er skjóta skyldu á sænska flotann og eyða honum þannig ef kostur væri, en skipin lágu svo lángt undan landi, að skotin náðu þeim eigi til skemda, og þó fengu Svíar hið mesta tjón, því að ein af þeim fáu kúlum, sem náðu skipunum, hitti sjálfan admiralinn Klas Fleming, og fèkk hann bana af. Litlu síðar kom Torstensson þángað, og rèð þegar á hersveitir Dana og drap þar hvert mannsbarn, og hefndi þannig Flemíngs. Þessu næst var Karl Gustaf Wrangel (sá hinn sami sem áður er nefndur), settur yfir flotann; kom þá litlu síðar hagstæður byr, en flotinn lagði út og hèlt til hafs, og þá var það, að Galte flotaforíngi Dana lèt Svía sleppa undan. Um haustið það hið sama ár (13. okt.), þá er skip Ludvigs Geers voru komin til móts við Wrangel, barðist hann við Pros Mund og vann sigur á honum. Torstensson hafði um þessar mundir komið Gallas út úr Holsetalandi, barizt við hann suður í Brandenborg hjá bæ þeim, er heitir *Jüterbokk*, og fengið sigur, svo að nú var Dönum eigi framar liðsvon úr þeirri átt. Þrengdi þá svo að þeim, að þeir urðu að semja frið við Svía í Brömsebro (13. ágúst 1645), og gánga að hörðum kostum, eins og áður er sagt.

Þegar Torstensson hafði lokið erindum sínum við Dani, og unnið sigur á Gallas, eins og nú var sagt, hèlt hann liði sínu viðstöðulaust suður á Böhmen, og ætlaði til Wínar. Keisarinn var liðfár og í vandræðum, sendi því út um allar jarðir til að safna að sèr fè og mönnum, og varð heldur vel til, svo að hann gat þó fengið um 16000 vopnaðra manna, en nú var eigi Gallas settur til yfirstjórnar, heldur sá maður, er *Hatzfeld* hèt, og þótti nýtur hershöfðíngi, en næstir honum gengu að völd-

um hershöfðíngjarnir *Götz* og *Jóhann de Werth;* hinn síðarnefndi var orðlagður fyrir hreysti og harðfengi. Svíar voru komnir suður hjá Prag, er þeir Hatzfeld mættu þeim hjá bæ þeim, er *Jankówitz* heitir (24. febr. 1645); tókst þar hin harðasta orusta og lauk svo, að Torstensson vann sigur; fèllu 4000 af keisarans mönnum, en aðrar fjórar voru höndum teknar. Aðalforínginn Hatzfeld var handtekinn og fimm aðrir hershöfðíngjar með honum, og undir 200 sveitaforíngja, en Götz fèkk bana; þeir, sem af komust, flýðu alslausir; allur farángur og allar fallbyssur komust í hendur Svía. Var þessi einn hinn frægasti sigur sem Svíar unnu í þrjátigi ára stríðinu. Nú var eigi annað sýnna, en að Torstensson mundi taka Wínarborg, og það því heldur, sem Ragokzý Siebenborgar jarl, kom til liðs við hann. En er á skyldi herða, hafði Torstensson fremur ógagn af því sambandi: því bæði reyndust menn Ragokzýs lausir í vistinni og struku heim til sín hópum saman, og þar að auki fluttu þeir sótt með sèr, svo að fjöldi Svía sýktist og dó; en er minst varði, sættist Ragokzý við keisarann, og sá Torstensson sèr þá eigi fært, með því liði er hann hafði eptir, að taka Wínarborg; þar til kom og, að honum vesnaði iktsýkin, svo að hann var als eigi ferðafær. Af öllu saman þessu rèð hann af, að halda norður aptur í Böhmen, og láta herliðið hafa þar vetursetu; en sjálfur lagði hann niður hervöldin; tók þá Karl Gustaf Wrangel við yfirstjórn í hans stað. Wrangel hafði mikið orð á sèr fyrir viturleik sinn og hreysti, og gefizt hafði hann vel bæði á sjó og landi; en af því að hann var enn á únga aldri, þá var Torstensson beðinn, að vera í nánd við hann fyrst um sinn og sjá á með honum, og svo varð. Það ber öllum saman um, að af öllum lærisveinum Gustafs Adolfs, hafi Torsteinsson gengið honum næst, að allri hermennsku og hernaðar kunnáttu, og svo sögðu óvinir Svía, að heldur vildu þeir 10000 manna í móti sèr, en Torstensson einan. Hinn nafnfrægi frakkneski hershöfðíngi *Turenne* kvaðst mikið og margt hafa lært af Torstensson, en Karl tíundi alt sem hann kynni.

Vestur í Rínarlöndum höfðu Frakkar þau árin, sem liðin voru frá dauða Bernharðs af Weimar, barizt bæði við lið keisarans og við lið Maximilians kjörfursta af Baiern, en haft í fullu fángi; og margar borgir og hèröð, sem Bernharð hafði unnið,

voru Frakkar búnir að missa þar, árið 1644, þegar *Mazarín* kardináli, er kominn var eptir Richelieu til stjórnarforráða á Frakklandi, sendi tvo ágæta hershöfðíngja, *Turenne* og hertogann af *Enghien* (er seinna var alment nefndur prinz af *Condé*) til Þýzkalands; fengu Þjóðverjar þá eigi rönd við reist, og Frakkar náðu aptur þeim borgum og bygðum, er undan voru gengnar.

Þegar Karl Gustaf Wrangel hafði tekið við yfirstjórn hersins, þóttist hann sjá, að eigi mundi sèr duga að komast til Wínarborgar um Böhmen og Mähren, úr því að hvorki Torstensson eða Jóhann Banér höfðu þann veg komizt fram. Hann einsetti sèr því, að fara þá leið, er Gustaf Adolf hafði ætlað að fara, en það var um Baiern og þaðan ofan með Dóná; en af því hann þóttist eigi að svo stöddu hafa nógan liðsafla, þá hèlt hann liði sínu vestur í leið frá Böhmen og til móts við Turenne. Hèldu þeir síðan í sameiníngu öllu liðinu inn á Baiern og kreptu svo að Maximilian kjörfursta, að hann varð að flýja austur á landamæri; en Baiern komst öll í hendur Svía og Frakka, og var nú eigi annað sýnna, en að þeim mundi þaðan greiður vegur til Austurríkis. Königsmark, einn af hershöfðíngjum Svía, hafði og um þessar mundir setzt um Prag og náð öðrum hluta borgarinnar, er hèt *litla Prag*. En þá komu þau tíðindi, að friður væri saminn. Þannig endaði þetta lángvinna stríð í Prag, þar sem það hófst fyrir þrjátigi árum.

Það er sagt, að Þýzkaland hafi verið eitt með blómlegri ríkjum, áður en þrjátígi ára stríðið hófst; mannfjöldinn var þar mikill og velmegun að því skapi. En nú þegar hèr var komið voru þar á orðin ógnarleg umskipti. Hinar mörgu hersveitir af ýmsum þjóðum, sem á ófriðarárunum fóru fram og aptur um landið, höfðu eyðilagt það með báli og brandi, og sumar þeirra af svo mikilli grimd, að þau bygðarlög voru til, að ekki sást þar kvikt eptir, hvorki menn nè skepnur; íbúar voru annaðhvort dauðir eða burtu flúnir; fènaður allur höggvinn og uppetinn; borgir sáust eigi eður bæir, heldur rústir einar og öskuhaugar; akrar ósánir um mörg ár og komnir í órækt; stór og blómleg hèröð orðin að eyðimörkum. Þess skal getið svo sem til dæmis, að einn af hershöfðíngjum keisarans, er *Melander* hèt, lèt á herferð sinni um Hessen, árið 1647, brenna 17 borgir, 30 hallir og 300 stórbæi; þó var Melander eigi kallaður grimmur maður, og

Hessen mátti heita lítið land; Vürtemberg hefir hvorki fyr nè síðar verið mikið ríki eður mannmargt, þó hafði þar fækkað um 58000 býli á þessum ófriðarárum. Svíar höfðu að öllu samtöldu beðið lítið tjón í samanburði við Þýzkaland, þó mistu þeir á Þýzkalandi um 83000 manna, á þeim 18 árum, sem þeir börðust þar.

Á hinum síðustu árum Jóhanns Banérs voru Þjóðverjar orðnir svo aðþrengdir, að þeir beiddu keisarann að semja frið, og gjöra endir á eymdum lands og lýða; en þó Ferdinand þriðji væri óharðari maður en faðir hans hafði verið, þá var hann, eins og fleiri af þeim Habsborgarmönnum, þèttur fyrir og vildi heldur þrauka við, og sjá hvort eigi raknaði úr fyrir sèr, en sættast að svo komnu; með því og að lönd hans höfðu velflest liðið miklu minna að tiltölu en Þýzkaland. Hinir tveir málsaðilar, Frakkar og Svíar, þóttust hvorugir að svo stöddu hafa ástæðu til að semja frið. Frakkar voru hvergi nærri búnir að þröngva svo að kostum Austurríkiskeisara, sem þeim bjó í skapi, og Svíar kváðust margt eiga eptir ógjört enn á Þýzkalandi, bæði fyrir sig og aðra. Þó voru (árið 1641) kvaddir til menn[1], er reyna skyldu, að koma sèr niður á aðalatriðum friðarins, og sátu þeir á ráðstefnu svo árum skipti, þar til um síðir, að friður var saminn 24. október 1648, í *Osnabrück* (milli keisarans og katólskra manna annarsvegar og Svía og siðabótar manna hins vegar) og *Münster*[2] (milli Þjóðverja og Frakka). Höfuðatriði friðarsamníngsins voru þessi:

1. *Frakkland* fèkk *Elsaz*, sem Austurríki áður hafði átt, og þar að auki biskupsdæmin *Mez*, *Toul* og *Verdun* til fuls og als (sjá bls. 42). Öll þessi hèröð losnuðu þannig algjörlega við Þýzkaland.

1) *Jóhann Oxenstjerna*, sonur Axels, var annar af þeim, sem sendur var af hendi Svíþjóðar til að semja friðinn. Er mælt að honum hafi þótt það vandasamt erindi, og talizt undan, en þá hafi faðir hans sagt: »*An nescis, mi fili, quantilla prudentia mundus regatur?*« þ. e. veiztu eigi, sonur minn, hve lítilla hygginda viðþarf til að stjórna heiminum?

2) Borgirnar Osnabrück og Münster voru báðar í *Westfalen*; það er á Þýzkalandi vestarlega; dregur því friðurinn þaðan nafn og er kallaður: *hinn westfalski friður.*

2. *Svíaríki* eignaðist *Vestur-Pommern* (Forpommern) og nokkuð af *Austur-Pommern* (*Stettin* o. s. frv.), eyjuna *Rügen*, *Vismar-borg* með nokkru landi þar umhverfis, biskupsdæmin *Bremen* og *Verden;* en öll þessi lönd skyldu samt, eins og að undanförnu, vera í þýzku þjóðsambandi, og Svíakonúngur þannig hafa atkvæðisrètt á ríkisþíngi (ríkisdegi) Þjóðverja. Enn fremur fengu Svíar í peníngum 5 milliónir ríkisdala.

3. *Brandenborg* fèkk Austur-Pommern (að því undanskildu sem Svíar fengu). En af því að Svíar fengu meiri hluta Pommerns, sem kjörfurstinn í Brandenborg að rèttum erfðum átti að hafa, eptir að hertoginn í Pommern var dáinn, þá fèkk Brandenborg þar að auki biskupsdæmin *Magdeborg*, *Halberstadt* og *Minden*. Brandenborg hafði áður (1618) fengið hertogadæmið Eystra-Prússland, og varð nú þannig voldugt ríki á Norður-Þýzkalandi. Um þetta leyti rèð *Friðrik Vilhjálmur* kjörfursti fyrir Brandenborg (1640—1688), stórvitur maður, og hinn ágjarnasti til fjár og landa.

4. *Baiern* fèkk að mega heita kjörfurstadæmi, en það tignarnafn hafði hertoginn í Baiern fengið, þá er Friðrik af Falz var gjörður útlægur. Svo var og Efri-Falz lögð undir Baiern, en Neðri-Falz var fengin í hendur syni Friðriks, og hann um leið gjörður að kjörfursta (hinn 8.; sjá Miðaldasöguna bls. 174).

5. *Sveizaland* (eða *Svissland*) og *Niðurlönd* skyldu hèðan í frá vera sjálfum sèr ráðandi, og að öllu óháð Þjóðverjum eða Spánverjum. Það höfðu þau reyndar verið um mörg ár, en sjálfsforræði þeirra var eigi að fullu viðurkent fyr en nú, að hèr var komið.

6. *Hinir þýzku þjóðhöfðíngjar* urðu *einvaldar* hver í sínu ríki, og heimilt upp frá þessu, að gjöra samband við erlendar þjóðir og konúnga. Yfirráð keisarans yfir Þýzkalandi urðu því nær engin, en öll sameiginleg þjóðmálefni landsins voru lögð til *ríkisdagsins*, er optast nær var haldinn í Regens-

borg. Höfðu þjóðhöfðíngjar og lyðveldisborgirnar (hinar frjálsu borgir) þar atkvæðisrètt, en málin gengu þar einatt seint og sigalega, og samkomulagið sjaldnast hið bezta.

7. Þrjátígi ára stríðið var upphaflega *stríð um trúarbrögðin*, en, eptir því sem lengra leið fram, var minna hugsað um trúna, og menn börðust eingöngu um verzleg yfirráð, einkum eptir að Frakkar komu til sögunnar. Nú var svo um samið, hvað *trúarbrögðin snerti*, að friður sá, sem gjörður hafði verið í *Augsborg* (1555, sjá bls. 43.), var staðfestur, og *skilyrði* páfatrúarmanna, sem áður er nefnt, var úr felt. Öll kirkjuleg málefni skyldu, að því leyti unt væri, látin standa við það, sem þau hefðu verið 1. janúar 1624. Calvínstrúarmönnum var veitt jafnrètti við prótestanta. Skipti landshöfðíngi um trúarbrögð, var honum heimilt að haga guðsþjónustu við hirð sína samkvæmt sinni trú, en þegna sína varð hann að láta sjálfráða í þeim efnum. En eigi náði þessi friður til prótestanta í Austurríki.

Þannig endaði þessi mikli og lángvinni ófriður, er gengið hafði yfir Þýzkaland því nær um fullan mannsaldur, og haft í för með sèr svo margvíslega eymd og óhamíngju fyrir land og lýð, eins og áður er sagt; það ræður að líkindum, hvernig ástandið hafi verið þar í landi, og þó að nú talsvert rýmkaði um andlegt frelsi manna og trúarbrögð, þá voru Þjóðverjar orðnir svo vanmegna eptir allar hinar lángvinnu þrautir, að þjóðhöfðíngjarnir gátu krept að kjörum þeirra og kostum, hver eptir því sem hann var skapi farinn. Höfðíngjar þessir reyndu því, hvað þeir kunnu, að auka völd sín og yfirráð, hver í sínu ríki, bæði gegn keisaranum og yfir þegnum sínum; þeir lögðu skatt á lýðinn eptir sjálfs síns geðþótta, og, ef að því var fundið, þá höfðu þeir fastalið þegar við höndina, til þess að bæla allan mótþróa niður. Margar lýðstjórnarborgir urðu að lúta þessum landshöfðíngjum, svo að sjálfsforráð þeirra hurfu og urðu að engu. Öll innanlandsverzlun var lögzt í dá, og komin í hendur Hollendínga og Englendínga. Hansastaða-fèlagið var orðið að engu; það var að eins Hamborg, Lübek og Bremen, sem hèldu nafninu eptir. Þýzkaland mátti heita dottið í mola, og ekkert var gjört

innanlands til þess að sameina hina sundurdreifðu parta. En hins vegar lèt Frakkastjórn sèr allant um, að efla sundurlyndið. Líkamleg velmegun hinna þýzku þjóða var lengi að ná sèr aptur; en þjóðarandinn var fjarlægur orðinn vísindum og íþróttum; hið litla lífsmark, sem með honum var, sýndi sig helzt í því, að laga hvað eina sem mest eptir frakkneskri fyrirmynd.



# NÝJA SAGAN

EPTIR

PÁL MELSTEÐ.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

II. HEPTI.

(1648—1721).

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1870.

# NÝJA SAGAN

EPTIR

PÁL MELSTEÐ.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

II. HEPTI.

(1648—1721).

---

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1870.

# YFIRLIT EFNISINS.

---

## ANNAR KAFLI.

Frá vestfalska friðnum til stjórnarbyltíngarinnar á Frakklandi (frá 1648 til 1789).

# Annar kafli.

## Frá vestfalska friðnum til stjórnarbyltíngarinnar á Frakklandi.

(frá 1648 til 1789).

---

### Inngángur.

Þar lukum vèr síðast frásögn vorri, er hinu harða og lánga *þrjátígi ára stríði* var lokið, og friður saminn á Vestfali 1648. Það er einkennilegt við ófrið þenna, að hann var hafinn og framan af háður mestmegnis vegna trúarbragðanna. Keisarinn og þeir, sem hann studdu, börðust til þess að vernda hið forna einveldi katólsku kirkjunnar, og þá jafnframt yfirráð sjálfra sinna yfir löndum og lýðum. Prótestantar gripu til vopna til þess að vernda trú sína og andlegt frelsi gegn ofríki keisarans og hinna katólsku klerka. En þessi trúarblær, sem á öndverðum árum þrjátígi ára stríðsins var yfir mönnum og aðgjörðum þeirra, hann breyttist og hvarf að mestu eptir því sem fram sókti í ófriðinn og fleiri komu til sögunnar. Einkum eptir að Frakkar skerast í leikinn og veita Svíum, kemur önnur stefna í ljós. Þá er barizt um veraldleg efni og verzleg yfirráð; trúin og hið andlega frelsi er eigi lengur hið æzta hnoss, sem um er barizt, eins og bezt sèst af því, að Frakkastjórn, sem var katólsk, veitti prótestöntum á Þýzkalandi gegn katólskum mönnum, en kúgaði trúarbræður prótestantanna heima á Frakklandi, og eyddi þeim þar á allar lundir. Það var eigi prótestanta trúin, eða andlegar framfarir Þjóðverja, sem Frakkastjórn vildi efla, það var veldi Habsborgarmanna (keisarans á þýzkalandi og konúngsins á Spáni), sem hún vildi veikja; Frakkastjórn vildi sjálf verða sem sterkust, en í annan stað hitt, að nágrannaþjóðirnar yrðu sem veikastar. En

alt um það, af hvaða rótum sem þessi liðveizla Frakkastjórnar var runnin, þá kom hún prótestöntum á Þýzkalandi í góðar þarfir, og átti sinn þátt í því, að þeir náðu viðunandi kostum í vestfalska friðnum, eins og fyr er ritað.

Páfaveldið hafði um undanfarnar aldir drotnað yfir flestum þjóðum og þjóðhöfðíngjum Norðurálfunnar. Sú yfirdrotnan hvarf að fullu og öllu í þeim löndum, er hinn nýja sið tóku. En þegar hèr var komið, og þjóðhöfðíngjar í löndum prótestanta leystust undan páfans valdi, og fengu frjálsari hendur og meiri yfirráð en áður, þá hugði hver þeirra helzt á það, að ná sem mestu valdi yfir þegnum sínum, enda varð þeim það eigi torsótt víðast hvar, því að bæði höfðu þeir vopnað lið við að styðjast, ef á mótþróa bryddi, og hins vegar hafði alþýða manna lengstum vanizt ófrelsi og sætt yfirráðum klerka eður aðalsmanna; hún þekti eigi þjóðfrelsi, og henni þótti þá eigi skipta um til lakara þó einn rèði, í stað þess, að áður höfðu margir ráðið yfir henni. Þannig komst valdið smásaman í hendur á þjóðhöfðíngjanum einum, hvort sem hann nú hèt konúngur eða öðru nafni. Það er því eitt hið helzta, sem einkennir það tímabil sögunnar, er hèr fer í hönd, að *einveldið* ryður sèr til rúms því nær í allri Norðurálfunni. Þó er það engan veginn svo að skilja, að það hafi eingöngu átt sèr stað í löndum prótestanta; alt hið sama varð ofan á í katólskum löndum; þannig hafði Karl fimti og Filippus annar sonur hans náð fullu einveldi yfir Spáni, en mikla ríkast og ramast varð þó einveldið á Frakklandi, þar sem Richelieu og síðan Loðvík fjórtándi brutu alt undir sín yfirráð og urðu fyrirmynd annara einveldismanna um lángan aldur.

Þau lönd, sem helzt verður um sagt að eigi lytu einveldinu, voru Sveiz og Niðurlöndin, England og Pólland, og Úngarn og Svíþjóð að nokkru leyti.

Það voru að vísu í flestum löndum einskonar þjóðþíng, eður fulltrúaþíng, er átt höfðu sèr stað framan úr miðöldum, og rèðu lagasetníngu og skattálögum ásamt með konúngum sínum eða landshöfðíngjum, og takmörkuðu þannig vald þeirra að nokkru leyti, — höfðu þíng þessi ýms nöfn hjá þjóðunum; á Englandi hèt það *parlament*, á Frakklandi *aðalstèttir (les états généraux)*, á Spáni *Cortes*, á Þýzkalandi *landsstèttir*, í Danmörku *Danehof* og seinna *herradagur* o. s. frv. — en alt um það gátu lands-

höfðíngjarnir, eptir því sem tímar liðu fram, gjört atkvæði slíkra þínga næsta þýðíngarlítil með tilstyrk hermanna sinna. Enda máttu slík þíng eigi þjóðþíng heita, því að á þeim sátu almennast einskonar umboðsmenn eða erindsrekar stèttanna, eður flokka þeirra, sem landsfólkið greindist í á þeim tímum, þ. e. aðalsmanna, klerka og borgara (bændastèttarinnar gætti als eigi), og þessir sundurgreindu flokkar þjóðfèlagsins voru einatt sundurþykkir, varð því næsta auðvelt ráðríkum eða kænum landshöfðíngja, að ná undir sig öllum yfirráðum.

Það, sem þessir einvöldu landshöfðíngjar urðu fyrst og fremst um að hugsa, var, að hafa vígbúið herlið á reiðum höndum, en til þess þurfti ærið fè, og varð því að finna til ýms ráð, að ná sem mestum sköttum af landsfólkinu, svo að jafnan væri nóg til í ríkissjóðnum. Það var um þá daga ætlun flestra þeirra manna, er stýrðu fjárhagsmálum þjóðanna, að ekki væri annað auður en einir saman peníngar og dýrir málmar (Merkantil Systemet); menn gátu þá eigi skilið, að peníngar eru eigi annað en vara, og að sá, sem á penínga eða dýra málma, er í raun og veru eigi ríkari en hinn, sem á jafngildi þeirra í öðrum nytsamlegum hlutum. Eptir þessari óglöggu og skökku hugmynd um eðli og þýðíngu peníngana breyttu stjórnendur í öllum þeim þjóðmálefnum, er fjárhag ríkjanna snerti; þeir gjörðu sèr því alt far um það, að út yrði fluttur til annara þjóða sem mestur og dýrastur varníngur, en aptur á hinn bóginn, að sem minstir yrðu aðflutníngar af vöru frá öðrum þjóðum, til þess að þær yrðu tilneyddar að borga sem mest í peníngum. Í því skyni var afarhár tollur lagður á aðflutta vöru, en ýms einkarèttindi veitt sumum innlendum verksmiðjum, þó að sú vara, er frá þeim kom, yrði landsmönnum dýrkeyptari en útlenda varan. Enn fremur lögðu stjórnendur mikið kapp á, að eignast nýlendur í öðrum heimsálfum, til þess menn gætu sjálfir aflað sèr þeirra hluta, er þar fengust, en þyrftu eigi að kaupa þá að öðrum þjóðum og láta þær hafa allan ábatann. Það þótti einnig óskaráð, að geta eignazt auðugar námur, er veitt gætu mönnum nægtir gulls og silfurs.

Á einveldistímum þeim, sem hèr fara í hönd, var hagur þjóðanna einatt bágborinn, einkum fyrir þá sök, að konúngar og aðrir landshöfðíngjar litu miklu fremur á sjálfs síns hag og

sinna ættmanna, heldur en hvað þegnum þeirra var fyrir beztu. Saga þessa tímabils sýnir mönnum, að mörg hörmuleg stríð voru háð, einúngis til að seðja drotnunargirnd ýmsra konúnga, og að síðustu hneig þannig og fèll úr sögunni eitt fornt ríki, Pólverjaland, fyrir ójöfnuði yfirgángssamra stórbokka.

Einveldisstjórnin, sem í sjálfri sèr gat verið góð og gagnleg, komst á tímabili þessu á ýmsa afvegu, og gat því eigi staðizt nema um stundarsakir. Þegnunum varð að síðustu óbærilegt að rísa undir því oki, sem öfug stjórnaraðferð, takmarkalaus eyðsla, ágirnd og ójöfnuður einveldisins hafði á þá lagt. Þeir gjöra uppreist, sú uppreist verður voðaleg og kemur af stað hinni miklu *stjórnarbyltíngu* á Frakklandi, sem náði meira og minna til allra þjóða Norðurálfunnar, umskapaði í mörgu hag þjóðanna, og gaf sögu þeirra nýja stefnu. En þó margt og mikið megi finna að þessu tímabili einveldisins, þá er það engu að síður nauðsynlegur liður, nauðsynlegt stig í framrás sögunnar, því að það jafnar hinn mikla mismun sem áður var milli stètta þjóðfèlagsins. Borgarastèttin tók, þó seint gengi, talsverðum framförum í þekkíngu og siðgæðum, og varð þannig miklu færari um en áður, að eiga hæfilegan þátt í stjórn alþjóðlegra málefna.

### Frakkland um daga Richelieu kardinála (1624—1642).

Frá því hefir áður verið sagt[1], að Loðvík þrettándi varð konúngur á Frakklandi eptir föður sinn Hinrik fjórða. Loðvík konúngur var mjög ólíkur föður sínum, og, þó að hann sæti lengi að völdum — frá 1610 til 1643 — þá verður hans jafnan að litlu sem engu getið. En því merkilegri er sá maður, er um meiri hluta ríkisára Loðvíks rèð Frakklandi, og það með þeim hyggindum og því þreki, að fáir stjórnendur þykja verið hafa hans jafníngjar. Sá maður var *Richelieu* kardináli. Hann var borinn og barnfæddur á Frakklandi, lagði fyrst stund á hernaðar íþrótt, en hætti síðan þeirri iðju og gjörðist klerkur. Þegar hann hafði tvo um tvítugt varð hann biskup, því næst kardináli, og að síðustu æzti ráðgjafi konúngs (1624) og hèlt því embætti til dauðadags, og alla þá stund var hann einvaldur maður á

1) Nýja Sagan I. bls. 127.

Frakklandi. Hann hefir sjálfur lýst að nokkru leyti stjórn sinni þar sem hann segir: «eg ræðst í ekkert nema eg hugsi vandlega um það á undan, en þegar eg er búinn að koma mèr niður á því, þá held eg stefnunni beint fram, og kasta því öllu um koll sem fyrir mèr verður». Þegar Richelieu settist að völdum, var Frakkakonúngur reyndar eigi takmarkaður í stjórn sinni af neinum sèrlegum rèttindum alþýðunnar, en aðallinn eða höfðíngjarnir, og flokkarnir í landinu voru geigvænlegir. Það var því mark og mið Richelieus, að brjóta aðalinn og alla flokka á bak aptur, og bæla það alt undir konúngsvaldið, að því miðaði öll hans innanlandsstjórn; en hvað hina útlendu stjórn snerti, þá lagði hann á það alt kapp, að veikja sem mest Habsborgarættina, bæði á Þýzkalandi (eða Austurríki) og á Spáni, og að því leyti hèlt hann fram þeirri stefnu, sem Hinrik konúngur fjórði hafði bent á. Richelieu var í stórum stýl það sem Loðvík ellefti hafði verið í smáum; hann vildi gjöra konúnginn alveg óbundinn í sínu einveldi og Frakkland mikið og voldugt ríki, og honum tókst hvorttveggja.

Þess hefir áður verið getið, hversu hann fyrst með fè, síðan með mannafla studdi Svía og prótestanta á Þýzkalandi í þrjátígi ára stríðinu, til þess að eyða valdi keisarans, og að Frakkar náðu á þann hátt Elsass, hinu ágæta hèraði, undir sig. Á Ítalíu urðu Frakkar einnig ofan á í viðskiptum sínum við Habsborgarmenn, og komu þar frakkneskum manni til valda í Mantúa. Hollendínga og Portúgalsmenn, sem um þær mundir áttu í höggi við Spánverja, styrkti kardínálinn og á ýmsa vegu, auk þess sem hann á öðrum stöðum þröngvaði kosti þeirra, enda hnignaði nú Spánverjum stórum. Þannig voru hans viðskipti við aðrar þjóðir, en innanlands voru aðfarir þessa mikilmennis engu minni.

Hugenottar voru mannmargir á Frakklandi, einkum sunnan og vestan til í landinu. Þeir bjuggu enn að þeirri rèttarbót, er Hinrik fjórði hafði gefið þeim 1598, og kend er við Nantes; höfðu ýms rèttindi, áttu nokkrar borgir og þær víggirtar, og höfðu herlið fyrir sig. Þeir voru því eins konar þjóðfèlag fyrir sig í ríkinu, og gátu veitt stjórninni mikla mótspyrnu ef því var að skipta. Þetta vildi Richelieu með engu móti láta við gángast. Um trúarbrögð þeirra lèt hann sig litlu varða, en hitt var

honum fyrir mestu, að þeir væru konungi sínum í öllu jafnháðir sem aðrir hans þegnar á Frakklandi. Stjórnin fór því að beita hörðu við Hugenotta, t. a. m. banna þeim sumstaðar opinbera guðsþjónustugjörð, sálmasöng og þesskonar, smeygja inn hjá þeim katólskum valdsmönnum, láta kristsmúnka telja þá af trúnni, og fram eptir því. Hugenottar sáu nú hvað verða vildi og gripu til vopna. Það var einmitt það, sem Richelieu vildi; var hann nú skjótur til ráða og sendi her á hendur þeim, en þeir vörðust af mikilli hreysti, einkum í borg þeirri, er Rochelle heitir, enda var hún ramlega víggirt. Richelieu fór sjálfur þángað og skipaði fyrir, og sýndi þá, að hann var hinn öruggasti til allrar framgöngu, og kunni allvel til þeirra hluta. Konungsliðið var miklu fjölmennara, hinum kom engin hjálp, því að liðveizla sú, er Englendingar höfðu heitið þeim, fór öll í handaskolum, þó vörðust borgarmenn þar fulla fjórtán mánuði, og gáfust þá loks upp (1628), er húngrið þrýsti svo að þeim, að eigi stóðu uppi nema hundrað manns, en fallnar um eða yfir tuttugu þúsundir. Sá hèt *Jóhann Guiton*, er lengst og bezt varði borgina. Richelieu svipti Hugenotta öllum þeirra einkarèttindum, en engum þeirra lèt hann refsa, og leyfði þeim að hafa fult trúarbragðafrelsi eins eptir sem áður; og var það viturlega gjört, og mjög ólíkt því, sem Ferdínand keisari gjörði á Þýzkalandi, eða Filippus þriðji á Spáni.

Þá er þessu var lokið, sneri Richelieu sèr að höfðíngjunum. Þeir voru að vísu orðnir færri en áður, síðan Hugenottar voru kúgaðir, því að margt af stórmenni ríkisins hafði tekið trú þeirra, en nú voru þeir úr sögunni. En samt sem áður voru margir höfðingjar eptir, sem eigi vildu mýkjast láta fyrir kardínála. Þenna flokk studdi María af Medicis, ekkja Hinriks fjórða, og ýngri sonur hennar Gaston af Orleans, bróðir Loðvíks þrettánda. Allir töldu Gaston sjálfsagðan til ríkis eptir Loðvík, því að konúngur hafði verið kvongaður í margt ár, en var barnlaus þá hèr var komið. Gaston var, eins og Loðvík bróðir hans, ólíkur sínum föður, enginn garpur, en óeirðarmaður mikill og ótryggur sínum vinum, og hlutu margir af honum ilt eitt. Þau María og hann reyndu á allar lundir að steypa kardínála úr völdum, bæði með því, að rógbera hann við konúnginn, og leggja fyrir hann ýmsar tálsnörur, en kardínállinn sá við öllum þeirra vèlabrögðum, og

koma þau eigi sínum vilja fram þann veg. Þá fengu þau lið í öðrum löndum, og ætluðu að hafa það fram með mannafla, er eigi varð með svikum unnið; en það fór á sömu leið. Richelieu bar hærra hlut í þeim viðskiptum. Ekkjudrotníngin varð að flýja af landi burt og láta fyrirberast í Köln á Þýzkalandi, og lifði þar við fátækt það sem eptir var æfinnar. Gaston var tekinn í grið og sættir, en ýmsir merkir menn voru þá af lífi teknir, og var einn af þeim *Montmorency* hertogi; hörmuðu hann margir menn, því að hann var vinsæll.

En þó að Richelieu hefði tekizt að kúga Hugenotta og stórmenni það, sem nú var talið, og þann flokk allan, er því fylgdi, þá voru enn eptir *embættismennirnir*, og þeir voru stjórninni hinir erfiðustu viðfángs. Það hafði lengi viðgengizt á Frakklandi, að embættin voru seld dýrum dómum, til þess að fá fè og auðga ríkissjóðinn, gengu síðan embættin í erfðir, en þó urðu menn að greiða konungi eptir þau nokkurt gjald á ári hverju. Það voru einkum ríkir borgarar, er embættin höfðu keypt, og myndaðist af þeim mönnum öllum saman nokkurskonar embættis — eða *valdsmanna-aðall;* treystu þeir á auð sinn og upphefð, og vildu í engu vægja fyrir kardínála, en gjörðu margt í móti hans vilja. Oddviti þessa aðals var «parlamentið» í París, æzti dómur ríkisins. Þegar nú Richelieu lagði skatta á landið, án þess að kveðja þjóðfulltrúa til þíngs og fá þeirra samþykki, beitti parlamentið þeim rètti, sem það hafði haft frá fyrri tíð, og færðist undan að rita boðorð konungs í bækur sínar, en þessa þurfti þó við til þess að gefa þeim lagagildi. Lèt Richelieu þá taka dómsforsetann og nokkra af dómendum fasta og reka í burtu um stundarsakir, og þá varð parlamentið að láta undan og gjöra sem kardínáli og konúngur vildu. Stundum bar það við, að Richelieu kvaddi þá menn, er honum leizt, í dóm til þess að dæma ýms mál, er að rèttu lagi lágu undir parlamentið, og tók þannig fram fyrir hendur þess. Hann tók og það til bragðs, til þess að skerða vald og virðíngu embættismanna, að hann setti aðra menn, er honum einum voru háðir, til þess að hafa á hendi fjárheimtu og ýms önnur valdsmanna störf út um ríkið.

Þannig kollvarpaði eða eyddi Richelieu öllum þeim mótspyrnum, er á leið hans urðu, bæði utanlands og innan. Hann

stóð einn og enginn studdi hann nema veikur og þreklítill konúngur, er þar á ofan var enginn vinur hans; en Loðvík sá, að hann gat eigi án hans verið, og að hann einn, en enginn annar, gat stýrt Frakklandi og aukið veg þess og vald; fyrir því lèt hann sèr nægja að bera konungsnafnið, en vandann af þeirri vegsemd fèkk hann Richelieu að öllu leyti, enda var honum sú byrði eigi um megn, og þó að flestum stæði ótti af honum, urðu allir að játa, að hann væri fárra maki að vitsmunum og dugnaði. Richelieu andaðist á ofanverðu ári 1642 og skorti þá tvo vetur á sextugann. Loðvík konúngur dó nokkrum mánuðum síðar.

## Frakkland frá 1643—1661. Mazarín kardináli ræður þar mestu.

Að Loðvíki þrettánda látnum var Loðvík sonur hans til konúngs tekinn og nefndur hinn *fjórtándi*. Hann var þá 5 vetra gamall, og bar því konúngsnafnið um 72 ár, eður frá 1643 til 1715. Meðan hann var í bernsku hafði drotníngin Anna, móðir hans, ríkisstjórnina á hendi, og 6 menn með henni, eins og Loðvík þrettándi hafði fyrirskipað áður hann lèzt; einn af þeim stjórnarmönnum var sá maður, er *Mazarin* hèt. Hann var ítalskur að ætt og uppruna, og fæddur 1602. Hann hafði alizt upp hjá kristmúnkum og þótti snemma frábær að vitsmunum, gekk síðan í herþjónustu páfans, en kyntist við Richelieu þau árin, sem deilurnar stóðu um völdin í Mantúa. Þótti Richelieu svo mikið að honum kveða, að hann fèkk Mazarin til að fara alfarið af Ítalíu og ganga í þjónustu Loðvíks þrettánda. Árið 1641 varð Mazarin kardínáli, og það var að ráðum Richelieus, að Mazarín var tekinn í tölu ríkisstjóranna eptir lát konúngs.

Nú þegar hèr var komið, vildi aðallinn og parlamentið í París, sem þóttust hafa orðið undir í viðskiptum sínum við Richelieu, kollvarpa því öllu, er hann hafði á fót komið, en ná aptur því valdi, er hann hafði frá þeim tekið. Fyrir þá sök var því nú yfir lýst, að fyrirskipan konúngs um ríkisforráðin skyldi vera ógild, en í þess stað skyldi drotníngin ein stýra ríkinu, og kjósa sèr ráðgjafa að því skapi, er henni þætti bezt hlýða. En sú von, sem höfðíngjar og parlamentið hafði gjört sèr, brást þeim algjörlega, því að drotníngin vildi í engu slaka til, eða

skerða konúngsvaldið; hún vildi að alt skyldi sitja við sama sem verið hafði meðan maður hennar lifði; Mazarín skyldi vera fyrir öllum stjórnarstörfum, en hafa þó eigi eins mikil yfirráð, eins og Richelieu hafði haft, meðan hann var uppi.

Um þessar mundir stóð þrjátígi ára stríðið á Þýzkalandi, og alla þá stund þoldu höfðíngjarnir á Frakklandi yfirráð Mazaríns. En þegar vestfalski friðurinn var fenginn (1648), og Frakkar orðnir sáttir við keisarann og Þjóðverja, þá hófst innanlands ófriður á Frakklandi. Var sá ófriður einkum til þess stofnaður að reka Mazarín úr völdum; annars vegar var stjórnin og þeir menn af hirðlýðnum er henni fylgdu, en hins vegar parlamentið og höfðíngjarnir út um landið. Ófrið þenna, er stóð frá 1648 til 1653, hafa menn nefnt *Fronde-stríðið*, því að hirðmenn kölluðu mótstöðumenn sína af háði: «*frondeurs*» (þ. e. slöngumenn). En þó að margt manna félli í óeirðum þessum, snertu þær þó öllu fremur stjórnina og höfðíngjana heldur en alþýðu manna í landinu. Meðan á þessum óeirðum stóð, varð Mazarín kardináli tvisvar að fara af landi burt, en ekkja Loðvíks þrettánda (Anna drotníng) og Loðvík 14. sonur hennar voru vinir hans fullkomnir, og bæði fyrir þá sök, og af sjálfs síns staðfestu og slægvizku, komst kardinállinn heim aptur og settist í völdin, eins og ekki hefði í skorizt. Tveir hinir frægustu hershöfðíngjar Frakka, er þá voru uppi, tóku þátt í þessum ófriði og voru hvor á móti öðrum: prinzinn af *Condé* foríngi slöngumanna, en *Turenne*[1] fyrir konúngsmönnum. Fóru viðskipti þeirra svo, að Condé sá sitt óvænna, bæði af því, að menn hans reyndust miður öruggir en konungsliðið, og einkum af því, að Mazarín beitti öllum brögðum til að ginna þá frá honum, enda var Condé naumast jafníngi Turennes þegar á alt er litið. Borgarmönnum í París leiddist ófriðurinn, og sáu reyndar sem var, að leikurinn var fremur til þess gjörður, að stórmenni ríkisins hefði gott af sigri, ef hann fengist, heldur en alþýða manna; þess vegna vildu þeir heldur konúngsvaldið, en höfðingjavaldið, og buðu konúngi að koma til Parísar, hétu honum trú og hollustu og tóku honum fegins hendi þegar hann kom þangað (1653). Condé varð að flýja af landi burt, og gekk í lið með Spánverjum, er um þessar mundir áttu ófrið við Frakka.

1) Sjá Nýju söguna I. bls. 222 og 223.

Þannig tókst Mazarín að sigrast á mótstöðumönnum sínum og stjórnarinnar, og kom þar fram bæði ráðfesta hans og vitsmunir. Var þetta hin síðasta tilraun, er höfðíngjar og heldri menn gjörðu, til að sporna móti einveldinu á Frakklandi, en þegar hún mistókst, eins og nú var sagt, þá voru einveldinu engar skorður settar úr því. Alþýðan var margkúguð og orðin sinnulaus um alt annað en daglegar lífsnauðsynjar; mikill fjöldi höfðíngja og helztu manna var fallinn, bæði fyrir vèlum og ofríki sumra undanfarinna konúnga, og í þeim ýmsu stríðum og styrjöldum, sem Frakkar höfðu átt að mæta utanlands og innan; en hina, sem eptir lifðu, hafði Richelieu kúgað, og Mazarín tekið við af honum og haldið fram sömu stefnu. Hèr var því búið að undirbúa flest í hendur á Loðvíki fjórtánda, og var honum hægt að hagnýta sèr það eptir því sem hann hafði vit og vilja til. Þó konúngur hèti nú kominn til lögaldurs, þá er hèr var komið, var hann þó eigi nema 16 vetra, og lèt því Mazarín ráða hartnær öllu; en Mazarín lèt eigi sitt eptir liggja að innræta þessum lærisveini sínum, hve nauðsynlegt það væri, að vilji konúngsins væri þegnanna fyrsta og æzta lögmál, og hans hagur það mark og mið, sem þeir ættu eptir að keppa. Þegar Mazarín þóttist fullfastur í sessi, gjörðist hann djarfari og ráðríkari í völdum en hann hafði áður verið, og þorði enginn í móti að mæla. Hann fór með æztu embættismenn ríkisins eins og þeir væru þjónar hans; hann lèt þá skýra sèr frá þjóðmálefnum heima hjá sèr, á meðan hann klæddist, eða rakaði sig, eða lèk sèr við apaketti sína, og enginn mátti sitja, heldur urðu allir að standa, meðan hann sjálfur var við staddur. Ekkjudrotníngunni þótti nóg um stórmensku hans, en Mazarín gaf því lítinn gaum, en sá um hitt, að geðjast hinum únga konúngi og láta eptir honum sitthvað sem honum þótti girnilegt. Þó gætti Mazarín ávalt þess, að taka í taumana, ef hann hugði að konúngur mundi brjótast í eitthvað, sem orðið gæti virðíngu hans eða vegsemd ríkisins að ógagni. Því var það, þegar konúngur vildi eiga María Mancini, systurdóttur kardinálans, að hann sagðist fara burt af Frakklandi ef sá ráðahagur tækist. »Eg er svo gjarn til metorða og allrar upphefðar, sagði Mazarín, sem rèttsýnum manni hæfir, og fer ef til vill lengra í þá átt, en góðu hófi gegnir. Eg ann frændkonu minni, en þó ann

eg enn meir Frakklandskonúngi, og eg met sæmd yðar og velferð ríkisins meir en alt annað í heimi þessum». Mazarín hafði ætlað Loðvíki fjórtánda alt annan ráðahag. Filippus fjórði Spánar konúngur átti tvö börn: *Maríu Theresíu* og Karl, er síðan varð konúngur á Spáni, og nefndur Karl annar. Karl þessi var heilsulaus, og eigi fyrir að sjá, að hann mundi verða lánglífur eða eignast afkvæmi. Gæti það nú orðíð framgengt, að Loðvík kvongaðist Maríu, þá stóð hann næstur til ríkiserfða á Spáni að Karli dauðum; þá var Spánn og Frakkland komin undir einn konúng, og slíku stórveldi urðu þá allar þjóðir að lúta. Með þessum hug og þessari fyrirætlan vildi því Mazarín enda hinn lángvinna ófrið, sem verið hafði milli Spánar og Frakklands. Hin síðustu ár þar á undan höfðu Spánverjar farið mjög halloka norður í Niðurlöndum fyrir Turenne, og það hefði verið þar úti um þá, ef Condé hefði eigi verið í liði þeirra. Árið 1659 var farið að leita um sættir. Það sem helzt varð til fyrirstöðu að saman gengi með mönnum, var það, að Spánverjar kröfðust, að Condé fengi aptur allar eigur sínar og öll sín rèttindi á Frakklandi, er hann hafði þar haft. Því næst lögðu menn stefnu með sèr á Fasaney í ánni Bidassóa; sú á kemur undan Pyreneafjöllum á landamærum Spánar og Frakklands og fellur norður til sjóar. Var Mazarín fyrir hönd Frakkakonúngs, en Luis de Haro af hendi Filippusar fjórða. Tjald var sett á miðri eynni, og stóð annar helmíngur tjaldsins á spánskri lóð, en annar á frakkneskri, og tvídyrað tjaldið, svo þeir Mazarín gætu gengið báðir jafnsnemma í tjaldið, en hvorigur á undan eður eptir; sinn stóllinn stóð á hverri lóð í tjaldinu, og töluðust erindrekarnir þannig við yfir landamerkin. Á þenna hátt þótti tign beggja konúnganna borgið. Nú komst friður á þetta sama ár (1659) milli landanna, og er nefndur *Pyreneafriður*; komst þá *Artois* (það er norðan og vestan á Frakklandi) og fleiri hèröð undir Frakkland, en *Roussilon* og *Perpignan* suður í landi; Loðvík Frakka konúngur skyldi fá Maríu Theresíu[1], en sleppa öllu tilkalli fyrir sig og hennar hönd til ríkiserfða á Spáni. Gekk Mazarín að þeim kostum, og voru eiðar að því unnir, að þeir skilmálar skyldu allir haldnir verða. Condé fèkk leyfi að koma aptur til Frakklands

1) Þau Loðvík og María voru systkinabörn, en Filippus þriðji Spánarkonúngur afi þeirra beggja.

og setjast að sinni eign. Eptir þetta gjörði Loðvík konúngur brúðkaup sitt til Maríu Theresíu, og var nú kyrt um hríð. En það er frá Mazarín að segja, að þá er hann kom heim aptur úr för þessari, var hann sjúkur orðinn, og dróg sá sjúkleiki hann til dauða. Hann rèð konúngi ýms ráð, og þar á meðal að gjöra þann mann að fèhirði ríkisins, er *Colbert* hèt, en hafa engan ráðgjafaforseta (Premierminister); hann gaf mörgum stórgjafir, því að hann var vellauðigur maður, og andaðist eptir það á öndverðu ári 1661 á 59. aldursári. Loðvík konúngur bauð hirðmönnum sínum að klæðast sorgarbúníngi, þá er Mazarín var dáinn, en glaður varð hann þó í hjarta af því, að vera nú laus orðinn við þenna læriföður sinn, og hafa frjálsar hendur til hvers er vera skyldi.

### England um daga Karls fyrsta (1625—1649).

Konúngsvaldið hafði á Englandi, eins og víða annarstaðar, stórum aukizt og magnast á 16. öldinni. Í *rósastríðinu* höfðu aðalsmenn fækkað svo mjög, að mælt er, að eigi hafi nema 27 barúnar átt þíngsetu í lávarðastofunni á dögum Hinriks sjöunda. Túdorarnir kreptu að vísu að kosti aðalsmanna, ef krúnan átti annars vegar hlut að máli, en aðalsmenn undu þó allvel yfirráðum þeirrar konúngsættar. Þannig lèt Hinrik áttundi þá hafa jarðir miklar að lèni, er hann hafði tekið af klerkunum, og Elísabet drotníng varð svo vinsæl af stjórn sinni, að menn gleymdu því, þó hún yrði stundum ráðrík í frekara lagi. Borgarastèttin var orðin stórauðug af verzlun sinni og allskonar starfsemi. Með velmegun þjóðarinnar og því frelsi og fjöri andans, sem siðabótin hafði kveikt, óx þjóðinni hugur og dugur, og þegar Jakob var seztur að völdum, og vildi beita konúngsvaldinu eptir því sem illur andi blès honum í brjóst, þá þoldi þjóðin það ekki og gjörði honum mótspyrnu. Og það veitti henni því hægra á Englandi en annarstaðar, sem hún hafði forn rèttindi fyrir sig að bera, því að þjóðrèttindin á Englandi voru rótgróin framan úr miðöldum í ýmsu sèrstaklegu stjórnarfyrirkomulagi þar í landi; þannig var skattálöguvaldið eingöngu í höndum parlamentsins (þjóðþíngsins), eða reyndar alþýðustofunnar[1], og bæði þjóð og þíng gætti þess vandlega, að þeim rèttindum yrði

1) Miðaldasagan bls. 133, 134 og 168.

eigi raskað af konúngi. Tekjur þær, sem Jakob konúngur hafði, voru í minna lagi og hrukku eigi til útgjalda hans, en þegar hann leitaði fjárframlögu hjá þínginu, þá var henni neitað. Af þessu kviknaði kali milli konúngs og þíngmanna, en þó tók verra við þegar sonur hans *Karl*, hinn fyrsti með því nafni, var seztur að ríki (1625—1649), því að þá bættust þar á ofan deilur út af trúarbrögðunum.

Karli konúngi var sumt vel gefið, og hann var án alls efa meiri maður í mörgu en faðir hans, en það hafði hann erft af honum, að honum þótti konúngstignin svo helg og háleit, að hennar rèttindum mætti ekki takmark setja, og sú var lund þeirra allra *Stúartanna*. En þar á ofan hafði Karl þann ókost, að hann vantaði nægan kjark og staðfestu í viljann, hann var ótryggur í öllum sínum loforðum, og máttu menn því eigi treysta orðum hans, og hann fór einlægar krókagötur til þess að ná takmarki sínu. Alt þetta tilsamans varð honum að fótakefli og olli að síðustu hans hörmulegu afdrifum. Sama vorið sem faðir hans dó, kvongaðist Karl og átti Henriettu dóttur Hinriks fjórða Frakkakonúngs. Hún var katólsk. Englendíngum geðjaðist illa að því, þegar hún kom og fjöldi katólskra manna með henni; sögðu þeir, að nú væri «antikristur» kominn yfir sundið og genginn þar á land. Þeir sáu það skjótt, að konúngur var mjög vinveittur katólskum mönnum, og að hann vildi einn öllu ráða, enda hafði hann fast í huga að verða einvaldur konúngur. Það jók heldur eigi á vinsældir hans, að Bukkingham hertogi, sem áður er getið, hafði öll hin sömu völd sem áður meðan Jakob konúngur lifði, en menn kendu Bukkingham um alt hið illa. Konúngur hugði að það mundi bæta samlyndið milli sín og þjóðarinnar, ef hann veitti Hugenottum á Frakklandi hjálp, sem um þær mundir voru mjög aðþrengdir af Richelieu. Sendi konúngur því skipaflota mikinn til liðs við þá í Rochelle, en sú liðveizla kom þeim að litlu haldi, og meðan á því stóð, að nýr og annar floti legði út frá Portsmouth, var Bukkingham drepinn. Þessi tilraun konúngs varð honum þannig að engu gagni, óvildin gegn honum fór vaxandi. Þá tók konúngur það til bragðs, að beita hörðu, og hleypti upp þínginu hvað eptir annað, og þar kom, að hann kvaddi menn eigi til þíngs, og stóð svo um ellefu ár (1629—1640), að hann stýrði landinu einn, án þess nokkurt

parlament ætti sèr stað allan þann tíma. Konúngur fetaði þanníg í fótspor hinnar frakknesku stjórnar. Þegar Bukkingham var dáinn, gjörði konúngur þann mann að æðsta ráðgjafa sínum, er *Wentworth* hèt, og síðan varð greifi og þá nefndur *Strafford*. Hann lagði á það alt kapp, að gjöra konúngsveldið sem styrkast og auka veg þess og virðíngu í augum þjóðarinnar; vildi hennar gagn að vísu, en hitt þótti honum óþarft, að hún rèði nokkru sjálf um sína hagi. Kirkjumálefnum öllum stýrði sá maður, er *Laud* hèt; hann var erkibiskup í Kantaraborg, og í flestu hinn merkasti maður, en ráðríkur mjög og sannfærður um það, að engin stjórn væri rètt, eða í raun og veru þjóðinni holl, nema óbundin einvaldsstjórn. Þessvegna var honum við ekkert eins illa eins og þá trúarbragðaflokka, sem eigi fylgdu biskupakirkjunni[1], því að þeir viðurkendu eigi konúngsins yfirráð í kyrkjunnar málefnum, t. d. Presbyterakirkjan á Skotlandi og *Púrítana*flokkurinn á Englandi. Biskupakirkjan er, eins og menn vita, þjóðkirkja á Englandi, og hefir konúngur og biskuparnir hið æzta vald kirkjunnar eptir hennar setníngum, og hún nálgast í mörgu hina katólsku kirkjusiði. Presbyterakirkjan er þjóðkirkja á Skotlandi, henni stýra prestarnir og elztu menn safnaðanna, en konúngur hefir þar engin umráð yfir. Púrítanarnir fylgdu aðalsetníngum presbyterakirkjunnar, en vildu þó vera miklu sjálfráðari en þeir í mörgum greinum. Þeir vildu engar hátíðir hafa nè helga daga, nema sunnudaginn einn; engin ölturu, enga skírnarfonta, ekki klukkur, eða orgel, eða messuklæði, heldur að öll guðsþjónustugjörð þeirra væri án allrar útvortis viðhafnar og prjáls. Að kirkjan væri háð konúngi eða biskupum, eða í nokkru undir ríkisstjórn gefin, það var viðurstygð í þeirra augum. Og voru þeir hinir mestu ákafamenn í trúarmálefnum. Á dögum Elísabetar drotníngar voru Púrítanar nýkomnir til sögunnar. Drotníng vildi enga útúrdúra hafa í trúarefnum, en allir skyldu fylgja þjóðkirkjunni (biskupakirkjunni); stukku þá margir Púrítanar af landi burt, og settust að á Niðurlöndum og hèldu þar trú sinni í næði. Sá maður, sem Jón Robinson hèt, gjörðist þar forstöðumaður þeirra og setti fastar reglur fyrir trú þeirra; var ein aðalreglan sú, að hver söfnuður, hversu fámennur sem væri, skyldi vera öllum öðrum kirkjum, eða annarlegum yfirráðum ó-

1) Sjá Nýju söguna I, bls. 89.

háður (*independens quoad alias ecclesias*). Þar af er nafnið «*Independent*» komið, er þessi trúarbragðaflokkur síðan nefndist, þá er hann kom aptur til Englands á dögum Jakobs fyrsta, hèr um bil 1616. Þessir menn stóðu lángfjærstir þjóðkirkjunni, og þoldu engin yfirráð yfir sèr í andlegum efnum, þeim var jafnilla við safnaðastjórnina (Presbyterana) á Skotlandi, eins og hina katólsku kirkjustjórn, þar sem hún átti sèr stað; í veraldlegum efnum vildu þeir þjóðstjórn eina, en hvorki heyra konunginn nè sjá.

Af þessu er það nú ljóst, að mikillar mótstöðu mátti vænta ef konúngur og erkibiskup vildu þröngva öllum þessum frábrugðnu trúarbragðaflokkum undir vald þjóðkirkjunnar á Englandi. Það var því að eins gjörandi, að konúngur hefði parlamentið með en eigi í móti sèr, og væri að öðru leyti vinsæll af þjóðinni; en því fór fjarri að svo væri. Hann hafði um nokkur ár stýrt landinu sem einvaldur konúngur og án þess að kveðja þjóðfulltrúana til þíngs; hann seldi sumum mönnum móti ærnu fè ýms einkaleyfi; hann lagði þúngar fèsektir á aðra, og honum var fremst í huga, að koma sèr upp *fastaliði*, eins og víða tíðkaðist í öðrum löndum, en hafði aldrei átt sèr stað á Englandi, og með þessu liði ætlaði hann sèr, að koma einveldinu á fastan fót. Fáir menn mæltu í móti þessum aðförum konúngs, og gekk svo um hríð, að eigi var annað sýnna, en að hann mundi koma sínum vilja fram.

En þá kom það fyrir, er breytti málefnum manna, og gaf þeim alt aðra stefnu en að undanförnu. Það var viðureign Karls við Skota.

Skotum var hlýtt til hans í þeli niðri, og lètu hann njóta þess, að hann var af Stúarta ætt kominn. Parlamentið á Skotlandi var honum auðvelt í öllum viðskiptum; aðalsmenn rèðu mestu á því þíngi, en þeir voru konúngi allmjög háðir. En þjóðkirkjan þar í landi (presbýterakirkjan) var honum alveg óháð; og þegar nú konúngur og erkibiskup vildu hreyfa við henni, og breyta henni, og setja á hana sama snið eins og var á hinni ensku kirkju (biskupakirkjunni), þá urðu Skotar uppvægir, þá var komið við hjartað í þeim, og varð alt í uppnámi á Skotlandi. Skotar stofnuðu hjá sèr eitt mikið fèlag, sem þeir kölluðu «*Covenant*», til þess að verja þjóðtrú sína og þjóðfrelsi (1638), og

ári síðar varð af því fullur fjandskapur og vopnaviðskipti milli Skota og konúngs. Karl var bæði liðfár og fèlítill, og varð því að hopa undan, en Skotar hèldu liði sínu yfir landamæri og suður á England. Nú krepti svo að konúngi, að hann varð að brjóta odd af oflæti sínu og kveðja menn til þíngs á Englandi (1640), til þess að geta náð sköttum og skyldum af landsfólkinu, gjört út her, og jafnað á Skotum. Voru þá liðin 11 ár síðan þjóðþíngið (parlamentið) hafði verið kallað saman og átt fundi með sèr, og þótti mönnum nú vænkast raðið. Það var þá áform flestra þíngmanna, að ráða bót á helztu vandræðum, en forðast hitt, að raska landsfriðnum og stofna þjóðinni í nokkurn ófrið eða hættu. Konúngur kvaðst þurfa 800 þúsundir punda sterlíngs (þ. e. hèr um bil 7,200,000 rd.) til hersins og sinna þarfa, og mundi sú fjárbeiðsla hans að líkindum hafa fengið framgáng á þínginu, ef einn af ráðgjöfum hans hefði eigi verið svo óaðgætinn í orði, að segja: að konúngur vildi annaðhvort ekkert hafa eður alt, sem hann beiddi um. Harðnaði nú ræðan, svo að þar kom, að konúngur sagði þínginu slitið, og lèt varpa þeim í dýflissur, sem harðast mæltu í móti honum. En auðvitað var, að eigi mundi samlyndið batna við slíkar aðfarir, enda varð nú gremja manna almenn, og sumstaðar í höfuðborginni (Lundúnum) uppreist og barsmíðir. Nú var eigi framar hugsandi til, að konúngur fengi fè hjá þínginu, og urðu þá sumir til af ráðgjöfum hans, hirðmönnum og klerkum, að veita honum að gjöf eður láni nokkurt fè, svo að með því gat hann safnað liði og farið í móti Skotum, en menn hans biðu ósigur, og hörfuðu undan suður í land (1640).

Þegar hèr var komið, kveið konúngur því mest, að óvildarmenn hans á Englandi mundu slást í lið með Skotum, og var það meira ofurefli en að hann gæti rönd við reist, þess vegna fór hann að leita um grið og sættir við Skota. En áður þeim málum væri lokið, lögðu vinir hans á Englandi fast að honum, og beiddu hann kveðja menn til þíngs að nýju, og reyna hvort eigi næðist fult samlyndi og friður með því móti. Konúngur lèt að orðum þeirra og kvaddi menn á þíng það sama ár. Þetta nafnkenda þíng er kallað í sögunni: *Parlamentið lánga*, og auðnaðist Karli konúngi eigi að sjá fyrir endann á því (það stóð frá 1640 til 1653). Parlamentið skiptist, eins og áður er sagt,

í tvær deildir: lávarða- eða efra húsið, og alþýðu- eða neðra húsið. Þíngmenn í neðra húsinu voru flestir óvinir Karls, og margir þeirra af Púrítana flokki. Þíngdeild þessi gjörði þá ýms nýmæli, er öll lutu að því að takmarka konúngsvaldið, var það eitt: að þjóðþíng skyldi haldið þriðja hvert ár, til þess að konúngur gæti eigi árum saman, eins og að undanförnu, verið einn um ríkisstjórnina. Greifinn af Strafford var ákærður, dæmdur til dauða og tekinn af lífi (1641), og gat konúngur eigi bjargað honum þó hann vildi. Laud erkibiskup var einnig settur í dýflissu og líflátinn nokkrum árum síðar. Konúngur varð að gánga að þeim kostum, er undirhúsið setti honum, og voru nú miklar líkur til, að alt mundi jafna sig og friður verða í landi.

En það kom hèr fram sem optar, að konúngur var sviklyndur, og efndi illa orð sín, því að litlu síðar lèt hann höfða landráðasök á hendur nokkrum þíngmönnum úr undirhúsinu, og ætlaði jafnvel með ofríki og herhöndum að ná þeim þaðan og á sitt vald, en því varð þó afstýrt. Af öllu saman þessu æstist þíngið og þjóðin svo að konúngi varð eigi lengur vært í Lundúnaborg; hèlt hann þá norður til Jórvíkur (York) og hafði þar liðsafnað. Parlamentið safnaði einnig liði, og þannig hófst borgarastríðið 1642. Konúngi fylgdi meiri þorri aðalsmanna, klerkar þjóðkirkjunnar á Englandi og allir katólskir menn, en með parlamentinu stóð alþýðan, bæjarmenn í öllum hinum stærri borgum og presbyteraflokkurinn allur; veitti konúngsmönnum í fyrstu betur, því að þeir voru vopnum vanir og höfðu allgóða fyrirliða.

En þetta breyttist alt, þegar sá maður kom til sögunnar, er *Oliver Cromwell* er nefndur. Hann var fæddur á ofanverðum dögum Elisabetar drotníngar (1599) í borg þeirri á Englandi, er Hundington heitir; hann var af góðum ættum, en þó var faðir hans enginn auðmaður. Framan af æfinni fèkst Cromwell við bókmentir, en þótti ærið svallsamur og gjarn á óeirðir, og eyddi öllu því, sem hann átti. En þá tók hann sinnaskiptum, gjörðist trúmaður, og fylgdi í þeim efnum Púrítanaflokki af miklum áhuga, því að maðurinn var ákafamaður í skapi. Um þær mundir kvongaðist hann, settist um kyrt á landsbygðinni, og hugsaði þá mest um búsýslu og trúarbrögðin. Árið 1628 var hann kosinn þíngmaður af sveitúngum sínum; gekk hann af miklum áhuga að öllum þíngstörfum, en þar þótti mjög litið að honum

kveða, því að bæði var hann ófríður sýnum, enginn snyrtimaður í hegðun, mælskumaður lítill, og málrómurinn mjög óþýður. En því minna sem hann hafði sèr til ágætis hið ytra, því undrunarverðara er hið innra andlega afl, sem þessum sjaldgæfa manni var veitt, og allir urðu að lúta. Hann fann sjálfur, að honum var síður lagið að vera þíngmaður, en sannfæring hans í trúarefnum knúði hann þó til, að bera fram á þíngi sakir á hendur ýmsum biskupum um fylgi þeirra við katólska siðu; og harðstjórn sú, er Laud erkibiskup beitti við Púrítana, þótti Cromwell svo óþolandi, að hann einsetti sèr að fara af landi burt með alt sitt og setjast að í Ameríku. Hann og margir aðrir, sem með honum ætluðu að fara, voru búnir til ferðar, en konúngur setti þá þvert bann fyrir útför þeirra, og við það settist Cromwell aptur, en sagði um leið: «þessa skal Karl Stúart einhvern tíma iðrast». Upp frá þessu einsetti Cromwell sèr að berjast í gegn konúngi og hverjum þeim, er þröngva vildi trúarfrelsi sínu og annara, er honum fylgdu; hann einsetti sèr að ná því frelsi heima á Englandi með vopnum, ef annan veg gæti eigi gengið, er hann hafði ætlað sèr að ná og njóta með friði og spekt vestur í Ameríku. Cromwell var kominn yfir fertugt, þegar innanlandsófriðurinn hófst á Englandi (1642), sá sem fyr var getið. Hann hafði alla þá stund, sem af var æfi hans, lifað í kyrð og friði, og þekti hvorki vopn eður vígaferli. Nú er hèr var komið (1643) safnaði hann nokkrum hersveitum austan á Englandi, og bjóst að fara til liðs við þíngmannaherinn (parlamentið). Þeir menn, sem rèðust í flokk með Cromwell, voru flestir ríkra manna synir, er engan mála vildu þiggja, en allir voru þeir harðsnúnir og ákafamenn miklir í trúarefnum eins og Cromwell. «Ef eg mæti konúngi á vígvellinum, sagði Cromwell, veiti eg honum bana eins og hverjum öðrum, fái eg því við komið; þori einhver yðar eigi það að gjöra, getur sá hinn sami eigi verið með mèr eða mínum mönnum». Bráðum komst mikið orð á herflokk þenna sökum hreysti hans og framgöngu, og sögðu menn alment, að engum hersveitum væri eins vel stýrt, eins og þeim er Cromwell rèð fyrir. Nú hèlt hann þessu næst með sína menn til móts við parlamentsliðið, sem þá var vestur í landi, og fyrir því sá höfðíngi, er *Tómas Fairfax* hèt, hraustur maður og góður drengur. En þó að Fairfax væri reyndar yfirhöfðíngi alls þess

liðs, er stóð í móti konúngi, þá kom þar bráðum, að Cromwell rèð mestu, því að hann var í öllu einbeittari og ákafamaður miklu meiri en Fairfax; enda tók nú meginþorri liðsins sèr snið eptir Cromwell og hans mönnum; urðu nú «Independentar» (þ. e. óháðir menn) mestu ráðandi bæði í hernum og heima í parlamentinu, eins og við var að búast, þar sem Cromwell var fyrirliði þeirra; það þarf eigi að undra, þó slíkir menn yrðu sigursælir í orustum, því að þeir höfðu þá trú — er Cromwell innrætti þeim mest og bezt — að þeir berðust fyrir guðs sakir, og að þeir væru verkfæri í hendi forsjónarinnar til þess að vernda trú og frelsi þjóðarinnar. Um þær mundir hafði konúngur tvískipt liði sínu. Var annar hlutinn norður við Jórvík, og *Newkastle* lávarður fyrir því liði, en hinn hlutinn suður við Oxforð, og konúngur sjálfur fyrir því. Þeir Fairfax og Cromwell settust um Jórvík og vildu ná þeirri borg, en sem konúngur frèttir það, sendir hann *Rúpert* systurson sinn (son Friðriks af Falz þess, er ósigurinn beið á «fjallinu hvíta» 1620[1]), með öllu því liði, er hann mátti missa, til hjálpar við Jórvíkur-menn. Rúpert var hinn mesti fullhugi, og hafði opt unnið konúngi mikið gagn, en hann þótti nokkuð fljótfær í ráðum. Þegar Rúpert kom norður þángað, hættu þeir Fairfax umsátinni; og þótti þá flestum hinum hygnari mönnum, að Rúpert hefði komið fram sínu erindi; en honum þótti helzt of lítið aðgjört, og fyrir því veitti hann þíngliðinu þegar aðgöngu (2. júl. 1644), þar sem heitir *Marstonmoor;* varð þar hin harðasta orusta, og lauk svo, að konúngsmenn flýðu. Þann sigur þökkuðu menn einkum Cromwell.

Parlamentið hafði enn sem komið var mikil umráð yfir hernum, því að margir göfugir menn úr efri deild þíngsins höfðu gripið til vopna og gjörzt fyrirliðar; en það var eigi að Cromwells skapi. Hann sagði, að seint mundi konúngur verða unninn, ef þíngmenn rèðu mestu. Þess vegna lagði einn maður það til á þíngi, — eptir ráðum Cromwells, að því er menn ætla — að það yrði gjört að lögum, að enginn þíngmanna mætti hafa herstjórn á hendi, og varð þeirri tillögu framgengt. Allir þíngmenn, sem herstjórnarvöld höfðu á hendi, urðu nú að leggja þau niður. Fairfax var eigi þíngmaður, og gat því verið yfirhöfðíngi liðsins eptir sem áður. Cromwell var þíngmaður, og átti að

1) Nýja Sagan I. bls. 184—186.

rèttu lagi að hætta herstjórn, sem hinir aðrir, er eins stóð á fyrir; en menn sögðu, að hann mætti sízt missa frá hernum, og fyrir því var hann þar kyr, en lögin voru engu að síður brotin. Þannig hafði Cromwell fram það sem hann vildi, en það var að ná öllu framkvæmdarvaldinu úr höndum hinna gæflyndari manna og Presbýtera-flokksins, en gjöra herinn einan alsráðandi.

Þó að konúngur hefði enn allmikið lið, reyndi hann um veturinn eptir orustuna á Marstonmoor, að semja frið við parlamentið. Presbýterar og ýmsir aðrir voru eigi ófúsir til sátta, því að þeim var farinn að standa stuggur af ákefð og yfirráðum Independenta; en þessi flokkur var fjarlægur öllum samníngum og sáttum, og var svo því máli lokið. Um vorið eptir bjuggu hvorirtveggja lið sitt, og tókst ófriður að nýju. Konúngur var með liði sínu norður í landi, og stefndi því móti Skotum, en þeir Fairfax og Cromwell eltu hann sunnan og náðu honum (14. júní 1645) við bæ þann, er *Naseby* heitir; það er á Norðymbralandi. Konúngur var liðfærri og vildi eigi berjast þá þegar, en fèkk eigi ráðið fyrir ákefð sinna manna. Unnu þeir Cromwell þar mikinn sigur, en konúngur flýði. Eptir þessar ófarir krepti svo mjög að konúngi, að hann varð að flýja England, og tók hann þá það til bragðs að leita á náðir Skota, því að hann hugði, að þeir mundu láta sig njóta þess, að hann var skozkur að ætt og borinn þar í landi og barnfæddur. Um vorið 1646 komst hann um síðir alla leið norður þángað sem Skotaher sat í herbúðum sínum; tók hershöfðínginn vel í móti konúngi og veitti honum allan sóma. En er parlamentið í Lundúnum varð þess vart, að konúngur var undan flúinn og að Skotar höfðu tekið við honum, gjörði það heyrum kunnugt, að sá væri dauðasekur er hýsti hann. Nú báru menn ráð sín saman á Skotlandi hvað gjöra skyldi; flestir vildu að konúngi yrði borgið, en í annan stað þótti ísjárvert, að óvingast við þann flokk manna, er þá rèð mestu í Lundúnum. Bæði klerkar og ýmsir af herforíngjum Skota leituðust við að fá konúnginn til að taka Presbýtera-trúna, og sögðu að þá mundi betur fara, en konúngur kvaðst eigi fyrir samvizkunnar sakir geta sagt skilið við biskupatrúna, og gat því eigi saman gengið með þeim. Hinir skozku klerkar urðu honum þá fráhverfir, og þeirra dæmi hafði áhrif á orð og gjörðir annara manna þar í landi. En sem Independentar frèttu,

að eigi mundi saman gánga með konúngi og Skotum, reru þeir að því öllum árum, að ná konúngi á sitt vald. Þetta varð og; Skotar lètu konúng af hendi, og flutti enskur herflokkur hann suður á England; var það alt gjört eptir áeggjan og ráðum Cromwells.

Þannig hafði hið enska parlament unnið sigur, eða þó rèttara sagt Cromwell og hans flokkur. Konúngur var nú á hans valdi. En þó að eigi þyrfti nú lengur móti konúngi að berjast, þá var friðurinn eigi fenginn að fullu. Þegar hèr var komið, þótti parlamentinu engin þörf á vera, að herinn væri lengur undir vopnum, þar sem ætlunarverki hans var nú lokið; gekk því það boð út frá þínginu, að herliðið skyldi laust af þjónustu sinni og hver fara til síns heimkynnis. Í parlamentinu rèðu Presbyterar mestu um þessar mundir, en Independentar í hernum. Þegar hernum komu þessi boð, var Cromwell skjótur til ráða. Hann hèlt liðinu til Lundúna og lèt reka burt úr parlamentinu alla þá þíngmenn, er eigi vildu fylgja hans ráðum, svo að í undirhúsinu urðu að eins eptir um 60 eða 80 manns, og þeir voru allir af Independenta flokki. Þetta fámenna þíng, sem eptir sat, hafa enskir menn kallað: *the rump-parliament,* eða einúngis: *rump* (þ. e. stúfþíng eða stutthalaþíng). Litlu síðar gengu allir af þíngi í efra húsinu, því að stúfþíngið þóttist einfært um öll mál. Meðan þessu fór fram, hafði konúngur reynt að flýja, og Skotar safnað liði til þess að hjálpa honum til sigurs, en Cromwell eyddi því liði öllu fyrir Skotum. Eptir ýmsar málalengingar og nokkrar árángurslausar tilraunir, sem gjörðar voru í því skyni að samníngar og sættir kæmust á milli konúngs og óvina hans, var sök höfðuð á hendur konúngi, og hann dæmdur til dauða fyrir það, að hann hefði rofið eiða sína við þjóðina og borið vopn móti parlamentinu. Karl konúngur var höggvinn í Lundúnaborg 30. janúarmán. 1649. Það er mælt, að Cromwell væri skamt eitt frá afstökustaðnum og segði, þá er hann sá að höfuðið fèll frá bolnum: «nú er trúnni borgið og frelsi margra þúsunda fengið; undirstaða hins enska þjóðveldis er lögð; leggjum nú líf vort í sölurnar til þess að vinna þjóðinni frægð og tryggja frið milli manna». Drotning var farin til Frakklands með börnum þeirra Karls, og hafðist við í París; en þó að hún væri dóttir Hinriks fjórða, þá sintu Frakkar henni

eigi meira en svo, að hana skorti stundum eldsneyti til þess að geta haft nægan hita í herbergjum sínum fyrir sig og börn sín; enda voru um þær mundir óeirðir miklar í borginni (Frondestríðið), og átti margur um sárt að binda.

England nefnist Þjóðveldi, ríkisstjórn Cromwells.

Eptir líflát Karls konúngs var England nefnt *Þjóðveldi* (Republik); var nú sett *ríkisráð*, og, í því 41 maður, er hafa skyldi framkvæmdarvaldið á hendi; parlamentið hafði að nafninu yfirstjórn landsins, en það var þó reyndar herinn, eða öllu heldur Cromwell, sem rèð öllu þegar til kastanna kom, því að herinn bar óbrigðult traust til hans og fylgdi því hiklaust sem hann bauð, en að öðru leyti var hann eigi vinsæll af alþýðu manna. Nú voru þeir margir á Englandi, er hörmuðu afdrif Karls fyrsta, og vildu gjarna að alt kæmist aptur í samt horf sem áður hafði verið, og að elzti sonur hans *Karl* (hinn annar), er þá var 19 vetra gamall, yrði tekinn til konúngs. En Englendíngar þorðu sig ekki að hreyfa; þar í móti voru bæði Skotar og Írar öruggari, og gáfu Karli konúngsnafn.

Um sömu mundir sem ófriðurinn hófst á Englandi milli parlamentsins og Karls fyrsta, tóku Írar, sem flestir voru katólskir, að ofsækja prótestanta þar í landi, og drápu af þeim margar þúsundir manna, og kúguðu landstjórann, sem þar var, og varð hann að gánga að þeim kostum, er þeir settu honum. Þegar nú Karl fyrsti var úr sögunni og hèr var komið, þóttist Cromwell hafa ærnar sakir við Íra, og fór þángað með miklu liði (1650). Landsmenn tóku í móti sem þeir gátu, og vörðust víða af mikilli hreysti, en það kom fyrir ekki; þeir urðu alstaðar ofurliði bornir, og fengu þúngar hefndir af Cromwell og mönnum hans. Hann sendi fjölda af írskum mönnum herteknum til Vestindía og seldi þá þar í þrældóm, en tók eignir þeirra og óðöl og fèkk enskum mönnum, sum til eignar, en sum urðu alsherjarfè. Þegar Cromwell þóttist hafa svo mikið að gjört á Írlandi, sem honum virtist nægja, hèlt hann þaðan, en setti *Ireton* tótturmann sinn þar til landstjórnar. Ireton var einn af hans helztu hershöfðíngjum, skapharður maður og framgjarn. Hann var Írum hinn grimmasti, en lifði þar skamma stund og varð sóttdauður ári síðar. Þar næst varð sá maður landstjóri á Írlandi,

er *Fletwood* hèt, og hèlt þar áfram sömu harðstjórn sem Cromwell og Ireton; flýðu þá margir menn burt af Írlandi og leituðu sèr hælis á Spáni, Frakklandi og Austurríki. Þegar Cromwell kom frá Írlandi, hèlt hann norður á Skotland. Þar var Karl fyrir, og höfðu Skotar tekið hann til konúngs, og nefndu hann *Karl annan,* en áður hafði hann orðið að gánga að þeim kostum, er hinir vandlætíngasömu klerkar settu honum, og var honum það þó þvert um geð, því að hann var enginn trúmaður, lèttúðigur í skapi, ótryggur og sèrplæginn, en höfðínglegur var hann og friður sínum, eins og faðir hans hafði verið. Sá hèt *Leslie,* er stýrði liði þeirra Skotanna; voru þeir saman 32000 manna og höfðu örugt vígi skamt frá Edínborg, þegar Cromwell bar þar að, og þorði hann eigi að ráða á þá. Gekk svo um hríð, þángað til klerkarnir af ákafa töluðu svo um fyrir Leslie, að hann lèt tilleiðast og lagði til orustu við Cromwell, en beið algjörðan ósigur. Það var á slèttlendinu hjá *Dunbar* er þessi orusta stóð 3. sept. 1650. Cromwell tók því næst Edinborg, höfuðstaðinn á Skotlandi, og varð þar lítið um vörn; parlamentið skozka og klerkalýðurinn flýði undan víðsvegar, en herinn sveimaði yfir landið. Karl konúngsson tók það til bragðs, að hann hèlt suður á England með það lið, er undan komst úr Dunbarorustunni, og hugði að þar mundi margur koma til liðs við sig, en sú von brást honum, fremur af því, að mönnum stóð svo mikill ótti af Cromwell og hans mönnum, að þeir þorðu eigi að rísa móti honum, en af hinu að þeir vildu hans yfirráð hafa. Karl komst alt suður að Worcester á Englandi, og var þar tekinn til konúngs. En sem Cromwell frèttir það, lætur hann hershöfðíngja þann, er *Monk* hèt, verða eptir á Skotlandi, og leggur fyrir hann, að vinna það er þá var ógjört og friða landið, og gjörði Monk það bæði fljótt og vel. En sjálfur hèlt Cromwell suður á England eptir Karli, og hafði nú lið miklu meira en hann. Fundum þeirra bar saman hjá Worcester 3. sept. 1651, og fór sem fyr, að Cromwell fèkk sigur en Karl flýði. Fór hann þá huldu höfði fram og aptur um landið, og komst opt í miklar mannraunir, en slapp þó að síðustu úr höndum sinna mótstöðumanna og yfir á meginland.

Eptir tíðindi þau, er nú voru sögð, treystust engir að bera vopn móti Cromwell. England, Skotland og Írland urðu nú öll

eitt ríki. Parlamentið á Skotlandi lagðist niður um stundarsakir, og árið 1654 sendu Skotar 30 þíngmanna til parlamentsins í Lundúnum. Parlamentið á Írlandi lagðist eigi algjörlega niður fyr en um hin síðustu aldamót (1800), að það var sameinað hinu enska parlamenti[1].

Um þessar mundir hófst ófriður milli Englendínga og Niðurlendínga, en áður hafði lengi verið vinátta milli landanna, því að Englendíngar veittu Niðurlendíngum móti Spánverjum, eins og fyr er ritað. Árið 1650 dó *Vilhjálmur annar*, landstjóri Niðurlendínga. Hann var sonur Friðriks Hinriks, Vilhjálmssonar hins fyrsta, og átti dóttur Karls fyrsta Englakonúngs. Nokkrum dögum eptir andlát Vilhjálms annars ól kona hans sveinbarn, og var nefnt *Vilhjálmur Hinrik;* hann varð síðan mjög merkilegur maður, og er af honum mikil saga og góð. En þegar hèr var komið: landstjórinn dauður og sonur hans ómálga barn, þá vildu Niðurlendíngar engan taka til landstjóra yfir sig, enda þótti þeim þjóðfrelsi sínu misboðið af þeim Óraníumönnum, einkum Mórizi og Vilhjálmi öðrum. En tildrög að ófriðnum við Englendínga voru þessi: Niðurlendíngar höfðu hin síðustu árin gjörzt góðkunníngjar Frakka, en hafnað samníngi, er Englendíngar buðu þeim; þeir höfðu og skotið skjólshúsi yfir marga þá, er flúið höfðu sökum óeirða af Englandi, og þar á ofan veitt Stúörtum lið móti Cromwell. Þessa vildi hann nú hefna, og hið enska parlament gaf því út (1651) hin nafnkendu *farmannalög* (*Navigationsact*). Í þeim lögum var öllum bannað, að flytja nokkra *nýlenduvöru* frá öðrum heimsálfum til Englands nema á enskum skipum, en vöruaðflutníngar til Englands voru því að eins leyfðir á útlendum skipum, að varan væri upprunnin heima í því landi, sam skipið var frá. Voru lög þessi beinlínis til þess gjörð, að efla verzlun Englendínga, en eyða verzlun Niðurlendínga; því að Niðurlendíngar áttu um þær mundir miklu meiri og betri nýlendur í öðrum heimsálfum heldur en aðrar

---

1) Þíngmannatala í hinu enska parlamenti var árið 1868, þessi: í yfirhúsinu 454, í undirhúsinu 658, eður til samans 1112 manns. Til skamms tíma hafa Írar sent 28 manns til yfirhússins en Skotar 16, en til undirhússins hafa Írar sent 105 en Skotar 53; og eru Írar og Skotar þannig taldir með þeim áðurnefndu 1112 þíngmönnum.

þjóðir, og sátu því nær einir að öllum þeim vöruflutníngum, er þaðan komu, og græddu ógrynni fjár á þeirri verzlun. Þegar þeim voru nú fyrirmunaðir allir vöruflutníngar á sínum skipum frá nýlendum þessum til Englands, þá þoldu þeir eigi þann skaða. Var nú reynt að fá Englendínga til að nema úr gildi farmannalögin. En meðan á því stóð, bar svo til, að enskur og hollenskur herskipafloti mættust í sundinu skamt frá Dover (í aprílmán. 1652); voru Hollendíngar á 42 skipum, en hinir á 50; *Marteinn Tromp* hèt foríngi Hollendínga, en *Robert Blake* foríngi Englendínga. Þegar flotarnir hittust, kastaði Tromp kveðju á Englendínga með nokkrum skotum, eins og siður er til, en lèt eigi draga niður merkisblæju sína um leið. Þessu reiddist Blake, og þótti gjört sèr til óvirðíngar, og lætur þegar í stað skjóta á Hollendínga sem tíðast; var nú barizt vel og rösklega af hvorumtveggja; mistu Hollendíngar þar 2 skip, en Englendíngar 6, og skildu að því búnu. Eptir þetta mátti heita að hver sjóorustan ræki aðra, og urðu fundir þeirra alls tíu á 16 mánuðum. Um þær mundir fèll Marteinn Tromp, og þótti verið hafa hinn mesti kappi. Annan sjóliðsforíngja áttu Hollendíngar um þetta leyti, er hèt *Michael Ruyter;* hann var einhver hin mesta sjóhetja, er verið hefir með þeirri þjóð, og gjörði hann Englendíngum einatt hið mesta ógagn. En þrátt fyrir það sáu Niðurlendíngar, því betur sem ófriðurinn stóð lengur, að þeir mundu, jafnlítil þjóð sem þeir voru, eigi geta reist rönd við ofurefli enskra manna; þeir höfðu mist kaupskip sín, svo hundruðum skipti, en verzlun þeirra fór hnignandi; fyrir því samdi *Jóhann Witt*, er þá stýrði helzt málefnum Niðurlanda, frið við Cromwell (1654), og var þá svo um samið, að Niðurlendíngar hètu að reka Stúarta af landi burt og veita þeim aldrei lið móti Englendíngum, enn fremur hètu Niðurlendíngar því, að láta þá Óraníumenn, sem voru frændur Stúartanna, eigi komast til æztu valda á Niðurlöndum. Það kom því hèr fram sem optar, að þeir urðu að lúta, sem lægri höfðu dyrnar. Um mörg undanfarin ár höfðu Niðurlendíngar verið öllum þjóðum fremri í sjóferðum og sjóverzlun allri, en dugnaður Cromwells og mannafli Englendínga varð hinni fámennu þjóð yfirsterkari, er þeim lenti saman, og upp frá þessu komust Englendíngar fram

úr öðrum þjóðum í allri sjómensku, hvort heldur í friði eður stríði.

En á meðan ófriður sá stóð, sem nú var getið, hafði á ýmsu oltið heima á Englandi. Þeir, sem þar rèðu þá mestu, — en það voru annars vegar parlamentið en hins vegar herliðið — gátu eigi orðið á eitt sáttir. Parlamentinu þótti herinn vera helzt til mannmargur, og vildi því fækka liðinu um 15 þúsundir manna, eður hèr um bil alt að fjórðúngi, eptir þeim liðsafla sem þá var þar í landi. Við það urðu hermenn óðir og uppvægir, enda vildu þeir engum lúta nema Cromwell einum. En honum þótti í engu miður, þó í hart slægi milli þíngsins og herliðsins, því að með hermanna valdi gat hann komið því fram, sem honum bjó í skapi. Eptir að hann hafði talað við liðsmenn sína og heyrt tillögur þeirra manna er hann treysti bezt, gekk hann á þíng og nokkur hundruð vopnaðra manna með honum. Veitti hann þá þíngmönnum þúngar átölur og að lyktum lèt hann reka þá alla út úr þíngsalnum. Þannig lauk hinu »*lánga parlamenti*» (20. apr. 1653). Þessu næst kvaddi Cromwell aðra menn til þíngs. Það þíng var kent við mann þann er *Barebone* hèt, en öðru nafni er það kallað: *þíngið stutta;* því að þegar það vildi eigi fallast á alt sem Cromwell vildi, þá sagði hann því slitið nokkrum mánuðum seinna (12. desembr. 1653).

Nú rèð herinn og Cromwell öllu, og var nú aðalatriðið hverja tilhögun skyldi hafa á landsstjórninni. Meiri hluti þjóðarinnar vildi helzt konúngsstjórn eins og áður hafði verið, en herinn vildi ekkert annað en þjóðveldi (Republik), lagað líkast því sem verið hafði hjá Gyðíngum, á dögum dómaranna. Nú þótt Cromwell hefði gjarnan þegið konúngstignina, þá treystist hann samt eigi, að taka sèr konúngsnafn, þvert á móti geði liðsmanna sinna, og fyrir því lèt hann sèr lynda þá tign og það nafn, er þeir nú gáfu honum, en það var »*lord protector*». En með þeirri tign fèkk hann hartnær öll hin sömu völd í hendur, sem konúngar þar í landi höfðu haft. Var nú svo kveðið á (16. desembr. 1653): að »protectorinn» (eða landstjórinn) ásamt með parlamentinu skyldi hafa löggjafarvaldið, — en þíng skyldi haldið þriðja hvert ár; á þíngi skyldu sitja 400 manns af Englandi, 30 af Skotlandi og 30 af Írlandi; þíngi mátti eigi slíta fyr en það hefði setið 5 mánuði. það, sem þíngið hafði orðið ásátt um,

skyldi að lögum verða, þó landstjórinn vildi eigi samþykkjast það; landstjórinn skyldi hafa framkvæmdarvaldið á hendi, segja stríð á hendur og semja frið en þó með ráðum og samþykki ríkisráðsins; hafa æztu völd yfir land- og sjóhernum og veita öll embætti; eigi mátti hann leggja skatta á landsfólkið, eða setja lög nema með samþykki parlamentsins; katólsk trú mátti eigi líðast í landi; hafa skyldi landstjóri tekjur af öllum þjóðjörðum; fastur her skyldi hafður í landinu, 20 þúsundir fótgönguliðs og 10 þúsundir riddaraliðs, til þess að halda við friði og spekt innanlands, og skyldi þeim goldinn máli af tekjum ríkisins. Því var og seinna við bætt þessa stjórnarskrá, að Cromwell mátti sjálfur kjósa hvern er hann vildi til eptirmanns eptir sinn dag. Cromwell vann eið að því, að halda stjórnarskrá þá, er nú var sögð.

Þegar hann settist að völdum, var svo ástatt, að því nær öll ríki og útlendar þjóðir, höfðu sagt slitið öllum fèlagskap og afskiptum við England, sökum hins mikla ófriðar, er þar hafði lengi drotnað í landi. Öllu þessu kipti Cromwell aptur í liðinn bæði fljótt og vel; enda sýndi hann engu síður í viðskiptum sínum við aðrar þjóðir, en í innanlandsstjórn sinni, hvílíkt mikilmenni hann var. Frá viðureign hans og Niðurlendínga er áður sagt. Útlendir þjóðhöfðíngjar, jafnvel hinn drambláti Frakkakonúngur Loðvík 14., leituðu vinfengis við Cromwell og höfðu hann í mestu hávegum. Um þessar mundír stóð ófriður milli Frakka og Spánverja. Cromwell sá að Englandi gæti orðið hagur að því, að taka þátt í þeim ófriði, og þess vegna hèt hann Frökkum sinni liðveizlu móti Spánverjum. Hin mikla sjóhetja Robert Blake, er vel má heita höfundur hins enska herskipaflota og hinnar miklu frægðar er Englendíngar náðu bæði þá þegar og síðar í sjóorustum við ýmsar þjóðir, var þá enn á lífi og vann um þessar mundir mörg hreystiverk. Hann barði á þeim í Algier, Tunis og Tripolis, leysti þar úr varðhaldi alla kristna menn, er ræníngjaþjóðir þessar höfðu höndum tekið, og hræddi þær svo, að þær hètu honum, að bekkjast aldrei til við enska menn. Hann eyddi mörgum skipum fyrir Spánverjum, er komu vestan um haf með ógrynni gulls og silfurs frá Perú. En eptir öll þau þrekvirki varð Blake sjúkur og dó 57 ára gamall, er skip hans lagði inn á Plymúths-höfn (1657). Auk þeirrar liðveizlu,

sem Frakkar þannig höfðu af herskipum Englendínga, lèði Cromwell þeim 6000 manna, er börðust með þeim í löndum Spánverja sunnan á Niðurlöndum, undir forustu Turennes. Unnu þeir þar ýmsar borgir af Spánverjum, og þegar Pyreneafriðurinn komst á (1659), fengu Englendíngar fyrir sína frammistöðu borgina *Dunkerque* í Flandern, og *Jamaika*, hina stærstu og landkostamestu ey, er þeir enn eiga í Vestindíum.

England náði þannig aptur í augum útlendra þjóða öllu því áliti, er það hafði haft á dögum Elísabetar drotníngar; en þrátt fyrir það, og þó að Englendíngar fylgdu Cromwell af dug og drengskap í viðskiptum hans við erlendar þjóðir, þá geðjaðist þeim, eða mestum hluta þjóðarinnar, miklu miður að innanlandsstjórn hans og aðgjörðum. Meginþorra þjóðarinnar mislíkaði stjórn hans frá upphafi; þjóðinni þótti hann hafa með einum saman hermannaafla og ofbeldi brotizt til valda, og hún þóttist í engu hafa meira frelsi, en hún áður hafði meðan Karl fyrsti sat að ríkjum. Parlamentið reyndi því optar en í eitt skipti, að vefengja og takmarka völd Cromwells, en hann bældi niður allan mótþróa með harðri hendi, hvar sem á honum bryddi, og með tilstyrk herliðsins og trúnaðarmanna sinna, sem hann hafði víðsvegar út um landið og mátti vel treysta, tókst honum að varast árásir og samsæri óvina sinna, svo að þeir gátu aldrei sèð sèr fært að hrynda honum úr völdum, eða ráða honum bana. En allur sá mikli mótþrói, sem honum var vel kunnur, fèkk honum megnrar áhyggju, og svo var hann var um sig, að hann bar jafnan vopn, hafði panzara undir klæðum, og marga varðmenn um sig, hvert sem hann fór; hann fór aldrei sömu leið heim til sín sem að heiman; hafði leynigöng úr herbergjum sínum; svaf sjaldan nema eina nótt í sama herbergi, og fleira var þessu líkt. Þessar áhyggjur eyddu smásaman heilsu Cromwells, svo að hann lagðist og dó 3. sept. 1658.

Cromwell hafði, áður hann lèzt, mælt svo fyrir, að Ríkarður sonur hans skyldi verða landstjóri eptir sinn dag. Svo varð nú; en þó Ríkarður væri góður maður og allvel að sèr um marga hluti, var hann þó eigi þeim vanda vaxinn, að stýra Englandi eins og þar var þá sundur skipt hugum manna. Þetta kom þegar í ljós. Herliðið undi því illa, að sá maður væri landstjóri, er óbeit hafði á öllum hermálefnum, og aldrei hafði

nærri þeim störfum komið. Var hershöfðíngi sá, er *Lambert* hèt, um þær mundir hinn helzti forsprakki liðsmanna, enda var hann ákafamaður mikill og gjörði hvað hann kunni til þess að ná í landstjóravaldið. Parlamentinu var það mjög í móti skapi, að sá maður kæmist til æztu valda, og fyrir því leitaðist þíngið við að styðja Ríkarð eptir megni; en þeir Lambert og fèlagar hans gengu þá svo fast að Ríkarði, að þeir þröngvuðu honum til að segja þínginu slitið. Ríkarður svipti þannig sjálfan sig allri liðveizlu og öllum styrk móti ofsa herliðsins og stóð svo einn uppi, og litlu síðar (í maímán. 1659) lagði hann sjálfur niður völdin, en lifði lengi eptir það sem valdalaus maður. En þó Ríkarður væri nú úr sögunni, komst þó Lambert eigi til æztu valda að heldur, því að ríkisstjórnin var fengin nefnd manna í hendur og sátu í henni 23 menn. En landi og lýð var að litlu borgnara þó þetta væri til bragðs tekið. Óánægjan var megn um alt ríkið; allir hinir betri menn þráðu frið og festu í stjórn lands og laga. Þá var það að *Monk*, hershöfðíngi sá, er fyr var nefndur, og Cromwell hafði sett til yfirstjórnar á Skotlandi, hugfesti að reisa við aptur parlamentið í Lundúnum og koma þannig á fastri stjórn í ríkinu. Monk var hraustur maður og hygginn og mjög dulur í skapi. Hann hafði nú liðsafnað og hèlt til Lundúna; gengu þá margir undan merkjum Lamberts og í lið með Monk, og mátti nú heita, að hann einn rèði öllu á Englandi. Voru nú kosnir menn til þíngs að nýju, og voru margir þeirra óvinir lýðstjórnarmanna, en vinir konúngsættarinnar. En þegar hèr var komið sendi Monk trúnaðarmenn sína til fundar við Karl konúngsson, er þá var í Niðurlöndum, og bauð honum konúngdóm á Englandi. Lögðu margir af hinum vitrari mönnum það til, að setja skyldi Karli ýmsa þá skilmála, að frelsi þjóðarinnar væri nokkur trygging í, en Monk kvað þess enga þörf, hvernig sem því hefir verið varið. Karl tók sendimönnum með hinni mestu blíðu og þektist boðið, þó fyr hefði komið. Hèlt hann síðan til Englands, en landsmenn urðu komu hans svo fegnir, að þeir þóttust bættir allra sinna meina. Settist Karl þvínæst að ríkjum feðra sinna (8. maí 1660) og var nefndur *Karl annar*. Þenna viðburð í sögu Englendínga hafa menn kallað: *restauration*.

**Frakkland frá Pýrenea-friðnum til þess er hið spánska erfðastríð hófst (1659—1700).**

Tímabil það, sem hèr fer í hönd og tekur yfir rúm 50 ár, eða með öðrum orðum, tímabilið frá dauða Mazaríns (1661) til þess er Loðvík fjórtándi dó (1715), er alment kent við þenna nafnkenda Frakkakonúng, og nefnt: *Loðvíks fjórtánda tímabil,* fyrir þá sök, að mestur hluti tíðinda þeirra, er þá gjörðust, er af hans völdum til orðinn; af hans völdum var allur sá mikli ófriðarstormur risinn, er um hálfa öld gekk yfir flestar þjóðir Norðurálfunnar, og þjáði þær meir eður minna. Þegar menn nema staðar við upphaf þess tímabils, sem hèr er um að ræða, og virða fyrir sèr hvernig þá stóð á í álfu vorri: að friður hafði verið saminn á Westfali, við Pýreneafjöllin og í Oliva (1648, 1659 og 1660), þá virtust allar líkur til vera, að lengi mundi haldast friður og kyrð með mönnum, þess þurftu þjóðirnar við, og þess æsktu þær allar. En það átti eigi svo til að gánga; það varð eigi nema stundarfriður.

Richelieu og Mazarín höfðu lagt alt kapp á, og varið öllum sínum vitsmunum til þess, að gjöra einveldið á Frakklandi sem styrkast. Hinn fyrnefndi hafði svipt Hugenotta öllum þeim virkisborgum og vörnum, sem þeir áður áttu; bælt niður aðalinn, svo að hann laut síðan konúngsvaldinu af mikilli auðmýkt, þó alþýðan fengi löngum að kenna á stórmensku hans. Hinn síðarnefndi hafði kúgað þjóðþíngið (parlamentið) og þar með landslýðinn allan. Þannig var öllum flokkadrætti eytt á Frakklandi; alt hlýddi hinum einvalda konúngi, og nú var sá maður seztur í hásætið, er bæði sagði mönnum og sýndi, að engum skyldi annað duga, en að hlýða honum einum. Þegar er Mazarín var dáinn, lèt Loðvík fjórtándi ráðgjafa sína vita, að þeir mættu alls eigi taka sèr annað fyrir hendur, en það sem hann segði þeim; hann kvaðst einn ætla sèr að stjórna öllu. Hann var þá 23 vetra að aldri og í broddi lífsins. Honum er svo lýst, að hann hafi verið höfðínglegur maður sýnum, vel viti borinn, en skort næga þekkíngu í mörgum greinum, því að uppeldið hafi verið miður en skyldi. En það, sem hann eigi skorti, var dramb og drotnunargirni, ójöfnuður og ásælni; hann miðaði alt við sjálfan sig — «eg er ríkið» (*L'état c'est moi*) sagði hann — og það var hans mark og mið, að sjálfs hans vegsemd yrði sem mest,

en Frakklands þar næst á eptir; allskonar skraut og viðhöfn og munað hafði hann í mestu hávegum og sóttist mjög eptir þeim hlutum, en þó lèt hann eigi slíkt aptra sèr frá alvarlegum störfum, því að kjark hafði hann mikinn og honum var ljúft að standa í stórræðum. Hann hafði og þann kost, sem margan þjóðhöfðíngja hefir vantað, að hann kunni vel að sjá, hvað hverjum einum var bezt lagið. Þess vegna hafði hann, að minsta kosti framan af æfi sinni, nýtari mönnum á að skipa, en aðrir konúngar honum samtíða. Af ráðgjöfum Lovíks 14. eru þeir *Colbert* og *Louvois* nafnkendastir. Mazarín hafði á deyjanda degi ráðið konúngi að gjöra Colbert að ráðgjafa sínum, og fylgdi konúngur því ráði. Stýrði Colbert síðan (frá 1661—1683) fjármálefnum ríkisins með frábærum vitorleik og dugnaði. Hversu mikið fè sem konúngur þurfti til hersins, til hirðarinnar og til alls þess, er hann þá hafði fyrir stafni, hafði Colbert jafnan nóg fyrir hendi, því að hann var óþreytandi starfsmaður, og leiddi fram margar nýjar auðsuppsprettur í landinu. Hann jók stórum verzlun og atvinnu hjá Frökkum, kom fótum undir nýjar verksmiðjur, greiddi allar samgöngur í landinu með stórkostlegum vegabótum. Hann lèt meðal annars grafa hið mikla síki (Languedoc- eður suðursíki sem það er kallað), er gengur 30 mílur vegar norðan undir Pýrenea-fjöllum, vestan úr Garonnefljóti og austur í Miðjarðarhaf, og tengir þannig saman tvö höfin: Atlantshaf og Miðjarðarhaf; hann lèt setja á stofn margar nýlendur í Vestindíum, Austindíum og Norðurameríku, og hann kom fótum undir mikinn og sterkan herskipaflota, og þó er hèr minst talið af því, sem þessi mikli og merkilegi ráðgjafi lèt eptir sig liggja. Louvois stýrði hermálefnum Frakklands frá 1666—1691. Hann var hinn mesti framkvæmdarmaður, eins og Colbert, en ákaflega harðgjör og jafnvel grimmur, manna ráðríkastur, og vildi fyrir engum vægja. Hann kom hinni beztu stjórn og reglu á alt það, er snerti landherinn, svo að lángt bar af slíkum hlutum hjá öðrum þjóðum; en hann eggjaði einatt Loðvík konúng til ófriðar, og honum eru eignuð ýms grimdarverk, sem hermenn Frakka unnu á þeim tímum, og þykir það mikil rýrð á orðstír þessa ráðgjafa. Af hershöfðíngjum Loðvíks eru þeir *Condé* og *Turenne* mjög nafnfrægir, og er þeirra áður getið að nokkru. Auk þeirra má nefna *Luxemburg*, *Catinat*, *Vendome* og *Villars*, sem

allir þóttu ágætir hershöfðíngjar og unnu margan sigur; af sjóforíngjum Frakka um þessar mundir voru þeir *Du Quesne* og *Tourville* nafnkendastir. Þá var og *Vauban* uppi á Frakklandi, er kunni bezt allra manna að víggirða borgir, og hitt, að vinna víggirtar borgir og kastala. Það er því eigi að undra, þó Loðvík fjórtándi, með því skapi sem hann hafði, og með þeim mönnum, sem hann hafði á að skipa, yrði öllum þeim þjóðum yfirsterkari, er hann náði til, þángað til á seinni árum hans, að hamíngjan fór að bregðast honum, þeir af hans mönnum að týna tölunni, er honum hafði mestur styrkur í verið, og hjá öðrum þjóðum risu upp þeir menn, er fullkomlega gátu við Loðvík jafnazt og hans menn. Það gjörði og eigi lítið til að ala ofmetnað og yfirgáng og auka veldi Loðvíks fjórtánda, að þjóðhöfðíngjar þeir, er hann átti helzt við að skipta framan af ríkisstjórnarárum hans, voru flestir dáðlitlir menn og stóðu lángt á baki honum, bæði að vitsmunum og framkvæmdum. Margur mundi ætla, að keisarinn á Þýzkalandi, er átti yfir mörgum og miklum ríkjum að ráða, hefði getað stemt stigu fyrir ofsa og áleitni Frakkakonúngs, og það því fremur, sem Spánarkonúngur, sökum frændsemi og margra annara hluta, var sjálfkjörinn bandamaður keisarans, og var þetta alt til samans eigi lítill liðsafli; en hèr var svo ástatt, að af hvorigum þessara var mikillar mótstöðu að vænta. Um þessar mundir var *Leopold* fyrsti keisari á Þýzkalandi, er kom til ríkis næstur á eptir Ferdinand þriðja, og sat þar að völdum frá 1657 til 1705; á Spáni var *Filippus fjórði* konúngur (frá 1621 til 1665), og var tengdafaðir Loðvíks fjórtánda, eins og fyr er sagt. En Leópold keisari kunni alls eigi að stjórna lýðum og löndum, vildi helzt láta alt sitja við það sem verið hafði, og var í öllu háður misjöfnum ráðgjöfum og illum klerkum. Þýzkaland var alt í molum; hin mörgu og smáu ríki lentu í sífeldum vafníngum, smámunasemi og endaleysu, ef til aðgjörða skyldi koma; um samtök og fylgi til drengilegra framkvæmda var alls eigi að tala. Enn verra var ástandið á Spáni. Hið volduga ríki, sem áður hafði þar verið, var margkvalið og kúgað af hinu rammasta klerkavaldi og af ransóknarrèttinum; öllum þjóðþrifnaði fór þar hnignandi dag frá degi. Lokvíki fjórtánda var þetta vel kunnugt; hann vissi, að

apturför og niðurlægíng nágrannaþjóðanna mundi verða honum sjálfum til framfara og upphefðar, og eptir því hagaði hann sèr.

Mazarin hafði mikinn hug á lagt, að ná þeim hluta Niðurlanda, er Spánverjar áttu, og leggja undir Frakkland, og fyrir því hafði hann haldið ófriðnum fram gegn Spánverjum svo lengi sem unt var, þángað til Pyreneafriðurinn gjörði þar endir á. En er Filippus fjórði Spánarkonúngur var dáinn (1665), þá einsetti Loðvík fjórtándi sèr, að láta nú skríða til skára og ná þessum Niðurlandaparti undir sig, hvað sem hver segði. *Karl annar* með því nafni var kominn til ríkis á Spáni eptir föður sinn, og var barn að aldri; en þó svo væri, og þó Loðvík væri mágur hans, og hefði, eins og áður er sagt, unnið eiða að því, að gjöra ekki tilkall til landa eptir tengdaföður sinn, þá skeytti Loðvík alls eigi um það, en krafðist hins áðurnefnda hluta Niðurlandanna, því að drotning hans væri þar rèttur erfíngi að, þar eð hún væri dóttir Filippusar fjórða af fyrra hjónabandi, en Karl var eptir seinni konu Filippusar. Mátti þetta að nokkru leyti til sanns vegar færa, ef um erfðir manna í einkamálum hefði verið að ræða, eptir því sem lög stóðu þá til sumstaðar á Niðurlöndum; en hèr átti slíkt eigi við, þar sem máli var að skipta um ríkiserfðir, og þess utan afsöl og eiðar til fyrirstöðu. Loðvík konúngur krafðist þannig: að Spánverjar lètu af hendi við sig *Brabant*, *Flandern* og *Franche-Comté*, en er því var neitað, sendi hann jafnskjótt hershöfðingja sína af stað með liði miklu, Turenne norður til Niðurlanda, og Condé austur á Franche-Comté (í júní-mán. 1667). Spánverjar voru óviðbúnir, og varð því lítið um varnir af þeirra hendi, en Frakkar óðu yfir löndin og lögðu undir sig, bygðir og borgir hvar sem þeir komu. Þetta þóttu mönnum mikil tíðindi og ill, og einkum urðu Hollendíngar smeikir, er þeir sáu Frakka þokast svo mjög að landamærum sínum. Um þessar mundir rèð *Jóhann Witt* mestu hjá Hollendingum, þó eigi væri hann kallaður landstjóri (Statholder), því að landstjóra-embættið lá þar niðri frá 1650 til 1674. Hann og annar göfugur maður á Englandi, *Vilhjálmur Temple*, komu því þá til leiðar, að Holland, England og Svíaríki bundust í fèlag, er menn hafa nefnt *Þrenníngarsambandið* (*Trippelalliance*), til þess að stöðva yfirgáng Loðvíks fjórtánda. Við þessumsamtökum hafði Loðvík konúngur eigi búizt, og með því hann hafði

þó nokkuð á unnið, en þótti við ofurefli að etja þar sem bandamenn voru, þá lèt hann undan síga að sinni, og var því næst friður saminn í *Aachen* (2. maí 1668). Lèt Loðvík þá laust aptur Franche-Comté, en hèlt öllu því, sem hann hafði unnið af Flandern, eður af þeim hluta Niðurlanda sem Spánverjar áttu áður, og komust þannig 12 borgir og allmikið land í hendur Frakkakonúngi. Flestar þær borgir víggirti Vauban svo ágætlega, að Frakkland hafði nú öruggar varnir á þeim hluta landamæra sinna, þar sem áður höfðu litlar verið.

Loðvík 14. hafði með hægu móti eignazt lönd og borgir í ófriði þeim sem gekk á undan Aachenar-friðnum; hann vildi því eigi láta þar við lenda, heldur freista, hvort hann fengi eigi meiru náð frá nábúum sínum, ef ófriður tækist að nýju; þar til kom og, að hann var ákaflega reiður Hollendíngum, fyrir þá sök, að þeir hefðu komið fótum undir samband það, sem áður er nefnt, og fyrirmunað sèr að ná til fulls og alls hinum spánversku Niðurlöndum. Louvois, ráðgjafi hans, sparaði eigi heldur að eggja hann til hefnda við Hollendinga, og hann leiddi konúngi fyrir sjónir, að það væri Frakklandi hinn mesti hagur, að leggja Holland undir sig, því að bæði væri, að þá eignuðust Frakkar allar þeirra mörgu nýlendur austur í heimi og allan þeirra mikla auð, og Frakkland yrði hið mesta verzlunarland í heimi, og þá mundu og verða auðunnin hin fáu fylki, sem Spánverjar ættu eptir á Niðurlöndum, er Frakkar gætu krept að þeim bæði að sunnan og norðan; en er Frakkar væru búnir að leggja öll Niðurlöndin undir sig með sjónum fram, þá mundi hægðarleikur, að færa takmörk Frakklands alt austur á Rínárbakka; en þángað höfðu Frakkar lengi viljað komast. Þetta þótti Loðvíki konúngi þjóðráð, og nú tók hann til sinna starfa. Hið fyrsta, sem hann þá gjörði, var, að eyða þrenningarsambandinu, og tókst honum það viðstöðulítið, bæði með fagurmælum og fègjöfum. Þá var konúngur í Svíþjóð Karl ellefti, úngur og óreyndur og lítt kominn til ríkisstjórnar, en þarfnaðist fjár til þess að halda uppi fornri frægð ríkisins; á Englandi var Karl annar, og honum var ljúft að fylgja Frökkum og njóta þeirra að, til þess að geta kollvarpað hinni ensku stjórnarskrá, og orðið alkatólskur og einvaldur. í ríki sínu. Þannig gekk bæði England og Svíþjóð úr sambandinu við Hollendínga, og svo ilt sem það var, þá var hitt

þó hálfu verra, að ýmsir þjóðhöfðingjar á Pýzkalandi voru svo blindir, og vissu svo lítið hvað til síns friðar heyrði, að þeir gjörðust nú bandamenn Loðvíks fjórtánda til þess að afmá með öllu og uppræta Hollendínga úr tölu lifandi þjóða. Þó ber þess að geta, að kjörfurstinn í Brandenborg, *Friðrik Vilhjálmur*[1] (alment kallaður: *hinn mikli kjörfursti*), reyndist þá sem optar hyggnari en flestir aðrir þjóðhöfðingjar á þeim tímum. Hann sá, að bæði sèr og öllu Pýzkalandi var hin mesta hætta búin, ef Frakkakonúngur kæmi öllum sínum ráðum fram. Þess vegna hèt kjörfurstinn Hollendíngum liðveizlu sinni, og fèkk þar að auki Danakonúng (Kristján 5.), Leopold keisara og ríkisdag Þjóðverja til þess að gánga í lið með þeim. Spánverjar voru sjálfsagðir mótstöðumenn Loðvíks og sömuleiðis hertoginn af Lothringen, því að Loðvík hafði flæmt hann úr landi. Þannig hófst almennur ófriður um Norðurálfuna (1672—1679).

Nú var eigi annað sýnna, en að úti væri um Holland. Það var, eins og mönnum er kunnugt, lítið land og fáment, í samanburði við England og Frakkland. Bandamenn þess í fjarlægð, en fjandmennirnir á næstu grösum. En hið lakasta var þó það, að flokkadráttur var í landinu sjálfu. Í öðrum flokknum voru lýðveldismenn — og Holland var þá lýðveldi kallað — og Jóhann Witt, sem fyr er nefndur, var þeirra oddviti, og hafði um mörg undanfarin ár stýrt þar öllum þjóðmálefnum með heiðri og sóma; en í hinum flokknum voru allir þeir, sem hèldu með Óraníu-ættinni og vildu hafa landstjóra (Statholder) yfir sig, og að Vilhjálmur prinz, sonur Vilhjálms annars, kæmist til þeirrar tignar. Hann var nú rúmlega tvítugur þegar hèr var komið, og þótti ágætt mannsefni. Honum voru að sönnu fengin hervöld í hendur, en vinir hans heimtuðu, að honum væru fengin hin æztu hervöld, og það æfilangt, en það vildi Jóhann Witt og hans flokkur með engu móti. En nú stóð svo á, að landher Hollendínga var bæði lítill að tölu — eigi nema tæpar 20 þús-

---

1) Hann var sonur Georgs Vilhjálms kjörfursta, en sá Georg var bróðir Maríu Eleonoru, er Gustaf Adolf átti; sögðu menn að Gustaf Adolf hefði viljað gefa þessum Friðriki Vilhjálmi Kristínu dóttur sína, en það átti eigi að verða. Þegar Friðrik Vilhjálmur kvongaðist, átti hann dóttur Friðr. Hinr. landstj. Hollendínga. Samanber Nýju sögu I. H., bls. 80, 195 og 225.

undir manns — og í engu lagi, því að Jóhann Witt hafði hugsað mest um herskip og sjólið, enda var þar vel fyrir öllu sèð. Þegar leið að sumarmálum árið 1672, kom Loðvík fjórtándi með óvígan her, 150,000 manna, að landamærum Hollands. Þar var í för með honum Louvois ráðgjafi hans, sem fyr er nefndur, og hershöfðíngjarnir Condé og Turenne og Vauban, og ýmsir aðrir, þar á meðal sagnaritari einn, er rita skyldi sögu um öll þau afreksverk, er vinna átti; liðið hafði ný vopn, er menn höfðu aldrei fyr sèð, en það voru spjót eða lángir fjaðrabroddar festir á byssur manna. Þessi byssuspjót eru nefnd: *bajonet,* eptir Bayonne-borg á Frakklandi, þar sem sagt er að þau hafi fyrst verið smíðuð árið 1640, og eru þau hin mestu voðaverkfæri, sè þeim laglega beitt. Nú lá við sjálft að Hollendíngum fèllist hugur; öllum sölubúðum var lokað, menn flyktust hópum saman í kyrkjur til að biðjast fyrir, alt varð í uppnámi. Lýðurinn kendi Jóhanni Witt um alla þessa ógæfu, og þegar hann reyndi til að semja frið við Frakka, þó með þeim skilmálum, er í engu rýrði sæmd hans nè Hollendinga, þá sögðu óvinir hans, að hann væri landráðamaður og ætlaði sèr að selja Frökkum bæði fjör og frelsi landsmanna, og þar kom æði manna, að þeir drápu bæði Jóhann Witt og Cornelíus bróður hans, ágætan mann og mestu sjóhetju (í jún.-mán. 1672). Var nú Vilhjálmur prinz gjörður að landstjóra; hann er nefndur *Vilhjálmur priðji.*

Viðburðir þessir voru að sönnu hæði illir og stórkostlegir, en þeir leiddu þó til þess, að sameina hugi landsmanna gegn hættu þeirri, er nú vofði yfir öllum. Um grið og frið var nú eigi lengur að ræða. Vilhjálmur sagði mönnum sínum, að hèr mætti enginn um annað hugsa, en að verja sig og sína meðan nokkur stæði uppi, og hann sýndi það skjótt í verkum sínum, að honum var það full alvara sem hann sagði. Landsmenn sáu, að þeir áttu þann fyrirliða, er hvorki skorti áhuga nè vitsmuni, og fylgdu honum vel og drengilega. Nú er að segja frá Frökkum, að þeir halda liði sínu inn á Niðurlönd; snerust landsmenn í móti, en urðu allsstaðar undan að láta, því að liðsmunur var helzt til mikill; tóku Frakkar hverja borg af annari og lètu þar allsstaðar setulið eptir til varna. Þannig hèldu þeir norður yfir Rín og tóku Útrekt, og er þaðan skamt norður til Amsterdam,

sem var höfuðborg landsins; gaf Condé það ráð, að þángað væri haldið viðstöðulaust, því að þá væri alt unnið, er sú borg væri tekin, en hvorki Louvois eða konúngur vildu fallast á ráð hans, og var því svo eigi fylgt. Þá tóku Hollendingar það til bragðs, sem þeir höfðu gjört á dögum Vilhjálms fyrsta, að þeir færðu stíflur úr flæðigörðum sínum og hleyptu vatni inn á landið úr stórám þeim, er um það renna, en Holland er flatt og láglent mjög sem menn vita; varð þá með öllu ófært yfir að fara fyrir vatni þar sem áður mátti gánga þurrum fótum; landið var alt í kafi og sem hafsjór yfir að líta, en upp úr vatninu stóðu að eins há hús og turnar. Þessi úrræði komu Hollendíngum í góðar þarfir. Um þessar mundir var Ruyter, hin nafnfræga sjóhetja Hollendínga, eigi aðgjörðalaus. Honum var falið á hendur að verja Englendingum landgöngu, og var hann með herskipum sínum allsstaðar þar fyrir, er þeirra var helzt von að landinu. Seint í maí-mánuði þetta sama vor, hitti hann herskip Englendínga og Frakka; var Jakob hertogi af York (bróðir Karls annars og sem seinna varð Englands konúngur) fyrir flotanum, og hafði 130 skip, en Ruyter 91. Þar laust í bardaga með þeim mikinn, og stóð hann alt til kvelds, en þa skildu þeir svo, að hvorigur vann á öðrum. Seinna um sumarið komu Englendíngar aptur á mörgum skipum, og ætluðu sèr að koma her manns á land, en útfiri og stormar eyddu þeirri fyrirætlan, og urðu þeir frá að hverfa við svo búið. Loðvíki konúngi þótti nú lítið verða ágengt, enda leiddist honum herbúðalífið, og sneri því aptur suður til Versailles, þar sem þá var konúngssetrið, en hirðin fagnaði heimkomu hans með miklum glaumi og gleðilátum, og sagði, að hann væri lifandi eptirmynd Alexanders mikla.

Híngað til höfðu Hollendíngar staðið einir móti Frökkum og bandamönnum þeirra, því að keisarinn var lengi að velta því fyrir sèr, hvort hann ætti að leggja út í þennan ófrið eða eigi, og tafði sú óvissa og sá dráttur einnig fyrir liðveizlu kjörfurstans af Brandenborg. Um síðir lögðu þó hvorirtveggja af stað og hèldu vestur í leið til Rínar. En förin gekk þá eigi greiðlega, því að ýmsir þjóðhöfðíngjar þorðu eigi, þegar til kom, að leyfa þeim yfirferð yfir löndin, urðu þeir þá að snúa þar frá og gjöra krók mikinn á leiðina; en þó var hitt verra, er litlu síðar kom fram, að keisarans mönnum hafði í kyrþey verið bannað,

að bera vopn móti Frökkum; þeir máttu horfa á þá, en eigi snerta þá. Alt um það varð þó koma kjörfurstans og keisarans manna þángað vestur í löndin í nánd við sjálfan ófriðinn Hollendíngum að nokkru liði; því að jafnskjótt sem Frökkum komu njósnir af hersveitum þessum, hélt Turenne með 20,000 manna burt af Hollandi og austur í móti þeim bandamönnum, en Luxemburg hershöfðíngi varð eptir í Útrekt með nokkurn hluta Frakkahers. Var sá her nú eigi orðinn svo mannmargur — þegar frá er dregið bæði alt það setulið, sem Frakkar höfðu orðið að láta eptir í hverri borg, er þeir unnu, og svo lið það, er Turenne fylgdi — að af honum stæði mjög mikill ótti, enda fór nú að verða fremur sókn en vörn af hendi Vilhjálms landstjóra og Hollendínga. Því næst kom vetur og var þá kyrt um hríð. Þegar voraði hófst ófriður að nýju, og hafði Loðvík fjórtándi nú meira lið, en hið fyrra árið. En hins vegar gengu Spánverjar nú í lið með Hollendíngum; keisarinn og hið þýzka ríki sendu einnig meira lið en áður, og var *Montecuculi* hinn helzti höfðíngi fyrir því liði. Hann var talinn hinn bezti hershöfðíngi um þær mundir annar en Turenne. Þeir Turenne og hann hittust í Franken, og beittust þar brögðum, og fóru svo leikar, að Turenne varð að hopa á hæl vestur yfir stórárnar Nekkar og Rín. En Montecuculi hélt liði sínu vestur til Niðurlanda, og kom Vilhjálmur landstjóri þar til móts við hann með sína menn; varð Condé þá að halda burt af Niðurlöndum og láta eptir alla hertekna menn, því nær 30 þúsundir manna. Þótti nú talsvert rýmka um kjör Hollendínga, enda höfðu þeir borið hærra hlut þetta sumar í nokkrum sjóorustum við Frakka og Englendínga; var Ruyter enn sem fyrri sigursæll, og annar hollenzkur sjóforíngi, er hét Cornelíus Tromp, sonur Marteins þess, sem fyr er nefndur. Leiddi sá sigur þeirra til þess, að Englendíngum leiddist liðveizlan við Frakka, enda neitaði parlamentið að leggja til meira fé en þegar var komið, svo að Karl annar, konúngur þeirra, varð að semja frið við Hollendínga (í febr.-mán. 1674). Slíkt hið sama gjörðu nokkrir af hinum þýzku þjóðhöfðíngjum. En þó bandamenn Loðvíks fjórtánda fækkuðu þannig, var hann með öllu ókvíðinn, því að hann vissi gjörla, að hinir mörgu þjóðhöfðíngjar á Þýzkalandi, er nú stóðu í móti honum, voru alt annað en samtaka, og í annan stað átti hann vini við hirð Leo-

polds keisara, er lömuðu allar framkvæmdir úr þeirri átt, og þetta hvorttveggja olli því, að bæði hafði orðið áður, og varð þetta árið, minna úr framgöngu Þjóðverja, en ella mundi; varð því Turenne miklu betur framgengt en Þjóðverjum, þar sem þeir áttust við. Þannig vann hann sigur á bandamönnum í tveim orustum: við *Mühlhausen* (29. des. 1674), og við *Türkheim* (5. jan. 1675). Var sá höfðíngi fyrir liði keisarans og Þjóðverja, er Bournonville hèt, en hins er eigi getið, að Montecuculi væri viðstaddur þær orustur. Í annan stað áttust þeir við vestur í Niðurlöndum Condé og Vilhjálmur landstjóri og bandamenn hans, Spánverjar og Þjóðverjar; en bandamenn þessir gjörðu fremur að spilla en bæta fyrir Vilhjálmi, og fyrir því fóru þeir heldur halloka fyrir Frökkum. Þar áttu þeir ýms vopnaviðskipti og eina orustu harða við bæ þann, er *Senef* heitir (1674), og áttu hvorugir sigri að hrósa. Árið eptir (1675) var Montecuculi skipaður yfir alt það lið, bæði Þjóðverja og Austurríkismenn, er berjast skyldi í móti Turenne suður í Ríndalnum, og bjuggust allir við, að eitthvað mundi þar sögulegt við bera, er tveir hinir mestu hershöfðíngjar mættust. Áttust þeir þar við framan af sumri, svo að hvorigur gáf öðrum færi á sèr, og eigi kom til orustu, þó að herflokkar þeirra væru á sífeldum snúníngum fram og aptur um bygðina, þar sem þessi tafleikur þeirra stóð. Þegar svo hafði lengi gengið þóttist Montecuculi um síðir hafa komið sèr svo fyrir, skamt frá þorpi einu er *Sasbach* heitir í nánd við Offenburg í Strazborgar biskupsdæmi, að hann bauð hinum bardaga ef hann vildi. Turenne var undir það búinn, og skipaði fyrir til atlögunnar, en í því er orustan tókst, reið hann, og annar hershöfðíngi með honum, upp á hæð eina litla til að lítast um og sjá hvernig fylkíngar þjóðverja stæðu. En þá kom fallbyssukúla og særði hann til ólífis og hinn er með honum var. Það var 27. júlí 1675 er Turenne fèll, og var hann þá á fjórða ári um sextugt. Svo er sagt, að Gustaf Adolf og Turenne hafi gjört svo mikla breytíngu á ýmsu, er hernaðaríþróttina snertir, að hernaðaraðferð manna á hinum síðustu öldum sè í mörgu á því bygð, er þessir tveir framúrskarandi hershöfðíngjar fyrstir tóku upp og kendu öðrum.

Þegar Turenne var fallinn, urðu Frakkar að leita undan vestur yfir Rín, en Montecuculi veitti þeim eptirför og gjörði

þeim mikinn skaða á mönnum og fè. En er Loðvíki konúngi komu þessi tíðindi, lèt hann Condé fara þaðan sem hann var í Niðurlöndum, og setti hann yfir það lið, sem Turenne hafði stýrt, en honum vanst lítið á, og um haustið sagði hann af sèr hervöldum, enda var heilsa hans mjög á förum, og andaðist nokkrum árum síðar (1686). Montecuculi lagði og niður hervöldin um þessar mundir. Hann dó nokkrum árum síðar (1681) á þann hátt, að hann reið inn í borg eina á aðra hönd keisaranum, fèll þá stórtrè niður af húsi einu þar sem þeir riðu fram hjá, varð Montecuculi þar undir, og lèt þannig líf sitt. Nú voru þessir þrír helztu hershöfðíngjar úr sögunni, en ófriður stóð enn um nokkur ár; varð þá Luxemburg greifi frægastur af þeim hershöfðíngjum Frakka, er börðust í móti Vilhjálmi landstjóra, og vann honum einatt mikinn skaða. Árið 1676 biðu Hollendíngar eitt hið mesta tjón, er þeir mistu Ruyter. En því var svo varið, að Messínaborg á Sikiley, er Spánverjar rèðu þá fyrir, gjörði uppreisn í móti þeim, og veitti Loðvík fjórtándi þeim að málum og sendi þeim nokkur herskip til varnar, og þann mann til forustu, er *Du Quesne* hèt, hann var aðmiráll, og hinn mesti sjógarpur. Spánverjar beiddu Hollendínga, bandamenn sína, að veita sèr lið, og var þá Ruyter sendur; honum þótti sèr fengin of fá skip til fararinnar, og beiddi um fleiri; var honum svarað, að menn treystu því, að hann lèti eigi huginn bila þó hann væri á gamals aldri. «Eigi hræðist eg dauða minn», mælti Ruyter, «þegar velferð fósturjarðar minnar er annars vegar, en mèr þykir illa farið, að höfðíngjar þeir, er nú ráða mestu, skuli skeyta svo lítið um sæmd sjóliðsins, sem þeir gjöra». Hann fèkk eigi fleiri skipin að heldur. Þeir Du Quesne hittust undir Sikiley og börðust, og skildu að slèttu í það skipti. Litlu síðar bar fundum þeirra aptur saman; í þeirri orustu fekk Ruyter skot, það er leiddi hann til bana nokkrum dögum síðar. Ruyter var sjötugur þá er hann fèll, og þótti verið hafa hinn mesti afbragðsmaður. Hollendíngar þeir er af komust hèldu heim til sín, en Frakkar höfðu yfirráð á Sikiley alla þá stund, sem ófriðurinn stóð.

Þess var áður getið, að Svíar gjörðust bandamenn Loðvíks fjórtánda, og fyrir því eggjaði hann þá mjög að grípa til vopna og ráðast inn í lönd kjörfurstans af Brandenborg, og það gjörðu þeir. Kjörfurstinn var þá hvergi nærri, því að hann var með

liði sínu vestur í Rínarlöndum; fóru Svíar herskildi yfir landið og mættu lítilli mótstöðu. En er minst varði kom kjörfurstinn og hitti Svía (í júnímán. 1675) við *Fehrbellin*, barðist við þá, og vann sigur, og rak þá úr landinu. Danir gripu nú einnig til vopna móti Svíum, eptir áeggjan kjörfurstans, enda þótt *Griffenfeld*, hinn nafnfrægi stjórnvitríngur, rèði þeim frá því. En þeir vildu, sem vitanlegt var, ná aptur þeim löndum (Skáni, Hallandi og Bleking), er þeir höfðu orðið að láta nokkrum árum áður fyrir Karli tíunda Svíakonúngi. Eigi tókst þeim þó að ná löndum þessum, því að Karl ellefti og menn hans vörðu þau hreystilega, en í sjóorustum við Svía báru Danir hærra hlut frá borði; voru Hollendíngar um tíma í liði með þeim, og Cornelius Tromp þeirra fyrirliði; en aðalsigurinn á Svíum vann hin danska sjóhetja *Niels Juel* í orustunni á Kjögeflóa (1677); voru Danir lengi eptir það einvaldir í Eystrasalti. Þegar hèr var komið fóru menn að tala um sættir. Frökkum leiddist ófriðurinn; Colbert eggjaði konúng fastlega á, að semja frið, því að þjóðinni veitti erfitt að rísa undir þeim þúngu álögum, er svo lángvinnur ófriður legði á hana. Loðvík konúngur var heldur eigi fjarlægur því; að láta hèr staðar nema, því að honum hafði, þegar á alt er litið, gengið vel, og að öllu samtöldu hafði hann borið hærra hlut en óvinir hans, þó margir væru í móti. Hann vissi, að Hollendíngar og Englendíngar áttu mikil mök saman, og að Vilhjálmur landstjóri hafði beðið *Maríu* dóttur Jakobs hertoga af York, bróður Karls Englakonúngs. Frakkar gátu því átt á hættu, að fá Englendínga móti sèr, er minst varði, og það því heldur sem hinni ensku þjóð var illa til þeirra. Hinsvegar hafði Loðvík á sínu valdi hinar helztu kastalaborgir, í þeim hluta Niðurlanda er Spánverjar áttu, og þaðan var Hollendíngum hætta búin. Hann fór því að semja við Hollendínga um frið, leiddi þeim fyrir sjónir, að þeir skyldu eigi lengur hirða um að eyða fjöri og fè í þarfir Austurríkiskeisara og Spánarkonúngs; þeir skyldu ná hjá sèr góðum friðarkostum, ef þeir vildu skilja við hina, og Hollendíngar, sem voru búnir að fá nóg af svo löngum ófriði, lètu til leiðast og sömdu frið við Loðvík í *Nímvegen* (10. ágúst 1678). Mátti segja, að hèr yrði betri endir en í fyrstu áhorfðist, því að áformið hafði verið, að taka Holland alt, eins og það var, en nú mistu Hollendíngar ekki einn bæ eða eina þúfu lands. Þegar

hafið sèð hèr», sagði ráðgjafinn? »Að sjá mig hèr á þessum stað», mælti ræðismaður.

Kalvínstrúarmenn (Hugenottar) voru enn margir á Frakklandi, því enda þó Richelieu hefði í mörgu þröngvað kostum þeirra, þá hèldu þeir fullu frelsi í trúarbragðaefnum, og lètu sèr lynda, lifðu síðan í næði og sættu eigi árásum svo teljandi sèu. En eptir því sem tímar liðu, og lengra kom fram á ríkisstjórnarár Loðvíks fjórtánda, var af hálfu stjórnarinnar farið að beita meira ójöfnuði við þenna trúarbragðaflokk, en áður hafði viðgengizt um nokkur ár. Þó reyndi Colbert alt hvað hann gat, að halda verndarhendi yfir Hugenottum, enda var honum vel kunnugt, að þeir voru alment hinir þörfustu menn í landinu, sökum starfsemi, siðprýði og margvíslegrar kunnáttu. En þegar Colbert var dáinn (1683), þá var friðurinn úti. Louvois ráðgjafi, kristmúnkar og »*Madame Maintenon*«[1], leiddu konúngi fyrir sjónir, að það mætti eigi viðgángast, að önnur trú en hin katólska ætti sèr stað í ríki hans, og konúngur lèt sèr það að kenníngu verða; hann hafði ekki skynbragð á slíkum hlutum, og lèt sèr í trúarefnum nægja, að fylgja vandlega öllum fyrirskrifuðum reglum og útvortis háttsemi katólsku kirkjunnar. Mágkona Loðvíks, hertogafrúin af Orleans, kemst svo að orði í einu af brèfum sínum: »menn geta eigi verið miður að sèr í trúarbragðaefnum, en konúngurinn. Það sem prestarnir segja, því trúir hann, eins og sjálfur drottinn hefði sagt það, því að hann hefir aldrei lesið eitt orð í biblíunni, og veit eigi annað en það, sem skriptafeður hans hafa sagt honum. Þeir hafa komið honum á þá trú, að það sè óleyfilegt að rannsaka málefni trúarinnar, menn verði að hepta skynsemina til þess að geta orðið sáluhólpnir«. Það var því eðlilegt þó Loðvík konúngur hlýddi fortölum ráðgjafa síns og klerkanna; en þeir voru svarnir óvinir alls andlegs frelsis. Nú var farið að beita allskonar ójöfnuði við Kalvínstrúarmenn: börn þeirra voru tekin frá þeim, og fengin í hendur öðrum mönnum sem kendu þeim katólsk fræði; þeim voru bannaðir ýmsir atvinnuvegir; klerkar voru gjörðir út af stjórninni til þess að snúa þeim til rèttrar (katólskrar) trúar; hjónabönd milli þeirra og katólskra manna voru harðlega bönnuð; kirkjur þeirra voru

1) Hún var hin síðasta og nafnkendasta af frillum Loðvíks fjórtánda.

rifnar niður. Og til þess, að slíkt nauðsynjaverk, sem þetta, skyldi sem fyrst og bezt verða til lykta leitt, voru sendir hermenn út um landið til liðs við klerkana. Þar sem klerkar unnu eigi á með orðum, tóku hermenn þessir við og settu mönnum tvo kosti: annaðhvort að láta lífið, eða taka katólska trú. Var þá fjöldi manna er þann kost kusu, að láta trúna og fá haldið lífinu, en hinir voru og margir, er eigi lètu kúgast, og voru þeir flestir meiddir eða drepnir. Að þessum ofsóknum urðu svo mikil brögð, að jafnvel páfa sjálfum þótti úr hófi keyra, og sagði hann: »að eigi hefði Kristur haft þessa aðferð þegar hann hefði verið að snúa mönnum til rèttrar trúar, það mætti leiða menn inn í kirkjurnar, en eigi draga þá þángað»; en bendíng og heilræði páfans komu að engu haldi. Það verður eigi sagt frá öllu því óguðlegu athæfi, sem í frammi var haft við Calvínstrúarmenn á Frakklandi um þessar mundir. Þeir Louvois og La Chaise, skriptafaðir konúngs, fengu hann til þess árið 1685 að afmá rèttarbót þá, sem Hinrik fjórði hafði gefið Hugenottum 1598, og sem kend er við Nantes[1]. Ef einhver af þessum ofsóttu mönnum reyndi til þess að flýja af landi burt, og yrði honum náð, var honum annaðhvort ásamt konu hans og börnum varpað í dýflizu æfilangt, eða tekinn af lífi, en eigur þeirra gjörðar upptækar. En þrátt fyrir alla viðleitni, að varna þeim burtfarar úr landinu, sluppu þó margir og komust til annara landa, og segja menn, að rúm hálf millíón manna hafi þannig forðað fjöri og frelsi. Settust margir þeirra síðan að í Brandenborg, á Hollandi og Englandi, og var þeim þar vel tekið og urðu þar hinir nýtustu menn fyrir land og lýð. Hin fáfróða og grimma Frakkastjórn vissi eigi, eða vildi eigi af því vita, hvílíkan skaða hún gjörði Frakklandi með þessum ofsóknum sínum. Meðal þeirra manna, sem þá urðu að flýja Frakkland, voru margir framúrskarandi menn; einn af þeim var hinn ágæti hershöfðíngi *Friðrik Schomberg*, er síðan gekk í lið með óvinum Loðvíks fjórtánda, og varð honum óþarfur maður.

Ofsóknir Loðvíks fjórtánda gegn Hugenottum juku eigi lítið á óvild þá, er allir höfðíngjar prótestanta báru til hans, og Vilhjálmur af Óraníu, landstjóri Hollendínga, hinn óþreytandi mótgángsmaður Loðvíks, kom því til leiðar, að nokkrir þjóðhöfð-

[1] Nýja sagan I. bls. 123—124.

íngjar bundust í fèlag móti honum (1686); þó kom eigi þá þegar til fulls fjandskapar með mönnum, en þess var eigi lengi að bíða. Loðvík hugsaði um það öllum stundum, að auka yfirráð sín og veldi; hann hafði því vakandi auga á löndum nábúa sinna, eins og vargur á bráð. Það yrði of lángt, að segja hèr frá öllum hans gripdeildum, en þess skal hèr getið, að um þessar mundir dó *Karl kjörfursti af Falz,* og átti eigi son, er að erfðum gæti gengið. Krafðist Loðvík þá, að bæði lönd og lausafè kjörfurstans yrði fengið sèr til umráða fyrir hönd mágkonu sinnar, Elísabetar konu Filippusar hertoga af Orleans, bróður Loðvíks, því að hún var systir kjörfurstans. En til þeirrar kröfu hafði Loðvík þó enga heimild, því að Falzgreifarnir af Neuburg stóðu næstir til erfða. Hèr við bættist og, að Loðvík konúngur vildi koma einum af sínum virktavinum, Furstenberg kardínála, til erkibiskups tignar í Köln, en það varð eigi framgengt.

Nú er þetta brást, og Falz var eigi þegar laust í hendi, þóttist Loðvík hafa nægar sakir til ófriðar. Hann hóf ófrið þennan með því öruggara geði, sem hann vissi að *Jakob annar,* Englands konúngur og ramkatólskur maður, mundi fylgja sèr að málum, og að því gat honum orðið góður styrkur. En um það leyti sem Loðvík sendi hersveitir sínar austur á Rínlöndin, steig Vilhjálmur af Óraníu fæti á land í Englandi. Tóku Englendíngar hann til konúngs, en Jakob steyptist úr völdum og flýði suður á Frakkland. Loðvík sagði Hollendíngum stríð á hendur, en Vilhjálmur þriðji, sem nú átti ríkjum að ráða bæði á Englandi og Hollandi, gjörðist oddviti allra mótstöðumanna Frakkakonúngs, enda var hann manna bezt til þess kjörinn. Viktor Amadeus hertogi af Savoyen gekk einnig í lið með þeim bandamönnum. Loðvík mátti því búast við öllu meiri mótspyrnu nú en áður, alt um það var hann öruggur og treysti vel bæði sèr og vopnum sínum. Frakkaher var nú kominn í Rínlöndin, og fór yfir bygðina með báli og brandi, því að Louvois hafði svo fyrir skipað. Borgirnar Heiðelberg, Mannheim, Speier, Vorms, og smábæir svo hundruðum skipti, voru brendar til kaldra kola. Fólkið varð að flýja undan um hávetur, hrakið og hrjáð og allslaust, því að Frakkar rupluðu og rændu öllu því, er hönd varð á fest. Þeir hjuggu niður fjölda vopnlausra manna, og margir dóu af húngri og harð-

rètti, en hinir, sem lífi hèldu, komust eitthvað til mannabygða, og lifðu þar síðan sem öreigar og ölmusumenn, þótt áður hefðu verið velefnaðir. Það mátti kalla, að allur Rínadalurinn, hið fagra og stóra hèrað, legðist í kaldakol, og svo kvað mikið að landauðn þessari, að lángt þótti yfir taka það sem grimmast var unnið og verst á dögum Tillys og Vallensteins í þrjátígi ára stríðinu. Keisarinn og Þýzkaland gátu litla sem enga vernd veitt þessum Rínarlöndum sökum ódugnaðar og sundurlyndis, og bar þar lítið til tíðinda, er frásagna þyki vert. En ófriður þessi nam eigi staðar í Rínlöndunum einum saman; hann breiddist út til annara landa: til Niðurlandanna, Írlands, Ítalíu, Spánar, og menn börðust á hafinu og í öðrum heimsálfum. Um sama leyti sem Luxemburg hershöfðíngi vann sigur á þýzku og hollenzku liði við *Fleurus* í Namur (1690), hèlt Jakob annar til Írlands með 5000 manns, er Loðvík 14. lèði honum. Írlendíngar tóku Jakobi vel, því að hann var katólskur eins og þeir, og gekk þar margt manna honum til handa. En Vilhjálmur þriðji var eigi aðgjörðalaus, og var kominn til Írands fyr en varði. Varð fundr þeirra Jakobs við Boyne-fljótið, og fèkk Vilhjálmur konúngur sigur, en Jakob flýði til Frakklands. Kjörfurstinn af Brandenborg hafði sent Schomberg hershöfðíngja, sem fyr er nefndur, með nokkrar þúsundir manna til liðs við Vilhjálm konúng; gekk Schomberg fram í orustu þessari sem úngur maður, þó hann hefði tvo um áttrætt, og fèll þar við mikinn orðstír. Eptir þenna sigur refsaði Vilhjálmur konúngur þúnglega öllu stórmenni á Írlandi, er í móti honum hafði snúizt, en alþýðunni var hann vægur, og leyfði þeim öllum að fara úr landi, er það vildu heldur kjósa; gekk þá fjöldi Íra í lið með Frökkum, og er svo sagt, að á 50 árum hafi fallið 400 þúsundir vígra manna af Írlandi undir merkjum Frakkakonúngs.

Eptir að Vilhjálmur konúngur hafði friðað Írland hèlt hann til Niðurlanda, því að Frakkar áttu þar ógrynni liðs og höfðu þar sinn bezta hershöfðíngja Luxemburg, er hafði lagt þar undir sig ýmsar borgir og hèröð suður í landi. Vilhjálmur hèlt þegar í móti Frökkum en fór öðru hverju halloka fyrir þeim, bæði í orustunni við Steinkerken 1692, og einkum í orustunni við Neervinden 1693. En skömmu síðar lagði Luxemburg niður

hervöldin og dó 1695; eptir það veitti Vilhjálmi betur en Frökkum, og gekk svo meðan ófriðurinn stóð.

Á sjó höfðu menn einnig barizt um þessar mundir og ýmsir haft sigur. Einn af sjóforíngjum Loðvíks fjórtánda hèt Tourville, hin mesta hetja; hann vann mikinn sigur á Englum og Hollendíngum árið 1690, og fyrir þá sök komst Jakob annar yfir á Írland, eins og fyr er ritað. En nú lèt Loðvík stofna að nýju til leiðángurs þángað. Herskip Frakkakonúngs lágu sum í höfn við Toulon en sum í Brest. Þeim sem voru í Toulon gaf eigi út að leggja, og leiddist konúngi að bíða þeirra, og skipaði því Tourville með þeim skipum sem hann hafði í Brest, að leggja út og eyða herskipum óvina sinna, svo að lið Jakobs yrði flutt í næði og hættulaust yfir hafið vestur á England. Tourville gjörði sem konúngur bauð honum, en mætir flota Englendínga og Hollendínga fram undan höfða þeim er La Hogue heitir — það er skamt fyrir vestan Cherbourg (Skerborg) á Norðmandí — Almonde og Russel stýrðu flota bandamanna og höfðu liðsafla meiri en Tourville. Þar varð hin harðasta orusta og lauk svo, að bandamenn unnu sigur, en Tourville misti mörg skip og flýði undan. Höfðu Englendíngar öll yfirráð á sjó eptir orustu þessa, en vesturför Jakobs og landgánga hans á England fórst fyrir með öllu.

Þó að Frökkum gengi betur en óvinum þeirra, bæði á Þýzkalandi, Ítalíu og Spáni, þá gekk ófriður þessi mjög nærri þeim, svo að Frakkland gat naumast undir risið. Loðvík var því allfús á að taka sættum, enda var honum mjög geðfelt, að geta lifað í friði nokkur ár, til þess að auka mátt sinn og megin og búa sig í næði undir ófrið þann, er hann vissi að bráðum mundi að höndum bera þegar konúngaskipti yrðu á Spáni. Þannig lauk þessum 9 ára ófriði, og var friður saminn í *Ryswyk* (1697). Loðvík hèlt því, sem hann hafði unnið í Elsaz, en slepti kröfum sínum til Falz og Cöln, og lèt það laust, er hann hafði unnið í Ítalíu og á Spáni; hann viðurkendi og konúngdóm Vilhjálms þriðja á Englandi, og hèt að styrkja eigi framar Jakob annan þar til ríkis. Hollendíngar fengu ýmsu rýmkað til um verzlun sína. Að öðru leyti var alt látið standa við það, sem menn höfðu orðið ásáttir um í vestfalska- og Nímvegar-friðnum.

Áður en sagt verður frá hinu *spánska erfðastríði*, þykir

hlýða, að nokkrum orðum sè farið um hið helzta, er við bar á Englandi og Þýzkalandi á seinni hluta seytjándu aldar, og fram um aldamót 1700, þó að á sumt af því sè minzt hèr að framan.

### England um daga Karls annars (1660—1685), og Jakobs annars (1685—1688).

Þegar Stúartar komust aptur til valda á Englandi (1660), og *Karl annar* hófst þar til konúngdóms, hafði parlamentið gleymt, eða eigi hirt um, að setja neinar skorður fyrir konúngsvaldinu, eða ákveða fastar reglur um rèttindi konúngs og þjóðþíngsins. Allir voru þreyttir orðnir af ófriðnum og þráðu friðinn, og menn lètu sèr nægja laus loforð Karls, er hann hèt mönnum almennu frelsi og, að parlamentið skyldi halda öllum sínum rèttindum óskertum. Karl hafði ýmislegt til að bera, er stórum mælti með honum í augum þjóðarinnar. Hann var fríður maður sýnum og höfðínglegur, eins og margir þeir frændur, blíður og vingjarnlegur í tali við hvern mann, og hann hafði lengi lifað í útlegð og orðið margt misjafnt að þola. Það voru því allar líkur til, að hann hefði lært margt gott í þeim mótgángsskóla, og mundi verða þeirri þjóð góður konúngur, sem tók honum með trausti og fögnuði. En það var skaplöstur þeirra Stúartanna, að þeir voru lèttlyndir, ótryggir og vanþakklátir, og vildu aldrei láta sèr skiljast hin einföldu sannindi: að vandi fylgir vegsemd hverri; þeir hugðu, að konúngur mætti gjöra alt hvað honum gott þætti. Karl annar sýndi þannig jafnskjótt sem hann var kominn til valda, eins og síðar í allri ríkisstjórn sinni, að hann hafði lítið lært sèr til gagns, bæði af afdrifum þeim sem faðir hans fèkk, og af öllum þeim hrakníngum, sem hann sjálfur hafði mætt á útlegðarárum sínum. Þó þótti það reyndar góðs viti, er hann gjörði *Clarendon* greifa, dugandi mann og vinsælan, að æðsta ráðgjafa sínum. En fögnuður þjóðarinnar varð ærið skammvinnur. Eitt hið fyrsta, sem nú var gjört, var, að sök var höfðuð gegn flestum af þeim mönnum, er dæmt höfðu Karl fyrsta til dauða, og voru margir þeirra af lífi teknir, þrátt fyrir það, þó Karl annar hefði heitið því, að gefa mönnum upp allar fornar sakir. Þar næst var það leitt í lög, að hin biskuplega kirkja (episcopal-kirkjan) skyldi ein vera þjóðkirkja á Englandi og jafnvel á Skotlandi, en allir aðrir trúarbragðaflokkar hörðu mæta;

en þegar til framkvæmdanna kom, varð það ljóst, að Karl konúngur hlífði þeim, sem katólskir voru, en beitti hörðu við þá, sem aðra trú höfðu, því að hann var sjálfur ramkatólskur í anda, þó að hann þyrði eigi að hafa slíkt í hámælum. Árið 1662 kvongaðist hann og átti konúngsdóttur eina af Portúgal, og fèkk í heimanmund með henni *Tanger*-kastala á Afríku norður við Gibraltarsund, þar að auki Bombay austur á Indlandi, og þar á ofan mikið lausafè.' Litlu síðar (1665) hófst ófriður milli Englendínga og Niðurlendínga, en undirrót ófriðarins var bæði sú, að Englar litu öfundaraugum á verzlunaruppgáng Niðurlanda, og líka sú, að Karli öðrum var gramt í geði við alt stórmenni á Niðurlöndum; honum þótti þeir hafa sýnt sèr helzt til lítinn sóma, meðan hann var þar í útlegð. Hvorirtveggja áttu nokkur kauptún á Guineu-ströndum í Afríku. Englendíngar þóttust fara þar halloka í verzlun sinni við landsmenn og kendu Niðurlendíngum um og tóku ýmsa kastala þeirra með ofríki, áður en hinir áttu sèr nokkurs ills von. Og Englar lètu eigi þar með búið, heldur sendu þeir herskip til Norðurameríku, og lögðu þar undir sig nokkrar af nýlendum Hollendínga. Helzta borgin í þeim nýlendum hèt Nýja-Amsterdam, þá borg tóku Englendíngar, gáfu henni annað nafn og kölluðu *New-York* (Nýju-Jórvík). Þegar landstjórinn Jóhann Witt, sem áður er nefndur, frètti aðfarir Englendínga, sendi hann Ruyter admiral til Afríku. Var Ruyter þá sem optar skjótur til ferða og ótrauður til framkvæmda, og urðu Englendíngar að láta laust fyrir honum það sem þeir höfðu undir sig svælt þar syðra. En eptir að Ruyter kom heim úr Afríkuför sinni, átti hann ýmsar orustur við Engla, og fóru þeir einatt halloka fyrir honum, og loksins gjörðist hann svo nærgöngull þeim, að hann hèlt skipum sínum upp í ána Thems, og tók þar mörg skip fyrir þeim, þótt varnir væru þar miklar á landi, og bannaði alla aðflutnínga á ánni upp að Lundúnum; slíkri heimsókn voru Englendíngar óvanir, en Ruyter varð mjög frægur af þeirri hreystiför. Eptir tveggja ára ófrið sömdu menn frið milli landanna í Breda (1667); fengu þá Niðurlendíngar nokkra tilslökun á ýmsum greinum í farmannalögum Cromwells, en Englendíngar hèldu borginni New-York, sem þeir höfðu unnið meðan ófriðurinn stóð, eins og áður var sagt.

Hin enska þjóð þóttist hafa orðið undir í viðskiptum þess-

um við Niðurlendínga, en til þess að fríða hana gjörði konúngur bæði að víkja Clarendon ráðgjafa sínum úr völdum, og gánga í lið með Hollendíngum og Svíum (*Tripelalliancen*) gegn Frökkum, og leiddi það samband til þess, að Loðvík 14. varð að gánga að friðnum í Aachen (1668). Þegar Clarendon var vikið frá, hafði Karl konúngur tekið sèr nýtt ráðaneyti og valið til þess þá menn er hètu *Clifford, Ashley, Bukkingham, Arlington* og *Lauderdale*, og þóttu þeir hinir óþörfustu bæði konúngi og þegnum hans. Þetta ráðaneyti kölluðu menn «*the cabal*», eptir upphafsstöfum í nöfnum þeirra. Ashley, er mestu rèð á meðal þeirra, og seinna varð greifi af Shaftesbury, reri að því öllum árum, að stjórninni skyldi í öllu haga eptir því sem verið hafði á Frakklandi á dögum Richelieu og Mazarins; fyrir þá sök væri nú Loðvík fjórtándi orðinn þar einvaldur, og þyrfti í engu að vera háður þíngi eður þegnum. Hèr væri því eigi um annað að gjöra, en eiga vingott við Frakka og konúng þeirra, og þá mundi auðgefið að hafa parlamentið enska í hendi sèr. Þessar og þvílíkar fortölur þótti Karli öðrum viturlegar og góðar, og litlu síðar sagði hann slitið sambandinu við Hollendínga og Svía, en gjörðist vinur og bandamaður Loðvíks fjórtánda, og þegar ófriðaðist með Frökkum og Hollendíngum (1672), styrkti Karl Loðvík vin sinn eptir mætti, þángað til parlamentið enska synjaði konúngi um fjárstyrk og neyddi hann til friðar við Hollendínga (1674). En Karl hèlt engu að síður vináttu og trygð við Loðvík eptir það, og seldi honum Dunkerque-borg (Dunkirchen), sem Cromwell hafði náð undir England, en mjög mislíkaði enskum mönnum sú sala. Loðvík 14. vissi gjörla, að sèr var það hinn mesti hagur, að alt gengi á trèfótum í Englandi, en stjórnin þar væri sèr vinveitt, þess vegna sendi hann Karli öðrum, sem jafnan var í peníngaþröng, drjúgum fè á hverju ári og batt hann þannig við borð. Svo auðvirðilegan gat Englands konúngur gjört sig á þeim tímum. Bæði konúngur og ráðgjafar hans reyndu og á allar lundir að hlynna að katólskum mönnum á Englandi. Kristmúnkar streymdu til Englands, og tók stjórnin þeim tveim höndum; drotníngin hafði katólska klerka um sig; Jakob, hertogi af York, bróðir Karls konúngs, tók katólska trú og taldi menn á að gjöra slíkt hið sama; hann eggjaði og konúnginn bróður sinn á að fylgja þeim sið, en Karl þorði það eigi, þótt hann feginn

vildi. Var þá Loðvík fjórtándi spurður til ráða, en hann rèð konúngi frá því að svo stöddu. Karl lèt sèr þá nægja, að afnema öll þau lög, er sett höfðu verið gegn þeim trúarbragðaflokkum er eigi fylgdu biskupakirkjunni, því að á þann hátt gat hann stórum bætt hag katólskra manna þar í landi. Nú þótti parlamentinu úr hófi keyra, enda varð konúngur að taka aptur nýmæli sín, og árið 1673 var það í lög leitt, að enginn maður skyldi til valda komast á Englandi, nema hann ynni áður eið að því, að fylgja þjóðkirkjunni (biskupakirkjunni), og neyta hinnar heilögu kveldmáltíðar einusinni á ári eptir þeim reglum, er sú kirkja fyrirskipaði. Þessi lög eru nefnd «*the test-act*». Jafnskjótt sem þetta varð að lögum, lagði hertoginn af York niður öll þau völd, er konúngur hafði fengið honum í hendur, og sýndi þannig opinberlega, að hann játaði katólska trú; slíkt hið sama gjörðu fleiri valdamenn. Parlamentið lèt eigi þar við sitja, heldur krafðist þess, að þeir af ráðgjöfum konúngs, er helzt voru grunaðir um að fylgja katólskum sið, skyldu gánga úr völdum, og lèt konúngur það eptir þínginu. Og þeir, sem ákafastir voru af mótstöðumönnum konúngs, báru fram þá tillögu (*bill of exclusion*), að hertoginn af York hefði fyrirgjört rètti til ríkiserfða af því hann væri katólskur; konúngur vildi jafnvel fallast á tillöguna, en lávarðarnir í efri stofunni mæltu í móti og var því máli þá eytt. En það var önnur rèttarbót, og mjög merkileg, sem parlamentið fèkk til vegar komið um þessar mundir (1679), og það voru *mannhelgilög Englendínga* («*the habeas corpus act*»). Eptir þeim lögum má engan mann taka höndum, nema hlutaðeigandi valdsmaður gjöri skriflega grein fyrir hvers vegna slíkt er gjört, og hinn sem handtekinn er hefir fulla heimtíng á, að sök hans verði prófuð af dómaranum sem allra fyrst. Eptir því sem leið á æfi Karls annars, versnaði samkomulagið milli hans og þjóðarinnar. Þó voru sumir er hèldu með konúngi og hirðinni, og voru þeir nefndir *Torymenn*, eða Torymanna flokkur, en hinir er í móti stóðu, og mæltu með þjóðfrelsi og prótestanta trú, voru nefndir *Whiggmenn*, eða Whiggmanna flokkur. Hafa þau flokkanöfn síðan haldizt á Englandi til þessa dags. Hin síðustu ár æfinnar stýrði konúngur ríkinu með tilstyrk Torymanna, án þess að parlamentið væri kvatt til þíngsetu. Whiggarnir reyndu til að fá þeirri lögleysu afstýrt og rèðu ráðum sínum, en hinum

komu njósnir af, voru þá nokkrir af hinum helztu foríngjum Whiggmanna gripnir, dæmdir til dauða og teknir af lífi. Á öndverðu ári 1685 varð Karl konúngur sjúkur, og andaðist litlu síðar, eptir að hafa fengið þjónustu alla af katólskum presti. Það er sagt, að Karl annar hafi verið allvel viti borinn, en alt um það var hann lítilnýtur konúngur, því að hann lèt sig litlu varða hvernig landi og lýðum vegnaði, en um hitt hugsaði hann mest, að eyða fè ríkisins til alls konar óþarfa og munaðar.

*Jakob*, hertogi af York, bróðir Karls annars, varð nú konúngur eptir hann, og er nefndur *Jakob annar* (1685—1688); sagði mörgum þúnglega hugur um hans ríkisstjórn, því að menn vissu, að hann hafði lítinn dul dregið á það, að hann vildi einvaldur konúngur vera, en hitt var augljóst alþýðu manna, að hann var katólskur og fylgdi þeim sið af miklu kappi. Það kom og bráðum í ljós, að Jakob fór í flestu að ráðum Loðvíks fjórtánda og þá af honum fègjafir miklar, þó dult ætti að fara. Það var því hægt fyrir að sjá, að andlegu og borgaralegu frelsi þjóðarinnar var hætta búin.

Jakob hertogi af *Monmouth*, launsonur Karls annars, vildi nú freista hamíngjunnar og steypa föðurbróður sínum úr völdum, en brjótast sjálfur til ríkis á Englandi; tekur sèr því konúngsnafn og hefir liðsafnað vestur í landi. En konúngur sendir þegar herlið í móti honum, og verður sá endir þar á, að hertoginn fær ósigur og verður handtekinn og drepinn síðan. Af þessum sigri ofmetnaðist Jakob konúngur svo mjög, að honum þótti sèr allir vegir færir; hann lèt ofsækja alla þá menn, er fylgt höfðu hertoganum af Monmouth, og þá sem hann grunaði um hollustu við sig, og lèt taka suma af lífi, en flytja suma af landi burt; hann lagði skatta á þjóðina eptir sjálfs síns geðþótta; setti kristmúnka og katólska menn til æðstu valda, fjölgaði hermönnum og gjörði katólska menn að foríngjum þeirra, því að þeim einum þóttist hann mega treysta. Það var auðsèð á öllu hans athæfi, að hann lèt sèr eigi nægja, að eigi væri amazt við katólskum sið þar í landi, heldur gjörði hvað hann kunni til þess að kollvarpa þjóðtrú þeirri, sem honum var skylt að vernda eptir landslögum. Alt um það hlífðust menn við að gjöra uppreisn, því að mönnum var minnisstæð öll sú barátta, eymd og óhamingja, sem gengið hafði yfir landið um daga Karls

fyrsta, föður Jakobs konungs; menn lifðu líka í þeirri von, að rætast mundi úr öllu þessu þegar konúngur dæi, því að hann átti engan son, en með fyrri konu sinni hafði hann átt tvær dætur, er báðar voru uppaldar í prótestantatrú, og giptar þeim mönnum, er fylgdu sama sið. Eldri dóttir Jakobs hèt *María*, og átti frænda sinn *Vilhjálm af Óraníu*, hinn ágæta landstjóra á Niðurlöndum, hin ýngri hèt *Anna*, og var gipt *Jörgen*, syni *Friðriks þriðja* Danakonúngs. En nú bar svo til (1688) að Jakob konúngur eignaðist son með drotníngu sinni (hún var frá Modena á Ítalíu og katólsk), og þá þóttust menn vita með vissu, að þeim sveini mundi verða kend katólsk fræði, og það rækilega. Þótti mönnum þá, að svo búið mætti eigi lengur standa. Öllum flokkadráttum hætti; Whiggar og Torymenn gleymdu öllum deilum; þeir sem fylgdu biskupatrúnni og hinir sem fylgdu presbytera-trúnni, urðu allir sem einn maður; fjöldi hinna göfugustu manna fóru austur í Haag á Niðurlöndum til fundar við Vilhjálm landstjóra, og skoruðu fast á hann, að koma til Englands og bjarga þar landi og lýð. Vilhjálmi var vel kunnugt alt um hagi Jakobs, tengdaföður síns, en hafði til þessa leitt hjá sèr að skerast opinberlega í málefni hans, en nú var hann til þess albúinn. Hann safnaði liði og bjó flota sinn í skyndi; hugðu margir, að hann mundi ætla að hafa úti þann leiðángur móti Frökkum, því að þaðan áttu Niðurlendingar jafnan ills von. En er Loðvík fjórtándi fèkk sannar sögur af fyriræltan Vilhjálms, gjörir hann Jakobi konúngi orð, og býður honum liðveizlu sína, en Jakob vildi eigi trúa orðsendingu Frakkakonúngs, og hugði að hann mundi vilja ginna sig til ófriðar gegn Vilhjálmi, og hafði því engan viðbúnað að svo stöddu. Á öndverðum vetri (1688) hèlt Vilhjálmur skipum sínum til Englands, og kom við land (5. nóvember) skamt frá borg þeirri, er Exeter heitir suður í landi. Þá varð Jakob svo hræddur, að hann hèt öllu fögru, en landsmenn lögðu engan trúnað á orð hans, og sá hann þá eigi annað vænna en að flýja af landi burt og leita á náðir Loðvíks fjórtánda, og fèkk þar góðar viðtökur. Frakkakonúngur fèkk honum höll eina til íbúðar, og veitti honum árlegt fè til uppeldis sèr þángað til Jakob andaðist árið 1701.

Stjórnarbyltíng á Englandi. Vilhjálmur þriðji (1689—1702). Anna drotníng 1702—1714).

Nú er að segja frá Vilhjálmi, að hann heldur austur eptir landi og stefnir til Lundúna og hraðar ferð sinni. Tóku landsmenn honum með fyrsta heldur fálega, því að þeir vissu ógjörla hvert erindi hans var, eða hver heill þeim mundi af honum standa. En er hann gjörði bert fyrir öllum, hvað Jakob konúngur hefði til saka unnið, og að hann væri kominn þángað til þess, að kveðja þá menn til þíngs, er landsmenn vildu sjálfir kjósa, og til þess að vernda frið og frelsi og trú landsmanna, þá glaðnaði yfir Englendíngum, og þá gengu allir, er á leið hans urðu, honum til handa. Útlendir þjóðhöfðíngjar þeir, er óttuðust aðfarir Frakka, fögnuðu þessum tíðindum, því að þeir þóttust sjá fyrir, að Vilhjálmur mundi verða bjargvættur Norðurálfunnar gegn Loðvíki fjórtánda og öllum hans yfirgángi. Á þíngi Englendínga var því næst ákveðið, að Jakob annar hefði fyrirgjört konúngdómi, og að sonur hans gæti eigi heldur til ríkis komizt, en konúngstignin á Englandi var fengin í hendur Vilhjálmi af Oraníu og Maríu drotníngu hans. Meðan Vilhjálmur væri á lífi skyldi hann einn stýra ríkinu, en er hann væri dáinn og drotníng hans, skyldi konúngdómurinn gánga í erfðir til Önnu Jakobsdóttur, en enginn verða konúngur yfir Stórbretalandi (Englandi og Skotlandi) og Írlandi, sem fylgdi katólskum sið. Öllu hinu sama samþyktust Skotar á þíngi því, er þeir áttu með sèr um þessar mundir. En af reynslunni voru Englendíngar orðnir hygnari, og fyrir því settu þeir nú konúngsvaldinu nokkrar skorður, sem þeir höfðu eigi áður gjört. Í skildaga þeim (*«declaration* eða *bill of rights»*), sem konúngdóminum nú var settur, var svo ákveðið: að konúngur mætti eigi undan skorast að framkvæma það, er lögin byðu, eigi leggja skatta á þjóðina, nè hafa her manns nema parlamentið leyfði, eigi þiggja menn undan lögum, og ráðgjafar hans hafa fulla ábyrgð þess, er þeir gjörðu; «testaktinn» var látinn halda gildi sínu og biskupakirkjan öllum sínum forrèttindum. Þessir atburðir, sem nú voru taldir, eru það, sem menn hafa kallað: *Stjórnarbyltínguna á Englandi.*

Þannig varð Vilhjálmur af Oraníu, konúngur yfir Englandi, Skotlandi og Írlandi, og nefndur *Vilhjálmur þriðji.* Hann var

þá þegar hèr var komið (1689) 39 ára gamall. Þess er áður getið, hve vel og viturlega hann hafði stýrt þjóðmálefnum Niðurlendinga, og að hann hafði átt mestan og beztan þátt í mótstöðu þeirri, sem á meginlandinu var gjörð í móti ójöfnuði og yfirgángi Loðvíks fjórtánda. En þó Vilhjálmur hefði mikið aðgjört bæði í því efni og öðrum, meðan hann rèð að eins fyrir litlu ríki á Niðurlöndum, þá ræður að líkindum, að miklu meiri mundu framkvæmdir hans verða, eptir að jafnmikið ríki bættist við sem England, með öllu er því fylgdi, og hann hafði fleiri þjóðum á að skipa en áður; enda kom það og fram. Hann gekst fyrir því, að mikið þjóðasamband var gjört móti Loðvíki fjórtánda, þegar Loðvík hóf ófriðinn út af Falz, þann er fyr er nefndur, og endaði í Rýsvíkur-friðnum 1697. Hann vann og sigur á Jakobi tengdaföður sínum (1690), er komizt hafði yfir á Írland fyrir tilstyrk Frakka og kveikt þar ófrið og reynt að brjótast aptur til ríkis. Meðan á þessum ófriði stóð við Frakka, var Vilhjálmur konúngur vanur að vera við herinn yfir á meginlandi á sumrum, en sat í London á vetrinn. Parlamentið veitti honum allríflega fè til kostnaðar þess, er ófriðurinn útheimti, því að Englendingar sáu skjótt, að konúngur kunni vel með að fara, og hugsaði einungis um það, að verja fènu þjóðinni til gagns og sóma, en eigi um hitt, að sóa því út til alls konar munaðar, eins og þeir Stúartarnir höfðu gjört. Þess var eigi heldur lángt að bíða, að ávextirnir kæmu í ljós. England tók skjótum og miklum framförum í öllum greinum; allir atvinnuvegir lifnuðu við og blómguðust ár frá ári; fjárhagur ríkisins komst á fastan fót; herskip fjölguðu á fáum árum meir en til helminga; verzlunin náði miklum þroska og færðist út yfir flest lönd og þjóðir. Hið «*indverska kaupfèlag*», er stofnað var á ofanverðum dögum Elísabetar drotníngar, fèkk nýtt og betra skipulag, og þess var eigi lengi að bíða, að nýlendur Englendínga í Hindóstan mögnuðust svo mjög, og kreptu svo mjög að nýlendum Frakka og Hollendínga þar eystra, að þeim hnignaði óðum og loks hurfu þær að fullu og öllu. Af öllu saman þessu fengu Englendíngar mikið orð á sig, og urðu frægir meðal annara þjóða, og þó einstöku menn á Englandi, einkum af hinum katólska flokki, gjörðu sitt til að spilla friði og rósemi í landinu, og jafnvel sitja á svikráðum við konúng, þá undu lands-

menn vel sínum kjörum, og þjóðfrelsið festi þær rætur á Englandi, að það hefir búið að því síðan.

Þegar Jakob annar dó (1701), lýsti Loðvík fjórtándi yfir því, að sonur hans, er nefndi sig *Jakob þriðja*, væri rètt kvaddur og kjörinn konúngur á Englandi, og um sama leyti lèt Loðvík sonarson sinn, Filippus af Anjou, setjast í konúngsvöld á Spáni. Sá atburður leiddi til þess, að parlamentið á Englandi kvað skýrara á um ríkiserfðir á Englandi, en áður hafði verið. Eptir þeim lögum, er nú voru sett, skyldu engir konúngsfrændur, sem fylgdu katólskum sið, koma þar til ríkis, en þegar Anna væri dáin, skyldi konúngstignin gánga til niðja Friðriks af Falz og Elísabetar dóttur Jakobs fyrsta[1]. Í annan stað gjörði Vilhjálmur konúngur samband við Leopold keisara í Austurríki og fleiri þjóðhöfðíngja, til þess að afstýra konúngdómi Filippusar af Anjou, því það var auðvitað, að ef hann festist í völdum á Spáni, þá mundi Frakkakonúngur í raun rèttri hafa þar öll yfirráðin. Hin enska og niðurlenzka þjóð var sambuga Vilhjálmi í þessu, og lèt honum í tè fè og mannafla, eptir því sem honum þótti við þurfa. Vilhjálmur konúngur bjó nú lið sitt og ætlaði til Niðurlanda og þaðan í móti Frökkum, en þá bar svo til einn dag, að hestur sá, er hann reið, fèll undir honum, en konúngur viðbeinsbrotnaði; hann hafði lengi verið lasinn til heilsu, en nú, er þessi meiðsl komu til, þá sýktist hann, og andaðist í marzmánuði 1702, eptir 13 ára ríkisstjórn. María drotning hans var dáin 7 árum á undan, og hafði þeim eigi orðið barna auðið. Vilhjálmi konúngi er svo lýst, að hann væri vel meðalmaður á vöxt, grannvaxinn og eigi hraustur til heilsu, ennimikill, manna bezt eygður og hinn höfðínglegasti ásýndum, fáorður jafnan, alvörugefinn, dulur í skapi og vel stiltur; hann hafði hvassan skilning og minni hið bezta, eins og margir í þeirri ætt, hann var gætinn maður og hygginn í öllu ráðlagi. Loðvík fjórtándi og Vilhjálmur þriðji voru í flestum hlutum mjög ólíkir. Þar sem Loðvík vildi, eins og hinn ríki maður, lifa hvern dag í dýrðlegum fagnaði, hafa um sig fjölmenna og skrautlega hirð, þó þegnar hans gætu varla risið undir kostnaðinum, þá hafði Vilhjálmur aldrei fleiri menn í sinni þjónustu, en hann nauðsynlega þurfti, og hèlt bæði sig og þá með hófsemi og sparnaði; Loðvík bældi

1) Sjá Nýju sögunnar I. hepti bls. 184.

haft það land að lèni frá Pólverjakonúngi. Þegar Loðvík fjortándi ætlaði að brjóta Holland undir sig, gekk kjörfurstinn í lið með óvinum Loðvíks og vann sigur á Svíum, bandamönnum Frakkakonúngs, eins og fyr er ritað, og eignaðist þá nokkurn skika af Pommern. Þegar Frakkakonúngur svipti Hugenotta rèttarbótinni, sem kend er við Nantes, flýðu margar þúsundir manna af Frakklandi, og þá lèði kjörfurstinn þeim bústaði í ríki sínu, og elfldu þeir þar síðan akuryrkju og alls konar iðnað, og urðu þar hinir þörfustu menn. Þá er Friðrik Vilhjálmur dó, var ríki hans orðið miklu stærra og blómlegra en er hann tók við því. Eptir hann kom þar til ríkis Friðrik sonur hans (1688—1713). Hann var mjög ólíkur sínum föður. Hann skeytti alls eigi um skyldur sínar, eða rèttindi þegna sinna, en allur hans hugur hneigðist að skarti og skrauti og hègómlegri upphefð; ríkinu fór því eigi fram, heldur aptur ef nokkuð var, meðan hann sat að völdum; en honum vanst það á, sem hann sóttist helzt eptir, og það var, að fá konúngsnafnið. Árið 1701 krýndi hann sjálfan sig í Königsberg og tók sèr nýtt nafn, og nefndi sig *Friðrik fyrsta, Prússakonúng.* Til þeirrar upphefðar hafði hann fengið samþykki keisarans, og heitið honum í móti vináttu sinni og liðsemd.

*Habsborg - Austurríki.* Ferdínand keisari, hinn þriðji með því nafni, varð sóttdauður 1657 eptir 20 ára ríkisstjórn. Honum hafði margt verið vel gefið og þótti hann allnýtur höfðíngi í ríki sínu. Eptir hann var Leópold ýngri sonur hans, kjörinn til keisaratignar, því að hinn eldri, Ferdínand, var þá dáinn fyrir fáum árum. *Leópold,* sem nefndur er *hinn fyrsti* með því nafni, var áður orðinn konúngur í Úngverjalandi og Böhmen. Hann rèð ríkjum frá 1657—1705, eður því nær hálfa öld. Hann var alinn upp af Kristmúnkum, og átti með fyrsta að verða klerkur, en er það fórst fyrir og hann hófst til verzlegrar tignar, þá sleptu þeir þó eigi hendi af honum, heldur stýrðu þeir honum mestmegnis upp frá því. Öll hans innanríkisstjórn var dáðlaus, en það sem hann vann í viðskiptum við útlendar þjóðir, var eigi honum að þakka heldur öðrum mönnum, þar á meðal hershöfðíngjum hans. Í viðureign sinni við Loðvík fjórtánda, sýndi hann bezt hve ráðlaus og duglítill þjóðhöfðíngi hann var, þó að

meðfram megi því um kenna, að hann varð um sama leyti að snúast við Tyrkjum.

Bæði keisarinn og Soldán vildu hafa öll yfirráð í *Siebenbürgen;* en svo heitir eitt víðlent fylki austan á Úngverjalandi. Soldán sagði því keisaranum stríð á hendur (1662) og sendi herlið sitt inn á Úngverjaland; en hershöfðíngi keisarans, *Montecuculi,* sem fyr er nefndur, vann mikinn sigur á Tyrkjum (1664), skamt frá klaustri því, er heitir St. Gotthard; alt um það samdi keisarinn frið við þá, og hèldu þeir öllu því, er þeir höfðu unnið. Þjóðveldið Venezía, er var í sambandi við keisarann, varð að láta Krítey lausa við Soldán eptir lánga og harða viðureign (1669), og Pólverjar mistu Ukraine og Podolíu.

Um þessar mundir fór Leópold illa að ráði sínu við Úngverja. Landsmenn þar höfðu framan úr öldum haft ýmisleg einkarèttindi, og voru í mörgu lítt háðir Austurríkiskeisara, þótt hann bæri yfir þeim konúngsnafn. En Leópold fór ekki að því, heldur braut hann lög á Úngverjum að ráðum kristmúnka og illra ráðgjafa, og ofsótti harðlega prótestanta þá, er þar áttu heima í landi. Kom nú sem vænta mátti hinn versti kur í landsmenn. Keisarinn lèt hart mæta hörðu, en landsmenn gripu til vopna (1682), og gjörðist sá foríngi þeirra, er *Emmerik Tökeli* hèt, göfugur maður og ágætur um marga hluti. Tyrkir veittu Úngverjum að málum, enda reru Frakkar undir niðri, og þar kom, að Tyrkir höfðu liðsafnað, og hèldu með óvígan her inn á Úngverjaland. Það er sagt að þeir hafi haft um 200 þúsundir vopnaðra manna. Móti þvílíku ofurefli gat það lið, er keisarinn sendi, eigi reist rönd og fór á hæli undan, en Tyrkir hèldu alla leið vestur til Vínar, og settust um borgina (1683). Leópold keisari flýði vestur í borg þá, er Passau heitir, en sá maður, er Stahremberg hèt, bjóst til varnar í höfuðborginni (Vínarborg) þótt liðfár væri, og varði hana fræknlega. Foríngi Tyrkjahersins hèt *Kara Mustafa,* og af því að hann var ónýtur hershöfðíngi, þá gekk honum ærið seint að vinna borgina. Að tveim mánuðum liðnum var þó að því komið, að borgarmenn mundu gefast upp, en það varð þeim til bjargar, að þá kom *Jóhann Sobieski,* Pólverjakonúngur, og Karl hertogi af Lothringen með 80 þúsundir manna, og rèðu á Tyrki (12. sept. 1683); varð þar harður fundur, og lauk svo að Tyrkir flýðu víðs vegar austur á

Úngverjaland. Þannig björguðu Pólverjar í það skipti, eigi einasta Vínarborg, heldur ef til vill öllu Þýzkalandi, þó þeim hafi lítt verið það munað á seinni tímum.

Sá hinn mikli ósigur, er Tyrkir biðu hjá Vínarborg 1683, gjörði þá breytingu á sögu þeirra, að síðan hefir þeim farið hnignandi. Venezía, Pólverjaland og jafnvel Rússland, sem til þessa hafði lítið gefið sig við málefnum Norðurálfumanna, gjörðu nú samband við keisarann til þess að vinna á Tyrkjum að fullu og öllu. Karl af Lothringen, hershöfðíngi keisarans, vann mikinn sigur á Tyrkjum við Móhacz á Úngverjalandi (1687), og náði borginni Ofen (eða Buda), er verið hafði í höndum Tyrkja hèr um bil 150 ár. Loðvík af Baden vann á þeim annan sigur við Salankemen (1691), og 1697 vann *Eugen* prinz af *Savoyen*[1] frægan sigur á þeim í orustu við Zenta. Það var hans fyrsta frægðarverk, en síðan urðu þau mörg og mikil. Um sama leyti höfðu Veneziumenn unnið Móreu (Peloponnesos), og Rússar ýms hèröð fyrir norðan Svartahafið. Krepti þá svo að Tyrkjum, að þeir sömdu frið í *Karlowiz* (1699), og þá fèkk keisarinn öll yfirráð á Úngverjalandi, Siebenburgen og Slavoníu, þó hèldu Tyrkir borgunum Temesvar og Belgrad. Veneziumenn fengu Moreu, Pólverjar Podoliu og Kaminiek, og Rússar Asow.

Leópold keisari átti þannig dugnaði hershöfðíngja sinna, og liðveizlu Jóhans Sobieskis það að þakka, að hann bar hærra hlut frá borði en Tyrkir, í þessum viðskiptum þeirra, og Norðurálfumenn hafa síðan mátt vera óhræddir um lönd sín fyrir ágángi Tyrkja. Úngverjar mistu mikið af fornu frelsi, og land þeirra er síðan ekki kjörríki heldur erfðaríki, eins og hvert annað skattland Austurríkiskeisara. Tökeli flýði til Tyrklands og dó þar, en marga göfuga menn á Úngverjalandi, sem tekið höfðu þátt í uppreisninni, lèt keisarinn af lífi taka.

---

1) Eugen var sonur hertogans af Savoyen og systurson Mazaríns kardínála, fæddur 1663, dáinn 1736. Hann bauð Loðvíki fjórtánda þjónustu sína, en það er mælt, að konúngi þætti hann eigi líklegur til herþjónustu og gæfi hönum snubbótt afsvar. Eugen þykir verið hafa mestur hershöfðíngi á sinni tíð, ágætur stjórnvitríngur og þar á ofan hinn bezti drengur.

Hið spánska erfðastríð (1701—1713).

Þar var fyr frá horfið, er Loðvík fjórtándi samdi friðinn í Rysvýk við mótstöðumenn sína (1697). Þó að hann þættist þá í sumu verða undir, og hann yrði í ýmsu að brjóta odd af oflæti sínu, þá hugsaði hann sèr, að vinna það alt upp aptur seinna og jafna þá betur á óvinum sínum. Hann vissi sem fleiri, að þess mundi eigi lángt að bíða, að konúngaskipti yrðu á Spáni, en þá ætlaði Loðvík sèr hvorki meira nè minna, en að ná öllu því ríki undir sig, og sameina þannig alt Spánarveldi við Frakkland; tækist honum þetta, þá var tími til að minnast á fornan fjandskap við nágrannaþjóðirnar fyrir norðan og austan Frakkland. Þess vegna var Loðvík svo auðveldur þeim og eptirlátur, er Rysvýkur-friðurinn var saminn. En hverjar voru líkur til þess, að Loðvík mundi ná yfirráðum á Spáni? Karl annar, sem þar rèð ríkjum þegar hèr var komið, var eigi nema rúmlega þrítugur að aldri, en hann var barnlaus maður og heilsulaus með öllu, og hægt fyrir að sjá, að lífdagar hans mundu bráðum á enda. Karl var sonur Filippusar fjórða, en þeir Loðvík fjórtándi og Leópold keisari fyrsti voru mágar Karls, tengdasynir Filippusar fjórða, og þess utan voru þeir báðir dætrasynir Filippusar þriðja. Leópold keisari þóttist því engu síður en Loðvík eiga tilkall til ríkiserfða á Spáni, heldur öllu fremur, með því að hann var kominn í beinan karllegg af Ferdínandi keisara, bróður Karls keisara hins fimmta, og nú var hann elztur manna og helztur í hinn *ýngra karllegg* þeirra Habsborgarmanna. Keisarinn þóttist reyndar sjá það fyrir, að stjórnendur Norðurálfunnar mundu aldrei leyfa, að einn og hinn sami maður yrði ráðandi yfir báðum, Austurríki og Spáni, og fyrir því afsalaði hann sèr erfðarètt til Spánar og fèkk hann í hendur ýngra syni sínum *Karli* erkihertoga. En Vilhjálmur þriðji, af Óraníu, sem nú rèð bæði fyrir Englandi og Niðurlöndum var helzt á því, að skipt yrði Spánarveldi milli manna, svo að enginn einn fengi það alt og óskipt, og yrði þannig ríkari en góðu hófi gegndi og gæti svo raskað æskilegu jafnvægi Norðurálfunnar. Vilhjálmur fèkk því og komið til leiðar, að Frakkakonúngur og Austurríkiskeisari lètu sèr lynda, að eignast lönd nokkur á Ítalíu og í Belgíu, sem lágu undir Spán, en aðalhlutinn af ríki Karls annars skyldi gánga í erfðir til *Jósefs Ferdínands,* sonar

kjörfurstans af Baiern, því að sá úngi maður var dóttursonur Leópolds keisara og Margrétar, ýngri systur Karls annars[1]. Þetta lèt Karl Spánarkonúngur sèr allvel líka, en vildi þó eigi að ríkið skiptist eptir sinn dag, og arfleiddi kjörfurstasoninn að því öllu og óskiptu (1699), en til allrar óhamíngju dó hinn úngi maður nokkrum vikum síðar.

Nú komu ný vandræði að höndum, svo að til mestu vafnínga horfði. Þó urðu þeir Vilhjálmur þriðji og Loðvík fjórtándi á það sáttir, að ríkiserfínginn á Frakklandi (*Dauphin*) skyldi fá nokkuð af arfinum, en Karl erkihertogi eignast Spán, aðalríkið, og þó lönd að auki, en Leópold vildi eigi fallast á þau skipti fyrir hönd sonar síns. Karl annar vildi eigi, eins og áður er sagt, að ríkið skiptist í sundur eptir sinn dag, og ef Leópold keisari hefði haft nokkurn dug í sèr, og fylgt betur fram sínu máli, þá var honum auðgefið að fá alt hið spánska ríki til handa Karli erkihertoga syni sínum, því að Karl konúngur annar var því eigi fjarri og rèð keisara að senda erkihertogann gagngjört til Spánar. En Leópold færðist undan, og erindsreki hans við hirð Spánarkonúngs var eigi maður til að mæta *Harcourt*, sendiherra Frakkakonúngs á Spáni, er gjörði það hann kunni, bæði með fögrum orðum og fèmútum, til þess að fá bæði Spánarkonúng og hina göfugustu menn meðal Spánverja á sitt mál; þeir fjölguðu því með degi hverjum, er hans mál studdu. Árið 1700 (1. dag nóv.) dó Karl annar, og þá kom það í ljós, að hann hafði arfleitt *Filippus af Anjou*, sonarson Loðvíks fjórtánda, að öllu Spánarveldi eptir sinn dag.

Loðvík fjórtándi hafði nú fengið það fram, er hann vildi; þó lèt hann sem sèr væri það efamál, hvort hann ætti að þiggja allan hinn mikla arf fyrir hönd frænda síns, enda var honum kunnugt um, hvernig þeir Leópold keisari og Vilhjálmur þriðji mundu snúast við þessum málalokum. Alt um það lèt hann Filippus taka við konúngstign á Spáni, og hinn úngi konúngur hèlt því næst burt af Frakklandi og heim í ríki sitt á Spáni og settist að í Madrid. Hann nefndi sig *Filippus fimta*, og var þá 17 vetra gamall. Það ræður nú að líkindum, að Loðvík fjórtándi og ráðgjafar hans hafi viljað ráða og ráðið miklu á Spáni eptir að hinn úngi konúngur settist þar að völdum, en hins

1) Sjá ættartöluna á bls. 65.

*Filippus þriðji*, Spánverja konúngur † 1621.

*Anna* gipt Loðvíki 13. Frakkakg.
*Filippus 4.* Spánarkonúngur † 1665.
*María* gipt Ferdínandi keisara þriðja

*Loðvík 14.* Frakkakg. † 1715.
*María Theresía* gipt Loðvíki 14.
*Karl annar,* Spán.kg. † 1700.
*Margret Theresia* gipt Leópold keis. I.
*Leópold* keisari fyrsti † 1705.

*Loðvík* (Dauphin) † 1711.
*María Antonía* gipt Max, kjörfursta af Baiern.
*Jósef 1.* keisari, † 1711.
*Karl 6.* keisari[1] † 1740.

*Loðvík,* hertogi af Bourgogne, † 1712.
*Filippus af Anjou* Spánarkonúngur (5.) 1700—1745.
*Jósef Ferdínand* † 1699.

*Loðvík* 15. Frakkakonúngur.

1) Þeir bræður Jósef 1. og Karl 6. voru eptir seinni konu Leópolds; hún var kjörfurstadóttir frá Falz.

til herskipa. Yfir landherinn setti konúngur þann höfðíngja, er hèt *Jón Churchill* greifi af *Marlborough*, og síðan fèkk hertoga nafnbót. Marlborough hafði á æskuárum sínum verið með Turenne, og síðan með Vilhjálmi konúngi þriðja á herferðum hans móti Frökkum, og numið af þeim hernaðaríþróttina. Það er sagt, að Marlborough hafi verið manna fríðastur sýnum og bezt að sèr gjör um flesta hluti, þá er hershöfðíngja mega prýða. Í marzmánuði 1702 hèlt hann til Niðurlanda, og tók þar við yfirstjórn hins enska og hollenzka landliðs, en nokkrum dögum síðar spurðist lát Vilhjálms konúngs, og að Anna dóttir Jakobs annars var komin til ríkis á Englandi. Hafði konúngur áður hann andaðist ráðið Önnu að láta Marlborough halda hervöldum, því að hann einn væri sá af enskum mönnum, er því starfi væri vaxinn. Anna drotníng fylgdi því ráði, og reynslan sýndi bezt, að Vilhjálmur hafði þar, sem endrarnær, verið glöggskygn.

Rúmu ári áður en Marlborough tók við herstjórn á Niðurlöndum, var Eugen kominn með sínar hersveitir suður yfir Alpafjöll og ofan á Ítalíu. Þar rèðst sá hershöfðíngi í móti honum með Frakkaher, er *Catinat* hèt; hann þótti hinn vaskasti foríngi, en þó fór hann halloka fyrir Eugen, og varð að leggja herváldin niður, en sá var settur í hans stað, er *Villeroi* hèt; hann var marskálkur að nafnbót og aldavinur frú Maintenons. En þá tók eigi betra við fyrir Frökkum, því að Eugen vann eigi einúngis sigur á þeim í fleiri orustum, heldur tók hann marskálkinn höndum og flutti hann norður til Vínarborgar (í febr. 1702). Þá ofbauð frú Maintenon, er hún heyrði slíkar ófarir.

Fregnin um þessar ófarir Frakka og um sigursæld Eugens kom hinum þýzku þjóðhöfðíngjum loksins til að gánga í lið með keisaranum og bandamönnum hans; slíkt hið sama gjörðu litlu síðar hertoginn af Savoyen og konúngurinn af Portúgal, svo að aðrir stóðu nú eigi með Frakkakonúngi en kjörfurstarnir af Baiern og Köln, því Spánn var eigi sjálfum sèr bjargandi, hvað þá fær um að veita Frökkum lið. Alt um það veitti Frökkum betur á Ítalíu eptir að *Vendome* var settur þar til herstjórnar í staðinn fyrir Villeroi. Vendome var kominn í beinan karllegg af Hinriki konúngi fjórða og reyndist ágætur hershöfðíngi. Á Þýzkalandi var Loðvík af Baden aðalforíngi Þjóðverja, en þeir *Villars* og Maximilían kjörfursti af Baiern fyrir Frökkum og Baierns-mönn-

um; veitti Frökkum þar öllu betur en Þjóðverjum, og mundu meira hafa að gjört, ef samkomulag hefði betra verið milli þeirra Villars og kjörfurstans; en þeim samdi svo illa, að Loðvík 14. varð að kalla Villars heim og setja aðra hershöfðíngja í hans stað; var konúngi það hið mesta mein, því að Villars var hans bezti hershöfðíngi sem þá var uppi. Í hinum spánsku Niðurlöndum var Marlborough tekinn til starfa, og hafði unnið þar ýmsar borgir, er Frakkar höfðu lagt setulið í; þaðan hèlt hann upp með Rín inn í lönd kjörfurstans af Köln, og hafði alstaðar sigur. Villeroi var aptur laus orðinn og kominn frá Vínarborg, og hafði herstjórn af hendi Frakka þar vestur frá móti Marlborough.

Með árinu 1704 fór Frökkum að gánga miður. Þá var svo ráð fyrir gjört, að Eugen skyldi hafa herstjórn á Þýzkalandi og að þeir Loðvík af Baden, Marlborough og hann skyldu allir hjálpast að, og reka þaðan brott bæði innlenda og útlenda óvini. Um vorið var Marlborugh með liði sínu vestur við ána Mósel og hèlt suður og upp með henni um stund, en gjörði það einúngis til þess að blekkja Frakka, því að hann ætlaði sèr í alt aðra átt, enda hvarf hann þeim þá er minst varði, og vissu þeir ekki hvað af honum varð, fyr en hann var kominn austur yfir Rín og allar götur upp með Nekkarfljóti. Þar hittust þeir allir þrír hershöfðíngjarnir, Loðvík af Baden, Eugen og Marlborough, í borg þeirri, er Heilbronn heitir; varð þar fagnafundur með þeim og vináttumál mikil, og rèðu þeir nú ráðum sínum; kom þeim ásamt um, að Loðvík og Marlborough skyldu halda liðinu austur á Baiern móti kjörfurstanum og Frakkaher þeim er þar var, en Eugen fara vestur að Rín móti því liði, er þángað var von af Frakklandi. Þess var eigi lángt að bíða, áður orusta yrði með mönnum í Baiern, og urðu þeir Marlborough þar hlutskarpari, en hinir hrukku undan til Augsborgar; var landsfólkið nú nauðulega statt í Baiern, er allur sá mikli hermannasægur óð yfir landið, og urðu margir til að eggja kjörfurstann á að segja skilið við Frakka, en hann vildi eigi þekkjast það, því að á hverjum degi var von á hershöfðíngja þeim, er *Tallard* hèt, með miklu liði af Frakklandi til styrktar við kjörfurstann. Lið þetta kom og skömmu síðar, eins og ráð var fyrir gjört, og þóttust þeir þá öruggir til bardaga. En Eu-

gen hafði fengið njósnir af ferðum Tallards og haldið á eptir honum með sínar sveitir, og sameinað þær við lið Marlboroughs hjá bæ þeim, er Donauwerth heitir. Skamt eitt þaðan í austur og niður með ánni (Donau) er borgin Ingolstadt, þángað var Loðvík af Baden farinn með nokkru liði og seztur um hana, því að hún var í óvinaböndum. Kjörfurstinn og Tallard hèldu þessu næst öllu liðinu norður yfir Donau, en þeir Eugen og Marlborough komu í móti þeim, og varð fundur þeirra (13. aug. 1704) við bæ þann, er *Hochstädt* er nefndur. Þar varð orusta bæði hörð og löng og lauk svo, að þeir Eugen unnu hinn frægasta sigur, en af hinum fèllu margar þúsundir eða urðu handteknar; kjörfurstinn og þeir, sem af komust, flýðu suður yfir Donau, en Tallard, aðalforínginn sjálfur, varð handtekinn. Keisarans menn settust í lönd kjörfurstans og lèku þau hart, en Frakkar hrukku vestur yfir Rín og sáust eigi á Þýzkalandi í mörg ár eptir þessar hrakníngar. Var nú Þýzkaland þaðan í frá, meðan spánska erfðastríðið stóð, að miklu leyti laust við ófriðinn, er enn um nokkur ár geisaði í Niðurlöndum, á Ítalíu og á Spáni.

Það bar nú þessu næst til tíðinda á Þýzkalandi, að þar urðu höfðíngjaskipti. Leópold keisari andaðist á öndverðu sumri 1705 (5. maí), en eldri sonur hans *Jósef fyrsti* varð keisari eptir föður sinn. Hann gjörði það þegar bert fyrir öllum, að sèr væri fast í huga að styrkja Karl bróður sinn til ríkis á Spáni, og halda því stríði fram, sem faðir þeirra hefði byrjað. Eugen hafði nú fengið yfirstjórn allra hermála á Ítalíu, en skorti liðsafla til þess að geta borið af Vendome, er þar stóð í móti honum með Frakkaher. Marlborough og Loðvík af Baden voru settir í móti Villars vestur við Rín, en urðu bráðum að skilja, því að bæði var, að sitt sýndist hvorum, svo að lítið varð þar ágengt, og í annan stað voru Niðurlöndin í háska stödd, því að Villeroi var þar á næstu grösum og hafði ógrynni liðs, og var þegar tekinn að vinna þar ýmsar borgir og hèruð. Kjörfurstinn af Baiern var þar í liði með honum; þángað hèlt nú Marlborough, og urðu menn fegnir komu hans. Eptir nokkur viðskipti og smáorustur, er jafnan hölluðust á Villeroi, stóð aðalorustan milli þeirra Marlboroughs á völlunum við bæ þann, er *Ramillies* heitir (23. maí 1706), og fór sem fyr, að Marlborough fèkk sigur, en Villeroi misti helmíng allan af sínum mönnum,

allar fallbyssur og flest það er fèmætt var í för hans, en sjálfur komst hann á flótta undan og kjörfurstinn með honum; veitti Marlborough þeim eptirför og lètti eigi fyr, en þeir og alt þeirra lið var hrokkið suður og vestur yfir Scheldefljót. Alt Brabant og það af Flandern, sem Spánverjar áttu, komst í hendur sigurvegarans, og var Karli erkihertoga, bróður Jósefs keisara, svarið þar land og þegnar.

Nú er að segja frá Eugen. Hann hafði um veturinn haldið kyrru fyrir í Vínarborg, en þá er voraði (1706) hèlt hann suður á Ítalíu þángað sem lið hans var; hafði Vendome, litlu áður en Eugen kom, veitt keisarans mönnum aðgöngu og hrakið þá austur fyrir Adige (eða Etsch) fljót. Þótti Eugen það eigi góðar frèttir, en jafnframt komu honum þau tíðindi, að Vendome var þaðan á brott, og kominn til Niðurlanda, því að eptir orustuna við Ramillies var Villeroi rekinn frá völdum og Vendome settur til herstjórnar í hans stað. En nú var svo ástatt á Ítalíu, að hertoginn af Savoyen, einn af bandamönnum keisarans, var búinn að missa í hendur á Frökkum alt sitt ríki, nema höfuðborgina Túrin, og um hana sátu Frakkar með 38000 manna; hertoginn var sjálfur flúinn úr borginni til að forða lífi sínu, og hafðizt við í bæ þeim, er Asti heitir, og það lið, er honum vildi fylgja. Það var fyrirætlan Eugens, að komast þángað sem hertoginn var, sameina sitt lið við hans, og halda svo til Túrínar og ná henni úr höndum umsátursmanna. En þetta var enginn hægðarleikur. Það var löng leið og yfir margar stórár að sækja, og á öllum vegum sátu óvinir með meiri liðsafla en þeim, er Eugen hafði á að skipa. En Eugen var allra manna djarfastur og framgjarnastur þegar því var að skipta, og lèt sèr enga hættu í augum vaxa. Svo fór, að hann komst klaklaust þángað sem hertoginn sat með sína menn, og eptir það hèldu þeir til Túrínar; en það ætluðu menn eigi, að hann mundi áræða að veita Frökkum þar aðgöngu, því að þeir höfðu aukið lið sitt og höfðu þar um 80 þúsundir manns, en Eugen og hertoginn að eins 37 þúsundir. Það var í septembermánuði (1706) er Eugen kom til borgarinnar, og er hann hefir um stund litið yfir fylkíngar óvina sinna, mælti hann: «mèr virðist að lið þetta sè þegar unnið». Lætur hann því næst blása til atlögu, en hinir snúast í móti. Eptir þriggja stunda orustu lögðu Frakkar á

flótta, voru þá fallnar af þeim 5000 manna, en 7000 handteknar; þar fèkk Eugen ógrynni herfángs og þar á meðal allar fallbyssur Frakka, yfir tvö hundruð að tölu. Eptir þenna fræga sigur hrukku Frakkar burt af Ítalíu, en hertoginn af Savoyen settist aptur að ríki sínu. Eins og Austurríki, með orustunni við Ramillies, vann þann hluta Niðurlanda sem Spánverjar áttu, eins vann það nú af Spánverjum hertogadæmið Milano (Mafland) með orustunni við Túrin. Nú var hið þriðja skattland eptir, sem Spánverjar einnig áttu, og það var Neapelsríki, því vildi keisarinn einnig ná undir sig, og sendi þángað einn af hershöfðíngjum sínum, er *Daun* hèt; varð þar lítil fyrirstaða, og eptir nokkrar vikur hafði Daun unnið alt það land undir keisarann. Eugen hafði nú eigi meira að starfa á Ítalíu, og hèlt liði sínu til Niðurlanda til móts við Marlborough.

Nú hefir um hríð verið sagt frá því, sem gjörðist með mönnum á Þýzkalandi, á Niðurlöndum og á Ítalíu. Hèr skal þess í fáum orðum getið, er gjörðist um þessar mundir á Spáni; því að í öllum áttum umhverfis Frakkland var ófriður, og um yfirráðin á Spáni voru menn að berjast, eins og kunnugt er. Árið 1702 hèldu Englendíngar og Hollendíngar flota sínum til Spánar og ætluðu að taka Kadiz; það er sjávarborg mikil og auðug, sunnan og vestantil á Spáni; borgin reyndist betur varin en þeir hugðu, og fengu þeir eigi tekið hana og urðu frá að hverfa við svo búið. En á leiðinni norður með landi tóku þeir fjölda skipa fyrir Spánverjum; voru sum þeirra nýkomin vestan frá Ameríku hlaðin dýrum dómum, og fengu þeir þar ógrynni fjár, en Spánverjar biðu hinn mezta skaða. Portúgalskonúngur gekk í lið með bandamönnum, eins og fyr er sagt, og eggjaði fastlega á, að Karl erkihertogi kæmi og tækist á hendur ríkisstjórn á Spáni; þó drógst það þángað til á öndverðu ári 1704, þá kom Karl um síðir og hafði 12 þúsundir liðsmanna af Englandi og Hollandi; hafði *Pètur annar,* Portúgalskonúngur, þá herlið sitt á reiðum höndum, og hèldu síðan öllu liðinu austur á Spán, en hvorigur þeirra Karls kunni til herstjórnar, og urðu því framkvæmdir þeirra ærið litlar. Hið eina, sem þar gjörðist til frásagna, var, að Englendíngar unnu *Gibraltar* (4. ág. (1704), því að Spánverjar höfðu þar að eins hundrað manns til varnar; annars er kastali sá óvinnandi, því að hann er allur í þver-

gníptum hömrum við sjóinn, og ófært upp að gánga nema að eins að vestanverðu, þar sem bærinn Gibraltar stendur neðanundir hömrunum; hafa Englendíngar síðan setið í kastala þessum, og aldrei orðið þaðan komið, þó reynt hafi verið. Árið eptir (1705) varð Karli erkihertoga vel framgengt austur í landi, því að landsfólkið gekk honum þar fúslega til handa, af gömlu hatri sem íbúar hins forna Aragoníu-ríkis báru til Kastilíumanna[1]; en mestur bluti Kastilíumanna fylgdi Filippusi konúngi. Spánverjar gengu þannig í tvær sveitir, annar hluti þjóðarinnar hélt með Karli en hinn með Filippusi. Var nú hin mesta óöld á Spáni, er landsmenn börðust sín í millum, en hefði nokkuð að Karli kveðið, var honum innan handar að gjöra þar á skjótar og allgóðar málalyktir, því að hann hafði upphaflega miklu meiri mannastyrk yfir að ráða en Filippus. Það komst jafnvel svo lángt, að bandamenn (Englar, Hollendíngar og Portúgalsmenn) tóku Madrid, höfuðborg landsins, og Filippus varð að flýja þaðan, en Karl sat í næði austur í Barcellona og kom þar hvergi nærri; kom sá sigur honum því að litlu liði, og nokkru síðar vann *Bervick* marskálkur[2] mikinn sigur á bandamönnum (1707) í nánd við *Almanza-borg* í Murcia; festist Filippus þá aptur í konúngdómi um stundarsakir, og að fullu og öllu eptir að Vendome tók við herstjórn Frakka á Spáni og vann sigur á bandamönnum hjá *Villa Viciosa* (1710); en það var nokkru síðar en hèr var komið.

Eugen var kominn sigri hrósandi af Ítalíu, eins og áður var sagt, og þángað norður sem Marlborough sat og átti í höggi við Frakka. En þó að þeir hefðu farið ófarir miklar fyrir honum i orustunni við Ramillies, þá var Loðvík fjórtándi eigi uppgefinn, og hafði liðsafnað mikinn um alt sitt ríki, og sendi það lið norður á landamæri, því að hann vildi fyrir hvern mun ná aptur þeim borgum og bygðum í Flandern og Brabant, er Marlborough hafði af honum unnið. Yfir þetta lið er Frakkakonúngur

1) Sjá Miðaldasögu bls. 197.

2) Bervick var sonur Jakobs annars Englakonúngs óskilgetinn, og Arabellu, systur Marlboroughs hertoga; hann gekk fyrst í herþjónustu Leópolds keisara, en síðan gjörðist hann maður Loðvíks fjórtánda og þótti góður hershöfðíngi. Hann fèll á Þýzkalandi 1734.

lèt saman koma á landamærum Frakklands og Niðurlanda, og sem voru frekar 80 þúsundir manna, setti hann hertogann af *Bourgogne*, sonarson sinn, 25 ára gamlan, líttreyndan og eigi þeim vanda vaxinn, að mæta slíkum afbragðsmönnum, sem Eugen og Marlborough; mun konúngur og hafa sèð að svo var, og þess vegna setti hann Vendome hertoganum til annarar handar, honum til ráðaneytis. Vendome var hinn herkænasti maður, og hafði jafnan vel gefizt hans herstjórn, en hèr komu kostir hans að litlu haldi, því að hertoginn vildi sínum ráðum fram fara, og hann var yfirforíngi hersins. Í júlímánuði 1708 hèldu Frakkar liði sínu inn á Niðurlönd og tóku þar nokkrar kastalaborgir, en Marlborough var svo liðfár að hann gat eigi varnað því. Áður lángt liði kom Eugen með sína menn, og þóttust þeir þá öruggir til framgöngu. Um þessar mundir voru Frakkar komnir að bæ þeim, er *Oudenarde* heitir, og bjuggust að taka hann. Sá bær er við Scheldefljót. Eugen vildi eigi að Frakkar tækju bæinn, og gaf það ráð, að veita þeim atgöngu þegar í stað. Vendome sá alla fyrirætlan þeirra og sagði hertoganum hvern viðbúnað skyldi hafa meðan tími væri til, en hertoginn vildi eigi þeim ráðum fylgja; þokaðist nú bandamannaherinn nær, og kaus sèr þar vígstöðvar, er bezt átti við, en við því hafði Vendome einmitt viljað sporna, þó hann fengi því eigi ráðið. Tókst því næst hin harðasta orusta. Frakkar börðust af mikilli hreysti, en það kom fyrir ekki, því að fyrirskipanir Vendome og hertogans riðu í bága hvorar við aðrar meðan á bardaganum stóð. Átta þúsundir af Frökkum urðu þar handteknar, jafnmargar fèllu og urðu sárar, en hitt liðið, er af komst hörfaði vestur yfir Schelde; skipaði Vendome svo vel og viturlega fyrir á flóttanum, að hann fèkk af hina mestu sæmd. Árángurinn af sigrinum við Oudenarde varð sá, að Frakkar gátu eigi frekara aðhafzt það árið. Um haustið eptir og framan af vetri náðu bandamenn aptur ýmsum borgum í Flandern, er Frakkar höfðu tekið; ein af þeim var Ryssel eða Lille, er hinn nafnfrægi Vauban hafði svo ramlega víggirt, að kallað var hans mesta meistaraverk. Nú mátti heita, að þeir Eugen hefðu greiðan veg til Parísar og gætu sett Loðvíki fjórtánda þá kosti, er þeim þættu góðir, en á þeim tímum þorðu menn eigi að hætta sèr lángt

inn í óvina land, alla þá stund sem nokkur kastali var óunninn að baki þeim; fyrir því var nú hèr látið staðar nema að sinni.

Ofan á alt hið mikla manntjón og hinn mikla fjárskaða, er Frakkar höfðu hrept um undanfarin ár, bættist það, að vetur sá, sem hèr fór á eptir (1709) var einhver hinn harðasti, er um lánga tíma hafði gengið yfir Norðurálfuna[1]. Dýr og fuglar fèllu hrönnum saman, vínviður, korn og alls konar aldini frusu til skemda, og fjöldi bænda misti þannig áleigu sína og komust á vonarvöl; gengu þau harðindi eigi síður yfir Frakkland en önnur lönd. Þrengdi öll sú óhamíngja svo mjög að Frakkakonúngi, að hann leitaði á Hollendínga fastara en nokkru sinni áður, að sett væru grið og friður milli landanna; en þeir færðust undan, enda rèðu þeir Eugen og Marlborough því, að tilmælum Loðvíks var enginn gaumur gefinn. Konúngur varð því að búa sig undir ófrið af nýju, og veitti honum það allerfitt, því að mjög var nú tekið að þverra hjá honum bæði fólk og fè. Þó fèkk hann safnað svo miklum her, að frekar 100 þúsundir manna töldust undir vopnum. Yfir það lið setti konúngur *Villars;* honum treystu Frakkar einum manna, að rètta hluta sinn og vinna það aptur, er aðrir höfðu mist, því að hann hafði aldrei beðið ósigur fyrir óvinum sínum. Með þessu liði hèlt Villars til Niðurlanda. Bandamenn höfðu meira lið og betur búið en Frakkar, og hèldu þegar í móti þeim; hittust þeir lítið eitt fyrir sunnan borg þá, er Mons heitir — hún er sunnarlega í Belgíu. Þar sátu Frakkar hjá þorpi einu, er *Malplaquet* heitir, og höfðu búizt þar svo vel um, að fæstum þótti árennilegt. Þó rèðu þeir Eugen það af, að veita þeim þegar atgöngu. Ellefta dag septembers (1709) árla morguns hófst orustan og stóð fram yfir nón. Eugen var í hægra fylkingararm, en Marlborough fyrir hinum vinstra; sótti Eugen svo hart fram, að Frakkar tóku að svigna fyrir, sendi Villars þá nokkrar sveitir manna úr miðhernum þeim til liðs. Marlborough fèkk þegar sèð, að þunnskipaðri urðu miðfylkíngar Frakka; gjörir þar þá áhlaup á sem harðast, og brýzt í gegnum, svo að herinn Frakka skiptist í tvent. Þannig var sigurinn unninn. Villars varð sár í orustunni svo að hann var borinn

---

1) Þann sama vetur var Karl 12. á ferð með Svíaher austur á Rússlandi og komst þar í miklar mannraunir sem segir í sögu hans.

burt af vígvellinum, og gat því eigi aðdugað sem skyldi; þó kom hann liði sínu svo kænlega undan, að eigi sáu hinir sèr fært, að veita honum eptirför. Þessi orusta var mest og hörðust í öllu erfðastríðinu spánska, og er mælt að fallið hafi yfir 30000 af hvorumtveggja.

Nú mátti segja að lokin væri sund öll fyrir Loðvíki fjórtanda, enda lèt hann þegar leita um sættir við óvini sína, en því betri kosti sem hann bauð, því harðari kröfur gjörðu þeir í móti; sýnir það bezt hve nauðulega hann þá var staddur, og hve ant honum var um að friður kæmist á, að hann bauð, að láta alt Elsaz — það er allur Rínardalurinn fyrir vestan ána — af hendi, og þar að auki fleiri staði nyrðst á Frakklandí, og gánga að öllum þeim kjörum og köstum, er bandamenn settu, nema þeim eina, að fara með liði á hendur Filippusi sonarsyni sínum og reka hann burt af Spáni, en hinu hèt hann, að leggja fè til þess; það vildu þeir eigi þekkjast, og gekk þá eigi saman með þeim sættin, og ófriðurinn hófst að nýju vorið eptir (1710). En það kom hèr berlega í ljós, eins og víðar í sögunni, að drottinn tekur í taumana þegar honum þykir tími til kominn og ofmetnaður manna ætlar úr hófi að keyra. Loðvík fjórtándi kunni sèr ekki hóf; þá risu bandamenn í móti honum og brutu ofmetnað hans svo gjörsamlega á bak aptur, að hann sá sitt óvænna og leitaði friðarins af fullri alvöru. Við þau málalok hefðu þeir vel mátt una, en þeir þóttust hafa ráð hans og ríki í hendi sèr, og vildu kúga Frakkland að fullu og öllu. En það átti eigi svo til að gánga. Á Englandi höfðu Whigmenn setið að völdum um nokkur ár og Marlborough verið fremstur í þeirra flokki; *Sara* kona hans var í miklum kærleikum við Önnu drotníngu, var ákaflega drotnunargjörn og fèkk flestu því fram komið er hún vildi; meðan sú vinátta stóð óhögguð, var það vitaskuld, að Marlborough hefði æztu hervöldin, og, að stríðinu væri alla þá stund áframhaldið. En nú bar svo til, að Sara stygði drotníngu; þetta færðu Torymenn, óvinir Whigmanna og Marlboroughs sèr í nyt, og töluðu svo um fyrir drotníngu, að Sara var rekin frá hirðinni og maður hennar sviptur æztu hervöldum; Whigmenn sleptu stjórnarforráðum (1710) og Torymenn settust að völdum, og jafnskjótt sem það var orðið, fóru þeir að semja við Loðvík konúng um frið. *Oxford* greifi og *Boling-*

*broke* lávarður, nafnkendur af ritum sínum, voru helztu mennirnir í hinu nýja stjórnarráði. Litlu síðar (17. apr. 1711) andaðist Jósef keisari hinn fyrsti; hann dó úr bólunni að eins 32 ára gamall, og var sagður góður maður og vel að sèr gjör um marga hluti. Hann átti engan son á lífi, og fyrir því erfði Karl erkihertogi bróðir hans, sem fyr er nefndur, ríki eptir hann, og var nefndur Karl 6. Nú var eigi við því að búast, að bandamenn vildu, að sá maður, er kominn var til ríkisstjórnar í Austurríki, Böhmen og Úngverjalandi, skyldi þar á ofan eignast Spánarveldi alt, bæði hèr í álfu og fyrir vestan haf. Þess vegna voru þeir nú frá því horfnir, að reka Filippus fimta burt af Spáni, og hinir hörðu kostir, sem Loðvíki fjórtánda voru settir árið áður, hurfu nú að kalla af sjálfu sèr. En er Englendíngar voru gengnir úr liði bandamanna, sáu hinir sèr eigi fært, að halda lengur til þrautar fram ófriðnum, og þannig komst loksins friður á, er saminn var í borg þeirri, er *Utrecht* heitir (1713) með svofeldum skilmálum:

1. Filippus fimti hèlt konúngdómi yfir Spáni og öllum þeim löndum, sem því ríki lutu annarstaðar en hèr í álfu, en afsala varð hann sèr öllum erfðarètti til Frakklands.
2. Karl keisari (hinn 6.) skyldi eignast Neapel, Sardínarey, Milanó og hin spánsku Niðurlönd (Belgíu).
3. Hertoginn af Savoyen fèkk Sikiley og konúngstign í þokkabót.
4. England fèkk Gibraltar og eyna Minorka, og ýms verzlunarrèttindi í löndum Spánarkonúngs fyrir vestan haf. Af Frökkum fengu Englendíngar Newfoundland, löndin við Huðsonsflóa og Akadíu (eða Nýjaskotland), «eptir hinum fornu landamerkjum». Þess utan varð Loðvík fjórtándi að samþykkjast það, að kjörfurstinn af Hannóver fengi konúngstign á Englandi, vísa á burtu syni Jakobs Stúarts og afmá víggirðíngar allar og höfn í Dunkerken.
5. Portúgal fèkk nýlenduna St. Sakramento í Suðurameríku, er áður lá undir Spán.
6. Niðurlöndin urðu útundan, og höfðu þó lagt mikið í sölurnar. Þau fengu að eins rètt til að leggja setulið í ýmsa kastala í hinum spánsku Niðurlöndum, sem nú voru lögð undir Austurríki; átti það að vera til varnar móti Frökkum.

Keisarinn, Karl 6., vildi eigi gánga að þessum skilmálum, og hèlt enn fram ófriði, en hafði nú engan liðsafla móti Frökkum; Eugen gat eigi rönd við reist, þó hann biði aldrei ósigur, en Villars vann aðra af hershöfðíngjum keisarans, og ári síðar (1714) sá keisarinn sèr eigi annað fært, en að samþykkjast það, er að sætt hafði orðið með mönnum í Útrecht árið áður. Algjörður friður komst því á í *Rastadt* milli keisarans og Frakka, og í *Baden* milli hins þýzka ríkis og Frakka. Eugen og Villars sömdu frið þenna af hendi málsaðila, og skildu vinir. Þannig var hinu spánska erfðastríði lokið.

Loðvík fjórtándi náði þannig miklu betri friðarkostum heldur en áhorfðist um stundarsakir. En þó hann gæti glatt sig við þau málalok sem urðu, var það þó margt sem að honum amaði hin síðustu æfiár hans, þar á meðal það, að hann varð að sjá á bak nánustu ættmönnum sínum. Þannig dó (1711) *Loðvík* ríkiserfínginn sonur hans, kominn um fimtugt. Þegar hann var dáinn stóð sonur hans, hertoginn af Bourgogne næstur til ríkiserfða, og gjörðu margir sèr góðar vonir um hann, því að hann var sagður atgervimaður og átti góða konu, en ári síðar (1712) dóu þau bæði; skömmu þar á eptir dó eldri sonur þeirra Loðvík, hertogi af Bretagne, og nú var að eins eptir af niðjum hins gamla konúngs eitt sveinbarn á öðru ári, er síðan varð konúngur og nefndur Loðvík 15. Skömmu síðar en hèr var komið andaðist Loðvík fjórtándi, (1. sept. 1715) sjötigi og sjö ára gamall, en hafði borið konúngs nafn tvo vetur og sjötigi.

Af hinni löngu, umsvifamiklu og glæsilegu ríkisstjórn Loðvíks fjórtánda, bar eigi einúngis Frakkland miklar og margvíslegar menjar, heldur því nær öll Norðurálfan. Að því sleptu, sem beinlínis leiddi bæði fjær og nær af öllum hans mikla ófriði, og hèr að framan er nokkuð frá skýrt, þá hafði Loðvík þar að auki svo margt fyrir stafni, er friðsamlegt mátti kalla, heima í ríki sínu, að aðrar þjóðir veittu því eptirtekt og tóku margt af því eptir. Versailles-borg, þar sem Loðvík hafði aðsetu, var fyrir hans daga lítil og allómerk, en hann lèt reisa þar hina mestu og skrautlegustu konúngshöll og prýða þar alt umhverfis á allar lundir, svo að þángað flyktist að múgur og margmenni og tók sèr þar bólfestu, og borgin varð á nokkrum árum margfalt stærri og skrautlegri en áður; flest stórmenni ríkisins

streymdi þángað, og kaus fremur að ala aldur sinn við hirðina í glaum og gleði og alls nægtum, heldur en í kyrð og fámenni á búgörðum sínum úti um landsbygðina; listamenn og vísindamenn skorti eigi heldur við hirðina, því að konúngur var við þá hinn örlátasti. Þá komu og upp margir ágætir vísindamenn á Frakklandi — frá þeim tímum eru hin nafnfrægu skáld *Molière* † 1673, *Corneille* † 1684 og *Racine* † 1699, og ýmsir fleiri—; frakknesk rit og frakknesk túnga barst út um alla Norðrálfuna, og mönnum fanst mikið um hvorttveggja, og stældu eptir því í öðrum löndum. Við hirðir konúnganna sömdu menn sig að siðum Frakka og lögðu meiri stund á frakkneska túngu en móðurmál sitt, því að hún ein þótti sæma heldri mönnum; latínsk túnga hafði til þess tíma verið viðhöfð í samníngum og bréfagjörðum milli konúnganna, en nú var því hætt og frakknesk túnga tekin í staðinn, og hefir svo víðast verið síðan. En þó að flest væri glæsilegt í nánd við Loðvík fjórtanda, þá var hagur alþýðunnar á Frakklandi alt annað en álitlegur, einkum á ofanverðum ríkisárum hans; til hins lángvinna ófriðar þurfti bæði meira fè og meiri mannafla en þjóðin gat undir risið; jarðeignir voru annaðhvort í höndum höfðíngjanna eða klerkanna, og hvorirtveggja hugsuðu eigi um annað en heimta sem mest af leiguliðum sínum og kúga þá á ýmsar lundir. Af þessu gjörðist svo mikil aðgreiníng milli hinna æðri stètta og lægri, að landsmenn allir greindust í tvær sveitir, önnur lifði í allsnægtum, hin við skort og örbirgð; í þessum mikla mismun á lífskjörum hinnar frakknesku þjóðar á hin stórkostlega bylting, sem seinna kom þar fram, sínar rætur.

## Norðurlönd (1648—1700).

1. *Danmörk og Norvegur.* Kristján fjórði, Dana og Norðmannakonúngur, dó 1648 (28. febr.) eptir lánga og merkilega ríkisstjórn, eins og fyr er ritað. Kristján sonur hans, konúngsefnið, var dáinn ári áður, en *Friðrik*, er honum var næstur að aldri, og þá kominn um fertugt, var enn eigi kjörinn til ríkis, og var því konúngslaust um hríð í Danmörku, þángað til *ríkisdagurinn* átti fund með sèr til konúngskosníngar. En á meðan svo stóð höfðu 4 æztu valdsmenn ríkisins stjórnarstörfin á hendi, og var *Korfitz Úlfeldt* þeirra helztur. Til ríkisdagsins

komu aðalsmenn, klerkar og borgarastèttin, en bænda var alls eigi getið. Var Friðrik, sonur Kristjáns fjórða, því næst kjörinn til konúngs og nefndur *Friðrik þriðji* (1648—1670), en vinna varð hann það til konúngstignarinnar, að rita nafn sitt undir þá skilmálaskrá, er stórmenni ríkisins (eða ríkisrráðið) setti honum, og voru þeir skilmálar harðari en nokkur Danakonúngur hafði áður undir gengizt. Slíka skrá kölluðu Danir: *Haandfæstning*. Var þar ákveðið meðal annars, að aðallinn skyldi halda öllum sínum forrèttindum óskertum; að í ríkisráðinu skyldu sitja 23 menn, og á þess valdi, en eigi konúngs, að skipa þar rúm aptur, ef autt yrði; ef eitthvert af æztu embættum ríkisins[1] losnaði, skyldi ríkisráðið tiltaka þann, er það embætti fengi aptur; eigi mátti konúngur fara af landi burt nema ríkisráðið leyfði, og eigi hækka gjöldin á lènsmönnum krúnunnar — en það hafði Kristján fjórði stundum gjört, meðan hann var á upprèttum fótum, til þess að auka tekjur ríkisins. — Var þannig loku fyrir skotið að bæta með hægu móti fjárhag ríkisins, en því nær allur ágóði af lènsjörðum krúnunnar lenti hjá þeim mönnum einum, er þær höfðu til umráða; og það voru eigi aðrir en aðalsmenn. Það mátti því segja, að ríkisstjórnin væri í höndum ríkisráðsins. Friðrik þriðji gekk að öllum þeim kostum, sem honum voru settir, en hann hugsaði sèr í kyrþey að rètta hluta sinn þó seinna yrði. Hann var dulur maður í skapi og kunni vel að stilla geð sitt, og var að því leyti ólíkur Kristjáni konúngi föður sínum. Hagur Danmerkur var um þær mundir mjög bágur: ríkisfjárhirzlur tómar, landher og skipalið í vanhirðingu, allur þorri landslýðsins margþjáður af sèrplægnum aðalsmönnum, alt vald í höndum ríkisráðsins en því nær ekkert hjá konúngi. Þannig var ástatt innanlands, en ef lengra var litið, þá voru Svíar á næstu grösum, frægir og voldugir og ágengir, og buðu Dönum af sèr hinn mesta geig. Friðriki konúngi var fast

1) Æztu embættismenn ríkisins voru um þessar mundir: *Rigshofmesteren*, er stóð fyrir valdstjórnarmálum ríkisins, hann hafði hirðstjórn á hendi og umsjón alla með konúngstekjum og eignum krúnunnar. *Rigskantsleren* stýrði öllum dómsmálum. *Rigsmarsken* var fyrir hermálum (eins og Krigsministeren nú á dögum), og *Rigsadmiralen* hafði yfirstjórn herskipaflotans og sjóliðsmála allra (nú er sá maður nefndur: Marineminister).

í huga að ráða hèr á nokkra bót, en slíkt var eigi auðgjört. *Korfits Úlfeldt* var um þessar mundir allra manna ríkastur og voldugastur í Danmörku. Kona hans hèt Eleonore Kristín, dóttir Kristjáns fjórða, eins og áður er sagt, afbragðskona bæði að viti og mannkostum. Drotníng Friðriks þriðja hèt Soffía Amalía frá Brúnsvík-Lüneburg á Þýzkalandi. Drotníngu var gramt í geði til Eleonoru, því að meðan Kristján konúngur fjórði var uppi, var þessi dóttir hans í svo miklum hávegum, að við sjálft lá að hinnar gætti lítið. Það var og sagt, að Úlfeldt væri mest um að kenna, að dráttur varð nokkur á kosníngu Friðriks, og, að þeir kostir voru svo harðir, sem honum voru settir í stjórnarskránni, og hann varð að gángast undir. Það ræður að líkindum, að konúngi hafi eigi verið hlýtt í skapi til Úlfeldts. Ári síðar en Friðrik kom til ríkis, sendi hann Úlfeldt til Hollands, með þeim erindum, að leita þaðan vináttu og styrks, og leiddi sú sendiför til þess, að samníngur var gjörður milli Dana og Hollendínga (Niðurlendínga), að hvorir skyldu öðrum veita, bæði á sjó og landi, ef aðrirhvorir þyrftu liðs við. Samníngur þessi var einkum mikilsverður fyrir Dani þegar þess er gætt, hve geigvænlegir Svíar voru þeim. Meðan Úlfeldt var í erindagjörðum þessum, lèt konúngur meira til sín taka en áður um ýms ríkismál, og þá er Úlfeldt kom heim aptur fèkk hann eigi þær viðtökur, er hann hafði búizt við og þóttist eiga skilið. En það var eigi þar með búið. Konúngur bauð að rannsaka skyldi gjörðir Úlfeldts bæði að fornu og nýju, bæði það, er hann hafði aðhafzt á Hollandi, og hitt hvernig hann hefði stýrt og varið fè ríkisins á dögum Kristjáns fjórða, því að grunur lèk á, að hann hefði nokkuð af því fè undir sig dregið. Af öllu saman þessu varð Úlfeldt bæði hryggur og reiður, hætti öllum stjórnarstörfum og hafði sig á burt frá hirðinni. En þá kom það upp, að hirðmaður einn, er Valter hèt, og kona ein að nafni Dína Vinhofer, og ekki vel ræmd, báru þann óhróður á Úlfeldt og konu hans, að þau hefðu ætlað að gefa konúngi eitur, og ráða hann þannig af dögum. Sá varð endir á því máli, að Dína reyndist ósannsöglismaður, og var tekin af lífi, en Valter gjörður útlægur. En alt um það, Úlfeldt þóttist eigi lengur mega óhultur vera í Danmörku, og flýði þaðan með konu og börn fyrst til Hollands og þaðan til Svíþjóðar. Þar sat þá Kristín að ríkjum,

dóttir Gústafs Adolfs, og fèkk hann þar góðar viðtökur; gjörði Úlfeldt þar alt er hann kunni, bæði með fè og fortölum, til þess að æsa Svía til ófriðar gegn Dönum, og því hinu sama hèlt hann fram eptir að Kristín drotníng var farin úr landi, en Karl Gustaf kominn þar til ríkis. Úlfeldt var nú sviptur þeim völdum og metorðum, er hann hafði haft í Danmörku, og eigur hans allar gjörðar upptækar. *Hannibal Sehested* átti aðra dóttur Kristjáns fjórða, og var þá landstjóri (Statholder) í Norvegi. Honum var og boðið að gjöra grein fyrir gjörðum sínum, enda var hann orðinn þar stórauðigur maður. Hann kjöri heldur að leggja niður völdin og láta laust við konúng alt það jarðagóz, er hann hafði eignazt í Norvegi, og er sagt, að það hafi verið 1100 stórjarðir eða höfuðból. Að nokkrum tíma liðnum komst hann þó aptur í kærleika við Friðrik konúng, en Úlfeldt vildi í engu vægja fyrir konúngi.

Það var nú þessu næst, að ófriðaðist með Karli Gústaf og Pólverjum, eins og síðar segir. En meðan sá ófriður stóð og Svíar börðust á Póllandi, hugðu ýmsir menn í Danmörku, og meðal þeirra var konúngur, að nú mundi hið bezta færi gefast til að rètta hlut sinn á Svíum og vinna aptur þau lönd, er þeir höfðu laus látið fyrir þeim í Brömsebrúar-friðnum (1645). En þó að hinir hyggnari menn teldu á því öll tormerki og segðu, að til þess skorti bæði fè og liðsafla og skipakost, þá urðu hinir yfirsterkari, er til ófriðarins fýstu; enda höfðu þeir það til síns máls, að Pólland, Brandenborg, Hollendíngar og Þýzkalandskeisari hètu að veita Dönum lið, ef þeir vildu ráðast á Svíþjóð; var það að vísu álitlegt boð, en þó máttu menn vita, að fremur mundi þjóðum þessum um hugað, að hafa Svía burt af Póllandi og Þýzkalandi, en hitt að hjálpa Dönum heima fyrir. Friðrik konúngur sagði Svíum þannig stríð á hendur (1657), og sendi Anders Bille (Rigsmarsken) með her manns suður á Holtsetaland, og tóku Danir þar vígi þau og kastala, er Friðrik hertogi hafði umráð yfir, því að þeir þóttust vita, að hertoginn, er áður hafði reynzt þeim illa og nú var orðinn tengdafaðir Karls Gustafs, mundi þegar gánga í lið með Svíum. En er Svíakonúngi kemur sú hersaga, er hann skjótur til ráða, og er kominn með liði sínu norður á Holtsetaland fyr en Danir vissu þess nokkrar vonir. Hrukku þeir nú fyrir og norður á Jótland og settust að í Frið-

ricíu-kastala, er þá var nýgjörður og allsterkur, og höfðu þar 6000 vígra manna til varnar; þó vann Karl Gústaf Wrangel — sem fyr er nefndur í þrjátigi ára stríðinu — kastalann eptir skamma sókn, og hafði að eins 3000 manna. Eptir þetta lögðu Svíar Jótland alt undir sig, og konúngur þeirra lagði nú á það allan hug að komast yfir á eyjarnar. Hann hafði herskip mörg við höndina og reyndi þannig að flytja lið sitt yfir eyjasundin, en það tókst eigi að heldur, því að Henrik Bjelke, herskipaforíngi Danakonúngs, ónýtti með harðfylgi miklu þá fyrirætlan. Hinn næsta vetur þar á eptir (1657—58) gjörði frost mikil, svo að sjóinn lagði milli eyjanna, og litlu eptir miðjan vetur fór Karl Gústaf á ísum með herinn yfir á Fjón og þaðan ey af ey, um Lángaland, Láland og Falstur, og nam eigi staðar fyr en á Sjálandi, en landsmenn gáfust upp þar sem konúngur fór yfir. Korfits Úlfeldt var í þeirri för með konúngi og vann honum það gagn, er hann kunni. Við þessum tíðindum höfðu menn eigi búizt í Kaupmannahöfn, enda varð þar nú ráðafátt fyrir; þar skorti bæði liðsafla og öruggar girðíngar til mótvarna; þeir sem verið höfðu upphafsmenn þessa ófriðar, sáu það nú um seinan, hve ófyrirsynju friðurinn var rofinn. Hèr var því eigi annað ráð vænna, en að senda menn á fund Svíakonúngs, og biðjast friðar, og fyrir milligöngu hins enska og frakkneska sendiboða var nú saminn í Hróarskeldu (26. febr. 1658) svofeldur friður: Svíar fengu Skán, Halland, Blekíng, Bahúslèn, Þrándheim og Borgundarhólm, og þess utan 12 herskip og 2000 riddara, Friðrik hertogi var leystur undan allri lènsskyldu við Danakonúng, og Korfits Úlfeldt skyldi fá aptur eignir sínar. Norðmenn höfðu einnig gripið til vopna og rekið Svía af höndum sèr, en alt um það sneiddist þó af landi þeirra í Hróarskeldu-friðnum eins og nú var sagt, án þess þeim væri um að kenna.

Karl Gústaf þóttist nú sannfærður um, að lítillar mótstöðu var að vænta af Dönum, honum kom því til hugar, að gjöra hèr skjótan endi á og leggja undir sig alt ríki Danakonúngs. Fyrir því lèt hann drátt verða á ýmsu, er gjöra skyldi, eptir því sem um hafði verið samið í friðargjörðinni, en bjó lið sitt í kyrþey. Og 5 mánuðum síðar en friðurinn varð, lenti Svíakonúngur við Krosseyri á Sjálandi, gekk þar á land og lýsti yfir því, að nú væri úti um friðinn. Dönum brá heldur en eigi í brún og spurðu

ínginn Gústaf Stenbokk[1] að nafni. Karl Gústaf tók honum eigi sem bezt og mælti: «úr því að fjandinn tók allar geiturnar, þá gat hann tekið bukkinn með». Eptir þann mikla mannskaða, og eptir ýms önnur óhöpp fór Karl Gústaf burt af Danmörku og til Gautaborgar í Svíþjóð og andaðist þar á öndverðu ári 1660. Ef Ruyter hefði viljað flytja bandamannaherinn yfir á Sjáland og Skán, mundu Svíar hafa beðið þar ósigur, og Danir náð aptur skattlöndum sínum (Skáni, Hallandi og Bleking), en það vildi Ruyter með engu móti, því að Englar og Hollendíngar vildu eigi að Danir, eða nokkur ein þjóð væri einráð yfir Eyrarsundi eða löndum þeim, sem að því liggja beggja megin. Friður komst nú á milli landanna, og var saminn í Kaupmannahöfn (í maímán. 1660). Fengu Danir aptur Þrándheim og Borgundarhólm, en að öðru leyti stóð alt við það, sem um hafði verið samið í Hróarskeldu-friðnum (1658).

Nú var að vísu stríðið um garð gengið og kominn friður, en Danmörk var engu að síður í miklum kröggum: nokkur hin elztu og beztu skattlönd voru gengin undan krúnunni og komin í hendur Svíum; landherinn og skipaflotí var til einskis nýtur og verzlun öll í dái; ríkið var í stórskuldum og fjárhirzlur tómar, svo að embættismönnum urðu eigi goldin laun þeirra; vinir og óvinir höfðu farið hershöndum um landið, bæir og bygðalög láu í auðn, og almenn neyð og hugleysi ríkti landshorna í millum. Hverjum var um alla þá eymd að kenna? Éngum öðrum en aðalsmönnunum landsins, var svarið úr öllum áttum. Aðallinn sýgur allan merg úr landinu, hann er laus af öllum skyldum og sköttum, en dregur sig alstaðar í hlè, ef nokkuð þarf fram að leggja til landsins þarfa og almenníngs heilla. Þó konúngur vilji eitthvað það gjöra, sem öllum má fyrir beztu verða, þá getur hann engu áorkað, því að aðallinn bindur báðar hans hendur. Þannig hugsuðu alment og þannig töluðu borgarar í Danmörku um þær mundir, en þó einkum í Kaupmannahöfn. Þeir höfðu fengið ýms einkarèttindi, er konúngur veitti þeim sökum drengilegrar varnar gegn Svíum, og þóttust nú mega djarflega um tala. Konúngur sá hverju fram fór og kvaddi aðalsmenn, klerka og borgara til ríkisdags í Kaupmannahöfn (1660), til þess að leggja ráðin

1) Hann var faðir Magnúsar Stenbokks, nafnfrægs hershöfðíngja á dögum Karls tólfta.

á hvað gjöra skyldi landi og þjóð til viðreisnar. Bændur voru eigi, heldur en vant var, kvaddir til þessa þíngs. Oddviti klerkanna var Hans Svanur (Svane), Sjálands biskup, skynsamur maður og mjög vel máli farinn; foríngi borgaranna hèt Hans Nansen, borgmeistari í Kaupmannahöfn, djarfur maður og einarður. Aðalsmenn höfðu engan dugandi forustumann, því að helztu menn úr þeim flokki, Hannibal Sehested, Hans Schack og Henrik Bjelke, voru gengnir í lið með konúngi og hirðinni, og konúngurinn, sem var hygginn maður, sá um, að hafa þá báða sèr hliðholla, Svane og Nansen; en það var hið sama, sem að klerkar og borgarar væru honum fylgjandi. Til þess að bæta úr fjárskorti ríkissjóðsins bar stjórnin þá tillögu fram, að leggja almennt neyzlugjald á landsmenn, en aðallinn vildi hafa sig undanþeginn slíku gjaldi, og bar fyrir einkarèttindi sín. Þó slakaði hann nokkuð til í ýmsum greinum; en eptir því sem lengra leið fram á þíngið, urðu klerkar og borgarar djarfmæltari og kröfðust meiri jafnaðar, en áður hafði verið, á öllum sköttum og skyldum, og að síðustu báru þeir upp það nýmæli, að ráði þeirra Svans biskups og Nansens, að konúngdómurinn skyldi að erfðum gánga í Danmörku. Ríkisráðið vildi eigi á það fallast, og leituðu hinir þá konúngs aðgjörða; hann lèt sem hann kæmi hvergi nærri, en gaf þó ríkisráðinu í skyn, að hann mundi eigi slá hendinni á móti slíku boði. Aðallinn reiddist og ætlaði að gánga af þíngi og fara burt úr borginni, en sem hinir urðu þess vísari, þá var borgarhliðum lokað og liðsmönnum sagt að vera viðbúnum hve nær sem til þeirra yrði kallað[1]. Sá nú ríkisráðið og aðallinn engan annan kost, en gjöra sem hinir vildu, og þannig var yfir því lýst, að konúngstignin skyldi gánga að erfð-

1) Það var einn dag um þessar mundir, að þeir hittust á strætum úti skamt frá konúngshöllinni *Otto Krag*, einn úr ríkisráðinu, og *Nansen* borgmeistari. Þess er eigi getið, að margt yrði um kveðjur með þeim, en Krag mælti: »þekkirðu þann sem þarna stendur?«, og benti á *bláturn*, en þar voru sekir menn settir í dýflizur. Nansen lèt sèr eigi bilt við verða, en svaraði þannig: »Sèrðu hvað þar hángir?« og benti á turninn á Maríukirkju; þar hèkk »*Stormklukkan*«, er vant var að hríngja, þá er ófrið bar að höndum, og kalla þurfti borgarlýðinn til vopna. Sýnir þetta dæmi hugarfar aðalsmanna og borgara hvorra til annara.

um til niðja Friðriks þriðja bæði í karllegg og kvennlegg. Þessu næst voru nokkrir af ráðinu og þíngmönnum kvaddir í nefnd til þess að koma sèr niður á hverju breyta þyrfti í stjórnarskrá ríkisins. Urðu menn skjótt á það sáttir, að skuldbindíngarskrá sú, er konúngur hafði undir ritað, þá er hann var kjörinn, skyldi ógild vera og með öllu afmáð; en um hitt komu menn sèr eigi saman, hver takmörk skyldi í þess stað setja konúngsvaldinu. Aðallinn vildi engu sleppa af sínum fornu rèttindum, og var eigi annað fyrir að sjá, en endaleysu og vandræði; en þá tók Svanur biskup til máls, og fór um það mörgum fögrum orðum, að konúngur væri alls góðs af þeim maklegur, og öllum mundi fyrir beztu, að leggja málið á hans vald; rèðst það þá af, að skuldbindíngarskrá sú, er áður var nefnd, var feld úr gildi, en ekkert sett aptur í hennar stað.

Á þann hátt varð Friðrik þriðji erfðakonúngur, en hitt var engan veginn tilætlun eða tillaga ríkisdagsins, að afsala konúngi fulla einveldisstjórn í hendur. Menn sátu á þíngi lengi eptir þetta, samþyktu ýms lög og kváðu á um skatta og skyldur þjóðarinnar, og í ýmsum rèttarbótum, er konúngur gjörði um þær mundir, er skýrt kveðið á, að ríkisdagurinn hafi löggjafarvald. En er ríkisdeginum var lokið, þíngmenn farnir til heimila sinna, og komið var fram í janúar-mánuð 1661, þá birtist mönnum það nýmæli frá konúngi, er segir: að hann hafi fullan erfðarètt og óbundið einveldi í ríki sínu, og fulla heimild til að skipa til um ríkiserfðir. Nýmæli þetta var nefnt *erfða-einveldisskrá* (Arveenevoldsakt 10. jan. 1661), og undir það ritaði hver aðalsmaður í Danmörku nafn sitt, allir klerkar, og margir af borgarastètt, en eigi þótti við þurfa að bændur rituðu undir. Annað samkynja skjal var sent til Norvegs til undirskriptar á því sama ári. En ári síðar til Íslands og Færeyja. Þannig var stjórnarbreytíng þessi komin í kríng, og konúngurinn orðinn erfða- og einvaldskonúngur í stað þess sem hann áður var rígbundinn valkonúngur. Litlu síðar lèt konúngur semja ný grundvallarlög fyrir Danmörk og Norveg, hin alkunnu *konúngalög*, er svo eru nefnd. Friðrik þriðji ritaði nafn sitt undir þau 14. nóv. 1665, en enginn fèkk að sjá þau fyr en konúngur var dáinn, og eigi voru þau prentuð fyr en á dögum Friðriks fjórða, fyrst á átjándu öld.

Með einveldinu varð breytíng á allri stjórn ríkisins. Stjórnarstörfum þeim, sem ríkisráðið áður hafði haft á hendi, var nú skipt niður á 6 stjórnarráð (Kollegier), er svo voru nefnd: *Statskollegiet*, er stýrði öllum viðskiptum ríkisins við aðrar þjóðir, *Skatkammerkollegiet*, er hafði fjárvarðveizlu og skattamál til forráða, *Krigskollegiet* gegndi hermálum, *Admiralitetskollegiet* sjómálum, *Kancelliet* dómsmálum að nokkru leyti og kirkjumálum, og *Justitskollegiet* eða *hæztirèttur*, er varð efsti dómur ríkisins, og þaðan varð engum málum skotið. Í öll þessi stjórnarráð var skipað jafnmörgum af aðalsmönnum og af borgarastètt, og gjörði konúngur það til þess að fá nokkurt jafnvægi móti aðlinum. Sjálfur var konúngur forseti í hæztarètti. En forseta hinna 5 stjórnarráða kvaddi konúngur alla á fundi með sèr, er hann vildi ráða til lykta þeim málum, er rædd höfðu verið í hverju einstöku stjórnarráði fyrir sig. Slíkir forsetafundir voru nefndir *leyndarráð* (Geheime-Statsraad). Væru það einhver sèrleg vandamál, þá voru fleiri menn kvaddir í leyndarráðið. Lènin, sem áður höfðu verið, voru lögð til krúnunnar, og í stað lènsmanna komu *stiptamtmenn* og *amtmenn* með fastákveðnum launum; var ríkissjóðnum það hinn mesti ábati, svo að nú urðu tekjurnar margfaldar við það, sem áður hafði verið, meðan því nær allir skattar og skyldur lènanna runnu inn hjá lènsmönnum. En sem fjárhagurinn batnaði, kom konúngur að dæmi annara þjóðhöfðíngja föstu herliði á fót í ríki sínu hèr um bil 24000 manna; hann lèt og auka og bæta flota sinn, og gekst sjóliðsforínginn *Kort Sivertssön Adeler* fyrir því; hann var norðmaður og orðinn frægur af framgöngu sinni í þjónustu Venetíumanna gegn Tyrkjum.

Þó svo megi virðast, að sumt breyttist til hins betra í Danmörku, eptir að einveldisstjórn komst þar á, þá verður því eigi neitað, að þjóðinni brást margt af því, sem hún hafði gjört sèr vonir um. Þannig hèldu aðalsmenn flestum einkarèttindum sínum, einkum að því leyti er snerti alþýðu manna, eður bændur, og lítið var gjört til þess að bæta kjör þeirra. Kaupstaðabúar fengu að sönnu ýms ný rèttindi, og sum þeirra voru bændum til einbers skaða, en það sem eptir var af fornum frelsisanda og sjálfsforræði hjá borgabúum, leið nú að mestu undir lok, því að nú komu allsstaðar valdsmenn, er konúngur setti þeim. Menn

urðu afhuga öllum þjóðmálefnum, og fálu stjórninni öll afskipti þeirra á hendur, en alt þjóðlíf, sem knýr lönd og lýði til framkvæmda og framfara, lagðist í dá, og í því dái lá það um marga mannsaldra. Þegar hin danska einveldisstjórn er borin saman við sumar aðrar, verður eigi annað um hana sagt, en að hún alment beitti veldi sínu með mildi og rèttvísi, en þó kemur það fyrir, að hún beitti gjörræði og hörku, og til dæmis má færa Gunde Rosenkrands, einn af ríkisráðinu sem verið hafði, lærðan mann og merkan. Hann varð ósáttur við einn af gæðíngum Friðriks þriðja, þjóðverskan mann að nafni Gabel, og varð að fara af landi burt. Annar aðalsmaður að nafni Kai Lykke, stórríkur maður og vel metinn, var dæmdur til dauða, en mynd hans hálshöggin (deyddur *in effigie*), en hann komst sjálfur undan til annara landa. En sök hans var sú, að hann hafði í brèfi til konu einnar talað eitthvað ógætilega um drotnínguna og það fyrir mörgum árum. Úlfeldt var að vísu einkis góðs maklegur, en þó var honum lofað griðum í friðarsamníngum Dana við Svía; alt um það var hann tekinn og settur í dýflizu og haldið þar lengi, en slapp þaðan, og þá var dæmt af honum mannorð, eignir og líf; en af því að hann náðist eigi, var hefnzt á mynd hans; garður hans í Kaupmannahöfn var rifinn til grunna og settur þar steinstöpull í staðinn, og þar á þessi orð: «Til evig Skam og Skjændsel for Landsforræderen Korfits Úlfeldt», og þar stóð stöpullinn þángað til hann var tekinn burt 1841. Eigur Úlfeldts fèllu allar undir krúnuna, og voru þær eigi smáar. Sjálfur fór hann með börn sín fèlaus og huldu höfði land úr landi þar til hann dó á báti suður á Rínfljóti, en synir hans jörðuðu hann í kyrþey þar á árbakkanum. En þó sumum þætti þótt Úlfeldt sárt leikinn, var það þó ekkert hjá því, sem hin göfuga Eleónóra, kona hans, varð að líða. Hún fór til Englands á fund Karls konúngs annars, til þess að krefja hann um skuldafè, er Úlfeldt átti hjá honum frá fyrri tíð; en Karl var það lítilmenni, að hann seldi Dönum Eleónóru í hendur til þess að losast við skuldina. Þegar komið var með Eleónóru til Danmerkur, var hún leidd fyrir drotnínguna, svipt gulli og gimsteinum og klæðum þeim sem hún bar, og færð í vondar flíkur, og því næst sett í einhverja hina verstu dýflizu í Bláturni, og þar fèkk hún eigi að hafa svo mikið sem hníf heldur hein til að

matast með, og er hún vildi stytta sèr stundir með handyrðum, þá voru öll áhöld af henni tekin. Þar sat Eleónóra systir hins einvalda konúngs, og að allra dómi saklaus, 22 ár og hart haldin alla þá stund er hin harðhjartaða drotníng Soffía Amalía lifði. Loksins fèkk hún lausn á dögum Kristjáns fimta (1685), og gaf hann henni garð einn á Lágalandi, og lifði hún þá enn lengi og andaðist þar 77 ára gömul árið 1698.

Arið 1665 lá nærri að ófriðaðist með Dönum og Englendíngum fyrir þá sök, að nokkur hollenzk kaupför flýðu undan enskum herskipum inn til Björgvinar. Vildi hinn enski admíráll taka skipin þaðan með ofríki, en höfuðsmaðurinn varnaði honum þess. Gengu Danir þá í lið með Hollendíngum, en skömmu þar á eptir var friðurinn saminn í Breda (1667), og datt svo það mál niður. Til misklíðar horfði og um stund milli Friðriks þriðja og frænda hans Kristjáns Albrekts hertoga af Holstein Gottorp, einkum út af því, hverja þýðíngu ætti að leggja í einveldisstjórn þá, sem hertoganum var til skilin, þá er Danir og Svíar sömdu friðinn milli sín. Þó jöfnuðu þeir frændur þetta með sèr, og konúngur gipti hertoganum dóttur sína, til þess að trygðir mættu því betur haldast. Nokkru síðar gipti Friðrik konúngur aðra dóttur sína Karli Svíakonúngi ellefta, en það kom fram þó síðar yrði, að friðnum var eigi að borgnara fyrir þessar mægðir.

Friðrik þriðji var maður vel lærður og unni vísindum. Hann setti á stofn hina miklu bókahlöðu í Kaupmannahöfn, sem kend er við konúnginn. Þá voru og uppi nokkrir nafnkendir fræðimenn: Ole Vorm, fornfræðíngur og rúnameistari, Hans Resen og Kaspar Brochmand, biskupar, Tómas Bartholín ágætur læknir og fjölfróður maður, Íslendingarnir Brynjúlfur biskup Sveinsson († 1675) og Þormóður Torfason (Torfæus) († 1719), en Arngrímur lærði dó sama árið (1648) sem Friðrik þriðji kom til ríkis. Flestar bækur sem út komu í Danmörku, voru enn eins og fyr ritaðar á latínumáli, og Danir lögðu litla rækt við móðurmál sitt um þær mundir; alþýða manna fór því að mestu hlutlaus af þeim fróðleik. Friðrik þriðji dó 1670 hèr um bil 60 ára gamall.

Eptir Friðrik þriðja kom sonur hans, *Kristján* hinn 5. til ríkis í Danmörku og Norvegi. Hann var kjarkmaður minni en

faðir hans, gæflyndur og gefinn mjög fyrir skraut og skemtanir, og hneigðist í mörgu að siðum Loðvíks fjórtánda, er þá þótti vera fyrirmynd allra konúnga. Kristján konúngur lèt trúnaðarmenn sína að miklu leyti annast stjórnarstörfin, og, hin fyrstu ríkisár hans, rèð sá maður mestu hjá honum, er *Pètur Schumacher* hèt. Hann var fæddur í Kaupmannahöfn árið 1635, af lágum stigum, en vakti þegar á únga aldri sakir frábærra námsgáfna athygli lærðra manna á sèr, og þar á meðal Friðriks konúngs þriðja. Lèt konúngur hann framast erlendis, og tók hann í sína þjónustu, er hann kom heim aptur, og fal honum ýms vandamál á hendur, þar á meðal að semja konúngalögin. Þegar Kristján fimti var kominn til ríkis, gjörði hann Pètur Schumacher að æðsta ráðgjafa sínum, veitti honum litlu síðar greifatign og nýtt nafn og nefndi hann *Griffenfeld,* og gaf honum jarðeignir miklar í Norvegi (greifadæmið Túnsberg, er seinna nefndist Jarlsberg). Á fyrstu ríkisárum sínum gjörði Kristján fimti margt, er einkum miðaði til þess að auka og styrkja konúngsvaldið. Þannig kom hann fótum undir nýja aðalsmannastètt, sem nefndir voru *greifar* og *barónar*; áttu þeir að vera einskonar jafnvægi móti hinum fornu aðalsmönnum. Alt þetta nýja stórmenni fèkk mörg og mikil einkarèttindi fyrir sig og jarðir sínar; höfðíngjar þessir þurftu hvorki að svara sköttum eða tíundum af höfuðbólum sínum, eða af mörgum þeim jörðum, sem þar lágu undir, og bændur þeirra bjuggu á; þeir höfðu rètt til að skipa þá menn, sem þeir vildu, til embætta á jarðeignum sínum, hvort heldur andlegra eður veraldlegra, og slíkir valdsmenn og klerkar voru í þeirra þjónustu og þeim mjög háðir. En þó höfðíngjar þessir væru lausir af flestum sköttum og skyldum, voru bændur, sem sátu á jörðum þeirra, skattskyldir, þó eigi til fjárhirzlu ríkisins heldur til þessara sinna landsdrotna. Framan úr miðöldum höfðu bændur verið skyldir að vinna dagsverk á höfuðbóli eða heimajörð landsdrotna sinna, en þessi skyldukvöð á bændum (Hoveri) varð þeim nú miklu tilfinnanlegri en áður, af því, að höfuðból aðalsmannanna voru orðin miklu stærri nú en áður. Má því með sanni segja, að kjör bænda í Danmörku yrðu verri nú en áður hafði verið meðan hið forna aðalsveldi stóð í blóma. Allur þorri þessara hinna nýorðnu aðalsmanna var kominn sunnan af Þýzkalandi, og unnu

eigi Danmörku eða dönsku þjóðerni meira en í meðallagi. Kristján fimti setti á stofn tvenns konar riddarastètt, eða kom fyrst algjörðri reglu á það í ríki sínu: fílsriddara- og dannebrogsriddara-stètt (Elefantordenen og Dannebrogsordenen), en þar komust eigi aðrir að en aðalsmenn, og stóð svo fram á daga Friðriks sjötta. Þar að auki setti Kristján fimti lög um *nafnbætur* (Rang), og myndaðist þannig nýr flokkur manna í ríkinu með sèrstökum rèttindum, því að þeir menn, sem slíkar nafnbætur hlutu, fengu rèttindi til jafns við aðalsmenn fyrir sig og skilgetin börn sín, þó eigi hver og einn nafnbótamaður, heldur að eins þeir, er þegið höfðu hinar æðri nafnbætur. Þeir sem nafnbæturnar fengu þokuðust þannig nær konúngdóminum, og mismunurinn milli aðalsmanna og borgarastèttarinnar mínkaði á þann hátt að nokkru leyti.

Á dögum Kristjáns fimta var allgóð forstaða veitt herbúnaði öllum, bæði til lands og sjávar, vísindi efldust talsvert og verzlun jókst til muna. Danir eignuðust um það leyti (1672) eyjarnar St. Thomas og St. Jan í Vestindíum. Greifadæmið Oldenborg fèkk Kristján konúngur með ráðum og dáð Griffenfelds. En því var svo varið, að hinn síðasti greifi, er fyrir því landi rèð, og dó litlu á undan Friðriki konúngi þriðja, hafði ánafnað land sitt bæði Danakonúngi og Kristjáni Albrekt hertoga af Holstein-Gottorp. En hirðrèttur keisarans dæmdi hertoganum af Plön landið (greifadæmið) alt. Við þessu hafði Griffenfeld búizt, og fengið Plönar-hertoga til að sleppa kröfu sinni, og afsala sèr landið til konúngs móti því, að fá í þokkabót lítinn landskika og nokkuð í lausafè. Þannig komst Oldenborg í hendur Danakonúngi, en hertoginn, Kristján Albrekt, reiddist Kristjáni Danakonúngi mági sínum (hann átti systur Kristjáns), og leitaði vináttu og sambands við Svíakonúng.

Um þessar mundir hófst ófriður mikill suður í löndum. Loðvík fjórtándi rèðst á Holland (1672), eins og fyr er ritað. Griffenfeld gaf það ráð, að Danmörk skyldi þar engan hlut í eiga, heldur sitja hjá og forðast umfram alt fjandskap við Frakka, er þá voru hvað voldugastir, og við Svía sem voru bandamenn Frakka. En Kristján fimti vildi eigi hlýða ráðum hins vitra ráðgjafa; hann vildi vinna sèr eitthvað til frægðar og ná aptur með vopnum undir sig löndum þeim fyrir austan Eyrarsund, er Karl

Gústaf hafði tekið. Friðrik Vilhjálmur, kjörfursti í Brandenborg, reri og að því öllum árum, að Danir gengi í lið með sèr, keisaranum, Spánverjum og Hollendíngum móti Frökkum, og þannig hófst hinn *skánski ófriður* milli Dana og Svía (1675). Hertoginn af Gottorp vildi eigi fylgja Dönum sem við var að búast; lèt Kristján konúngur þá taka hann höndum (í Rendsborg), og kúgaði hann til sátta; varð hertoginn að láta laust við hann bæði liðsmenn sína og kastala. En sem hertoginn komst úr varðhaldi, lýsti hann yfir því, að það væri nauðúngarsætt, er hann hefði gjört við konúng, og tók Danakonúngur þá lönd hans undir sig. Griffenfeld gaf nú það ráð, úr því hann gat eigi afstýrt ófriðnum, að Danir skyldu ráðast á Skán, því að þar var lítil vörn fyrir, en aðrir máttu sèr meira hjá konúngi, og að þeirra ráði hèldu Danir her sínum til Þýzkalands og settust um *Vismar*, er þá lá undir Svíþjóð; varðist borgin bæði vel og lengi, svo að Dönum leiddist aðsóknin og vildu hverfa frá við svo búið, en þó rèð Griffenfeld því, að eigi var svo gjört, og nokkru síðar gafst borgin upp fyrir Dönum.

Ófriðurinn með Dönum og Svíum hafði eigi staðið fult ár, þegar sá atburður varð í Danmörku, að Griffenfeld var steypt úr völdum. En það atvikaðist þannig: Griffenfeld hafði á fáum árum komizt til æðstu metorða og valda. Friðrik þriðji hafði á deyjanda degi sagt við Kristján (5.) son sinn: «gjörðu Pètur Schumacher að miklum manni, en gjörðu það smátt og smátt». Því ráði fylgdi Kristján konúngur eigi; völd og virðíng hlóðust svo á hinn únga mann, að þrem árum eptir að Kristján varð konúngur, var hann kominn í aðalsmannastètt og orðinn *kanselleri* og æðsti valdsmaður í ríkinu. Yfir þessari skjótu upphefð hans sáu ýmsir menn ofsjónum, og urðu fjandmenn hans fullkomnir. Má og vera, að Griffenfeld hafi í sumu eigi farið svo gætilega sem skyldi við suma af stórmenni því, er í móti honum reis. Soffía Amalía, ekkjudrotníng, var honum reið, því að hún kendi honum um, og með sanni, að hertoginn af Gottorp, tengdasonur hennar, varð svo hart leikinn í Rendsborg, eins og áður er sagt. Úlrik Gyldenlöve, óskilgetinn sonur Friðriks þriðja og hálfbróðir Kristjáns fimta, gat eigi gleymt því, að Griffenfeld hafði komið því til leiðar, að hann var sendur burt frá Kaupmannahöfn og settur til landstjórnar í Norvegi, en það gjörði Griffenfeld til

þess, að afstýra því að Gyldenlöve leiddi konúnginn út í svall og saurlifnað. Jóhann Adolf hertogi af Plön vildi hefna sín, af því að Griffenfeld hafði hafnað mægðum við hann, þar sem hann hann átti kost á að kvongast prinsessu einni af Ágústenborg, frændkonu hertogans. Svo voru ýmsir þýzkir aðalsmenn við hirðina, er hver um sig þóttust betur til kjörnir, að stýra ríkinu og standa konúngi til annarar handar, heldur en Griffenfeld. Alla þessa óvildarmenn Griffenfelds studdi erindsreki kjörfurstans af Brandenborg, því að kjörfurstinn sá gjörla, að hann gat eigi fengið alt sitt fram í Danmörku meðan Griffenfeld sat við stýrið. Þessir óvildarmenn Griffenfelds fengu talað svo um fyrir konúngi, að Griffenfeld var að hans boði tekinn fastur (11. marz 1676) og bornar á hann margar og miklar sakir. Og þó að allar hinar þýngstu sakargiptir gegn honum reyndust ósannar, var hann engu að síður dæmdur til að hafa fyrirgjört bæði fè, mannorði og lífi. Þegar komið var með hann á aftökustaðinn, gaf konúngur honum að vísu líf, en bauð að setja hann í dýflizu æfilángt. Sat hann hin fyrstu 4 ár í Kaupmannahafnar kastala, en síðan var hann fluttur til Niðarhólms (Munkholmen) á Þrándheimsfirði, og þar sat hann 18 ár. Allan þann lánga tíma var hann haldinn mjög hart, og er það til merkis, að hann fèkk eigi að hafa bækur eða skriffföng nein sèr við hönd til dægrastyttíngar. Lausn fèkk hann að sönnu úr varðhaldi þessu árið 1698, en hann var þá orðinn heilsulaus af lángvinnum kvölum, og andaðist ári síðar 1699, sama árið sem hinn vanþakkláti konúngur.

Árin 1676 og 1677 börðust Danir og Svíar af mikum ákafa bæði á sjó og landi. Kort Adeler var dainn um það leyti, er ófriðurinn hófst, en Danir höfðu aptur fengið í hans stað ágætan herskipaforíngja, *Niels Juel*, er lært hafði sjómensku í Hollandi eins og Kort Adeler. Árið 1676 vann Niels Juel Gotland — það er allstór ey austan undir Svíþjóð — og litlu síðar vann hann, ásamt hinum hollenzka «admiral» *Korneliusi Tromp*, mikinn sigur á Svíum við eyna Öland. Ári síðar vann Niels Juel aptur sigur á Svíum suður undir Femern, þar sem heitir Kolbergerheide, og mánuði þar á eptir barðist hann í Kjögebugt við aðalflota Svía, og vann þar hinn frægasta sigur (1. júlí 1677); mistu Svíar þar 10 stórskip og margar þúsundir manna, en Danir

að eins nokkur hundruð manna og ekkert skip. Eptir þann sigur voru Danir einráðir á hafinu fyrir Svíum.

Eptir orustuna við Öland hèlt Kristján fimti með her manns yfir á Skán og gekk landsfólkið þar undir hann, en Tromp vann Bleking um sama leyti. Karl ellefti Svíakonúngur var þá úngur að aldri, og hafði með fyrsta eigi bolmagn við Dönum, og varð að hörfa undan með sína menn; Danir sendu lið norður á Halland, og Gyldenlöve hèlt með norðmannaherinn suður á Bohúslèn. Var svo tilætlað að herinn allur, bæði sá er að sunnan kom, og hinn er að norðan sótti, skyldi ráðast austur á Svíþjóð. En áður það yrði, safnaði Karl konúngur liði um Smálönd, og rèð þegar á Dani þá, er komnir voru til Hallands, og urðu þeir að gefast upp fyrir honum. Því næst hèlt konúngur til móts við lið það, er Danir höfðu á Skáni, og varð fundur þeirra hjá Lundi (í des. 1676) og nokkru síðar hjá Landskrónu, og fengu Svíar sigur, og unnu aptur þau lönd, er Danir höfðu tekið.

Nú var svo komið, að hvorirtveggja vildu hætta ófriðnum, og töluðu um sættir, en Danir gjörðu harðari kröfur en Svíar vildu gánga að. Þá samdi Loðvík fjórtándi friðinn í Nimwegen við Austurríki, Spán og Holland, og þröngvaði Dönum hið sama ár (1679) til sátta við Svía. Komst þá friður á í Lundi þannig, að alt skyldi sitja við sama, sem verið hafði áður ófriðurinn hófst; þar á meðal var það, að Kristján Albrekt, Gottorps hertogi, skyldi fá alt það, er hann varð laust að láta fyrir Dönum í Rendsborgarsættinni, og varð það að lyktum svo, þó seint gengi. Kristján fimti hafði eigi annað eða meira fyrir alla sína frammistöðu, en nokkrar fallbyssur úr kastalaborgum þeim, er hann hafði unnið meðan ófriðurinn stóð. Eptir að þessi friður komst á-millum landanna, kvongaðist Karl ellefti, og átti Úlriku Eleonóru, systur Kristjáns fimta.

Þau 20 ár, sem Kristján konúngur sat að ríkjum eptir þetta, var friður í Danmörku, og þegar aptur ófriðaðist með Frökkum og öðrum þjóðum suður í álfunni, áttu Danir engan þátt í þeim ófriði, en lifðu í spekt og friði. Stóð verzlun Dana um þær mundir með miklum blóma, en eins og þá var alment, höfðu verzlunarfèlögin mikil einkarèttindi, og öll verzlun var einokuð. En er bæði Englar og Hollendíngar ónáðuðu þá verzlun og tóku

skip fyrir Dönum, er fóru kaupferðir til Frakklands, þá gjörðu Svíar og Danir þann samníng með sèr (eins og hèr um bil 100 árum síðar) að láta herskip sín vernda kaupförin. Bar það þá einatt við, að til vopna kom með mönnum, en Danir reyndust jafnan öruggir menn á sjónum, og hèldu sínum hlut óskertum. Fjárhagsstjórn Dana var í engu lagi um daga Kristjáns fimta; hver fjárhagstjórinn kom eptir annan, og hver var öðrum ónýtari, og þó til þess væri gripið, að senda menn á mála til annara þjóðkonúnga, sem á hermönnum þurftu að halda, og talsvert fè rynni þannig inn í fèhirzlur Dana, þá var ríkið í stórskuldum, er konúngur skildi við, og hefir það meðfram verið eignað eyðslu og óhófi, sem átti sèr stað við hirðina um þessar mundir. Það var um þetta leyti, að Loðvik fjórtándi ofsótti harðlega þá af þegnum sínum, er tekið höfðu «reformeraða» trú, svo að margir mistu þá lífið, en margir flýðu til annara landa, þar á meðal til Danmerkur, en þó drotníng Kristjáns, Charlotta Amalía, er þeirri trú fylgdi, vildi hjálpa þeim, þá fengu þeir eigi landsvist í Danmörku, því að biskupar og klerkar stóðu í móti, og höfðu svo önnur lönd öll notin af þeim starfsömu flóttamönnum. Árið 1683 kom út ný lögbók í Danmörku, sem kend er við Kristján fimta, og fjórum árum síðar (1687) önnur lögbók, mjög lík hinni, handa Norvegi. Að þeim lögum var byrjað að starfa á dögum Friðriks þriðja. Í Kaupmannahöfn var settur á stofn *hirð-* og *borgaradómur* (Hof- og Borgret), og í Norvegi *yfirhirðdómur* (Overhofret), og var málum þaðan skotið til *hæstarèttar* í Kaupmannahöfn, sem Griffenfeld hafði endurbætt að nokkru. Þá var og samið hið fyrsta almenna jarðamat í Danmörku, og talið til *harðkornstunna* (rúgur og bygg) eptir gæðum, og skattar lagðir á landið eptir því framtali. Fyrir því jarðamati stóð *Ole Römer*, nafnfrægur stjörnumeistari og stærðafræðíngur. Þá var *Tomas Kingo* uppi hið mikla sálmaskáld, hann var biskup í Odense. Kristján fimti dó (1699) á 53. aldursári, eptir því nær 30 ára ríkisstjórn.

2. *Svíaríki.* Þegar Gustaf Adolf var fallinn í orustunni við Lützen (1632), voru Svíar í miklum vanda staddir. Þeir höfðu tekizt það stórræði í fáng, að hjálpa prótestöntum á Þýzkalandi gegn ofurveldi keisarans og katólskra manna. Hið ógnarlega þrjátígi ára stríð stóð sem hæst; flestir af höfðíngjum prótest-

anta þar í landi, vissu eigi hvað til síns friðar heyrði, voru Svíum ótryggir undir niðri, og fylgdu þeim fremur af ótta en af ást og löngun til frelsis og framfara. Þeir þorðu eigi annað, meðan Gustaf Adolf var þar í landi, en að beygja sig undir vilja og yfirráð hins mikla konúngs. Nú þegar hann var fallinn, köstuðu þessir menn dularbúníngnum, og sumir þeirra gjörðust fullkomnir mótstöðumenn Svía, eins og raun gaf vitni um. En, eins og áður hefir verið sagt[1], tókst Axel Oxenstjerna, og þeim ágætu mönnum sem honum fylgdu, að sigrast á flestum vandræðum og halda áfram þeirri stefnu, sem konúngurinn hafði fyrstur upp tekið. Heima í Svíþjóð var einnig margt viðsjárvert. Drotníngin, María Eleónóra, var mjög vanstilt í geði og erfitt að gjöra henni til hæfis, en Svíum vandfarið við hana, því hún var ekkja Gustafs Adolfs. *Kristín* dóttir þeirra var barn að aldri, að eins á sjötta árinu, og til engra hluta fær fyrir æsku sakir. Henni hafði að sönnu verið heitið ríkiserfðum, áður faðir hennar fór alfari úr landi, en um það efni þurfti betur að búa; það varð að tryggja betur rètt Kristínar til ríkiserfða, einkum til þess að Pólverja konúngur gæti enga von haft um konúngdóm í Svíþjóð fyrir sína niðja, því að þaðan var alt af von slíkrar kröfu; þar næst varð að skipa fyrir um það, hvernig haga skyldi ríkisstjórninni þángað til Kristín gæti sjálf sezt að völdum; og loksins, og sú var þrautin þýngst, varð að fá samþykki þjóðarinnar, það er að segja *ríkisdagsins*, til þess að ákveða næg skattagjöld bæði til þess, sem heima þurfti að gjöra, og til þess að halda fram hernaði suður á Þýzkalandi. Nú var þessu næst haldið þjóðþíng Svía (ríkisdagur) í Stokkhólmi (í febr.mán. 1633). Gabríel Oxenstjerna bar þá tillögu upp af hendi stjórnarmanna — því að Axel bróðir hans var á Þýzkalandi — að Kristínu yrði gefið drotníngar nafn, en bændur þeir er á þíngi voru lètu þá til sín heyra kur nokkurn, og einn af þeim greip fram í og sagði: »hver er þessi dóttir Gústafs konúngs? vèr þekkjum hana eigi, og höfum aldrei sèð hana«. — »Þèr skuluð fá að sjá hana, ef þèr svo viljið«, mælti Oxenstjerna. Var þá komið með Kristínu og sýnd bændum. Bóndi sá er fyrir svörum varð horfði á hana um stund, og mælti síðan: »Já, það er hún sjálf. Lítið á, þarna er nefið, og augun og ennið konúngsins sæla! Hana

1) Nýja sagan I. hepti bls. 212 o. s. frv.

viljum við hafa til drotníngar«! Var Kristín síðan sett í hásæti og allur þíngheimur tók hana til drotníngar yfir Svíþjóð. Nú var það fengið, og um leið eins konar undirstaða komin undir fasta stjórn í landinu. Þar næst var um hitt að ræða, hvernig haga skyldi stjórninni þángað til drotníng kæmist til lögaldurs og gæti sjálf tekið við störfum. Margir voru á því, að setja einn ríkisstjóra, eins og fyr hafði átti sèr stað þar í landi; en Axel Oxenstjerna hafði ritað ráðinu um það efni, og sýnt fram á, að hitt mundi betur fara, að fimm hinir æztu embættismenn ríkisins[1] veittu stjórninni forstöðu, enda hefði sá verið vilji konúngsins, ef til þess kæmi sem komið var. Á þetta fèllust menn og upp frá því veitti sú fimm mannastjórn forstöðu öllum ríkismálefnum Svía, þángað til 1644, að Kristín drotníng var komin til lögaldurs og tók sjálf við stjórn. Þessi fimm manna stjórn, er Svíar nefna »*förmyndare regering*«, stýrði ríkinu með miklum dugnaði og viturleik, og þykir það tímabil, er þeir sátu að völdum, eitt hið glæsilegasta í sögu Svía. Axel Oxenstjerna var alla þá stund stjórnarforseti, og nefndur *ríkiskanselleri*. Hin fyrstu árin eptir fall konúngsins var Axel suður á Þýzkalandi, því að þar hafði hann ærið að starfa, eins og fyr er sagt, en engu að síður var hann viðriðinn öll vandamál heima í Svíþjóð og rèð þar jafnan mestu. Á því tímabili, sem hèr ræðir um, unnu Svíar mörg afreksverk á Þýzkalandi, eins og fyr er ritað, og þar að auki var mörgu því á fót komið í Svíþjóð, er til framfara varð þjóðinni; má þar til telja: stjórnarskipun, eða tilhögun á allri innanlandsstjórn ríkisins, póstgöngur, rèttarfar, umbót og aukníngu á skólum, þar á meðal háskóla í Abó á Finnlandi, og einkum alt skipulag er komið varð á málmnáma og málmgröpt allan i landinu, og voru fengnir menn til þess úr öðrum löndum, einkum sunnan af Flandern; var *Louis de Geer* einn af þeim mönnum og mjög nafnkendur. Eru málmnámar Svía síðan mjög orðlagðir og arðsamir. Hins vegar hafa sumir fundið það að stjórn þeirra fimmmenninganna, að þeir hafi meir en góðu hófi gegndi dregið taum aðalsmanna í landinu, selt þeim jarðagóz undan krúnunni o. s. frv. til skaða fyrir aðrar stèttir ríkisins,

1) Þessir voru: *Ríkiskansellerinn, ríkisstallarinn* (Rigsmarsken), *ríkisdróttsetinn* (Rigsdrosten), *ríkisadmírállinn* og *ríkisskattmeistarinn*.

en það gjörðu þeir reyndar til að fá fè til nauðsynlegra útgjalda. En hvað sem um það er, þá má með sanni segja um ríkisstjóra þessa, að þeir voru ósèrplægnir menn og litu minna á sjálfs síns hag en ríkisins, hvenær sem til þess kom; og þó að margir af aðalsmönnum í Svíþjóð, er þá voru uppi, væru sem smákonúngar út um landið, þá reyndust þeir opt vel og drjúgir til liðveizlu, er á þurfti að halda. Allir hinir helztu menn meðal Svía áttu góðan þátt í því að styðja Axel Oxenstjerna og stjórn hans, og því var von að vel færi málefnum þeirra bæði innanlands og utan.

*Kristín* drotning var á 6. ári þegar faðir hennar lèzt, eins og fyr er ritað, og var hún að hans ráði fengin til uppfósturs Katrínu konu Jóhanns Kasimírs Falzgreifa. Katrín var hálfsystir Gústafs Adólfs samfeðra og hið mesta kvennval. Þau hjón höfðu orðið að flýja eignir sínar og óðöl á Þýzkalandi, þá er þrjátígi ára stríðið hófst, og settust síðan að í Svíþjóð og voru þar til dauðadags. Þau áttu 5 börn, er á fót komust, og var eitt þeirra Karl Gustaf, er seinna varð konúngur í Svíþjóð. Það er mælt að Gústaf Adólf hafi sagt við Katrínu systur sína, þá er hún giptist: «eg spái því, að þú eignist son, og að hann verði konúngur Svía eptir minn dag». Það var hin síðustu ár Gústafs Adólfs eins og það legðist í hann, að hann mundi eigi son eignast, og að skamt mundi eptir æfi sinnar. Hann sagði sjálfur fyrir hverjir kenna skyldu dóttur sinni, og að öllu skyldi svo til haga í uppfóstri hennar og fræðslu, sem hún væri konúngssonur en eigi dóttir. Þessu var fylgt, enda átti það bezt við lunderni Kristínar, því að hún var af náttúrunni frábitin öllum kvennlegum störfum, en hugurinn var allur við bóknám og vísindi, að minsta kosti framan af æfi hennar; vitsmunir hennar voru frábærir, enda nam hún svo margt og mikið að undrum gegndi. Alls kunni hún 10 túngumál, og það til hlítar, en fèkst þó við fleiri, og fáar voru þær vísindagreinir, að hún bæri eigi meira eður minna skynbragð á þær. Mesta stund lagði hún á sagnafræði og stjórnarfræði, og leiðbeindi Axel Oxenstjerna henni framan af í þeim greinum. Sjaldan svaf hún lengur en 4 stundir í sólarhríng; henni var illa við alla viðhöfn og ofnautn matar og drykkjar, drakk ekki vín heldur vatn, hvort heldur til matar eða þess á milli. Þegar hún var 14 vetra gömul (1640) settu

ríkisstjórarnir þá reglu, að henni skyldi skýrt frá öllum helztu þjóðmálefnum, jafnóðum sem þau bar að höndum, til þess að venja hana við stjórnarstörfin, og skömmum tíma þar á eptir fór hún sjálf að vera viðstödd slík mál, er þau voru rædd. Hún var því allkunnug landsmálum og landsstjórn, er hún komst til lögaldurs og tók sjálf við ríkisstjórninni (1644); var hin fyrstu árin þar á eptir mjög starfsöm og afskiptasöm af stjórnarmálum, alt gekk vel í ríkinu, og mikið frægðarorð fór af henni fjær og nær. En allar þær miklu og fögru vonir, er menn gjörðu sèr um Kristínu drotníngu og ríkisstjórn hennar, brugðust eptir því sem frá leið og fram í sótti. Hún hafði að vísu erft mikið af vitsmunum föður síns, og ef til vill sumt annað gott, en hans veglynda hjarta, hreina og kristilega hugarfar, hafði hún alls eigi tekið í arf eptir hann. Hún hafði lítið af kvennlegri blíðu og viðkvæmni, var ótrygg og hverflynd, og eptir því sem hún eltist varð hún óstjórnlegri í geðsmunum, og gat ekki á móti sèr látið. Breytni hennar sýnir þetta og sannar. Þegar hún hafði nokkur ár haft ríkisstjórnina á hendi, gjörði hún Axel Oxenstjerna margt til skapraunar bæði á bak og brjóst, setti hann hjá, en tók aðra fram yfir hann, sem í engu gátu við hann jafnazt, og hafði þá í mestu hávegum. Hún safnaði að sèr ýmsum útlendum mönnum, sumum mjög misjöfnum, gaf þeim stórgjafir, og sóaði á ýmsa vegu löndum og lausum aurum, bæði til innlendra og útlendra gæðínga sinna. Það á eigi skylt við þetta, þó að slíkir menn, sem *Hugo Grotius* og *Cartesius*, kæmu til Svíþjóðar og væru í miklum metum hjá drotníngu, því að það var hverrar þjóðar sæmd, að taka slíkum spekíngum sem bezt; enda mun Axel Oxenstjerna hafa átt þar mestan og beztan þáttinn í, að þessir tveir menn komu þángað norður og nutu þar nokkurs góðs.

Á fyrstu ríkisárum Kristínar drotníngar urðu margir konúngbornir menn til að biðja hennar, en hún vildi engum giptast. Ráðherrarnir og hin sænska þjóð voru mjög áfram um að hún giptist, og höfðu einkum augastað á Karli Gústaf, frænda hennar og uppeldisbróður, enda æskti hann þess sjálfur, en hún sat föst við sinn keip, og synjaði bæði þeim ráðahag og öðrum. Hún vildi engum vera háð, og menn eignuðu það ofdrambi hennar og sjálfselsku. «Eg skil alls eigi, sagði hún, hvernig nokkur

kona vill gefa sig í slíkan þrældóm. Eg líð engum að farið sè með mig, eins og bóndinn fer með akur sinn». Og er menn leiddu henni fyrir sjónir, að hún gjörði vel í því, að giptast og sjá ríkinu fyrir erfíngja, þá svaraði hún: «eg get alt eins vel orðið móðir Nerós eins og Ágústusar».

En eins og Kristín var einráðin í því að giptast eigi, eins fast fylgdi hún því fram, að Karl Gústaf yrði eptirmaður sinn í ríkisstjórninni og fengi erfðarètt til konúngdóms í Svíþjóð. Ríkisráðið vildi með engu móti gefa samþykki sitt til þessa, nema því að eins, að drotníngin giptist honum, en nærri því var eigi komandi, og svo fór, að hún hafði sitt fram. Var þá lýst yfir því (1650), að Karl Gústaf væri kjörinn ríkiserfíngi eptir hennar dag, og að ríkið skyldi að erfðum gánga í karllegg til niðja hans. Ýmsir mæltu með því, að konúngsefni fengi land nokkurt eða fylki til forráða, en Axel Oxenstjerna mintí menn á, hve ilt hefði af hlotizt, að synir Gustafs Vasa fengu slíkt vald í hendur, og drotníngin var því samþykk: «honum nægir sú sæmd — sagði hún — að vera krónprinz Svíaríkis». Þó fèkk hún honum ári síðar eyjuna Öland til allra forráða, auk þess sem honum voru veittar 50,000 rd. til uppeldis sèr á ári hverju.

Áður en þetta gjörðist, sem nú var sagt, var það komið í huga Kristínar drotníngar, að leggja völdin niður og fara af landi burt. Hvað hana helzt hafi knúið til þessa verður eigi með vissu sagt, en margir hafa ætlað, að valdið hafi annars vegar hviklyndi hennar og nýjúngagirni og hins vegar eljunarleysi við ríkisstörfin. Margur varð til að telja hana af þeirri fyrirætlan, en það kom fyrir ekki. Árið 1654 lèt hún stjórnina lausa við Karl Gústaf. Hann var því næst krýndur, en hún fór af landi burt, og litlu eptir það kastaði hún Lúthers trú og tók katólska trú í staðinn, en það höfðu menn sízt ætlað dóttur Gústafs Adólfs. Hún lifði 35 ár eptir þetta og var lengstum í Rómaborg, þó eirði hún þar eigi að staðaldri en fór víða um lönd, og kom tvisvar til Svíþjóðar; vildi komast aptur til ríkis bæði þar og á Póllandi, en það gat eigi tekizt. Hvar sem hún kom sóktu lærðir menn hana heim og undruðust vit hennar og þekkíngu. Meðan hún gat rètti hún vísinda og íþróttamönnum einatt hjálparhönd, enda urðu þeir helzt til að lofa hana þegar hèr var komið; flestum öðrum varð hún hvimleið. Það er líka sannast að segja, að hún

var óvægin í orðum um marga, bæði í ritum og ræðum, og mætti til þess telja mörg dæmi. Þannig ritaði hún eitt sinn frá Hamborg lærðum manni er Vossius hèt: «eg neyðist til að stytta stundir mínar með bókalestri, því að þèr vitið, að eg lifi nú í því landi, þar sem menn verða að leita sèr huggunar í fèlagi hinna dauðu, í stað samfèlagsskapar við hina lifandi». Í brèfi til annars manns komst hún svo að orði: «af öllum skynlausum skepnum, sem komið hafa fyrir mín augu, eru það Þjóðverjar, sem sízt líkjast menskum mönnum». Svo mjög sem hún þóttist virða páfann, gat hún þó eigi stilt sig um að segja: «eg hefi þekt fjóra páfa, fjóra af þessum jarðnesku stjórnendum kirkjunnar, er menn svo kalla, og enginn þeirra hefir haft heilbrigða skynsemi». Kristín drotníng dó í Rómaborg 1689; lèt páfinn grafa hana í Pèturskirkju og reisa henni þar veglegan minnisvarða.

*Karl Gústaf*, eða Karl tíundi Gústaf sem hann einnig er nefndur, varð, eins og nú var sagt, konúngur yfir Svíþjóð (1654), þá er Kristín drotníng lèt af stjórn og fór úr landi. Hann var þá 32 ára gamall. Á uppvaxtarárum sínum hafði hann notið hins bezta uppeldis, og iðkað bókmentir af miklu kappi bæði innanlands og utan, og hefir svo verið sagt, að hann hafi verið flestum konúngum lærðari í Svíþjóð. En þó að hann væri bóknámsmaður góður, var hernaðaríþróttin honum þó lángkærust, og þángað hneigðist hugurinn þegar á barnsaldri, einkum er hann heyrði getið afreksverka Gústafs Adólfs móðurbróður síns. Árið 1642 var Karl Gústaf sendur til hersins á Þýzkalandi. Torstenson var þar þá yfirforíngi Svía, og um haustið áttu þeir stórorustuna við Leipzig, og unnu þar hinn frægasta sigur.[1] Í þeirri orustu var Karl Gústaf, og gekk þar svo vel fram, að Torstenson fèkk miklar mætur á honum, enda reyndist hann, alla þá stund sem hann var í herþjónustu, hinn mesti fullhugi og eptir því sem fram leið efni í ágætan hershöfðíngja. Þegar Torstenson lagði hervöldin niður (1645), fór Karl Gústaf heim aptur til Svíþjóðar og sat þar um kyrt, þángað til Kristín drotníng tveim árum síðar fekk honum yfirstjórn hersins á Þýzkalandi í hendur, en þrjátígi ára stríðið lyktaði um þær mundir, svo að honum gafst eigi tækifæri að sinni til neinna afreksverka.

Þegar hann var orðinn ríkiserfíngi og hafði fengið Öland

til forráða fór hann þángað, og var þar öllum stundum til þess er hann tók við ríkisstjórn 1654. Litlu síðar en hann varð konúngur kvongaðist hann og átti *Hedevig Eleónoru* dóttur hertogans af Holstein-Gottorp.

Þegar hèr var komið, var Axel Oxenstjerna rúmt sjötugur að aldri, en þó ern vel og átti enn mikinn þátt í stjórnarstörfum. Hann hafði verið 42 ár kanselleri ríkisins, er í þá daga var hið æzta og tignarlegasta embætti í Svíþjóð. Tvisvar hafði hann verið einn af ríkisstjórunum, og í síðara skiptið stýrt ríkinu hartnær sem konúngur. Hann hafði samið friðinn í Knæröð og Brömsebro og vopnahlèð í Stúmsdorf, og þó hann væri að eins sænskur embættismaður, þá gjörðu hinir þýzku þjóðhöfðíngjar sæmd hans svo mikla, að þeir kjöru hann til forseta hins «evangeliska þjóðhöfðíngjafèlags», er þá var stofnað á Þýzkalandi, og hèlt hann því embætti síðan. Hann hafði þjónað þremur konúngum, Karli níunda, Gústaf Adolf og Kristínu, verið af öllum vel metinn, og mest af þeim, sem mestur þeirra var. Um tíma varð Kristín honum að sönnu ill og afundin, og þá dró hann sig í hlè frá ríkisstörfum, en hve nær sem í raunir rak, var hans ráða þó leitað, og þá var hann ætíð boðinn og búinn til ráða og dáða; enda fór svo, að Kristín sá, að hún gat eigi án hans verið, og tók hann aptur í fullkomna sátt. Karl Gústaf sýndi honum öll vináttu- og virðíngarmerki bæði áður og eptir að hann varð konúngur, og kallaði hann «föður sinn». Enginn má samt ætla, að þessi mikli maður hafi farið varhluta af andstreymi lífsins; slíkt hlaut að fylgja hans veglegu og vandasömu stöðu. Hann átti því löngum öfundar- og óvildarmenn, sem á ýmsa vegu reyndu að spilla fyrir honum bæði leynt og ljóst, en aldrei gat þeim tekizt að mæða hann svo, að hann þreyttist að vinna fósturjörð sinni bæði gagn og sóma. En að hann hafi fundið til alls þess mótgángs, er honum mætti, má opt ráða af orðum hans. Þannig ritar hann (1646) Jóhanni syni sínum — er þá var í Osnabrück að undirbúa vestfalska friðinn. — «Eg þekki gjörla lund og áform þeirra manna, sem nú ráða mestu í Svíþjóð, fæ og á því að kenna dag hvern. Eg sè skaða og mínkun fósturjarðar minnar fyrir augum mèr, svo að sárt er til að vita hverjum manni með ráðvöndu hjarta. Hèldi ekki guð og samvizka mín mèr upprèttum, þá væri eg fyrir löngu farinn

frá embætti. En Seneca segir: «vertu eigi of einþykkur eða þrár við þína fyrirætlun, en láttu hamíngjuna ráða». Þegar öll fyrirhöfn reynist árángurslaus, verða menn að grípa til þolinmæðinnar og laga sig eptir tíð og þörfum. Svo lángt á hygginn maður að fara, en eigi lengra. Mörgum virðist þetta erfitt, en sè þessa eigi gætt, þá hefir maður unnið fyrir gýg; það er þó betra, að hafa nokkra reglu en enga». Í öðru brèfi til sama manns kemst Axel svo að orði: «Sá, sem lengi lifir og situr í háum völdum, má búast við öfund, illvilja og mörgu öðru, og enginn dugandi maður gæti undir því risið án guðs og góðrar samvizku. Þú þekkir kjör mín undanfarin ár, þau hafa eigi batnað síðan. Þetta er mitt hlutskipti; hið sama kemur fram við þig; vera má að enn taki verra við fyrir báðum okkur. En taktu guð til hjálpar og ráða og gjör hvað rètt er! Þegar þegja skal, þá þegðu! þegar fyrirlíta skal, þá fyrirlíttu. Hlæðu að því, sem eigi verðskuldar annað en athlægi! En það sem eigi er vanvirðulaust, það skaltu engum þola».

Þau árin sem Kristín lagði fæð á Axel Oxenstjerna, var hann opt úti á búgarði sínum, og gaf sig þá annaðhvort við búsýslu, eða hann las bækur, einkum biblíuna, og rit hinna fornu Rómverja, og bauð þá einatt til sín prestum þar í nágrenninu; bar þá margt á góma. Þegar Kristín var gengin úr völdum, fèkk hann Eiríki[1] syni sínum kansellerastörfin, en tókst sjálfur á hendur fjármál ríkisins, er þá voru komin í mestu óskil. Vinir hans beiddu hann ætla sjálfum sèr af, og gæta þess, að hann væri farinn að eldast og þreytast. Hann svaraði: «eg er vanur erfiði, hefi lifað við það, og vil heldur við það deyja, en í iðjuleysi». Það hið sama sumar (1654) sýktist hann hastarlega og lagðist í rekkju. Undir andlátið spurði hann, hvað menn þá vissu um Kristínu drotníngu. Honum var sagt það. Hann mælti: «Hún iðrast þessa, það hefi eg sagt henni; en hún er ekki með öllum mjalla». «Þó», sagði hann, og varp mæðilega öndunni, «hún er þó dóttir hins mikla Gústafs Adolfs!» Þessi voru hans síðustu orð. Hann andaðist 28. Ágúst 1654. Sama daginn sem Axel Oxenstjerna var jarðaður andaðist María Eleónóra ekkja Gústafs Adolfs. Lennart Torstenson var dáinn fyrir þrem árum, en Jakob De la Gardie fyrir tveimur.

1) Eiríkur Oxenstjerna var mesta mannsefni, en dó úngur.

Hinar óæðri stéttir í Svíþjóð, bændur, borgarar og prestar, og sömuleiðis hinir lægri meðal aðalsins undu því illa, að svo margar af þjóðjörðum, eða af gózi krúnunnar, höfðu verið seldar og sumpart gefnar æztu aðalsmönnum smátt og smátt, alt í frá dögum Jóhanns þriðja. Það jarðagóz, sem aðallinn þannig fèkk í hendur, var undan þegið öllum skattgjöldum. Krúnan hafði fyrir þá sök minni tekjur en áður, og á minna að taka til alþjóðlegra þarfa, en skattarnir jukust og komu því þýngra niður á alþýðu manna; þess vegna gjörði alþýðan sèr von um, að Karl Gústaf mundi ráða hèr á einhverjar bætur, og hugði gott til hans ríkisstjórnar. Það var og hans fullkomið áform, að verða við þeirri ósk alþýðunnar, og þess vegna var málefni þetta borið upp á ríkisdeginum 1655. Varð þar niðurstaðan sú, að aðallinn skyldi að nokkru, en eigi öllu leyti skila krúnunni aptur þeim jörðum, er hann hefði eignazt að gjöfum frá dauðadegi Gústafs Adolfs 6. nóv. 1632; það er kallað Reduction. Þar við var látið sitja að sinni, annaðhvort af því, að mönnum þótti þetta sanngjarnt, eða af því, að menn óttuðust mikla reikníngsvafnínga og megna mótspyrnu ef lengra væri farið, eða af því, að konúngur vildi sem fyrst taka til óspiltra mála við Pólverja.

Þá rèð fyrir Póllandi *Jóhann Kasimír* (1648—1668) ýngri sonur Sigmundar konúngs, þess, er samtíða var Gústaf Adolf, og deildi við hann illdeildum. Jóhann vildi eigi viðurkenna rètt Karls Gústafs til konúngdóms í Svíþjóð, og þóttist sjálfur nær standa þeirri tign. En hann hafði það til síns máls, að Sigmundur faðir hans var sonur Jóhanns Gústafssonar Vasa. Jóhann Kasimír var því þriðji maður í beinan karllegg frá Gústaf Vasa, og af eldri syni hans kominn. En Karl Gústaf var bæði af ýngri syni Gústafs Vasa (Karli 9.) kominn, og eigi í karllegg, því að hann var dóttursonur, en eigi sonarsonur Karls níunda. Pólverja konúngur sendi því gagngjört mann til Svíþjóðar, nokkrum dögum áður en Kristín drotníng lagði völdin niður, og sagði svo: »Pólverja konúngar hafa að vísu viðurkent konúngstign Gústafs Adolfs og Kristínar, en að halda hinu sama fram, er ný ætt vill hefjast til ríkis í Svíþjóð, það er hvorki vor skylda eður vilji». Kristín gaf þau svör: að Karl Gústaf frændi hennar skyldi með 30,000 vitna sanna rètt sinn til konúngdóms í Svíþjóð; að öðru leyti leiddi hún þetta málefni hjá sèr. En

Karl Gústaf sagði, að fyrst guð og drotníngin og fulltrúar þjóðarinnar hefðu gefið sèr Svíaríkis krúnu, þá mundi hann reyna að verja hana, hver sem í hlut ætti. Enginn sænskur maður lagði Pólverjakonúngi liðsyrði að máli þessu, og Karl Gústaf var krýndur fyrirstöðulaust. Nú var bæði, að margir meðal Svíanna kusu heldur stríð en frið, enda var Karl Gústaf svo skapi farinn, að hann vildi heldur leita sèr fjár og frægðar í hernaði en með friðsamlegum störfum; og hèr þóttist hann hafa hina gildustu ástæðu til að sækja Pólverja heim, og gjalda konúngi þeirra rauðan belg fyrir gráan. En eigi voru þetta nægar ástæður til að ráðast á Pólland. Þó safnar Karl Gústaf liði um ríki sitt, og sumarið þar á eptir (1655) heldur hann öllu því liði til Póllands, og er skjótt yfir að fara, að eptir nokkrar vikur hefir hann lagt því nær alt Pólland undir sig, og tekið báðar höfuðborgir landsins, Varschau og Krakau. Það kom nú hèr fram sem optar í sögu Pólverja, að hver hugsaði einúngis um sig, og það sem hann hugði í þann svipinn mundu verða sèr að mestum hagsmunum, en alls eigi um hitt, hvað sæmd og gagn almennings og fósturjarðarinnar heimtaði af þeim. Margir af höfðíngjum þeim, er Jóhann Kasimír trúði bezt, brugðust honum með öllu, og gengu með sínar sveitir Svíakonúngi til handa, þegar nóg fè og frami var í boði. Jóhann Kasimír varð því að flýja land, og láta um sinn fyrirberast í Slesíu í borg þeirri, er Oppeln heitir. En yfirráð Svía yfir Póllandi urðu skammvinn. Bæði var það, að Svíar fóru illa með sínu ráði; þeir beittu harðýðgi og ránum í landinu, er hlaut að gjöra þá óvinsæla, og æsa landslýðinn móti þeim — og svo var um þessar mundir sá maður þar í landi, er því var vaxinn, að hjálpa þegar mest þrengdi að. Sá maður hèt *Stefán Czarnecki.* Hann var einn af þeim mönnum, sem aldrei bilar hugur, hvað sem að höndum ber, honum varð aldrei ráðafátt, hann var óþreytandi starfsmaður, og þar á ofan hinn veglyndasti og einlægasti ættjarðarvinur. Hann var í mörgu líkur Kosciusko (er seinna verður nefndur), einhverjum hinum bezta manni og mesta, sem uppi hefir verið á Póllandi. Stefán einsetti sèr að frelsa ættjörð sína frá yfirdrotnan Svía. Hann fèkk safnað liði nokkru, og þángað til var hann að, að Svíar hrukku af landi burt, og urðu að láta það laust, sem þeir höfðu lagt undir sig. Nú þegar Karl Gústaf sá

sitt óvænna, lagði hann það til við Rússa og kjörfurstann af Brandenborg, Friðrik Vilhjálm (hinn mikla, sem svo er nefndur), að þeir skyldu allir taka Pólland og skipta því með sèr. Kjörfurstanum þótti boðið girnilegt, safnaði liði og heldur því til móts við Svía. Verður nú orusta mikil við Varschau í júlímánuði 1656 — sú orusta stóð í tvo daga — og vinna þeir þar sigur Karl Gústaf og kjörfurstinn, en Jóhann Kasimír leggur á flótta. Þó hafði Svíakonúngur minna gagn af sigri þessum en vænta mátti, því að kjörfurstinn vildi með engu móti veita Pólverjakonúngi eptirför, eða frekara að gjöra en orðið var; en þegar kjörfurstinn var frá, þá var Svíakonúngur of liðfár eptir. Rússar komu eigi, heldur gjörðu þeir samband við óvini Karls Gústafs; því að nú fór ýmsum þjóðum að standa ótti af aðförum hans. Þannig komst samband á fót gegn Svíum milli Rússa, Austurríkismanna og Pólverja. Til þess nú að mega treysta kjörfurstanum af Brandenborg, fèkk Karl Gústaf honum Austur-Prússland algjörlega í hendur, en það land hafði til þessa verið háð Pólverjakonúngi; á þann hátt var grundvöllurinn lagður undir hið *prússneska konúngsríki*. Kjörfurstinn galt þann greiða þannig, að þegar Rússar um þessar mundir rèðust á lönd Svía fyrir austan Eystrasalt (Ingermanland, Lífland o. s. frv.), þá sagði hann skilið við Svía og gekk ásamt með Dönum í óvinaflokk þeirra. Voru nú á skammri stundu fimm þjóðlönd risin upp til ófriðar móti Svíum, og öll í einu. Þegar nú svo var komið, gat Karl Gústaf með engu móti haldizt lengur við á Póllandi, og fyrir því þótti honum fremur vel en illa orðið, er Friðrik þriðji, Danakonúngur, sagði honum stríð á hendur (1657); því að nú hafði Svíakonúngur fengið fulla ástæðu til að fara burt af Póllandi. Hann lèt þar eptir nokkurt setulið í sumum borgum, og hèlt því næst landveg vestur og norður til Danmerkur. Allur hans her var hèr um bil 12000 manna. Friðrik Danakonúngur fór sjóveg austur að Danzig, því að hann bjóst við, að Svíakonúngur mundi fara sjóleið þaðan til Svíþjóðar, og ætlaði sèr svo að sitja fyrir honum og hremma hann þar á hafinu. En er Danir komu til Danzigar, frèttu þeir, að Svíar voru allir á burt, og farnir landveg vestur; sneru þá Danir sem fljótast heim aptur.

En nú er að segja frá Karli Gustaf, að hann er kominn

norður á Holtsetaland fyr en nokkurn varir. Við borg þá er Itzehoe heitir bjuggust Danir til mótvarnar; voru þeir saman nokkrar þúsundir manna og sezti herstjóri Danakonúngs *Anders Bille* (Rigsmarsk) fyrir því liði. Þau urðu þar leikslok, að borgin brann til ösku, en Danir hörfuðu undan, og veittu hvergi viðnám, heldur settust að á Friðriksodda, eða Fridricia. Þar var þá nýgjörður kastali og sterkar varnir. Lögðu nú Svíar undir sig bæði Holtsetaland og Slèsvík, og hèldu norður til Fridricia. Landsfólkið hrökk víða undan, og stóð ótti mikill af Svíum, því að sagt var að þeir hefðu í liði með sèr bæði Tyrki og Tartara, er dræpu alt hvað fyrir yrði, jafnt konur sem karla. Tuttugasta og fimta dag ágúst-mán. 1657 kom Karl Gustaf til Fridricia, og gjörði þegar hart áhlaup, en víggirðíngarnar voru svo traustar, að konúngur varð frá að hverfa. Lèt hann þá Karl Gustaf Wrangel, hershöfðíngja sinn, verða þar eptir með nokkrar þúsundir manna, en hèlt sjálfur suður til Wismar, og lèt þar fyrirberast fyrst um sinn. Meðan Wrangel sat um Fridricia sendi hann herflokka norður á Jótland, og lagði það alt undir sig, en 24. október um haustið tók hann Fridricia í áhlaupi, og alt það sem þar var bæði lifandi og dautt, en Anders Bille varð sár til ólífis og dó litlu síðar. Þetta var nú að vísu allmikill sigur, og Svíar höfðu mikið aðgjört, er hertogadæmin og Jótland alt var komið í þeirra hendur, en alt um það gat þessi Jótlandsför þeirra orðið þeim til falls og fordjörfunar, nema þeir kæmust alla leið yfir á Sjáland, því að á baki þeim stóð Austurríki, Brandenborg og Pólland, og það var í ráði, að þaðan kæmi yfir 20000 manna, þá er úthallaði vetri, og kvíaði þá á Jótlandi, og þegar nú Danir bættust þar við, þá voru lítil líkindi til, að Svíar kæmust úr höndum þeim. Fyrir því lagði Karl Gústaf á það allan hug, að komast yfir á eyjar, áður enn voraði. Hann fór þess á leit við ýmsa þjóðhöfðíngja, að þeir gengju í samband við hann, og vildi enginn til þess verða, en þá kom sá til liðs við hann, er honum varð drjúgastur, og það var veturinn. Það gjörði frost svo mikil, að ísa lagði á sund öll milli eyjanna, og á þeim ísum fór Karl Gústaf með lið sitt til Sjálands. Er áður sagt bæði frá þeirri ferð hans og þeim viðskiptum, er þá urðu með honum og Danakonúngi. Þess er og getið, að Karl Gústaf lèt sèr eigi nægja Hróarskeldu-friðinn, og ætlaði sèr að

leggja undir sig alt Danaveldi, en sú fyriræltun hans varð að engu. Hann hèlt því heim til Svíþjóðar, stefndi þíng í Gautaborg, og krafðist bæði fjár og manna til þess að geta hafið ófrið á nýjan leik. En meðan á þessu stóð sýktist konúngur og dó (13. febr. 1660). Hann var þá 37 vetra gamall.

Svíar áttu litlum friði að fagna þau fáu ár, sem Karl Gústaf var konúngur þeirra. Allur hans hugur var á öðrum þjóðum, að berjast við þær og leggja þær undir sig, hvort sem til þess voru litlar sakir eður miklar, eins og sýndi sig þegar hann rèðst á Pólland 1655, og á Danmörk eptir Hróarskeldufriðinn 1658. Konúngur hafði því miklu minni afskipti af allri innanlandsstjórn í ríki sínu, en nauðsyn beiddi, og fyrir þá sök fór þar margt aflaga um hans daga. Kom þetta sèr því ver, sem ólag var á margt komið í Svíþjóð á síðustu árum Kristínar drotníngar. Þessu höfðu menn búizt við að Karl Gústaf mundi kippa í lag. Að vísu var það eitt sem breyttist til hins betra, eptir að hann kom til ríkis, og það var, að við hirð hans var miklu meiri sparnaður hafður, heldur en á ríkisárum Kristínar. En á hinn bóginn leiddi það af hans sífelda ófriði, að Svíar liðu ógurlegt manntjón; er svo sagt, að fallið hafi af þeim yfir 70,000 manna þau árin sem hann rèð ríkjum, og það flestir á bezta aldri. Auk þessa mikla tjóns varð landsfólkið mjög aðþrengt af þeim hinum þúngu sköttum og ýmsum kvöðum, sem á það var lagt, til að halda úti miklum her og flota; að akuryrkja, kaupverzlun og alls konar friðsamleg störf hafi legið í dái og beðið margvíslega hnekkíng af öllu þessu, ræður að líkindum; megn óregla átti sèr og stað víða um landið, eins og við var að búast, því að þjóðin var sem höfuðlaus her, er konúngurinn og margir helztu menn með honum voru lengstum utanlands. Yfir öllu þessu var mikil óánægja í landinu, en menn þorðu eigi að kvarta, því að konúngur brást reiður við, og var þá ómjúkur í svörum. Enda sættu menn sig meðfram við það, að konúngur var löngum sigursæll og hèlt þannig uppi frægðarorði þjóðarinnar, og þeirri sigursæld var það einnig að þakka, að ríkið færðist út til eðlilegra takmarka, þar sem Skán, Halland og Blekíng bættist við það; og þá var eigi til einskis barizt. En hins vegar tóku Hollendíngar á síðustu árum ófriðarins nýlendu þá, er Svíar höfðu sett á stofn við Delaware-fljótið í Norðuramerìku á dög-

um Kristínar, og þeir kölluðu *Nýju Svíþjóð*, en Danir tóku það, sem Svíar áttu á Guineaströnd í Afríku.

Karl ellefti var á fimta árinu þegar Karl Gústaf faðir hans andaðist. Hafði Karl Gústaf svo ráð fyrir gjört í testamenti sínu, að drotníngin Hedevig Eleónóra, fimm hinir æztu embættismenn ríkisins og Jóhann Adolf hertogi — bróðir Karls Gústafs — skyldi stýra ríkinu þángað til konúngur sjálfur hefði náð lögaldri. Meðal ríkisstjóra þessara eru þeir Magnús De la Gardie, Pètur Brahe og Karl Gústaf Wrangel hinir nafnkendustu. Magnús var sonur Jakobs þess, er fyr er nefndur; hann átti systur Karls Gústafs, var um tíma í miklum kærleikum hjá Kristínu drotníngu, og þá, einatt mótstöðumaður Axels Oxenstjerna, en síðan reiddist drotníng honum og rak hann úr völdum. Magnús var hið mesta stórmenni og vel að sèr um marga hluti, en hann var ákaflega metorðagjarn, og komst einatt til æztu valda, og mátti þá heita allsráðandi í Svíþjóð, en honum varð aldrei haldsamt á tigninni; hann var stórauðigur maður, og þó löngum í skuldabasli; hann var mikill vinur Frakka, en sú vinátta varð Svíum til hins mesta ógagns. Pètur Brahe var vitrari og miklu ráðsettari maður en Magnús; hann hafði verið aldavinur Gústafs Adolfs, og honum mjög handgenginn bæði í friði og stríði; hann hafði verið landstjóri á Finnlandi og orðið frægur af þeirri stjórn. Hann kom þar meðal annars fótum undir háskólann í Abo. Það þótti helzt mega að honum finna, að hann leit fremur á upphefð og yfirráð aðalsins, en á rèttindi krúnunnar og lægri stèttar manna. Það bar þeim opt á milli Axel Oxenstjerna og Pètri Brahe, að Pètur leit fremur á rèttindi en skyldur aðalsmanna, en Axel leit á hvorttveggja og vildi halda öllu í jafnvægi. Pètur Brahe var gamall maður þegar hèr var komið, en rèð þó löngum miklu, og af hans völdum var það, að Jóhann Adolf hertogi komst eigi að ríkisstjórninni, þó Karl Gústaf hefði svo fyrirmælt. Þótti það vel orðið, því að hertoginn var óeirðarmaður og illa fallinn til slíkra starfa. Pètur Brahe var einhver ríkastur maður í Svíþjóð um sína daga, og kunni miklu betur með fèð að fara en Magnús De la Gardie. Karl Gústaf Wrangel var nafnkendur frá þrjátigi ára stríðinu og frá herferðum Karls Gústafs, og er jafnan talinn einn með hinum frægustu hershöfðíngjum Svía; hann

þótti nokkuð dramblátur og sèrdrægnr, og betur fallinn til herstjórnar en ríkisstjórnar.

Þó að ríkisstjórar þessir væru á margan hátt dugandi menn, þá voru þeir eigi jafníngjar hinna, er Svíþjóð stýrðu á æskuárum Kristínar, allrasízt var nú nokkur, er jafnazt gæti við Axel Oxenstjerna. Það spilti og eigi alllítið fyrir störfum þeirra, að þeir voru einatt sundurþykkir, og það svo, að þeir gengu í sveitir, og vildi hvor flokkurinn annan ofan ríða, en ríkið og þjóðin galt þessa; fór því margt á þeirra dögum miður en vera skyldi.

Eitt hið fyrsta sem þeir gjörðu, eptir að þeir komu til valda, var að semja frið við þá, sem Karl Gústaf hafði átt í höggi við. Fyrst og fremst (1660) við Brandenborg, Austurríki og Pólland; Sá friður var saminn í klaustri einu, er *Oliva* heitir, skamt frá Danzig; varð það þar að sættum: að Póllands konúngur slepti öllu tilkalli til Estlands og Líflands, afsalaði sèr allan erfðarètt til Svíþjóðar, og viðurkendi konúngdóm Karls ellefta. Þar með var þá fallin ástæðan til hins lángvinna ófriðar milli Svía og Pólverja, er staðið hafði rúm 50 ár. Þar næst sömdu Svíar frið við Dani 1660; sá friður er kendur við *Kaupmannahöfn;* eignuðust Svíar þá til fulls og alls Skán, Halland og Blekíng og Bohuslèn. Loksins var friður saminn árið eptir (1661) í *Kardis* við Rússa; sú friðargjörð staðfesti alt, sem samizt hafði með mönnum í Stolbóvar-friðnum 1617.

Nú liðu svo nokkur ár, að Svíar áttu lítinn sem engan ófrið við aðrar þjóðir, en nógar voru deilur með ríkisstjórunum. Magnús De la Gardie rèð mestu, en þar kom, að hann og hans flokkur varð undir, og sá maður í ríkisráðinu, er *Sten Bjelke* hèt, og hans flokkur urðu yfirsterkari, og þá var það, að Svíar gengu í samband (1668) með Englum og Hollendíngum móti Loðvíki fjórtanda. Það var hið nafnkenda þrenníngar, eða þriggja þjóða samband (Trippelalliancen), er neyddi Loðvík til að semja friðinn í Achen, eins og áður er sagt. Móti þessu sambandi mælti Magnús De la Gardie ákaflega, og kvað mönnum hollara að vera með Frökkum, en hann kom eigi sínu máli fram að sinni, og þótti þá betur fara.

Það hefði nú mátt ætla ríkisstjórunum, að þeir mundu ráða bætur á ýmsu, er ábótavant þótti í Svíþjóð um þessar mundir, en það fór fjarri, að þeir gjörðu það, eða að þeim tækist það.

Mörgu fór fremur aptur en fram: ríkisskuldir fóru vaxandi; her og skipafloti var í vanhirðíngu; skattar lágu þúngt á bændum; krúnunnar jörðum var fargað og fengnar í hendur hinum ríkustu aðalsmönnum, og þessir aðalsmenn sátu eins og konúngar á stórbúum sínum út um landið, en alþýðan lifði við sult og seyru; og — það sem lakast var — að eigi var trútt um, að Magnús De la Gardie og aðrir fleiri af ríkisstjórunum þægju mútur af Frakkakonúngi, til þess að vera honum fylgjandi, er á þurfti að halda.

Nú leið að þeim tíma, að Karl ellefti næði lögaldri, það er að skilja, að hann yrði 18 vetra, og gæti sjálfur tekizt á hendur ríkisstjórn. En af því að margir voru þá óánægðir með aðgjörðir ríkisstjóranna, þá varð það, að konúngur settist sjálfur að stjórn, þá er hann var að eins 17 vetra gamall. Það var í des.mán. 1672. Hann var þó eigi líklegur til mikilla framkvæmda þá þegar, einkum fyrir þá sök, að hann hafði helzt of litla mentun fengið. Ríkisstjórarnir, sem fyrir slíku áttu að sjá, höfðu í þeirri grein verið mjög hirðulitlir, enda var konúngur tregur til allra bókmenta, og vissi lítið; það hèt svo, að hann kynni móðurmál sitt, en lítið meira. Um þær mundir hugði hann mest á dýraveiðar og þess kónar skemtanir, sem hug og dug og jafnvel ofdirfð þurfti til, en öllu svalli og kveifarskap var hann fjarlægur; að heræfíngum þótti honum hið mesta gaman; hann var snemma geðríkur, og það, sem hann vildi hafa fram, varð svo að vera. Á ráðssamkomum var hann fámæltur, og eins og hann yndi sèr þar ekki, en þegar hann kom aptur í sinn hóp var hann glaður og kátur. Hin fyrstu árin eptir að hann kom til ríkis, sást því engin breytíng í ríkisstjórninni frá því sem verið hafði, og Magnús De la Gardie var þá aptur kominn til valda og rèð miklu hjá konúngi.

Nú bar svo til um þessar mundir, að Loðvík fjórtándi eirði illa við Achenar-friðinn og vildi hefna sín á Hollendíngum. Árið 1672 sagði hann þeim stríð á hendur, og hafði nú England eigi móti sèr eins og áður, heldur með sèr. Kjörfurstinn Friðrik Vilhjálmur af Brandenborg gjörðist einn af mótstöðumönnum Loðvíks, en til þess að draga máttinn úr honum, þótti Loðvíki bezt til fallið, að fá Svía í lið með sèr. Hann hèt Svíum öllu fögru, ef þeir vildu gánga í lið með sèr og jafna á kjörfurstan-

um. Svíar voru á báðum áttum; sumir vildu hafa frið og sitja hjá, aðrir vildu veita Hollendingum, en hinir urðu þó flestir, sem mintust á fornan fjandskap, er Hollendíngar höfðu lagzt í móti þeim á dögum Karls Gústafs. Sú varð því niðurstaðan, að samband var gjört við Loðvík fjórtánda (1674), og Karl Gústaf Wrangel var sendur með 20000 manna suður á Pommern, til þess að banna kjörfurstanum liðveizlu við Hollendínga. Nú kom það bezt í ljós, hve lítil fyrirsjón hafði verið á öllu höfð við herinn, því að nú var þess eigi lángt að bíða, að kjörfurstinn kom með lið sitt vestan úr löndum, og réð á Svía, þar sem heitir Fehrbellin (1675), og rak þá á flótta. Svíar vörðust reyndar vel, en höfðu ónýtan fyrirliða, því að Wrangel sjálfur var eigi þar við aðalherinn, heldur annarstaðar með lítinn flokk manna; hann var þá orðinn gamall maður og kendi opt þreytu og sjúkdóms, og átti aldrei þessa för að fara. Er það einn vottur þess, að þá var engin styrk hönd heima fyrir í stjórn Svía, er Wrangel fékk þess ráðið að stýra hernum í það skipti, þar sem Svíar áttu þó völ á úngum en þó ágætum hershöfðíngja, er hét *Otto Vilhelm Königsmark;* hann var um þessar mundir látinn vera aðgjörðalaus í Hamborg. En nokkru seinna var honum falin á hendur herstjórn í Pommern, þegar kjörfurstinn braust þángað með sína menn. Königsmark varðist þar lengi og vel, en átti við mikið ofurefli að stríða, og fékk aldrei liðstyrk heiman af Svíþjóð, og svo fór, að kjörfurstinn vann alla Pommern af Svíum. Königsmark fór síðan af landi burt og suður í lönd og varð þar frægur af herstjórn sinni, og þar varð hann sóttdauður 1688.

Danir undu því illa, að hafa mist Skán, Halland og Bleking. En þegar Svíar voru orðnir bandamenn Frakka og höfðu sent herlið inn í lönd kjörfurstans af Brandenborg, þá þótti Dönum tími og tækifæri bjóðast til að ráða á Svíþjóð, í þeirri von, að geta unnið aptur hin áðurnefndu héröð. Jafnvel þó margir væru þessu móthverfir meðal Dana og vildu friðinn, réðu þó hinir meiru sem til ófriðar eggjuðu. Árið 1675 komst þannig á fót samband milli Austurríkis, Spánar, Hollands og Danmerkur; Danir sögðu Svíum stríð á hendur, og hinn *skánski ófriður* hófst. Sama sumarið hélt danskur og hollenzkur herskipafloti til Eystrasalts til þess að varna því, að lið yrði sent frá Svíþjóð suður á

Pommern; en landher Dana hèlt þángað suður og settist um borg þá, er Wismar heitir, og Svíar þá áttu. Eptir lánga umsát fengu Danir náð borginni þegar komið var fram á vetur, og snern við það heim aptur. Nú höfðu hvorirtveggja, Svíar og Danir, viðbúnað mikinn bæði á sjó og landi. Það var ráð þeirra bandamanna, að Austurríkis- og Brandenborgarmenn skyldu ráða á Svía í Pommern; Rússar höfðu lofað að ráða á Lífland; Gyldenlöve, hálfbróðir Kristjáns fimta, átti með Norðmannaherinn að taka Bohúslèn; nokkur hluti danska flotans leggjast fyrir Gautaborg, og banna Svíum allar siglíngar þaðan og þángað, en meginflotinn taka Rügen og Gotland, reka sænska flotann til Stokkhólms, og síðan flytja Danaher frá Sjálandi yfir á Skán. Nú áttu Svíar í mörg horn að líta; þeir voru einir síns liðs, því að Loðvík fjórtándi var lángt burtu og hafði ærið að vinna, og gat eigi sent þeim liðsafla, en fjárstyrk veitti hann þeim nokkurn. Hins vegar höfðu Danir örugga bandamenn við að styðjast, og gátu enda mikið aðgjört af sjálfs síns ramleik. Þeir höfðu skipaflota mikinn og vel búinn, og ágætan foríngja fyrir, er *Niels Juel* hèt, og er talinn frægastur sjóforíngi með Dönum. Hann var systursonur Hannibals Sehesteds þess, er áður er nefndur, og hafði lært sjómensku í Hollandi hjá Marteini Tromp og Ruyter. Þar að auki sendu Hollendíngar mörg herskip til liðs við Dani, og fyrir þeim skipum rèð *Cornelius Tromp*, sonur Marteins, hin mesta hetja. Svíar höfðu og allmikinn herskipaflota, en þá vantaði fyrirliða, er jafnazt gæti við hina tvo, er nú voru nefndir, og margt af liði því, er þeir höfðu á skipin, var lítt vant sjómensku og sjóorustum. Aðalforínginn fyrir herskipum Svía hèt *Creutz*, gamall maður, er sjaldan hafði á sjó komið, og kvaðst eigi fær um að takast þann vanda á hendur, þó hann gjörði það. Næstur honum að völdum gekk sá maður, er *Uggla* hèt, hreystimaður mikill og dugandi foríngi sagður.

Á öndverðu sumri 1676 hèldu þeir Tromp og Juel flotanum inn í Eystrasalt, og höfðu um 50 stórskip, en þeir Creutz og Uggla lágu inni frosnir austur í Stokkhólmsskerjum, og komust eigi á flot fyr en seint í maímánuði. Fyrsta dag júnímánaðar hittust flotarnir austan undir ey þeirri, er Öland heitir. Svíar hèldu norður með eynni og vildu komast fyrir hana, en

Hollendíngar og Danir á eptir; vindur var hvass á vestan, og skriður mikill á skipunum, er hvorirtveggja sigldu sem ákafast. Nokkur af skipum bandamanna urðu á undan hinum og komust á vindborða Svíum, milli eyjarinnar og þeirra. Þegar Uggla sá það, vildi hann komast á milli þeirra og hinna skipanna sem á eptir komu, gjörir Creutz bendíngu og snýr við skipi sínu. Creutz var því samþykkur, og snýr einnig skipi sínu í sömu átt. Skipið var ákaflega mikið og hátt á sjónum, seglfesta eigi nóg, en fallbyssuþúnginn mikill upp á því; um leið og skipinu var snúið við, varð vindurinn sterkari í seglunum en menn hugðu og kastaði því á hliðina; fèll þegar sjór inn á hlèborða og skipið tók að fylla; í sama vetfángi komst eldur að púðurhúsinu, svo að skipið flaug í lopt upp með ógurlegu braki og brestum. Lèt yfirforínginn Creutz þar líf sitt og því nær 800 manna með honum, en fáeinum varð bjargað. Uggla vildi eigi flýja, eða gat það eigi; lagði nú Tromp að honum öðru megin, en Niels Juel á hitt borðið, og tókst þar ákaflega hörð orusta. Svíar sigldu undan og norður, og sumir af bandamönnum veittu þeim eptirför, en sumir urðu eptir og börðust með yfirforíngjum sínum við Ugglu og þau þrjú skip, er honum fylgdu og eigi vildu undan leita. Við þetta ofurefli barðist Uggla þrjár stundir af mikilli hreysti, þángað til siglutrèn á skipi hans voru öll fallin fyrir borð, þá fyrst beiddist hann griða. Tromp sendi bát til að sækja hann, en í þeirri svipan lagði brennuskúta[1] ein að skipi Ugglu og kveikti í því, stóð þá skipið að vörmu spori í ljósum loga; bátur sá, sem sendur var til að sækja Ugglu, þorði eigi að leggja að skipinu; ýmsir reyndu að bjarga honum og mönnum hans, en allir sneru frá við svo búið. Þar fórst Uggla og allir hans skipverjar. Í orustu þessari mistu Svíar 7 skip (sumir segja 10), rúmar 3 þúsundir manna fèllu og nokkur hundruð urðu handtekin. Bandamenn biðu lítinn skaða á skipum og mönnum.

Sigurinn við Öland varð Dönum mikið gleðiefni. Nú var ekkert sem gæti aptrað Kristjáni fimta frá að halda liði sínu

1) Brennuskútur eða tundurskútur (á dönsku: Brander, á sænsku: brännare) eru smáskip, sem menn fylla púðri og ýmsum eldfimum efnum og senda móti skipum óvina sinna, og þegar þær eru komnar fast að þeim, er kveikt í öllu saman, forða þá mennirnir sèr á burt, en skúturnar springa og kveikja um leið í því skipi, sem þær hafa lagt að.

yfir á Skán og vinna aptur lönd þau, er komin voru undir Svía. Hann hafði vígbúnar 16 þúsundir manna, og með því liði hèlt hann seinast í júní-mánuði austur yfir sund, og lagði á skammri stund alt Skán undir sig, nema borgirnar Málmey og Kristjánsstað; enda var landsfólkið Dönum engu síður velviljað en Svíum. Karl ellefti var þaðan skamt á burtu með einar 5000 manna og vildi leggja til orustu við Kristján, en hershöfðíngjum hans þótti það óráð og fengu talið hann af því, og lèt hann þá undan síga til Smálands. Nú var það þessu næst, að Kristján fimti sendi *Duncam* hershöfðíngja með 4000 manna norður á Halland til þess að taka þar borgina Halmstað, halda síðan til móts við Gyldenlöve, er kominn var með 10000 manna af Norvegi, hafði farið herskildi um Bohuslèn og var nú seztur um Gautaborg; því næst átti allur sá her að halda austur á Svíþjóð, og þar ætlaði Kristján konúngur sjálfur að koma til móts við þá með sínu liði. Fengi fyrirætlan þessi framgáng, var komið í hið mesta óefni fyrir Svíum; Danir voru þá í miðju landi þeirra með 30000 manna, en Karl ellefti hafði að eins 6 eða 8 þúsundir móti slíku ofurefli. Nú var þörf á góðum ráðum. Þá bar svo til, að sá maður kom til konúngs austan frá Stokkhólmi, er hèt *Jóhann Gyllenstjerna;* hann var einn í ríkisráðinu, stórvitur maður, en óþýður, harðgjör og drotnunargjarn. Hann gaf Karli konúngi það ráð, að halda sem fyrst til Halmstaðs, og reyna að bjarga þeirri borg úr höndum Dana. Konúngur var fús til þess, og hèlt þángað sem skyndilegast. Að nokkrum dögum liðnum var Karl konúngur kominn þángað norður, og lagði þegar til orustu við Dani. Lauk svo þeirra viðskiptum, að Svíar fengu sigur, en Duncam varð að gefast upp með það lið, sem eigi var fallið. Með þessum sigri tókst Svíum að eyða þeirri fyrirætlun Dana, að sameina norska og danska herinn og brjótast austur í land. Karl konúngur lèt nú fyrirberast á Hallandi þángað til komið var fram að veturnóttum, og hann varð þess vísari, að Gyldenlöve hèlt heim í leið aptur til Norvegs. Á meðan þessu fór fram hafði Danaher lítið annað aðhafzt, en að taka borgina Kristjánsstað á Skáni, sem áður var nefnd; eptir það settust Danir í vetrarbúðir, en Kristján konúngur þeirra hèlt heim í ríki sitt. Nú vildi Karl eigi lengur kyr sitja á Hallandi, honum safnaðist nokkuð lið, og með því heldur hann suður á Skán. En

er Danir fá njósn af ferðum hans, taka þeir sig upp úr vetrarbúðum sínum, og halda í móti Svíum; er þá Kristján konúngur kominn aptur til sinna manna. Þar beittust Svíar og Danir brögðum nokkrar vikur. Loksins höfðu Danir náð góðum stöðvum hjá Lundi, en þar rèðu Svíar á þá (4. des. 1676); tókst þar hin harðasta orusta, og stóð allan dag til kvölds, og lauk svo, að Svíar unnu þar mikinn sigur, en Danir hèldu undan til Landskrónu. Það skildi með þeim konúngunum í orustu þessari, að Kristján fór burt af vígvellinum þegar sem hæst stóð bardaginn, eptir áeggjan sinna manna, en Karl barðist sem hetja og eggjaði alls staðar sína menn til framgöngu. Það er sagt, að herlið hvorratveggja tilsamans hafi verið nálægt 20,000 manna, en af þeim fèllu um 9000 manna, eða því nær allur helmíngur, og er það til merkis um, hve hörð þessi orusta hefir verið. Svíar tóku þar marga Dani höndum, 50 fallbyssur og herbúðir þeirra. Kristján fimti hafði gjört sèr miklar og fagrar vonir um að geta náð aptur undir sig Skáni, Hallandi og Bleking, og annað var eigi fyrir að sjá, en það mundi takast, og það því heldur, sem landsfólkið í fylkjum þessum var alment vinveittara Dönum og Danakonúngi, en Svíum og konúngi þeirra; þar að auki hafði Svíakonúngur með fyrsta svo fátt lið og litlar varnir, hvar sem leitað var í ríki hans, að eigi voru líkindi til, að hann mundi geta varizt ofurefli Dana. En eptir orustuna hjá Lundi breyttust hugir manna. Það kom hèr fram sem optar, að «vex hugur þá vel gengur». Svíar sáu nú að konúngur þeirra, þótt úngur væri, var hin mesta hetja, framgjarn og snarráður eins og faðir hans hafði verið, og óþreytandi starfsmaður. Svíar vildu eigi láta sitt eptir liggja, að fylgja vel og drengilega svo duglegum foríngja, og alls staðar kom nú í ljós hjá þeim atorka og manndómur. Hins vegar mínkaði sú von hjá Dönum, að þeir mundu fá náð aptur hinum sænsku fylkjum, er um var barizt. Þeir sáu, að Svíar stóðu fastara fyrir en þeir höfðu búizt við, og að landslýðurinn á Skáni og Bleking og Hallandi gjörðist nú Dönum fremur afhuga eptir ósigurinn og hneigðist að Svíum. Nú urðu eigi fleiri tíðindi með Dönum og Svíum á því ári, en hvorirtveggja höfðu mikinn viðbúnað til hins komanda árs (1677). Fór þá enn sem fyr, að Svíar biðu ósigur í sjóorustum við Dani. Niels Juel vann sigur á Eiríki Sjöblad,

skamt frá Femern (1. júní 1677) og annan enn meiri á Hinriki Horn í Kjögeflóa (1. júlí 1677); gátu Svíar eptir þær ófarir hvorki sent menn eða vistir suður á Pommern til styrks við Königsmark og hans lið, og eigi heldur varið kaupskip sín og verzlun sem þurfti. Í öllum þeim sjóorustum, sem nú hafa taldar verið, höfðu Svíar mist 40 stórskipa og margar þúsundir manna, en Danir voru einvaldir á sjónum, og gátu víðast gengið á land í Svíþjóð, enda lagði Niels Juel, þau ár sem ófriðurinn stóð, ótal bæi og borgir í eyði með sjónum fram á sunnanverðu landinu.

Þegar voraði (1677) hèlt Kristján fimti enn á nýjan leik yfir á Skán með allmiklu liði, og lenti við Landskrónu; sú borg var vel víggirð og í höndum Dana frá árinu á undan. Konúngur hafði þann foríngja fyrir liði sínu, er *Goltz* hèt; hann var frá Brandenborg og sagður dugandi hershöfðíngi. Litlu eptir að Danir voru lentir í Landskrónu, kom Karl Svíakonúngur þángað af landi ofan; hann hafði miklu minna lið, en þó var það áform hans að ráða á Dani hve nær sem færi gæfist. Einn morgun vissu Svíar eigi fyrri til, en Danir voru komnir út úr borginni með allan sinn her, og eigi lengra frá þeim en nokkur hundruð faðma. Þeir sáu, að hèr var við þann liðsmun að eiga, að eigi var sigurs að vænta; að flýja undan var engi kostur, enda aftók Karl konúngur það með öllu. Hann fylkir því liði sínu sem hvatlegast, og hugsar eigi um annað, en að berjast sem vasklegast og falla með sæmd; hvert augnablik bjuggust menn við, að Danir mundu á þá ráða. En er minst varði, rjúfa Danir fylkíngar sínar og slá landtjöldum. Undruðust Svíar það stórum og vissu eigi hvað valda mundi, en síðar sögðu menn, að Goltz hefði ráðið því, að Danir gengu úr borginni, því að hann hafði viljað veita Svíum atgöngu, en nokkrir danskir hershöfðíngjar hefðu fengið konúng sinn til að breyta þeirri fyrirætlan, og sagt honum, að það væri hið mesta óráð; hèr þurfti þó eigi það að óttast, en hitt óttuðust hershöfðíngjar þessir, sögðu menn, að Goltz mundi einn hljóta alla sæmd af sigri, og þess vildu þeir eigi unna honum. Þegar nótt var komin, hèldu Svíar á brott austur í land, en Kristján konúngur til Málmeyjar og bjóst að taka borgina úr höndum Svía. Þá borg varði sá maður, er Fabian Fersen hèt, hinn mesti kappi, og fèkk konúngur eigi unnið

borgina, en beið þar mikið tjón á mönnum sínum, þó hafði hann enn eptir um 13000 manna, og með því liði hèlt hann aptur til Landskrónu og bjóst þar fyrir um sinn. Það er sagt, að 60 smáskútur hafi farið frá Kaupmannahöfn yfir til Málmeyjar, til þess að taka móti herfángi því, er Danir bjuggust við að fá þar, og flytja það heim til sín, en er áhlaupið mistókst, urðu skútur þessar að snúa heim aptur, tómar, eins og þær komu.

Eigi hafði Kristján konúngur verið marga daga í Landskrónu, áður Karl ellefti kom þángað með sína menn, hèr um bil 9 þúsundir. Danir voru lítið eitt fyrir utan borgina og höfðu valið sèr þar hið bezta vígi; þótti hershöfðíngjum Karls fyrir því eigi fært að veita þeim þar aðgöngu, en konúngur vildi eigi annað heyra en að ráðið væri á þá þegar í stað, og varð því svo að vera. Það var um dagmál (14. júlí 1677) að orustan tókst, og var barizt hvíldarlaust til miðaptans; lètu Danir þá undan síga inn í borgina, en Svíar gátu eigi veitt þeim eptirför sökum þreytu. Margir menn fèllu af hvorumtveggja, en þó fleiri af Dönum. Nokkru þar á eptir hèlt Kristján konúngur yfir á Sjáland, og skildi svo með þeim Karli það sumar.

Árið eptir (1678) bar lítið til tíðinda, og er það helzt teljandi, að Svíar náðu þá Kristjánsstað úr höndum Dana eptir lánga umsát. Hafði þá Karl unnið aptur alt land og allar borgir í Bleking og Skáni, nema Landskrónu; hún var ein eptir í höndum Dana. Öll þau ófriðarár, sem talin eru, höfðu Svíar og Norðmenn átt vopnaviðskipti norður í landi, á Jamtalandi, í Dölum, á Vermalandi og í Bohúslèni, og ýmsum veitt betur, en þau tíðindi, er þar urðu, eru öll smærri og síður í frásögur færandi en hin, sem suður í landi gjörðust, þar sem konúngarnir sjálfir áttust við, eða á sjó þar sem herflotar þeirra hittust. Það ræður að líkindum, að bæði land og lýður í Svíþjóð hafi beðið hinn mesta skaða af öllum þessum lángvinna og grimma ófriði, sem yfir gekk um þessar mundir. Það var eigi þar með búið, að Danir rændu og brendu í Svíþjóð, heldur gjörðu Svíar alt hið sama, einkum fyrsta ófriðarárið, í Hallandi, Bleking og Skáni, meðan þeir höfðu litla von um, að geta haldið þeim löndum, og hugðu, að þau mundu aptur komast undir Dani. Og þar á ofan risu hèr og hvar í þessum bygðarlögum upp flokkar manna,

sem fóru víðs vegar um landið með rupli og ránum, rèðu stundum á menn Karls konúngs, ef þeir sáu sèr það fært, og drápu þá. Ránsmenn þessa kölluðu Svíar «*Snapphanarna*». Karl konúngur gjörði einatt út menn til að elta spillvirkja þessa og eyða þeim, og hegndi þeim miskunarlaust er náð varð. Kristján fimti bauð að senda þeim foríngja ef þeir vildu, en þeir svörnðu: «hver og einn af oss er foríngi; vèr klæðum og fæðum oss sjálfir, og viljum helzt stjórna oss sjálfir». Stundum rændu þeir eins vini sem óvini; enginn var óhultur fyrir þeim. Einu sinni varð náð 20 af þessum stigamönnum og voru allir dæmdir á gálga; böðull var enginn fyrir hendi, og enginn sænskur liðsmaður vildi verða til að hengja þessa sakadólga. Einn af þeim sjálfum bauðst þá til að gjöra það, ef hann fengi líf og grið, og var boð hans þegið. Síðan hengdi hann þá alla 19 í hárri eik, og var sú lengi við þá kend og kölluð «Snapphanaeik». Á öðrum stað var það, að sóknarkirkja ein stóð við alfaraveg; þángað komu stigamenn þessir opt og gjörðu mönnum ónáðir, svo að þar varð eigi vært; flutti prestur því tíðir úti á skógi hjá steini einum miklum. Þetta frèttu stigamenn, komu á næturþeli og tóku prest og höfðu hann með sèr til skógar og gjörðu honum þann kost, að veita þeim þar kvöldmáltíðarsakramentið ella missa lífið. Prestur sá sèr ekki undanfæri, tók til máls og hèlt yfir þeim svo harða og hjartnæma ræðu, að þeir viknuðu við, tárfeldu og fèllu á knè og lofuðu bót og betran. Að því búnu fylgdu þeir presti heim aptur með miklum virktum, skildust við hann í bróðerni, og lètu af öllum íllvirkjum og ójöfnuði upp frá þeirri stund.

Skömmum tíma eptir að ófriður sá hófst, er nú hefir um stund verið sagt frá, áttu menn fund með sèr í borg þeirri á Niðurlöndum, er *Nimwegen* heitir, og fóru að tala um sættir. Danakonúngur vildi þá engum sáttum taka nema því að eins, að hann fengi aptur öll þau lönd, er hann hafði laus látið í Brömsebro, Hróarskeldu og Kaupmannahöfn, og þar að auki ýmislegt annað. Kjörfurstinn af Brandenborg vildi fá alla Pommern, er Svíar þá áttu. En þetta lá eigi svo laust fyrir, sem höfðíngjar þessir hugðu. Loðvík fjórtándi var því reyndar eigi fjarlægur, að Svíakonúngur lèti eitthvað af hendi rakna, til þess friður kæmist á, en er Karl ellefti aftók það með öllu, lýsti Loð-

vík yfir því skýrt og skorinort, að með því að Svíar hefðu sín vegna gengið í ófrið þenna, þá þætti sèr skylt, að stuðla að því eptir mætti, að þeir mistu einskis í fyrir þá skuld. Þessu reidd-ust mótstöðumenn hans, og bètu því, að láta Loðvík eigi einan ráða friðarkostum að svo stöddu. Varð því eigi af sættum í það sinni. En sem ófriðurinn hafði staðið nokkur ár, kom Loðvíki til hugar, að sundra fjandmönnum sínum og sigrast þannig á þeim. Fyrir því tók hann Hollendínga á eintal og bauð þeim frið og hèt þeim aðgengilegum verzlunarsamníngum við ríki sitt. Þetta hreif. Hollendíngar sáu sèr hag búinn af frjálslegum verzlunarviðskiptum við Frakka, skárust úr sambandi við liðs-menn sína og sömdu frið við Loðvík (10. ágúst 1678). Sama dag gjörðu þeir vopnahlè við Svía, og varð af því fullur friður litlu síðar. Nú voru bandamenn liðfærri á eptir síðan Hollend-íngar gengu úr leik. Keisarinn þóttist nú og hafa minni ástæð-ur eptir en áður til ófriðar við Frakka; þar til kom og, að honum stóð stuggur af uppgángi Friðriks Vilhjálms kjörfursta, og vildi fyrir hvern mun, að Pommern kæmist aldrei í hans hendur. «Magnist sá seggur — sagði keisari — þar nyrðra, þá rís upp nýr Vandalakonúngur við Eystrasalt, miklu geigvænlegri oss og ríki voru, en Svíar, sem eru miklu lengra burtu». Þegar kjörfurstinn heyrði að keisarinn mundi líklegur til friðar, beiddi hann keisarann lengst allra orða, að semja eigi frið við Frakka, og hèt honum öflugri liðveitslu, ef hann að eins vildi halda ó-friðnum fram. En keisarinn lèt eigi þoka sèr, og það því síður, sem honum barst til eyrna, að kjörfurstinn væri undir niðri og í kyrþey að semja um frið við Frakkakonúng fyrir sjálfan sig. Keisarinn varð því fyrri til bragðs, og samdi frið við Loðvík fjórtánda og Karl ellefta 5. febr. 1679. Var í þeim samníngum svo til skilið, að Svíar skyldu halda öllu því, er þeir höfðu feng-ið í vestfalska friðnum.

Við þessu hafði kjörfurstinn reyndar búizt, og þess vegna leitaði hann friðar við Loðvík konúng, og bauð honum sína lið-veizlu, ef Frakkar vildu láta sig fá Pommern. En *Colbert* svar-aði því svo: «Loðvíki konúngi þykir drengskapur sinn við liggja, að Svíar fái öll þau lönd aptur, er þeir nú hafa mist». Kjör-furstinn hafði um þessar mundir unnið alla Pommern af Svíum, og vildi með engu móti láta það laust, er hann hafði hönd á

fest. Hann átti tal við Kristján fimta, og gjörðu þeir með sèr slatt og stöðugt, að semja eigi frið að svo vöxnu máli, en berjast í sameiníngu við Svía, og þröngva þeim til friðar og fjárútláta. En sem Loðvík heyrði það, og var sáttur orðinn við keisarann, gjörði hann kjörfurstanum orð og sagði: að ef hann að mánuði liðnum hefði eigi gengið að þeim skilmálum, er sèr þætti Svíum boðlegir, þá kvaðst hann mundu koma sjálfur með her manns til Brandenborgar, og sækja kjörfurstann heim. Loksins varð Friðrik Vilhjálmur að láta undan, og samdi þá svofeldan frið, að hann lèt Svía fá aptur öll þau lönd og borgir, sem hann hafði af þeim unnið, nema lítinn skika lands fyrir austan Oderfljót. «Eg vildi óska, að eg kynni eigi að skrifa», sagði kjörfurstinn, þá er hann ritaði nafn sitt undir þenna friðarsamníng, og mælti síðan fyrir munni sèr þessi orð Virgilii skálds: *Exoriare aliquis nostris ex ossibus ultor*[1]. Nú var Danakonúngur orðinn einn eptir síns liðs; var hann lengi tregur til sátta nema hann fengi að minsta kosti að halda Skáni, en flestallir þjóðhöfðíngjar í Norðurálfu voru því mótfallnir, að Danir ættu lönd beggja megin að Eyrarsundi. Loðvík fjórtándi sagði svo, að ef Kristján fimti hefði eigi samið frið við Svía fyrir ágústmánaðar lok (1679), þá kvaðst hann mundu taka af honum Oldenborg og Delmenhorst og fá öðrum í hendur. Danakonúngur vildi eigi að svo stöddu láta undan, og sendi Loðvík þá her manns til Oldenborgar og tók að herja landið. Sá varð endir þar á, að friður var saminn í Lundi 26. september það sama ár. Fengu Danir að taka 10 fallbyssur úr hverjum þeim kastala í Svíþjóð, er þeir þá höfðu, en urðu nú að láta lausa; auk þessa fengu þeir rúmar hundrað þúsundir ríkisdala í þokkabót; en að öðru leyti stóð alt við sama, sem gjört hafði verið í Brömsebrúar- og Kaupmannahafnar-friðnum.

Af hershöfðíngjum Svía, er tóku þátt í Skánar-ófriðnum með Karli ellefta, eru helzt nafnkendir þessir tveir: *Rutger Ascheberg* og *Eiríkur Dahlberg*. Hinn fyrnefndi var þjóðverskur að ætt og uppruna, en gekk þegar í lið með Svíum í þrjátígi ára stríðinu 1634, og var þeirra maður upp frá því; hann var vitur maður og af öllum vel metinn og hin mesta hetja; hann

1) Æneid: IV. 625. Rísi einhver upp af niðjum vorum sá er þessa hefni.

hafði verið í 15 stórorustum og unnið mörg hreystiverk, og eptir friðarsamnínginn í Lundi og lát Jóhanns Gyllenstjerna gjörði Karl ellefti hann að landstjóra í Skáni, Hallandi og Bohúslèni, og fórst honum sú stjórn mjög vel. Hann dó 1693 á áttræðisaldri. Eiríkur Dahlberg var borinn og barnfæddur í Svíþjóð 1625. Hann var í herferðum með Karli Gústaf, og átti mikinn þátt í að Wrangel gat unnið Fridricíu-kastala; hann var og það, er eggjaði konunginn á að fara á ísum yfir Beltin og Eyrarsund, þvert á móti tillögum Wrangels og fleiri hershöfðíngja, og vísaði honum leið yfir ísana; í orustunni og sigrinum við Lund átti hann ásamt með Ascbeherg mikinn og góðan þátt. En einna frægastur er Dahlberg orðinn fyrir ýmsa kastala, virki og víggirðingar, sem hann gjörði í Svíþjóð, því að til þeirra hluta kunni hann manna bezt á sinni tíð, og var að því leyti líkur hinum nafnfræga virkjasmið Vauban á Frakklandi, er uppi var um sömu mundir. Dahlberg hefir og eptir sig látið marga uppdrætti, er skýra eitt og annað í sögu Karls Gústafs, t. a. m. orustuna við Warschau, áhlaup Svía á Fridricíu, för þeirra yfir sundin, o. s. frv.; sömuleiðis uppdrætti yfir ýmsar borgir, höfðíngjasetur og minnisvarða í Svíþjóð, bæði að fornu og nýju, og þykir það alt til samans mjög merkilegt, og lýsa óþreytandi starfsemi þessa ágæta manns. Hann lifði fram á daga Karls tólfta og dó hátt á áttræðisaldri.

Það var í mörgu jafnt á komið með Svíum 1680, eptir friðinn í Lundi, og Dönum 1660 eptir Hróarskeldu friðinn. Svíþjóð var komin í stórskuldir og fjárhirzlur ríkisins tómar, flotinn var að miklu leyti lagður í eyði, margar borgir og ótal margir bæir í rústum, akuryrkja, iðnaður og verzlun í dái; á ófriðarárunum höfðu fallið og farizt með ýmsu móti um 100 þúsundir verkfærra manna; í sumum sveitum sáust eigi aðrir karlmenn en únglíngar ýngri en 15 vetra, eða gamalmenni komin að fótum fram. Allir voru fátækir í landinu nema hinir helztu aðalsmenn, þeir áttu hèr um bil *fimm sjöttu hluta af öllu jarðagózi landsins.* Hinn lægri aðall, bændur, borgarmenn og klerkar sáu ofsjónum yfir auðlegð ríkisráðsins og hinna æðri aðalsmanna, og hötuðust við þá í þeli niðri. Herinn hafði miklar mætur á konúngi, sökum hreysti hans og framgöngu í stríðinu, og var fús að fylgja honum í öllu. Karl ellefti sá glögt, hvern-

ig öllu hagaði til í ríkinu; hann sá glögt, að ríkisráðið og hinir æðri aðalsmenn (greifar og fríherrar eða barúnar), rèðu því nær einir öllu; þeir bundu hendur konúngsins, svo að hann gat litlu til leiðar komið öðru en því, sem þeim var ljúft; þeir kúguðu allar aðrar stèttir, svo að þær komust eigi fram sökum efnaleysis eða vankunnáttu. Á þessu vildi konúngur fá meiri jöfnuð; honum þótti það óþarfi og niðurlægíng, að hafa orðið að þiggja fjárstyrk af Frakklandi; slíkt gjörði Svía háða Frökkum, eða hverjum þeim útlendum þjóðhöfðíngja, sem hjálp þurfti af að þiggja. Þess vegna vildi Karl ellefti lifa í friði það sem eptir var æfinnar, og verja henni til þess að bæta efnahag ríkisins, svo að það yrði sjálfu sèr bjargandi, og aldrei öðrum þjóðhöfðíngjum háð. En þessar endurbætur, sem hann vildi gjöra, sá hann, að hann gat eigi haft fram nema því að eins, að ríkisráðið og alt stórmenni landsins yrði svipt þeim völdum, sem það smátt og smátt hafði til sín dregið. Honum var kunnugt hvað fram hafði farið í öðrum löndum, og nú fyrir skemstu í Danmörku, þá er Friðrik þriðji kom þar á einveldisstjórn. Slíkt hið sama vildi hann nú gjöra hjá sèr, og hann vissi, að allur þorri landsmanna, allar hinar óæðri stèttir mundu styrkja sig til þessa verks. Hann var þegar byrjaður á þessari breytíngu í stjórnarskipun ríkisins meðan ófriðurinn stóð. Allan þann tíma kom hann aldrei til Stokkhólms, þar sem ríkisráðið sat og átti samkomur, heldur var hann suður í landi hjá hernum; lítið varð úr störfum ríkisráðsins á meðan, og jók það eigi lítið á óvinsældir þess hjá þjóðinni; en konúngur skipaði fyrir um ýmsa hluti, eins og hann væri einvaldur, án þess að bera það undir ráðherrana. Allur þorri manna lèt sèr það vel líka, og það því heldur, sem hann var ástsæll orðinn af þegnum sínum, sökum ágætrar framgöngu og sigursældar í stríðinu.

Nú var þessu næst haldinn ríkisdagur í Stokkhólmi 1680. Konúngur hafði herinn þar í nánd, og sá svo um, að hinir helztu og djörfustu af aðalsmönnum næðu eigi þíngsetu, með því að setja þá í embætti eða fá þeim í hendur einhver óumflýjanleg störf í fjarvist við þíngið. Honum varð því næsta auðvelt að fá ríkisdaginn til að fallast á tvær tillögur, sem fram voru bornar. Var önnur sú: að ríkisstjórarnir — sem stýrt höfðu ríkinu áður konúngur komst til lögaldurs — skyldu gjöra fulla

grein fyrir gjörðum sínum meðan þeir sátu í þeim völdum, og þó var áður búið að leysa þá af allri þess konar ábyrgð; 'og hin sú: að nú skyldi því haldið áfram, sem byrjað var á meðan Karl Gústaf sat að ríkjum, en síðar dottið í þagnargildi: að grafizt væri eptir því, hverjar jarðir hefðu á ýmsum tímum gengið undan krúnunni, og nú skyldi ná þeim aptur undir hana. Á hinum næstu þíngum þar á eptir steyptist ríkisráðið úr völdum, svo að kalla mótspyrnulaust, því að fáir urðu til að styðja. Konúngi var fengið *einveldi* í hendur, eins og það frekast getur orðið; ríkisráðið og 5 hin æðstu embætti voru numin úr lögum, en í þess stað sett önnur embætti og önnur nöfn. Í stað þess að áður hèt ríkisráð og ríkisráðherrar, var nú nefnt konúnglegt ráð og konúnglegir ráðgjafar. Ráðgjafar þessir máttu segja hvað þeim sýndist, en konúngur var eigi skyldur að fylgja ráðum þeirra fremur en honum sjálfum líkaði. En þó Karl ellefti væri nú orðinn einvaldur konúngur í ríki sínu, má þó segja honum það til lofs, að hann bægði eigi þjóð sinni frá allri hluttöku í landsstjórninni, eins og Friðrik konúngur þriðji gjörði i Danmörku. Karl lèt ríkisdaginn haldast alt eins og áður hafði verið, og lèt hann leggja á landið alla skatta, sem við þurftu til nauðsynlegra útgjalda.

Þegar Karl konúngur var orðinn einvaldur lèt hann, samkvæmt því sem ríkisdagurinn hafði ákveðið, nefnd manna prófa gjörðir hinna fyrverandi ríkisstjóra, og niðurstaðan varð sú, að þeir urðu að láta af hendi margar þúsundir ríkisdala til krúnunnar. Því næst varð umtalsmál um það jarðagóz, er gengið var undan krúnunni, og var þá fyrst gengið að greifum og fríherrum (barúnum) og teknar þeirra jarðir, og síðan að öðrum jarðeigendum á sömu leið. Menn lètu sèr eigi nægja, að taka af eigendum þær jarðir, sem þeim höfðu verið gefnar, heldur einnig þær, sem keyptar höfðu verið af krúnunni, og þær, sem hún hafði veðsett fyrir fè, er hún hafði fengið að láni hjá einstökum mönnum. Allar slíkar jarðir voru nú vægðarlaust teknar frá eigendum og lagðar til krúnunnar móti litlu eður alls engu endurgjaldi. Aðalsmenn mistu þannig helmíng af öllu sinu jarðagózi, og margur einn, sem áður var vel fjáður, gekk nú slyppur og snauður frá öllu saman. Alt hið sama átti sèr stað í skattlöndum þeim, er þá lágu undir Svíþjóð, t. d. Pommern, Estlandi, Ingermannalandi og Líflandi. En öll sú harka og öll þau

rángindi, sem í þessu efni áttu sèr stað, einkum í Líflandi og víðar þar eystra, urðu tildrög til þess, að þeir menn sem fyrir slíkum aðförum urðu, flýðu sumir af landi burt og austur á Rússland, og sumir sátu eptir, en hvorirtveggja urðu Svíakonúngi fráhverfir. Rússar skildu teikn tímans og tóku þessi lönd frá Svíum litlu síðar en hèr var komið sögunni. Þessi stórkostlegu landabrigði (Reduktion), sem Karl ellefti lèt gánga yfir þegna sína, stóðu yfir um mörg ár, og gjörðu margan mann snauðan. Þegar t. a. m. Magnús de la Gardie dó, átti hann naumast fyrir útför sinni, og hafði þó áður verið stórríkur maður; svo harðlega var að mönnum gengið. Greifar og fríherrar hèldu litlu öðru eptir en nafni einu; lönd þeirra voru að mestu farin, því að flest voru upphaflega komin til forfeðra þeirra eður sjálfra þeirra frá krúnunni.

Á þenna hátt fèkk Karl ellefti ógrynni fjár og landa í sínar hendur. En svo harðneskjulega sem fè þetta var að mestu leyti fengið, svo vel og viturlega kunni hann að verja því. Hann hugsaði eigi um að auðga sjálfan sig, eða sína niðja, heldur hitt, að ríkið auðgaðist. Hann hèlt sig og hirð sína mjög spart, og mjög ólíkt því, sem með öðrum konúngum tíðkaðist um þær mundir. Hann var því vanur að segja: «verði þeir, sem mèr þjóna, eigi sáluhólpnir, þá verða þeir að minsta kosti ekki ríkir». Hann varði miklu fè til þess að reisa við aptur borgir og bæi, sem eyðzt höfðu í stríðinu; hann gaf fè til að rètta við alla atvinnuvegi; hann kom fótum undir alþýðuskóla, og lèt sèr mjög ant um alla fræðslu og mentun alþýðunnar, sem í marga staði hafði orðið út undan frá því er Gústaf Adolf var á dögum; hann hafði mörg herskip í smíðum og kom aptur fótum undir mikinn og ágætan herskipaflota; hann lèt reisa borg af nýju suður í landi og nefna *Karlskróna,* og urðu þar síðan aðalstöðvar flotans, og þótti miklu betur í sveit komið en áður, meðan hann var norður í Stokkhólmi, því að þar nyrðra var hann tíðum inni frosinn þá er sízt skyldi. Konúngur kom og nýrri skipan á herlið sitt; hann lèt hver tvö bændabýli á friðartímum sjá einum manni vopnfærum fyrir húsnæði og fötum og fæði, og skyldi sá maður gánga í herþjónustu hve nær sem ófrið bæri að höndum; en foríngjar liðsins fengu jarðir krúnunnar til ábúðar. Hafði konúngur þannig vígbúinn her hve nær sem á þurfti að halda,

og sú tilhögun var bændum miklum mun hagfeldari en áður, meðan synir þeirra og húskarlar voru kvaddir til herþjónustu hvernig sem á stóð. Með hörku, fyrirhyggju, sparnaði og óþreytandi starfsemi kom Karl konúngur þannig fótum undir mikinn og vel búinn landher, mikinn og vel vandaðan skipaflota; allar ríkisskuldir voru greiddar, og miklu fè safnað af nýju í ríkissjóði; og er sannast að segja, að það var nálega alls staðar, sem fyrirhyggja og stjórnsemi þessa merkilega konúngs kom fram þjóðinni til gagns og frama. Hann var trúrækinn maður alla æfi, og lèt sèr mjög annt um kirkjur og kennimenn, trúarbrögð og siðgæði í landinu, og setti um það ný lög; hann lèt semja og gefa út nýja sálmabók, er höfð var í Svíþjóð fram á þessa öld.

Karl var lítt lærður, og eigi sèrlega vel viti borinn, en þó greindur, ákafamaður mikill í skapi og ráðríkur, kaldlyndur og tortryggur, og átti fáa sem enga vini; opt reiddist hann bæði fljótt og illa, og hafði það þá til, að berja á mönnum, en mjög var hann sáttgjarn, ef hann sá, að hann hafði gjört einhverjum rángt. Eru til um það margar sögur, og ein þessi: einhverju sinni kom maður til hans, er átti skuld að heimta hjá krúnunni, og beiddist borgunar, en á því varð einhver fyrirstaða, og loks reiddist konúngur svo, að hann greip það sem hendi var næst, en það var eldskörúngur mikill af járni einu, og ætlaði að lemja manninn, en hann forðaði sèr undan högginu og komst út um dyr og ofan á stræti. Þar mætir hann kunníngja sínum, er átti alt hið sama erindi víð konúng, og ætlaði á hans fund. «Hvernig er konúngurinn viðtals í dag, er hann góður heim að sækja?» segir þessi. «Já! svarar hinn, hann er sèrlega góður heim að sækja, og borgar viðstöðulaust, og það með stángajárni». Maðurinn tók orðin eins og þau voru töluð, og hraðar ferð sinni til þess að hitta konúnginn og sæta lagi meðan hann sè í góðu skapi. Gengur því næst í höllina og fyrir konúng, segir honum erindi sitt og biður hann af mikilli auðmýkt, að greiða sèr skuldina með stángajárni eins og hinum, sem litlu áður hafi þar komið. Konúngi þótti erindið kátlegt, og spyr hvað valdi. Maðurinn segir honum af hið sanna. Konúngi var þá runnin reiðin, og fèkk bæði þessi og hinn skuld sína greidda með góðum skilum. Karl ellefti kvongaðist 1680, og hèt drotníng hans *Ulrika Eleonora.* Hún var dóttir Friðriks þriðja Danakonúngs, og systir

Kristjáns fimta, vitur kona og góðgjörn. Svíar unnu henni hugástum, og hörmuðu mjög lát hennar, er hún andaðist 1693. Þeim konúngi og drotníngu hans varð 7 barna auðið, en 3 komust að eins á fullorðins aldur, dætur tvær og sonur einn, er til ríkis kom eptir föður sinn og nefndur Karl tólfti. Karl ellefti var meðalmaður á vöxt, og þó vart, limaður vel nema handstór í meira lagi, og sögðu óvinir hans, að þær hendur væru til þess gjörðar, að hrifsa eignir manna. Hann var upphaflega eigi heilsuhraustur, en hafði hert sig svo á dýraveiðum, ferðalögum og heræfíngum, að hann þoldi manna bezt vos og vökur. Þegar hann var á ferðum, reið hann svo mikinn, að fáir gátu fylgt, og hleypti þá einatt á stokka og steina og hvað sem fyrir varð. Hugur og harka voru meiri en svo, að hann gætti þess, að hlífa sèr eður öðrum. Hann dó annan dag páska (5. apríl) 1697, á öðru ári yfir fertugt.

## Ófriðurinn mikli á Norðurlöndum (1700—1721).

Um sama leyti sem hið spánska erfðastríð stóð, og Habsborgar- og Bourbonsmenn börðust um yfirráð yfir löndum og lýðum í suður- og vestur hluta Norðurálfunnar, gekk lángur og harður ófriður yfir Norðurlönd, eða lönd þau, er öllu megin liggja að Eystrasalti. En áður en sagt verður frá tíðindum þeim, er þá gjörðust, þykir nauðsyn til bera, að skýra í fám orðum frá tildrögum þeim, er að sjálfum ófriðnum liggja.

Af því sem aður er sagt vita menn, að Svíar höfðu um mörg ár verið fremstir allra þjóða á Norðurlöndum, og Svíþjóð eitt af stórveldum Norðurálfunnar. Þó landið sjálft væri hvorki mjög frjótt eða mannmargt, var landsfólkið bæði hraust þjóð og herská, og sumir af konúngum hennar mestu afburðarmenn, stórhugaðir og sigursælir, t. a. m. Gústaf Adolf og Karl Gústaf, er lagt höfðu undir sig lönd og lýði, bæði fyrir austan haf og sunnan. Þegar hèr var komið sögunni, áttu Svíar meðal annars þessar stórborgir: Bremen, Wismar, Stralsund, Stettin, Ríga og Reval; þeir rèðu yfir ósum stóránna Weser, Oder, Düna og Neva, og höfðu ærnar tekjur af tollum þaðan; þeir áttu Ingermanland, Estland og Lífland, hin kornfrjóvu lönd, og þar á ofan alt Finnland. Rússar náðu þá hvergi til sjávar nema norður í Gandvík og suður í Asóvshaf. Pètursborg, einhver hin mesta

og skrautlegasta borg á vorum dögum, var þá eigi til. Þar sem hún er nú, voru þá mýrar einar, fen og foröð, og að eins smá fiskimanna þorp og nokkur virki sænskra hermanna. Þessi fjarlægu lönd, er Svíar drotnuðu yfir, voru þeim að vísu mjög arðsöm, en sambandið við Svíþjóð var eigi eðlilegt eða trygt, og hlaut að bresta fyr eður síðar, nema því meira vit og því styrkari hönd hèldi öllu saman. Nábúaþjóðirnar, Rússar, Pólverjar, Prússar og Danir, höfðu einatt farið halloka fyrir Svíum. Þannig höfðu Svíar unnið Kexholms-lèn og Ingermanland af Rússum; Lífland af Pólverjum; Stettin, Vestur-Pommern og Rügen af Brandenborg, eða sem vèr nú köllum af Prússum; Wismar af Meklenborg; Bremen og Verden af Þjóðverjum, eða hinu þýzka ríki; Skán, Halland, Bleking og fleiri lönd af Dönum. Slíkar ófarir fyrir Svíum hlutu að vekja hjá nábúum þeirra öfund, hatur og hefndarhug, og hver þeirra fyrir sig og allir til samans biðu þess, að færi gæfist til að brjóta ofurvald Svía á bak aptur, og ná því aptur undir sig, er þannig var undan þeim gengið. Meðan Karl ellefti rèð ríkjum, leituðu þjóðir þessar eigi á Svía; þeim stóð geigur af honum meiri en svo, að þær þyrðu á hann að ráða; þær vissu, að hann hafði alls nægtir: marga menn og vaska og vel búna, næg forðabúr og fjárhirzlur auðugar. Karl hafði og í skánska ófriðnum sýnt, að honum fylgdi bæði hreysti og hamíngja. Þegar hann var dáinn, og sonur hans, *Karl tólfti*, tekinn við ríkisstjórn, úngur og óreyndur, þótti þeim tími til kominn að minnast á fornan fjandskap, og rètta hluta sinn á Svíum. Þá var einnig svo ástatt hjá flestum þessum nágrannaþjóðum Svíanna, að þær höfðu yfir sèr únga, áleitna og framgjarna stjórnendur. Fyrir Danmörku rèð Friðrik fjórði; fyrir Póllandi Friðrik Ágúst (Ágúst 2.) af Saxlandi, og fyrir Rússlandi Pètur Czar. Skulu hèr nú í stuttu máli tekin fram nokkur atriði um hvern af þessum fjórum þjóðhöfðíngjum.

*Friðrik fjórði* (1699—1730), sonur Kristjáns fimta, er talinn með hinum nýtustu Danakonúngum. Á uppvaxtarárum sínum hafði hann farið á mis við nauðsynlega tilsögn og mentun, en þegar hann var kominn til ríkis, bætti hann úr þeim bresti með lofsverðri starfsemi og afskiptum af flestum þjóðmálefnum. Hann bætti í ýmsum greinum kjör bændastèttarinnar í Danmörku, og kom því til leiðar, að alþýðumanna börn fengu miklu meiri

fræðslu en áður. Hann var sparsamur og gekk ríkt eptir, að fjárhag ríkisins væri stjórnað með reglu og ráðvendni. Hann erfði eptir föður sinn megnar misklíðir við Friðrik hertoga af Holstein-Gottorp. Sá hertogi átti systur Karls tólfta og fèkk liðsafla frá honum móti Dönum. Af þessum rökum og öðrum, er áður hafa verið tilgreind, reis ófriðurinn með Dönum og Svíum. Þeir Friðrik konúngur fjórði og Karl tólfti voru systkinasynir.

*Friðrik Ágúst*, kjörfursti af Saxlandi, var einnig náskyldur Karli tólfta, því að þeir voru systra synir[1]. Kjörfursti þessi hafði það helzt sèr til ágætis, að hann var allra manna sterkastur, og er hann einatt kallaður *Ágúst hinn sterki*. Að öðru leyti er eigi hægt að segja, hvað honum verður til gildis talið. Hann var hègómagjarn og mjög hneigður til munaðar og saurlífnaðar, og eyddi til þeirra hluta bæði sínu fè og þegna sinna; hann var brigðmáll og ótryggur í viðskiptum. *Jóhann Sobieski* Póllandskonúngur (1674—1696), hin ágæta hetja, sem hjálpaði Vínarborg, þá er Tyrkir sátu um hana 1683, dó 1696. Áttu Pólverjar þá að kjósa sèr nýjan konúng í hans stað. Í þá konúngstign vildi Ágúst sterki ná fyrir hvern mun, því að honum þótti það glæsilegra, en að vera kjörfursti. Og með fögrum loforðum og fègjöfum fèkk hann því til leiðar komið, að Pólverjar, sem aldrei vissu hvað til síns friðar heyrði, kusu hann til konúngs yfir sig 1697. Til þess að geta fengið konúngsnafnið, kastaði Ágúst kjörfursti Lúthers trú og gjörðist katólskur, eins og landsmenn á Pólverjalandi; og nú var hann nefndur *Ágúst annar*. Þegar hann var orðinn konúngur yfir Pólverjum var honum mest um það hugað, að ófriður gæti á einhvern hátt kviknað þar í landi, til þess honum gæfist færi á að flytja þángað herlið af Saxlandi; því að þá fyrst þóttist hann hafa þar nokkurn styrk til þess að efla konúngdóm sinn. Svíar höfðu, eins og fyr er er ritað, unnið Lífland af Pólverjum. Því landi vildi Ágúst annar ná aptur undir sig, og lagði nú á það allan

1) Friðrik III. Danakonúngur

| Anna Sofía | Kristján V. D. k. | Ulrika Eleónóra |
|---|---|---|
| Ágúst II. | Friðrik IV. D. k. | Karl XII. |

hug, að hefja ófrið gegn Svíum, og það því fremur, sem Svíakonúngur (Karl 12.) var úngur að aldri og eigi líklegur til mikillar mótstöðu.

Á Rússlandi hófst nýr ættleggur til ríkis (1613) með *Mikael Rómanów*, eins og fyr er ritað[1]. Hann dó 1645, og kom þá til ríkis sonur hans *Alexíus Mikaelovíz* (1645—1676). Alexíus var tvíkvæntur, og hèt hin fyrri drotníng hans *María;* þeirra börn voru Fedór, Ívan og Soffía. Hin síðari hèt *Natalía;* þeirra sonur var Pètur (fæddur 10. júní 1672), er alment er nefndur *Pètur Czar* og *Pètur mikli.* Þegar Alexíus dó, tók Fedór, elzti sonur hans, ríki eptir hann, en sat skamma stund að völdum og dó 1682. Á dögum feðga þessara fóru litlar sögur af Rússum; þeir voru, enn sem komið var, að miklu leyti utan við alla viðburði og viðskipti manna í Norðurálfunni og höfðu sína siðu fyrir sig. Þess skal að eins getið, að á meðan Fedór ríkti, hófst hinn fyrsti ófriður milli Rússa og Tyrkja; veitti Rússum betur, og nokkuð af Kósakkalöndum komst þá í hendur Rússum.

Þegar Fedór Czar var dáinn, stóð Ívan bróðir hans næstur til ríkis, en hann þótti óhæfur til ríkisstjórnar, og fyrir því var Pètur kosinn til Czars af helztu höfðíngjum þjóðarinnar. Soffía systir hans, er sjálf vildi til valda komast, reiddist þessu svo mjög, að hún hleypti hermanna flokki þeim, er Strelizar voru nefndir, upp til ófriðar. Sögðu þeir, að höfðíngjarnir (Bojararnir) hefðu eigi átt með, að veita Pètri Czarstign að sèr fornspurðum, og settu síðan Ívan til þeirra valda. En Ívan beiddi þegar í stað, að Pètur bróðir sinn mætti deila völdum með sèr. Sú varð og niðurstaðan, að þeir bræður voru báðir krýndir, en Soffía stýrði ríkinu í raun rèttri, og sýndi bæði vit og dug. Það liðu eigi mörg ár þar til menn sáu það fyllilega, að Pètur var í meira lagi framgjarn og ráðríkur, og að hann undi illa yfirráðum systur sinnar. Árið 1689 sögðu menn, að Soffía hefði ætlað að hleypa Strelizum upp og láta þá myrða Pètur, en hann varð fyrri til, lèt taka hana og setja í klaustur og hafa sterkan vörð á henni, en taka marga af Strelizum af lífi. Þá var sá maður við hirðina í Moskóv (þar sátu Rússlands Czarar um þessar mundir), er *Lefort* hèt; hann var ættaður frá Genf, hermaður og fróður um marga hluti. Hann sagði Pètri Czar margt frá

1) Nýja sagan I. hepti bls. 129, 165.

Mikael Romanow, Czar 1613—1645

Alexíus (1645—1676)

Sofía. Fedór (1676—1682), Ívan 3. Pètur mikli (1682—1725)

∞ 1. Evdoxia
2. Katrín (1.), rèð ríkjum 1725—1727

Katrín — Anna Ívanóvna rèð ríkjum 1730—1740

Anna Karlóvna

Ívan 4. (1740-1741).

1. Alexíus — 2. Anna. ∞ Karl Friðrik af Holstein-Gottorp. — 2. Elísabet rèð ríkjum 1741—1762

Pètur 2. (1727-1730).

Pètur 3. keisari 1762.
∞ Katrín (2.) rèð ríkjum 1762—1796.

Páll, keisari 1796—1801.

Alexander 1. (1801—1825). Nikulás (1825—1855)

Alexander 2.

Athugagrein: Merkið ∞ þýðir: kvongaður eða gipt.

öðrum þjóðum; fanst hinum únga manni mikils vert um það alt, og festi það sèr í huga; hann lærði útlend túngumál af Lefort, hernaðaraðferð annara þjóða, og ýmislegt annað; hann sá að Rússar stóðu lángt á baki annara Norðurálfu þjóða, að þeim var ábótavant í flestum greinum, og hann einsetti sèr að ráða bót á því, og reyna að menta þá á allar lundir. Hið fyrsta, sem Pètur Czar gjörði, var, að koma á fót herliði á þann hátt, sem það var hjá öðrum þjóðhöfðíngjum vestur í löndum á þeim tímum. Þar næst vildi hann eignast herskip og sjólið. En hèr var eigi hægðin á. Ríki hans náði þá hvergi að sjó, nema að Gandvík (Hvítahafi), og hann hafði aldrei sèð enskt skip eður hollenzkt á æfi sinni. Hann fór því norður til Arkangel; þángað komu enskir menn og verzluðu þar við Rússa. Þar sá hann skip þeirra og fanst mikið til, og lèt eigi þar við sitja, heldur dvaldist þar um hríð og gaf sig við skipasmíðum. Nú varð honum það fyrst ljóst, að aldrei gæti hann komið Rússum neitt áleiðis, nema því að eins, að hann fengi þokað þeim vestur að Eystrasalti og suður að Svartahafi, haft þar skip, átt þar siglíngar og verzlun. Með þeim huga og því áformi sneri hann heim aptur. Skömmu síðar (1696) tókst honum að vinna Asóvsborg af Tyrkjum, og var hann þá kominn að Asóvshafi, en hitt var enn eptir að fá fótfestu við Eystrasalt.

Það var nú þessu næst (1697) að Pètur Czar hóf ferð sína vestur í lönd, og lètti eigi fyr en hann kom til Amsterdam á Hollandi. Þar var margt að sjá og læra. Lèt hann þar fyrir berast um hríð. Skamt þaðan er bær einn, er Zaardam eða Zaandam heitir, heldur lítill bær, en verksmiðjur voru þar margar og skipasmíð mikil og nafnkend. Þar settist Pètur að, klæddist óbreyttum búníngi, og kvaðst vera rússneskur verkmaður, sendur þángað til þess að læra skipasmíð. Nú tók hann til starfa og reyndist bæði mikilvirkur og hagvirkur, og svo mikill iðjumaður, að enginn komst til jafns við hann. Þegar hann lagði frá sèr exi eða sög, þá varði hann tímanum til annars náms, stundaði náttúrufræði, stærðafræði og hvað eina, er hann hugði sèr gæti til gagns orðið. Mönnum varð brátt kunnugt hver maðurinn var, en hann leyfði eigi, að gjörður væri hinn minsti greinarmunur milli sín og annara, er að smíðum gengu. Þegar þessu hafði fram farið um stund, gáfu staðarbúar í Amsterdam honum skip eitt

með rá og reiða. Pètur rèð menn til skipsins og sendi það til Arkangels, og þar að auki nokkra sjómenn, smiði og ýmsa hagleiksmenn, er hann fèkk í sína þjónustu á Hollandi. Sjálfur fór hann yfir til Englands og kynti sèr þar alla þá hluti, er hann gat komizt yfir. Hann hafði áður á Hollandi nokkrum sinnum hitt Vilhjálm konúng þriðja að máli. Pètur dvaldizt um hríð í London, kom þar víða, og var þá stundum klæddur sjómannabúníngi, en stundum »á betri buxunum«. Einhverju sinni lèt Vilhjálmur konúngur herskip sín berjast til málamyndar, eins og jafnan er gjört, til að venja menn við sjóorustur, og bauð Pètri að horfa á þann leik. Fanst Pètri svo mikils vert um þá sjón, að hann gat eigi orða bundizt og mælti: »væri eg eigi Czar á Rússlandi, vildi eg ekki annað vera en admíráll á Englandi«. Að skilnaði gaf Vilhjálmur konúngur honum skip með 24 fallbyssum, og á því skipi fór Pètur til Hollands. Á Englandi rèð hann í sína þjónustu bæði sjóliðsforíngja, stýrimenn, lækna og ýmsa iðnaðarmenn, og sendi alla til Rússlands. Að því búnu hèlt Pètur til Vínar, skoðaði þar vopnabúr og alt sem til herskapar heyrði, og ætlaði svo að halda suður á Ítalíu, en þá komu honum þau tíðindi, að Strelizar hefðu að nýju gjört uppreisn heima í ríki hans; gaf hann þá upp suðurförina, og hjóst sem hvatlegast heim aptur. Það er sagt, að á þeirri leið hitti hann Ágúst annan, Pólverja konúng, og að konúngur tæki honum með mikilli viðhöfn; sýndi konúngur honum afl sitt, og hjó í einu höggi höfuð af uxa einum, er fram var leiddur. Pètur bað konúng gefa sèr sverðið að menjagrip, er hann hjó með uxann og mælti: »Eg ætla að reyna á rússneskum mannahálsum hvernig það bítur«. Þegar Pètur kom heim í ríki sitt, var búið að sefa uppreistina, og taka marga Streliza höndum. Pètur lèt rannsaka mál þeirra, og pynda þá alla til sagna, er tregir voru í svörum. Því næst lèt hann af lífi taka um 5 þúsundir manna, og gekk sjálfur að því verki af miklu kappi, og reyndi þá eggjar í sverðinu konúngsnaut. Hann lèt prófa það vandlega, hvort Soffía systir hans hefði átt nokkurn þátt í uppreistinni, og fundust engar líkur til þess; samt sem áður lèt Czarinn reisa 30 gálga hjá klaustri því, er hún sat í, og hengja þar 230 Streliza; hengu þeir, er næstir voru, úti fyrir herbergis glugga hennar,

og beinagrindirnar voru eigi niður teknar fyr en hún var dáin (1704).

Eptir hryðjuverk þessi setti Pètur Czar á stofn sjómanna- og hermanna-skóla, og jók her sinn á allar lundir; hann lèt og smíða skip mörg, og lagði fyrir hina ríkustu menn í landinu að gjöra slíkt hið sama. Þannig gjörði hann yfirbiskupi landsins (Patriarkanum) og tveimur hinum æztu höfðíngjum að skyldu, að láta reisa í sameiníngu 20 herskip. Á þann hátt eignaðist hann á skömmum tíma allmikinn skipaflota. En Pètur lèt sèr eigi einúngis um það hugað, að koma upp herliði og skipaflota, og kenna þjóð sinni hernaðar aðferð bæði á sjó og landi, heldur vildi hann einnig að hún skyldi í sem flestum ytri greinum líkjast öðrum Norðurálfu þjóðum, og taka upp siði þeirra. Hann bauð Rússum að viðhafa sama klæðasnið á búningi sínum sem Þjóðverjar og Hollendíngar þá höfðu; láta sèr eigi vaxa skegg, heldur raka það af, o. fl. þess konar; gekk hann eptir því með harðri hendi, að í engu væri út af brugðið því er hann sagði fyrir. En þó hann að miklu leyti umskapaði hina rússnesku þjóð, þá náðu allar hans miklu og mörgu breytíngar einúngis til hins ytra lífernis og háttalags; um verulega mentun og siðgæði þjóðarinnar skeytti hann lítið, og hafði litla hugmynd um slíka hluti, því að hann var sjálfur alla æfi illa siðaður; hann var manna grimmastur, og refsaði manna harðast þegar því var að skipta, og í flestum greinum var hann hið mesta heljarmenni.

*Karl*, sonur Karls ellefta Svíakonúngs og Úlriku Eleónóru drotníngar hans, fæddist í Stokkhólmi 17. júní 1682. Á æsku árum sínum fèkk hann hið bezta uppeldi, og var eingöngu undir höndum móður sinnar fram að sjöunda ári; hún var góð kona og guðhrædd, og kendi syni sínum guðsorð og góða siði; hún lèt hann lesa kvöld- og morgun-bænir sínar á knjánum. Við hirðir flestra konúnga í Norðurálfu drotnaði um þær mundir glaumur og gjálífi, eyðsla og saurlifnaður; við hirð Karls ellefta átti hið gagnstæða sèr stað. Þar ríkti þögn og alvara, sparneytni og hreinlífi, og þessum siðum vandist hinn úngi konúngsson. Þegar hann var sex vetra fór móðir hans að hafa minni afskipti af honum, en honum voru fengnir kennendur, og valdir til þess hinir beztu menn. Námsgáfur hafði hann góðar og tók allgóðum framförum í ýmsum vísindagreinum. Mest þótti honum til

koma, að lesa sögur Júlíusar Cæsars og Alexanders mikla, og kynnast herferðum og afreksverkum frænda sinna og forfeðra, einkum afa síns Karls tíunda. Túngumál lærði hann nokkur, þar á meðal þýzku jafnframt móðurmáli sínu, latínu allvel, en frakknesku miður; honum var eigi um þá túngu, og var mjög tregur á að tala hana. Kennarinn sagði, að það væri þó fögur túnga, og vel færi á því, að Svíakonúngur gæti talað hana, ef frakkneskur sendiboði kæmi á hans fund. »Eg kann frakknesku«, sagði Karl, »og skal læra hana enn betur. Hitti eg Frakkakonúng, skal eg tala við hann á hans túngu; en komi sendiboði hans híngað til mín, þá á betur við, að hann læri sænsku mín vegna, en að eg læri frakknesku hans vegna«. Og við það sat. Snemma þótti honum gaman að fara á dýraveiðar með föður sínum, og reyndist brátt ötull og óhræddur, þó djarft væri farið. Hann var sjö vetra þegar hann skaut tóu, og ellefu þegar hann skaut bjarndýr í fyrsta sinn, og þótti hvorttveggja frækilega gjört af jafnúngum sveini. En af engu hafði hann jafnmikla skemtun sem af hermannaæfíngum. Til þeirra funda sótti hann öllum stundum, og þegar þar gekk á sem allramest, fylkíngar riðust á, skotin skullu og höggin hlumdu, og alt var í einni bendu, þá var Karl sjálfsagður í miðri þvögunni, og þó hann fengi þá skrámur eða sár, skeytti hann alls eigi um slíkt. Einu sinni, er hann sat yfir borðum, rètti hann hundi brauðbita; rakkinn tók í móti af svo mikilli græðgi, að hann beit sveininn til blóðs. Karl brá sèr ekki við það, en vafði dúki einum um höndina, og mataðist sem áður, og vissi enginn að hann var særður, fyr en menn sáu blóðrenslið. Hugur og þrek kom þannig snemma í ljós hjá Karli, en hinu brá einnig fyrir, er lakara var, og það var þrályndi; það var auðsèð, að torvelt mundi að telja honum hughvarf, eða fá hann frá því, sem hann eitt sinn hafði fastráðið. Einhverju sinni setti fóstra hans hann á stól og sagði honum að fara hvergi þaðan fyr en hún kæmi aptur. Litlu síðar kom móðir hans inn þángað sem hann sat, og sagði honum að koma með sèr og hlýða prèdikun. Það vildi hann eigi. Hún spurði hvað til bæri. Hann kvaðst hafa lofað, að sitja þar kyr þángað til fóstra sín kæmi. Öðru sinni sagði hann, að blái liturinn væri svartur, og, að maður einn, er þar var við hirðina,

væri líkur apa; og enginn vegur var til, að hann vildi breyta því, sem hann hafði sagt, eða taka þessi orð sín aptur.

Karl var 15 vetra þá er faðir hans deyði; var honum nú gefið konúngsnafn og nefndur *Karl tólfti*. En faðir hans hafði mælt svo fyrir, að, þángað til sonur sinn næði lögaldri, skyldi drotníngin Hedevig Eleónóra (ekkja Karls tíunda en amma Karls tólfta) og 5 ráðherrar með henni stýra ríkinu. Sú ríkisstjórn stóð þó mjög stutta stund, því að allur þorri landsmanna var ráðherrum þessum mótfallinn, en vænti sèr góðs af hinum únga konúngi; enda lèt hann á sèr skilja, að hann vildi sem fyrst setjast sjálfur að stjórn. Sá maður, sem mest og bezt studdi konúng í þessu efni, hèt *Karl Píper;* hann var vitur maður og vel dugandi, og varð síðan æzti ráðgjafi Karls og fylgði honum meðan hann gat. Þegar Karl var setztur að stjórn, gaf hann sig stundum af miklum áhuga við stjórnarstörfum og lofuðu þá allir hans starfsemi, greind og rèttlæti, en stundum lèt hann ráðgjafana annast slíka hluti, en hugði þá eingöngu á skemtanir, og þá ætíð þær, er mest reyndu á hugrekki og karlmensku og jafnvel ofdirfsku.

Nágrannakonúngarnir höfðu vakandi auga á öllu því, er fram fór í Svíþjóð um þessar mundir, og þegar hèr var komið þótti þeim tækifærið bjóðast til þess að jafna hlut sinn á Svíum. Maður hèt *Patkull;* hann var borinn og barnfæddur á Líflandi, af góðum ættum og vel að sèr um marga hluti, herðimaður mikill. Þá er Karl ellefti tók jarðir af mönnum á Líflandi, eins og annarstaðar, og lagði undir krúnuna, hafði Patkúll helzt þor til að tala máli landa sinna gegn þeim aðförum. En er það tjáði eigi, gjörðist hann fullkominn óvinur konúngs og þar kom, að hann var dreginn fyrir lög og dóm, og er hann sá sitt óvænna flýði hann af landi burt, og var ýmist við hirð Ágústs annars eða Pèturs Czars, og eggjaði þá á allar lundir til ófriðar móti Svíum. Hann átti því mikinn þátt í, að Rússar, Pólverjar og Danir bundust í fèlag (1699), og sömdu þannig með sèr: að Rússar skyldu taka Ingermanland og Narva, Kexholmslèn og svo mikið af Finnlandi sem auðið yrði; Ágúst annar Lífland og Estland, og Danir kúga hertogann af Holtsetalandi og vinna aptur þau lönd, er þeir höfðu látið fyrir Svíum.

Hertogarnir af Holtsetalandi og Danakonúngar höfðu löngum

eldað grátt silfur, en Svíar veitt hertogunum að málum, til þess að eiga þaðan liðs von móti Dönum, hve nær sem á þurfti að halda. Nú voru nýorðin hertogaskipti á Holtsetalandi, og kominn þar til valda hertogi sá, er Friðrik hèt, frændi Karls tólfta og mágur hans. Hertoginn lèt gjöra kastala á landamærum sínum og flytja setulið þángað. Danir komu og brutu kastalana, en hertoginn lèt jafnharðan bæta þá aptur. Þetta var eitt með öðru, er flýtti fyrir því, að Danir gengu í sambandið með Rússum og Pólverjum, eins og áður var sagt, og höfðu liðsafnað. Hertoginn sá, að hèr var við ofurefli að etja, og leitaði liðs hjá mági sínum í Svíþjóð, en Karl hèt honum liðveizlu sinni. Englendíngar og Hollendíngar vildu koma sættum á, en Friðrik Danakonúngur, hinn fjórði, er þá kom til ríkis, vildi engum sættum taka, og er hann frètti að Ágúst Pólverjakonúngur hefði ráðið á Lífland, hèlt hann liði sínu til Holtsetalands.

Það er sagt, að Karl tólfti væri á bjarndýraveiðum, er honum kom hersagan af Líflandi; brá hann sèr eigi við þau tíðindi, en sagði svo: «Ágúst skal bráðum fara sama veginn heim aptur, sem hann kom». Frá þeirri stundu varð Karl tólfti sem annar maður; allur únglíngsbragur hvarf af honum; skemtanir, gleðileikar, dýraveiðar og alt þess konar hætti með öllu; það var eins og hann fyndi á sèr, að nú væri stundin komin, sagan biði eptir sèr, hann yrði nú að taka til starfa. Frá þeirri stundu varð hann fyrirmynd þjóðar sinnar að hugrekki, starfsemi og dugnaði, alveg á sama hátt sem faðir hans hafði verið árið 1675. Sumir af ráðgjöfum Karls tólfta vildu til lengstra laga komast hjá ófriði, og rèðu konúngi, að sættast við Dani og bandamenn þeirra, en það vildi hann með engu móti. «Eg hefi ráðið það af», sagði hann, «að byrja aldrei ránglega ófrið, en einnig hitt, að hætta eigi við rèttlegan, fyr en eg hefi sigrazt á fjandmönnum mínum». Öðru sinni sagði hann: «það er merkilegt, að báðir þessir frændur mínir vilja ófrið fyrir hvern mun. Það verður svo að vera. En Ágúst hefir rofið orð og eiða. Mitt mál er þess vegna rèttvíst, og guð mun hjálpa oss. Eg ætla fyrst að jafna ágreiníngin við annan þeirra; síðan verður alt af tóm til að tala við hina».

Flestar þjóðir Norðurálfunnar bjuggust um þessar mundir við, að hið mikla spánska erfðastríð mundi byrja þá er minst

varði, og vildu því, að friður gæti haldizt norður í álfunni. Hvorirtveggja málsaðila þar syðra vildu fá Svía eða Dani í lið með sèr. Einkum gjörðu Englar og Hollendíngar sèr mikið far um að koma sættum á milli Dana og hertogans; enda höfðu þjóðir þessar að nokkru leyti tekið að sèr ábyrgð á því, að þar skyldi friður haldast. En sem það var bert, að Dönum var full alvara að ráða á hertogann, og öll friðarvon var þannig úti, þá sendu bæði Englar og Hollendíngar herskip inn í Eyrarsund móti Dönum. Í annan stað hafði Karl tólfti liðsafnað mikinn um ríki sitt, og sendi nokkuð af því liði til Estlands og Liflands móti Ágúst konúngi, sumt sendi hann suður á Pommern, sumt vestur á landamæri Norvegs og Svíþjóðar, en meginherinn hèlt suður á Skán. Sjálfur lagði konúngur af stað frá Stokkhólmi (13. apr. 1700) suður í land, og sá þá borg aldrei síðan. En er hann kom til Karlskrónu, var floti hans þar fyrir og búinn til brottsiglíngar, og hèlt hann honum því næst til Eyrarsunds, og hafði 40 herskipa. Danir höfðu lagt flota sínum við Helsíngjaeyri og höfðu 54 skip. En nú kom enski og hollenzki flotinn að norðan um þessar mundir; lètu þá Danir undan síga inn til Kaupmannahafnar. Hinir veittu þeim eptirför, en Englendíngar og Hollendíngar vildu eigi skjóta á herskip Dana nè á borgina, heldur að eins halda Dönum þar í herkvíum, sem þeir voru komnir. Sá Karl þá að hann með sínum mönnum gat þar ekki á unnið, og fyrir því tók hann það ráðs, að leggja skipum sínum frá, og gánga þar á land sem líklegast þótti milli Kaupmannahafnar og Helsíngjaeyrar. Danir voru þar fyrir, er Svíar komu að landi, höfðu hlaðið skotgarða og bjuggust til varna. Útgrynni var þar nokkurt, og flutu bátarnir eigi alla leið, en Svíar hlupu þegar fyrir borð, er bátar þeirra kendu grunns. Var Karl konúngur þar einna fremstur sinna manna, og óð sjóinn undir hendur; skothríðin var áköf, bæði utan af skipum Svía, og af landi ofan, og þutu kúlurnar um eyru manna. «Hvaða þytur er þetta í loptinu, sem eg heyri?» segir Karl. «Það er þyturinn af kúlunum», svaraði gamall maður, er þar var nærstaddur. «Það er vel þá», mælti Karl, «sá skal verða minn skemtihljómur hèðan í frá». Svo fóru þar leikar, að Danir hrukku fyrir og námu eigi staðar fyr en við Kaupmannahöfn, en Svíar komu hernum á land, hèr um bil 14000 manna, og mistu

að eins nokkra menn. Því næst stefndi Karl liðinu til Kaupmannahafnar, og settist að þar á næstu grösum. Var það fyrirætlan hans, að setjast um borgina og freista hvort hún yrði eigi unnin með áhlaupi; en Englendíngar og Hollendíngar stóðu fast í móti þeirri ráðagerð, og fáum dögum síðar kom sú fregn, að friður væri á kominn milli Danakonúngs og hertogans; varð þá Karl að hætta við svo búið, og búast til heimferðar. Meðan hann var á Sjálandi, hafði hann strángan vörð á, að menn hans gerðu þar engar óspektir, og galt hverjum ríflega sitt, er honum færðu nokkuð, hvort heldur vistir eður aðra hluti. Við því höfðu landsmenn eigi búizt; lofuðu þeir hann mjög og beiddu guð að blessa hann, og sögðu að slíks væri von af honum, því að hann væri sonur Úlriku, hinnar góðu drotníngar.

En það er frá viðskiptum manna suður á Holtsetalandi að segja, að Friðrik Danakonúngur settist um Tönníngen; sá staður var bezt víggirtur í löndum hertogans. Borgarmenn vörðust vel og höfðu foríngja þann, er *Banèr* hèt, af ætt hins nafnfræga hershöfðíngja, sem fyr er nefndur. En að nokkrum tíma liðnum kom þángað her manns af Svíum, Hollendíngum og fleiri þjóðum, til liðs við hertogann. Sáu Danir þá sitt óvænna og hèldu undan. Var því næst leitað um sættir með mönnum, og 8. ágústmán. 1700, komst friður á í *Travendal* milli Dana og Holtsetalandsmanna. Varð Danakonúngur að láta við það sitja, sem hertoginn hafði gjört, og greiða honum 200,000 rd. að auki, samt lofa því, að gánga eigi í lið með óvinum Svía. Að öðru leyti kröfðust Svíar einskis og fengu eigi heldur neitt fyrir sinn kostnað.

Þannig var hinum fyrsta óvini úr götu rutt, og Danir úr sögunni að sinni. En Karl tólfti fèkk hið mesta frægðarorð af hvatleik þeim og framgöngu, er hann hefði sýnt, jafnúngur maður og óreyndur. Nú víkur sögunni til Rússlands. Svíar áttu ýms lönd þar fyrir austan hafið, eins og menn vita af því, sem áður hefir verið sagt. Þeim löndum vildu Rússar ná undir sig, því að alla þá stund, sem Svíar höfðu þar yfirráð, var Rússum alveg bægt frá Eystrasalti; þeir gátu þar engin skip haft, og enga verzlun átt þann veg við Vesturlönd. Eptir að Pètur Czar kom til ríkis reyndi hann, að fá löndin keypt af Svíum; en það fèkst með engu móti. Þá hugsaði hann sèr að vinna þau með

vopnum, og því var það, að hann gekk í sambandið við Ágúst annan, og Friðrik fjórða, eins og fyr er ritað. Þó reyndi Pètur til lengstra laga að dylja Karl tólfta þeirrar ráðagerðar, og beitti þá allri þeirri slægð, sem honum var gefin, og öllu því undirferli og ósannsögli, sem honum var svo tamt. Til þess að draga Svía sem mest á tálar, gjörði Pètur nýjan samníng (8. nóv. 1699) við sendiherra þann, er Karl tólfti sendi til Moskóv og segir Pètur þar og sárt við leggur, að hann skuli halda öll sín orð og eiða við Svíakonúng, og vera vinur hans fullkominn. En einmitt þá hina sömu daga gjörði hann í laumi samband við Ágúst annan, þess efnis, að þeir skuli í sameiníngu ráða sem fyrst á fyrnefnd lönd Svíakonúngs. Jafnvel eptir að Ágúst var seztur um Ríga, og Pètur kominn með liði sínu fast að Ingermanlandi, og menn tók að gruna margt, lèt Pètur sendiboða sína á Hollandi og Englandi lýsa yfir því, að sèr kæmi eigi til hugar að rjúfa trygðir og frið við Svía. Hann ritaði Karli tólfta vinsamlegt brèf, og þakkaði honum gjafir þær, er Karl hafði fyrir skemstu sent honum. En um sama leyti ritar Pètur Ágústi og segir svo: »kæri bróðir og granni! treysta máttu því fyllilega, að eg mun efna það alt, sem við höfum ráðgjört með okkur. Með því nú að þrjátígi ára friður er á kominn milli mín og Tyrkja, þá ætla eg, að nokkrum dögum liðnum, að boða Svíum stríð, og halda liði mínu inn á Ingermanland«. Sömu dagana sem þetta var ritað, kom sendimaður frá Pètri til Karls tólfta og hitti hann á Sjálandi og bar honum vinakveðjur og trygðamál Pèturs. Í öndverðum sept.mánuði 1700 hèlt Pètur Czar liði sínu til Ingermanlands og Estlands, og hafði óflýjandi her; fóru Rússar yfir landið með hinni mestu grimd, rændu öllu sem þeir náðu, og brendu bygðina, eins og þeirra var siður til, en landsfólkið, sem eptir lifði, hrökk undan víðs vegar, eða gekk á vald Rússa. Fyrstu daga októb.mán. settust Rússar um *Narva*. Svíar höfðu setulið í borginni hèr um bil 1000 manna, og höfðíngja yfir því þann er Horn hèt. Pètur var sjálfur með hernum, og þóttist hafa sigurinn í hendi sèr. Þar hagar svo til, að úr Peipusvatni rennur fljót eitt norður í Finnlandsflóa, er Naróva heitir. Vestanvert við fljótið stendur Narva framantil á nesi því, er þar gengur út í fljótið. Rússar höfðu farið yfir fljótið á einhverjum stað, og komu vestan að borginni, hlóðu skotgarða yfir um

nesið þvert, og skutu þaðan á borgina, en annan skotgarð og varnarvirki hlóðu þeir fyrir vestan sig, til varnar móti þeim, er koma kynnu til liðs við borgarmenn; sátu Rússar þannig milli garðanna og sóttu borgina af miklum ákafa; en hinir vörðust drengilega og gekk svo viku eptir viku.

Nú er að segja frá Karli tólfta, að hann fer af Sjálandi yfir á Skán og austur til Karlskrónu, fær þar sannar sögur af aðförum Pèturs Czars, og býst sem skjótast til liðs við menn sína og eignir þar austur. Vetur fór í hönd, og allra veðra von, margir töldu konúng af förinni á þeim árstíma, og kváðu betra, að hann sjálfur biði næstu vordaga, þó liðið legði af stað að haustinu. En það tjáði eigi. »Í guðs nafni fer eg af stað, sagði Karl, hann mun verja mitt rèttvísa málefni«. Fyrstu dagana í októbermánuði, er konúngur var búinn og byr gaf, sigldi hann út á haf öllum flotanum; hann hafði tvö hundruð skipa og 8 þúsundir manna; ferðin gekk slysalítið, og var lagt að landi við Pernauborg; hún er á Líflandi norðarlega. Er lángur vegur þaðan austur að Narva, eða suður að Ríga. Karl ætlaði sèr í fyrstu til Ríga og reka Ágúst konúng þaðan, en frètti nú, að Ágúst var allur á burt, og þá einsetti Karl sèr, að halda sem fyrst til Narva og hjálpa mönnum sínum þeim er þar vörðust gegn ofurefli Pèturs Czars. Þegar Svíar voru komnir á land, hèldu skipin aptur til Svíþjóðar og sóttu þángað meira lið, og fyrst þegar það var komið, lagði Karl af stað frá Líflandi með 8 þúsundir manna, en lèt 5 þúsundir vera þar eptir til landvarnar. Það var 13. dag nóvembermán. er Karl fór af stað og stefndi til Narva; urðu Rússar brátt á leið hans, en Svíar gengu djarflega að, og hrukku hinir þá undan. Veður gjörðist nú kalt og vegir hinir vestu, hvergi fèkst hæli eður matbjörg, hvorki fyrir menn nè skepnur, því að Rússar höfðu lagt alt í auðn. Nítjánda dag nóv. voru Svíar komnir svo í nánd við Narva, að eigi var lengra eptir en frek míla vegar; herinn var mjög dasaður eptir ferðina, og vildu flestir nema þar staðar um stundarsakir og hvílast, áður en til orustu væri lagt. Konúngur vildi það eigi, og sagði að hèr væri alt undir því komið, að grípa færið meðan það gæfist: Rússum hefði orðið mjög bilt við komu þeirra Svíanna og væri skelkaðir og hvergi nærri viðbúnir að berjast nú þegar, en, ef frestað væri að ráða á þá, mundu Rússar jafna

sig, draga meira lið að sèr og komast að því, hve fámennir Svíar væru; hèr yrði og á það að líta, að Svíar hefði eigi vistir nema til fárra daga; annað væri því eigi fyrir hendi, en orusta nú þegar eða húngurdauði. Það var því af ráðið að berjast næsta dag. Konúngur lèt halda guðsþjónustu um allan herinn, því næst reið hann um fylkíngar og talaði fyrir liðinu; menn sáu að forínginn var öruggur og biðu ókvíðnir næsta dags. *Rehnskjöld* hèt einn af fyrirliðum Svía, vitur maður og vanur orustum; hann hafði barizt með Karli ellefta í orustunum við Halmstad, Lund og Landskrónu, og eptir það með Vilhjálmi af Óraníu í Niðurlöndum. Konúngur fal Rehnskjöld á hendur, að skipa fyrir um það, hvernig atlögunni að Rússum skyldi til haga. Um morguninn eptir (20. nóvember) var Karl konúngur snemma á fótum og reið svo lángt fram að skotgörðum Rússa sem fært var, til að skygnast þar um hvað eina. Um dagmála leytið gengu Svíar fylktu liði fram í nesið og stefndu á skotgarðana miðja; lèt konúngur skjóta nokkur skot, bæði til þess, að láta menn sína í Narva vita, að Svíar væru þar komnir, og líka til þess, að bjóða Rússum til orustu, en Rússar voru kyrrir fyrir innan girðíngarnar, því að, þó þeir hefðu um 70 þúsundir manna, þorðu þeir eigi að ráða á Svía. Bæði liðsmönnum Rússa og foríngjum þeirra stóð hinn mesti geigur af Svíum. Þetta vissi Pètur Czar, og þess vegna treysti hann hershöfðíngjum sínum miðlúngi vel, og fèkk frakkneskan mann, er þar var þá staddur hjá honum, *De Croi* að nafni, til þess að takast á hendur yfirstjórn hersins; var hinum frakkneska manni það þvernauðugt, en svo varð þó að vera sem Czarinn vildi. Að því búnu lèt Pètur söðla hest sinn og reið af stað austur í land um nóttina áður orustan varð. Girðíngar Rússa, hinar ytri eða vestari, gengu, eins og fyr er sagt, þvert yfir nesið, og Rússar stóðu fyrir innan þær; hinn nyrðri fylkíngararmur þeirra náði þar að fljótinu sem Vepsekyle heitir, hinn syðri þar að fljótinu sem Jóala heitir; Dolgorúky hèt sá, er stýrði hinum nyrðra fylkíngararmi, en Veide sá er stýrði hinum syðra. Svíar voru svo fámennir, að þeir gátu eigi ráðið nema á einn lítinn hluta girðínganna í einu, en skipuðu þannig til atlögunnar, að í syðra fylkíngararm gengu þeir Otto Vellingk og Knútur Posse með sínar sveitir, en fyrir nyrðra fylkíngararminum var Rehnskjöld og Maidel, voru Vermlendíng-

ar og Dalakarlar þar í broddi fylkíngar; nyrðst, og laust við meginherinn, var Magnús Stenbokk með Finna og Dalakarla. Þar í nánd var Karl konúngur og kappar hans (*«Karl den tolftes Drabanter»*); þeir voru 150 að tölu, og eigi aðrir valdir í þann flokk en afreksmenn að afli og hreysti og alls konar atgervi, líkast því sem átt hafði sèr stað hjá Hrólfi kraka, Haraldi hárfagra og fleiri fornkonúngum.

Tveim stundum eptir hádegi lèt Karl konúngur blása til atlögu. Veður hafði verið bjart framan af degi, en í því er herinn gekk fram móti girðíngum Rússa laust á èli svo myrku, að varla sást handa skil; vildu þá sumir af höfðíngjum Svía bíða af sèr èlið, en konúngur kvað nei við, og mælti: «Èlið gjörir oss engan skaða, en Rússar hafa það í fángið og geta því eigi sèð, hvað oss líður, eður hve fámennir vèr erum. Látum oss halda áfram og neyta færisins!» Svo var gjört. Rússar urðu einskis varir fyr en Svíar stóðu við girðíngar þeirra; lètti þá èlinu og gjörði bjartviðri sem áður. Hlupu Svíar þá á girðíngarnar og inn yfir þær í einni svipan, en fallbyssulið þeirra og riddarar þegar á hæla þeim. Við þessu áhlaupi máttu Rússar eigi, og rofnuðu fylkíngar þeirra fyrir og hrukku undan til beggja handa. De Croi og aðrir fyrirliðar Rússa gjörðu hvað þeir kunnu til þess að eggja þá til framgöngu, en það kom fyrir ekki. Sumir hlupu á girðíngarnar beggja megin Svía, og vildu þannig leita sèr lífs til skógar, en konúngur var þar jafnan fyrir, sem þeir komu að, og keyrði þá aptur inn fyrir garðana. Nú leitaði hinn nyrðri fylkíngaramur Rússa undan til brúarinnar hjá Vepsekyle, og vildi komast þar yfir; varð þar svo mikil þröng á brúnni, að hún brotnaði, og er svo sagt, að þar hafi druknað þrjár þúsundir manna í fljótinu. Mestur hluti þess liðs, er þángað hörfaði, varð því að nema þar staðar, milli fljótsins annars vegar og Svía hins vegar; urðu viðskipti þar hin hörðustu, og þá bar það til, að einhverjir sögðu í liði Rússa, að óhamíngja þessi væri öll komin yfir þá af völdum útlendínga þeirra, er í hernum væru. Við þetta urðu Rússar óðir, og drápu hvern útlendíng, sem þeir gátu augum á komið, hvort heldur yfirmann eður undirgefinn. Sjálfur yfirforínginn, De Croi, og nokkrir útlendir hershöfðíngjar sáu eigi annað ráð vænna, til þess að umflýja bráðan bana, en að leita á náðir Svía. Komu þeir þar að, er

fyrir var Magnús Stenbokk, og gáfust honum á vald. En það er að segja frá Karli konúngi, að hann heyrir skothríð ákafa norður við fljótið hjá Vepsekyle. Ríður hann þángað sem hvatlegast; þar urðu mannabúkar margir fyrir honum á einum stað; ríður konúngur úr vegi fyrir þeim, en fer hart og gáir þess eigi, að þar eru fen og pyttir á leiðinni; veit hann eigi fyr, en hann fer þar ofan í og sökkur með hestinum svo djúpt, að eigi stóð upp úr nema höfuðið; mátti hann þaðan hvergi hrærast, en menn hans bar þar brátt að, og drógu þeir konúnginn upp, en hestinn misti hann og sverð sitt og stígvél af öðrum fæti. Konúngur lèt eigi slíkt á sèr festa, en hleypur á bak öðrum hesti, og holdvotur sem hann var, og ríður alt hvað af tekur; en litlu síðar var sá hestur skotinn undir honum; fèkk konúngur þá enn að nýju reiðskjóta, og mælti: «eg sè að fjandmenn vorir vilja kenna mèr að ríða». Við Vepsekyle börðust menn fram í myrkur. Svía tók að þrjóta púður og kúlur, því að hver maður hafði að eins hjá sèr 40 skot, en sumir þeirra fundu hvorttveggja, bæði púður og kúlur, í töskum Rússa, er fallnir voru og lágu þar víðs vegar um völluna; sumir gengu í höggorustu við Rússa og hjuggu þá niður sem hráviði. Þar fèll fjöldi manna, en hinir, sem uppi stóðu, vildu þó eigi beiðast griða. Konúngur hugði, að þeim mundi koma styrkur nokkur frá hinum syðra fylkíngararmi við Jóala, og fyrir því skipar hann Magnúsi Stenbokk, að taka fallbyssur nokkrar, er Rússar höfðu á hóli einum miðja vega milli fylkíngararmanna. Magnús gjörði svo sem fyrir hann var lagt; setti konúngur sveit manna á hólinn, og vann þá tvent í einu, bæði það, að hafa samgöngu við menn sína í Narva, og líka hitt, að varna fylkíngarörmum Rússa, suður og norður við fljótið, að ná saman, svo að hvorigur gat öðrum lið veitt þó vildi. En sem það lið Rússa, er stóð í kvínni við Vepsekyle, sá, að engrar hjálpar var að vænta, misti það huginn og sendi tvo menn til að beiðast griða, en annar þeirra var skotinn, og hinn komst eigi alla leið sökum myrkurs.

Skömmu síðar varð myrkrið svo svart, að Karl lèt hætta orustunni. Gjörðu Svíar þá varðelda hèr og hvar, en stóðu þó allir undir vopnum. Konúngur tók sèr hvíld við einn af varðeldunum; breiddu menn kápu á jörðina undir hann, og lagðist hann þar niður, en eigi fór hann af fötum, þó vot væru. Svíar

höfðu að vísu borið hærra hlut í viðskiptum þessum, en þó var eigi enn fullsèð, hvernig fara mundi. Sá hluti Rússa, sem stóð við Vepsekyle, var að sönnu kominn í bendu eina, og margt þar í hinni mestu óreiðu, en mannfjöldinn var svo mikill, að lángt var umfram allan Svíaher, og gátu þeir því orðið mjög skeinuhættir Svíum, ef aptur kæmi til orustu; hinn syðri fylkíngararmur þeirra við Jóala var mannmargur, og þar hafði orustan verið vægari og mannfallið minna. Sjálfir voru Svíar eigi sem bezt til reika. Um daginn, meðan orustan stóð, höfðu þeir gengið fram hjá tjöldum Rússa, og eigi tekið hendi til matar eða drykkjar, þó þeir vissu, að nóg var af hvorutveggja þar inni fyrir, — fanst útlendum mönnum, er þar voru viðstaddir, mikið um þann aga, er konúngur hafði á sínum mönnum — en er bardaganum var lokið og komið myrkur, þá gengu Svíar hópum saman í tjöldin og gjörðu sèr óspart til góða, enda var þar gott til vista og nægð brennivíns. Drukku margir þá ómælt, og urðu svo út úr, að ófærir voru með öllu, og gátu eigi svo mikið sem gætt þeirra manna, er herteknir voru. Ef Rússar hefðu þá ráðið á Svía, er ósagt hver orðin mundu leikslok. En þeir vissu eigi hvernig á stóð. Þeir hugðu þvert á móti, að Svíar mundu ráða á sig að nýju þegar er vígljóst yrði, og vega hvern um annan þveran. Seint um kveldið sendi Dolgorúky menn til konúngs þess erindis, að semja um vopnahlè. Menn urðu eigi ásáttir, og fóru Rússar við svo búið; en að vörmu spori kom Dolgorúky sjálfur. Var Karli sagt, að hershöfðíngi Rússa væri þar kominn og beiddist viðtals. »Leiðið fram hest minn«, mælti konúngur, »að eg megi taka svo ríkmannlega móti honum, sem nú eru föng til«. Að litilli stundu liðinni sat konúngur á hesti, og hershöfðíngjar hans stóðu honum til beggja handa. Rússar gengu fyrir hann herhöfðaðir, lögðu sverðin fyrir fætur honum og beiddust griða. Konúngur var greiður í svörum og gjörði skjótan úrskurð þeirra mála. Rússar vissu eigi hvernig á stóð, og þóttust eigi komast svo skjótt á burt frá Svíum sem þeir vildu. Svíar vissu hvernig á stóð, og þóttust eigi svo skjótt, sem þeir vildu, geta komið Rússum á burt. En engi maður sá á konúngi, hvað honum bjó í brjósti. Hann setti Rússum þá kosti, að liðsmenn allir mættu fara í friði og hafa vopn sín með sèr, en hershöfðíngjar þeirra og yfirmenn allir skyldu

eptir verða á sínu valdi, fallbyssur allar og merki og fánar. Því næst bættu Svíar brúna á fljótinu, en Rússar bjuggust til ferðar og hèldu norður yfir brúna áður en lýsti af degi.

Nú hefir um hríð verið sagt frá því, sem gjörðist í hinn nyrðra fylkíngararm við Vepsekyle. Í hinn syðra fylkíngararm, við Jóala, áttust þeir við af Svía hálfu Vellíngh og Posse, og af Rússa hálfu Veide og Scheremetiev; hinn síðast nefndi var næstur fljótinu og fyrir riddaraliði Rússa. Þegar í öndverðri orustu flýðu riddarar þessir, og hleyptu út á fljótið sem mest máttu þeir, og lètu synda yfir, en fótgöngulið Rússa veitti viðnám og barðist fræknlega; stóð orustan þar alt til kvölds og unnu hvorugir á öðrum. Veide hershöfðíngi varð mjög sár, og margir aðrir af foríngjum Rússa, en sumir fèllu. Þegar kvöld var komið, áttu foríngjar Rússa ráðstefnu með sèr, hvern viðbúníng hafa skyldi til næsta dags, því að eigi vissu þeir, hvað gjörzt hafði við Vepsekyle. En um nóttina kom maður frá Dolgorúky og sú orðsendíng, að Veide skyldi gefa upp vörnina og ná sömu friðarkostum fyrir sína menn, sem þeir Dolgorúky þegar höfðu fengið. Veide bar mál þetta undir sína menn; vildu þá allir hinir útlendu höfðíngjar í liðinu berjast, og alls eigi gefast upp að svo stöddu, þar sem þeir væru miklu liðfleiri en Svíar. En Veide og hinir Rússnesku hershöfðíngjar vildu eigi þeim ráðum fylgja. Var því næst talað um friðarkosti. Karl konúngur var nú laus orðinn við Dolgorúky og alt hans lið, þóttist því öruggari en áður, og setti því þessum mönnum harðari kosti en hinum. Nokkrir gáfu það ráð, að taka allan þenna her höndum. En konúngur mælti: «látum hrotta þessa hlaupa»[1]! Þeim var því leyft að fara, en vopn sín öll urðu þeir að leggja af hendi. Lið þetta var að tölu um 12 þúsundir manna. Svíar voru tæpar 6 þúsundir, og margir þeirra ýmsra orsaka vegna naumast vopnfærir; suma vantaði kúlur og púður. Svo sagði Magnús Stenbokk, að af þeim 600 Dalakarla, er hann rèð fyrir, hefði enginn haft skot eptir í byssu sína; bað hann þá vera sem vígmannlegasta og láta engan bilbug á sèr sjá, meðan Rússar gengi fram hjá; og það gjörðu þeir, sem þeir bezt kunnu. Foríngjar allir voru höndum teknir, en hitt liðið gekk leiðar sinnar berhöfðað og niðurlútt fram hjá fylkíngum Svía, er stóðu

1) »Låt de bondlurkarna löpa!»

undir vopnum meðan þetta gjörðist. En svo voru Rússar skelkaðir, að þegar þeir komu að fljótsbrúnni við Vepsekyle, þá ruddist hver sem búinn var út á brúna, svo að fjöldi manna hrökk í vatnið og druknaði. Rússar mistu í orustunni við Narva 12 þúsundir manna, sumir segja yfir 20 þúsundir. Svíar tóku höndum 9 «Generala», 11 »ofursta» og marga fleiri foríngja æðri stèttar og lægri, og það ógrynni af vopnum (þar á meðal 180 fallbyssur) og vistum og ýmsum aurum, að varla varð tölu á komið; hesta fengu Svíar þar svo marga, að þeir seldu hvern þeirra sín í milli fyrir einn dal silfurs.

Rússar þeir, er af komust, fóru það sem fætur toguðu austur í land og hittu þar Pètur Czar og sögðu honum sínar ófarir. Honum þóttu það þúng tíðindi, en barst þó vel af og sagði: «eg veit að Svíar munu enn sigrast á oss mörgum sinnum; en koma mun þar, að vèr munum læra að sigrast á þeim». Af Svíum fèllu í orustu þessari hálft sjöunda hundrað manns, en rúm 12 hundruð urðu sárir.

Karl tólfti fèkk þannig við Narva einn hinn frægasta sigur, sem unninn hefir verið á Norðurlöndum, og orðstír hans og Svía flaug land af landi. Það var nýtt og óheyrt í sögunni, að 18 vetra únglíngur — eins og Karl var þá — ynni þvílík afreksverk, sem hann hafði nú unnið á einu missiri: þröngvað Dönum til friðar í Travendal, og unnið Rússa við Narva, og átt þó við ofurefli að etja. Þar til kom og, að hann hafði eigi upptökin að ófriðnum, heldur þeir, svo að hann átti hendur sínar að verja; og svo vissu allir, að hann var trúmaður mikill og siðavandur, en þeir mótstöðumenn hans óhlutvandir í mörgu. Frá dögum Karls Gústafs lá það orð alment á Svíum, að þeir væru ójafnaðarmenn, sem vildu brjóta undir sig aðrar þjóðir. Nú breyttist sá orðrómur til hins betra, og Svíar og konúngur þeirra fengu hið bezta orð á sig, þóttu manna hraustastir og sigursælastir og þó mildir og sanngjarnir við óvini sína; flestir óskuðu þeim góðrar hamíngju. Ýmsra þjóða skáld ortu lof um Karl konúng; aðrir gjörðu minnispenínga með ýmsum myndum og málsgreinum. Á einum þeirra sáu menn sigurgyðjuna og þrjá menn fyrir fótum hennar, og þar yfir þessi orð: «*tandem bona causa triumphat*» (þ. e. loksins sigrar hið góða málefni). Á öðrum peníngi sást Pètur Czar, þar sem hann sat í tjaldi

sínu við eld og fallbyssur, og skaut sprengikúlum inn í Narvaborg, en yfir mynd hans stóðu þessi orð: »og Pètur sat og vermdi sèr«. Á hinni hlið peníngsins sáust Rússar á flótta og Pètur þar fremstur í flokki og illa til reika, og þar yfir þessi orð: »og Pètur gekk burt og grèt beisklega«.

En — það þarf sterk bein til að þola góða daga. Til þessa hafði Karli konúngi gengið alt að óskum; sigurinn fylgdi honum land af landi; allir dáðust að hreysti hans og mannkostum; hann vildi berjast við Narva, og lagði til orustu þvert á móti ráðum flestra hershöfðíngja sinna, og vann sigur. Alt þetta kom honum á þá trú, að hamíngjan fylgdi sèr, og gæti eigi brugðizt, hèr væri eigi um annað að gjöra, en að fylgja því, sem andinn blèsi sèr í brjóst; allir vegir væru sèr færir. Það kom því í ljós, og því meir sem frá leið, að hann hirti alls eigi um það, sem hershöfðíngjar hans sögðu, eða rèðu honum, en fór eingöngu eptir því, sem honum sjálfum kom til hugar; það var eins og hann væri tilfinníngarlaus fyrir öllu öðru. Ósigurinn og skaðinn gjörði Pètur Czar hygginn, og þó djarfari en áður. Sigurinn og það, sem sigrinum fylgdi, sneri hreysti Karls í ofdirfð, og þreki hans í þrályndi og einræði. Honum þótti svo lítið til Pèturs og Rússa koma, að hann fyrirleit þá, og þótti eigi ómaksins vert, að skipta sèr af þeim framar. Pètur gat því í næði aðhafzt það, er hann vildi, í löndum þeim, er hann hafði hugfest að ná undir sig, vestur við Eystrasalt.

Nú var sú spurníngin þessu næst, sem Svíar áttu úr að leysa, hvernig þeir gætu neytt sigursins við Narva? Hershöfðíngjar Karls voru flestir á því, að rèttast væri, að taka sáttaboðum þeim, er Ágúst konúngur bauð, elta síðan Rússa meðan þeir væru hræddir og áður en þeir gætu náð sèr eptir flóttann, og láta svo fyrir berast vetrarlángt í löndum þeirra og búa við þeirra kost, en ala á allar lundir óvild þá og kala, sem víða bryddi á í Rússlandi gegn Pètri og öllum hans nýbreytíngum. Gæti þá svo farið, að þar í landi kæmist alt í uppþot og ófrið, Svíum til gagns eins og fyr, meðan Demetriuss-óeirðirnar áttu sèr stað, og Rússar ef til vildi flæmdir suður í land alt að Svartahafi. Þetta óttaðist Pètur Czar mest af öllu, og það því fremur, sem Karl tólfti var í fyrstunni eigi fjarlægur slíkum tillögum. En er til kom, gjörði hann það þó eigi, bæði fyrir þá sök, að

honum var ákaflega gramt í geði til Ágústs annars, og líka hins vegna, sem áður var getið, að honum þóttu Rússar eigi þess verðir, að veita þeim eptirför; hann þóttist eiga alls kosti við þá, hve nær sem hann vildi, og rèð það því af, að dveljast um hríð á Líflandi, láta þar eptir nokkrar þúsundir manna til landvarnar, en halda síðan, þá er voraði, meginhernum móti Ágústi konúngi og greiða honum makleg málagjöld fyrir svik hans og ójöfnuð allan. Ágúst hafði fengið konúngdóm á Pólverjalandi, eins og fyr er sagt, og lagði alt kapp á, að ná undir sig Líflandi. Patkúll var í öllum ráðum með honum, og hafði sína erindreka um allar jarðir. Allra bragða var leitað til að hleypa Líflendíngum upp til ófriðar gegn yfirráðum Svíakonúngs, og láta þá segja honum upp trygð og hollustu. Aðalsmenn voru ótryggir og tilleiðanlegir, en almúginn tregari. Ríga var helzt borg og auðigust þar í landi. Svíar höfðu ágætan höfuðsmann í Ríga, Eirík Dahlberg, sem fyr er nefndur. Nú var hann kominn yfir sjötugt, en úngur í skapi, árvakur og starfsamur eins og í fyrri daga. Hann fèkk nokkurn pata af, að Ágúst og Pètur Czar mundu hafa hug á Líflandi og búa yfir svikum, og hafði því vakandi auga á öllu, því að auðvitað var, að vildu þeir ná Líflandi, þá mundi Ríga eigi verða eptir skilin.

Pólverjar vildu eigi þá þegar veita Ágústi konúngi lið til þess að vinna Lífland, en eigi mæltu þeir á móti því, að hann legði landið undir sig með saxnesku liði. Konúngi þótti það að vísu miður, en lèt þó eigi letjast fyrir þá sök, og sendi saxneskar hersveitir austur á Kúrland, er viðbúnar skyldu vera, og í nánd við Lífland, til að ráða á það, hve nær sem færi gæfist. Meðan hann hafði þetta fyrir stafni, sendi hann menn til Svíþjóðar, og lèt telja Karli tólfta trú um mesta bróðerni og óbrigðult vinfengi af sinni hendi. Sama veturinn (í desemberm. 1699) hafði Ágúst fastráðið að taka Ríga. en er þar að kom, varð hann að gefa það frá sèr, því að hann varð þess þá vísari, að Eiríkur Dahlberg hafði látið víggirða borgina sem bezt. Nú hugsaði Patkúll annað ráð til þess að vinna borgina, og skyldi það gjört í febrúar-mánuði 1700. Svo stóð á, að Carlóviz, sendiboði Ágústs í Moskow hjá Pètri Czar, brá sèr vestur á Saxland þenna vetur og lagði leið sína um Ríga. Hann kvaðst bráðum koma aptur, fara sama veg austur, og bað Dahlberg leyfis að mega aka vögn-

um þeim gegnum borgina, er hann hefði meðferðis, og flytti ýmsan varníng á. Þegar komið var fram í miðjan febrúar, voru ísalög mikil og allar ár hèldu. Nú kom farángur sendiherrans, en eigi á vögnum, heldur á stórum sleðum; á þeim lágu vopnaðir menn eins og á komst, og breiddur hálmur yfir, og gengið svo frá öllu, að eigi sást það, er undir var á sleðunum. Lítið eitt þar á eptir komu 80 menn með vopnum, og læddust svo, að eigi sást fyr en þeir kæmu fast að borgarhliðinu; þar á eptir annar meiri herflokkur, og allra aptast fylgdi herinn allur. Á þenna hátt ætlaði Ágúst að taka borgina í einni svipan og fyrirhafnarlítið. En það var eigi svo hægt, sem þeir hugðu, að leika á Dahlberg. Hann grunaði margt, og hafði skipað menn fyrir utan borgina, einkum fyrir vestan hana, þeim megin sem veit að Kúrlandi. Nú komu sleðarnir, miklir og margir; varðmenn höfðu hendur á þeim og fundu skjótt, að þar voru vopnaðir menn geymdir undir hálminum, tóku þá höndum og færðu Dahlberg þá. Þess urðu menn og skjótt vísari, að meira lið var í nánd. Lèt Dahlberg þá liðsmenn sína vopnast og hafa alt á reiðum höndum, er Saxaher kæmi. Þess var heldur eigi lángt að bíða; en er Saxar sáu, að þeir Dahlberg voru við öllu búnir, treystust þeir eigi að leggja til atlögu, og sneru frá að sinni. Skömmu síðar áttu þeir fund með sèr Ágúst konúngur og Pètur Czar. Pètur eggjaði hann á allar lundir, að halda fram ófriðnum og vinna Lífland, en Ágúst var deigur; hèt Pètur honum að styrkja hann til þess, bæði með því, að láta hann fá 20 þúsundir liðsmanna og 2 milliónir ríkisdala, því að Pètri var alt um að gjöra, að fá Karli nóg að starfa vestur í löndum Ágústs, til þess hann sjálfur gæti í friði og næði búizt um sem hann vildi þar eystra og heima hjá sèr. Slíkri liðveizlu gat Ágúst eigi neitað, hafði viðbúníng mikinn, og bjó lið sitt sem hann bezt kunni. En þó að þeir Ágúst og Pètur þættust miklir vinir, þá var vináttan eigi tryggari þeirra í millum en svo, að hvor um sig bauð Karli í kyrþey að sættast við hann heilum sáttum. En við slíka menn vildi Karl ekkert eiga nema vopnaviðskipti; safnaði hann nú liði og hèlt til Ríga. Sú borg er við Düna-fljót, á nyrðri bakkanum, hèr um bil 2 mílur þaðan, sem það rennur í sjóinn. Fljótið er bæði djúpt og breitt. Fyrir sunnan það hafði Ágúst konúngur lið sitt, upp og niður með fljótinu, 10,000 Saxa og 19,000 Rússa.

Sjálfur gat konúngur eigi fylgt liðinu, því að hann hafði þá handleggsbrotnað fyrir skemstu, en sá hèt Steinau, er yfirstjórn hersins var á hendur falin. Dahlberg hafði búizt við, að Karl konúngur mundi ætla sèr yfir fljótið hjá Ríga, og hafði því safnað þángað öllum þeim bátum, er hann gat fengið, og látið gjöra margar nýjar ferjur. Voru sumar þeirra svo stórar, að flytja mátti á þeim fallbyssur og hesta, og á þeim ferjum framanverðum voru hlemmar stórir, er upp skyldi reisa til hlífðar móti skotum, en hleypa síðan niður, er að landi kæmi, svo hægra veitti að afferma. Snemma morguns 9. júlí (1701) var byrjað að flytja liðið suður yfir fljótið. Veður var gott og hægur vindur af norðri. Í einni svipan var fljótið þakið bátum, en á fremstu bátunum var votur hálmur og annað eldsneyti og kveikt í; lagði þá reyk mikinn suður á fljótið undan bátunum, svo að Saxar og Rússar sáu ógjörla hvað Svíar höfðust að. En er Svíar komu að syðri bakkanum, lètu fjandmenn þeirra skotin skella. Hlupu Svíar á land, og tókst þar þegar hin harðasta orusta. »Nú er híngað komið, drengir mínir« mælti Karl, er hann hljóp á land, »og lengra munum vèr komast með guðs hjálp«. Þegar í öndverðri orustu flýðu Rússar, en Saxar börðust enn nokkra stund og gjörðu harða hríð, þó kom þar, að þeir hrukku fyrir og lögðu á flótta; fengu Svíar þar ágætan sigur, feldu marga menn og tóku marga höndum, en flóttann gátu þeir eigi rekið sem þeir vildu, því að þá skorti riddaralið. Eptir þenna sigur lagði Karl undir sig alt Kúrland. Þar rèð fyrir um þessar mundir hertogi einn, og hafði landið að lèni frá Pólverjakonúngi, en sjálfur barðist hertoginn móti Karli í orustunni við Dúna-fljót.

Þegar nú þess er gætt: að Karl tólfti fór 25. júlí 1700 yfir Eyrarsund og leiddi á skömmum tíma til lykta ófriðinn við Dani; að hann fór í október-mánuði sama ár yfir Eystrasalt og vann Rússa við Narva 20. nóvember næst á eptir; og, að hann fór 9. júlí 1701 yfir Dúna og vann sigur bæði á Söxum og Rússum — þá má með sanni segja, að fá munu dæmi finnast til þess í sögunni, að nokkur hershöfðíngi hafi unnið meiri afreksverk á einu ári en þessi, sem hèr eru talin, eða, að nokkur sigurvegari hafi á jafnstuttum tíma fengið á sig meira frægðarorð en Karl tólfti fèkk eptir allar þessar aðfarir.

Þegar hèr er komið verður breytíng á sögu Karls tólfta.

Híngað til átti hann ríki sitt að verja fyrir áràsum ágjarnra nágranna, og hafði sigrazt á þeim öllum með dæmafárri hreysti og hamíngju. Norðurálfan hafði því nær öll fylgt tíðindum þessum með mesta athygli, undrast afreksverk Karls og glaðzt af því, að honum tókst að gjalda óvinum sínum makleg málagjöld. Hann hafði rètt hluta sinn með heiðri og sóma. Nú gat hann fengið frið, að minsta kosti við Ágúst konúng, því að hann margbeiddi Karl griða og friðar, og bauð honum beztu kosti. En Karl tólfti vildi engum friðarkostum taka. Hann þóttist eigi geta trúað Ágústi til orðs nè eiðs, og þótti hann vera óhæfur og ómaklegur þess, að bera konúngsnafn; þess vegna einsetti Karl sèr, að hætta eigi ófriðnum fyr, en hann hefði algjörlega svipt Ágúst konúngdómi á Pólverjalandi. Hvernig sem bæði ráðgjafar hans og helztu hershöfðíngjar, og ýmsir þjóðkonúngar rèðu honum, að sættast við Ágúst og taka þeim friðarboðum, er hann bauð, þá kom það fyrir ekki; hvað sem hver sagði sat Karl við sinn keip. Þessi þverúð hans og einræði sneri smámsaman hugum manna frá honum; þeir, sem híngað til höfðu verið honum velviljaðir, urðu honum fráhverfir upp frá þessu. Á Pólverjalandi stóð að vísu svo á, að margir voru þar mótstöðumenn Ágústs konúngs, en þegar Karl fór þess á leit, að Pólverjar legðust á eitt með sèr og styrktu sig til þess, að reka Ágúst þar frá ríkjum, þá þótti Pólverjum sèr misboðið; þeir brugðu Karli um ósáttgirni, jafnvel um hefndarhug, og sögðu, að hann, útlendur konúngur, hefði alls enga heimild til að setja konúng þeirra frá völdum; þeir kysu helzt að Svíakonúngur lèti hèr við sitja, og kváðust vilja lifa í friði og vináttu við Svía. En hèr var sem endrarnær eigi hugsandi til, að aptra Karli frá því, sem hann eitt sinn hafði fastráðið og vildi hafa fram. Hann kvaðst því eigi, frekara en komið var, mundu leita aðgjörða þeirra í þessu efni, en freista sjálfur með sínum mönnum, að reka Ágúst konúng þeirra úr völdum. Á öndverðu vori 1702 hèlt Karl tólfti liði sínu inn á Pólverjaland og stefndi til Warschau, höfuðborgarinnar í landinu. Bæði Rehnskjöld, Magnús Stenbokk og fleiri hershöfðíngjar hans rèðu honum frá þeirri för, en það varð fram að fara, sem Karl vildi, hvað sem aðrir sögðu. Á leiðinni til Warschau mætti hann litilli mótstöðu, og alls engri þá er þángað kom. Leyfðu borgarmenn Svíum inngöngu í Warschau,

og hvorugir lögðu öðrum ófagt orð, því síður annað meira. Á torgi einu þar í borginni lèt konúngur, jafnskjótt sem hann sjálfur kom, herinn hlýða guðsþjónustugjörð, og lásu allir Svíar bænir sínar með knèfalli, eins og þeirra siður var til. Bæjarmenn undruðust þá stjórn, er konúngur hafði á mönnum sínum, og þá siðprýði, er þeir sýndu hvervetna; slíku voru Pólverjar eigi vanir af sínum mönnum, og sízt þar sem Ágúst konúngur átti hlut að máli. Karl hafði sama siðinn hèr eins og annarstaðar, að hann hafði eigi aðsetu í sjálfri höfuðborginni (Warschau), heldur í undirborginni Praga, sem er hínum megin fljótsins (Weiksel) á eystri bakkanum; einatt reið hann út um landið í kríng um borgina, fámennur mjög, og fór óvarlega, eins og hann var vanur; og þó menn vöruðu hann við því, og segðu honum, að þar væru hópar manna á ferðum, sem vildu ná honum, gaf hann því engan gaum og sagði: »eg kann yður þakkir fyrir, en þó eg hafi eigi nema tíu manns með mèr, þá hræðist eg eigi slíka flugumenn, enda þótt þeir væru tíu tigir manna; eg hefi þann vörð er dugir, því að guð er með mèr«. Ágúst konúngur var með her sinn suður í landi, bæði Saxa og Pólverja þá er honum vildi fylgja; var það allmikið lið, hèr um bil 30 þúsundir manna. En þó Pólverjar lètu tilleiðast að fylgja honum, gjörðu þeir það af litlum áhuga, því að þeir trúðu Ágústi eigi vel, og þóttust vita, að hann mundi ætla Karli nokkurn hluta ríkisins, en sjálfum sèr nokkurn, og koma þar síðan á einveldisstjórn. Karl var liðfærri en Ágúst, en þó leggur hann nú af stað frá Warschau og er 7. dag júlímán. kominn í nánd við bæ þann, er *Klissóv* heitir. Þar var Ágúst konúngur fyrir með allan sinn her, og hafði valið sèr gott vígi. Pólverjar voru sèr, og Saxar sèr, en fallbyssuliðið að baki þeirra; fyrir framan herinn rann lækur einn, og mýri beggja megin að honum, og mjög ilt yfir að fara. Karl vildi þegar leggja til orustu, en menn hans voru lángt að komnir og þreyttir, og töldu margir hið mesta óráð að berjast samdægurs. Karl var þó eigi á því, en Piper, ráðgjafi hans, sem jafnan var með honum, kvað sèr þykja bezt við eiga, að berjast eigi fyr en 9. júlí, þá væri afmælisdagur orustunnar við Düna, það væri heilladagur, og vel til fallið að vinna annan sigur þann dag. Á þetta ráð fèllst konúngur. Aðfaranótt hins 9. júlí (1702) tók herinn á sig náðir, en eigi

kom Karli dúr á auga þá nótt; svo var vígahugurinn mikill. Um miðjan morgun fylkti konúngur liði sínu, og var sjálfur fyrir hinum hægra fylkíngararmi; þar var og Rehnskjöld og fleiri af hershöfðíngjum hans, þó eigi sèu hèr nefndir. Fyrir vinstra fylkíngararminum var Friðrik hertogi af Holtsetalandi, mágur Karls, Otto Vellingk og fl. Fyrir fylkíngarbrjóstinu var Magnús Stenbokk og Knútur Posse. Karl sá þegar, að ófært mundi yfir lækinn að fara á þeim stað, sem Saxar voru hinum megin, hèlt því austur með honum og fram í það bil, sem autt var á milli Pólverja og Saxa; var það hið mesta snjallræði, því að á þann hátt skildi hann þá hvora frá öðrum; hann grunaði og, að Pólverjar mundu eigi standa svo fastir fyrir, og bauð því hertoganum, að veita þeim harða aðgöngu með öllu því liði, er hann var yfir skipaður. Hertoginn gjörði svo, en þegar í hinni fyrstu atlögu var hann skotinn til bana. Svíum fèllst eigi hugur fyrir það, þó þeir mistu foríngja sinn, og gengu djarflega fram, og svo fór, sem Karl grunaði, að Pólverjar stóðust eigi áhlaupið og lögðu á flótta. Nú voru Saxar einir eptir á móti Svíum, og börðust vasklega, og eggjaði Ágúst konúngur sína menn á marga vegu og hafði sig mjög í hættu; stóð orustan fullar fjórar stundir, og lauk svo að Saxar flýðu, en Svíar fengu sigur og herfáng mikið. Af Söxum fèllu 2000 manna, en þrjú hundruð af Svíum. Í herbúðum Saxa tóku Svíar meðal annars 500 kvenna; voru flestar þeirra látnar fara sína leið, en þær sem helztar þóttu, og af æðri stigum, voru leiddar til Karls, og mælti hann við þær á þesss leið: «eg hefi hèr hvorki gleðileika eða hljóðfæraslátt yður til dægrastyttíngar; þèr verðið því að leyfa, að eg sendi yður til Krakár og fái yður áreiðanlega fylgdarmenn þángað». Og svo var gjört.

Eptir orustuna við Klissóv flýði Ágúst suður í land, en Karl hèlt til Krakár. Það er stór borg og nafnkend við Weikselfljót suður undir Karpatafjöllum; þar voru víggirðíngar og setulið, en hvorigt í góðu lagi. Karl konúngur og Magnús Stenbokk riðu á undan liðinu með nokkra menn, og komu fyrstir að borgarhliðum; voru þar tvennar hurðir fyrir, hin ytri af trè, hin innri af járni. Stenbokk barði að dyrum og kvað, að upp skyldi ljúka, og borgin gefast á vald Svíakonúngi. Honum var svarað, að lyklar fyndust eigi. Stenbokk beiddist að fá höfuðs-

mann til viðtals, og kom hann að vörmu spori. Stenbokk sagði honum, að Svíar ættu ófrið við Ágúst einan, en alls eigi við Pólverja, hèr væri því engin hætta í að leyfa Svíum inngöngu í borgina. Höfuðsmaður færðist undan. Í því bar Karl þar að, og kallar hann þegar: «opnið hliðin»! Höfuðsmaður heyrði, að þetta var annars manns málrómur, vildi forvitnast um hver sá væri, og gægðist út. En í sama vetfángi ríður svipa Karls um höfuð honum. Manninum fèllust hendur, en þeir konúngur og Stenbokk hrundu upp hurðum og ruddust inn með sína menn. Varðmenn gáfust þegar upp, og höfuðsmaður flýði til hallarinnar, og ætlaði að verjast þaðan, en Karl elti hann og fylgdi svo fast á eptir með sína menn, að þeir urðu allir samferða inn um hallardyrnar. Borgin komst þannig orustulaust í hendur Svíakonúngi. Þessi atburður varð seinast í júlímánuði 1702.

Það yrði of lángt mál, að segja frá allri viðureign þeirra Karls og Ágústs á Pólverjalandi þessi árin. Karl hèlt sjaldan kyrru fyrir, hvort heldur á sumrum eða vetrum, og fór fram og aptur um landið, átti margar orustur, komst í margar mannraunir, og vann jafnan sigur. Pólverjar voru, eins og þeirra var venja, sundirþykkir sín í millum, voru stundum með Karli stundum í móti honum, töluðu margt en gjörðu fátt, og gátu aldrei orðið á eitt sáttir. Árið 1704 var eptir lánga mæðu lýst yfir því, að Ágúst hefði fyrirgjört konúngdómi. Margir vildu velja Karl tólfta til konúngs, en hann aftók það með öllu, og gaf Pólverjum það ráð, að gjöra eigi útlendan mann að konúngi. Var þá *Stanislás Leczinský* til konúngs kjörinn. Hann var pólskur maður, stórættaður, og vel að sèr um marga hluti, en lítið næði hafði hann í ríkisstjórn sinni fyrir Ágúst, og hans flokki, en hèlzt þó við meðan Karl var þar í landi, og var honum bæði sverð og skjöldur. Þess skal hèr getið, að einhverju sinni, meðan Karl var á ferðum sínum á Pólverjalandi, fèll hestur undir honum, særðist konúngur á andliti, og hinn vinstri lærleggur hans gekk í sundur. Menn hans urðu daprir við, en Karl mælti: «ekki sakar, slíkt grær skjótt». Eigi vildi hann halda kyrru fyrir að heldur, þó þetta hefði að borið, en lèt bera sig á börum, til þess að hann gæti fylgt hernum; áður 5 vikur voru liðnar frá beinbrotinu, lèt hann setja sig á bak; viku þar á eptir gekk hann við hækju, og þrem vikum síðar reið hann

það, sem hesturinn gat farið. Í janúar-mánuði 1706 hèlt Karl með nokkrar þúsundir manna austur yfir fljót það, er Niemen heitir (en Prússar kalla það Memel nú á dögum), og að borg þeirri, er Grodnó er nefnd. Þar var þá Ágúst fyrir og Rússar með 20 þúsundir manna; bauð Karl þeim til orustu, en þeir þorðu eigi að berjast. Borgin var ramlega víggirt og frostharkan mikil; sá Karl þegar, að hann mundi eigi fá tekið borgina, og lèt herinn fyrirberast þar í nágrenninu. Ágúst vissi, að Karl mundi hafa lítið lið eptir á Póllandi — enda var það svo, að þar voru eigi nema frekar 10,000 manna og Rehnskjöld yfirforíngi þeirra — vildi Ágúst eyða því liði, meðan Karl væri þar eystra, og fyrir því leynist hann með sína menn burt frá Grodnó og heldur sem hvatlegast vestur á Pólland, en gjörir *Schulenborg* orð, hershöfðíngja sínum, er þá var vestur á Þýzkalandi, að halda sem fljótast hann geti með það lið, er hjá honum sè, austur á Pólland, og fara í móti Rehnskjöld. En nú er að segja frá Rehnskjöld og hans mönnum. Hann fèkk pata af, að Ágúst væri á leiðinni austan með 15000 manna, en Schulenberg að vestan með 20,000. Hèr var Svíum hinn mesti háski búinn til beggja handa; næði herinn hvorratveggja að sameinast, þá var úti um Svía. Rehnskjöld var skjótur til ráða, og hèlt þegar móti Schulenborg. Þeir hittust við bæ þann, er *Fraustadt* heitir (3. febr. 1706), og fylktu hvorirtveggja liði sínu. Rehnskjöld sá skjótt, að hèr var við ærinn liðsmun að eiga, og þar til kom, að Schulenborg hafði 32 fallbyssur, en Svíar alls engar. Rehnskjöld segir því mönnum sínum, hèr sè alt undir því komið, að hið fyrsta áhlaup þeirra verði sem harðast. «Látum oss treysta guði, segir hann við riddara sína, og þá er eg kalla: *af baki!* hlaupið þá af hestum yðar, ráðið á fjandmenn vora og takið fallbyssur þeirra». Því næst gjörðu Svíar bæn sína og súngu, og fylkingar sigu saman. Rehnskjöld hafði auga á öllu, og í því hann sá, að menn Schulenborgs báru kyndla að fallbyssum, kallar hann hátt: «af baki drengir»! Skipti þetta engum togum; skotin riðu af, kúlurnar þutu yfir höfðum þeirra, og áður en reykinn lagði burt, vissu Saxar eigi fyr, en vopn Svía stóðu á þeim alla vega, og fallbyssur allar úr höndum þeim. Varð nú bardagi hinn harðasti, en svo lauk, að allur Saxaher flýði. Vann Rehnskjöld þar ágætan sigur, og fèkk hið mesta frægðarorð á

sig, bæði sökum þess, að hann átti við ærinn liðsmun að etja, að hann hafði margar fallbyssur móti sèr, en sjálfur engar, og, að það var Schulenborg, ágætur hershöfðingi, er hann sigraðist á.

Litlu síðar en orusta þessi varð, kom Ágúst austan og alt það lið, er honum fylgdi; en er hann frètti ófarir Schulenborgs, þorði hann eigi að leggja til orustu við Rehnskjöld, en hèlt suður til Krakár, og lèt þar fyrirberast að sinni.

Karl tólfti var um þessar mundir austur í landi, eins og fyr er ritað, fór þar um ýms hèröð, háði margar orustur og vann í öllum sigur. En er vora tók, hèlt hann vestur á Pólverjaland. Alstaðar þar sem hann kom, lèt hann landsfólkið sverja Stanislási hollustueiða, en jafnskjótt sem Karl sneri við bakinu og var kominn þaðan, brutu margir Pólverjar eiða sína, og gengu Ágústi til handa. Karl sá um síðir, að hèr mundi enginn endir á verða fyr en hann rèði á Saxland, og þröngvaði Ágústi sjálfum til að afsala sèr konúngdóm á Póllandi og játa konúngstign Stanislásar. Seint í Ágúst-mánuði 1706 hèlt Karl með 20,000 manna vestur yfir Óderfljót, og inn á Saxland og mætti hvergi mótstöðu, enda var Ágúst austur á Póllandi um þær mundir, en sem hann frèttir komu Karls til Saxlands, sendir hann menn á hans fund og beiðist friðar. Eptir nokkurt umtal komst svofeldur friður á í bæ þeim, er *Altranstadt* heitir (í sept. 1706): að Ágúst afsalaði sèr konúngdóm á Póllandi í hendur Stanislási, og hèt því, að hugsa aldregi þar til ríkis aptur, enda þótt Stanislás dæi á undan sèr. Enn fremr hèt Ágúst, að segjast úr sambandi við Czarinn á Rússlandi, láta sonu Jóhans Sobieskís lausa af varðhaldi, en selja Patkúll í hendur Karli, og fyrirgefa öllum þeim mönnum, er gengið hefðu úr þjónustu Ágústs til Svíakonungs, meðan ófriður stóð milli þeirra. Að öllum þessum kostum gekk Ágúst, en hafði þó eigi þrek eður djörfung til að segja Rússum frá sætt sinni við Karl tólfta, og barðist þess vegna og þó hálfnauðugt, austur á Póllandi með þeim við Svía, nokkrum vikum eptir friðargjörðina, og síðan ritaði hann Pètri Czar á þá leið, að hann hefði verið svikinn til friðar, enda sjálfur ætlað sèr að vèla Karl á þenna hátt, en halda, hvað sem öðru liði, öll sín orð við Czarinn, og koma næsta ár með her manns og ráða á Pólland. Það, sem hèr og að fram-

an hefir verið sagt af Ágúst öðrum, er að vísu eigi mikið, en þykir þó nægja til þess að sýna, hver maður hann var. Þegar Karl spurði þessar refjar, reiddist hann sem vonlegt var, og fyrir þá skuld varð Ágúst að þola það, að Karl settist að á Saxlandi vetrarlángt með allan sinn her; lögðust þá þúng útsvör á Saxa. Alþýðan bar þær álögur þó öllum vonum betur, því að hún var eigi góðu vön, og hins vegar undraðist hún Karl og alt hans háttalag, og siðprýði Svía; en aðalsmenn mögluðu undan útgjöldum, því að þeir voru þeim óvanir, báðu því Karl að hlífa sèr við þeim, og kváðust hafa gjört sitt til, er þeir hefðu gjört út riddaralið til herþjónustu. Karl svaraði þeim á þessa leið: «hvar eru riddarar þessir? ef þeir hefðu gjört skyldu sína, þá væri eg eigi híngað kominn. Þegar þèr eigið kost á að lifa við hirðina í glaumi og gleði, þá vantar yður eigi, þá kemur hver og einn aðalsmaður; en þegar þèr eigið að verja fósturjörð yðar, þá sitið þèr heima, hver sem höndum kemst undan. Þess vegna heimta eg útgjöldin fyrst og fremst af yður». Að þessu og öðru geðjaðist alþýðunni vel. Menn streymdu að úr öllum áttum til að sjá Karl tólfta, hinn sigursæla herkonúng. Menn báru þá saman, Ágúst í öllu skartinu, settan gulli og gimsteinum og dýrindis perlum, og Karl með reiðstígvèl á fótum, í skinnbuxum og bláum frakka viðhafnarlausum að öllu. Og mönnum þótti slíkur búningur sæma hinni nafnfrægu hetju bið bezta. Það jók og eigi lítið á vinsældir Karls þar í landi, að hann sýndi innilega lotningu öllu, er snerti minningu Lúthers og Gústafs Adolfs, þeirra tveggja manna, er Norður-Þjóðverjar höfðu mestar mætur á. Meðan Karl dvaldist á Saxlandi, fór hann til Lützen, og skoðaði vígvöllinn nákvæmlega. Þegar hann kom þar að, er Gústaf Adolf fèll, mælti hann: «eg hefi leitazt við að lifa sem hann; vera má, að guð veiti mèr af náð sinni, að deyja eins heiðarlega eins og hann». Svo sagði Karl, að eigi tryði hann því, að Gústaf Adolf hefði fallið af völdum hertogans af Láenborg. En því höfðu ýmsir menn trúað alt til þeirra daga. Karl kom og til Vittenbergs, og lèt sýna sèr legstað Lúthers. Þar voru í för með konúngi flestir háskólans kennendur, embættismenn margir og herforíngjar. En er þeir komu að legstaðnum stóð svo á, að sá tími fór í hönd, er Svíar voru vanir að halda kvöldbænir. Konúngur kraup á knèn og

baðst fyrir, og slíkt hið sama gjörðu hinir allir. Var það fögur stund við legstað hins mikla manns.

Þá er Karl fór vestur yfir Oderfljót, eins og áður er sagt, lá leið hans um Slesíu. Þar bjuggu margir þeir menn, er Lúthers trú fylgdu, en keisarinn af Austurríki rèð fyrir landinu og meinaði þeim að halda trú sína. Þessir menn komu til Karls og beiddu hann ásjár. Karl tók þeim vel og hèt þeim liðveizlu sinni í þeim efnum, bæði sökum þess, að hann fann sèr skylt, að vernda Lútherstrúarmenn, eins og fyrirrennarar hans og forfeður höfðu gjört, og líka hins vegna, að keisarinn hafði í ýmsum greinum gjört á hluta hans. Meðan hann dvaldist á Saxlandi, og eptir að friður var kominn á milli Svía og Saxa, sneri Karl sèr að málum þeim, er fóru í milli hans og keisarans (Jósef 1. 1705—1711). Það, sem þeim bar í milli, voru að vísu engi stórmæli, en þó svo, að nærri lá að vandræði mundu af hljótast, því að keisarinn vildi í engu vægja fyrir Karli. En Karl var svo skapi farinn, að honum stóð á sama hver í móti var, hvort heldur kotkarl eða keisari. Og þar kom þófi þessu, að Karl kvaðst albúinn að ráðast inn í lönd keisarans með 40 þúsundir manna og láta vopn skipta með þeim. Þá þorði keisarinn eigi að halda málunum lengra og lèt undan, en Karl hafði sitt fram í öllum greinum; þar á meðal það, að prótestantar í Slesíu fengu fult trúarfrelsi, en þar var um frekar 300 kirkjusóknir að gjöra, og sumir segja 1000. Sýna viðskipti þessi meðal annars, hvorn beyg menn hafa haft af Karli tólfta og Svíum á þeim tímum.

Nú hefir um hríð verið sagt frá viðskiptum Karls tólfta og Ágústs annars; hversu Karl elti hann land úr landi, lèt sèr um það eitt hugað, að svipta hann konúngstign og völdum á Pólverjalandi, og fèkk því loksins til leiðar komið, að Ágúst afsalaði sèr þar konúngdóm, en Stanislás Lezinský tók við. En meðan þau tíðindi gjörðust á Póllandi og Saxlandi, urðu þeir viðburðir með mönnum í löndum Svía austan Eystrasalts (á Líflandi, Estlandi, Ingermanlandi og Finnlandi), er í engu eru miður merkilegir. Það er viðureign Rússa og Svía þar eystra. Þá er Karl tólfti fór af Líflandi (1701) og suður á Pólland, lèt hann eptir herflokka, smærri, og stærri, í skattlöndum þeim, er nú voru nefnd, til varnar móti Rússum. Eptir orustuna við Narva voru Rússar að vísu lamaðir, og meðan þeir vissu af Karli Svíakonúngi í

nánd við sig, þorðu þeir sig hvergi að hræra, en eptir því sem hann fjarlægðist þá, og tíminn leið, eptir því óx þeim smámsaman djörfung og dugur. Þó hefðu þeir af sjálfsdáðum engu til leiðar komið, ef þeir hefðu eigi haft yfir sèr Pètur Czar, þann mann, er með óþreytandi orku og hörku knúði þá fram til stórræða og sigurs, og sem þar á ofan sýndi í öllu, að hann var hinn hygnasti maður og slægvitrasti, og beitti öllum brögðum til þess að ná því marki og miði, er hann hafði sèr fyrir sjónir sett. En það var, að umskapa Rússland, hefja það upp úr þeirri niðurlægingu, sem það hafði áður í verið, og gjöra það að miklu og sterku stórveldi. Til þess þurfti hann fyrst og fremst að ná þeim löndum, er Svíar áttu fyrir austan hafið, svo að Rússar ættu þar greiðan veg til viðskipta við aðrar Norðurálfuþjóðir. Alt til þessa náðu Rússar til sjávar að eins norður við Gandvík; þar áttu þeir eina borg sem teljandi er, Arkangel; þángað var sigling af Englandi og Hollandi, en þó mörgum erfiðleikum bundin, og lítils arðs þaðan að vænta fyrir Rússa.

Þess var áður getið, að Karl tólfti hefði látið eptir í skattlöndum sínum við Eystrasalt nokkra herflokka. Það var að vísu svo, en það lið var mikils til of lítið til þess að mæta árásum Pèturs og öllu því ofurefli, er hann hafði á að skipa. Það er lítill efi á því, að sá liðsmunur var svo mikill, að ef Pètur hefði viljað, þá gat hann á einu eður tveim árum sigrazt á hinum fámennu herflokkum Svía á Líflandi, Est- og Ingermanlandi, og brotið þau lönd undir sig. En Czarinn var hygnari en svo, að hann gjörði það. Hann leit svo á þetta mál: taki eg lönd þessi svo að kalla í einu vetfángi, þá þykir Karli svo mikið að gjört, að hann snýr burt af Póllandi til þess að vinna þau aptur, og þá er óvíst hvernig fara kann; vinni eg þau þar á móti smámsaman, gefur hann því minni gaum. Á hinn bóginn beitti Pètur allri sinni slægvizku til þess að fjarlægja Karl sem mest frá Rússlandi, og gjöra alt sem flóknast og lángvinnast í viðureign hans og Ágústs. Hann lèt Ágúst hvorki skorta menn nè fè til mótspyrnu gegn Karli. Pètur þekti skaplyndi Karls, og kunni vel að færa sèr í nyt þrályndi hans og ofdirfð. Samkvæmt þessu hagaði Czarinn allri viðureign sinni við Svía. Hann sá um það, að hafa jafnan margfalt meira lið en Svíar höfðu, hvar sem fundum þeirra bar saman, fara með hægð og taka

eina og eina borg frá þeim á ári, og láta Rússa þannig venjast Svíum og vopnaviðskiptum við þá. Árið 1702 unnu Rússar sigur á Svíum í orustu við Sagniz; Svíar voru um 6 eða 8 þúsundir, en Rússar milli 50—90 þúsundir manna. Eptir þá orustu var Lífland að kalla komið alt í hendur Rússum. Þegar Karli bárust þessi tíðindi, litlu eptir bardagann við Klissóv, rèðu margir honum að bregða við þegar og bjarga Líflandi, en til þess var hann ófáanlegur. Svíar á Líflandi, og annarstaðar þar norður, urðu að una því og búa við það, er þeir höfðu, og fengu aldrei styrk svo teljandi sè, hvorki frá Karli konúngi þeirra, eða heiman af Svíþjóð. Alt um það vörðust þeir svo ágætlega, og gjörðu Rússum einatt svo harðkeyptan siguriun, að mönnum getur eigi annað en komið til hugar vörn Leónídasar í Laugaskarði, eða Ólafs Tryggvasonar í Svoldarorustu. En hèr sannaðist hið fornkveðna: að engi má við margnum, og þar kom að lyktum, að Svíar þar eystra urðu alls staðar ofurliði bornir.

Þegar Pètur Czar var orðinn yfirsterkari á Líflandi, lagði hann á það alt kapp, að vinna lönd þau, er liggja að Ladógavatni og Neva-fljóti. Ladóga er, eins og menn vita, afarmikið stöðuvatn vestan á Rússlandi; affallið eða fljótið, sem úr Ladóga rennur vestur í Finnlandsflóa, heitir Neva; er það vatnsmikið, en eigi nema 9 mílur á lengd. Þar sem Neva rennur úr vatninu er ey ein lítil, og hèt Nöteborg, meðan Svíar áttu þar yfir að ráða; áttu Svíar kastala allsterkan á eynni, og höfðu þar jafnan lið til varnar; þó var það lið, þegar hèr var komið, eigi nema 400 manna, en þótti nægja til þess, að verja inn- og útsiglingu úr Ladóga-vatni. Nokkru neðar eða vestar með Nevafljótinu, og skamt þaðan sem það rennur í Finnlandsflóa, kemur á ein norðan af Finnlandi sem Okta heitir og rennur í Neva. Þar sem vötn þessi koma saman, höfðu Svíar sett kastala, og þar umhverfis kastalann hafði smámsaman myndazt bær einn, eigi all-lítill. Þann bæ kölluðu Svíar Nyen eða Nyenskans. Af þessu er þá auðsætt, að Nöteborg og Nyenskans voru sem tveir verðir sinn við hvorn endann á Neva; en Neva sú lífæð, er verzlunin streymdi um austur á Rússland og vestur þaðan aptur sama veg til sjávar. Þessari æð vildi Pètur ná fyrir hvern mun. Um haustið 1702 settist hann með 14000 manns um Nöteborg, og sótti hana af miklum ákafa. Svíar voru þar fá-

mennir fyrir, eins og áður er sagt, en vörðust af dæmafárri hreysti þángað til að eigi stóðu uppi nema nokkrir menn, þá gáfust þeir upp, en Rússar settust í kastalann. Pètri fanst mikið um að hafa náð Nöteborg, og sagði sem satt var, að þar hefði hann lykilinn að Ladoga, Neva, Finnlandsflóa og Ingermanlandi, fyrir því skyldi það ekki lengur heita Nöteborg, heldur Schlüsselburg þ. e. Lykilborg. Um veturinn eptir (í marzmánuði 1703) kom Pètur með liði miklu og settist um Nyenskans, og fór alt á sömu leið og fyr við Nöteborg, að Svíar vörðust þar meðan þess var kostur, en þeim kom engin hjálp, og Pètur vann kastalann 4. dag maímánaðar sama árið. Nú gat hann ráðið ferðum sínum upp og niður eptir Neva, og gatan greið til sjávar. Nú var að tryggja leiðina, halda því sem unnið var, og nú kom honum til hugar, að setja þar traustar varnir, koma þar upp verzlunarstað, og, ef svo vildi verkast, setjast þar sjálfur að, og gjöra þar höfuðborg í ríki sínu. Menn gáfu honum það ráð, að velja Nyen til borgarstæðis, en Pètur fèllst eigi á það. Hann vildi heldur velja til þess hólma þá, er voru þar lítið eitt vestar í Nevu mynni. Þeir voru láglendir, hrísi vaxnir og mýrlendir, og að kalla óbygðir. Þetta leizt mörgum mjög erfitt og jafnvel óvinnandi, en Pètur var, þegar því var að skipta, ósveigjanlegur eins og Karl tólfti, og það varð fram að fara, sem hann vildi, hvað sem aðrir sögðu. Fjórða dag maí-mán. vann Pètur Nyenskans; 17. maí var fyrsti steinninn lagður til Pètursborgar á einum af áðursögðum hólmum; grjótið fèkk hann, meðan það til entist, frá Nyenskans, og lèt rífa þar alla múrveggi niður til grunna; en verkamenn tók hann úr öllum nálægum sveitum til þessa starfa, mörgum þúsundum saman, hvort sem þeim var ljúft eða leitt, sagði sjálfur fyrir verkum, og leit eptir öllu með dæmalausum dugnaði og hörku. Lítið eitt vestur af hólmum þeim, sem borgin var reist á, er ey ein, sem hèt Retúsari, þángað setti Pètur 2000 manna til varnar móti Svíum, ef þeir kæmu til að banna honum húsagjörðina. Þar heitir nú Kronstadt. En Pètur þóttist eigi óhultur að heldur; þess vegna fór hann sjálfur og stikaði djúpið umhverfis eyna og fann grynníngar suður af henni; þángað lèt hann flytja grjót og hleypa þar niður, og gjöra þar afarsterkan kastala, með þremur fallbyssuröðum, hverri upp af annari; sá kastali heitir Kronslott,

og ver innsiglíngu til Pètursborgar. Það er mælt, að 100000 manna hafi mist lífið við öll þessi miklu störf, alla þessa stórkostlegu borgargjörð Pèturs Czars. Þegar hann þóttist nú hafa svo umbúizt sem hann vildi á þeim stöðvum, þá lèt hann í minníngu þess smíða peníng; á honum var mynd sjávargoðsins (Neptúns), þar sem hann ekur vagni sínum á öldum hafsins með þríforkinn í hendi, og yfir stóðu þessi orð: fInnIa eCCe trIDenteM þ. e. Finnland, sjáðu þríforkinn[1].

Sænska stjórnin í Stokkhólmi sendi að vísu optar en einu sinni nokkur herskip austur í Finnlandsflóa til þess að eyða þessum nývirkjum Czarsins, en allar slíkar tilraunir urðu árángurslausar, því að liðsafli sá, er Svíar sendu, reyndist jafnan of lítill, og samvinna land- og sjóliðsins miklu miður en vera skyldi. Árin 1701 til 1705 unnu Rússar þannig flest þau lönd, er Svíar áttu fyrir austan haf, og komu sèr þar að auki upp allmiklum herskipaflota. En menn munu spyrja: hvað olli því, að nægur liðsafli var eigi sendur frá Svíþjóð löndum þessum til varnar móti Rússum? Þar til má svara, að til þess þurfti konúngsleyfi, en hann skipaði með harðri hendi, að senda sèr suður á Pólland hvern vopnfæran mann, er missast mátti að heiman; þessari skipun urðu menn að hlýða í Stokkhólmi, og höfðu því eigi meira lið aflögu, er sent yrði í austurveg. En þó allir beiddu konúng og rèðu honum, að fara sjálfum með því liði, er hann hafði, og berja á Rússum, þá vildi hann það með engu móti, eins og fyr er sagt; þess vegna kom engin hjálp, og þess vegna gátu Rússar unnið þau lönd, sem þeir unnu við Finnlandsflóa, og búið þar um sig í næði.

Þegar Karl tólfti fór suður á Pólland (1702) lèt hann nokkurt lið verða eptir til landvarnar á Kúrlandi og í Ríga. Fyrir því liði var sá maður, er Stúart hèt. En af því að hann hafði orðið sár, þá er Karl gjörði landgöngu á Sjálandi, og varð aldrei heill síðan, þá fèkk sá maður herstjórnina í hendur, er *Levenhaupt* hèt. Hann hafði á ýngri árum iðkað vísindi í ýmsum háskólum bæði í Svíþjóð og á Þýzkalandi, gjörzt síðan hermaður og verið í orustum bæði á Niðurlöndum og Úngverjalandi, og jafnan reynzt vel. Jafnskjótt sem Karl konúngur var farinn suður, komu Rússar og Pólverjar þeir, er með Ágúst stóðu, og

1) Upphafsstafirnir MDCCIII sýna ártalið 1703.

gjörðu Svíum árásir, en Levenhaupt rak þá jafnan af höndum sèr. Þá var það einu sinni (í marzmán. 1703), að Svíar vildu ná vígi einu, er Birze heitir, og verða fyrri til en óvinir þeirra. En er Levenhaupt kemur þángað, eru hinir komnir þar fyrir með rúmar 6 þúsundir manna. Levenhaupt hafði að eins 1300 manns, sèr, að hèr er við ofurefli að eiga, og heldur undan, en hinir á eptir og ná Svíum; er þá enginn annar kostur en að berjast. En svo fóru leikar með þeim, að Levenhaupt fèkk sigur, en hinir flýðu og lètu margt manna. Árið eptir (1704) komu Rússar og Pólverjar og voru 16000 manna. Svíar höfðu einar 6000; þó heldur Levenhaupt þegar í móti, og hittir þá við bæ þann, er *Jakobstað* heitir. Þar var í liði með Svíum pólskur höfðíngi, er Sapieha hèt, með sína menn. Litlu áður en orustan tókst, riðu þeir Levenhaupt og Sapieha á hól einn, og litu yfir lið fjandmanna sinna. »Þetta er mikið lið«, mælti Sapieha. »Drottins lið er þó enn meira«, svaraði Levenhaupt. »Hvað ætlið þèr nú að gjöra?« segir Sapieha. »Það skal eg segja yður, þá er eg hefi fylkt liði mínu«, svaraði Levenhaupt. »Hvar skulu mínir menn standa?« mælti Sapieha. »Að baki oss Svíum«, mælti hinn. »En er orustan er úti og sigur unninn með guðs hjálp, þá skulu riddarar yðrir ríða fram og reka flóttann, til þess eru þeir vel fallnir, því að þeir eru lèttari á sèr en vorir riddarar«. Þessu næst fylkir Levenhaupt liðinu og lætur blása til atlögu; segir mönnum, að skjóta eigi fyr en hann skipi þeim, en ganga fram og hafa byssurnar á reiðum höndum og vera viðbúnir, hve nær sem kallið komi. Nú kváðu við fallbyssurnar, og flýðu þá Pólverjar hópum saman úr liði hvorutveggja. En er Svíar sáu það, vildu margir þeirra fram hlaupa og sögðu: »leyfið oss, hershöfðíngi, að hlaupa á Rússa!« Levenhaupt svaraði: »nei, börn mín góð, eigi enn! haldið svo fram stefnunni í rèttri röð. Þèr skuluð fá leyfið, þegar stundin er komin!« Í því skutu Rússar, en skotfærið var of lángt, og gjörðu kúlurnar Svíum lítinn skaða. Þeir svöruðu engu og gengu þegjandi sem fyr. Þá kallar Levenhaupt. »Skjótið nú drengir! og áfram!« Og óðar en orðin voru töluð, þaut skot fram úr hvers manns byssu. Varð reykurinn svo mikill að ekki sást. En er af lètti reyknum, voru Rússar á flótta, en vígvöllurinn þakinn mannabúkum og vopnum. Hinir pólsku riddarar í liði Levenhaupts riðu nú fram og ráku flótt-

inn og drápu margan mann. Í orustu þessari misti Levenhaupt að eins nokkra menn, en af Rússum féllu 3000 manna. Svíar fengu þar mikið herfáng, og þótti þetta hinn frægasti sigur.

Þegar Pètur Czar heyrði þessi tíðindi, varð hann ákaflega reiður, og kvaðst launa skyldu Svíum. Tekur það því til bragðs, að hann sendir *Scheremetiew*, bezta hershöfðingja sinn, með 20000 manna til Kúrlands. Var sú fyrirætlun Rússa, að fara mjög dult og koma á óvart Levenhaupt; þótti þeim sem þeir mundu nú hafa ráð hans í hendi sèr. En Levenhaupt komu njósnir, og hafði allan þann viðbúnað, er hann kunni. Sextánda dag júlímánaðar 1705 nam hann staðar við þorp eitt, er *Gemauerthoff* heitir, og beið þar Rússa. Þá er leið fram um hádegi komu Rússar. Levenhaupt fylkti liði sínu, eggjaði menn til drengilegrar framgöngu og sagði meðal annars. »Mèr er sagt, að Rússar og Tartarar sèu hèr komnir, 20,000 manna, að berjast við oss. Vèr erum eigi nema 7000, og er hèr að vísu ærinn liðsmunur. En minnizt þess hvernig fór við Narva. Gángið djarflega fram drengir, og gleymið eigi, að þèr eruð Svíar, en þeir eru Rússar!« Svíar lásu síðan bæn sína og súngu vers á eptir, sem þeirra var venja, og því næst tókst orustan. Var nú barizt lengi dags af miklum ákafa. Er svo sagt, að þá hafi Levenhaupt sýnt til fulls hver hershöfðíngi hann var, enda urðu þær lyktir á, að hann vann sigur, en Scheremetiew varð sár og flýði undan með sína menn, en fallnar af honum áður 6000. Svíar mistu 1500 manns, en fengu þar mikið herfáng.

Nú þótti Pètri versna sagan, vildi þó eigi hætta við svo búið, og býst nú að senda 40,000 manna til Kúrlands. Leggur herinn af stað og fer um nætur en hvílist um daga, svo að sem sízt skuli fara njósnir af. En Levenhaupt grunaði hvað verða mundi og var við öllu búinn. Hann dróg því að sèr alt það lið, er til varð náð, heldur til Ríga og býst þar fyrir, en borgin var rammlega víggirt, og var honum það hinn mesti styrkur. En sem Rússar koma og sjá, hversu Levenhaupt hefir um búizt, þótti þeim eigi ráð að freista atlögunnar, og snera frá við svo búið. Það er sagt, að Pètur sæti að miðdegisverði er honum komu þessi tíðindi. Reiddist hann þá og mælti: »þetta hefir djöfullinn kent honum!« og kastaði hnífnum eptir borðunum endilöngum.

Það, sem hèr að framan er sagt, sýnir, að Levenhaupt tókst að verja Kúrland og Ríga, og þær sveitir þar um kríng, er hann var yfir skipaður, um fjögra ára tíma (1702—1705), móti ofurefli liðs, svo að Rússar fengu þar eigi á unnið, og má af slíku marka, hver afbragðsmaður hann hefir verið. Er eigi ólíklegt, að öðruvísi mundi farið hafa en raun varð á, ef Karl tólfti hefði sett hann, eður hans jafníngja, yfir alt það lið, er verja átti löndin meðfram Finnlandsflóa.

Á öndverðu ári 1706 hèlt Karl konúngur, eins og áður er sagt, austur til Groðno, og fór þá aptur og fram um Litháen (Lithaugaland). Það er suður af Kúrlandi. Urðu Rússar þá skelkaðir og hugðu, að þeir mundu kvíaðir verða milli Karls og Levenhaupts, og fyrir því hèldu þeir sem hraðast austur á Rússland, til Smólensk og Kiew. En er Levenhaupt var laus orðinn við návist þeirra, rèð hann einn öllu á Kúrlandi og í þeim sveitum, er þar liggja næstar, og þó að Rússar gjörðu honum ýmsar glettíngar, bar hann sem áður jafnan hærra hlut í þeim viðskiptum.

Nú er að segja frá Karli tólfta, að hann hafði lokið störfum sínum á Saxlandi, og þóttust menn þá vita, að hann mundi halda til Rússlands og hefna alls þess yfirgángs og ójafnaðar, er Pètur Czar hafði aðhafzt í löndum Svía þar austur. Pètur vissi vel hvað Karli leið, varð mjög áhyggjufullur um sín efni, og leitaði friðar við Karl á ýmsa vegu. Það var í þeim erindum, að einn frakkneskur sendiboði átti tal við Karl og mæltist til, að friður gæti komizt á. Karl svaraði: »Pètri er þetta engin alvara. Hann vill telja mönnum trú um, að það sè *hann* sem æskir friðar, en *eg*, sem æski ófriðar. Væri honum svo ant um friðinn sem hann segir, þá lèti hann af, að æsa Pólverja móti Stanislási. Enginn má því ætla, að eg hyggi á frið, fyr en eg er kominn með mína menn í nánd við Czarinn, og mèr er orðið kunnugra en nú um alt hans athæfi«. Litlu síðar kom sá hinn sami maður aptur að máli við Karl um þetta efni. Konúngur mælti þá: »það er eigi að trúa því sem Czarinn segir. Hann hefir fyrir skemstu fengið Mensikov Ingermanland að lèni og sagt, að gánga skyldi í erfðir, og bendir slíkt eigi til friðar.« »Eg hygg þó«, segir hinn frakkneski maður, »að Czarinn vildi kaupa Ingermanland við ærnu verði«. Karl mælti: »Eg hefi

aldrei ætlað mèr að selja öðrum þegna mína«. Og fèll það tal svo niður. Ýmsir aðrir málsmetandi menn freistuðu og um þessar mundir, að telja Karl á friðinn, og þar á meðal var Píper, ráðgjafi hans, er jafnan mátti sèr mikils hjá konúngi, og að maklegleikum, því að Píper var stórvitur maður og honum hinn trúasti. En allar þær fortölur urðu árángurslausar. Karl sagði meðal annars: »Eg hefi hugsað þetta alt, sem þèr segið. En eg veit við hverja eg á. Eg æski friðar, og guð gæfi, að friður fengist og hann góður! En getið þèr ábyrgzt, að fjendur vorir efni orð sín eins og eg? Czarinn hefir það til, að gánga að öllum þeim kostum, er eg set honum; en jafnskjótt sem eg er kominn heim til Svíþjóðar með mína menn, þá kveikir hann af nýju óeirðir á Póllandi, og setur Ágúst eða einhvern annan þar til ríkis«. Og við Stanislás konúng sagði Karl: »Eg bið yður hugsa til orða minna: þèr fáið aldrei að sitja í friði á Póllandi, meðan þessi rángláti Czar er nágranni yðar, hann, sem byrjar ófrið án allra saka. Það ber því brýn nauðsyn til, að eg fari hèðan og reki einnig hann frá ríkjum«. Þetta sýnir, hvernig Karl leit á málin og hvað honum bjó í skapi. Hershöfðíngjar hans og þeir aðrir, sem helzt áttu hèr hlut að máli, þóttust sannfærðir um, að konúngur mundi sem allra fyrst ætla sèr austur á Rússland í móti Czarnum, en hitt vissi enginn, hverja leið hann mundi fara, eða á hvern hátt hann mundi haga austurför sinni og aðgjörðum öllum. Konúngur var nú sem jafnan fámæltur, og gjörði það eigi uppskátt fyrir neinum, hvað honum bjó í brjósti; en það sáu menn, að áhyggjur hafði hann miklar og venju fremur. Mönnum hans sagði þungt hugur um fyrirætlan þessa, og gjörðust margir meðal þeirra heimfúsir, og sumir fengu heimfararleyfi, þar á meðal Magnús Stenbokk, og nokkrir aðrir hershöfðíngjar. Pípir beiddist og að fara til Svíþjóðar, en konúngur kvaðst eigi án hans mega vera, og varð hann því eptir hjá konúngi.

Um haustið 1707 fór Karl af Saxlandi, eins og fyr er sagt, austur á Pólland, dvaldist þar nokkrar vikur, en hèlt svo þaðan um nýársleyti 1708 austur á Litháen. Þar voru skógar miklir, vegleysur og ilt yfirferðar og veðurátt hörð; lá konúngur einatt úti undir berum himni og lið hans alt; fórust þá bæði menn og hestar af kulda og illri aðbúð; en þó var það verst að lands-

menn sýndu af sèr fullan fjandskap, leyndust í skógunum og skutu margan mann af Svíum til bana. Karl fór fyrst að þeim með blíðu, en er það dugði eigi, lèt hann elta þá víðs vegar og skjóta sem villudýr. Nú sem Pètur frèttir til ferða Svíanna, heldur hann með 9000 manna til Grodnó, og vill verja Svíum leið austur yfir Niemen. Karl var á undan liði sínu með 800 riddara og brýzt yfir fljótið, tekur Grodnó, en Rússar flýja austur á land. Það var þó lángt frá Pètri að láta hug fallast, en hann fyltist heiptarhug í móti, og lèt á allar lendir eyðileggja Líf-, Est- og Ingerman-land; væri nokkur mótþrói sýndur, lèt hann drepa landsfólkið sem fènað, eða flytja það þúsundum saman lángar leiðir austur á Rússland; en Pètursborg lèt hann þar á móti víggirða sem bezt, en meðfram auka hana og prýða á marga vegu. Það var eins og það legðist í Czarinn, að þar mætti hann óhultur vera fyrir Svíum, þángað mundi Karl aldrei koma.

Af því sem áður er sagt, virðist alt lúta að því, að Karl hafi einsett sèr að reka Pètur Czar frá ríkjum, eins og hann hafði gjört við Ágúst annan. En til þess þurfti Karl að taka Moskva, höfuðborg ríkisins; að vinna þá borg var að koma við hjartað í Rússum. En þá var spurn, hverja leið skyldi þángað halda. Það mátti fara þrjár leiðir: um Nóvgoroð, um Smólensk, og um Ukrain-sveitir, og var sú syðst. Karl hafði, þegar hèr var komið, eigi af ráðið, hverja leiðina skyldi fara. En þá komu þau atvik, er leiddu hann til þess að fara syðstu leiðina, um Ukraine, og skal þess nú getið.

Sveitir þær, sem lágu suður af Litháen, niður með Dnieprfljóti beggja megin, voru um þessar mundir nefndar *Ukraine*[1] einu nafni. Nú heitir þar Litla-Rússland. Þar voru landskostir góðir, en landið fremur illa ræktað. Íbúar voru litlir akuryrkjumenn, en lifðu af kvikfjárrækt, og þó einna helzt af ránum og rupli, og fyrir því voru þeir nefndir *Kósakkar*, sem þýðir: úthlaupsmenn eða ræningjar. Höfuðsmaður þeirra um þessar

1) Orðið *Ukraine* táknar land, sem liggur á landamærum; enda lá Rússland, Tyrkland og Pólland umhverfis það. Meiri hluti þess var Rússum háður, en nokkur hluti Pólverjum. Síðar komst alt Ukraine undir Rússa, og er nú skipt í 4 fylki: Kijev, Tschernigov, Pultava og Charkov.

mundir hèt *Mazeppa*. Hann var missáttur orðinn við Pètur Czar, því að Czarinn hafði látið sèr um munn fara, að hann mundi takmarka frelsi Kósakka og yfirráð Mazeppu. Gjörir því Mazeppa sèr ferð á fund Karls konúngs, og býður honum liðveizlu sína móti Pètri, og segir svo, að jafnskjótt sem Karl sè kominn austur yfir stórárnar Dniepr og Desna, þá skuli hann drepa alla rússneska menn í Ukraine, og koma síðan til liðs við konúng með 20 eða 30 þúsundir Kósakka. Karl gaf þessu reyndar lítinn gaum, því að hann treysti eigi Kósökkum nema í meðallagi, en þó hugleiddi hann þetta mál. Um sama leyti komu og sendimenn frá Tyrklandi til Karls með þeim skilaboðum frá Soldáni, að hann bauð að senda konúngi lið til styrktar, þegar er Karl væri kominn í Suður-Rússland með her sinn. Leizt konúngi betur á loforð og liðveizlu Soldáns en hitt, er Mazeppa hafði heitið honum. Það var þessi von um liðveizlu Tyrkja og Kósakka, sem einkum kom Karli tólfta til þess, að halda liði sínu suður á Ukraine, þrátt fyrir það þó bæði Píper og aðrir helztu menn rèðu honum sterklega frá því, að fjarlægast svo mjög frá skattlöndum sínum við Eystrasalt. Eptir þetta lagði Svíaher upp og stefndi suður og austur í land. Varð þá bráðum fyrir þeim fljót það, er Berezina heitir, allmikið vatnsfall (50 faðma á breidd þar sem Svíar komu að því); það rennur suður í Dniepr og er síðan orðið mjög nafnkent af óförum Napóleons keisara í nóvembermán. 1812. Þar höfðu nú Rússar fyrirsát og gjörðu Svíum mótstöðu, en urðu undan að hörfa, og Svíar komust yfir fljótið. En mjög gjörðist nú leiðin þeim torsótt, því að alls staðar voru smærri og stærri hópar fyrir af Rússum, er öllum vegum spiltu, brutu allar brýr, eyddu vistum, brendu bæi, svo að hvergi fanst hæli fyrir veðrum og vindi, og jafnvel sumstaðar engin björg handa hestum Svía; færu Svíar eigi fjölmennir og í fylkíngum saman, þá skutust Rússar að, og gjörðu þeim meiri eður minni mannskaða. Leiðin sóttist því ákaflega seint, en Svíar lètu eigi hug fallast, sigruðu allar þrautir, og hèldu þannig áfram ferðinni þar til þeir komu í endalok júnímánaðar að þorpi einu, er *Holofsin* heitir.

Nú var um þessar mundir margt ískyggilegt á Rússlandi. Menn voru þar mjög óánægðir með ýmsar aðgjörðir Pèturs; menn kvörtuðu undan sköttum og herkvöðum og ýmsri nýbreytni

er hann leiddi þar í lög; urðu því víða uppblaup þar í landi. En ofan á þetta bættist almennur ótti fyrir Svíum og konúngi þeirra, er menn vissu, að komnir voru í landið með hefndarhug, og svo hraustir og harðfengir, að ekki hèlzt við þeim. Pètur sendi því enn að nýju á fund Karls og leitaði um sættir, en það fór sem fyrri; menn gátu eigi orðið á eitt sáttir, og Karl lyktaði tal sitt við sendiboðann með svo feldum orðum: »berið Czarnum kveðju mína og segið honum, að eg skal semja frið við hann þá er eg kem til Moskva«. En er Pètri komu þau orð mælti hann: »Karl bróðir minn vill vera Alexander, en eg ætla mèr ekki að vera Darius«.

Lítið eitt fyrir austan Berezina rennur fljót eitt er Drúsa heitir og suður í Dniepr. En í Drúsa kemur að austan á sú, er *Vabis*[1] heitir. Á vestari bakka Vabis er bær einn lítill, er *Holofsin* heitir. Þángað kom Karl 28. júní, að kvöldi dags. Þar voru Rússar fyrir með 25000 manna, og höfðíngjar fyrir því liði þeir Mensikov og Scheremetiev. Þegar Karl kom, hèldu þeir liðinu öllu austur yfir Vabis og bjuggust að verja Svíum yfir ána. Karl var, eins og hann var vanur, lángt á undan liði sínu með fáa menn, og sá sèr eigi fært að svo stöddu, að fara yfir ána og ráða á Rússa, en litaðist þar um og setti vel á sig landslagið. Rússar voru upp og niður með ánni; en skógarnef eitt, er framgekk að ánni að austanverðu, skildi herinn í tvent, og þar að auki var mýri, bæði meðfram skógarnefinu og svo fram með ánni, mjög ill yfirferðar. Fyrir handan þá mýri stóðu Rússar og höfðu hlaðið sèr skotgarða til skýlis. Yfir alt þetta, ána, mýrina og girðíngarnar, áttu Svíar að sækja, og voru það eigi alllitlar torfærur. Þriðja dag júlímán. komu um síðir 4000 Svía til Holofsín. Vildu hershöfðíngjar Karls að beðið væri eptir megin hernum, en Karl þóttist nú hafa nógan styrk, og sagði mönnum sínum að búast þegar við bardaga næsta dag. Um nóttina lèt hann í mesta kyrþey færa fallbyssur sínar fram á árbakkann beint þar í móti, sem millibilið var hinum megin milli beggja hinna rússnesku herflokka, því að þar ætlaði hann sèr yfir ána, og komast á milli þeirra, og færa sèr í nyt þá yfirsjón, sem þeim Mensikov hafði á orðið, að tvískipta liðinu. Þegar í apt-

1) Nefnist og Babiek og Bibiz.

ureldíng næsta dag (4. júlí) laust á illviðri með stormi og regni, en Karl lèt það eigi aptra förinni, og fallbyssur hans kváðu þegar við; hopuðu Rússar þá á hæl, er þar stóðu fyrir, en Karl óð út í ána og menn hans þegar á eptir; áin var djúp svo að vatnið tók þeim undir hendur, hèldu þeir vopnum sínum ofan vatns, eptir því sem unt var og óðu þannig yfir. Nú varð mýrin fyrir þeim. Konúngur lagði einnig fyrstur út á hana, og svo hver af öðrum, sukku þeir þar djúpt í, og er þeir komust yfir þau fen og forðð, voru þeir leðja ein utan klæða, en þó var það verst, að púðrið hafði alt vöknað, svo eigi var hugsandi til að hleypa af einu einasta skoti. Þetta grunaði konúng, og kallar hann þá, og lætur berast til manna sinna: »drengir! sá er skelmir sem skýtur!« Þessu var dyggilega fylgt. Rússar skutu þegar, en miðuðu illa og hittu fáa menn; Svíar ruddust á garðana, og lètu vopnin ríða á Rússum; varð áhlaup þeirra svo hart, að hinir stóðust eigi og hopuðu fyrir; þó vörðust þeir nokkra hríð, en snerust um síðir á flótta. Þetta var nú sá hluti Rússahers, hèr um bil 12000, er neðar stóð með ánni, eða hinn vinstri fylkíngararmur þeirra. Hinn hluti liðsins er ofar stóð með ánni, gat eigi komið þessum til liðs, því að mýrin, og skothríðin frá fallbyssum Svía, bannaði það. Og sem Rússar í hægra fylkíngararmi sáu ófarir og flótta hinna, þá flýðu þeir einnig, og þannig var sigurinn við Holofsin unninn. Litlu síðar kom Pètur Czar til manna sinna, og þegar hann frètti að 12000 þeirra hefðu barizt við 4000 Svía, og þó veitt nokkurt viðnám, varð hann glaður og lofaði hreysti þeirra og hugprýði; en til þess að auka þessa kosti enn meir, þá lèt hann leiða fram fyrir sig alla þá, sem sár höfðu á baki og skjóta hvern sjötta mann, og þannig voru 64 af mönnum hans drepnir.

Eptir orustuna við Holofsín hafði Karl þar litla viðdvöl, en hèlt þaðan austur að Dniepr-fljóti og yfir um það hjá borg þeirri, er Mohilev heitir. Dniepr er ein af stóránum á Rússlandi, því að mörg vötn og mikil renna í hana; er hún um 260 mílur á lengd og fellur suður í Svartahaf. Þegar komið var austur yfir Dniepr lètu Svíar þar fyrirberast nokkrar vikur, því að konúngur hafði svo ráð fyrir gjört, að Levenhaupt skyldi koma að norðan með það lið, er hann hafði, og sameinast meginhernum; sömuleiðis hafði konúngur gjört Mazeppa orð, að koma að sunnan

með Kosakka herinn. En hvorigur þeirra kom. Þá leiddist Karli biðin, og hèlt af stað suður í land. Rússar forðuðust að leggja til orustu við Svía, en hins vegar voru þeir alt af á næstu grösum, og gjörðu Svíum alt það ógagn, er hugsazt gat, spiltu vegum, þar sem vegir voru, brutu brýr af vötnum, brendu þorp og bæi og jafnvel fóðurgras af jörðunni, skutust að þegar þeir sáu sèr fært, og áttu þá vopnaviðskipti við Svía, og mistu margir við það lífið.

En nú er að segja frá Levenhaupt. Konúngur hafði svo fyrir mælt, að hann skyldi leggja upp frá Ríga fyrstu dagana í júnímánuði, og koma til móts við sig með alt það lið, er hann hefði, og þar að auki flytja með sèr alt það, er hann gæti fengið af vistum og alls konar hlutum, er herinn þyrfti með. Að draga þetta alt að sèr og búa það alt til ferðar tók lángan tíma, og loksins komst Levenhaupt af stað síðast í júnímánuði. Liðsmenn hans voru um 11000 manns, en faránguriun sem herinn flutti með sèr, var að tiltölu miklu meiri; vagnafjöldinn skipti þúsundum. Ferðin gekk því miklu seinna en annars hefði orðið; rigníngar gjörðu vegina litt færa, og eptir því sem lengra kom suður og austur í landið, eptir því urðu Rússar fjölmennari á leið Svía, og gjörðu þeim miklar ónáðir. Þegar Levenhaupt var kominn í nánd við Dniepr, fèkk hann boð frá konúngi á þá leið, að hann væri sjálfur farinn af stað þaðan, sem þeir áttu að mætast, og Levenhaupt skyldi halda austur yfir Dniepr og á eptir sèr suður á Ukraíne. Þetta voru þúngar frèttir; Levenhaupt sá þegar, að Rússar mundu með ofurefli liðs gjöra sèr fyrirsát og fyrirmuna sèr að ná konúngi, eða fá nokkurn styrk af honum. Hefði nú Levenhaupt mátt ráða, þá ætlaði hann sèr að halda ofan með Dniepr að vestanverðu, því að þá var fljótið á milli hans og Rússa, og var það nokkur bót, en konúngur hafði boðið, að hann skyldi fara austur yfir fljótið og þann veg suður, og því boði varð að hlýða. Levenhaupt komst heilu og höldnu yfir fljótið, og hèlt svo kænlega og röskiega áfram nokkra daga, að Rússar vissu eigi hvar hans var að leita. En þess var eigi lángt að bíða áður þeir höfðu sannar sögur af ferðum hans. Pètur Czar var þar sjálfur með 30000 manna, og flýtir ferðinni sem mest hann getur á eptir Svíum; var honum auðgefið að ná þeim, þar sem þeir höfðu farángur svo mikinn meðferðis, en

Rússar lausir og lèttir á sèr. 26. dag septembr. náði fararbroddur Rússa þeim Levenhaupt, en hann barði þá af höndum sèr, feldi af þeim 1500 manna og fór leiðar sinnar. Rússum bættist nýtt lið í staðinn, og að kvöldi hins 28. september voru Svíar komnir þángað, sem Lisna heitir, og Rússar þar öllu megin utan um þá; var nú ekki undanfæri lengur. Daginn eptir, þegar er lýsti af degi, tókst orustan og stóð allan dag til kvölds; enda var þessi hin lengsta af öllum þeim mörgu orustum, sem Svíar áttu um daga Karls tólfta. Hvorirtveggja börðust af mestu hreysti, en liðsmunur var helzt til mikill. Þó ætla menn, að Levenhaupt hefði unnið sigur, ef Pètur hefði eigi sjálfur verið í orustunni og eggjað menn sína á allar lundir; en þeim stóð meiri ógn af honum en nokkrum öðrum manni. Ef það bar við um daginn meðan orustan stóð, að einhver herflokkur Rússa legði á flótta, þá var Czarinn þar fyrir með marga menn, og lèt skjóta hvern sem flýja vildi; þorðu þeir þá eigi að hyggja á flótta. Um kvöldið þegar eigi var lengur vígljóst höfðu Svíar hvergi þokazt af vígvellinum, og hvorugir höfðu unnið sigur, en Levenhaupt sá, að hann mundi eigi fá staðizt, ef hann berðist næsta dag, og einkum fyrir þá sök, að alt af bættust Rússum nýjar hersveitir og óþreyttar. Tekur hann því það ráðs, að hann heldur af stað í náttmyrkrinu, en brennir allan faránngurinn, nema það sem hann nauðsynlega þurfti með til fararinnar. Margir af Svíum urðu þá eptir við faránngurinn og vildu eigi fara lengra, heldur gjöra sèr til góða af því, sem hver gat náð meðan kostur var á. Daginn eptir komu Rússar og hjuggu þá flestalla niður. Annar flokkur af Svíum, hèr um bil 1500 manns, viltist um nóttina frá meginher Levenhaupts, og komst eptir margar þrautir norður aptur til Ríga. En það er frá Levenhaupt að segja, að hann heldur áfram og verður þá bráðum fyrir honum fljót eitt, er Soza heitir; komst hann á einhverjum stað yfir það, og kannaði þar liðið. Taldist þá svo til, að í orustunni við Lisna hefðu fallið 1600 manna, 1800 verið handteknir, og 1500 vilzt frá liðinu; voru þá enn eptir undir merkjum Levenhaupts her um bil sex þúsundir vígra manna. Eigi vita menn glögt, hve margt manna fèll af Rússum, en svo hafa Svíar sagt, að það muni hafa fallið um 6000, eða vel það. Pètri Czar fanst svo mikið um orustuna og sigurinn við Lisna, að

hann kvað hann undirrót og aðaltildrög til sigursins við Púltava. og svo sagði hann, að orustan við Púltava hefði verið leikur einn og barnagaman í samanburði við orustuna við Lisna. Eptir tíðindi þau, er nú voru sögð, fór Levenhaupt leiðar sinnar og náði loks að sameinast meginhernum 11. október. Tók konúngur Levenhaupt að vísu allvel, en lèt sèr þó fátt um finnast, að hann hefði hörfað undan og brent farángurinn. Nú var eigi um annað að gjöra, úr því sem komið var, en að halda lengra suður í land til móts við Mazeppu, því að hann hafði heitið konúngi, að sjá honum fyrir nægum vistum, láta hann fá hinar sterkustu kastalaborgir í ríki sínu, og koma sjálfur til liðs við hann með 20—30 þúsundir manna. Í þessari von hèldu Svíar suður eptir landi, jafnvel þótt mörgum hinum hygnari mönnum meðal þeirra litist eigi á blikuna, En nú kom það í ljós, eigi í einu heldur í öllu, að hamíngjan, sem áður hafði fylgt Karli tólfta nálega við hvert fótmál, var búin að snúa við honum bakinu, svo að allar vonir hans brugðust. Þegar hann kom í nánd við kastalaborgirnar, og hugðist að mæta þar vinum og bandamönnum, þá voru þar Rússar fyrir, og Svíar urðu þar frá að hverfa; þegar þángað var komið, sem ráð var fyrir gjört, að nægar væru vistir handa Svíum, þá höfðu Rússar verið þar og eytt þeim öllum og brent bygðina. Mazeppa kom að vísu til Karls, en ekki með því fyrirheitna liði, heldur sem flóttamaður, því nær allslaus að kalla. Rússar höfðu komizt að allri fyrirætlun Mazeppu, og orðið skjótir til bragðs, og farið báli og brandi um þvert og endilángt Ukraine, svo að þar var lítið um björg eptir komu þeirra. Kósökkum hafði snúizt hugur, og höfðu þeir skilizt við Mazeppu og gengið flestir í lið með Rússum. Nú mátti heita fokið í flest skjól fyrir Svíum, þó lètu þeir eigi hug fallast. En það var eigi þar með búið, að öll sú liðveizla var horfin, sem Svíar höfðu treyst, eða að minsta kosti konúngur þeirra, þá er hann kæmi suður á Ukraine, heldur bættist þar á ofan, að veturinn 1708—1709 var einhver hinn harðasti sem nokkru sinni hefir komið yfir Norðurálfuna. Þann vetur lagði eigi einúngis ísa á alt Eystrasalt landa í millum, heldur jafnvel á vötn og ár suður í löndum, t. a. m. á Portúgal og á Ítalíu; menn og skepnur frusu til dauðs víða í löndum. Það lætur að líkindum, hvernig þá hafi viðrað austur á Rússlandi, þar sem Svíar voru nú staddir. Þó

var það sök sèr, ef þeir hefðu haft viðunanlegt húsaskjól, hlýjan klæðnað og nógar vistir; en á öllu þessu var hinn mesti skortur; húsin höfðu Rússar lagt í eyði; vistir og klæðnaður fórust, þegar Levenhaupt varð að brenna farángur sinn eptir bardagann við Lisna. Á öllum þeim skorti varð nú lítil eða engin bót ráðin. Svíar urðu marga nótt að vera undir berum himni; kól þá fjölda liðsmanna til stórskemda, og það er sagt, að eina nótt hafi um 4000 manna dáið af kulda. Hèr við bættist og það, að Rússar voru í nágrenninu og gjörðu Svíum einatt árásir, en stundum rèðu Svíar á þá; varð þá einatt allmikið mannfall. En þó Rússar fèllu gætti þess eigi, því að nóg var jafnan til í skarðið, en Svíum bættist engi maður í stað hinna sem fèllu. Þannig týndu liðsmenn Karls tölunni með ýmsu móti, svo að um vorið, þegar veður tók að batna, og konúngur hugði til nýrra starfa, þá voru menn hans einar 20 þúsundir, og þó eigi allir vopnfærir, í stað þess, að þeir höfðu verið um eða yfir 30,000 haustið áður, þá er hann kom fyrst suður á Ukraine. Fallbyssur Svía voru eigi orðnar eptir nema 30, því að þeir höfðu eigi getað haft þær meðferðis, sem þýngstar voru, sökum vegleysu og snjóa, og víða mist þær ofan í fen og foröð, og orðið að láta þær þar eptir; púður var heldur eigi nægilegt, og því síður gott, af því það hafði margvöknað á leiðinni.

Þegar nokkuð dregur suður á Ukraine breytir Dniepr stefnunni og rennur lengi eptir það í suðaustur. Á þeirri leið kemur þverá ein að norðan, er Psiol heitir, og fellur suður í Dniepr. Nokkru austar, eður sem svarar stuttri dagleið, rennur önnur á suður í Dniepr allmikil og heitir *Vorskla.* Við hana stendur á vestari bakkanum borg sú, er *Púltava* heitir. Það var allstór borg og víggirt, og höfðu Rússar þar setulið og öruggar varnir. Frá Púltava suður að Dniepr er tæp tveggja daga leið. Borg þessi var einhver hin helzta í öllum nálægum sveitum, og henni vildi Karl konúngur ná, og fyrir því heldur hann þángað og sezt um borgina. Gjörðu Svíar margar tilraunir til að taka hana, en fengu eigi að gjört. Rússar þokuðust nær og nær og voru um 80000 manna með 130 til 150 fallbyssur; var Pètur Czar sjálfur fyrir hernum og hershöfðingjar hans hinir helztu, þar á meðal Mensikov og Scheremetjev. Meðan Svíar sátu um borgina, áttu þeir ýms vopnaviðskipti við Rússa, og vildu fá þá til orustu við

sig, en Pètur vildi það eigi, því að hann vissi sem var, að alt af mundi því meir þrengja að Svíum sem þeir væru þar lengur, og því auðveldara mundi sèr veita að vinna sigur á þeim. Höfðu Rússar hlaðið sterkar víggirðíngar um herbúðir sínar á eystri bakka Vorsklu, og skutu þaðan á Svía, er þeir komu í skotmál. Þá var það einhverju sinni, að Karl konúngur var skotinn í fótinn; var það mikið sár og ilt, svo að menn hugðu, að taka þyrfti af honum fótinn, en Karl brá sèr lítið við það og var hinn kátasti; þó varð hann að halda kyrru fyrir nokkra daga, og lèt þá lesa sèr til dægrastyttíngar ýmsar sögur, þar á meðal söguna af Hrólfi Gautrekssyni; að henni þótti honum hin bezta skemtun.

Nú voru Svíar komnir að þrotum með vistir, og eigi annað til fæðis en hrossakjöt og slæmt brauð; sólarhitinn gjörðist mikill og spilti sárum manna. Vildu þá margir, að hætt væri umsátinni og haldið á burt og norður og upp með Dniepr, og beðið þar liðsafla frá Svíþjóð eða Póllandi, en konúngur setti þar þvert nei fyrir. Var þá engi annar kostur en að berjast við Rússa, þó liðsmunur væri helzt til mikill. Levenhaupt gaf það ráð, að hætt væri umsát og aðsókn að Púltava, til þess að öllu liðinu yrði varið til orustu móti Rússum, en konúngur vildi eigi þekkjast ráðið, því að hann vildi hvorttveggja, bæði ná Púltava og berjast við Rússa. Urðu því hèr um bil 2000 manna eptir í umsátinni hjá borginni; rúmar 2000 til varnar hjá farángri Svía, og um 1200 fyrir sunnan Púltava niður með Vorskla til þess að varna Rússum að gánga þann veg að baki Svíum; hafði því Karl eigi nema rúmar 12000 Svía á að skipa til orustunnar, og þar að auki nokkur hundruð manna, er komið höfðu til liðs við hann með Mazeppu sunnan úr landi.

Að lokinni kvöldbæn 27. dag júnímánaðar kvaddi Karl konúngur alla hershöfðíngja sína til fundar, og segir þeim sína fyrirætlan, að nú vill hann berjast daginn eptir. Er nú ráð fyrir gjört, hvernig atlögunni skuli til haga, og Rehnskjöld falin yfirstjórn alls á hendur, því að konúngurinn var enn eigi heill orðinn af sári því, er hann hafði fengið, og gat hvorki gengið eða riðið. Dagana þar á undan höfðu Rússar farið vestur yfir Vorskla, og setzt að á völlunum fyrir norðan Púltava, og hlaðið þar sterka

skotgarða fyrir framan sig; höfðu Svíar reynt að varna þeim þess, en eigi getað sökum mannfæðar.

Áður en lýsti af degi (28. júní) vopnuðust Svíar og hèldu norður á völluna móti Rússum. Levenhaupt var fyrir miðjum hernum og stýrði fótgönguliðinu; Creutz hershöfðíngi fyrir hinum vinstra fylkíngararmi, og var þar skipað riddaraliði. Þar var Rehnskjöld og konúngur og lèt hann bera sig á börum meðal fylkínganna. Í hægra fylkíngararmi voru og riddarar, og fyrir þeim hershöfðíngi sá er Schlippenbakk hèt. En fyrir framan meginherinn stóðu þeir Axel Sparre og Gustav Roos með nokkrar sveitir manna; var þeim ætlað að gjöra áhlaup á skotgarða Rússa og ná þeim. Þessu næst tókst orustan. Gjörðu þeir Sparre og Ross með sína menn hið harðasta áhlaup á skotgarðana, og fèkk Sparre tekið nokkra þeirra, og fèllu þeir eða flýðu, er þar stóðu fyrir. En það er að segja frá Roos, að þar sem hann sótti fram, var landslagið ógreiðara til framgöngu; gat hann því eigi komið sèr svo við, sem þörf var á, eða sveitir hans orðið svo samtaka sem skyldi. Rússar stóðust áhlaup það, er hann gjörði, og varð þar hörð hríð og löng. En á meðan sóttu Svíar fram til beggja handa; varð Roos þannig viðskila við meginherinn, og einn síns liðs með sína menn. Pètur Czar fèkk sèð það, og sendir Mensikov þegar með 10 þúsundir manna í móti þeim Roos. Hann sá þegar hvað verða vildi, sendir til konúngs og beiðist hjálpar; en sú hjálp kom eigi. Gat því Mensikov, með því ofurefli liðs, er hann hafði, umkríngt Roos og felt eða handtekið flesta af hans mönnum, því að flýja vildu þeir ekki, þótt dauðinn væri vís. Að Roos og hans mönnum kom eigi sú hjálp, er hann bað um, segja menn hafi verið því að kenna, að þegar Rússar hrukku fyrir Sparre, þá hafi Píper gefið konúngi það ráð, að senda þángað lið og reka flóttann af alefli; því ráði hlýddi konúngur, og sendir Creutz fram með því riddaraliði er hann hafði. Creutz var ágætur fyrirliði og hinn mesti kappi, og hafði margt afreksverk unnið, þó eigi verði hèr frá þeim sagt. Hann sækir fram með riddaraliðið og berst af mikilli hreysti, og er svo sagt, að hann hafði því nær keyrt Rússa út í Vorskla, en þá komu honum þau boð, að hætta við svo búið og halda lítið eitt til hliðar og nema þar staðar. Þessu boði

varð Creutz að hlýða, en Rússar stöðvuðu flóttann og fylktu liðinu af nýju.

Í öðrum stað sótti Levenhaupt fram og meiri hluti fótgönguliðsins, og þó hann skorti fallbyssur og púður, fèkk hann þó tekið nokkra af skotgörðum Rússa og vanst honum allvel á, enda voru Rússar farnir að sjá sitt óvænna. En í þeirri svipan kom einnig sú skipan til hans, að stöðva framsókn sinna manna, en í þess stað að halda liðinu þángað, er Creutz var kominn, og fylkja því þar að nýju móti Rússum. Þessu hlýddi Levenhaupt þegar í stað. Skipanir þær, er nú voru nefndar, komu engar frá Rehnskjöld, sem þó hafði yfirstjórn hersins á hendi þenna dag, og kunni án alls efa vel með að fara, heldur komu þær frá konúngi sjálfum. Varð Rehnskjöld bæði hryggur og reiður, er hann sá hvað gjört var, og veitti konúngi átölur. En hèr varð eigi bót á ráðin. Hins vegar kom Rússum þetta að hinu mesta liði, því að þegar þeir sáu, að Svíar hættu aðsókn, og að sjálfum þeim gafst það ráðrúm, er þeir svo stórlega við þurftu, þá óx þeim bæði hugur og dugur. Fylktu þeir nú liðinu að nýju, og Czarinn eggjaði sína menn til drengilegrar framgöngu, því að hèr var um það að tefla, hvor þeirra Karls skyldi yfirráð hafa á Norðurlöndum.

Nú varð þannig nokkurt hlè á orustunni. Hvorirtveggja stóðu vígbúnir, en mjög var hèr ójafnt á komið með mönnum. Fótgönguliðs Svía, sem Levenhaupt stýrði, var nú eigi orðið nema fjórar þúsundir, en fótgönguliðs Rússa þrjátigi og tvær þúsundir; þar að auki höfðu Rússar 100 fallbyssur, og alt var hjá þeim í góðu lagi. En Svíar voru þreyttir og margþjáðir af vökum og húngri og vosbúð; þeir höfðu engar fallbyssur, og lítt nýtt púður í handbyssur sínar; þeir höfðu eigi öðrum vopnum að treysta en sverðum sínum, og voru daprir í huga. Og Levenhaupt þótti sèr ógagn gjört með því, að riddaraliðinu öllu var nú fylkt að baki fótgönguliðsins, þar sem annars var vant, að skipa því til hliðar og hlífðar við fótgönguliðið.

Um morguninn, meðan orustan stóð, hafði konúngur látið bera sig um fylkíngar og eggjað sína menn til framgöngu. Nokkrir af mönnum þeim, er skiptust til að bera konúnginn, voru nú fallnir og börurnar brotnar og bilaðar af skothríðinni. Meðan hlè varð á orustunni var gjört við þær sem varð, og fótsári konúngs veitt-

ar umbúðir. Því næst lèt hann bera sig aptur til sinna manna, og bauð þeim veita Rússum atgöngu í annað sinn. Rehnskjöld reið um fylkíngar og kom að þar er Levenhaupt stóð; höfðu fáleikar verið með þeim um hríð, en nú mælti Rehnskjöld: »látum okkur vera bræður og vini frá þessari stundu«. »Svo skal og vera, mælti Levenhaupt, »en skal eg nú þegar gjöra Rússum atgöngu«? »Já, þegar í stað«, mælti Rehnskjöld. »Fram þá í drottins nafni«, svaraði Levenhaupt. Við það reið Rehnskjöld burt, en Levenhaupt skipar mönnum sínum til áhlaups. Ruddust Svíar þá fram sem harðast, en skothríðin skall yfir þá sem kolsvart èl, og alt hvarf í sortann. Var sá atgángur bæði harður og lángur. Mannfallið varð ógurlegt og einkum meðal Svíanna, því að margir voru þá um einn. Karl lèt bera sig þángað sem mest var mannhættan; voru þá börurnar skotnar í sundur svo konúngur fèll til jarðar, en menn hans björguðu honum og fengu komið honum undan; af þeim 24 mönnum, sem næst fylgdu honum, voru allir fallnir nema þrír. Levenhaupt gjörði það sem gjört varð, en gat eigi við ráðið; margar hersveitir Svía höfðu mist alla fyrirliða sína; voru sumir fallnir, en sumir handteknir. Þegar af lètti nokkuð reyknum og til varð sèð, var herinn kominn í marga riðla, og þannig var enn barizt nokkra stund. En þar kom að Svíar leituðu undan; voru nú fallnar af þeim hátt á þriðju þúsund manna, en tvær þúsundir handteknar. Rehnskjöld og á annað hundrað foríngja, æðri og lægri stèttar, tóku Rússar þar höndum, en Levenhaupt náðu þeir eigi í það sinni. Hann bar þar að, er konúngur var. Konúngur mælti: »hvað er nú til ráða?« »Ekki annað, mælti Levenhaupt, en halda því liði sem eptir er til herbúða vorra«. Svo var nú gjört; fylgdu Rússar að sönnu á eptir, en veittu þó ekki harða eptirför, því að bæði voru þeir þreyttir eptir orustuna, enda getur og verið, að þeir hafi óttazt einhvern bakskell af Svíum. Þegar komið var til herbúðanna, og Karl gat haft tal af mönnum sínum, frètti hann fyrst, að Rehnskjöld, Piper ráðgjafi, og margir af helztu foríngjum liðsins höfðu verið handteknir af Rússum. Það þótti honum verra en þó Tyrkir hefðu tekið þá. En nú var svo komið, sem komið var, og eigi til setunnar boðið. Gaf Levenhaupt það ráð, að eyða því af farángrinum sem þýngst var í vöfum, en setja hesta alla, sem ferðafærir voru, undir liðsmenn, hafa það

með af vistum og vopnum, sem fært væri að flytja, og halda af stað. Á það vildi konúngur eigi fallast, en þar kom þó, að hann sá eigi annað fært en fylgja ráðum Levenhaupts. Lögðu Svíar upp þegar um nottina, ofan með Vorskla og stefndu suður að Dniepr. Voru Svíar mjög þrekaðir eptir þenna ósigur og daprir í huga, margir mjög sárir, aðhjúkrun og aðbúnaður lítill og illur, fallbyssur því nær engar, og púður að mestu þrotið. Þannig komst herinn suður að Dniepr 30. júní, á áliðnum degi; en menn voru litlu bættari fyrir þetta, því að fljótið er þar svo mikið — hèr um bil fjórðúngur viku á breidd — að eigi varð yfir það komizt nema á bátum, en til þess voru nú engin efni nè áhöld. Svo er að sjá, sem Karl tólfti hafi eigi búizt við ósigri, því að hann hafði enga fyrirhyggju fyrir því haft, að ferjur eða önnur tæki væru fyrir hendi til þess að komast yfir fljótið, ef á þyrfti að halda. En Pètur Czar hafði hins vegar sèð það fyrir, sem nú var fram komið, og fyrir því hafði hann, nokkrum dögum áður orustan varð, látið brenna öll þorp og öll hús upp og niður með Dniepr, til þess að Svíar gætu eigi þaðan haft viðu, er bjargast yrði á yfir fljótið. Hèr voru Svíar þannig komnir í eins konar kvíar, þar sem sín stóráin (Vorskla og Psiol) var til hvorrar handar, en hin þriðja og lángmesta (Dniepr) framundan þeim. Var því fyrirsjáanlegt, að þeir mundu eigi þaðan komast, heldur annaðhvort verða handteknir af Rússum, eða höggnir niður sem hráviði. Þetta sáu og þeir af Svíum, sem hyggnari voru, en konúngur vildi eigi annað heyra, en að þeir gætu varizt Rússum eptir sem áður. «Þegar liðsmenn sjá mig í broddi fylkíngar — sagði hann — munu þeir berjast af sömu hreysti sem áður». Menn báðu konúng forða sèr, hvað sem hernum liði, en hann var lengi tregur til þess. Þó lèt hann um síðir til leiðast að skiljast við herinn. Gjörðu menn sèr fleka af viðum þeim, er til fengust, og þannig hèlt konúngur yfir Dniepr og nokkur hundruð manna með honum, enda mátti það eigi lengur dragast, því að Rússar komu þá að með miklu liði og vel búnu. Og þar eð Svíar voru svo á sig komnir, sem sagt hefir verið, sá Levenhaupt, er konúngur hafði sett yfir herinn, eigi annað ráð vænna, en að gefast upp, og gánga á vald Rússum með öllu því liði, er honum fylgdi. Voru það að tölu hèr um bil 12 til 14 þúsundir manna, þótt eigi væru

allir vopnfærir, og þar á meðal 900 foríngja og yfirmanna æðri og lægri stèttar. Þessi varð endirinn á herferð Karls tólfta suður á Ukraine og afleiðíng orustunnar við Púltava. Allur hinn mikli, hrausti og sigursæli her mátti heita annaðhvort fallinn eða kominn í hendur Rússum, og yfirráðum Svía á Norðurlöndum lokið. Það voru því sannmæli, er Pètur Czar sagði eptir þenna mikla sigur, er hann nú hafði fengið: «nú situr Pètursborg ómakslaus upp frá þessu». Þessu næst hèlt Pètur Czar austur í land og flutti með sèr hertekna menn, margar þúsundir, og dreifði þeim víðs vegar um land og borgir; lètust þá margir af þeim bæði af sárum og illri meðferð; margir lifðu af og staðnæmdust á Rússlandi, en nokkur hundruð manna komust heim aptur til Svíþjóðar mörgum árum seinna en hèr var komið.

En það er að segja frá Karli tólfta og þeim mönnum, er honum fylgdu, að þeir hèldu undan sem mest máttu suður og vestur í land, og komu að viku liðinni að fljóti því, er *Bug* heitir. Rússneskir herflokkar voru sendir á eptir þeim, og náðu Svíum við fljótið, og tóku þar margt manna, en konúngur og hèr um bil 500 manns gátu forðað sèr og komizt yfir Bug. Sneru Rússar þar aptur, en Svíar stefndu suður á Tyrkland til borgar þeirrar, er *Bender* heitir. Hún stendur á vestari bakka Dniesterfljóts, og höfðu Tyrkir þar setulið. Þá rèð fyrir Tyrklandi *Achmet* soldán hinn þriðji (1702—1730). Og sem hann frèttir, að Karl Svíakonúngur er kominn, og hefir leitað þángað ásjár, lætur hann taka honum með miklum virktum, eins og jafnfrægum konúngi sæmdi. Var honum boðið að setjast að í borginni, en Karl vildi eigi þekkjast það, og setti herbúðir sínar í nánd við Bender og bjóst þar um.

Nú mundi margur ætla, að Karl tólfti hefði eigi dvalið lángvistum á Tyrklandi, en haldið heim aptur í ríki sitt, og það því fremur, sem þar fór margt í ólagi, og menn þráðu þar heimkomu hans eptir svo lánga burtuveru, en hins vegar ýmsir þjóðhöfðíngjar, er eggjuðu hann til heimferðar, og soldán bauð honum bæði fè og menn til fylgdar; en Karl setti þar þvert nei fyrir. Hann vildi eigi heim koma fyr en hann hefði hefnt sín á Rússum, og fyrir því reyndi hann á allar lundir, að fá Tyrki til að gjöra samband við sig og segja Rússum stríð á hendur. Var soldán lengi tregur til þess, en Karl hætti eigi fyr en hann

fèkk sínum vilja fram komið. Bjuggu nú hvorirtveggja lið sitt, Rússar og Tyrkir, og hèldu af stað á öndverðu vori 1711. Yfirforíngi Tyrkja hèt *Mehemet Baltadschi;* hann var æðsti ráðgjafi soldáns (stórvezír), ítalskur að ætt og enginn garpur, en af orðum hans má ráða, að hann hafi talið sèr sigurinn vísan: «eg tek sverðið í hægri hönd — sagði hann — og Svíakonúng í hina vinstri, og svo skal eg með 100,000 manns ryðja honum braut hvert sem hann vill fara». Með þessu liði leggur Mehemet af stað frá Konstantinópel norður yfir Balkanfjöll. En í annan stað komu Tartarar með óflýjanda her austan frá Svartahafi til liðs við Tyrki. Pètur Czar hafði og mikið lið og heldur því til móts við þá. Jarlar Soldáns, í Moldau og Valachíi, voru ótryggir, og hètu Pètri liðveizlu þá er hann kæmi í þeirra lönd. Þess vegna hèlt hann viðstöðulaust alla leið vestur yfir Pruthfljót. En er þángað var komið, þorðu jarlarnir eigi að efna orð sín við hann af ótta fyrir Tyrkjum, sem þá voru komnir í landið með óvígan her; og áður en Rússa varði, höfðu Tyrkir og Tartarar umkríngt þá svo gjörsamlega, að þar var ekki undanfæri. Var nú Pètur Czar kominn með allan sinn her í engu betri kvíar við Pruth, en Levenhaupt við Dniepr tveimur árum áður. Víggirðíngar höfðu Rússar engar, vistir voru á þrotum, hestar hrundu niður af húngri, og liðsmenn sýktust þúsundum saman. Nú sá Pètur sitt óvænna og mælti: «mèr hefir orðið alt hið sama á sem Karli bróður mínum. Eg hefi hætt mèr of lángt inn í lönd fjandmanna minna, og hugsað of lítið um vistir handa liði mínu». Honum kom ýmist til hugar, að leynast á burt frá hernum og leita undan til Rússlands, eða freista með hinum hraustustu af riddaraliðinu, að brjótast í gegnum fylkíngar Tyrkja. En hann hvarf jafnskjótt aptur frá þeirri fyrirætlan, byrgði sig inni í tjaldi sínu og leyfði engum manni til sín að koma. Þar var í liði með honum *Katrín* drottníng hans[1]. Hún gaf það

1) Það er sagt, að Katrín væri bóndadóttir annaðhvort frá Lithauen eða Liflandi, og gipt á únga aldri sænskum hermanni í Marienburg á Liflandi. Árið 1702 unnu Rússar Marienburg og tóku Katrínu; Menzikow leizt vel á hana og tók hana til sín. Þar sá Pètur Czar hana, og með því hún «þóknaðist hans augum», varð Menzikow að sleppa henni við Czarinn. Pètur hafði áður verið kvæntur Evdoxiu, en rekið hana frá sèr og sett í klaustur. Árið 1707 kvæntist hann Katrínu. Þeirra dóttir var

ráð, að safna svo miklu sem yrði af gulli og gimsteinum, senda það vezírnum og æðstu höfðíngjum Tyrkjahersins, og reyna þannig að kaupa sèr frið og frelsi. Á þetta ráð fèllust hershöfðíngjar Czarsins, en eptir var að fá samþykki hans til þessa. Katrín tókst það á hendur, og fèkk komið svo orðum sínum, að Pètur ritaði vezírnum og beiddi hann í auðmjúkum orðum, að veita sèr vopnahlè um nokkrar stundir. En á meðan það stóð, lögðu Rússar fram það þeir höfðu af dýrgripum, varð það svo mikið fè, að nema mundi 200 þúsundum dúkata, og sendu síðan Tyrkjum. Vezírinn var enginn vinur Karls tólfta, tók í móti fènu, og gjörði svo feldan samníng við Pètur Czar: Rússar skyldu flytja her sinn burt af Póllandi, Tyrkir fá aptur Asow og löndin þar umhverfis, Kósakkar hafa fult frelsi fyrir sín lönd, rússneski herinn og Svíakonúngur halda burt af Tyrklandi í friði, hver til síns heima. Karl tólfti var eigi við Tyrkjaherinn; en sem hann frèttir, að Rússar eru komnir í herkvíar við Prúth, fer hann af stað og ríður bæði nótt og dag, og kemur að Prúth litlu áður en Rússar færu þaðan. Segja sumir, að Karl biði eigi ferjunnar, en sundriði fljótið þar sem hann kom að því. Því næst hittir konúngur Mehemet vezír að máli, og segir: «hèr er saman komið mikið lið og frítt». Vezírinn: «guð hefir veitt mèr það». Konúngur: «það er skaði, að því er ekki betur stýrt». Vezírinn: «nú þarf eigi fremur á því að halda, ófriðnum er lokið milli ríkjanna». Konúngur: «já, mèr er sagt, að þú hafir samið frið, en jafnframt, að þú hafir lítið skeytt um mitt gagn, og þó hafðir bæði þú og þinn herra heitið mèr því». Vezírinn: «eg hefi unnið svo mikið á fyrir fósturjörð mína, að eg læt mèr það nægja». Konúngur: «þú gazt áunnið miklu meira, því að þú hafðir Czarinn og allan hans her í hendi þèr». Vezirinn: «það er gagnstætt Múhamedslögum, að synja fjandmanni griða, er hann beiðist þeirra, og ef eg hefði tekið Czarinn höndum, hver átti þá að stýra ríki hans»? Konúngur: «um það þurftir þú ekki að hugsa; en hyggur þú að soldán, herra þinn, láti sèr lynda þenna frið»? Vezírinn: «eg ræð því, að semja frið, eins og mèr bezt líkar». Konúngur: «enn er tími til, að ráða bót á yfirsjón þinni og viðrètta minn hluta; láttu mig einúngis ráða;

Elisabet Rússadrotníng (1741—1762). Katrín var vel viti borin, og kunni allra manna bezt lag á Pètri þegar ofsinn hljóp í hann.

eg skal ábyrgjast alt við soldán, og þú skalt engan mann þurfa að ljá mèr; eg veit vel, hvar eg skal finna þá menn, er mèr vilja fylgja». Vezírinn: «nei, það er nú um seinan, og skal nú standa við þá gjörð, sem eg hefi gjört». Síðan skildu þeir. Sumir segja, að Karl hafi með reiðspora sínum rifið kápu vezírsins í skaut niður, reitt að honum hnefann og ætlað að berja hann o. s. frv., en engin sannindi eru fyrir því. Rússar hèldu því næst af stað heim í leið, en Karl til Bender, og sá engi maður á honum eða heyrði, hvorki gleði, er hann frètti ófarir Rússa, eða ógleði, er þeir gengu honum þannig úr greipum.

Karl hèlt hinu sama fram sem áður, að eggja Tyrki til ófriðar gegn Rússum. Stundum vanst honum nokkuð á, og því fèkk hann komið til leiðar, að Mehemet vezír var settur frá völdum, en stundum vildi soldán eigi heyra ófrið nefndan. Og nú kom þar, að Tyrkjum leiddist þráseta Karls þar í landi. Lèt soldán konúng vita, að hann hefði sýnt honum alla þá gestrisni og alla þá hjálp, er skyldan byði sèr — enda hafði Karl þegið af honum stórfè öll þessi ár — og nú yrði hann að fara þaðan af landi burt. En Karl sat kyr sem áður, þángað til soldán bauð mönnum sínum að reka hann burt. Karl bjóst til varnar, þótt hann hefði eigi nema nokkrum tigum manna á að skipa, og hús hans eigi ramleg. Hinn fyrsta dag febrúarmán. 1713 komu Tyrkir og Tartarar, hèr um bil 8 þúsundir manna, sóttu að húsunum og gjörðu harða hríð. Konúngur og menn hans vörðust af dæmafárri hreysti; gekk svo lengi dags, að Tyrkir unnu ekki á, þar til um síðir, að þeir skutu eldum á húsin. En er húsin tóku mjög að brenna, leitaði konúngur og menn hans útgöngu; bar þá svo til, að reiðsporar hans kræktust saman; fèll hann við og varð handtekinn, en menn hans gáfu jafnskjótt upp vörnina; tóku Tyrkir þá alla höndum. Það segja sumir, að í viðureign þessari hafi fallið 200 Tyrkir og Tartarar, en eigi nema 15 af Svíum[1]. Því næst var konúngur fluttur lángt suður í land til borgar þeirrar, er Demotika heitir, og fengin þar höll ein til íbúðar. Það er skamt frá Adrianópel. Þar sat hann á annað ár, þar til um haustið 1714, að hann um síðir, fyrir bænastað sinna manna og fyrir þá sök, að fjárefni hans voru að þrotum komin,

1) Aðrir segja, að þar hafi fallið 31 af Svíum, en rúm 400 manna af hinum er að sóttu.

fór af Tyrklandi. Lagði hann leið sína um Úngverjaland og þýzkaland; fór þá bæði dag og nótt, svo að fáir sem engir gátu fylgt honum, og er svo sagt, að hann væri rúman hálfan mánuð á leiðinni sunnan af Tyrklandi norður til Stralsund við Eystrasalt. Sú borg var þá enn í höndum Svía.

Nú víkur sögunni heim til Svíþjóðar. Öll þau ár, sem Karl konúngur var erlendis, máttu með sanni heita reynslutími þjóðarinnar. Áður en konúngur fór af landi burt, hafði hann reyndar falið ráðherrunum innanlandsstjórn ríkisins á hendur. En sú stjórn var helzt til ónóg. Þó að sumir þeirra væru vitrir menn og dugandi, máttu þeir fæstum málum til fullnaðar ráða; en í þess stað urðu þau að koma til konúngs úrskurðar, hvar sem hann var staddur. En hann var, eins og kunnugt er af því sem áður er sagt, í mikilli fjarlægð, lengstum á Póllandi eða Tyrklandi. Varð því hinn mesti dráttur á öllum þjóðmálefnum Svía, til mikils skaða fyrir land og lýð; þar við bættist og, að konúngur, sem var úngur er hann fór af landi burt, þekti hvergi nærri eins vel og þurfti málefni ríkisins og þarfir þjóðarinnar, og skeytti þeim miklu minna en vera skyldi, því að allur hans hugur var á hernaði, og einkum því atriði, að bægja Ágúst öðrum fyrir fult og alt frá konúngdómi á Póllandi. Á hverju ári krafðist konúngur bæði manna og fjár af Svíþjóð í stað þess er féll og eyddist í hinum lángvinna ófriði. Slíkar kvaðir voru þýngri en þjóðin gæti undir risið, og það því fremur, sem ýms óáran gekk yfir Svíþjóð um þessar mundir. Landið var sumstaðar orðið svo mannfátt af karlmannafólki, að eigi var öðrum á að skipa en afgömlum körlum eða úngum sveinum. Víða urðu prestar sjálfir að gánga að allri vinnu, eins og bændur, því að húskarlar þeirra voru teknir til herþjónustu. Öll atvinna, hverju nafni sem hèt, leið óbætanlegt tjón, og efni landsmanna þverruðu ár frá ári. En þó bæði ráðherrar og ýmsir aðrir tjáðu konúngi frá þeim vandræðum, lagði hann lítinn trúnað á það, og fór sínu fram, hvað sem hver sagði.

Nágrönnum Svía var eigi ókunnugt um alt þetta. Ágúst annar og Friðrik fjórði vildu hefna sín á Karli tólfta, og biðu þess að færi gæfist. Pètur Czar lèt eigi sitt eptir liggja að blása að þeim kolum, og jafnskjótt sem ófarir Svía við Púltava bárust til Norðurlanda, sömdu þeir Friðrik og Ágúst með sèr, að hefja

ófrið af nýju gegn Svíum, þrátt fyrir friðarsamníngana í Travendal og Altranstadt, sem fyr eru nefndir. Ágúst rèð þegar á Pólland; Rússar komu þar til liðs við hann; Pólverjar sögðu skilið við Stanislás, og gengu hópum saman undir merki Ágústs; varð Stanislás að flýja landið og leita hælis hjá Svíum. Á öndverðu ári 1710 voru allir sænskir hermenn hrokknir burt af Póllandi og komnir vestur á Pommern, og sama árið lögðu Rússar til fulls undir sig Lifland, Estland og nokkurn hluta af Finnlandi. Þannig mistu Svíar á stuttum tíma meiri hluta þeirra landa, er þeir höfðu lengi átt fyrir austan haf.

Um haustið 1709 hèldu Danir liði sínu yfir á Skán og gengu á land hjá Helsíngjaborg. Yfirforíngi Dana hèt Reventlov. Svíar gátu eigi varið þeim landgöngu, en hèr var þó manni að mæta þar sem Magnús Stenbokk var. Hann hafði, eins og áður er sagt, fengið orlof af Karli konúngi að fara af Póllandi heim til Svíþjóðar, og hafði tekizt á hendur yfirstjórn á Skáni; lofuðu þar allir hans dugnað og rèttvísi. Áttu Svíar þá eigi völ á hershöfðíngja, er betur væri fallinn en hann til að verja landið fyrir óvina árásum; enda sýndi það sig nú, því að ekki var lið til í landinu, svo teljandi væri, er vopnum var vant, og eigi öðrum á að skipa en bændum, lítt vopnuðum og illa búnum. Þó tókst Stenbokk að safna saman 14 þúsundum manna, en svo sagði hann: «öll þau 26 ár, sem eg hefi verið í herþjónustu, hefi eg aldrei sèð jafnilla búið lið, sem það, er eg nú á að stýra og verja landið með, og þó má vera, að þessir í skinnpeisunum og vaðmálstreyjunum veiti eins þúng högg og hinir i herklæðunum». Danir höfðu 17 þúsundir manna, velbúna að vopnum og klæðum, og bjuggust að taka Karlskrónu, og eyða herskipum Svía, er þar voru, en Magnús Stenbokk hagaði svo ferðum sínum, að Dönum þótti ráðlegra að hverfa aptur og halda til Helsíngjaborgar, því að þar höfðu þeir góða fótfestu og allsterkar varnir. Reventlov, yfirforíngi Dana, varð um það leyti veikur, og lagði niður herstjórn, en sá maður tók aptur við, er Jörgen Ranzau hèt. Hann hafði verið með Marlborough, og fengið gott orð fyrir sína framgöngu. Það var síðustu daganna í febrúarmánuði 1710, að Danir hèldu til Helsíngjaborgar og settust þar að. Svíar veittu þeim eptirför og komu þángað litlu síðar. Magnús Stenbokk fylkti liði sínu, og sagði fyrir

hversu haga skyldi atlögunni; reið hann um fylkíngar og eggjaði menn sína til drengilegrar framgöngu. Sæi hann þá einhvern niðurlútan og daufan í bragði, tók hann undir hökuþeim, hóf upp höfuðin og sagði: *«se ond ut, min gosse, så springer dansken för dig»!* (gjörðu þig illilegan á svipinn, drengur minn, þá flýja Danir fyrir þèr). Þegar Danir sáu Svía nálgast, gengu þeir út úr herbúðum sínum í móti þeim, og segja menn, að Ranzau hefði gjört hyggilegar, ef hann hefði kyr verið þar sem hann var kominn, og látið víggirðíngarnar geyma sín, en hina sækja þar á. En hann var maður framgjarn og þóttist hvergi varbúinn fyrir Svíum. Nú varð þar orusta hörð, og stóð lengi dags; lauk svo með þeim, að Svíar fengu sigur, en Danir flýðu undan til Helsíngjaborgar. Það var 10. marzmán., er þeir börðust. Að nokkrum dögum liðnum, hèldu Danir aptur heim til sín og höfðu látið margt manna. Magnús Stenbokk varð mjög frægur af sigri þessum, og kölluðu Svíar hann bjargvætt þjóðarinnar, og var það sannmæli. Það var líkast því þegar Karl ellefti rak Dani af höndum sèr 1676, en sá var þó munurinn, að Karl hafði liðsafla betur búinn og vanari orustum en þann, er Magnús Stenbokk hafði.

Menn muna, af því sem áður er sagt, að um þessar mundir stóð annar ófriður, mikill og mannskæður, suður og vestur í löndum, þar sem Englendíngar, Niðurlendíngar og Austurríkismenn börðust við Frakka. Eldurinn var uppi bæði suður og norður í álfu vorri. Þýzkaland var eins og á milli tveggja elda. En sögurnar sýna, að þegar ófriður hefir verið fyrir norðan Mundiafjöll, þá hefir Þýzkaland sjaldan farið varhluta af honum. Það mátti og við því búast á hverri stundu, að ófriðurinn mundi berast þángað inn yfir landamerkin. En til þess að afstýra því, að svo yrði, lögðu Þjóðverjar á það alt kapp, að lönd þeirra mættu hlutlaus vera og laus við allan ófrið. Svíar áttu þá lönd á Þýzkalandi: Pommern, Vismar og Bremen; til þeirra skyldi einnig friðurinn ná. Þeir menn, sem hèr áttu mestan hlut að máli með Þjóðverjum (Englendíngar, Niðurlendíngar og Austurríkismenn) vildu ekki, að Svíar skyldu missa sín þýzku lönd; heldur ekki, að Danir skyldu missa Slesvík og Jótland, eða Ágúst annar Saxland. Þeir vildu, að fullur friður gæti komizt á norður í álfunni, og því næst vildu þeir fá liðsafla, eins og fyrr-

um, af Danmörku og Svíþjóð móti Loðvíki fjórtánda. Englendíngar og Hollendíngar báru þessar tillögur sínar undir Dani og Rússa, og þó þeim væri það í fyrstu eigi ljúft, gengu þeir þó að þeim. Þegar til Svíanna kom, voru ráðherrarnir í óvissu, hvort óhætt mundi að fallast á tillögurnar, nema konúngur væri að spurður, en hins vegar sáu þeir, að þetta var hið mesta nauðsynjamál, og, að það var hið mesta gagn fyrir land og lýð, að geta verið ugglaus um hin þýzku fylki (Pommern, Vismar og Bremen), og snúið ódeildu afli móti Rússum eystra og Dönum heima, og það því heldur, sem Danir einmitt um það leyti (1709) gjörðu landgöngu á Skáni, eins og áður var sagt, og mörg önnur vandræði kreptu þá að Svíum. Þeir tveir af ráðherrunum sænsku, sem einna mest kvað þá að, *Fabian Wrede* og *Arvid Horn*, báðir hinir mestu merkismenn, komu því til leiðar, að ráðið varð þessu samþykt. En sem Karl konúngur þeirra frètti þessar aðgjörðir ráðsins, þar sem hann sat suður í Bender, og hafði þá komið Tyrkjum í fèlag með sèr móti Rússum, mislíkaði honum það stórum, og vildi ekki heyra þá griðsetníngu nefnda; hann kvaðst vilja hafa lausar hendur fyrir lönd sín og liðsmenn, hvar sem væri. Hann hafði og um þær mundir lofað soldáni, að láta nokkrar þúsundir af sínum mönnum brjótast inn á Pólland, til þess að flæma Rússa þaðan. Og þegar menn vildu telja hann á, að dylja fyrirætlan sína fyrst um sinn, og ónýta ekki þá þegar aðgjörðir ráðherranna, mælti hann: «eg vil engan mann draga á tálar, og eigi heldur heita því, sem eg ætla mèr eigi að efna». Menn hans lètu á sèr skilja, að þeir, sem fyrir griðunum stóðu, mundu hafa liðsafnað norðan á Þýzkalandi og banna þar bæði honum og öðrum allar óeirðir, en Karl mælti: «ef vinir vorir vilja banna mèr vopnaviðskipti við rángsnúna óvini, tel eg þá eigi framar með vinum mínum heldur með óvinum». Það er sagt, að þá er Eugen, prinz af Savoyen, bárust þessi ummæli Karls, hafi hann sagt: *vana sine viribus ira*, (þ. e. reiðin er ónýt ef máttinn vantar). Afleiðíngin af þessum gjörðum Karls var sú, að óvinir hans, Danir, Saxar og Rússar, herjuðu í Pommern (1711), og tóku Bremen (1712). Nú áttu Svíar um tvent að velja, missa lönd sín á Þýzkalandi, eða verja þau fyrir óvinum sínum. Þess vegna var Magnús Stenbokk sendur þángað suður, á áliðnu sumri 1712, með nokkrar

þúsundir manna. Danir gjörðu honum fyrirsát á hafinu, og náðu frá honum nokkrum byrðíngum; var Svíum það hinn mesti skaði, því að þar mistu þeir bæði vistir og vopn. En liðinu fèkk Magnús öllu á land komið, og mátti eigi seinna vera, því að komið var að því, að bandamenn (Danir, Rússar og Saxar) mundu sameina alt sitt lið, og var það margfalt meiri her, en Svíar höfðu. Magnús Stenbokk snerist fyrst móti Dönum, og varð fundur þeirra (20. des. 1712) við bæ þann í Meklenborg, er *Gadebusch* heitir. Þar fengu Svíar sigur, en Danir lètu undan síga. Friðrik konúngur var sjálfur í orustu þessari og gekk vel fram. Það er sagt, að Dönum hafi orðið það mest til ógagns, að Saxar voru í liði með þeim, og snerust á flótta fyr en aðrir og þá er sízt skyldi. En þó Magnús Stenbokk fengi sigur í orustu þessari, kom Svíum það að litlum notum; hann gat enga hjálp fengið frá Svíþjóð; bandamenn færðust nær og nær, og höfðu ógrynni liðs; hann varð því að halda undan og vestur á Holtsetaland. Á þeirri leið lögðu Svíar eld í Altóna, og brendu þá borg til ösku; fèkk Magnús Stenbokk af hið mesta ámæli, því að borgin var varnarlaus fyrir. Eptir það hèldu Svíar norður yfir Eider-fljót, og settust að í borg þeirri, er *Tönningen* heitir; hún var víggirt, og vörðust þeir þar nokkra stund. En er húngrið svarf að, varð Magnús Stenbokk að gefast upp með alla sína menn — hèr um bil 11 þúsundir manna — og gánga á vald Dönum. Sat hann upp frá því í varðhaldi í Kaupmannahöfn, og dó þar 23. febr. 1717 rúmlega fimtugur að aldri. Um þessar mundir komust lönd hertogans af Holstein-Gottorp í hendur Friðriki fjórða Danakonúngi, og þá kom það í ljós, að *Kristján Ágúst*, biskup af Lübeck (Lybika), forræðismaður og föðurbróðir Karls Friðriks[1] hins únga hertoga, hafði veitt Magnúsi Stenbokk og mönnum hans athvarf í Tönníngen, þá er að þeim krepti, og þeir hörfuðu undan bandamannahernum.

Þegar Karl tólfti kom til Stralsund, haustið 1714, eins og áður er sagt, varð hann þess vísari, að bæði Prússakonúngur

1) Móðir Karls Friðriks var Hedevig Sofía, eldri systir Karls tólfta, en faðir hans var Friðrik hertogi, er fèll í orustunni við Klissóv. Frá þessum Karli Friðriki, er átti Önnu dóttur Pèturs Czars, eru Rússakeisarar komnir í beinan karllegg.

*Friðrik Vilhjálmur* 1. — er þar var kominn til ríkis (1713) eptir föður sinn Friðrik fyrsta —, og *Georg fyrsti*, Englandskonúngur og kjörfursti af Hannóver, voru gengnir í lið með óvinum Svía. Prússakonúngur hafði sezt í lönd þau, er Svíar áttu í Pommern, en Englakonúngur keypt af Dönum hertogadæmin Bremen og Verden, er Danir unnu af Svíum. Þannig stóðu Rússar, Danir, Saxar, Prússar og Englendíngar móti Karli einum og Svíum. Margir af hinum helztu hershöfðíngjum Svía voru fallnir, en þeir þrír sem mest kvað að, sátu í varðhaldi hjá útlendum þjóðum: þeir Rehnskjöld og Levenhaupt austur á Rússlandi, en Magnús Stenbokk í Danmörku. Svíar voru að þrotum komnir bæði sökum mannfæðar og fjáreklu. Alt um það gugnaði ekki hugur Karls tólfta; honum stóð á sama hvort margir eða fáir voru í móti; honum var um það eitt hugað, að berjast og vinna sigur, eða falla að öðrum kosti. En um hitt hugsaði hann alls eigi, hvort land og lýður gæti risið undir öllum þeim endalausa ófriði. Bandamenn urðu þess bráðum vísir, að Karl konúngur var í Stralsund; settust þeir nú um borgina, og höfðu ógrynni liðs, og sóttu hana af miklum ákafa, en Svíar vörðust þar marga mánuði af dæmafárri hreysti. En er flest víg voru unnin og meiri hluti borgarinnar í rústum, þá hèlt konúngur þaðan einskipa, komst slysalaust fram hjá *Tordenskjold*, hinum nafnfræga sjóforíngja, er sat um hvert sænskt skip í Eystrasalti, og tók land skamt frá Ýstað í Svíþjóð undir jól árið 1715; voru þá liðin 15 ár frá því, er hann fór úr landi. Nú mundu margir ætla, að Karl konúngur hefði haldið til Stokkhólms, höfuðborgarinnar, kallað beztu menn þjóðarinnar til þíngs og ráðgazt um við þá, hvað tiltækilegast væri, eptir því sem þá var komið málefnum Svía, og yfirráðum sjálfs hans. Menn vita, af því sem þegar er sagt, að helmíngur ríkisins (þ. e. því nær öll lönd Svía fyrir austan og sunnan haf) var í hershöndum, og hinn helmíngurinn (þ. e. Svíþjóð sjálf) var margþjáður af fjárkvöðum og manntjóni. En Karl tólfti fór ekki að því; hann fór ekki til Stokkhólms, kvaddi ekki til þíngs, heldur lèt fyrirberast í Ýstað og þar í grend, og hugsaði um það eitt, að safna fè og mönnum og fara í móti óvinum sínum sem allra fyrst. Danir voru næstir. Nú var vetur og Eyrarsund íslagt, meginher Dana suður við Stralsund og Vismar, en liðfátt heima fyrir á Sjálandi. Kon-

úngur safnaði öllu því liði, er hann gat fengið, og bjóst að fara vestur yfir sund og taka Kaupmannahöfn. En þá kom þeyr og leysti ís allan af sundinu, svo að sú ráðagjörð fórst fyrir. Karl lèt eigi þar við sitja, en brauzt litlu síðar hinn sama vetur (1716), með nokkrar þúsundir manna til Norvegs og tók Kristjaníu, enda voru Norðmenn óviðbúnir. En brátt safnaðist þeim svo mikið lið, og veittu svo harða mótstöðu, að Svíar urðu að halda þaðan og suður á landamæri. Þar er bær sá, er Fredrikshald heitir, og örskamt þaðan kastali einn á háu bergi, og nefndur *Fredriksstein*. Svíar tóku bæinn, en gátu þó eigi haldizt þar við nema stutta stund, því að Norðmenn eyddu honum bæði með skothríð frá kastalanum og á annan veg með eldi, er þeir lögðu í húsin. En fyrir því brendu Norðmenn bæinn, að þeir vildu eigi, að Svíar settust þar að í skjóli húsanna, og gætu svo í næði skotið á kastalann. Hèr um bil 3 mílum sunnar en Fredrikshald skerst vogur einn inn í landið, er Dynekil heitir, þröngur en alldjúpur. Þar lágu byrðíngar margir, er konúngur hafði sent frá Gautaborg, og áttu að færa hernum vistir og ýms áhöld, en voru eigi lengra komnir norður, er Tordenskjöld kom. Nú vildi hann ná þessum skipum, en það var hin mesta hætta, því að Svíar höfðu sett virki á bæði lönd, og höfðu þar marga menn til varna, en vogurinn mjór, eins og fyr var sagt. En Tordenskjöld kunni eigi að hræðast, leggur á voginn og lèttir eigi fyr, en hann hefir brent sum skipin, en tekið sum, og mistu Svíar þar allan þann skipaflota og alt sem á honum var. Eptir þann skaða varð Karl konúngur að hætta umsátinni og halda suður á Svíþjóð. Það var nálægt miðju sumri 1716.

Um þessar mundir rèð sá maður mestu hjá Karli tólfta, er *Görtz* hèt. Hann hafði áður verið ráðgjafi hertogans af Holstein-Gottorp, en var nú genginn í þjónustu Karls og í miklum metum hjá honum. Görtz var vel viti borinn, en mjög var hann grunaður um græzku; ekki var hann vinsæll af Svíum. Eins og vant var, hafði konúngur mestan hug á hermálefnum, en hitt alt, sem innanlands stjórn snerti, átti Görtz að annast, og þar á meðal fjármálefni ríkisins. En að fá svo mikið fè, sem þurfti til herþjónustunnar í Svíþjóð, eins og þar var þá ástatt, var enginn hægðarleikur. Þó tókst Görtz það fremur öllum vonum. En brátt sá hann, að öll þörf var á, að Svíar gerðu

þjóðir, er Svíar áttu í höggi við, sættust þeir einnig ári síðar en Karl konúngur féll.



# NÝJA SAGAN

EFTIR

PÁL MELSTEÐ.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

III. HEFTI, I.

(1721—1789).

REYKJAVÍK.

Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.

1872.

# Framhald annars kafla.

---

## Yfirlit

yfir tímabilið frá dauða Loðvíks fjórtánda til stjórnarbyltingarinnar á Frakklandi (1715—1789).

Það er kunnugt, af því sem áður er sagt, að fyrstu árin framan af átjándu öldinni var ófriður mikill í Norðurálfunni, bæði suður og norður. Hið *spánska erfðastríð* stóð suður og vestur í löndum, milli Loðvíks fjórtánda og þeirra, er í móti honum börðust. Það stríð endaði með friðnum í *Útrecht* 1713 og í *Rastadt* 1714, litlu fyrir dauða Loðvíks fjórtánda (1715). Hið *norræna stríð*, milli Karls tólfta og fjandmanna hans, gekk yfir öll þau lönd, er liggja að Eystrasalti, og lyktaði eigi fyr, en Karl konungur var fallinn (1718) og Svíar sömdu frið (árin 1719—1721) við þjóðir þær, er þeir höfðu átt í höggi við. Eftir allan þann mikla ófriðarstorm var að mestu leyti kyrt með mönnum hin næstu 20 árin, eður fram að dauða Karls sjötta, Þýzkalandskeisara (1740). Þó að einhversstaðar horfði til ófriðar, leituðust menn við að afstýra honum með sátt og samkomulagi, eður eyða með skjótum samtökum, ef til vopna hafði komið; einkum átti England góðan hlut að slíkum málum. En þó heita megi, að almennur friður hèldist, má samt fullyrða, að vart hafa þjóðirnar öðru sinni verið í meiri niðurlægingu, eða fremur háðar sínum yfirdrotnum en einmitt á því tímabili, er hèr ræðir um. Loðvík fjórtándi hafði viljað koma ættmönnum sínum til ríkis á Spáni og varið til þess fè og fjöri þegna sinna. En þó honum tækist að koma sonarsyni sínum (Filippusi 5.) þar til konúngs tignar, brást þó hitt, er verið hafði mark og mið Loðvíks: að sameina svo stjórnendur beggja þjóðanna, Frakka og Spánverja, að þeir yrði fullkomnir bandamenn og fylgdist sem

einn maður að öllum allsherjarmálum. Í stað vinfengis og fèlagskapar óvingaðist svo mjög með þeim frændum, Filippusi Spánar konúngi og hertoganum af Orleans, bróðursyni Loðvíks fjórtánda og ríkisstjóra Frakklands, að dregið hefði til fullkomins fjandskapar, ef Englendíngar og fleiri þjóðir hefði eigi skorizt í leikinn og miðlað málum. Elísabet Spánardrotníng vakti oftar en einu sinni ófrið á Ítalíu, til þess að synir hennar gæti komizt þar til þeirrar upphefðar, er henni þótti þeim samboðin.

Á Englandi var ný konúngsætt komin til ríkis frá Hannóver; ríkið hafði aukizt við Útrechtar-friðinn, verzlunin fór sívaxandi, og Englendíngar nutu þess í mörgu, að þeir voru út af fyrir sig; voru því djarfir um deildan verð, en þó einatt atkvæðamiklir í málefnum þjóðanna. Frakkland átti reyndar um sárt að binda eftir aðfarir Loðvíks fjórtánda, en rètti þó við vonum fremur og auðgaðist um daga hertogans af Orleans, því að landið er af náttúrunni auðugt, og hertoginn var að mörgu leyti vitur maður og stjórnsamur; það mátti því enn heita eitt af höfuðríkjum Norðurálfunnar. Spánverjar reyndu að ná aftur fornri frægð, en sýndu að því leyti meiri hug en dug. Austurríki reyndist nú óstyrkara en nokkru sinni áður og galt þess, að keisarinn, Karl sjötti, var dáðlítill maður, þó drambið skorti eigi. Það sem það hafði unnið í ófriðnum við Tyrki, mistist aftur, og alt eins gekk hitt úr greipum þess, er unnizt hafði á Ítalíu, Neapel og Sikiley, og þar með var yfirráðum Austurríkismanna lokið á Ítalíu og á Spáni. Hins þýzka ríkis getur að engu. Prússland tók sýnilegum framförum. Holland hafði lifað sitt fegursta, og var nú komið til sætis á hinn óæðra bekk. Slíkt hið sama mátti segja um Svíþjóð. Danir fóru hægt, en bættu þó hjá sèr ymsa hluti heima fyrir. Þó sumt gengi skrykkjótt á Rússlandi, og stjórnendur steyptust þar einatt úr völdum, börðu Rússar ómjúklega á Tyrkjum og gengu af þeim hálfdauðum, einnig komu þeir Ágústi kjörfursta til konúngstignar á Póllandi þrátt fyrir mótspyrnu Frakka.

Á tímabili því, er þar fylgdi næst á eftir, eður frá dauða Karls sjötta til stjórnarbyltíngarinnar á Frakklandi (1740-1789), vaknaði Norðurálfan af þeirri deyfd og drúnga, sem hún hafði verið í um stundar sakir, og tók til starfa, urðu þá aflraunir miklar með mönnum og margir sögulegir viðburðir. Árin þar næst

á undan hafði enginn sá konúngur setið að ríkjum, er með atkvæðamönnum mætti telja. En með þessu tímabili hefst Friðrik annar til ríkis á Prússlandi; hans miklu vitsmunir og aðfarir allar koma breyfíngu, meiri eður minni, á flesta stjórnendur honum samtíða. Sumir þeirra rísa í móti honum, sumir vilja líkjast honum í starfsemi og framkvæmdum. Svo var um Jósef annan í Austurríki og Katrínu aðra á Rússlandi; þau brutust í mörgu meðfram til þess að keppa við Friðrik í afreksverkum. Aðfarir þessara þriggja einvalda miðuðu til þess að efla líkamlegan og andlegan vöxt og viðgáng ríkja þeirra, er þeir rèðu fyrir, en að meðölum var eigi spurt og þar af leiddi margan og mikinn ófrið, og einatt ástæðulítinn og ránglátan; en hins vegar einnig hitt, að margt lagðist niður, er áður hafði við gengizt til ills eins bæði hjá lærðum og leikum, ýmsar skaðsamlegar álögur á mönnum voru af numdar, ýmsir fjötrar leystir og mentun og mannúð tóku í mörgum greinum framförum. Margir hinna smærri þjóðhöfðíngja fylgdu dæmum stórveldanna, og framfarirnar urðu fyrir þá sök því almennari með þjóðunum. Um þær mundir aftók páfinn kristmúnkafèlagið (1773), og urðu múnkar þessir þá útlægir af sumum löndum. Margt kom þá í ljós, er boðaði mönnum miklar byltíngar í þjóðfèlaginu; en ávextir þeirra umbrota urðu fyrst sýnilegir í Vesturheimi.

Karl keisari sjötti hafði gjört samnínga við aðra þjóðhöfðíngja um það, að María Theresía, dóttir hans, erfði ríkisstjórnina að honum látnum, og fengið samþykki þeirra þar að lútandi. Alt um það voru þeir samníngar rofnir, og hið *austurríkska erfðastríð,* er hófst litlu eftir dauða keisarans, gekk yfir lönd og lýði um 8 ára tímabil. Austurríki, er hafði í þeim ófriði að eins liðveizlu af Englandi, en marga og skæða óvini móti sèr, varðist þó miklu betur, en menn höfðu búizt við, og sýndi talsverðan dugnað. Að sönnu misti Austurríki Slesíu, er Friðrik annar náði undir sig, en að öðru leyti hèlt það aðallöndunum óskertum. Baiern fekk þúngar hefndir fyrir sína frammistöðu, er það vildi seilast til yfirráða í Austurríki, og Frakkland komst í þær kröggur, að þakka mátti sigursæld Mórizar af Saxlandi (Marschallen af Sachsen) að það náði svo góðum kostum í Akkenar-friðnum 1748, sem það náði.

Eftir átta friðarár hófst hið nafnkenda og grimma *Sjö ára*

*stríð* (1756). Það var í þeim ófriði, að Friðrik annar varði herfáng sitt (Slesíu) og ríki móti hersveitum hálfrar Norðurálfunnar. Í móti honum voru Austurríki og Frakkland, Rússland og Svíþjóð, Saxland og hið þýzka ríki; en með honum var England. Englendíngar og Frakkar börðust þau árin um yfirráðin í Norðurameríku, og þeir hlutu því einnig hèr í álfu að vera hvorir í móti öðrum; þannig barst ófriðurinn um allar heims álfur, bæði á sjó og landi. Að lokum urðu Englendíngar ofan á í þeim viðskiptum, og Prússar sömdu frið við mótstöðumenn sína og hèldu öllu sínu. Upp frá þessu komust yfirráðin yfir Norðurálfunni, eða jafnvel yfir öllum heimsálfum, í hendur á þessum 5 stórveldum: Englandi, Austurríki, Rússlandi, Frakklandi og Prússlandi. Annara ríkja gætti annaðhvort alls eigi, eða þau voru alveg háð því stórveldi, sem þau einhverra orsaka vegna voru við bundin. Af þeim 5 stórveldum var England einkum voldugt vegna herflotans, er það hafði, nýlendnanna, sem bæði voru miklar og auðigar, og verzlunarinnar, sem var miklu meiri, en hjá nokkurri annari þjóð; enda voru Englendíngar auðugastir allra manna. Austurríki átti miklar auðsuppsprettur, og tók að vísu miklum framförum um daga Maríu Theresíu, og enn meiri á ríkisárum sonar hennar, Jósefs annars, en það hamlaði stórum þjóðþrifum þess ríkis, að þar var enginn afbragðsmaður uppi, síðan Eugen prins af Savoyen leið, er vit og þrek hefði til að stýra ríkinu á rèttum framfaravegi, hvort heldur í friði eða á ófriðartímum. Svo hefir Friðrik annar Prússa konúngur sagt, að meðan Eugen var á upprèttum fótum, væri hann í raun rèttri keisarinn, þó aðrir bæri nafnið. Rússland hafði, þá er hèr var komið, fengið svo mikla mentun, að bæði komst þar gott skipulag á innanlands í mörgum greinum, og í annan stað færði það takmörk sín út yfir næstu þjóðir í allar áttir, og það svo freklega, að mörgum stóð stuggur af. Frakkland hafði, þegar fram í sótti, Spán sèr fylgjandi, og þó því hnignaði nokkuð sökum munaðarlífs og harðstjórnar, hafði frakknesk túnga og frakkneskir siðir samt sem áður mikil áhrif á aðrar þjóðir. Prússaveldi var úngt og miklu minna að víðáttu en hin stórveldin, en fjárhagur þess var blómlegur, herinn mikill og valinn að mönnum og öllum útbúnaði, og þar var maður, sem kunni að stýra.

Hinn fyrsti vottur þess, hver háski hinum smáu ríkjunum var

búinn, og hve lítils rèttindi þjóðanna voru metin, var sundurskifting Póllands. Ískyggilegt var sundurlyndi stórþjóðanna, en því voðalegri samtök þeirra. Um þær mundir stóð ófriður með Rússum og Tyrkjum, og var þar barizt af svo mikilli grimd, að eigi var annað sýnna, en að Húnar væru gengnir aftur. Hins vegar beittu stjórnendur þjóðanna hvorir aðra þeim brögðum, er mannlegt hyggjuvit gat kænlegust fundið, og blygðuðust nú síður við en áður, að fóttroða rèttinn fyrir allra sjónum.

Friðurinn sem Rússar gjörðu við Tyrki (1774) jók veldi þeirra um fram það er áður hafði verið, og sýndi mönnum fram á það, hvers þaðan mátti vænta. Austurríki vildi einnig aukast að löndum, og þóttist fá gott færi til þess, þá er karlleggur kjörfurstanna í Baiern var aldauða (1777); en Friðrik annar var enn uppi þó aldraður væri, og ónýtti þá fyrirætlan Austurríkis.

Í þessum viðburðum áttu Englendíngar og Frakkar lítinn þátt, nema að því leyti, er til samnínga kom. Frakkland gekk með þá meinsemd, að fyrirsjáanlegt var að bráðum mundi gjöra út. England hafði undir sig lagt mikið og auðugt ríki austur á Indlandi, en í Norðurameríku átti það megna styrjöld, og eitt síns liðs, fyrst og fremst við nýlendur sínar, er risið höfðu upp til að hrinda af sèr ófrelsi og ánauð, þar næst við þá frændur Bourbona (ɔ: Frakka- Spánar- og Neapels-konúnga), er gjarnsamlega veittu nýlendumönnum, og loksins við Hollendínga. Á því tímabili, sem hèr ræðir um, er sigur Ameríkumanna (bandaríkjanna) 1783 hinn síðasti og fegursti aðalviðburður, og *Georg Washington* hin glæsilegasta hetja.

## Spánn um daga Filippusar 5. Alberoni kardináli.

Filippus fimti, sonarson Loðvíks fjórtánda (1700—1746), erfði konúngdóm á Spáni eftir Karl annan árið 1700, eins og fyr er ritað. En konúngstign hans var eigi viðurkend fyr en í Útrechtar—friðnum 1713, að ófriðnum var lokið, og má með sanni segja, að sú konúngstign varð mörgum helzt til dýrkeypt, og það því fremur, sem Filippus var lítt nýtur konúngur, er bæði skorti vit og vilja til að stýra ríki sínu. Árið 1714 andaðist drotníng hans Gabriele af Savoyen. Meðan drotníng lifði, rèð sú kona öllu við hirðina, er Úrsíni hèt; en er drotníng var dáin, reri Úrsíni að því öllum árum að komast í drotníngar sess, en

það vildi konúngur eigi eftir henni láta, þó hún rèði flestu sem fyr. Um þær mundir var sá maður í Madrid, er *Júlíus Alberoni* er nefndur. Hann var sendiherra hertogans í Parma við hirð Spánar konúngs, Hann var ítalskur að ætt og af lágum stigum; komst snemma í klerka stètt, og til hárra metorða, því að maðurinn var vel viti borinn og beitti öllum brögðum til þess að ná hylli höfðíngjanna. Í Madrid varð hann aldavinur Úrsíni. Og þegar Filippus vildi eigi taka hana sèr til drotníngar, en lèzt mundu kvongast annari, er betur væri við sitt hæfi, gaf Alberóni Úrsíni það ráð, að hún skyldi koma því til leiðar, að konúngur kysi þá eina sèr til drotníngar, er væri auðsveip í lund og hógvær í hjarta, og lèti hana ráða öllu eins og áður. Hann kvaðst geta vísað á drotníngarefnið; það væri *Elísabet af Farnese*, bróðurdóttir hertogans af Parma; hún væri einmitt þessum kostum búin. Þetta þótti Úrsíni óskaráð, og varð það framgengt. En Elísabet var öll önnur en Alberóni hafði lýst henni; hún var ákaflega drotnunargjörn, djörf í huga og ófyrirleitin í framkvæmdum. Jafnskjótt sem hún var sezt í drotníngarsætið, bauð hún að Úrsíni skyldi verða á brott úr ríkinu þegar í stað; og svo var gjört.

Filippus varð að láta aðra hafa öll ráð fyrir sèr, og tók því fegins hendi, að drotníng hans hefði allan veg og vanda af ríkisstjórninni; en Alberoni varð skjótt hennar æðsti ráðgjafi. Þegar það var orðið, setti hann sèr það mark og mið, að hefja Spánarveldi af þeirri niðurlægíngu, sem það var komið í sökum heimsku og harðstjórnar þeirra manna, er að undanförnu höfðu þar ríkjum ráðið. Hann kipti fjárhagnum í lag og kom upp talsverðum skipaflota. En hann lèt sèr það eigi nægja. Hann vildi gjöra Spán voldugra en öll önnur ríki Norðurálfunnar. Hann vakti einatt máls á því við konúnginn, að Loðvík fimtándi, Frakkakonúngur, mundi eigi verða lánglífur, og þá væri Filippus rètt borinn til ríkis á Frakklandi, sem sonarson Loðvíks fjórtánda; en hvað hertogann af Orleans snerti, er um þær mundir stýrði Frakklandi, meðan Loðvík 15. var í bernsku, þá væri innan handar að svifta hann völdum. Drotníng vildi um fram alt, að synir hennar gætu fengið lönd til forráða; til ríkis á Spáni gátu þeir eigi komist, því að synir Filippusar konúngs, af fyrra hjónabandi hans, voru þar til ríkis bornir. Fyrir því sneru þau

Elísabet drotning og Alberóni huga sínum til Ítalíu. Þar voru lönd, sem í Útrechtar—friðnum höfðu gengið undan Spáni og undir Þýzkalands keisara. Þar að auki stóð svo vel á, að Farnesaættin í Parma, og Medicea-ættin í Toskana, voru að því komnar að líða undir lok. Öllum þessum ítölsku löndum vildu þau drotníng og ráðgjafi hennar ná handa þeim sonum Elísabetar. En til þess að koma öllu þessu í kríng varð Alberóni að fara dult með fyrirætlun sína, leiða hugi þeirra þjóða, er hann helzt óttaðist, í aðra átt, og fá þeim annað að sýsla heima fyrir hjá sjálfum sèr. Þess vegna kom hann fótum undir samtök á Englandi til þess að koma Stúarta-ættinni þar aftur til ríkis; þess vegna kveikti hann samsæri á Frakklandi gegn hertoganum af Orleans; þess vegna fekk hann Görtz, ráðgjafa Karls tólfta í lið með sèr, til að sætta þá Pètur Rússakeisara og Karl konúng, og fá þá í sameiníngu til að koma Stúörtunum til ríkis á Englandi.

Þýzkalands keisari hafði, eins og áður er sagt, í Útrechtarfriðnum fengið þau lönd mestöll, er Spánn varð þá laus að láta á Ítalíu, og Alberóni nú vildi ná aftur, þess vegna reið nú á, að ráðast á þau lönd meðan keisarinn (Karl sjötti) hafði sem mest að starfa annarsstaðar. En einmitt um það leyti átti keisarinn ófrið við Tyrki. Þeir höfðu löngum elt grátt silfur, Soldán og keisarinn. Litlu síðar en hinu spánska erfðastríði lauk, rauf Soldán Karlowiz-friðinn[1] og tók Móreu (Peloponnesus) frá Veneziumönnum. Keisarinn var bandamaður Veneziumanna, og sendi þeim her manns til liðveizlu. Eugen af Savoyen stýrði því liði, og varð Tyrkjum sigursæll, eins og vant var. Þegar nú þannig var ástatt, og keisarinn hafði sem mest að vinna, lagði floti mikill út frá Spáni (árið 1717), og, fyr en nokkurn varði, voru Spánverjar búnir að vinna Sardínarey alla og meira hluta Sikileyjar. En er Karli keisara komu þau tíðindi, gjörði hann þegar frið við Tyrki í *Passarówitz* 1718. Fekk keisarinn þá Belgrad, en Veneziumenn mistu Móreu, móti því að þeir fengu nokkuð af Dalmatíu. Nú varð alt bert um ráðabrugg Alberonis: Samsærið á Frakklandi gegn hertoganum af Orleans komst upp, og var þegar bælt niður; Karl tólfti fèll fyrir Friðrikssteinskastala, og þá var bráðum Görtz úr sögunni. Hins vegar gjörði England, Frakkland og keisarinn samband sín í millum, og Hol-

1) Nýja sagan, II. hefti, bls. 62.

land ætlaði að vera þar með, og fyrir því var það nefnt fjórmenninga-sambandið (Kvadrupel alliance); var það til þess stofnað, að tryggja það alt sem bezt, er um hafði verið samið í Útrechtar-friðnum. Þegar nú þar við bættist, að Englendíngar unnu sigur á flota Spánverja við Sikiley, þá varð Spánar konúngur að gánga að þeim kostum, er bandamenn settu honum (1720): Alberóni var gjörður útlægur af Spáni; hertoginn af Savoyen, sem hafði leiðst í lið með Alberóni, lèt Sikiley móti því að fá aftur Sardinarey, en Sikiley komst undir Austurríki; Don Karlos elzti sonur Elísabetar drotníngar fekk erfðarètt til Parma og Toskana. Síðan þessi breytíng komst á, hafa þeir verið nefndir Sardiníu-konúngar[1], sem ráðið hafa fyrir Savoyen og Piemont.

Norðurálfan þurfti frið og næði eftir hin mörgu ófriðarár, sem á undan voru gengin um daga Loðvíks fjórtánda og af hans völdum, þó lá oft við sjálft á tímabili því, er hèr ræðir um, að friðurinn mundi raskast. Loðvík fimtándi, Frakkakonúngur, hafði fastnað sèr dóttur Spánar konúngs; en af því að hún var barn að aldri, og þeir, sem þá höfðu mest ráð fyrir Loðvíki, vildu að hann kvongaðist sem fyrst, þá var hin spánska konúngsdóttir send heim aftur til sinna átthaga, en Loðvík gekk að eiga *María*, dóttur Stanisláss Leczinskýs, Pólverja konúngs, er fyr hefir verið nefndur. Nú þótti Spánar konúngi sèr nærri höggvið, sem vonlegt var, og vantaði lítið til að ófriður risi af. Annað var það, er til mikilla vafnínga horfði. Karl keisari hinn sjötti vildi koma á fót verzlunarfèlagi í borg þeirri, er Ostende heitir í Belgiu; en Belgia lá undir keisarann, síðan friðurinn gjörðist í Útrecht. Verzlunarfèlag þetta átti að reyna sig við enska og hollenzka verzlunarmenn á Indlandi og í Vestindíum. Þetta hvorttveggja leiddi til þess, að Norðurálfumenn gengu, að kalla mátti, í tvær sveitir: í *Wienar-sambandið*, milli Austurríkis, Spánar og Rússlands, og í *Hannóvers-sambandið*, milli Englands, Frakklands, Hollands, Svíaríkis og Danmerkur. Hèr við bættist og, að keisarinn, sem engan son átti, og sá fyrir, að karlleggur Habsborgar-manna mundi bráðum undir lok líða, gjörði alt sitt ýtrasta til, að *María Theresía*, dóttir hans, erfði alt hans ríki

1) Árið 1861 lagði Sardiníu konúngur niður það nafn, og nefnir sig síðan Ítalíu konúng, enda er öll Ítalía gengin undir hann

þegar hann fèlli frá, og samdi þar að lútandi erfða-skrá. Fyrirskipan sú, er keisarinn (Karl sjötti) þannig gjörði um ríkiserfðirnar, er síðan alment nefnd: *hin pragmatiska Sanction*. Það var einkum tveim mönnum að þakka, að friður hèlzt um nokkur ár. Annar þeirra var *Fleury* kardináli, æzti ráðgjafi Frakkakonúngs (1726-1743), hinn maðurinn var *Róbert Walpole*, ráðgjafaforseti á Englandi (1721-1742). Báðir þessir menn voru hinir friðsömustu, og, af því þeir rèðu miklu, gátu þeir að mestu leyti afstýrt ófriðnum um sína daga. Karl keisari hætti við verzlunarfèlagið, og varð það svo að engu, en bæði England og Holland, sem mest höfðu staðið í móti fèlaginu, samþyktust ríkiserfðir keisarans.

Hið pólska erfðastríð (1733-1735).

Ágúst annar, kjörfursti af Saxlandi og konúngur á Póllandi, sem mönnum er kunnur af viðureign hans við Karl tólfta Svía konúng, andaðist 1733. Þegar hann var dáinn, máttu Pólverjar eigi sjálfir ráða því, hvern þeir vildi til konúngs hafa, fyrir afskiftasemi og ránglæti annara þjóða. Þeir tveir, sem umtalsmál var um að konúngdóminn hlyti, voru þessir: Ágúst af Saxlandi sonur Ágústs annars, og Stanislás Leczinský, er áður hafði verið konúngur á Póllandi. Allur þorri Pólverja vildi heldur hafa Stanislás yfir sèr en Ágúst, því að Stanislás var gæflyndur maður, og vel að sèr um marga hluti, þó hann væri enginn hreystimaður, og þar á ofan var hann pólskur að ætt og uppruna, en Ágúst var í raun og veru útlendur, og með öllu óhæfur til konúngstignar sökum vitsmunaskorts og leti. Ríkisþíng Pólverja kaus Stanislás til konúngs, en keisarinn tók málstað Ágústs, af því að hann hafði heitið keisaranum, að samþykkjast áðurnefnda erfðaskrá hans. Slíkt hið sama gjörðu Rússar, því að þeim var mest umhugað, og að því reru þeir öllum árum, að alt gengi sem verst á Póllandi. Með Stanilási stóðu Frakkar; því að Villars marskálkur, hin aldraða hetja, og ýmsir framgjarnir menn í hirð Frakka konúngs, kröfðust þess, að Stanislás, faðir drotníngarinnar, væri styrktur til ríkis, og kváðu sæmd Frakklands við liggja; þá varð Fleury að heita liðveizlu, og hafa liðsbúnað, þó honum væri það fjærri skapi. Spánn og Sardinía gengu í lið með Frökkum í því skyni að ná undan Austurríki þeim lönd-

um, er það átti á Ítalíu. Þannig hófst hið *pólska erfðastríð*, er stóð frá 1733 til 1735. Rússar voru næstir og urðu fyrst búnir og héldu liði sínu inn á Pólland. Stanislás var kominn til Warschau, höfuðborgar landsins, en varð að flýja þaðan og til Danzig. Rússar eltu hann þángað og settust um borgina. En fyrir þá sök, að Frakkar sendu þangað lítið lið, og fyrirsjáanlegt að borgin yrði tekin af Rússum, þá treystist Stanislás eigi að haldast þar við og flýði þaðan í dularklæðum, og komst nauðulega undan vestur á Prússland, en þá var honum borgið. Var því næst Ágúst kjörfursti til konúngs tekinn á Póllandi og nefndur Ágúst þriðji. Hann var einhver hinn ónýtasti konúngur, og hafði eigi hug á öðru en dýraveiðum, en lèt ráðgjafa sinn, er *Brühl* hèt, slúnginn mann og óhlutvandan, hafa alla ríkisstjórn á hendi. Sat konúngur lengstum í Dresden á Saxlandi, því að honum þótti betur fallið til dýraveiða þar í landi en austur á Póllandi. Hann lærði aldrei pólska túngu, kom að eins annaðhvort ár til Warschau og hafði þar litla viðdvöl; dæmafá fjáreyðsla, svall og sællífi fylgdi hirðinni land úr landi, og breiddi siðaspillínguna út á meðal almenníngs. Var um þær mundir — eins og því miður oftar — bæði íll stjórn og ónýt á Póllandi. Þeir sem landinu rèðu voru reyndar Rússar. En nú er að víkja aftur til ófriðarins. Þegar Frakkar gátu eigi komið sínu fram á Póllandi, og Rússar helzt til fjarlægir, sneru þeir reiði sinni á keisarann. Hann hèt á Englendínga til liðveizlu, en Walpole vildi engin afskipti af hafa, og setti þar þvert nei fyrir; fekk og Hollendinga til að gjöra slíkt hið sama. Frakkar sendu Berwick marskálk með her manns austur að Rín, og vann hann á stuttum tíma öll þau hèröð, er einu nafni heita Lothringen; hann tók og kastalaborg þá fyrir austan Rín, er Kehl heitir, en er hann settist um kastala þann, er Filippsborg heitir, fèll Berwick (1734), og þótti verið hafa dugandi hershöfðíngi. keisarinn sendi þegar herlið vestur til Rínar, og þó Eugen væri yfir það settur, þá var bæði, að hann var hrumur orðinn af elli, og hèr var við ofurefli að etja, og vann hann því ekki á. Í annan stað sendu Frakkar Villars til Ítalíu með miklu liði, og kom Karl Emanúel, Sardiníu konúngur, þar til móts við hann með sínar hersveitir, og því næst fóru þeir herskildi yfir landið, og lögðu alt undir sig, sem keisarinn átti á Norður-Ítalíu, nema Mantúa. Alt hið

sama hamíngjuleysi fylgdi keisarans málefni í Neapel og á Sikiley. Spánverjar unnu bæði þau lönd undir sig, mest fyrir þá sök, að Austurríkismenn voru þar illa þokkaðir af landslýðnum; var Don Karlos (sonur Filippusar 5. á Spáni og Elísabetar) því næst þar til konúngs tekinn.

Þegar keisarinn sá, að menn hans biðu allstaðar ósigur, en Fleury hins vegar þótti fullsèð, að Frakkland mundi geta haldið Lothringen, sem það lengi hafði haft augastað á, þá fóru hvorirtveggja að tala um vopnahlè og frið, og litlu þar á eftir var friður saminn í Wien (1735) með svofeldum skilmálum: 1. Ágúst þriðji, kjörfursti af Saxlandi, hèlt konúngdómi á Póllandi. 2. Don Karlos af Spáni, er orðinn var hertogi í Parma, og átti erfðarètt til Toskana, lèt bæði þau lönd af hendi, en fekk í þeirra stað Neapel og Sikiley. 3. Lothringen var fengin Stanislási til forráða, en skyldi falla undir Frakkland að honum dauðum. 4. Franz Stefán, hertogi af Lothringen, skyldi erfa Toskana, þegar Medicea-ættin væri þar aldauða (og það varð 1737). 5. Hertogadæmið Parma var lagt til Austurríkis í skaðabætur fyrir Neapel og Sikiley. 6 Frakkakonúngur lagði samþykki sitt á ríkiserfðaskrá keisarans. Þessa skilmála lètu allir málsaðilar sèr lynda, einkum keisarinn, því að hinn síðastgreindi skilmáli var í hans augum engu minna verður en lönd þau, er gengið höfðu undan honum og hinu þýzka ríki.

Ófriður sá, sem nú var getið, og friðarsamníngar þeir, er honum fylgdu, var órækur vottur þess, að allur sá dugur, sem Austurríki hafði sýnt framan af öldinni, var eingöngu að þakka vitsmunum og framgöngu Eugens bæði í ríkisstjórn og herstjórn. Að herstjórninni fór stórum hnignandi, kom þó enn betur í ljós í ófriði þeim, er Austurríkismenn áttu við Tyrki á hinum síðustu árum Karls keisara, og ráðgjafar hans leiddu hann út í. Rússar voru bandamenn keisarans í því stríði, og höfðu jafnan sigur, en Austurríkismenn biðu hvern ósigurinn á fætur öðrum, þangað til þeir rösuðu fyrir ráð fram og sömdu friðinn í Belgrad (1739). Þar misti Austurríki Belgrad, er lengi hafði verið hið öruggasta vígi og vörn ríkisins móti Tyrkjum.

**Uppgángur Prússa. Friðrik annar hefst til ríkis (1740).**

Kjörfurstadæmið Brandenborg og hertogadæmið Prússland (Preussen), er því var sameinað, hafði um allmörg ár verið undir yfirráðum dugandi manna, og var nú, þegar hèr var komið, orðið allmikið ríki á Norðurþýzkalandi. *Friðrik Vilhjálmur*, «kjörfurstinn mikli», er sat þar að völdum frá 1640 til 1688, hafði bæði aukið ríki sitt í vestfalska friðnum, losazt við yfirráð Póllands í friðnum í Oliva (1660), og átt mikinn og góðan þátt í ófriðnum milli Niðurlendínga og Loðvíks fjórtánda, og það sem mest var vert, komið á miklu meiri festu og einíngu í löndum sínum, er eigi voru ein samgróin heild, heldur lágu að heita mátti á víð og dreif. Ýms hèruð í ríki þessu, er því nær höfðu lagzt í eyði í þrjátigi ára stríðinu, voru nú gróin sára sinna og orðin aptur að blómlegum sveitum; skipgengir skurðir voru komnir víðs vegar um landið, verzlun og iðnaður í mikilli framför, og höfðu Hugenottar, er flýðu af Frakklandi, en kjörfurstinn tók feginn hendi í móti, eins og fyr er sagt[1], átt mikinn þátt í öllum þeim framförum Prússaveldis. *Friðrik* sonur Friðriks Vilhjálms (1688—1713) var ákaflega skraut- og metorðagjarn, og horfði eigi í kostnaðinn til slíkra hluta; hann dáðist mjög að Loðvíki fjórtánda og hirðsiðum hans og stældi eftir honum í mörgum greinum, og eigi þekti hann annað æðra hnoss en að geta náð í konúngs tign og borið konungs nafn. Með því að haga stjórn sinni í mörgu eftir vild hins þýzka keisara, leyfði keisarinn (Leopold I.) að Friðrik mætti taka sèr konungs nafn, og þá er samþykki keisarans var fengið, setti kjörfursti þessi kórónuna á höfuð sèr í Königsberg (1701) og nefndi sig Friðrik fyrsta *Prússakonúng*. En það var fyrst í Útrechtarfriðnum (1713), að aðrir stjórnendur samþyktu konúngstign hans. Hann jók ríki sitt vestur á Þýzkalandi, er hann fekk að erfðum nokkur greifadæmi á Vestfali, og ennfremur fekk hann yfirráð í Neufchatel-fylki á Sveizalandi. Sonur hans *Friðrik Vilhjálmur* fyrsti (1713—1740) eignaðist Stettin og Vesturpommern alt að Peneflljóti, og eyjarnar Usedom og Wollin fyrir Óderfljóts mynni, er Svíar lètu af hendi, en fengu í móti lausafè.

Friðrik Vilhjálmur fyrsti var mjög ólíkur bæði því, er faðir

1) Nýja sagan II. Hefti, bls. 45.

hans hafði verið, og því sem aðrir konúngar voru honum samtímis. Faðir hans var hinn mesti skrautmaður og eyddi ærnu fè í veizlur og alls konar viðhöfn. Slíkt hið sama átti sèr alment stað meðal konúnga um þær mundir. Friðrik Vilhjálmur var fjarlægur öllum þess konar hlutum. Hann hélt sig svo spart og hirð sína, að hann mátti vel heita hinn «matarilli»; hitt kom engum til hugar að kalla hann «mildan[1]», því að hann var svo harður, að flestum stóð ótti af. Hann var ákaflega geðstór, reiddist þegar í stað, ef alt var eigi eins og hann vildi, og barði þá óspart á mönnum, hver sem í hlut átti, hvort heldur skyldir eða vandalausir. Svo voru menn hræddir við hann, að þeir voru fáir, sem þorðu að mæta honum á förnum vegi, heldur flýðu til beggja handa, þegar til hans sást. Mætti hann konu á strætum úti, skipaði hann henni að fara heim og gæta barna sinna. Sæi hann prest nema staðar og horfa á hermennina, hvað þeir höfðust að, bauð hann honum að fara heim þegar í stað og hugsa heldur um bækur sínar og bænagjörðir, og barði hann um leið. Engi vísindi eða vísindamenn þrifust í ríkinu um hans daga, enda var hann sjálfur ómentaður maður. Það var einkum tvent, sem allur hans hugur hneigðist að: annað var, að safna sem mestu fè í fjárhirzlur ríkisins, og tókst honum það vel, bæði með dugnaði og sparsemi; hitt var: að koma fótum undir mikið og velbúið herlið í ríki sínu, og á þetta síðara atriði lagði hann svo mikið kapp, að furðu gegndi. Honum nægði eigi, að liðsmenn hans væri á vöxt eins og alment gjörðist með öðrum konúngum, heldur hafði hann erindsreka sína um allar jarðir, og lèt þá útvega sèr alla þá menn, er mestir voru vexti, hvar sem til varð náð. Honum stóð á sama, hvort þeir voru austan úr Asíu, af Egyptalandi, eða af hverri þjóð í Norðurálfunni sem vera skyldi. Sumum af þess konar mönnum, og þó það væri prestar, lèt hann ræna úr átthögum þeirra, og flytja til sín, suma keypti hann dýrum dómum[2], suma fekk hann að gjöf frá öðrum konúngum. Þessa risavöxnu menn setti hann alla í eina fylkíngu, og er sagt, að maður sá er jafnan stóð yztur í annan arm þeirrar fylkingar, og Hómann hèt,

1) Sbr. Heimskringlu, Ýnglingasaga kap. 52.

2) Þannig er mælt, að einhverju sinni hafi hann keypt einn af þessum risum á Írlandi fyrir því nær 11000 ríkisdala.

væri svo hár, að hann var meira en seilíng Ágústs konúngs hins sterka, og var hann þó ekki smámenni kallaður. Konúngur lèt öllum stundum æfa lið sitt við vopnaburð, enda var sagt að það tæki annara þjóða hermönnum fram í þeirri list; og það má telja víst, að konúngur þessi hafi fyrstur manna kveikt þann hermanna-anda og það hermanna vald, sem síðan hefir ríkt á Prússlandi. En allmerkilegt má það virðast, að Friðrík Vilhjálmur fyrsti átti því nær aldrei ófrið við aðrar þjóðir, svo vígamannlega sem hann lèt heima fyrir. Það var eins og hann tímdi eigi að sjá af liðsmönnum sínum eður senda þá frá sèr, heldur hafa þá heima öllum stundum sèr til augnagamans, telja þá og snúa þeim fyrir sèr, eins og maurapúki yfir peninga hrúgu. Þó konúngur þessi hefði lifað lengur, en hann gjörði, þá er all-ólíklegt, að hinn mikli her — um 90,000 manns —, er hann hafði safnað og æft við vopnaburð sí og æ, hefði nokkru sinni orustum vanizt, heldur heræfíngum að eins. Friðrik Vilhjálmur gat að eins búið í hendur á sèr meira manni, og það gjörði hann án alls efa rækilega. Hann var kvongaður og hèt drotníng hans Sofía, systir Georgs annars á Englandi. Þeirra sonur var *Friðrik*, er til ríkis kom á Prússlandi eftir föður sinn 1740, og var hinn *annar* með því nafni, en er oft nefndur *hinn mikli*, sökum afreksverka sinna. Hann var fæddur 1712 á öndverðu ári. Honum var meðskapaður hvass skilníngur og óbifanlegur vilji; en um annað andlegt atgjörvi hans, kosti og ókosti, er eigi auðvelt að segja, hvað honum var meðskapað, eða hvað kenna mátti hinu einstaka uppeldi, er honum hlotnaðist á æsku-árunum. Svo harður sem Friðrik Vilhjálmur var við aðra, þá var hann þó lángharðastur við konu sína og börn; og einkum kom sú harka niður á Friðriki syni hans og Vilhelmínu dóttur hans, er seinna giftist markgreifanum af Baireuth. Konúngur var, eins og áður er sagt, ómentaður maður og var illa við allar bókmentir. Hann hataði vantrúaða, katólska menn og heimspekínga, þó hann gæti eigi gjört greinarmun á milli þeirra. Hans helzta skemtan var að reykja tóbak, drekka sænskt öl, spila Tokkodille-spil, og veiða akurhænsn. Sonur hans hafði lítinn hug bæði á hinum alvarlegu störfum og á skemtunum föður síns. En hann hafði ágætt söngeyra og lèk vel á hljóðpípu. Fyrstu kennendur hans voru frakkneskir flóttamenn, og af þeim

fekk hann miklar mætur á frakkneskum bókmentum, og að vera sem oftast í frakkneskra manna hópi. Þetta mislíkaði föður hans stórum, þótti það kveifarlegt og refsaði honum fyrir, en sú refsíng hafði alt önnur áhrif á soninn en til var ætlazt. Þegar um trúna var talað, kom Friðrik stundum með þær spurníngar eða þau svör, sem virtust nokkuð frábrugðin hinni lúthersku trú. Konúngi þótti það vera trúarvilla, og sèr sem kristnum manni skylt að taka hart á slíku. Hann lèt því taka frá syni sínum allar frakkneskar bækur, brjóta hljóðpípuna, og barði hann harðlega og dróg hann á hárinu um herbergin. Stundum fekk hann eigi á öðru að nærast en vatni og brauði, og einu sinni ætlaði konúngur sjálfur að hengja hann. Öll þessi dæmafáa harðneskja kom því til leiðar, að Friðrik einsetti sèr að flýja til frænda sinna á Englandi. En svo tókst óheppilega til, að konúngur komst að þeirri fyrirætlan; lèt hann þá jafnskjótt taka son sinn og setja í varðhald. Einn af kunníngjum prinsins, sem var í vitorði með honum, var dæmdur til dauða og höggvinn, en annar gat flúið og forðað lífi sínu. Friðrik var dæmdur til dauða, og hefði eflaust mist lífið, ef keisarinn og ýmsir konúngar hefðu eigi beðið honum griða. Við það sefaðist Friðrik Vilhjálmur, en lengi mátti sonur hans sitja í fángelsi. En þó að hann væri á þann hátt sviftur frelsi, var hans kostur að því leyti betri en heima hjá föðurnum, að í fángelsinu hafði hann viðunanlegt fæði, og þar gat hann leikið á hljóðpípu sína og lesið ýmsar frakkneskar bækur, sem hann annars hefði mátt án vera.

Þegar Friðrik losnaði úr varðhaldi þessu, hafði hann því nær einn um tvítugt og var orðinn þroskaður að því skapi, og þess vegna eigi auðvelt að hafa hann undir eins hörðum aga og áður, meðan hann var í bernsku. Mótlætið hafði skerpt vitið, en gjört hjartað hart og hugann bitran. Hann hafði lært að stilla geð sitt og dyljast fyrir mönnum. Þess vegna lèt hann sem hann vildi nú gjöra alt að vilja föður síns, og fór þá allvel með þeim. Litlu síðar kvongaðist hann og átti Elísabetu Kristínu af Brúnsvík-Bevern; en þó að konúngur einn rèði því kvonfángi, og Friðrik væri eigi um spurður, hvort honum líkaði sá ráðahagur vel eður illa, var hann konu sinni góður og virti hana mikils, en eigi hafði hann mikla ást á henni og var sjaldnast þar sem

hún var. Konúngur keypti handa honum höll þá, er Rheinsberg heitir, norður undir Meklenborg; settist Friðrik þar að, og lèt prýða þenna bústað sinn á allar lundir, og þángað komu kunníngjar hans, einkum frakkneskir vísinda menn; var þar einatt glatt á hjalla, en mestum tíma varði hann þó til bókmenta.

Um þessar mundir var frakknesk túnga og frakkneskar bókmentir í fyrirrúmi á Þýzkalandi. Allir heldri manna synir lærðu að tala og rita frakkneska túngu, um móðurmál þeirra, þýzkuna, var lítið skeytt. Friðriki Vilhjálmi þótti nauðsynlegt að börn sín lærði frakknesku, en engin þörf á, að þau lærði þýzku. Latínu vildi konúngur þessi hvorki sjá nè heyra. «Sonur» minn» sagði hann, «skal eigi læra latínu, og engum skal líðast, að nefna þann hègóma á nafn». Einu sinni kom konúngur þar að, er einn af kennendum Friðriks var að yfirfara með hönum gullskrá Karls keisara hins fjórða[1] á frummálinu (latínu). «Hvað ertu þarna að lesa með honum, þorparinn þinn?» sagði konúngur. «Eg er að þýða gullskrána fyrir prinsinum» svaraði kennarinn. «Eg skal gullinskrá þig, fantorinn þinn!» mælti konungur, og reiddi stafinn til höggs og ætlaði að berja manninn, en hann hopaði undan á dyr, og komst út óbarinn. Friðrik fekst ekki við latinska túngu eftir það, svo um sè getið. Hið eina túngumál, sem hann las og lærði til hlítar, var frakkneska, og á þá túngu ritaði hann alt, sem eftir hann liggur ritað, bæði í óbundinni ræðu og í ljóðmælum. Af öllum frakkneskum rithöfundum, er uppi voru í það mund, var *Voltaire* nafnkendastur, og að honum og ritum hans dáðist Friðrik meir en að öllu öðru. Brèf og gjafir gengu á milli þeirra, og seinna, þegar Friðrik var orðinn konúngur, dvaldist Voltaire hjá honum um hríð, og var þá hafður í miklum hávegum, þó allur sá fögnuður yrði síðan nokkuð endasleppur.

Um vorið 1740 dó Friðrik Vilhjálmur fyrsti, en Friðrik tók við ríki á Prússlandi, og hafði þá átta vetur um tvítugt. Flestum var ókunnugt um eðlisfar hans. En hitt vissu allir, sem átt höfðu tal við hann, eða lesið það, er hann hafði ritað, að vitsmunir hans voru afbragð. Margir ætluðu, að hann mundi verða sællífur, og hneigjast mjög til munaðar, af því að hann hafði um nokkur undanfarin ár verið makráður í meira lagi, haldið sig óspart að mat og drykk, og lagt mikla stund á bókmentir, hljóð-

1) Sjá Miðaldasögu, bls. 181.

færaslátt og samræður við menn. Suma vilti það, að hann talaði löngum um sanngirni, frið, frelsi og hve fagurt það væri, að geta glatt aðra. Og þeir, sem gjörðu sèr beztar vonir um hann, töldu víst, að hann mundi verða eins og Medicearnir í Flórenz voru á sinni tíð, það mundi renna upp gylliniöld vísinda- og listamanna. Engum kom til hugar, að til ríkis var kominn harðstjóri með frábæru viti á herstjórn og ríkisstjórn, með óþreytandi starfsemi og dugnaði, en sem lítið skeytti um orð og eiða, þegar svo bar undir. Þessir kostir hans og ókostir komu þegar í ljós á hans fyrstu ríkisstjórnarárum. Hann kveikti hinn mikla ófrið, er um átta hin næstu ár gekk yfir miðbik Norðurálfunnar og enda snerti aðrar heimsálfur.

### Hið austurríkska erfðastríð (1740—1748).

Hið sama ár, sem Friðrik annar kom til ríkis á Prússlandi, en þó nokkrum mánuðum seinna, dó *Karl keisari sjötti*, hinn síðasti maður í karlleggínn af hinni nafnkunnu Habsborgarætt, er að mestu leyti hafði ríkjum ráðið á Þýzkalandi hátt á fimta hundrað vetra. Eins og áður er sagt, hafði Karl keisari gjört alt sitt ítrasta til, að ríkið sundraðist eigi eftir hans dag, eins og orðið hafði hlutfall hins spánska einveldis nokkru áður. Jafnvel þó Eugen hefði löngum sagt, að tvö hundruð þúsundir vopnaðra manna, og fè að því skapi í ríkissjóðnum, væri margfalt betri trygging en óteljandi loforð allra þjóðhöfðíngja í Norðurálfunni, þóttist keisarinn hafa trygt að fullu og öllu erfðarètt dóttur sinnar *Maríu Theresíu*, og vel um hnútana búið, er honum hafði tekizt, að fá því nær alla stjórnendur Norðurálfunnar til að samþykkjast erfðaskrána («pragmatiske Sanktion»). Samkvæmt þeirri erfðaskrá áttu öll erfðalönd keisarans að gánga óskift til Maríu Theresíu. Hún var þá 23 ára, er faðir hennar deyði, og gift *Franz Stefáni*, stórhertoga af Lothringen, seinna af Toskana. En af því að kona mátti eigi bera keisara kórónu á Þýzkalandi[1] var svo ráð fyrir gjört, að Franz maður Maríu Theresíu skyldi valinn til keisara; með því móti hèlzt keisaratignin í ættinni. Prússakonúngur hafði meðal annara lagt samþykki sitt á erfðaskrá keisarans, og María Theresía fekk jafn-

1) Þegar María Theresía var komin til ríkis, nefndi hún sig «drottníngu af Úngarn og Böhmen».

skjótt sem hún var komin til ríkis, frá ýmsum konúngum skýlausa játníngu þeirra um það, að þeir ætluðu í engu að breyta út af því, er þeir áður hefði sagt og samþykt. En frá engum bárust henni jafnfögur loforð um heita vináttu og örugga liðveizlu eins og frá Prússakonúngi; þaðan var því als annars að vænta en ófriðar. Það var einúngis kjörfurstinn af Baiern *Karl Albert*, er eigi vildi samþykkjast ríkiserfðir Karls keisara. Kjörfurstinn var kominn af elztu dóttur Ferdínands keisara hins fyrsta, þóttist nær standa ríkiserfðum en María Theresía, og mótmælti því í alla staði, að hún kæmi til ríkis. En kjörfurstinn var hvergi nærri því vaxinn, að geta af sjálfs síns ramleik gjört Austurríki miklar ónáðir, og fyrir því töldu menn það víst, að þetta tilkall hans mundi eigi raska friðnum í Norðurálfunni.

Þá var það að Friðrik annar hafði hugfest, að ráðast á Austurríki og ná undir sig einum hluta þess, er heitir *Slesía*. Hann bar það fyrir sig, að Slesía hefði að fornu legið undir Brandenborg, en væri órèttilega komin undir Austurríki, og fyrir því vildi hann nú fá Slesíu aftur. Það er víst að þetta var eigi næg ástæða til að rjúfa frið og trygðir, enda hefir Friðriki sjálfum eigi þótt hún alls kostar góð og gild, því að hann segir í ritum sínum: «drotnunargirnd, eigingirni og löngun til þess að mín yrði getið að nokkru, varð ofan á, og eg rèð það af að hefja ófriðinn». Fyr en Maríu Theresíu varði, var Prússa her kominn suður á Slesíu (Slesíu-stríðið fyrra, 1740-1742). Það var um hávetur, veður kalt og vegir illfærir. Herlið Austurríkismanna var hvorki mikið nè við ófriði búið. Sá hluti þess, sem aðsetu hafði í Slesíu, gat litla vörn sýnt; lögðu því Prússar landið undir sig á svipstundu, nema nokkrar kastalaborgir, er eigi gáfust upp í það skifti.

Slesía var nú unnin, án þess að komið hefði til nè einnar stórorustu; en er voraði, sendi María Theresía herlið norður þángað til þess að reka Prússa út úr landinu. Öndverðlega í Aprílmánuði (1741) varð fundur þeirra við þorp eitt í Slesíu er *Molvitz* heitir. Friðrik hafði aldrei verið í orustu fyr, er teljandi væri, enda misti hann svo gjörsamlega hug og dug, þegar orustan tók að harðna, að þar hefði hann beðið hinn mesta ósigur, ef liðsmenn hans hefði eigi verið svo hraustir og öruggir

sem þeir voru, og svo ágætur hershöfðíngi til að stýra þeim, eins og *Schwerin* var. Hann hafði barizt með Karli tólfta, Eugen og Marlboroug og víðar, og allsstaðar reynzt hinn vaskasti maður. Þegar orustunni við Molvitz tók að halla á Prússa, gaf Schwerin konúngi það ráð, að hann skyldi ríða undan og forða sèr, og það gjörði konúngur, en Schwerin vann bardagann að leiks lokum. Austurríkismenn lètu undan síga og mistu 8000 manna.

Þegar þessi tíðindi spurðust um Norðurálfuna, þutu ýmsir höfðíngjar upp til handa og fóta. Þeir vildu eigi, að Friðrik skyldi einn saman auðgast af arfi Karls sjötta. Kjörfurstinn af Baiern greip til vopna. Frakkar veittu honum lið, því að Fleury var þá orðinn fjörgamall og skorti þrek til að halda aftur hinum ýngri og framgjarnari mönnum. Ágúst þriðji af Saxlandi var búinn að gleyma því, að Karl sjötti hafði styrkt hann mest og bezt til ríkis á Póllandi; gjörði Ágúst nú kröfur til erfða í Austurríki, þar eð hann væri dótturmaður Jósefs keisara fyrsta, og gekk í lið með óvinum María Theresíu. Spánar og Sardiníu konúngar gjörðu slíkt hið sama í þeirri von að geta náð löndum undir sig á Ítalíu. Hins vegar voru þeir fáir, er vildu eða gátu styrkt Maríu Theresíu. Rússar voru henni reyndar vinveittir, en sá flokkur manna («Hattarnir»), er þá rèð mestu í Svíþjóð, og var Frökkum fylgjandi í flestu, kom því til leiðar, að Svíar sögðu Rússum stríð á hendur (1741), og fyrir því gátu Rússar eigi við snúizt og hjálpað Maríu Theresíu. Englendíngar veittu henni þar á móti lið. Georg annar, konúngur þeirra (1727-1760), átti, síðan árið 1739, ófrið við Spánverja út af verzlun þeirra í nýlendunum vestur á Norðurameríku, og þar við bættist, að hann óttaðist uppgáng og ofurveldi Frakklands. Valpole, er alt hafði gjört til að afstýra stríði og styrjöldum, eins og Fleury, hætti um þessar mundir öllum stjórnarstörfum, og eftir það tók England meira þátt en áður í ófriðnum á meginlandinu. Georg konúngur fór sjálfur til Þýzkalands og gjörðist foríngi fyrir því liði, er menn nefndu «pragmatiska herinn». En hina öflugustu liðveizlu fekk María Theresía í það sinni hjá þegnum sínum á Úngverjalandi. Úngverjar voru óspakir menn á þeim tímum og lítt siðaðir, og einatt hafði slegið í hart með þeim og keisurunum, forfeðrum Maríu Theresíu, en alt um

2*

það leitaði hún nú liðs hjá þeim í þessum vandræðum sínum. Um þessar mundir varð María Theresía lèttari og ól sveinbarn. Sá svèinn varð síðan keisari, og nefndur *Jósef annar*. Jafnskjótt sem hún var stigin af barnssæng, fór hún til Presborgar, gekk á þíng, tjáði Úngverjum raunir sínar, og hèt á drengskap þeirra sèr og ríkinu til varnar. Gjörðu þíngmenn góðan róm að máli drotníngar, og strengdu þess heit, að veita henni það lið, er þeir mætti, eða falla að öðrum kosti. Litlu síðar gekk drotníng aftur á þíng, og hafði þá Jósef son sinn á armi. þá var það, að þíngmenn stóðu upp og æptu allir einum rómi: vèr viljum deyja fyrir konúng vorn Maríu Theresíu!

Meðan á þessu stóð hèldu Frakkar, Baiverjar og Saxar liði sínu til Austurríkis og fóru herskildi um Böhmen (1741). Karl Albert kjörfursti var til konúngs tekinn í Böhmen og lèt krýna sig í Prag. Þaðan hèlt hann til Frakkafurðu (Frankfurt), og þar var hann af kjörfurstunum valinn til keisara yfir þýzkalandi og vígður undir kórónu. Hann er nefndur *Karl sjöundi* (1742—1745). Friðrik annar vann að nýju sigur (við Kotusitz) á Austurríkismönnum á öndverðu sumri 1742; þóttist hann þá hafa komið því fram, er hann vildi, en það var, að ná Slesíu undir sig, en hitt vildi hann eigi: veita Frökkum og Baiverjum til þess að vinna lönd af Maríu Theresíu. Þess vegna samdi hann nú frið við hana í *Breslá* (í júní mán. 1742), og varð drotníng að láta lausa við hann mestalla Slesíu. Sardiníu konúngur gekk einnig úr sambandinu og í lið með drotníngu, móti því, að hann fekk nokkurn hluta vestan af Lombardíi á Ítalíu. Nú varð drotníngu hægra fyrir, er nokkrir af óvinum hennar voru gengnir úr leiknum, og gat því af alefli snúizt við hinum, sem eftir voru, Baiverjum og Frökkum. Frakkar voru reknir út úr Böhmen og liðu hið mesta manntjón (í decembr.mán. 1742). Úngverjar, Króatar og ýmsar aðrar hálftryltar þjóðir, óðu yfir Baiern og brutu alt undir sig, sem fyrir varð. Keisarinn (Karl 7.) varð að flýja ríki sitt. Georg annar, Englands konúngur, barðist við Frakka hjá bæ þeim, er Dettingen heitir, nyrðst í Baiern, og vann sigur (í júni.mán. 1743), en Frakkar hörfuðu undan vestur yfir Rín. Litlu síðar gengu Saxar í lið með Austurríkismönnum og Englendíngum, og lýðveldi Niðurlandanna gjörði slíkt hið sama.

Nú stóðu Frakkar einir uppi af mótstöðumönnum Maríu Theresíu, og voru illa staddir, því að *Karl af Lothringen* (bróðir Franz Stefáns, er átti María Theresíu) hèlt miklu liði af Austurríki vestur á Elsaz og bjóst að taka það land af Frökkum. Í þeim kröggum sendi Loðvík 15. Frakkakonúngur Voltaire í liðsbón til Friðriks annars. Voltaire var um þær mundir nafnfrægur um alla Norðurálfuna af ritum sínum. Var hann allfús til fararinnar, því að hann vissi, að orð sín máttu sèr mikils hjá Prússakonúngi. En hann þekti eigi konúng nema til hálfs; hann þekti hann sem vísindamann og skáld, en hèr var eigi um slíkt að ræða, heldur um stjórn lýðs og landa, hernaðarmál, liðveizlu, þjóðsamnínga og þess konar. En þegar til þeirra hluta kom, þá var Friðrik annar hverjum manni tortryggnari og skarpskygnari. Konúngur tók Voltaire með miklum virktum, lèt hann búa í höll sinni, og matast með sèr á degi hverjum. En er til erindanna kom, gat Voltaire einskis orðið vísari um það, hvað konúngi bjó í brjósti. Hversu sem Voltaire leitaði á, varð hann engu nær, því að konúngur færðist undan, og vildi um alt annað tala. Skáldið Voltaire vildi eigi um annað tala en þjóðmálefni og samnínga, en konúngurinn, hinn mikli stjórnvitríngur, eigi um annað en skáldskap, og Voltaire fór jafnfróður heim aftur.

En þó að þessi sendiför Voltaires yrði að erindisleysu, hafði Friðrik annar engu að síður vakandi auga á öllu því, er í kríngum hann gjörðist, og var í engum vafa um það er gjöra skyldi. Þegar hann sá, að Austurríkismönnum fór að gánga betur, og eigi var annað líklegra, en að María Theresía og Georg annar mundu yfirbuga Frakka, og setja þeim þá friðarkosti, er þeim sýndist, þá þóttist hann gánga að því vísu, að leitað yrði á sig, og Slesía heimtuð af sèr aftur. Hann vissi, hvernig hann hafði náð Slesíu, og í garðinn búið fyrir sig við Maríu Theresíu; hann vissi, hve gramt henni var í geði við sig, og hann grunaði, að hún mundi halda gjörða samnínga viðlíka vel og hann sjálfur; enda sagði hann, að samníngar þeir, sem konúngar gerðu hvorir við aðra, væri eins og víravirki, fagrir á að líta, en svo veikir, að eigi mætti við þá koma. Þess vegna bjó hann nú herinn í skyndi, og áður en nokkurn varði, var hann kominn inn í Böhmen með hundrað þúsundir manna, settist um höfuðborgina Prag og tók hana von bráðara. Þenna ófrið Prússa nefna menn

*Slesíustríðið hið síðara* (1744—1745). Þegar Þessi tíðindi spurðust til Vínarborgar, var Karli af Lothringen boðið, að hætta hernaði vestur í Rínarlöndum, og koma sem skjótast til varnar heima fyrir í erfðalöndum drotníngar. En þó Karl væri dugandi maður og hefði mikið lið bæði af Austurríki og Saxlandi, fór hann jafnan halloka fyrir Prússakonúngi; urðu þá margar orustur, en þessar mestar: við *Hohenfriedberg*, *Sorr* og *Kesseldorf* (1745) og fengu Prússar sigur í þeim öllum. Varð drotníng að semja frið í *Dresden* (25 decembr. 1745), og samþykkja það, er áður hafði verið gjört í Breslá, að Friðrik hèldi Slesíu fyrir fult og alt. Hið sama ár, en litlu áður, var Karl sjöundi dáinn, og með því að sonur hans, Maximilian Jósef, afsalaði sèr og sínum niðjum öllu tilkalli til keisaratignar, þá fekk hann aftur ríki það á Baiern, er faðir hans hafði haft, en til keisara var nú kosinn Franz Stefán, maður Maríu Theresíu, og nefndur *Franz fyrsti* (1745—1765). Af honum eru Austurríkis keisarar, er kenna sig við *Habsburg-Lothringen*, komnir.

Nú voru Austurríkismenn, Prússar og Baiernsmenn reyndar búnir að miðla málum með sèr, og ófriðurinn þar eystra var á enda kljáður, en þó var eigi alt búið fyrir því vestur í löndum. Frakkar höfðu upphaflega gengið í lið með Baiern, og Englendíngar með Austurríki. Nú þegar hèr var komið, sögðu hvorir öðrum stríð á hendur Frakkar og Englendíngar. Þeim lenti saman, eins og oftar, bæði á sjó og landi. Frakkar — og Spánverjar í liði með þeim — urðu undir í sjóorustum, en á landi veitti Frökkum miklu betur. Þeim vildi það til, að þeir höfðu ágætum hershöfðíngja á að skipa, þar sem var *Móriz af Saxen* (almennt nefndur: *Marschallen af Saxen*), óskilgetinn sonur Ágústs annars Pólverjakonúngs. Hann gekk þegar á æskuárum sínum í þjónustu Frakkakonúngs og staðnæmdist síðan á Frakklandi; barðist á móti hálfbróður sínum Ágústi, þá er ófriðurinn varð um konúngskosnínguna í Pólen, en hið mesta frægðarorð fekk hann í hinu austuríkska erfðastríði. Hann var það, sem tók Prag (1741) þegar kjörfurstinn af Baiern hèlt inn í Böhmen, og vann þá mörg hreystiverk. Árið 1744 fekk Móriz yfirstjórn yfir Frakkaher vestur á Flandern. Þar stóðu Englendíngar og Austurríkismenn móti honum, undir herstjórn hertogans af Cumberland. Sá hertogi var sonur Georgs annars. Bandamenn voru

þar liðfleiri en Móriz, en gátu þó engan bilbug unnið á honum, og árið eftir (1745) vann hann sigur á þeim í stórorustu við *Fontenoi* (vestarlega á Belgíu), og var hann þó dauðsjúkur þann dag, er þeir börðust. Eftir þenna sigur komst meiri hluti Flanderns á vald Frakka. En það var eigi þar með búið. Frakkastjórn fann um þessar mundir ágætt ráð til þess að fækka mótstöðumönnum sínum á Niðurlöndum. En það er svo að skilja, að Frakkar styrktu *Karl Eðvarð,* sonarson Jakobs annars, til þess að komast til ríkis á Englandi, og rètta að nýju við konúngdóm Stúartanna þar í landi. Karl Eðvarð fekk skip og menn, hèlt til Skotlands og gekk þar á land. Urðu margir þar vel við komu hans og gengu í lið með honum, og á stuttum tíma vann hann Edinborg, og ýmsar fleiri borgir gáfust upp fyrir honum. Þar næst hèlt hann liði sínu suður á England og stefndi til Lundúna. Nú sáu Englendíngar eigi annað vænna, en að kalla hertogann af Cumberland heim frá Niðurlöndum til hjálpar. Hann kom þegar með miklu liði, og sem Karl Eðvarð frèttir það, heldur hann norður aftur, en hertoginn á eftir, og hittust við bæ þann, er *Culloden* heitir (í apríl 1746). Liðsmunur var helzt til mikill, og þar að auki hafði hertoginn fallbyssur og öll vopn betri en Skotaherinn. Þar fekk hertoginn sigur, en Karl flýði, og þó að 30000 pund sterling væri lögð til höfuðs honum, fengu Englendíngar eigi náð honum, og loksins komst hann um veturnætur sama árið til Frakklands, eftir miklar mannhættur og hraknínga. Þar hafðist hann við, þángað til friðurinn komst á, en þá varð hann að fara af landi burt og til Ítalíu og andaðist í Róm 1788. Hefir Englendíngum eigi mein orðið að Stúörtum síðan.

Þegar hertoginn af Cumberland var farinn heim af Niðurlöndum til landvarnar, eins og nú var sagt, varð Móriz af Saxen enn hægra um hönd en áður; vann hann nú hverja borgina á fætur annari og tók Niðurlendínga höndum svo þúsundum skifti. Og jafnvel þó Austurríki sendi þángað Karl af Lothringen með liði miklu, eftir að friðurinn í Dresden var saminn, og enskt lið kæmi aftur til sögunnar, þegar Stúarta hretinu var af lètt, þá bar Móriz samt sem áður hærra hlut frá borði í viðskiftum þeirra, vann mikinn sigur við *Raucoux*, skamt frá Lüttich (í Oktober. 1746) og hafði þá undir sig lagt því nær allan þann

hluta Niðurlanda, er Austurríkismenn áttu. Að því búnu sneru Frakkar vopnum sínum móti Hollendíngum, því að þeir höfðu veitt bandamönnum suður á Flandern. En er Hollendíngar sáu sèr hættu búna, breyttu þeir stjórn sinni. Þar hafði verið landstjóralaust síðan 1702, er Vilhjálmur þriðji dó[1]. Nú lagðist lýðveldið niður, en í þess stað tóku þeir yfir sig *landstjóra* (*Generalstatholder*), Vilhjálm prinz af Óraníu — hann var kominn af bróður Vilhjálms fyrsta — og er kallaður *Vilhjálmur fjórði* (1747—1751). Var svo á kveðið, að landstjóra-tignin skyldi að erfðum gánga til niðja hans, bæði í karllegg og kvennlegg. En þessi nýji landstjóri var allur annar maður en nafni hans, Vilhjálmur þriðji, hafði verið, þá er hann tók við völdum (1672) og varði ættjörð sína móti Frökkum. Nú mátti Holland þakka öðrum atvikum frið og frelsi. Bandamenn sáu sitt óvænna og beiddu Elísabetu Rússadrotníngu hjálpar. Hún tók því vel og lèt lið sitt búast til vesturfarar. England vildi gjarna, að friður kæmist á. Frakkland þurfti, þó vel gengi á Niðurlöndum, friðarins við sökum fjáreklunnar heima fyrir og allrar þeirrar óhamíngju, sem dunið hafði yfir skipaflota þess og nýlendur. Fyrir því settust menn nú á ráðstefnu í *Aachen* (1748) og tóku að miðla málum; og að fáum dögum liðnum urðu menn sáttir og sammála um þessa friðarkosti: Prússar hèldu Slesíu, og Sardinía eignaðist land alt austur að Ticino-fljóti; Don Filippo, annar sonur Elísabetar af Parma, fekk Parma og Piacenza, sem legið hafði undir Austurríki síðan 1735. En að öðru leyti hèlt María Theresía öllum erfðalöndum föður síns. Frakkar lètu laus þau lönd, er þeir höfðu unnið.

## Sjö ára stríðið (1756—1763)

Sá eini þjóðhöfðíngi, sem til nokkurra muna hafði haft ávinníng af hinu austurríkska erfðastríði, var Friðrik annar Prússa konúngur. Hann hafði aukið ríki sitt með Slesíu, stóru og auðugu skattlandi, sem talið er 740 ferhirn. mílur á stærð, með talsvert á 4. millíón íbúa. Meðan ófriðurinn stóð, hafði hann gjört hvorttveggja, bæði að stöðva Austurríki, þegar sigursæld þess ætlaði að verða um of, og halda Frökkum aftur, þegar þeir ætluðu að verða ofan á; hann hafði komið sèr svo vel við, að ríki

1) Sjá Nýju söguna, II. hefti, bls. 68.

hans mátti því nær telja með stórveldum Norðurálfunnar. Þessar aðfarir Friðriks annars og uppgángur Prússaveldis vöktu öfund og óvild annara þjóðhöfðíngja gegn honum og ríki hans, þar á meðal fyrst og fremst Maríu Theresíu. Hún gat aldrei gleymt því, að hann hafði rænt Slesíu frá henni. Hún vildi leggja alt í sölurnar til að ná því aftur, sem hún þannig hafði mist; þó margar þúsundir af þegnum hennar yrðu lífið að láta, horfði hún eigi í það, gæti hún að eins náð Slesíu aftur. Þar við bættist og, að henni fanst, að skyldan byði sèr að leita hefnda á Friðriki. Hann hafði hrifsað Slesíu eigi einúngis frá Austurríkis keisara, heldur einnig frá hinni katólsku kirkju. Og þó Friðrik lèti katólska menn í Slesíu hafa fult jafnrètti við lúterska menn, þá þótti skriftafeðrum Maríu Theresíu slíkt óþolandi, en því, sem þeir «góðu guðsmenn» sögðu, trúði drotníngin í blindni. Hún varði því friðarárum þeim, sem nú fylgdu á eftir Aachenar friðnum, til þess, að búa sig undir nýjan ófrið, bæði með því, að bæta alt sem bezt heima fyrir í ríki sínu, og með því, að fá útlenda þjóðhöfðíngja í samband við sig móti Friðriki öðrum. Fjárhag ríkisins kom hún í það horf og í svo góða reglu, að hún hafði, að fáum árum liðnum, meiri tekjur af ríki sínu, en faðir hennar, Karl sjötti, hafði nokkru sinni haft af öllum þeim löndum, er hann rèð fyrir. Keisarinn, maður hennar sem aldrei tók þátt í ríkisstjórninni, kom öllu því fè, er honum varð afgángs frá Toscana, í verzlun og á veltu í Austurríki. Hann stofnaði þar ýmsar verksmiðjur, stóð fyrir útvegum á vopnum og klæðum handa hernum. Hann seldi jafnvel Prússa konúngi mèl til manneldis og hey til hestfóðurs, og á ófriðarárunum fekk drotníng hans, María Theresía, oftar en í eitt skifti, talsvert fè hjá honum, er hún galt leigu af og setti veð fyrir. Keisarinn var hinn mesti kaupmaður.

Drotníngin hafði á undanförnum ófriðarárum sèð, að bæta þurfti margt hjá hermönnum hennar, bæði herstjórn og hernaðaráhöld. Hún setti dugandi menn til herstjórnar, en vèk hinum frá, er miður dugðu. Hún lèt á hverju ári venja liðsmenn sína við heræfíngar; kom sjálf þángað og hvatti þá til dugnaðar í sinni ment, lofaði það, sem henni líkaði vel, og sýndi þeim allan sóma, er það áttu skilið. Með því móti tóku hermenn hennar miklum framförum í öllum greinum. Hún setti á

stofn hermanna skóla, og lèt kenna þar úngum aðalsmönnum alt, sem til hermensku og herstjórnar heyrði; á þann hátt fekk hún ávalt foríngja efni í stað hinna, er fötluðust eða fèllu. Þannig kom María Theresía, þó hún væri kona, fótum undir meira og betra herlið, en keisararnir forfeður hennar nokkru sinni höfðu getað. Til þess að allir þættir ríkisstjórnarinnar gætu runnið að kalla saman í eina heild, gjörði hún greifa þann, er *Kauniz* hèt, að ráðgjafa-forseta; varð þá meiri eining og meiri samhljóðan í stjórnarmálum, er þau komust öll í eins manns hönd og þaðan til úrslita drotníngarinnar. Kauniz var mesti vitsmuna maður og átti mikinn þátt í þeim viðburðum, er síðan urðu. Hann reri að því öllum árum, að bæði Frakkar, Rússar og fleiri þjóðir gengi í fèlag með Maríu Theresíu móti Prússa konúngi. Að koma fótum undir slíkt fèlag, var enginn hægðarleikur; einkum var Frakkastjórn lengi treg til þess, því alt í frá dögum Franz fyrsta og Karls fimta voru Frakkar og Austurríkismenn svarnír óvinir, og höfðu löngum elt grátt silfur, eins og kunnugt er. En Kauniz var óþreytandi. Hann leiddi Frökkum fyrir sjónir, að allur sá lángvinni ófriður, sem verið hefði milli þeirra og Austurríkismanna, hefði staðið báðum þessum þjóðum fyrir þrifum, en aðrar smærri þjóðir haft allan ábata af. Svo hefði það til gengið í þrjátigi ára stríðinu; hvorigir, hvorki Frakkar nè Austurríkismenn, hefðu auðgazt á því, heldur að eins Svíar og ýmsir aðrir smáhöfðíngjar; svo hefði það verið í austurríkska erfðastríðinu, þar hefði Frakkland og Austurríki lagt í sölurnar bæði menn og fè, en til hvers? Til þess að Prússa konúngur gæti eignazt og haldið Slesíu. Og hverju hefði Friðrik launað Frökkum liðveizluna? Hefði hann eigi reynzt þeim bæði óheill og vanþakklátur? Stórveldin færi miklu betur að ráði sínu, ef þau í sameiníngu rèðu á hann, í stað þess, eins og að undanförnu, að láta hann siga þeim hvoru á annað. Austuríki ætti að ná aftur Slesíu, það væri þeśs aðaláform, en Frakkland ætti að eignast löndin fyrir norðan sig, norður á Flandern, og væri það hægðarleikur, því að Austurríki mundi þar fúslega slaka til við bandamann sinn. Auðgefið væri að ná Slesíu úr höndum Friðriks, þegar tvær hinar stærstu þjóðir veittust að málum. Friðrik þyrði eigi annað, en láta Slesíu lausa, er slíkir væru í móti honum, en vildi hann veita þeim mótstöðu,

hlyti hann að verða undir, ef til vopna kæmi. Þessar og aðrar fortölur hafði Kauniz fyrir Frökkum, og, þó þær þættu nýstárlegar með fyrsta, festu þær þó rætur í hugum manna, og áttu meðfram þátt í því að mynda samband það, sem þá gjörðist milli Austurríkismanna og Frakka gegn Friðriki öðrum. En aðalhvötin, aðalundirrót sambandsins var þó hatrið til Friðriks annars. Hann var svo harðdrægur í viðskiftum og gjarn til fjár og landa, sem allir vissu, en það var eigi hans versti ókostur. Hitt þoldu menn miður, hve bitur og háðskur hann var í orðum. Menn sögðu, að um alla konúnga Norðurálfunnar og ráðgjafa þeirra lèti hann fjúka í kveðlíngum háð og skop. Um konur var hann svo óvæginn í orðum, að engi von var til þess, að þær gætu gleymt því, eða fyrirgefið honum, og til ógæfu hans vildi svo til, að um þær mundir stýrðu konur mestöllu meginlandi Norðurálfunnar. María Theresía, svo heiðvirð kona sem hún var, komst eigi hjá þessum skopyrðum hans. Elísabet Rússadrotníng var engin hreinlífiskona, enda var henni vel kunnugt um, að Friðrik sagði borðgestum sínum marga óþvegna sögu af ástarbrögðum hennar. Madame Pompadour, er þá rèð mestu á Frakklandi, en var frilla Loðvíks fimtanda, varð þessa verst úti hjá Friðriki. Hún óttaðist svo skæða túngu og sendi menn á fund konúngs til að blíðka hann og mýkja á allar lundir, en það kom fyrir ekki. María Theresia hafði aðra aðferð. Hún ritaði Madame Pompadour með eigin hendi mjög ástúðlegt brèf, kallaði hana frændkonu sína og annað þvílíkt. Svo var hatrið megnt, að keisaradrotníngin, slík kona sem hún var, gleymdi algjörlega sóma sínum og ritaði hinni verstu frillu smjaðurmæli. En þetta hreif, og frillunni varð lítið fyrir, að koma Loðvíki fimtánda í samband við Austurríki.

Öllum hinum sömu brögðum beitti Kauniz og erindsrekar hans í Pètursborg, og við þær fortölur Austurríkismanna gjörðist Elísabet Rússa drotning, Pèturs dóttir hins mikla, fullkominn óvinur Prússa konúngs, og hèt Maríu Theresíu liðveizlu sinni. Í þetta samband milli *Austurríkis*, *Frakklands* og *Rússlands* gengu þar að auki: *Saxland* og *Svíþjóð*; hið fyrra, af því að *Brühl*, ráðgjafi kjörfurstans Ágústs þriðja, var svarinn óvinur Friðriks annars; hið síðara, af því að sá flokkur manna, er þar rèð þá mestu, gjörði alt sem Frakkar vildu. Bandamenn þessir þóttust

eiga sigurinn svo vísan, að hver þeirra áskildi sèr, þegar björninn væri unninn, ákveðinn hluta af ríki Prússa konúngs.

En nú er að segja frá því, er Friðrik annar hafðist að þau árin, er hann sat í friði frá 1745 til 1756. Jafnskjótt sem Slesíu-ófriðurinn var um garð genginn, tók konúngur sèr fyrir hendur, að endurbæta alt, sem umbóta þurfti við í ríki hans. Þó margt væri í góðu lagi þar í landi, þegar faðir hans skildi við, hafði sumt verið vanrækt, og sumt gengið miður en vera skyldi í lögum og landsstjórn; á hinum fyrstu ríkisárum Friðriks, meðan hann hafði allan hug á ófriðnum, og öllu því er þar að laut, urðu ýms friðsamleg störf út undan, er breyta þurfti til hins betra. Dómsmál öll og dómendur þurftu leiðrèttíngar við. Lögum og rètti var komið svo, að hinn ríki átti víst að vinna mál sitt, en hinn fátæki að tapa því. Friðrik konúngur rak frá embættum alla óráðvanda dómendur og ónýta, og skipaði dómana þeim mönnum, er hver maður mátti treysta, og svo gekk hann ríkt eftir, að þriðja hvert ár lèt hann rannsaka gjörðir allra yfirdómenda í ríkinu. Hann lèt semja nýja lögbók, er allir hans þegnar skyldi fylgja. Þótti þetta, sem það og var, hin mesta endurbót; lögin gengu nú jafnt yfir alla, og það, sem á mestu stóð, var, að sterkar gætur voru hafðar á, að lögunum væri dyggilega fylgt. Faðir hans hafði í mörgu bætt fjárhag ríkisins, en þó var í þeirri grein margt eftir ógjört. Akuryrkja, iðnaður, verksmiðjur og verzlun gat allt saman tekið miklum umbótum. Fram með Oder-fljótinu neðan frá sjó upp að Küstrin voru mýrar stórar, sem enginn hafði skift sèr af. Friðrik lèt grafa skurði um mýrarnar og þurka þær allar, og flytja þangað rúmar 3000 búenda; risu þar skjótt upp blómlegar ekrur og auðugar sveitir. Ullarvefnaður var nokkur í landinu, en spunamenn og vefara vantaði stórum; konúngur fekk menn úr öðrum löndum, er slíkt kunnu, og lèt í því skyni reisa handa þeim smábæi, hátt á þriðja hundrað að tölu, víðs vegar á landsbygðinni, og setja 200 búendur niður í hverjum bæ. Á sama hátt bar konúngur önn fyrir því, að borgirnar tækju framförum í öllum greinum. Hann lèt reisa borg þá, er *Svinemünde* heitir, þar sem Oderfljót fellur til sjáfar, dýpka ósinn og gjöra þar höfn góða; við þá bæargjörð tók Stettínarborg miklum þrifum. Í hverri borg voru settar nýjar verksmiðjur; nýjar saltnámur fundu-

ar bæði vestur í Minden og víðar, og hinar gömlu hjá Halle endurbættar og auknar; verzlunarfèlag var stofnað í Emden til verzlunar austur á Kína; tollgjaldið lækkað á útfluttri vöru í Stettín, Königsberg og Kolberg, og við það jukust tolltekjurnar meir en til helmínga. Af öllum þessum viturlegu ráðstöfunum leiddi það, að árið 1756 voru tekjur ríkisfjárhirzlunnar orðnar 1,200,000 ríkisdölum meiri um árið, en verið höfðu þegar Friðrik tók við, án þess hann þyrfti að auka skatta á þegnum sínum um eitt fiskvirði, og án þess að taldar sèu tekjur af Slesíu og Ostfrieslandi. Þá voru og íbúar í öllu ríkinu orðnar 5 millíónir manna. «Og með því það er vafalaust — segir Friðrik annar í ritum sínum — að fjöldi þegnanna er auðlegð ríkjanna, þá gat Prússaríki sagt (1756), að það væri helmingi voldugra, en það hafði verið á síðustu árum Friðriks Vilhjálms, föður konúngsins».

Það ræður að líkindum, að Friðrik annar hafi eigi gleymt því, er miðað gat til að auka herinn og bæta alt, sem að hermálum laut í ríki hans. Hann hafði vakandi auga á, að til alls væri vandað sem bezt, liðsmenn hraustir og hugprúðir og sem bezt búnir að vopnum og klæðum; að nægtir væru af alls konar áhöldum og vistum í forðabúrum á ýmsum stöðum; varnir í borgunum treystar og styrktar, og kastalar settir þar, sem þurfa þótti. Hann valdi menn mjög til foríngja, og lèt hafa stríngan aga á liðinu, og einatt æfa það við vopnaburð, svo að alt væri sem bezt undirbúið, hve nær sem á þyrfti að halda. Og hann sá gjörla, að þess mundi eigi lángt að bíða, enda var honum vel kunnugt um hugarfar nábúa sinna. Hann hafði sína trúnaðarmenn í Vínarborg, París og Dresden, er sögðu honum greinilega alt það, er þar gjörðist, og hann gat um varðað. Hann varð þess vís, að Frakkar, Austurríkismenn, Rússar, Saxar og Svíar og meiri hluti Þjóðverja, ætluðu að ráða á hann allir í senn, og skifta ríki hans milli sín þannig: að Frakkar, sem voru fjærstir, og lítil not gátu haft af landeign á Prússlandi svo lángt í burtu, skyldu fá part af Niðurlöndum, svo sem í þokkabót, Austurríkismenn Slesíu, Rússar Austur-Prússland, Saxar Magdeborg, Svíar nokkuð af Pommern. Yrði þetta framgengt, mátti kalla, að úti væri um ríki Prússa konúngs, og ekkert var líklegra, en að svo margir og voldugir bandamenn, er rèðu yfir hundrað millíón-

um manna; mundu sigrast og það í einni svipan á litlu ríki, sem eigi taldi meira en 5 milliónir manna. Landið var þar að auki af náttúrunni mjög illa lagað til varnar móti óvina árásum, þar sem það var alt eitt flatlendi, alt á lengdina, og þó ekki samfast. Víða hafa fjöllin eða sjórinn orðið þjóðunum bezta varnarvirkið á ófriðartímum, en hèr var ekki því að heilsa þar sem Prússalönd áttu hlut að máli. Og ofan á alt þetta bættist, að Slesía, sem var fjórði hluti ríkisins, undi því eigi sem bezt, að vera komin undir Prússa, og allir katólskir menn í Slesíu — og þeir voru mjög margir — voru hinir ótryggustu og líklegir til beinnar mótstöðu. Það var því fyrir manna sjónum eigi annað sýnilegt, en að þegar væri útgjört um ríki Friðriks annars.

Hann sá sjálfur glögt, hver hætta vofði yfir. En þó var hann eigi vonlaus. Hann fann varnir í sínu máli; óvinir hans voru lángt hverir frá öðrum, sú fjarlægð hlaut að gjöra þeim erfitt, að sameina mjög mikið lið á einum stað, og ráðast á konúnginn með ofurefli; hann gat þar á móti á skömmum tíma dregið að sèr talsvert lið. Loftslag var mjög ólíkt í löndum bandamanna, og eigi ólíklegt, að sá árstími, sem var vel fallinn til herstarfa fyrir suma þeirra, væri illa fallinn til hins sama fyrir aðra. Ríki hans var laust við ýmsa af þeim ókostum og annmörkum, er finna mátti hjá bandamönnum. Herlið það, er menn höfðu á að skipa, mátti eigi eingöngu meta eftir stærð landanna eða höfðatölu þjóðanna. Konúngur hafði að vísu mikiu minna lið en bandamenn, — hjer um bil 100,000 móti 600,000 — en í liði hans var að kalla hver maður valinn, alt liðið var sem einn líkami, harðsnúinn og vel vígur. Bandamenn voru allir í stórskuldum; Prússar voru skuldlausir og áttu talsvert fè fyrirliggjandi. Enginn konúngur hafði grætt fè á ófriðarárunum nema Friðrik einn. En mest var þó í það varið, að hann var einn um alla stjórn í ríki sínu, en óvinir hans voru margir um völdin. Hjá öllum bandamönnum er vant að brydda á sundurlyndi, samtakaleysi, tortryggni og andvaraleysi; fyrir öllu þessu mátti ráð gjöra einnig hjá þessum bandamönnum. Friðrik var alræðismaður í ríki sínu, og þar var einúngis einn vilji og ein framkvæmdin. Hugsazt gat, að afbragðshershöfðíngja tækist, að tefja ófriðinn fyrir bandamönnum, en að vinna eins mánaðar tíma var hinn mesti vinníngur. Tyrkir gátu breyft sig suður við Dóná,

og þá var Austurríki hætta búin. Frökkum gat snúizt hugur, svo þeir sæu, að þeir hefðu rasað fyrir ráð fram, er þeir brugðu af fornri venju og gengu í lið með Austurríki. Loksins gat dauðinn losað Prússa konúng við einn eður annan af fjandmönnum hans, er hættulegastir voru, og við það gat margt og mikið breyzt í málefnum Norðurálfunnar.

Það var enn eitt atriði, sem Friðrik misti eigi sjónar á, og gjörði fremur að glæða en veikja vonir hans. Friðurinn, sem Frakkar og Englendíngar sömdu með sèr 1748, var reyndar enginn friður, heldur að eins vopnahlè í Norðurálfunni, en í hinum álfunum eigi einu sinni vopnahlè. Austur á Indlandi áttust þeir ílt við Frakkar og Englendíngar. Alt hið sama átti sèr stað milli þeirra suður á Guineaströnd í Afríku. En mest voru þó brögð að fjandskap þjóða þessara vestur í Norðurameríku; þar gekk eigi á öðru en sífeldri baráttu og manndrápum. Þessi viðureign þeirra í öðrum heimsálfum jók óvildina og hatrið millum þeirra hèr í álfunni. Sá sem því var með öðrum hvorum, hlaut að vera hins óvinur. Hefði Friðrik mátt kjósa, hefði hann vafalaust verið með Frökkum, en þeir gáfu honum eigi kost á því. Hann hlaut þess vegna að gjörast sambandsmaður Englendínga. Hann gat reyndar eigi búizt við, að þeir, sem urðu að berjast um sama leyti í áðurnefndum þremur heimsálfum, sem höfðu herskip á floti nálega um öll höf jarðarinnar, mundu geta sent herlið að nokkrum mun til Þýzkalands, en Englendíngar voru hin láng-auðugasta þjóð á þeim tímum, og þó auður þeirra þá væri lítill í samanburði við það, sem hann er nú, voru þeir samt svo ríkir, að þeir þurftu eigi að taka mjög nærri sèr, þó þeir lètu svo mikið fè af hendi rakna við Friðrik konúng, að nægði til þess að gjöra út heilan her.

Þess er áður getið, að Friðrik annar átti sèr trúnaðarmenn við hirðir flestra konúnga Norðurálfunnar, er lètu hann vita hvað á hverjum stað gjörðist. Einn af þeim mönnum var í Dresden, aðsetursstað kjörfurstans af Saxlandi. Sá maður sendi Friðriki eftirrit af brèfum til kjörfurstans frá stjórninni í Vín og Pètursborg. Af þeim brèfum vissi Friðrik alt, hvað bandamönnum leið. Hann vissi, að þeir hvor um sig höfðu liðssafnað, og að það var áform þeirra að halda því liði sem fyrst inn í lönd hans. Austurríkismenn urðu fyrstir til og sendu her

manns norður á Böhmen sumarið 1756; þaðan og austur á Slesíu er, eins og menn vita, að eins yfir stuttan fjallveg að fara. Þegar Friðriki bárust þessi tíðindi, ritar hann Maríu Theresíu brèf og spyr hana, í hverjum erindum lið hennar hafi verið sent til Böhmen, og hvort hún ætli að halda gjörðar sættir við sig eður eigi? Kauniz ráðgjafi hennar svaraði mjög á huldu, svo að skilja mátti á marga vegu; en svo mikið varð þó af svarinu ráðið, að keisara-drotníngin vildi, að til vopna kæmi, en, að konúngur skyldi hafa upptökin. Þó voru allar líkur til, að árið mundi svo líða, að eigi yrði af ófriði, því að brèfin frá Dresden höfðu sagt Friðriki, að Rússar yrðu eigi búnir fyr en bið næsta ár, og þess vegna líklegast, að Austurríkismenn mundu bíða þess, að hinir aðrir bandamenn yrðu að öllu viðbúnir.

Þegar hèr var komið, átti Friðrik um tvent að velja: annaðhvort bíða átekta þángað til óvinir hans rèði á hann, eða verða fyrri til bragðs og ráðast á þá. Honum var kunnugt, að kjörfurstinn á Saxlandi hafði eigi vígbúnar nema 18000 manna, en að missiri liðnu átti sá her að vera orðinn alt að 40000. Honum var og hitt kunnugt, að Rússar mundu eigi verða búnir fyr en á næsta vori. Ef hann nú biði eftir þeim vetrarlángt, gætu þeir hvor um sig búið liðið sem bezt, og haldið því inn í lönd hans. Þess vegna þótti Friðriki rèttara gjört, að verða á undan þeim, þó það hèti svo, að hann hefði upptökin og rèði á þá, en þeir eigi á hann. Honum þótti það líka miklu skifta, að ófriðurinn yrði hafinn og háður, eigi í hans löndum, heldur í óvinanna löndum. Þess vegna rèð hann það af, að verða fyrri til og veita þeim aðför þegar í stað. Þannig byrjaði *sjö ára stríðið* (29. Ágúst 1756). Friðrik tvískifti liði sínu. *Schwerin* gamli, sem fyr er nefndur, hèlt annari herdeildinni af Slesíu vestur á Böhmen. En hin herdeildin, 60000 manna, hèlt suður á Saxland. Fyrir þeim her var konúngurinn sjálfur. Hann vildi ekki eiga Saxa yfir höfði sèr, þegar hann færi suður á Böhmen til móts við Schwerin; þess vegna fór hann til Saxlands. Þar varð engi fyrirstaða. Prússar tóku allar helztu borgir, og hèldu til Dresden, höfuðborgar landsins. Þaðan var þá kjörfurstinn farinn með allan sinn her, og seztur að í fjöllunum hjá *Pirna*; það er lítill bær upp með Elfunni (Elben). Drotníng kjörfurstans var eftir í Dresden. Borgin gafst

þegar upp fyrir Prússum, og Friðriki var þá um ekkert eins ant eins og það, að geta náð frumritum þeim, er hann vissi að þar voru í brèfasöfnum kjörfurstans, því að þau brèf gátu sýnt og sannfært aðra um alt ráðabrugg óvina hans. Drotníngu voru brèf þessi eins vel kunnug eins og Friðriki, þess vegna hafði hún safnað þeim saman, og ætlaði einmitt þá að senda þau austur á Pólen[1], en varð of naumt fyrir. Prússneskir hermenn komu og tóku þau, hvað sem drotníngin sagði, og færðu konúngi. Lèt hann óðara prenta hin helztu, og má nærri geta, hver og hve misjöfn áhrif sú nýlunda hafi gjört á ýmsar þjóðir hèr í álfunni. Nú sáu menn, að Friðrik hafði átt hendur sínar að verja, og að hann hafði að eins orðið fyrri til en fjandmenn hans. Þegar þetta var um garð gengið, hèlt konúngur suður til fjalla, þar sem Saxa her sat. Konúngur sá skjótt, að hann gat þeim ekki grand gjört á þeim stað, því að náttúran hafði svo rammlega víggirt hann, að fáir menn gátu vel varizt mörgum. En svo mikið gat konúngur að gjört, að hann setti þann hergarð um Saxa, að þeir gátu eigi þaðan komizt, hvernig sem þeir reyndu. Nú beið hann svo nokkra daga, en þá frètti konúngur, að *Brown* hershöfðíngi væri á leiðinni sunnan úr Böhmen með miklu liði þeirra Austurríkismanna, til þess að bjarga Söxum úr herkvíum Prússa. Konúngur tekur það ráðs, að hann lætur nokkurn hluta liðsins verða eftir til þess að varna Söxum útgöngu, en heldur sjálfur með hinn hlutann suður á Böhmen, og hittir Brown (1. Okt.) hjá bæ þeim, er *Lowosiz* heitir; varð þar harður fundur með þeim og lyktaði svo, að Prússar fengu sigur, en Austurríkismenn hopuðu undan suður í land, þángað sem annar her var fyrir undir forustu *Launs*, hins ágætasta hershöfðíngja, og mun hans síðar getið. En sem Saxar frèttu ófarir Browns, og sáu, að úti var að sinni um hjálp frá Austurríki og vistir voru þrotnar, gafst allur þeirra her upp fyrir Prússum, en Ágúst kjörfursti fór austur á Pólen og hætti sèr eigi í hers hendur. Friðrik gaf alla hina saxnesku foríngja lausa, og gjörði þeim einúngis þann kost, að bera eigi oftar vopn móti Prússum, en undirmenn lèt hann gánga í herþjónustu hjá sèr, og reyndust þeir margir illa, eins og við mátti búast, og

1) Kjörfurstinn var einnig konúngur yfir Pólen (Ágúst þriðji), en Póllendíngar tóku engan þátt í þessum ófriði.

struku undan merkjum, er þeir sáu sèr færi. Nú var komið fram um veturnætur. Konúngur sá, að hann gat eigi frekara aðhafzt að sinni, heldur því sumu liðinu til Saxlands, og lætur þar fyrirberast um veturinn, (enda var nú Saxland alt á hans valdi), en sumt liðið hafði aðsetu í Slesíu. Austurríkismenn lètu þokast lengra suður á Böhmen og bjuggust þar fyrir um veturinn. Prússar höfðu að vísu allmikið að gjört á jafnstuttum tíma, þar sem einn af bandamönnum (kjörfurstinn af Saxen) var orðinn óvígur og úr sögunni, en þó var hitt meira, sem eftir var óunnið, enda bjuggust allir við stórtíðindum hið næsta ár.

Ófarir Saxa við Pirna, og ósigur Austurríkis við Lowosiz þóttu, sem vonlegt var, mikil tíðindi, og nú tóku bandamenn af alefli að búa lið sitt til nýrra stórræða og stórkostlegra hefnda. Rússar höfðu 100,000 manns undir vopnum og sendu það lið vestur á Prússland. Ýmsir smáhöfðíngjar og borgir á Þýzkalandi gjörðu út 60000 manna til liðs við Maríu Theresíu, og settu prinsinn af Hildburghausen yfir. Sá her var nefndur *ríkisher*. Frakkar sendu 100,000 manns til Rínar, og fengu þar að auki Svía til að senda nokkrar þúsundir manna suður á Pommern. Af Austurríki og Úngarn var von á óflýjanda her, og máttu Prússar búast við, að úr öllum áttum streymdi óvina her að þeim milli 5—600,000 manna. Móti öllum þeim grúa gat Friðrik annar í mesta lagi sett 200,000 manna, að því liði meðtöldu, er hann fekk hjá bandamönnum sínum: Englands konúngi, landgreifanum af Hessen Kassel, og hertogunum af Brúnsvík og Gotha. Þessum bandamönnum sínum ætlaði hann að taka móti Frökkum vestur í landi. Móti öllum Rússaher sendi hann hershöfðíngja þann, er *Lehvald* hèt, með einar 14000 manna, og móti Svíum gat hann eigi fleiri menn mist en 4000. Hann vildi sem minst veikja aðalher sinn, því að honum ætlaði konúngur að beita móti Austurríkismönnum, sem voru lángflestir og voðalegastir.

Um veturinn (1756—1757), meðan Friðrik var á Saxlandi, lèt hann það í veðri vaka, að hann ætlaði sèr einúngis að verjast óvinum sínum, en hitt kæmi sèr eigi til hugar, að halda suður á Böhmen og sækja þá þar heim; og til þess að styrkja menn í þeirri trú, lèt hann víggirða Dresden að nokkru leyti, og

slíkt hið sama lèt hann gjöra í Slesíu. En hann bjó reyndar yfir alt öðrum ráðum. Um vorið (1757) fyr en nokkurn varði, var bæði sá her, er konúngur hafði á Saxlandi, og hinn, er hann hafði austur á Slesíu, kominn suður yfir fjöll og ofan á Böhmen, og alt suður að Prag. Þar var annar aðalher Austurríkismanna, og þeir Karl af Lothringen og Brown fyrirliðar. Hinn aðalherinn var ókominn, en hann var á leiðinni að sunnan, og hans var von á hverjum degi. Fyrir þeim her var Daun. Konúngi þótti ekki ráð að bíða þess að Daun kæmi, og fyrir því veitir hann þeim Karli og Brown aðgöngu þegar í stað, þó þeir hefðu hið bezta vígi, og þó Schwerin gamli vildi fresta atlögunni, þángað til búið væri að kanna til hlítar landslagið, þar sem orustan skyldi standa. Það var 6. dag maí (1757) er þessi orusta stóð hjá Prag. Prússar áttu mjög erfitt aðsóknar sökum landslagsins, og allra þeirra varnarvirkja og vígvèla, sem Brown hafði sett fyrir þá; enda hafði hann lært í skóla Eugens og var margþvældur hershöfðingi. Þó lauk svo þeirra viðskiftum, að Prússar fengu sigur. Flýði Karl með 40,000 manna inn í Prag, en annar hluti liðsins leitaði undan og suður þángað sem Daun var. Brown varð sár til ólífis. Svo segja sumir sagnaritendur, að orusta þessi hafi verið hin mannskæðasta hèr í álfunni frá því, er Malplaquet-orustan varð (1709) og þángað til Napoleon fyrsti og Rússar börðust við Eylau (1807). Menn ágættu mjög framgöngu konúngs og Ferdinands hertoga af Brúnsvík þenna dag, en þó bar Schwerin gamli af öllum. Þá er orustan stóð sem hæzt, og að því komið, að fótgöngulið Prússa mundi bila hugur og hörfa undan, greip hin gamla hetja merkið af merkismanninum, braust fram í móti fylkingum óvinanna og eggjaði menn sína sem mest. Fylgdu þeir þá rösklega á eftir, en Schwerin var skotinn til bana. Hann var á áttræðisaldri, er hann fèll. Svo hefir Friðrik sagt, að síður vildi hann missa Schwerin einn en 10,000 manna. Austurríkismenn mistu 24,000 manna í orustu þessari, en Prússar 18,000.

Friðrik hafði nú sömu aðferðina hèr, eins og hann hafði haft árið fyrir. Hann lèt mikið lið verða eptir og setjast um Prag, en með 30,000 manna heldur hann sjálfur suður til móts við Daun, því honum þótti alt undir því komið, að yfir lyki með þeim. Daun hafði yfir 60,000 manna, en hann var allra

manna gætnastur, og vildi því eigi leggja þá þegar til orustu við Prússa, heldur settist hann að í fellum þeim og hálsum, sem eru fyrir ofan *Kollín*. Höfðu Austurríkismenn þar svo gott vígi, að því nær þótti óvinnandi. Þegar Prússar komu þángað, skipaði konúngur þegar mönnum sínum til atlögu (18. júní 1757). Gjörðu þeir svo harða hríð á hinn hægra fylkingararm Dauns, að þar svignaði alt fyrir, og lítið vantaði á, að Austurríkismenn snerist á flótta; en það varð þó eigi, því bæði var liðsmunur helzt til mikill, og þó hitt eigi síður, að út af þeirri skipan var brugðið, er konungur hafði gjört. Og hún var sú, að hinn hægri fylkingararmur Prússa skyldi halda kyrru fyrir, og hafast ekki að, fyr en konúngur segði svo fyrir. En einn af foringjum Prússa, er Mannsteinn hèt, ofurhugi einn, gat eigi kyrr verið, og rèð á það lið óvinanna, er þar stóð í móti. Tókst þá bardagi um allan herinn, og konúngsmenn dreifðust þvert á móti fyrirætlun hans; kom þá fram liðsmunurinn og varð Prússum til allra óheilla. Biðu þeir þar hinn mesta ósigur og lètu margt manna. Konúngur hèlt því liði, er undan komst, til Prag, en Daun veitti eigi eftirför. Þó að Daun væri eflaust bæði vitur og þrautgóður hershöfðingi, þá liggur við, að segja megi um hann, og með meira sanni, hið sama sem Maharbal hershöfðingi sagði við Hannibal, eptir orustuna við Cannas: »Þú kant að vinna sigur Hannibal, en þú kant eigi að neyta sigursins[1]. Þeir voru í mörgu ólíkir Friðrik og Daun, en það skildi á með þeim eigi hvað minst, að þegar Friðrik vann sigur, kunni hann allra manna bezt að færa sèr sigurinn í nyt, og þegar hann beið ósigur, þá varð honum alt að ráði, og þá var hann hvað viðsjálastur og voðalegastur sínum óvinum. Eptir þenna mikla ósigur við Kollín lèt konúngur hætta umsátrinu um Prag. Hann hafði mist fótfestu í Böhmen og fyrir því hèlt hann sumu liðinu norður á Saxland, en sumu til Slèsíu; yfir Slesíu-liðið setti hann prinzinn af Bevern og fekk honum til ráðaneytis þann mann, er Vinterfeld hèt, ágætan fyrirliða og einn sinn bezta vin; en sjálfur fór Friðrik til Saxlands með meginherinn.

Hèr mátti segja, »að eigi væri ein báran stök«, þar sem

1) *Livius*. 22. bók, 51. kap. »*Vincere scis Hannibal, victoria uti nescis*«.

Friðrik átti hlut að máli, því alls konar vandræði og harmar bárust honum að höndum um þessar mundir.

Þetta hið sama sumar höfðu Frakkar brotizt vestan frá Rín og af Niðurlöndum inn á Þýzkaland, lagt undir sig lönd Prússa á Vestfali og Ostfrieslandi, og haldið svo fram stefnunni til Hannóver og Hessen. *D' Etrées* hèt yfirforíngi þeirra. Hertogann af *Cumberland*, sem stýrði bandamanna her Friðriks þar vestra, skorti vit til að þekkjast þau ráð, er Friðrik hafði bent honum á, en barðist við Frakka hjá *Hastenbekk* (26. júlí) og beið ósigur. D' Etrées var kvaddur heim til Frakklands, þó hann hefði þýunnið sigurinn, en *Richelieu*, «marskálkur», settur í hans stað. Hann fór hèrskildi yfir Hannóver og Hessen, og lagði þau lönd undir sig, krepti þá svo mjög að hertoganum af Cumberland, að hann gjörði (7. sept. mán.) svofeldan samníng við Frakka í *Zeven* (Kloster-Zeven): að hið hannóverska lið skyldi halda af landi burt og norður yfir Elfuna, en hitt annað liðið heim til átthaga sinna. Gátu nú Frakkar leikið lausum hala og haldið í makindum austur í móti Prússum. Richelieu sendi allmikið lið undir yfirstjórn þess höfðíngja, er *Soubise* hèt. Hann var aldavinur Madame Pompadour og mesta hetja í hirðsölum Frakka. Herdeild sú, er Soubise rèð fyrir, átti að sameinast *ríkisher* þeim, sem fyr var nefndur, og prinzinn af Hildburghausen var yfir skipaður. Allur þessi her til samans kominn átti því næst að reka Friðrik burt af Saxlandi, og þóttust þeir Soubise nú hafa ráð hans í hendi sèr.

Engu minni var hættan sem vofði yfir Prússum norður og austur í landi. Rússar komu að austan með óflýjanda her undir forustu *Apraxíns* og *Fermors*, og eyddu bygðina þar sem þeir fóru yfir. Nálægt *Gross Jägerndorf* á Austur-Prússlandi rèðst Lehwald í móti þeim (30. ágúst 1757), en hafði ekki bolmagn móti slíku ofurefli og beið ósigur.

Svíar sátu norður á Pommern, yfir 20,000 manna, og þoknuðust suður á bóginn, og gátu gjört Prússum mikið ógagn, ef þeir hefði sýnt nokkra rögg á sèr. Friðrik hafði ekki lið, er hann gæti sent móti þessum fjandmönnum sínum. Af þessu, sem nú hefir verið sagt, er það ljóst, að Friðrik var umsetinn af óvina liði á allar hendur. Ofan á alt þetta bættist sá harmur, að einmitt um þessar mundir andaðist móðir hans, er hann

unni mjög, og bróðir hans *Ágúst Vilhjálmur*, er ríkið átti að erfa eftir Friðrik, og var sagður vitur maður og vinsæll.

Það þurfti mikið þrek til þess, að gugna eigi að fullu og öllu fyrir öllum þeim hættum og öllum þeim harmi, sem nú dundi yfir Friðrik; flestir töldu útsèð um hann og ríki hans. Hann einn lèt eigi hugfallast, og honum var ljóst, að hèr var það úrræðið eitt og snarræðið, sem gat bjargað. Fyrir því lætur hann nokkurn hluta liðsins verða eftir á Saxlandi til varnar móti Austurríkismönnum, en sjálfur heldur hann með rúmar 20,000 manna vestur að Saale-fljóti. Það kemur sunnan og vestan úr Fichtelfjöllum og fellur vestan í Elfuna. Þeir Soubise höfðu brotið brýr allar af ánni, en Prússar komust yfir á öðrum stað. Var þess nú skamt að bíða, að fundum þeirra bæri saman. Frakkar höfðu sezt í ýmsar borgir þar fyrir vestan ána. Ein af þeim borgum heitir Gotha. Þar var Soubise sjálfur fyrir með 8000 vígra manna, er *Seydlitz*, riddaraforingi Prússa, kom þángað með 1500 manna. Soubise sat yfir borðum í höll hertogans með fyrirliðum sínum einmitt þá er Prússar komu að borginni. Varð koma þeirra með svo miklum hvatleik og harðræði, að Frakkar stukku allir úr borginni, en Seydlitz settist með sína menn að krásum þeim, er Soubise varð svo hastarlega frá að hverfa. En það er frá Friðriki konúngi að segja, að hann nemur staðar skamt frá bæ þeim, er *Rosbach* heitir, og setur þar herbúðir sínar. Þar voru Frakkar og ríkisherinn á næstu grösum. Þótti þeim konúngurinn þegar genginn þeim í greipar, er hann var kominn svo liðfár í nánd við allan þann mikla her, sem þeir höfðu; báru þeir nú ráð sín saman, hvernig þeir skyldu umkríngja konúng og menn hans og láta engan á burt komast. Snemma morguns 5. dag nóvember tóku þeir Soubise að hreyfa sig og þoka fylkíngum á þær til teknu stöðvar. Friðrik hèlt kyrru fyrir í tjöldum sínum, og lèt menn sína matast, eins og ekki væri að, og hrærði sig hvergi. En er leið að miðmunda, lætur hann taka ofan tjöldin, og að vörmu spori eru allir hans menn vopnaðir og hver kominn þángað, sem honum er skipað. Því næst tekst orustan, og verða þar skjót umskifti. Eftir tæpar tvær stundir eru þjóðverjar og Frakkar flúnir víðs vegar. Af Prússum fèllu í orustu þessari 90 manna, en

270 urðu sárir. En hinir mistu þar um 10,000 manna, er sumir féllu, en sumir teknir höndum, og urðu að athlægi.

Þegar Richelieu frétti þessar ófarir, þorði hann eigi að haldast þar við, sem hann var, og sneri sem skjótast aftur vestur á Hannóver, en konúngur gat eigi neytt sigursins eins og hann vildi, því alt var í fári austur á Slesíu. Karl af Lothringen og Daun höfðu haldið öllu liðinu þángað, meðan konúngur var í vesturförinni, unnið hina sterku kastalaborg *Sveidnis* (11. nóvember) og höfuðborgina Breslá (24. nóvember), og handtekið prinzinn af Bevern, yfirforíngja Prússa þar eystra, en Vinterfeld var fallinn. Það mátti heita, að Slesía væri öll á valdi Austurríkismanna. Konúngur átti um tvent að velja, annaðhvort að missa Slesíu fyrir fult og alt, eða vinna hana aftur úr höndum óvina sinna, og það þegar um haustið. Fyrir því einsetti konúngur sér að ráða á Austurríkismenn, jafnskjótt sem hann kæmi austur á Slesíu, þó hann ætti við ofurefli að berjast, þar sem þeir höfðu hálfu meira lið en hann. Konúngur hélt nú austur á Slesíu sem hraðast, og við bæ þann, er *Leuthen* heitir, skamt frá Breslá, mætti hann þeim Karli og Daun. Áður en orustan tókst talaði Friðrik fyrir liðsforíngjum sínum, en það var eigi hans vandi, og sagði meðal annars: «Eg ætla þvert á móti öllum reglum hernaðaríþróttarinnar að ráða á fjandmenn vora, þó þeir séu þrefalt liðfleiri en eg. Hér er eigi um það að ræða, hve margir þeir eru, eða hversu góð vígi þeir hafa. Alt er undir hugrekki yðar komið, og að í engu sé út af því brugðið, er eg segi fyrir. Eg hlýt að ráðast í þetta fyrirtæki, annars er alt farið. Vér hljótum að sigrast á óvinum vorum, ella liggja dauðir frammi fyrir skotgörðum þeirra. Þannig hugsa eg, þannig mun eg breyta. Látið berast um herinn, að eg krefjist hlýðni, og það skilyrðislaust, af hverjum liðsmanni, þegar þér minnist þess, að þér eruð Prússar, þá munuð þér og sýna yður verðuga þess nafns. En sé nokkur sá yðar á meðal, er eigi hafi hug til að fylgja mér, þegar um lífið er að tefla, má hann fara héðan í friði, og þó ámælislaust af mér. Lifið heilir og vel, herrar góðir; að litlum tíma liðnum höfum vér annaðhvort unnið sigur, eða vér sjáumst aldrei framar». Þessu næst tókst orustan og að þrem stundum liðnum hafði konúngur unnið sinn frægasta sigur. Hér sýndi það sig til fulls, hvílíkur hershöfð-

íngi Friðrik annar var. Og svo sagði Napóleon fyrsti: »þessi orusta var meistaraverk. Hún ein nægir til þess, að Friðrik á með öllum rètti sæti meðal hinna mestu hershöfðingja, sem nokkru sinni hafa uppi verið». Að hálfum mánuði liðnum hafði konúngur tekið og felt og tvístrað svo Austurríkismönnum, að af 90,000 manns komust einar 35,000 með illan leik vestur á Böhmen. Öll Slesía, nema Sveidniz, var nú aftur á hans valdi, nú gat hann sezt þar að í næði vetrarlángt, og nú stóð óvinum hans miklu meiri ótti af honum, en nokkru sinni áður.

Hættu þeirri, sem vofði yfir Prússlandi og Pommern, var um stundarsakir aflètt, því að eftir fenginn sigurinn yfir Lehvald, sneri Apraxín heim aftur til Rússlands með allan sinn her, eftir boði Bestuchefs ráðherra Elísabetar drotníngar. Hún hafði sýkzt, svo menn hugðu henni eigi líft. Bestuchef hataði Pètur stórfursta, er koma átti til ríkis eftir Elísabetu, og ætlaði sèr að steypa honum úr völdum, vildi því hafa Apraxín og lið hans heima við til styrktar. En á því þurfti eigi að halda; drotníngu batnaði að því sinni. Eftir að Rússar voru farnir austur, sendi Friðrik konúngur Lehvald móti Svíum, og hrukku þeir fyrir honum norður til Stralsund og út á Rügen.

Afreksverk Friðriks konúngs og kappa hans spurðust um allar heimsálfur. Sigurinn við Rosbach og Leuthen var á hvers manns vörum, og bæði vinir og óvinir urðu að játa, að enginn hershöfðíngi, er þá var uppi, kæmist til jafns við Prússakonúng að herkænsku og allri ráðsnild. Það var eigi hvað sízt á Englandi, að menn dáðust að honum og frægðarverkum hans, og þaðan fóru ýmsir úngir menn eðalbornir austur á Prússland og beiddust viðtöku í herliði Prússa, til þess að geta lært hernaðar-íþrottina hjá hinum mikla hershöfðingja. En Friðrik færðist undan því með hægð. Aginn var harður, er hann hafði á liðsmönnum sínum. Jafnvel af fyrirliðum sínum heimtaði konúngur svo mikla sjálfsafneitun og sparneytni í öllum greinum, að eigi var meira krafizt í nokkru múnklífi. Hverra manna, sem þessir fyrirliðar hans voru, eða hversu mikil völd sem þeir höfðu á hendi í hernum, máttu þeir, til dæmis að taka, eigi matast nema af tindiskum og með tinskeiðum, og alt var þessu líkt. Konúngur þóttist vita, að hinir úngu og ríku aðalsmenn frá Englandi, mundu una slíkum sið og slíku harðrètti illa, og af þeirra

síðum gæti kviknað óánægja og ýmsir vafníngar. Hann færðist því undan, að veita hinum göfugu en vanstiltu gestum viðtöku meðal liðsmanna sinna. En England styrkti Friðrik á annan veg, er kom sèr miklu betur. Hann fekk þaðan árlegan styrk, hèr um bil sjö hundruð þúsund pund sterlíng, og fyrir það fè gat hann aukið her sinn um margar þúsundir manna. *Pitt* (hinn eldri), er þá rèð mestu á Englandi, kvaðst skyldu verja þýzkaland vestanvert móti Frökkum, ef Friðrik að eins vildi ljá þángað duganda hershöfðíngja. Friðrik lèði honum *Ferdínand* hertoga af Brúnsvík, er verið hafði með Friðriki um hríð og þótt hinn nýtasti maður. Var nú Ferdínand settur yfir Englendínga, Hannóversmenn, og málalið úr ýmsum stöðum á þýzkalandi. Gafst Ferdínand svo vel, að hann var talinn gánga næst Friðriki af öllum hershöfðíngjum, er þá voru uppi. Ferdínand tók við þeirri herstjórn seinast í nóvember 1757, og jafnskjótt rak hann alt óvina lið úr öllum eystri hluta Hannóvers vestur yfir Aller-fljót, og skömmu eftir nýár 1758, meðan allir sátu í sínum vetrarbúðum, tók hann sig upp og rak Frakka alveg út úr Hannóver og Hessen; að fárra vikna fresti hafði hann rekið allan hinn frakkneska her vestur yfir Rín og tekið höndum 11000 manna. Clermont greifi var þá yfirforíngi Frakka, höfðu menn búizt við meiru af honum en Richelieu og Soubise, en hann var enginn maður til að mæta Ferdínandi.

Um vorið eftir (1758) náðu Prússar Sveidniz úr höndum Austurríkismanna eptir lánga umsát. Nú bjuggust menn við, að Friðrik mundi ráðast á Böhmen, því að þar sat Daun með sínu liði, en konúngur gjörði það þó eigi, heldur hèlt hann með herinn suður á Mähren og settist um borg þá er Olmütz heitir. Það er sterklega víggirt borg, og fengu Prússar með engu móti tekið hana, einkum fyrir þá sök, að hershöfðíngi sá, er *Loudon* hèt, náði öllum þeim vistum og hergögnum, er konúngur vænti á eftir sèr norðan af Slesíu. Var það svo mikið góz, að flutt var á 3000 vögnum. Náði Loudon því öllu saman, og hann ætlaði sèr þar á ofan hitt, sem meira var, að banna konúngi leiðina aftur norður til Slesíu, eða taka hann, ef auðið yrði. En með viturleik sínum og snarræði komst Friðrik slysalaust fram hjá óvinum sínum. Var það nú áform hans, að búast þar um fyrst um sinn og hafa gætur á Daun. En þá kom sú fregn,

að Rússar væru komnir vestur á Pommern, hefðu lagt undir sig allar sveitir þar fyrir austan (Östpreussen og Vestpreussen), og gjört þar ótal grimdarverk, hvar sem þeir kæmu. Friðrik sendi hershöfðíngja þann, er *Dohna* hèt, móti Rússum með 20,000 manna, en þeir höfðu ofurefli liðs, og gat hann eigi stöðvað för þeirra. Nú lætur Friðrik konúngur *Keith*[1], einn af sínum beztu hershöfðíngjum, verða eftir til landvarnar á Slesíu, en heldur sjálfur með 14000 manns í móti Rússum. Á leiðinni bætir hann við sig liði því, er Dohna var fyrir. Þegar konúngur sá lið þetta, sagði hann við þenna hershöfðíngja: «liðsmenn yðar eru einkar vel búnir. Eg kem hèr með nokkra, sem líta út ver en fjandinn sjálfur, en þeir bíta». Þó Friðrik hefði hálfu minna lið en Rússar, hikaði hann samt eigi við, að ráða á þá þegar í stað, er þeir hittust (25. ágúst); en það var hjá bæ þeim, er *Zorndorf* heitir, skamt fyrir austan Oder-fljót. Orustan tókst um dagmál og stóð allan dag til náttmála; var þar barizt af svo mikilli grimd, að hvorugir þurftu að griðum að spyrja, og því varð þar hið ógurlegasta mannfall. Konúngur vann sigur, og átti það einkum að þakka hreystilegri framgöngu Seydlitzar og riddaraliðs þess, er hann rèð fyrir. Rússar þóttust eigi sigraðir til fulls, en þó treysti Fermor, yfirforíngi þeirra, sèr eigi að haldast þar lengur við, og lèt undan síga austur á Pólland. Friðrik skorti bæði púður og kúlur til þess, að geta unnið á þeim eins og hann vildi. Nú var konúngi eigi til setunnar boðið þar nyrðra, því að á hverri stundu mátti búast við, að hinar smáu herdeildir Prússa á Slesíu og á Saxlandi yrði ofurefli þeirra Loudons og Launs að bráð.

*Hinrik* prinz, bróðir Friðriks annars, hafði verið settur til varnar á Saxlandi. Hann hafði aðalstöðvar sínar við Dresden; hann var einhver hinn ágætasti af hershöfðíngjum Prússa um þær mundir. Hinrik þóttist sjá fyrir, að hann mundi eigi til lengdar geta varizt Austurríkismönnum, því að við ofur-

1) *Keith* var skozkur eðalmaður, hafði þjónað ýmsum konúngum og gefizt alls staðar vel. Frá Rússlandi kom hann til Friðriks annars og reyndist honum hinn þarfasti maður. Það var Keith, sem sagði við Friðrik litlu fyrir orustuna við Hochkirch: «Austurríkismenn eiga skilið, að verða hengdir, ef þeir láta oss hèr í náðum». «Þeir óttast meir Prússa en gálgann», mælti konúngur.

efli var að etja. Hann lèt því konúnginn vita, hve nauðulega hann væri staddur, og beiddist liðs. Konúngur brá þegar við og heldur Suður á leið til Saxlands. En sem Daun frèttir til ferða hans, gjörir hann konúngi fyrirsát á hæðum nokkrum, sem kendar eru við Kitliz, austan til á Saxlandi; þar hafði Daun örugt vígi. Konúngur gat, ef hann hefði viljað, komizt fram hjá Daun, en bæði seinlæti Dauns og hamíngja sú, er því nær ætíð hafði fylgt konúngi, gjörði hann djarfari en skyldi, og þess vegna setti hann herbjöld sín í nánd við þorp eitt, er *Hochkirch* nefnist, og örstutt frá Austurríkismönnum. Nokkrir af helztu hershöfðingjum hans, *Keith, Ziethen* og *Seydlitz*, sögðu sem satt var, að slíkt væri hið mesta hættuspil, þar sem vígi væri hið versta, og slúnginn foríngi með ofurefli liðs örskamt á burtu. En konúngur lèt sem ekki sakaði, og trúði betur njósnarmanni sínum, en sá hinn sami var enn meiri vinur Dauns, og sveik konúng í trygðum.

Á þessum stöðvum sátu hvorirtveggja þrjá daga, og hreyfðu sig eigi, en á fjórða degi ætlaði konúngur að halda þaðan á burt. Aðfaranótt þess dags (14. október) áður en ljóst var orðið, og meðan allir Prússar voru í fasta svefni, nema riddaralið Ziethens, rèð Daun með öllu liði sínu á konúngsmenn. Þeir vöknuðu við vondan draum og gripu til vopna, en urðu þess bráðum vísari, að Daun var búinn að ná mörgum fallbyssum þeirra, og einmitt á þeim stað, er sízt skyldi. Börðust menn þar í myrkrinu lánga stund til þess er lýsti af degi, og var það ógurlegur aðgángur. Hefðu Prússar verið höggnir þar niður í strá, ef konúngur og fyrirliðar hans hefðu eigi verið slíkir afbragðsmenn, sem þeir voru. Þegar leið fram um dagmál, lèt konúngur undan síga, og skipaði þá fyrir svo snildarlega, að Daun leizt eigi að veita þeim eftirför. Konúngur misti þar mestallan farángur sinn, og þar á meðal 100 fallbyssur, og margt manna. Þar fèll Keith, og ýmsir aðrir nafnkendir fyrirliðar. En þrátt fyrir þetta óhapp, gátu þeir bræður, konúngur og Hinrik, sameinað lið sitt, og haft öll yfirráð á Saxlandi eins og áður. Litlu síðar fór konúngur austur á Slesíu, rak þá Austurríkismenn þaðan, er þángað voru komnir, og seztir um ýmsar borgir, og hèlt síðan til Breslár og sat þar um veturinn. Daun

hafði lítið gagn af sigrinum við Hochkirch, hélt suður á Böhmen og dvaldist þar vetrarlángt.

Frá Ferdínandi af Brúnsvík spurðust góð tíðindi. Hann hafði unnið mikinn sigur á Clermont í nánd við borgina Crefeld. Eftir það var höfðíngi sá, er *Contades* hèt, settur yfir Frakkaher, og þá varð Ferdínand að fara austur yfir Rín, en, svo mannmargir sem Frakkar voru, gátu þeir ekki ilt af sèr gjört fyrir austan ána, því að Ferdínand var þeim öllum drjúgari og varði landið af mikilli hreysti. Hingað til hafði Friðrik annar að vísu reynt hverflyndi hamíngjunnar, og komizt í margar kröggur, en því var þó eigi saman að jafna við það, sem enn var ókomið fram, og hann átti enn eftir að reyna. Þrjú ófriðarár voru á enda. Nú byrjaði hið fjórða og óttalegasta. Fjandmenn hans lögðu alt kapp á, að gjöra lið út af nýju, meira og betur búið en áður. Elísabet Rússadrotníng vildi hefna ófara þeirra, er menn hennar höfðu farið fyrir Prússum við Zorndorf, og sendi óvígan her og nýjan hershöfðíngja, Soltikov, til Prússlands. Var svo ráð fyrir gjört, að hann og Daun skyldu umkríngja Friðrik og knosa hann á milli sín. Hins vegar gjörði Friðrik hvað hann gat; hann varð að gánga hart að þegnum sínum og Saxlendíngum, og heimta þaðan bæði fólk og fè, til þess að auka og búa herinn sem bezt; því að undanfarin ár hafði hann mist margar þúsundir manna, og þau skörð þurfti aftur að fylla. Konúngur hafði þannig komið fótum undir nýjan og allmikinn her, en það ræður að líkindum, að hina úngu og óreyndu menn, sem nú voru komnir í stað hinna föllnu, hafi skort hug og hreysti til jafns við þá. Um vorið 1759 frèttist koma Rússa að austan, og að Loudon væri á leiðinni sunnan af Böhmen með 20,000 manna til að sameinast þeim. Konúngur sendi fyrst Dohna, og því næst annan hershöfðíngja, er *Wedel* hèt, móti Rússum, en báðir þeir höfðu ósigur, og Loudon komst alla leið til Rússa. Nú sá Friðrik eigi annað ráð en fara sjálfur. Lætur hann þá Hinrik bróður sinn koma af Saxlandi til Slesíu, og setur hann þar til landgæzlu í sinn stað, en sjálfur heldur hann norður og niður með Oder-fljóti, og hefir um 40000 manna, að því liði meðtöldu, er verið hafði með Dohna og Wedel, og af hafði komizt. Með þessu liði fer konúngur austur yfir Oder-fljót (11. ágúst), og sèr þá óvini sína þar á hæðunum milli Frankfurt og *Kunnersdorf;*

höfðu þeir búizt þar vel fyrir, og voru yfir 60,000 manna. Engu að síður rèð Friðrik þegar á þá daginn eftir (12. ágúst). þar var erfitt til aðsóknar, ákaflega sterkar varnir í móti, og sólarhitinn megn. Prússar runnu á vígin og sóttu að af miklu kappi; mannfallið varð mikið af hvorumtveggja, en er bardaginn hafði staðið frá því einni stundu fyrir hádegi alt til miðaftans, var hinn vinstri fylkíngararmur Rússa kominn á flótta, og allar fallbyssur þeirra í höndum Prússa. Konúngur sendi mann til Berlínar með sigurfregn. En hèr urðu snögg umskifti. Hægri fylkíngararmur Rússa stóð enn fast fyrir og hörfaði hvergi, og Loudon, og alt hans lið, hafði enn engan þátt tekið í orustunni. Nokkrir af hinum helztu hershöfðíngjum Friðriks, og þar á meðal Seydliz og Fink, lögðu það til, að hætta skyldi bardaganum, og láta þar staðar nema að sinni, sem komið var, því að liðsmenn væru mjög þreyttir, enda mundu Rússar halda á burt, þegar nóttin kæmi. En konúngur vildi það með engu móti, hann kvaðst eigi vilja hætta við hálfunnið verk, og skipaði fyrir til nýrrar atlögu. Gjörði fótgöngulið Prússa hvert áhlaupið af öðru á fylkíngar og skotgarða óvinanna, en varð í hvert skifti frá að hverfa, því að skothríðin var svo ógnarleg, er yfir það dundi. Loks lèt konúngur Seydliz sækja fram með öllu riddaraliðinu, en það fór á sömu leið. Seydliz varð sár og var borinn burt af vígvellinum. Konúngur lèt þó eigi undan að heldur, og safnar öllu því liði, er hann getur til náð, og gjörir enn harða hríð, en menn hans fengu eigi staðizt skothríð þá, er í móti þeim kom, og svignuðu fyrir; hafði konúngur sig þá svo mjög í hættu, að tveir hestar voru skotnir undir honum. Í þeirri svipan hleypir Loudon öllu riddaraliði sínu á konúngsmenn, og það reið þeim að fullu. Brast þá flóttinn, svo að konúngur gat við ekkert ráðið, og flýja allir undan sem fætur toguðu. Lá þá nærri, að konúngur yrði handtekinn, en einn riddaraforíngi, er *Prittviz* hèt, fékk bjargað honum undan. Seint um kveldið kom konúngur að bóndabæ einum, en þar var eigi vistlegt fyrir, því að Kósakkar höfðu verið þar og rænt. Þar lèt konúngur fyrir berast um nóttina, og lá á hálmvisk einni. Þaðan ritaði hann til Berlínar þessi orð: «Látið konúngsfólkið fara úr Berlín. Sendið ríkisskjölin til Potsdam. Borgin verður að gefast upp fyrir óvinum vorum». Ósigurinn, sem konúngur

hafði beðið var ógnarlegur. Af öllu því liði, sem hann hafði haft þann morgun, er orustan hófst, voru nú að eins eftir hjá honum 5 þúsundir manna. Af brèfum þeim, er konúngur ritaði vinum sínum um þær mundir, þykir enda mega ráða, að hann hafi á hverri stundu búizt við, að alt væri á enda fyrir sèr og ríki sínu, því að hann segir fyrir um ýmislegt, er gjöra skuli, að sèr látnum, og kveður til fulls og alls þessa vini sína. Það er sagt, að konúngur bæri jafnan eitur á sèr, meðan á ófriði þessum stóð, og hafi jafnvel látið á sèr skilja, að hann mundi grípa til þess í viðlögum, «því að hann skyldi aldrei komast lifandi í hendur óvina sinna». Á því var enginn efi, að óvinum hans var nú innan handar, að gjöra skjótan endi á ófriðnum — eins og konúngur hefir sjálfur sagt — ef þeir hefðu kunnað að neyta sigursins. En metnaður þeirra og sundurlyndi leyfði þeim það eigi. Þeir eyddu nokkrum dögum í þrasi og þrefi sín í millum, og nokkrir dagar, vel notaðir af Friðriki öðrum, voru meira verðir en margir mánuðir fyrir aðra menn. Daginn eftir orustuna hafði hann þegar safnað 18,000 undir merki sín, og að nokkrum dögum liðnum hafði hann 30,000 vígra manna. Fallbyssur fekk hann úr næstu kastalaborgum. Óvinirnir hèldu eigi til Berlínar. Rússar höfðu öll yfirráð austur á Prússlandi, og þótti það nóg. Brandenborg vildu þeir eigi vinna handa Austurríkismönnum. Daun skoraði fast á Soltikov að halda fram ferðinni og taka Berlín. Soltikov svaraði: «Eg hefi þegar unnið tvær orustur, en bíð nú eftir, áður en eg hefst frekara að, að fá þá fregn frá yður, að þèr hafið einnig unnið tvær orustur, því það er eigi sanngjarnt, að liðsmenn drotníngar minnar standi einir saman í stórræðum». Þetta aðgjörðaleysi, og þessi rígur milli höfðíngjanna, bjargaði Friðriki og hlífði Berlín um stundarsakir. Litlu síðar hèlt Soltikov austur á Pólland.

Um þessar mundir hafði Hinrik konúngsbróðir haldið öllu sínu í Slesíu fyrir Daun, og jafnvel krept svo að honum, að Daun varð að hörfa undan til Böhmen. Á Saxlandi gekk Prússum hins vegar miklu miður, enda höfðu þeir þar svo fátt lið, að eigi var af því heimtandi, að varizt gæti ofurefli ríkishersins og Austurríkismanna. Þeir náðu á sitt vald nokkrum helztu borgum landsins, t. a. m. Leipsig, Vittenberg og Torgá, og jafnvel höfuðborginni Dresden, sem Friðriki var mestur skaði, því að

þar átti hann sín helztu forðabúr, og þar var hann vanur að hafa sínar helztu herstöðvar þessi árin. Ofaná alt þetta bættist, að Fink hershöfðíngi, sá er fyr var nefndur, varð að gefast upp við Maxen fyrir Austurríkikmönnum (20. nóvember) með alt sitt lið, hèr um bil 15000 manna, og litlu síðar fekk annar herflokkur Prússa sömu afdrif. En þrátt fyrir allar þessar ófarir, náði Friðrik þetta sama haust meira hluta Saxlands úr höndum óvina sinna, og sat lengi framan af vetri um Daun þar suður í fjöllunum, og átti þá illa búð, en hann kvaðst hugga sig við það, að Daun ætti lítið betra. Nálægt miðjum vetri fór konúngur ofan í bygð, og sat í borg þeirri, er Freiberg heitir, það eftir var vetrar (1759—1760).

Á þessu sama ári, sem nú var frá sagt, hafði Ferdínand af Brúnsvík eitt sinn beðið ósigur fyrir Frökkum við Bergen (13. apríl), en unnið það margfalt upp aptur á þeim í hinum ágæta sigri við *Minden* (1. ágúst), svo að hann hafði öll yfirráð bæði í Hannóver og á Vestfalen.

Þegar voraði (1760) bjuggu hvorirtveggja lið sitt af nýju, og eftir allan þann mótgáng, er Friðriki konúngi hafði mætt á undanförnu ári, var eigi annað sýnna, en að óvinir hans mundu yfirstíga hann að fullu og öllu þá þegar samsumars. Rússar og Austurríkismenn höfðu nú sameinað aftur lið sitt, og ætluðu sèr að vinna Slesíu og Brandenborg. Friðrik hafði með ýmsu móti mist margar þúsundir manna; ýmsar herdeildir smærri og stærri af liði hans höfðu verið höndum teknar, og sátu í varðhaldi, víðs vegar um Austurríki, en hinir voru þó fleiri, er fallnir voru og enginn kostur að fá jafngóða menn í þeirra stað; einna tilfinnanlegastur varð sá mikli skortur, er nú var orðinn á foríngjum, enda varð konúngur að taka margt úngmennið, þótt eigi hefði lært hermentina nema til hálfs, og gjöra að fyrirliðum í hernum. Engu betur var ástatt með fjárhaginn. Valdsmenn Prússa voru hættir að fá nokkrar tekjur; í mörgum borgum og bygðarlögum var jafnvel enginn valdsmaður orðinn eftir. En meðan rúgbrauð og kartöflur, blý og púður væri til í landinu, og nokkur karlmaður uppi standandi, hafði Friðrik einsett sèr, að gefast eigi upp, en berjast og falla, ef annars yrði eigi kostur.

Þetta sumar var Friðrik ýmist á Saxlandi eða Slesíu, og fór þá fram og aftur um lönd sín á skemra tíma en aðrir menn, og

það var því líkast, sem hann væri alls staðar, og þó hann væri fámennur, en óvinir hans hefðu margfalt meira lið, stóð þeim sá ótti af honum, að þeir þorðu eigi á hann að ráða. Þegar komið var fram í júlímánuð, var konúngur staddur á Saxlandi; barst honum þá sú fregn, að Austurríkismenn hefðu tekið kastalaborg þá, er *Glaz* heitir, sunnan til á Slesíu. En það var konúngi hinn mesti skaði, því að þá var Slesía opin og öndverð fyrir óvinum hans. «Það verður svo að vera», mælti Friðrik, er honum bárust þessi tíðindi. «En þeir skulu skila mèr aftur þeirri borg, er friður kemst á. Vèr verðum að halda þángað austur, svo vèr missum eigi alt».

Nú var haldið af stað austur um Lausiz. Daun, sem vildi vita hvað konúngi liði og ráða á hann, ef hann sæi sèr fært, hèlt lítið eitt á undan Prússum með allan sinn her, en sá hershöfðingi á eptir þeim, er Lascy hèt. Konúngur var þannig á milli tveggja óvina, þó komst hann með sína menn slysalítið austur í Slesíu, og segir ekki af ferðum hans, fyr en hann kemur í nánd við bæ þann, er *Liegniz* heitir. Þar setur konúngur herbúðir sínar. Daun og Loudon voru nú búnir að sameina lið sitt að nokkru leyti, skamt þar fyrir austan, og sátu þar á vegum öllum, þeim er farnir verða til Bresláar og Sveidniz. En þángað varð konúngur að komast sem allra fyrst, hvað sem í vegi stæði, því að þar voru forðabúr mikil, en menn hans að þrotum komnir með vistir. Konúngur hafði því nær aldrei komizt í slíkar kröggur. Hann mátti búast við, að hèr mundi fara fyrir sèr, eins og farið hafði fyrir Fink árinu áður við Maxen. Því að auk þess sem Austurríkismenn höfðu lið hálfu meira en konúngur, þá var Soltikov með 60,000 Rússa þar í nágrenninu, og gátu Prússar búizt við, að hann skærist í leikinn, er minst varði, og rèði á þá. Loudon var næstur Prússum af óvinum þeirra, en Daun og Lascy nokkuð lengra burt. Friðrik mundi eftir nóttinni við Hochkirk. Hann vildi eigi, að eins skyldi aftur fara. Þess vegna flutti hann nú herbúðir sínar á hverri nóttu, og var á alt öðrum stað þegar morgna tók, en hann hafði verið kvöldið áður. Þetta kom honum og að góðu haldi. Aðfaranott 15. ágúst, litlu eftir miðnætti, urðu varðmenn konúngs varir við, að ófriður fór að þeim. Þar var þá Loudon kominn með alt sitt lið, og ætlaði að ráða á konúng, en bjóst eigi við honum á þeim stað, sem hann nú

var. Konúngsmenn hlupu þegar til vopna, og tóku svo röskliga í móti, að af Loudon féllu 10,000 manna, en 6000 urðu handteknar. Var bardaga þessum lokið að þrem stundum liðnum, og fekk konúngur þar fagran sigur. Daun og Lascy voru ofláungt burtu til þess að geta komið þeim Loudon til hjálpar.

Sigurinn við Liegnitz var að vísu ágætur, en konúngur sá glögt, að hans mundu lítil not verða, ef nú væri haldið kyrru fyrir. Þess vegna heldur hann þegar af stað, og gefur hvorki sèr eða mönnum sínum hvíld, fyr en hann sèr, að Daun gat eigi lengur bannað honum leið til Breslááar. En hættan var engan veginn þar með á enda. Daun hafði enn ofurefli liðs, og Rússar voru þaðan skamt í burt á eystra bakka Oder-fljóts með ófljýjanda her. Friðrik vildi því koma þeim þaðan og lengra austur. En til þess fann hann það ráð, hann ritar brèf Hinriki bróður sínum, sem þá var með lið sitt á öðrum stað í Slesíu, og segir í því, að nú hafi hann unnið sigur á Loudon, ætli sèr hvenær sem færi gefist, að veita Rússum aðgöngu og biður Hinrik koma á ákveðnum degi og stað til móts við sig, með öllu því liði er hann hafi. Konúngur fær bónda einum brèfið, og biður hann haga svo ferð sinni, að Rússar taki hann, svo brèfið komist í þeirra hendur. Bóndi fer með brèfið, og gjörir sem fyrir hann var lagt. Þegar Rússar lesa brèfið, kemur felmtur á þá, og taka sig upp samdægurs og halda lángt austur á sveitir. Nú varð Friðriki hægra um hönd í Slesíu, eftir þessa burtför Rússa, en þó var það eftir, að koma Daun burt þaðan af landi. Beittust þeir þar brögðum nokkrar vikur, og vann hvorigur á öðrum; urðu að vísu engar stórorustur með þeim, en ýms vopna viðskifti og nokkur mannskaði af hvorumtveggja. Loksins leiddist Daun þófið, og til þess að koma konúngi burt af Slesíu, fær hann Soltikov til þess að senda 20,000 manna vestur til Berlínar, með þeim erindum að taka þá borg, en sjálfur sendir Daun þángað 18000 undir yfirstjórn Lascýs. Hèlt allur þessi her viðstöðulaust þángað og tók borgina eptir litla mótstöðu, því að þar var þá lítil vörn fyrir. Þegar konúngur frètti þessi tíðindi fór hann burt af Slesíu, og stefndi til Berlínar, en þá voru hinir allir á brott þaðan, því að eigi þorðu þeir að haldast þar við, er þeir frèttu til ferða konúngs; þeim stóð meiri ótti af honum en svo, að þeir vildu verða á leið hans. Konúngur sá að hann

gat ekki gagn unnið sèr eður ríki sínu, ef hann staðnæmdist í Brandenborg og hèlt því vestur á Saxlánd. Þángað var þá Daun kominn og hafði búizt fyrir á hæðunum við bæ þann, er *Torgá* heitir. Þar var hið öruggasta vígi. En þó svo væri, og þó hèr gæti svo farið fyrir konúngi sem við Kunnersdorf, þá var honum samt einn kostur nauðigur, að berjast við Daun og reka hann burt af þeim stöðvum, til þess að geta sjálfur haft aðsetu á Saxlandi vetur þann er í hönd fór. Að eigi hafi verið árennilegt, að veita Daun aðgöngu, má af því ráða, að Friðrik kvaddi alla herhöfðingja sína til fundar við sig, og rèðst um við þá, hvort freista skyldi atlögunnar eða eigi. Þögðu hinir allir nokkura hríð, en loks varð Ziethen fyrir svörum og mælti: «Alls má freista, en hitt er það, að sumir hlutir eru erfiðari en sumir» Konúngur skifti liði sínu í tvær deildir. Setti hann Ziethen yfir aðra deildina, og skyldi hann með því liði gjöra bug á leið sína, og koma að baki Dauns mönnum og ráða á þá í sama mund, sem konúngur gengi framan að fylkingarbrjósti þeirra með hina herdeildina og gerði þar áhlaup. Vildi konúngur þannig brjótast gegnum miðjan her óvina sinna og kljúfa hann í tvent; gæti þetta tekizt, vænti hann sèr sigurs. Þegar er lýsti af degi (3. nóv.), tók herinn sig upp; Ziethen fyrst, en konúngur litlu síðar; stefndi hvor um sig þángað, sem honum var ætlað; vegurinn var lángur og torsóttur, enda við ýmsa smáflokka að berjast, áður komið væri þángað, sem meginher Austurríkismanna var saman kominn. Nálægt miðjum degi heyrði konúngur skothríð mikla í þá átt, er hann þóttist vita að Ziethen mundi vera. Hugði konúngur, að Ziethen væri þá kominn alla leið og hefði ráðið á þá, og lætur þegar veita atgöngu. Varð þar harðari viðtaka en konúngur hugði, því að Ziethen var enn eigi kominn; hafði hann mætt meiri mótstöðu en ráð var fyrir gjört, og seinkaði það förinni svo mjög, að hann gat eigi tekið þátt í aðalorustunni fyr en undir dagsetur. En alla þá stund varð konúngur að berjast eingöngu með því liði, er hann hafði, og var það eigi nema hálfur herinn, því að Ziethen var með hina helftina. Komst konúngur þar í hina mestu mannraun, en hans frábæra herstjórn og hreysti liðsmanna hans gjörði það að verkum, að Daun með öllu sínu ofurefli gat eigi yfirbugað þá. Svo hefir konúngur sagt, að aldrei hafi hann fyrir hitt aðra eins skothríð eins og

þá, er Daun gjörði í móti honum þann dag, enda hafði Daun 400 fallbyssur þar á hæðunum, og mun það dæmafátt á þeim tímum. Myrkrið datt á; mannfallið var orðið ógnarlegt; hvorigur hafði getað á öðrum unnið. Daun þóttist hafa unnið sigur, og sendi mann með þá gleðifrètt til Vínar. Konúngur taldi víst, að hann yrði að berjast aftur að morgni, og bjó sig undir það. Nóttin var köld og dimm. Menn gjörðu elda á mörgum stöðum, og þeir, sem skriðið gátu, settust þar að og vermdu sig. Var það víða, að Prússar og Austurríkismenn sátu við sama eldinn, eins og þeir væru vinir, og sömdu með sèr, að þeir skyldu gefast upp og gánga á vald þess, er sigurinn ynni að leiks lokum. Lengi fram eftir kveldi heyrðu menn skothríð að baki Austurríkismönnum. Þar var Ziethen kominn með sína menn og barðist lángt fram í myrkur; fekk hann tekið hæðir þær, er hann átti að taka, og sótti svo fast fram, að þar riðluðust fylkíngar Dauns fyrir. Daun varð sár, og lèt sína menn undan síga um nóttina. En konúngur vissi það eigi fyr en morguninn eftir, er Ziethen kom og sagði honum þær frèttir. Í þessari stórorustu mistu Prússar 14000 manna, en Austurríkismenn 20,000, af föllnum og handteknum. Friðrik hafði þann hag af sigri þessum, að nú gat hann setið á Saxlandi um veturinn, að Daun hafði að eins yfirráð yfir Dresden og syðra hluta Saxlands, að ríkisherinn, sem áður ætlaði sèr að sameinast liði Dauns, varð að hörfa undan suður og vestur á sveitir, og, að Brandenborg (og fyrst og fremst Berlín) gat fyrst um sinn verið í náðum fyrir Rússum.

Það ár (1760), sem nú var um garð gengið, hafði Friðrik leitað um sættir. En drotníngarnar, Elísabet og María Theresía, þóttust nú engu síður en áður hafa ráð hans í hendi sèr og tóku því fjarri, enda höfðu þær mikið til síns máls. Austurríkismenn höfðu náð bæði Glaz og Dresden; og fengið þannig fastan fót í Slesíu og á Saxlandi; hinir hraustustu af liðsmönnum Friðriks voru annaðhvort fallnir, eða sátu í varðhaldi suður á Úngverjalandi; Georg annar Engla konúngur var dáinn (25. október 1760), og *Bute* lávarður, sem mestu rèð hjá Georgi þriðja (sonarsyni og eftirmanni Georgs annars), aftók með öllu, að veita Prússum nokkurn fjárstyrk; Friðrik gat eigi fengið skatta nema af litlum hluta ríkis síns, og helmíngur Saxlands var í óvina höndum.

Ræður því að líkindum, að það fè hafi eigi mikið verið, er fylki þessi gátu af hendi látið, eptir svo mörg ófriðarár og svo miklar hörmúngar, sem yfir þau höfðu gengið.

Nú var svo ráð fyrir gjört, að Rússar og Austurríkismenn skyldu vinna Slesíu að fullu og öllu, og halda því næst til Berlínar og taka hana. *Butturlín* og *Loudon* voru fyrir því liði, og höfðu um 180 þúsundir manna. Daun sat vestur í Dresden, og honum var ætlað, að sjá svo um, að herlið Prússa á Saxlandi hefði þar nóg að vinna, svo það gæti eigi komið þeim á Slesíu til hjálpar. Frá Ferdínandi hertoga gat Friðrik engrar liðveizlu vænt, því að hann átti nú (1761) fult í fángi með Frakka, þar sem þeir sendu yfir 150 þúsundir manna í móti honum.

Konúngur setti Hinrik bróður sinn til varnar á Saxlandi móti Daun, en sjálfur fór hann austur á Slesíu. Þegar hann kom þángað, höfðu þeir Butturlín og Loudon eigi sameinað lið sitt. Rússar voru enn fyrir austan Oder, en Austurríkismenn sunnan á Slesíu. Konúngur gjörði það hann gat til þess, að þeir næðu eigi að sameinast, og gekk svo lengi fram eptir sumri, en þó kom þar, að hann gat eigi varnað því; var þá alt lið þeirra til samans 130,000 manna, en konúngur hafði einar 50000. Mundi slíkt ofurefli eflaust hafa unnið á konúngi til fulls, ef Loudon hefði einn haft yfirstjórnina. En Butturlín vildi engu öðru fara fram en sínum ráðum, því að hann þóttist sjá fyrir, að Austurríki mundi hafa allan hag af því, að konúngi yrði algjörlega á knè komið. Rússar höfðu tekið bæði Austur- og Vestur-Prússland, og það lètu þeir sèr nokkurn veginn nægja. Þeim var eigi ant um, að Austurríki eignaðist Slesíu. Butturlín var því að mestu leyti aðgjörðalaus, en þetta aðgjörðaleysi hans bjargaði Friðriki. Loudon einn með Austurríkismenn — þó þeir væru yfir 70000 — þorði eigi að leggja til orustu við Friðrik. Þegar kom fram í septembermánuð voru vistir mjög að þrotum komnar hjá Rússum, og sá Butturlín þá, að hann gat eigi haldizt þar lengur við með sína menn, skildist því við Loudon og hèlt austur yfir Oder. Þó lèt hann hershöfðingja þann, er *Czernitschef* hèt, verða eptir hjá Loudon með 20,000 manna. Þóttist Friðrik þá svo úr kröggum kominn, að hann bauð Loudon að berjast við sig, en Loudon vildi eigi, en í þess stað hèlt hann til Sveidniz og tók þá borg með lítilli fyrirhöfn (1. okt. 1761).

Það þótti Friðriki hinn mesti skaði, því að nú þótti honum útséð um það, að hann gæti nokkru sinni náð Slesíu aftur úr höndum Austurríkismanna. Litlu síðar en hèr var komið, barst konúngi sú fregn, að Rússar og Svíar hefðu í sameiníngu unnið borg þá í Pommern norður við Eystrasalt, er *Kolberg* heitir. Var það Prússum hinn mesti skaði að missa þá borg, því að nú höfðu óvinir þeirra náð föstum fæti á þrem hinum helztu stöðum umhverfis þá. Þeir höfðu náð Dresden, og þannig fengið yfirráð á hálfu Saxlandi; þeir höfðu náð Sveidnitz, og þar með fengið yfirráð yfir hálfri Slesíu; og nú höfðu þeir náð Kolberg, og þá var helmíngur Pommerns kominn í þeirra hendur. Nú var svo komið, að óvinir Friðriks gátu haft vetrarsetu bæði í Slesíu og á Saxlandi, en það höfðu þeir eigi getað að undanförnu. Það virtist ekkert geta verið því til fyrirstöðu, að Rússar tækju á næsta vori sjálfa Berlínarborg og legðu undir sig alt kjörfurstadæmið Brandenborg. Í Slesíu hafði konúngur að eins 30,000 vígra manna. Hinrik bróðir hans hafði á Saxlandi viðlíka mikið lið. Var Seydlitz nú gróinn sára sinna og kominn þar til móts við hann, og höfðu þeir bæði varizt Daun af mestu prýði, og hins vegar einnig rekið ríkisherinn af höndum sèr. Á Ferdínandi af Brúnsvík höfðu Frakkar ekki getað unnið, þótt þeir væru liðfleiri, en hvar sem þeir komu, beittu þeir svo mikilli grimd og alls konar ósóma við landsfólkið, að jafnvel Rússar þóttu taka þeim fram að stjórnsemi og siðprýði. Það er af þessu, sem nú hefir verið sagt, auðsèð, að því lengur sem ófriðurinn stóð, því meira færðist saman það svið, er Friðrik konúngur hafði til umráða. Meiri partur ríkis hans var í óvina höndum, og landslýðurinn var orðinn svo margþjáður, að hann gat einskis án verið. Það var eigi hægt að sjá, hvaðan konúngur gat fengið menn, hesta, vistir og í fám orðum að segja sèrhvað það, sem hann þurfti til hersins. Alt virtist lúta að því, að úti yrði um Friðrik og ríki hans á næsta ári.

En á Friðriki öðrum sannaðist hið fornkveðna, að þegar neyðin er stærst, þá er hjálpin næst. Þá bar það til tíðinda, að Elísabet drotníng á Rússlandi dó (5. janúar 1761), en systurson hennar *Pètur* kom þar til ríkis. Hann var, eins og áður er sagt[1] sonur Karls Friðriks af Holstein-Gottorp og Önnu dótt-

1) Sjá Nýju sögunnar II. hefti, bls. 133 og 191.

ur Pèturs mikla. Hann er nefndur *Pètur þriðji.* Elísabet móðursystir hans var einhver mesti óvinur Friðriks annars, en Pètur keisari var hans aldavinur, og dáðist manna mest að honum og hans afreksverkum. Nú var það eitt hið fyrsta verk Pèturs, að hann samdi frið við Prússakonúng, og skilaði honum aftur öllu því, er Rússar höfðu náð í ófriðnum, bæði löndum og herteknum mönnum, og þar á ofan lèt hann hershöfðíngja sinn, Czernitschef, gánga með 20,000 manna í lið með Prússum. Af þessu leiddi það og, að Svíar gjörðu litlu síðar frið við Prússa. Reyndar hafði Friðrik minna gagn, en til stóð, af þessari liðveizlu Rússakeisara, því að misseri síðar var Pètur settur frá völdum af *Katrínu*, drotníngu sinni, og því næst ráðinn af dögum. Drotníng (*Katrín önnur*) lèt að vísu friðinn standa óraskaðan, en hún kvaddi þegar Czernischef heim og alt hans lið. Samt sem áður hafði Friðrik þann hag af dvöl Rússa, þó stutt væri, að hann sigraði Daun í einni orustu og náði aftur Sveidniz. Nú var hann laus orðinn við tvo af óvinum sínum, og gat því snúizt betur enn áður við Austurríkismönnum. Dauði Elísabetar, og friður Rússa og Svía við Friðrik annan, voru Maríu Theresíu hörð tíðindi. Reynslan hafði sýnt henni, að eigi var auðveit, að ná Slesíu úr höndum hans, og því minni líkur voru til þess nú, eftir að þessir voru gengnir úr sambandinu. Þegar María Theresía þar næst hugleiddi, að keisarinn, maður hennar, var hnígiun að heilsu, og drotníngu var mjög ant um, að Jósef sonur hennar næði keisaratign, en svo hins vegar ríkis-skuldirnar komnar fram úr öllu hófi: þá þóttist hún eigi sjá annað ráð vænna, en að leita sátta og friðar við Prússa konúng, og svo var nú gjört. Því næst áttu menn fund með sèr í höll þeirri á Saxlandi, er *Húbertsborg* heitir, og þar komst friður á 15. febr. 1763 milli Prússa annars vegar og Austurríkismanna og Saxa hins vegar. Var þá alt það staðfest og við það látið sitja, sem gjört hafði verið í Breslárar- og Dresdenar friðnum (1742 og 1745). Friðrik hèlt allri Slesíu og misti ekki hið minsta af ríki sínu, og má það heita einstakt dæmi í veraldarsögunni, að eitt lítið konúngsríki fekk þannig varizt, og haldið að lyktum öllu sínu fyrir svo mörgum og svo ríkum óvinum, er í móti stóðu. Þetta dæmi sýnir ljóslega, hve miklu dugnaður og þreklyndi fær orkað, þó við ofurefli og hverfula hamíngju sè að eiga. Eftir rúma sex

ára útivist hèlt nú Friðrik konúngur innreið sína í Berlín og Ferdínand af Brúnsvík honum á aðra hönd; fögnuðu borgarmenn heimkomudegi konúngs sem þeir mest máttu. Meðan á ófriðnum stóð hafði Berlín oftar en einu sinni verið heimsótt af óvinaliði og orðið fyrir ránum og óspektum. Þó hafði borg þessi að tiltölu komizt miklu betur af en flest önnur bygðarlög og borgir í löndum Prússa konúngs. Skógar voru víðast fallnir fyrir eldum og járni; akrar voru ósánir; fènaðurinn var dáinn af húngri; hèrumbil 15,000 húsa, stærri og smærri, voru brunnin til ösku; landsfólkið hafði fækkað um 10 manns af hverju hundraði; sjötti hver vopnfær maður var fallinn í orustum; í sumum sveitum sást enginn karlmaður á akri eður engi um bjargræðistímann, heldur einar saman konur; í sumum þorpum og bæjum sást engin lifandi skepna; lög og yfirvöld voru allvíða eigi nefnd á nafn. Það má í fám orðum segja um land og lýð Prússakonúngs, að hvorttveggja flakti sundur af sárum við endalok sjöára-stríðsins. Sú var ein bót í máli, að ríkið hafði engum skuldum safnað öll þessi ófriðar ár, og var það einstakt dæmi, því að allar aðrar þjóðir, sem nokkuð voru við ófriðinn riðnar, voru komnar í stórskuldir.

### Ófriður með Frökkum og Englendíngum (1756—1763).

Um sama leyti sem sjö ára stríðið átti sèr stað á Þýzkalandi, stóð ófriður milli Frakka og Englendínga einnig í öðrum heimsálfum, og þar börðust menn um yfirráðin í Ameríku, í Indíum og á hafinu.

Í Norðurameríku hafði fjöldi manna, bæði af Englandi og af Frakklandi, tekið sèr bólfestu og sett þar nýlendur á stofn. Landnámsferðir af Englandi vestur um haf hófust með *Valter Raleigh*, á dögum Elísabetar drotníngar, er hann stofnaði nýlendu þá, er síðan heitir Virginía. Á 17. öldinni, um daga Stúartanna og Cromwells, var hin mesta ófriðaröld á Englandi, og fóru þá margir ágætir menn þaðan af landi burt og vestur um haf til þess að bjarga fjöri og frelsi og trú sinni. Á hinu fagra og frjóva víðlendi milli Allegheny-fjalla og Atlantshafs settust landnámsmenn þessir að; þeir voru bæði hraustir menn og starfsmenn miklir, og þó þeir ættu þar við margt misjafnt að stríða

fyrst framan af, eigi hvað sízt árásir Indíana, frumþjóðar þeirrar, er þar bjó fyrir; þá tókst þeim þrátt fyrir það, að yrkja landið, og koma þar á fót mörgum smáfylkjum með góðu skipulagi; í hverju fylki settu þeir þjóðkjörið þing, er réð lögum og lofum, en eitt aðalþing eður aðalstjórn þar í landi var eigi til, er tengt gæti fylki þessi saman í eina ríkisheild; það eina, sem sameinaði þau, var sambandið við ættjörðu sína England. Þessi fyrstu og elztu fylki (*hin fornu fylki*) voru 13 að tölu: *New Hampshire*, *Massachusetts*, *Rhode Island* og *Connecticut* (þau voru tilsamans nefnd *Nýja England* og bygð af Púrítönum), *Pennsylvania* (það var landnám Vilhjálms Penns, kvekara), *Maryland* (það námu katólskir menn), *Norður* og *Suður Carólína* og *Virginia*, og eftir friðinn í Breda (1667) bættust enn við Nýja-Belgía þ. e. *New York*, *New Jersey* og *Delaware*; seinna og á 18. öldinni bættist *Georgia* við. Eftir siðvenju þeirra tíma var verzlun nýlendnanna bundin við það land, sem þær áttu ætt sína til að rekja, og það var, þegar um þessar nýlendur er að ræða, England. En af því þær nutu frelsis, bæði hvað stjórn og trúarbrögð snerti, þá tóku þær miklum framförum í öllum greinum.

Frakkar höfðu numið *Canada*, eyjuna *Cap Breton* og *Louisiana*. Canada er mikið og gott land fyrir vestan og norðan Laurentsfljótið; höfðu Frakkar þaðan margs konar viðartegundir og mikla grávöru. Cap Breton er allstórt eyland milli Nýja Skotlands og Nýfundnalands fyrir mynni Laurentsflóa; þar eru málmnámur og kolanámur miklar. Louisiana er mestmegnis fyrir vestan stórfljótið Missisippi, og nær neðan frá sjó norður með því og lángt í land upp; þá er skamt orðið suður í brunabelti, er þar því hiti mikill og fremur óheilnæmt, því að landið er alt að neðanverðu flatt og votlent, en breytist og batnar þegar frá sjónum dregur; þar vex baðmull og alls konar suðræn aldini. Landið dregur nafn af Loðvíki fjórtánda. Hinir frakknesku nýlendumenn í löndum þessum, bæði suður og norður, lögðu mikla stund á dýraveiðar, voru djarfir og framgjarnir, en engir afkvæðamenn til jarðyrkju eða verzlunar. Þeir voru uppaldir við frakkneska harðstjórn og trúarbragða ófrelsi, og af öllu þessu leiddi, að nýlendur Frakka í Norðurameríku gátu aldrei náð verulegum þrifum eða framförum.

Þegar Frakkar urðu að láta af hendi Nýja-Skotland (Akadíu) og Nýfoundland (Terreneuve) á Útrèktar-friðnum (1713), var eigi skýrt kveðið á um landamerki, af því að menn hèr í álfunni voru þeim ókunnugir. Englendíngar sögðu, að Nýja Skotland væri eigi einúngis sá skagi, er það nafn ber, heldur alt landið vestur og norður að Laurents-fljóti. Hins vegar vildu Frakkar eigna sèr land alt upp með Missisippi og austur með Óhío-fljóti, til þess að geta tengt saman lönd þau, er þeir áttu nyrðra, við hin, er þeir áttu syðra; það er að skilja: Canada við Louisiana, eða með öðrum orðum, geta tekið höndum saman á baki Englendínga. En þar með var hinum ensku nýlendumönnum fyrirmunað að færa bygð sína út, hvort heldur vestur eða norður; þeir voru þá alveg umsetnir af Frökkum. Sem við var að búast, undu Englendíngar þessum aðförum Frakka stórilla. Bæði þótti þeim sèr með þessu vera bægt frá allri hinni arðsömu grávöru-verzlun norðan og vestan úr löndum, og því næst þóttust þeir eiga tilkall til landanna fyrir vestan Alleghany-fjöllin, af því þeir væru eldri landnámsmenn þar í landi en Frakkar. Svo bættist það og við, að enska stjórnin hafði gefið nýlendumönnum sínum allmikið land meðfram Ohio-fljóti í þeim sveitum, er Frakkar voru nú komnir í og farnir að ryðja sèr til bústaða. Frakkar gáfu því engan gaum, er hinir sögðu, og tóku höndum hina ensku nýlendumenn, er til þeirra komu. Þetta var upphaf ófriðarins. Þegar þessi tíðindi bárust stjórninni á Englandi, bauð hún nýlendumönnum, að láta hart mæta hörðu, og sendi því næst (1756) lið frá Englandi til þess að reka rèttar síns gegn Frökkum. Fyrst framan af gekk hinum frakknesku nýlendumönnum í Canada betur, jafnvel þó þeir fengju litla sem enga hjálp af Frakklandi. Madame Pompadour horfði eigi í, að ausa út stórfè til þess að þóknast Maríu Theresíu, en þegar um Canada var að ræða, þótti hirðinni í Versailles (Versölum) eigi kostandi miklu fè til «ísmarkanna» fyrir vestan haf. Englendíngar fóru alt öðruvísi að ráði sínu. *Vilhjálmur Pitt* hinn eldri (greifi af Chatham), einhver hinn mesti mælsku- og dugnaðarmaður á Englandi á þeim tímum, gjörði alt sem í hans valdi stóð til þess að auka veldi Englendínga, en eyða framförum Frakka. Hann kom því til leiðar, að Englendíngar sendu flota mikinn til Ameríku og 12,000 leiguliða; við þann her bættist

allmikið lið frá nýlendumönnum, þegar þángað var komið, og nú unnu Englendíngar Cap Breton og lögðu skipum sínum upp í Laurentsfljótið, svo að Frakkar komust þar eigi á land til liðs við nýlendumenn sína. Vörðust þó nýlendumenn lengi og vel, þángað til hinn enski hershöfðíngi *Wolfe* vann sigur á þeim hjá *Quebec* (í sept. 1759). Wolfe og hinn frakkneski hershöfðíngi féllu báðir í orustunni, en Quebec gafst upp fyrir Englendíngum. Var þetta hinn mesti sigur, því að borgin stendur á nesi einu, er gengur út í Laurentsfljótið, en efri hluti borgarinnar í hömrum og þar á kastalar, svo hún er ákaflega torsótt, og má segja, að sá hafi Canada á sínu valdi, sem yfirráðin hefir í Quebec. Enda var nú þess eigi lengi að bíða, áður Englendíngar höfðu unnið alla Canada, og þar með var þeirri hættu lokið, er hinum ensku nýlendumönnum hafði búin verið af Frökkum. Í Vestindíum áttu Frakkar allan vesturhlutann af Haiti og flestar hinar stærri og auðugri eyjar af Litlu-Antillunum, t. d. Guadeloupe, Dominique, Martinique o. s. frv. Allar þessar eyjar unnu Englendíngar af Frökkum árin 1759—1762. Viðureign þeirra í Afríku fór á sömu leið; það sem Frakkar áttu þar, á Senegal og á Gorée-ey, lenti í höndum Englendínga (1758). Það sama ár vann *Clive* lávarður, einn af hinum mestu hershöfðíngjum Englendínga, Calcuttaborg á Austur-Indlandi, og fór síðan herskildi yfir nálæg lönd og borgir, og kom þar fótum undir hið mikla og auðuga ríki, sem Englendíngar hafa síðan átt þar eystra til þessa dags. Nýlendur þær, sem Frakkar áttu þar í landi, komust þá einnig í hendur Englendínga. Auk alls þessa mikla tjóns fóru þó Frakkar, ef til vill, hinar mestu ófarir fyrir Englum, í sjóorustum við Frakklands strendur og Portúgals, árið 1759. Voru Frakkar eptir þær orustur orðnir svo skipalausir, að þegar Englendíngar tóku eyna Belleisle (1761) við Frakklands strendur, þá horfðu Frakkar á þá af landi, og gátu ekki aðgjört sökum skipaleysis. Áður höfðu Frakkar dugað vel í sjóorustum við Englendínga, en stjórn þeirra var um daga Loðvíks fimtánda svo hirðulaus, að allt fór í ólagi fyrir þeim bæði á sjó og landi, eins og sjá má af því, sem hér hefir verið sagt að framan.

Nýlendur Frakka og floti þeirra voru að mestu leyti farin, þegar hertoginn af *Choiseul* varð stjórnarforseti Frakklands. Hann

var einn af þeim, sem átti Mad. Pompadour upphefð sína að þakka, starfsmaður mikill og slúnginn í mörgum greinum. Hann kom því til leiðar (1761), að þeir frændur, Bourbonar, í Versailles, Madrid, Neapel og Parma gjörðu samband sín í milli (*samníngur Bourbons-ættmanna* = den bourbonske Familiepagt) á þá leið, að einn skyldi öðrum veita í viðskiftum við aðrar þjóðir, bæði til sóknar og varnar. Hèr var alls eigi spurt um þarfir eða rèttindi þegnanna, heldur einúngis um ímyndaða hagsmuni sjálfra þessara þjóðhöfðíngja, er í það fèlag höfðu bundizt. Þessi fèlagskapur þeirra frænda var auðsjáanlega stofnaður móti Englendíngum, og fyrir því vildi Pitt, jafnskjótt sem hann varð þess vísari, að samníngurinn var til orðinn, að Spánverjum væri sagt stríð á hendur; hann vildi að Englendíngar yrðu fyrri til bragðs, og gæfu Spánverjum eigi tóm til að búa flota sinn og landher eptir þörfum; væri þeim þá þegar gjörð aðför, mundu Englendíngar fá kostnaðinn bættan, því að þá væri þeim innanhandar að ná «silfurflotanum», sem von væri á innan skamms tíma vestan frá Ameríku með ógryni gulls og silfurs; vildi stjórnin eigi fylgja sínum ráðum, kvaðst Pitt gánga úr völdum — en hann var þá stjórnarforseti. Georg þriðji, sem þá var nýkominn til ríkis á Englandi (1760—1820) var enginn vinur Pitts, og aðhyltist fremur ráð Torýmanna, er friðarins æsktu. Fyrir þá sök lagði Pitt niður völdin, og *Bute* lávarður gjörðist ráðgjafaforseti. Það kom alt fram sem Pitt hafði sagt. Litlu síðar, þá er Spánverjar þóttust viðbúnir, og silfurfloti þeirra var kominn heim, sögðu þeir bæði Englendíngum stríð á hendur (í desember 1761) og Portúgal, sem löngum var Englendíngum fylgjandi.

Þetta var hið mesta feigðarflan af Spánverjum. Floti Englendínga var á skömmum tíma kominn vestur til Cúba, og þeir seztir um Havanna, höfuðborg Spánverja í Vestindíum og aðalverzlunarstað þeirra þar vestur. Tóku Englendíngar borgina og allan skipaflota Spánverja, er þar lá fyrir á höfninni. Annan flota sendu Englendíngar til Filippínanna og tóku þar höfuðborgina Manilla. Á báðum þessum stöðum fengu Englendíngar til samans 5 milliónir punda sterlíngs að herfángi.

Í annan stað sendu Spánverjar her manns til Portúgals, en sú för varð þeim heldur eigi til sigurs. Englendíngar sendu

Portúgalsmönnum lið, og fyrir því liði þann foríngja, er *Vilhjálmur* hèt og var greifi af *Lippe-Bükkeburg* á Þýzkalandi; Hann hafði lært hernaðar-íþróttina í skóla Friðriks annars, og gafst svo vel, að Spánverjar fengu þar engu áorkað. Áður hann fór þaðan úr landi, kom hann góðu skipulagi á hermálefni Portúgalsmanna, og þótti vera hinn vaskasti maður.

Allar þessar mörgu og miklu ófarir gjörðu Frakka og Spánverja fúsa til friðar; enda var friðurinn auðsóttur við Búte og þann stjórnarflokk, er þá rèð mestu á Englandi. Var því næst saminn friður í París (10. febrúar 1763), milli Frakka og Spánverja annars vegar, og Englendínga og Portúgalsmanna hins vegar. Það var fám dögum fyrir Húbertsborgarfriðinn, sem fyr er nefndur. Samkvæmt þessum Parísar-friði fengu Englendíngar eyna Minorka aptur, sem Frakkar höfðu tekið, Akadíu alla, Canada alla, Cap Breton og allar smáeyjar í Laurentsflóa; ýmsar eyjar í Vestindíum og tók þau, er Frakkar höfðu átt, við Senegal á Afríku. Af Spánverjum fengu Englendíngar allan Floridaskaga, en skiluðu aftur ýmsum löndum og borgum, er þeir höfðu tekið. Frakkar lètu Louisiana af hendi við Spánverja í eins konar þokkabót fyrir þegna liðveizlu.

Þannig endaði þessi mikli og grimmi ófriður, bæði sjö árastríðið og nýlenduófriðurinn, er svift hafði Norðurálfuna liði einnar milljónar manna, og jafnvel fram yfir það, breitt eyðileggíngu, neyð og ótaljandi þjáníngar út yfir því nær alla heimsálfuna, án þess að mannkynið til samans tekið, eða nokkurt einstakt ríki hefði verulegan hag af, nema England, því að verzlun þess og sjávarveldi hafði stórum aukizt og magnazt, og aðrar þjóðir stóðu þar lángt á baki Englendínga.

England og Frakkland eftir Útrektar-friðinn.

Hèr að framan hefir hinna helztu styrjalda verið getið, er bæði þessar tvær og aðrar Norðurálfu-þjóðir tóku þátt í á þeim 50 árum, sem taka yfir tímabilið frá hinu spánska erfðastríði og til loka sjö ára stríðsins. Skal því hèr í þessari grein að eins fáorðlega getið þess, er innanlands gjörðist, á því hinu sama tímabili, hjá Frökkum og Englum.

Á *Englandi* hafði parlamentið (þjóðþíngið) náð svo algjörðum yfirráðum, þegar stjórnarbyltíngin varð þar 1688—1689,

að upp frá því varð konúngsvaldið lítils megnandi gagnvart fulltrúum þjóðarinnar. Ráðgjafarnir höfðu ábyrgð fyrir þínginu, og gátu því að eins setið að völdum, að meiri hluti þíngmanna í alþýðuhúsinu (neðristofunni) væri þeim fylgjandi. Hin enska landsstjórn var því allsendis gagnstæð einvaldsstjórn þeirri, er á meginlandi Norðurálfunnar átti sèr stað um þær mundir, og var í reyndinni hin eina frjálslynda stjórn á þeim tímum. Engu að síður mátti þó finna galla á sumum hlutum á Englandi, því að eptir þær tilraunir, er Stúartar gjörðu (1715) til þess að brjótast þar til ríkis, var það tekið í lög, að kosníngar til alþýðuhússins skyldu gilda um sjö ára bil. Á þann hátt urðu þíngmenn sjálfráðari en ella mundi, og óháðari kjósendum sínum, þeir litu öðrum augum á landsins málefni en þjóðin sjálf, og það var miklu hættara við, að mútur og aðrar misjafnar hvatir, hefðu skaðleg áhrif á þá, en orðið mundi, ef kosníngar hefðu verið tíðari. Það var og mikill galli á hinum ensku kosníngarlögum, að ýmsar gamlar en mannfáar borgir höfðu þau rèttindi frá ómunatíð, að mega kjósa mann til þíngsetu, en aðrar miklu fjölmennari borgir höfðu eigi kosníngarrètt, af því þær voru ýngri. Ráðgjafarnir brugðu því einatt fèmútum fyrir sig jafnvel þegar kjósa skyldi þíngmenn, og það er allmerkilegt, að sá maður, sem fyrstur kom þeim ósið á, var Valpole, sem að öðru leyti var hinn þarfasti maður. Hinn nafnkendasti af ráðgjöfum þeim, er komu eptir Valpole, var Pitt (hinn eldri); hann var af Whig-manna flokknum eins og Valpole. Með Georgi þriðja komu Torymenn til valda, og Búte var foríngi þeirra, eins og áður er sagt. Þeir reyndu til að auka vald krúnunnar, en gátu það eigi.

Hins vegar tók efnahagur og auðlegð Englendínga miklum framförum, og áhrif þau, sem þeir höfðu á málefni annara Norðurálfu þjóða, fóru vaxandi. Skuldir ríkisins uxu reyndar stórum, bæði í hinu Austurríkska erfðastríði og sjö ára stríðinu, en það voru innlendar skuldir; lánstraust ríkisins haggaðist eigi, og þessi aðferð, að taka innlent fè á leigu, tengdi hagsmuni stjórnarinnar og þegnanna fastara saman en áður. Ágætir hugvitsmenn fundu þá ýmsa þarflega hluti, er komu fótum undir hinar ótalmörgu verksmiðjur þar í landi, t. a. m. gufuvèlina, spunavèlina, vefnaðarvèlina og m. fl.; málmgröftur, eða málm-

námur gáfu margfalt meira arð af sèr en áður, eptir að menn fóru að viðhafa steinkolin til þeirrar atvinnu:

Saga *Frakka* um þessar mundir er mjög ólík sögu Englendínga. Á Frakklandi átti hin versta einvaldsstjórn sèr stað, er vanrækti skyldur sínar við land og lýð. Við bar það að sönnu, að þar voru dugandi ráðgjafar, er nokkru rèðu, en hitt var þó lengstum, að frillur og þeirra skjólstæðíngar höfðu æðstu völdin í höndum sèr. Eptir Loðvík fjórtánda kom sonarsonar sonur hans *Loðvík fimtándi* til ríkis (1715—1774). En þángað til hann komst til lögaldurs, hafði *Filippus hertogi af Orleans* (bróðursonur Loðvíks 14.) ríkisstjórnina á hendi (1715—1723), eins og áður er sagt, og stýrði Frakklandi eins og hann væri einvaldur konúngur. Móðir hertogans var Elísabet Charlotte dóttir Karls Loðvíks Falzgreifa, sonar Friðriks 5. kjörfursta af Falz og um tíma konúngs í Böhmen[1]. Elísabet var bæði vitur kona og siðavönd, en gat þó eigi varið þenna son sinn fyrir þeirri siðaspillíngu, er þá, eins og optast, átti sèr stað við hirðina í Parísarborg. Þegar hertoginn var seztur að völdum, fór sú siðaspillíng vaxandi, enda bætti *Dubois*, ráðgjafi hans, ekki um í þeirri grein. Við hirðina var nú mest um það hugsað, að komast yfir auðæfi til þess að geta eytt þeim aptur í svalli og saurlifnaði; frá hirðinni breiddist sá ósómi út meðal höfðingjanna og þaðan víðs vegar út um landið. Til þess að rètta við aptur fjárhag ríkisins, sem kominn var á fallanda fót, þá er Loðvík fjórtándi skildi við, lagði hertoginn lag sitt við skozkan mann *Jóhn Law* að nafni. Sá maður þóttist geta rètt við fjárhaginn og stofnaði «seðlabánka» einn mikinn, og í samband við þá stofnun var sett fèlag eitt, er fekk einkaleyfi til allrar verzlunar við nýlendur Frakka, og eignarrètt yfir öllu hinu mikla og frjóva landi (Louisiana) við Missisippífljóts-ósa í Norður-Ameríku. Bráðum kom líf og fjör í verzlun og atvinnuvegi; vonir manna um fljótan og auðfenginn gróða keyrðu fram úr hófi, hlutabrèf bánkans hækkuðu í verði svo undrum gegndi, og menn keptust hver við annan að láta af hendi gull og silfur fyrir seðla bánkans, en bánkinn var skyldur til að leysa seðlana til sín aptur móti fullu andvirði þeirra í gulli og silfri, hvenær sem þess var beðizt. Þegar frá leið, reyndist ábatinn minni en menn

1) Nýja Sagan I. hefti, bls. 184.

höfðu gjört sèr í lund, og þá var traustið á fyrirtækjum þessum eins fljótt að fara, eins og það hafði verið að koma. Menn flýktust að bánkanum til þess að fá þaðan aftur fè sitt, en bánkinn gat nú eigi staðið í skilum; alt fór svo á höfuðið, og fjöldi manna misti eigur sínar. John Law varð að flýja af landi burt og dó nokkru síðar í örbirgð suður í Venedig. Filippus hertogi andaðist fertugur að aldri 1723.

Þegar Loðvík 15. var kominn til lögaldurs (1726), varð kennari hans, *Fleury* kardináli, æðsti ráðgjafi og hèlt því embætti þángað til hann dó (1743) því nær níræður. Fleury var hinn þarfasti maður og færði aftur margt í lag innanlands með sparsemi sinni og friðsemi. En er hans misti við, varð stjórnin á Frakklandi verri en frá verði sagt. Konúngurinn hafði engan vilja eða viðleitni til alvarlegra starfa, en allur hans hugur hneigðist að svalli og saurlifnaði og það svo freklega, að vart mun í annan tíma meiri ósiðsemi hafa átt sèr stað í París heldur en á því tímabili, er þar fór næst á eftir og alt til dauða konúngs 1774. Á þeim árum mátti eigi heita konúngsstjórn, heldur frillustjórn á Frakklandi. Af þeirri óstjórn leiddi bæði það, að ríkisskuldirnar uxu fram úr hófi, en óþolandi kvaðir og álögur lagðar á bændur og borgara (aðallinn og klerkarnir voru að mestu lausir við alla skatta), og líka hitt, að Frakkar urðu undir í öllum vopnaviðskiftum við aðrar þjóðir, eins og fyr er ritað, og mistu flestar af nýlendum sínum. En hins vegar fekk ríkið nokkra viðbót á tímabili því, er hèr ræðir um, þar sem *Lothringen* lagðist undir það (1766), þá er Stanislás Lescinsky, tengðafaðir konúngsins, andaðist, og í annan stað Korsika-ey, er Frakkar keyptu af Genúamönnum, og unnu hana (1769) eftir lángvinna mótstöðu eyjarbúa, er með engu móti vildu gánga undir Frakka, og höfðu ágætan foríngja yfir sèr, er hèt *Pascal Paoli*.

---

Konúngsvaldið hafði smátt og smátt rutt sèr svo til rúms, að þegar komið er fram á 18. öldina var það orðið svo mikið og magnað, að það yfirskygði öll önnur lífsöfl þjóðanna í mestum hluta Norðurálfunnar. Aðalsmenn og klerkar höfðu að vísu enn, þegar hèr var komið sögunni, talsverð völd og talsverða þýðíngu, en hvorirtveggja urðu þó að beygja sig undir konúngsvaldið, þegar það beitti sèr nokkuð til muna. Báðar þessar

stéttir höfðu enn ýmsar undanþágur frá sköttum og skyldum, og í því var þeirra frelsi gagnvart krúnunni mestmegnis innifalið. En sá flokkur þegnanna, sem konúngsvaldið lagðist þýngst á, var öll alþýða manna (bændur og borgarar). Og það var eigi þar með búið, að konúngsvaldið þrengdi kostum alþýðunnar, heldur bættist þar á ofan meiri og minni yfirgángur og rángsleitni, er hún varð að sæta af hinum æðri stéttum, aðlinum og klerkunum. Óvíða átti alþýðan eins illum kjörum að fagna eins og á Frakklandi. Loðvík 14. hafði orðið henni ærið nærgöngull í kröfum sínum, er að miklu leyti leiddi af hans sífelda ófriði; en menn þoldu honum það allvel framan af, því að hann var mikilmenni í aðra rönd, og hélt í ýmsum greinum mannorði þjóðarinnar vel á lofti. Framan af ríkisárum Loðvíks 15. fór alt nokkurn veginn vel; þjóðinni var vel til hans, og lèt það í ljósi optar en einu sinni. En eptir því sem á leið og menn sáu betur og betur, að hann skeytti alls eigi um skyldur sínar, en sökti sèr æ dýpra og dýpra ofan í hið viðbjóðslegasta munaðarlífi, og var þó harðstjóri, þegar því var að skifta, þá fóru menn að finna, hvað að sèr krepti, þá kom óánægjan og jafnvel hatrið, og þá fór þjóðin bæði leynt og ljóst, að æskja breytingar á kjörum sínum. Þessi óblíðu kjör hinnar frakknesku þjóðar höfðu, ef til vill, átt sèr lángan aldur, ef eigi hefði annað komið til, sem flýtti viðburðum sögunnar og gaf aldarhættinum nýja stefnu, en það voru vísindamenn átjándu aldarinnar, þeirra rit og þeirra kenníngar.

Framsýnir menn höfðu lengi sèð og sagt fyrir, að villa og vanbrúkun einveldisins hlyti fyr eða síðar að leiða til þess, að hagur þjóðanna mundi stórum breytast. Jafnvel Loðvík 15., svo tilfinníngarlaus sem hann var, sagði einhverju sinni: «Það lafir alt saman, meðan eg er uppi, en eptirmaður minn fær að reyna, hvernig hann kemst fram úr því». Vísindamennirnir voru þá farnir að opna augun á mönnum; nýjar hugmyndir, nýjar kenníngar komu þá í ljós, gagnstæðar þeim, sem mönnum höfðu verið innrættar, og flestir höfðu sætt sig við af gömlum vana, þó sumir fyndu á þeim einhverjar missmíðar. Hvaðan komu þessar nýju hugmyndir? Hvaðan kom þessi birta, sem nú fór að skína yfir hugi manna á Frakklandi? Hún var upphaflega komin með siðabótinni á Þýzkalandi. Siðabótin veitti þeim þjóðum, sem

hún náði til, andlegt frelsi. Þegar frelsið var fengið, var andinn eigi við eina fjöl feldur, hann gat farið í ótal stefnur, gjört alt að umtalsefni, því andlegt frelsi er undirstaða hins vísindalega lífs. Siðabótin barst einnig til Englands. Þar risu síðan upp margir og margvíslegir vísindamenn. Sumir sneru sèr að náttúrufræðinni, og ruddu mannkyninu nýjar brautir, eins og t. a. m. *Newton* (f. 1642, d. 1727), hinn mikli spekíngur, sem fann þýngdarlögmálið; aðrir fundu þarflega hluti, er breytti atvinnu manna, eins og *James Watt* (f. 1736, d. 1819), er mest vann að fullkomnun gufuvèlarinnar, eða fræddu menn um undirrót þjóðmegunarinnar, eins og *Adam Smith* (f. 1723, d. 1790), hinn skozki snillíngur, er sagði og sýndi, að auður þjóðanna væri eigi undir því kominn, að eiga peníngna eða dýra málma, heldur væri erfiðið, vinnan, þ. e. akuryrkja, iðnaður, verzlun hinn sanni auður, og, að frelsið væri betra og öflugra meðal til að efla þessa atvinnuvegi, heldur en einokunarrèttindi veitt eftir geðþótta stjórnendanna. Þá má enn telja spekínginn *Locke* (f. 1632, d. 1704) og stjórnfræðínginn *Bolingbroke* (f. 1672,d. 1751); hans nafnkunna rit «*Letters on the study of history*» (brèf um iðkun sögunnar), hafði mikil áhrif á hina nafnfrægustu ensku sagnaritara á 18. öldinni, *Gibbon* (f. 1737, d. 1794), er ritaði sögu um afturför og hrun Rómaveldis, og *Hume* (f. 1711, d. 1776), er ritaði Englands sögu.

Frakkar kyntust bráðum ritgjörðum Englendínga, því að skamt er í milli landanna, og höfðu þær hin mestu áhrif á frakkneska rithöfunda. Á Frakklandi var og, eins og áður er sagt, alt komið í það óefni, að þar höfðu vísindamennirnir hinar gildustu ástæður til að skerast í leikinn og láta nokkuð til sín taka. Þeir gjörðu þar að umtalsefni: harðýðgi og siðleysi stjórnarinnar, hroka aðalsins, ofsóknir klerkanna, hnignun rèttvísinnar, hörku laganna o. s. fr.; en sumir þessara manna fóru einnig miklu lengra en hófi gegndi, og rituðu gegn öllu, sem heilagt og heiðarlegt hefir verið haldið meðal kristinna manna; þeir hæddu og skopuðust að kristinni trú og dygð og öllu því, sem dýrmætast er meðal siðaðra manna; Þeir vildu kollvarpa öllu, sem átt hafði sèr stað þángað til, og setja annað nýtt í staðinn. Einn hinn merkilegasti og djúpvitrasti af mönnum þessum var *Montesquieu* (f. 1689, d. 1755). Eftir að hann

hafði kynt sér stjórnarskipun Englendínga, samdi hann eitt hið merkilegasta rit sitt, er heitir: *L'esprit des lois* (andi laganna); kemst hann þar að þeirri niðurstöðu, að *lýðveldið* (Republiken) sè hið fullkomnasta stjórnarfyrirkomulag. Þeir *Diderot* (f. 1713, d. 1784) og *d'Alembert* (f. 1717, d. 1783) og fleiri, sömdu eins konar almenna orðabók (Encyclopædi) eða ritsafn, sem hefir inni að halda ágrip af hverri vísindagrein, sem þá var kunn. Þeir menn, eða sá spekíngaflokkur, sem gaf út þetta ritsafn, eru nefndir *Encyclopædistar* (þjóðfræðíngar); þeir vildu gjöra alþýðunni allar vísindagreinir kunnar. Sumir af rithöfundum þessum neituðu því að guð væri til, að sálin væri ódauðleg o. s. fr. Og til marks um það, að þeir hafi sumir eigi verið svo mjúkir í máli um það, er þeim þótti aðfinníngarvert, má til greina orð Diderots, er hann segir: «hengið hinn síðasta konúng í görnum hins síðasta klerks!». Einna almennast og áhrifamest urðu rit þeirra *Rousseaus* (f. 1712, d. 1778) og *Voltaires* (f. 1694, d. 1778). Rousseau var aldrei settur til menta, og hann hataði alla mentun Norðurálfunnar, eins og hún var þá, og sagði, að af henni væri sprottin öll neyð og óhamíngja þjóðfèlagsins, og öll hin mikla niðurlægíng og kúgun alþýðunnar. Hann ritaði ýmislegt og þar á meðal um uppeldi manna, og vildi breyta því öllu á annan veg; en einkum má telja sem merkilegt rit hans, er heitir *Contrat social*. Þar segir hann, að þjóðveldið eða lýðveldið, bygt á almennu frelsi og jöfnum mannrèttindum, sè hið fullkomnasta og bezta stjórnarform. Voltaire þykir taka fram öllum frakkneskum rithöfundum á því tímabili. Rit hans eru mörg og margbreytt, því að hann var heimspekíngur, sagnaritari og skáld, og þykir rithàttur hans og orðsnild hið mesta afbragð. Á ýngri árum sínum var hann stundum í París, stundum á Englandi; síðan var hann við hirð Friðriks annars Prússakonúngs, en þeir gátu eigi saman verið til lengdar; það var því líkast, sem þeir væru hirtíngarvöndur hvor annars; þó ritaði hvor öðrum eftir það þeir skildu, og er þeirra viðureign allmerkileg. Hin síðustu ár æfi sinnar var Voltaire á búgarði sínum Ferney, skamt frá Genf, öllum óháður, enda var hann orðinn stórríkur maður af ritum sínum.

Rit manna þeirra, er nú voru nefndir, voru lesin af miklu ákefð og áhuga því nær um alla Norðurálfuna. Þau áttu mik-

inn þátt í því, að útrýma hjátrú og hleypidómum, að sýna mönnum fram á, að margt var veilt og vitlítið í því, sem við hafði gengizt, að vekja meðvitund manna um eðlileg réttindi þeirra, en þau miðuðu líka til hins, að niðurbrjóta kristna trú og virðíngu fyrir mörgum góðum og guðlegum efnum, innræta mönnum sjálfselsku og eigingirni. Ávextir hinnar nýju kenníngar komu einna fyrst í ljós hjá ýmsum stjórnendum og ráðgjöfum þeirra, enda áttu margir þeirra brèfaviðskifti við hina frakknesku rithöfunda, eða höfðu ýms mök við þá á annan hátt. Sumir af þessum stjórnendum, er sáu hve mikils vert það var, að verða vinsæll af þegnum sínum, breyttu því ýmsu í stjórn sinni samkvæmt hinum nýju kenníngum, en þeim fórst það misjafnlega úr hendi, af því þeir voru rótgrónir í einveldinu, og gjörðu margt af handahófi. Umburðarlyndi í trúarbragðaefnum fór nú að verða almennara. Kristmúnkar (Jesúítar) voru reknir burt af sumum löndum, að pynda menn til sagna lagðist niður, rýmkun komst sums staðar á prentfrelsið. En margar af þessum tilraunum til endurbóta urðu þó eigi að þeim notum, sem vænta mátti, af því þær voru teknar úr lausu lofti, en eigi settar eður sniðnar eftir þörfum daglegs lífs eins og það hafði myndazt og var nú orðið á sig komið framan úr öldum.

## Portúgal og Spánn.

Frá því hefir áður verið sagt[1], hvernig Portúgalsmenn komust undir Spánverja og voru þeim háðir um 60 ár (1580—1640). Á því tímabili mistu þeir flestar nýlendur, nema Brasilíu í Vesturheimi og Díu, og Góa á Indlandi. Árið 1640 varð uppreisn á Portúgal, og þá hófst *Braganza*-ættin þar til ríkis, er átti kyn sitt að rekja til hinna fornu konúnga af Búrgund[2], og urðu Spánverjar fullkomlega að viðurkenna þá konúngstign árið 1668, er friðurinn var saminn í Lissabon.

Konúngarnir á Portúgal, *Jóhann fjórði* (1640—1656), og synir hans *Alfons sjötti* (1656—1668) og *Pètur annar* (1668—1706), svo og *Jóhann fimti* (1706—1750) sonur Pèturs, voru hver öðrum ómerkilegri. Einveldið grúfði yfir landinu eins og svartnætti; þjóðþíngið (Cortes) lagðist niður; konúngarnir voru

1) Nýja sagan, I. hefti bls. 54—55.
2) Miðaldasagan, bls. 196.

háðir skriftafeðrum sínum, kristmúnkunum; klerkar og aðals menn nutu ýmsra réttinda umfram aðra landsmenn; klerkavaldið bar þar alla hina-sömu ávexti sem í öðrum löndum; vanþekkíng, leti og fátækt var almenn hjá þjóðinni, og allir atvinnuvegir ógreiðir og naumast teljandi. Portúgalsmenn tóku þátt í hinu spánska erfðastríði, sem bandamenn Englendínga. En af því sambandi stóð Portúgal enginn hagur. Landið var eins og skjólstæðíngur Englendínga, og þessir voldugu sækonúngar náðu allri Portúgals verzlun undir sig, fengu einnig mestallar vínekrur þeirra á leigu, og eyðilögðu gjörsamlega allan iðnað landsmanna, með því, að flytja þeim og fylla landið af enskum varníngi. Allur sá arður, sem Portúgalsmönnum barst frá nýlendum sínum, nam varla staðar þar í landi, en lenti hjá Englendíngum.

Á dögum *Jósefs Emanúels* (1750—1777) lifnaði að nokkru leyti yfir landinu, fyrir þá sök, að hann, er sjálfur var enginn atkvæðamaður, lèt *Pombal* ráðgjafa sinn (f. 1699, d. 1782) hafa alla ríkisstjórnina á hendi. Pombal var stórvirkur maður og starfsamur og lagði á það allan hug, að hefja Portúgal upp úr þeirri niðurlægíngu, sem það var komið í. Hann þóttist sannfærður um, að kristmúnkar væru undirrót margs þess, er verst var þar í landi, og þess vegna gjörði hann sèr alt far um að hafa þá flata. Hann komst að því, að þeir höfðu stofnað ríki eitt vestur í *Paraguay* í Suðurameríku, og á laun við stjórnina í Portúgal, og menn fengu eigi að vita, hvað þeir höfðust þar að; hann vissi og, að fèlag þetta stóð í nánu sambandi við nokkra tigna menn í Portúgal, er berir þóttu orðnir að samsæri gegn konúngi. Þetta færði Pombal sèr í nyt, og lèt taka höndum alla kristmúnka, þá er í Portúgal fundust, og flytja sjóveg til Ítalíu; var það hin mesta landhreinsun (1759). Hann lèt grípa marga klerka og aðalsmenn þá, er mest stóðu í móti þeim endurbótum, er hann vildi koma á fót, og setja í dýflissur; því að harður var hann í meira lagi og ráðríkur. Alla atvinnuvegi reyndi hann til að bæta, og hann kom góðri skipun á hermálefni landsins með tilstyrk greifans af Lippe, sem fyr er nefndur. Og í fám orðum að segja, kom dugur og starfsemi þessa merkilega manns fram í öllum greinum landsstjórnarinnar. En jafnskjótt sem konúngurinn, Jósef Emanúel var dáinn, þá var Pombal vikið úr völdum, öllum hans endurbótum var kollvarpað, og alt sótti aftur í sama

horf, sem verið hafði í Portúgal fyrir hans daga. *María* dóttir Jósefs Emanúels, sem kom til ríkis eftir föður sinn (1777—1816), varð að lyktum geðveik, svo að *Jóhann* sonur hennar hafði ríkisstjórnina á hendi frá 1792.

Á dögum Jósefs Emanúels varð hinn mikli jarðskjálfti (1. nóv. 1755) á Portúgal, er lagði meira hluta Lissabonar í eyði og svifti lífi 30000 manna. Þá gekk Pombal svo vel fram, að undrum gegndi, bæði í því, að hjálpa þeim, er af komust og hjálpar þurftu, halda stjórn á skrílnum, er fór með ránum og stuldum, og hamla mönnum frá því, að fara af landi burt; og var það enginn hægðarleikur, því að við margt var að stríða, og þar á meðal hjátrú lýðsins, og óstjórn þá, er þessi voðaviðburður kveikti í mönnum.

Filippus fimti Spánar konúngur dó 1746, og kom þá til ríkis eftir hann sonur hans *Ferdínand* sjötti (1746—1759). Hann var eftir fyrri konu Filippusar, hafði erft þúnglyndi föður síns og varð með öllu geðveikur og gekk í klaustur. Sönglist var það eina, sem hann hafði nokkra skemtun af, og þess vegna komst hinn ítalski söngmaður Farínelli þar til mikillar upphefðar. Þegar Ferdínand konúngur dó (1759), varð hálfbróðir hans, Don Carlos, sem fyr er nefndur (sonur Elísabetar af Parma), konúngur á Spáni og nefndur *Karl þriðji* (1759—1788). Hann hafði verið konúngur í Neapel frá 1736, en þegar hann fluttist vestur á Spán, varð Ferdínand sonur hans, hinn fjórði með því nafni († 1815), konúngur í Neapel. Meðan Karl rèð fyrir Neapel, færði hann þar ýmsa hluti í lag, samkvæmt kröfum tímanna. Alt hið sama gjörði hann, eftir að hann varð konúngur á Spáni, mest og bezt fyrir tilstyrk *Aranda* ráðgjafa síns. En flestar af endurbótum þeim, sem konúngur og ráðgjafinn vildu koma á fót, mættu mikilli mótspyrnu einkum hjá klerkunum, t. a. m. sú tilraun, að fá menn norðan af þýzkalandi og Sveiz til að setjast að á Sjerra Morena (svörtu fjöll) og yrkja þar landið og rækta. Margir af þessum aðkomnu mönnum fylgdu prótestanta trú, og var þeim heitið fullkomnu trúarfrelsi, og var það efnt, meðan Aranda hèlt völdum; en á hinum síðustu ríkisárum Karls þriðja fengu klerkarnir meiri ráð hjá konúngi en áður. Aranda varð að fara af landi burt, og þá voru þessir menn ofsóttir eins og trúvillíngar. Aranda komst reyndar seinna til valda, svo að

hann varð ráðgjafaforseti, en þar kom um síðir, að hann varð að rýma fyrir *Godoy* (er síðar mun getið) og dó í Arragoníu 1799.

Karl þriðji andaðist 1788 og kom þá sonur hans, *Karl fjórði* til ríkis (1788—1808).

Þess hefir áður verið getið, að árið 1761 gjörði Frakkland, Spánn, Neapel og Parma samband sín í milli (bourbonska sambandið), af því að sama ættin réð fyrir þeim fjórum ríkjum. Fylgdi það því, að Spánverjar urðu að taka þátt í ófriði þeim, er til lykta leiddist á Parísarfriðnum 1763; enn fremur leiddi það af konúngasambandi þessu, að Kristmúnkar voru reknir burt af öllum þessum fjórum ríkjum, og að múnkafélag þetta var síðan af numið. Því þegar menn höfðu komizt að því á Frakklandi, að múnkar þessir voru flæktir við ýms miður heiðarleg verzlunarfyrirtæki, þá greip *Choiseul* ráðgjafi tækifærið til þess að fylgja dæmi Pombals, og gjörði alla kristmúnka útlæga af Frakklandi (1764). Þegar nú Spánn, Neapel og Parma gjörðu slíkt hið sama, þá neyddist *Clemens* páfi *fjórtándi* til þess, árið 1773, að aftaka Kristmúnkafélagið með öllu. Er það allmerkilegt, að margir af félagsbræðrum þessum fengu síðan hæli á Rússlandi og Prússlandi og settust þar að.

## Rússland eftir daga Pèturs mikla. Katrín önnur. Póllandi er skift.

Þess hefir áður verið getið[1], þar sem sagt var frá viðureign þeirra Karls tólfta og Pèturs Czars, að síðasta árið sem Karl lifði var Görtz ráðgjafi hans því nær búinn að koma sættum á milli Rússa og Svía. En þessar tilraunir ráðgjafans féllu allar um koll og urðu að engu, þegar Karl konúngur féll 1718, enda var Görtz tekinn af lífi litlu síðar. Pètur Czar hèlt því ófriðnum áfram, og herjaði á Svíþjóð og lèt vinna þar mörg grimdarverk, þángað til Svíar voru svo að þrotum komnir, að þeir urðu að gánga að öllum þeim kostum, sem Pètur Czar setti þeim, og sömdu þeir þá frið í *Nýstað* (1721). Fengu Rússar þá Ingermanland, Esthland, Líflandi, og Viborg á Finnlandi, og hafa haldið því síðan. Nú var ófriðnum lokið, Svíþjóð orðin stórlega undir, en Rússland orðið eitt af stórveldum Norður-

1) Nýja sagan, II. hefti, bls. 194.

álfunnar. Pétur lagði niður Czars-titilinn og lèt gefa sèr *keisaranafn*, og hafa eftirkomendur hans jafnan verið nefndir því nafni síðan. Á ófriðarárunum var Pétur búinn að koma sèr upp miklum og velæfðum landher og álitlegum herskipaflota. Enginn gat orðið foríngi í liði hans, hvorki á sjó nè landi, nema hann hefði byrjað fyrst á því, sem lægst var. Enginn gat orðið hershöfðíngi, nema hann hefði byrjað á því, að vera valdalaus liðsmaður í hernum. Enginn gat orðið «admíráll», nema hann hefði fyrst verið háseti og stigið svo upp koll af kolli. Það stóð á sama, hvort aðalsmaður átti í hlut, eða aðrir ótignir menn. Pètur hafði sjálfur byrjað neðst og þokazt svo smátt og smátt upp til hinna æztu hervalda. Hann hagaði fyrirkomulagi á öllum greinum stjórnarinnar eftir frakkneskri fyrirmynd; hann bældi undir sig bæði aðalinn og klerkastèttina — alt varð að láta keisaranum einum. Kirkjustjórninni breytti hann á þann hátt, að í stað «patríarkans», sem áður hafði yfirstjórn allra kirkjulegra mála í landinu, kvaddi keisarinn nokkra biskupa í nefnd, sem nefndist *hin helga synodus* og stýra átti öllum þess konar málefnum undir yfirráðum keisarans, og hefir svo verið síðan. Aðaltrúin á Rússlandi er hin *grísk*-katólska, og keisarinn yfirbiskup, að sínu leyti eins og páfinn hefir verið yfirbiskup hinna *rómversk*-katólsku þjóða. Alla atvinnuvegi leitaðist keisarinn við að bæta; hann lèt gjöra hafnir við sjóinn, þar sem því varð við komið, grafa skurði um landið til vöruflutnínga, og hefir þeim síðan verið haldið áfram, svo að nú má fara vatnsveg um Rússland úr Eystrasalti suður í Svartahaf og Kaspiska haf og norður í Hvíta haf. Ýmsum vísindastofnunum var komið á fót, einkum til þess, að klerkar gætu lært, en alt um það breiddust vísindi og mentir mjög svo lítið út meðal alþýðu á Rússlandi, fyrir þá sök að henni var haldið í þúngri ánauð af hinum heldri og ríkari mönnum. Við hirðina vildi Pètur keisari láta fylgja frakkneskum siðum, og gekk það þó allmisjafnlega, einkum vegna þess, að hann var sjálfur hinn mesti drykkjumaður, og illur við öl, og var þá alt annað en kurteis og siðprúður. Það var fátt hjá þjóðinni, sem breytíngar Pèturs keisara náðu eigi til, og þessar breytíngar gjörði hann með lítilli vægð, og hvort mönnum líkaði betur eða ver; annað var það, að hann hafði marga útlenda menn um sig og flest út-

lent í miklum metum. Af þessu hvorutveggja leiddi, að margir hneigðust að Alexíusi syni keisarans, en urðu Pètri fráhverfir; enda hafði Alexíus gefið mönnum í skyn, að hann mundi kollvarpa því flestu, er faðir hans hafði gjört, þá er hann kæmi til ríkis. Þetta frètti keisarinn, og fèll honum það stórilla sem nærri má geta. Hvernig sem hann talaði um fyrir syni sínum, og reyndi til að laða hann að sèr, skipaðist hinn úngi maður ekki við það og fór sínu fram, og þar kom, að Pètur lèt setja hann í varðhald; því næst var hann dæmdur til dauða, og dó litlu síðar í dýflissunni; segja sumir, að Pètur lèti taka hann af lífi. Pètur kvað síðan á, að keisarinn skyldi jafnan ráða því, hver eftirmaður hans yrði. Árið 1725 dó Pètur keisari (hinn 1. eða hinn mikli) og hafði engan kosið til ríkisstjórnar eptir sinn dag. Mensikov, sem áður er nefndur, rèð því, að Katrín drotníng fekk ríkisstjórnina í hendur, og er hún nefnd *Katrín fyrsta* (1725—1727), en sjálfur rèð Mensikov reyndar öllu. Eftir fyrirmælum Katrínar drotníngar kom *Pètur annar* til ríkis eftir hennar dag (1727—1730). Hann var sonur Alexíusar þess, er í fángelsinu dó, Pèturssonar hins fyrsta, og að eins 13 vetra gamall, er hann fekk keisaranafnið. Það var áform Mensikovs, að gifta hinum únga keisara dóttur sína, og stýra svo ríkinu í nafni tengdasonar síns. En sá ráðahagur fórst fyrir, því að Mensikov var sviftur völdum og rekinn í útlegð austur á Síberíu af manni þeim, er Ivan Dolgorúki hèt. Ivan var af gamalli og nafnkendri höfðíngjaætt þar í landi, og komst nú, þegar Mensikov var úr sögunni, til hinna æztu valda. Keisarinn ætlaði að eiga Katrínu systur Ivans Dolgorúkis, en af því gat eigi heldur orðið, því að einmitt þann dag, er brúðkaupið skyldi standa, dó keisarinn úr bólusótt (1730). Var þá *Anna Ivanovna* bróðurdóttir Pèturs mikla, kjörin til ríkisstjórnar, en varð að gánga að þeim kostum (skuldbindíngarskrá), er ríkisráðið setti henni, fyrir þá sök, að hún stóð fjær ríkiserfðum, en Katrín systir hennar, sem var eldri, og þær frændkonur hennar, Anna og Elísabet dætur Pèturs mikla[1]. Ríkisráðið hafði ætlað sèr, þá er það kaus Önnu, að stýra ríkinu, þó hún bæri drotníngarnafnið, en Rússar gátu eigi felt sig við annað en einveldisstjórn, og fyrir því veitti Önnu drotníngu hægt, að ónýta þá skuldbindíngarskrá,

1) Sjá ættartöluna í II. hefti bls. 133.

er hún hafði skrifað undir, og að ná einveldinu algjörlega sèr í hendur; varð þá Ivan Dolgorúki, og ættíngjar hans margir, að fara í útlegð, og nokkru síðar var hann tekinn af lífi. Anna drotníng gaf sig lítið við ríkisstjórn, en *Bíron* ráðgjafi hennar stýrði ríkinu eins og hann væri einvaldur, og var hinn grimmasti maður. Þegar Anna drotníng hafði styrkt Ágúst þriðja til ríkis á Póllandi (friður í Vínarborg 1735), kom hún því til leiðar, að Ágúst veitti Bíron hertogatign yfir Kúrlandi, og þó Kúrland hèti í orði kveðnu lèn undir Pólverjakonúng, varð það öllu fremur upp frá þeim tíma (1737) rússneskt skattland. Auk Bírons hafði Anna drotníng í þjónustu sinni tvo menn þýzka, er mikinn þátt áttu í framförum Rússlands á þeim tímum. Annar þeirra hèt *Ostermann*, en hinn *Münnich*. Ostermann var prestsson frá Vestfalen, iðkaði bókmentir á æskuárum í Jena á Saxlandi, en varð þar mannsbani og flýði til Hollands. Þaðan fór hann til Rússlands og gekk í þjónustu hjá Pètri mikla, og komst þar til hárra valda sökum vitsmuna og dugnaðar. Á dögum Önnu drotníngar varð hann kanselleri, þótti stjórnvitur maður, og rèð þá miklu. En er Elísabet drotníng kom til ríkis, var Ostermann sviftur völdum og dæmdur til dauða, fekk þó að halda lífi, en fluttur var hann til Síberíu og þar dó hann 1747. Münnich var ættaður frá Oldenborg, var með Eugen í erfða stríðinu spánska og lærði þá hernaðaríþróttina; eftir það fór hann til Rússlands, nokkrum árum áður en Pètur mikli dó, og staðnæmdist þar síðan. Anna drotníng setti hann yfir öll hermálefni ríkisins, og stýrði hann þeim vel og viturlega, hafði sjálfur yfirstjórn Rússahers (árin 1736—1739), meðan ófriðurinn stóð milli Rússa og Tyrkja, og varð frægur af þeirri herstjórn. En svo stóð á þeim ófriði, að Rússar mintust þess jafnan, að Tyrkir höfðu borið hærra hlut í viðskiftum þeirra (1711), þá er Pètur mikli komst í mestar kröggur við Prút-fljótið[1]. Þessa vildu Rússar hefna, hvenær sem færi byðist. Árið 1735 áttu Tyrkir ófrið við Persa, og því tækifæri sættu nú Rússar til þess að geta náð undir sig löndum suður við Svarta hafið. Það var gefið til sakar, að Tatarar suður á Krím gjörðu Kósökkum, þegnum Rússakeisara, ýmsan óskunda. *Mahmúð fyrsti*, Tyrkjasoldán (1730—1754), bauðst til að greiða Rússum skaðabætur, en

1) Nýja sagan, II. hefti, bls. 184.

þeim boðum var hafnað, því að Rússar vildu eigi friðinn. Var þá Münnich sendur með her manns móti Tyrkjum, og sýndi hann þá, hve mikla yfirburði Rússar höfðu yfir Tyrki í vopnaviðskiftum. En af því að Austurríkismönnum, er voru bandamenn Rússa, varð lítið ágengt, og gjörðu frið við Tyrki í Belgrað (1739), þá urðu Rússar að slaka til í kröfum sínum og láta sèr lynda að fá Asow. Anna drotníng dó barnlaus 1740, en hafði áður gjört þá fyrirskipan, að systurdóttursonur sinn *Ivan*, eigi misserisgamall, skyldi erfa ríki eptir sinn dag, en Bíron hertogi hafa forsjá með honum og ríkinu. En að nokkrum dögum liðnum, var Bíron rekinn frá völdum og sendur til Síberíu af *Önnu* móður hins únga keisara. Varð Münnich þá æzti ráðgjafi. Eigi fullu ári þar á eftir varð aftur stjórnarbylting. Maður sá er *Lestocq* hèt, og var læknir, *Elísabetar* dóttur Pèturs mikla, fekk svo talað um fyrir henni, að hún lèt nokkur hundruð hermanna umkríngja keisarahöllina og taka þá alla höndum, er að völdum sátu. Hinn úngi keisari Ivan (fjórði), þá á öðru ári, var settur í dýflissu á Schlüsselborg, og þar sat hann alla æfi, þángað til hann var ráðinn af dögum 24 árum síðar. Foreldrar hans, *Anton Úlrik* hertogi og *Anna Karlóvna*, voru sendir til Síberíu, og dóu bæði í útlegð. Ostermann og Münnich voru einnig teknir og sendir sömu leið; dó Ostermann þar eystra, eins og fyr er sagt, en Münnich var þar, meðan Elísabet drotníng lifði, og þángað til Pètur þriðji leysti hann úr útlegð 1762 og leyfði honum heimkomu; komst hann þá aftur til nokkurra valda og dó í Pètursborg 1767. Elísabet leyfði Bíron hertoga að koma aftur frá Síberíu og setjast að í Jaroslav við Volga-fljót. En á dögum Katrínar drotníngar fekk hann Kúrland aftur til forráða (1763) og stýrði því síðan til dauðadags (1772), og þótti vel stýra. Elísabet drotníng rèð ríkjum frá 1741—1762, og hafði jafnan ilt orð á sèr fyrir sællífi og saurlífnað. Hún gaf sig lítið við stjórnarstörfum, en *Bestuschev*, kanselleri hennar, hafði allan veg og vanda af þeim hlutum.

Áður en Elísabet kom til ríkis, var ófriður byrjaður milli Svía og Rússa, og var það af völdum Frakka, að Svíar höfðu vakið ófriðinn. Svíum gekk þá svo illa, að Rússar lögðu alt Finnland undir sig, en á friðnum í Åbo (1743) sluppu Svíar þó svo vel, að þeir lètu að eins laust af Finnlandi landið fyrir aust-

an Kymenefljótið, en kjósa varð ríkisdagur þeirra *Aðolf Friðrik* af Holstein-Gottorp til konúngs í Svíþjóð eftir Friðrik fyrsta, því að þau Friðrik og Ulrika Eleonóra drotníng hans (systir Karls 12.) voru barnlaus, en Rússar voru hræddir um, að Dana konúngur, eða sonur hans, mundi verða kosinn til konúngs yfir Svíum og þau þrjú norðurríkin (Svíþjóð, Norvegur og Danmörk) sameinast. Á síðustu árum sínum tók Elísabet þátt í sjö ára stríðinu móti Friðriki öðrum, eins og fyr er ritað, og var einhver hans versti fjandmaður. Dauði hennar varð honum til lífs, eins og kunnugt er.

Elísabet kaus til ríkis eftir sinn dag, Pètur systurson sinn hertoga af Holstein-Gottorp. Hann er nefndur *Pètur þriðji*. Foreldrar hans voru Karl Friðrik af Holstein-Gottorp og Anna dóttir Pèturs mikla; móðir Karls Friðriks var Hedevig Sofía, systir Karls tólfta Svíakonúngs. Pètur þriðji hafði átt kost á að verða konúngur í Svíþjóð, en honum þótti meiri fremd í að verða keisari á Rússlandi, þegar þar að kæmi, og þess vegna komst frændi hans Aðolf Friðrik að (1743) og varð síðan konúngur í Svíþjóð. Drotníng Pèturs þriðja hèt Katrín, prinzessa af Anhalt Zerbst, og urðu samfarir þeirra eigi góðar. Pètur var eigi vaxinn því að stjórna Rússlandi; hann var grunnhygginn og fljótfær, og vildi bylta öllu og breyta í ríki sínu, og herma, í flestu því er þó var minst í varið, eptir Friðriki öðrum Prússa konúngi. Varð keisarinn af þessu mjög óvinsæll, og þegar hann hafði ráðið ríkjum nokkra mánuði, lèt drotníng hans taka hann höndum og setja í varðhald, og þar var hann af lífi tekinn nokkrum dögum síðar (17. júlí 1762).

Þannig komst ríkisstjórnin í hendur drotníngar, er hún síðan nefnd *Katrín önnur* og stýrði Rússlandi 34 ár (1762—1796).

Katrín drotníng hèlt ríkisstjórninni í þeirri stefnu, sem Pètur mikli hafði á undan farið, og bent sínum eftirkomendum á, að halda skyldi. Og má það með sanni segja, að fáir af stjórnendum Rússlands, og ef til vill enginn nema Pètur einn, hafa meira að gjört en Katrín til þess að efla framfarir þess, svo var hún stórvirk og starfsöm, meðan hún sat að völdum. Að því leyti á hún gott orð skilið af sögunni. En að öðru leyti er hún eigi lofsverð, bæði vegna þess, að siðferði hennar var mjög

vítavert, og vegna þess, að hún beitti rángindum og það freklega við nágranna þjóðir sínar, einkum hinar óstyrkari, eins og t.a.m. Pólverja. Rússland var á þeim tímum mjög strjálbygt, en víðlendið afarmikið. Til þess að auka bygðina, bauð drotníng þángað fjölda manna af öðrum löndum, og styrkti þá á allar lundir, til þess að ná þar bólfestu. Hún lèt reisa af nýju marga bæi stærri og smærri, víðs vegar um ríkið, þar sem bezt þótti í sveit komið. Segja menn, að bæir þeir sèu yfir 200 að tölu, og margir þeirra nú orðnir stórar og mannmargar borgir. Hún kom fótum undir ýmsar stofnanir t. a. m. sjúkrahús, fátækrahús, munaðarleysíngjahús, og á læknaskipunina kom hún góðu lagi; atvinnuvegi efldi hún á allar lundir; verzlun og siglíngum greiddi hún veg bæði með samníngum við aðrar þjóðir, og með því að bæta þjóðvegi og grafa skurði um landið. Vísindi og íþróttir studdi hún af mikilli rausn og göfuglyndi, en vitaskuld er það, að alþýða manna á Rússlandi hafði lítið gagn af þeim hlutum. Ánauð sú, sem bændalýðurinn lifði við, var útbreiðslu mentunarinnar til fyrirstöðu. Drotníng skifti ríki sínu í föst og skipuleg umdæmi stærri og smærri, og skipaði þar valdsmenn og dómendur yfir. Það var áform hennar að setja ein lög um alt ríkið, en þó að því verki væri starfað um bríð varð það eigi framgengt.

Þegar Jóhann Sobiesky var dáinn (1696), fór *Póllandi* að hnigna. Þá komu kjörfurstarnir af Saxlandi þar til ríkis, Ágúst annar (1697—1733), og Ágúst þriðji (1735—1763), eins og fyr er sagt. Hið pólska ríki var að vísu allstórt, því að það náði norðan frá Eystrasalti suður til Karpathafjalla, og vestan frá Brandenborg austur að Dnieprfljóti, en þar mátti öllu heldur heita höfðingjastjórn í landi en konúngsstjórn. Þeir hinir saxnesku konúngar, er nú voru nefndir, voru einhver hin versta sending, er til Póllands gat komið. Frá þeim og þeirra hirð breiddist hin mesta siðaspilling út um landið, og þá fyrst og fremst til aðalsins, en aðalsmenn rèðu mestu á þjóðþinginu (ríkisdeginum); hefir því lengi verið við brugðið, hve róstusamt var á þíngum Pólverja. Þar gat eitt einasta atkvæði *(liberum veto)*, ef því var beitt, ónýtt hvert málefni, hversu mikið nauðsynjamál sem það var. Landsmönnum var þar að auki heimilt að vopnast og gánga þannig í fèlög (slíkan fèlagskap nefndu menn *Confoederation*), og olli slíkt einatt miklum óspektum í landinu. Alt þetta sundurlyndi, allir

þessir flokkadrættir ollu því, að ekki kvað að Póllendingum, hvorki í hinum mikla Norðurlanda ófriði, nè í sjö ára stríðinu. Það sem mest og bezt hafði styrkt Pólland, var ófriður sá, er einatt átti sèr stað milli nágranna-þjóðanna; en er Húbertsborgarfriðurinn var saminn (1763), þá var úti um þann styrk. Enda gjörðu þau þá (1764) samníng sín í millum, Friðrik annar Prússakonúngur og Katrín Rússadrotníng, og hètu hvort öðru, «að vernda frelsi Póllands», það er að skilja, að þar skyldi kjörríki haldast, eins og verið hefði, og einn þingmaður með neikvæði sínu (*liberum veto*) geta ónýtt það, er allur þingheimur galt jákvæði við. Tilgángur þeirra konúngs og drotníngar var beinlínis sá, að ala sundurlyndi og samtakaleysi Pólverja, þángað til tími væri til kominn, að ráða á þá og ná undir sig af Póllandi því, sem náð yrði. Um þessar mundir áttu Pólverjar að kjósa sèr konúng. Katrín drotníng vildi, að sá maður yrði kosinn, er *Stanislás Poniatóvski* hèt; hann var fríður maður sínum, skrautmenni mikið, og aldavinur Katrínar, en með engu móti vaxinn þeim vanda, að stýra Pólverjum svo að í lagi færi. Lendir menn (aðallinn) á Póllandi voru því mótfallnir, að Stanislás yrði þar konúngur, en Katrínu var alvara og sendi 10,000 Rússa vestur til Varskáar (Warschau), og í annan stað sendi Friðrik konúngur jafnmargt lið austur þángað, og þannig voru Pólverjar neyddir til að kjósa Stanislás (í sept. 1764). Má svo að orði kveða, að frá þeim tíma byrji raunasaga Pólverja. Þegar Stanislás var þannig orðinn konúngur, varð að sönnu stundarfriður, en það kom bráðum í ljós, að konúngur rèð litlu, en Katrín miklu, eða jafnvel öllu á Póllandi, og hafði hún þar sendiherra sinn, er Repnin hèt, ráðríkan mann og harðan, til að framkvæma það, er hún vildi vera láta. Það sást bezt, hve mikið Rússar lètu til sín taka á Póllandi, þegar trúarbragðadeilurnar hófust þar, litlu síðar en hèr var komið. Svo stóð á, að framan úr öldum fylgdu Pólverjar almennt rómversk-katólskum sið. En þar var flokkur manna í landinu, er aðra trú hafði, bæði prótestantar og grískkatólskir menn, og voru þeir kallaðir *Dissidentar*. Þessir urðu fyrir ójöfnuði af hinum, er páfatrúnni fylgdu, og þess vegna sneru þeir sèr til Katrínar Rússadrotníngar, og beiddu hana styrkja sig til jafnrèttis við páfatrúarmenn. Drotníng tók þeim tilmælum feginsamliga, því að nú bauðst henni gott og nýtt færi til

að skerast í málefni Pólverja. Krafðist hún þess þegar af hinni pólsku stjórn, að »Dissidentum» yrði veitt alt það, er þeir um beiddu. Ríkisdagur Pólverja færðist undan, og Soltyk biskup í Kraká kom því til leiðar, bæði sökum páfalegs trúarofsa og sökum haturs við Rússa, að kröfum drotníngar var í flestum greinum neitað. En niðurstaðan á þessu varð sú, að Repnin lèt taka Soltyk biskup höndum, og nokkra aðra tigna menn, og flytja þá austur á Síberíu, en ríkisdeginum í Varská var þröngvað til að leyfa Dissidentum fult trúarfrelsi og jafnrètti við aðra landsmenn á Póllandi. Nú undu margir af Pólverjum illa þessum málalokum og sveið það sárt, að vera nauðúngarmenn Rússa, gjörðu því fèlag með sèr (*Confoederation*), þar sem heitir í *Bar* (í Pódolíu), bæði til þess að losast undan yfirráðum Rússa, og til þess, að svifta Dissidenta þeim rèttindum, er þeir höfðu fengið. Nú laust upp ófriðnum. Rússar og Staníslás konúngur höfðu lið miklu meira; urðu bandamenn undir í þeim viðskiftum, og hrukku nokkrar hersveitir þeirra suður á Tyrkland. Rússar eltu þá þángað, og gjörðu þar ýms grimdarverk. Reiddist þá Soldán (Mústapha 3. 1757—1774), sem vonlegt var, og sagði Rússum stríð á hendur (1768) meðfram eftir áeggjan Frakka. Stóð sá ófriður á sjötta ár (1768—1774) og var hinn grimmasti. Rússar fóru herskildi yfir landið alt suður að Dóná, og um sama leyti lagði rússneskur herskipafloti út frá Krónstadt, og hèlt alla leið vestur fyrir Norðurálfu, inn í Miðjarðarhaf, og austur til Grikklands. Alexius Orlov, einn af gæðíngum Katrínar, var yfirforíngi flotans. Rússneskum hermönnum var hleypt á land á Grikklandi; gjörðu Grikkir, í von um liðveizlu Rússa, þegar uppreisn móti Tyrkjum, en höfðu hið mesta ógagn af, því að styrkur sá, er Orlov veitti þeim, var lángt um of lítill, og er minnst varði, flutti Orlov lið það, er hann hafði sett á land, aftur út á skipin, og hèlt austur á eyjar. Þar urðu herskip Tyrkja fyrir þeim við ey þá, er Scio (fyrrum Chios) heitir, og tókst þegar orusta; fengu Rússar þar sigur, og máttu þakka hann enskum foríngjum, er voru á skipum þeirra. Litlu síðar brendu þeir öll þau skip fyrir Tyrkjum, er flúið höfðu frá Scio inn á vík eina vestan á Litlu-Asíu, fram undan bæ þeim, er Tschesme hèt (1770). Ári síðar unnu Rússar allan Krím-skaga; þar bjuggu Tatarar, eða Tartarar, en höfðingi þeirra nefndur

Chan, og var hann skattskyldur undir Soldán í Miklagarði. Rússar ráku Chaninn úr völdum, og settu annan í stað hans, er játaðist undir yfirráð Rússa, en sagði skilið við Soldán.

Nú fór mönnum að þykja nóg um aðfarir Rússa. María Theresía hèlt, að þeir mundu ætla að setjast að fyrir fult og alt í Dónárlöndunum (Moldau og Wallachii), sem þeir höfðu unnið, og stóð henni stuggur af því nágrenni. Fyrir því gjörði hún leynilega samnínga við Soldán gegn Rússum, og nú var eigi annað fyrir að sjá, en að almennur ófriður kviknaði um alla Norðurálfu. Til þess að sporna við slíkum vandræðum, kom Friðrik annar fram með þá tillögu, að Katrín Rússadrotníng skyldi semja frið við Tyrkjasoldán og gjöra honum góða kosti, en ef hún þættist hafa skaða af þeirri friðargjörð, þá gæti hún unnið hann upp aftur á Póllandi; og til þess að jafnvægi ríkjanna haggaðist eigi við það, að Katrín fengi nokkuð af Póllandi, þá skyldi bæði Austurríki og Prússaríki fá sinn hlut af bráðinni. Á þessa tillögu fèllust þær Katrín önnur og María Theresía, og meðan verið var að semja um sundurskiftíng Póllands, sendi bæði Friðrik og María Theresía lið þángað austur, og lètu það setjast að í þeim sveitum, sem þeim lèk helst hugur á að eignast. Kvaðst María Theresía hafa sent sína menn til þess að vernda, gegn yfirvofandi hættu þeirra tíma, íbúana í nokkrum hèröðum á Póllandi, er væru gamlir skiftavinir Úngverja; en Friðrik kvaðst þurfa að setja vörð þar eystra, til þess að verja lönd sín fyrir drepsótt þeirri, er þá gekk á Póllandi. Rússar höfðu einnig lið þar í landi, og allur þessi útlendi hermannasægur hafðist þá svo margt og mikið ilt að meðal Pólverja, að sumir sagnaritendur segja, að því mundi naumast trúað, ef nákvæmlega væri frá skýrt. Það er vitaskuld, að Pólverjar höfðu illa í garðinn búið fyrir sig, þar sem þeir gátu sjaldan orðið á eitt sáttir í þeim aðalmálum, sem eru skilyrði fyrir viðreisn og lífi þjóðanna. Hin pólska þjóð hafði mikla ókosti, það verður eigi varið, en hún var hins vegar þeim kostum búin, að hún gat rètt sig við, ef hún hefði fengið næði til þess, fengið sjálf að jafna sín mál. En að því leyti var hún ver farin en margar aðrar þjóðir, að hún fèkk eigi tíma eður næði til þess fyrir ágirnd og ilsku sinna nágranna. Engir vildu hjálpa, eða þorðu að hjálpa, Pólverjum; þeir stóðu einir uppi móti þremur stórvörgum. Stanislás konúngur og rík-

isdagur Pólverja mæltu fastlega móti því, að ríkið yrði limað sundur, eins og hinir fóru fram á. En þeim mótmælum var svarað á þá leið, að ef Pólverjar lètu eigi góðviljuglega af hendi þá landshluta, sem um væri að ræða, þá yrði alt Pólland af þeim tekið og skift upp milli Rússa, Austurríkismanna og Prússa. Hèr var því ekki undanfæri. Pólverjar urðu að gánga að þeim kostum, sem þeim voru settir, og láta þriðjúng af ríkinu. Þessi *fyrsta sundurskifting* Póllands gjörðist á áliðnu sumri árið 1772.

Prússakonúngur fekk í sinn hluta Vestur-Prússland, eða, sem það hèt öðru nafni, Pólska-Prússland. Á þann hátt sameinaðist Austur-Prússland við Brandenborgar-löndin, og konúngur fekk öll yfirráð yfir Weichsel-fljótinu, sem var svo mikils vert, því að Póllands verzlun streymdi út og inn um fljótið; þó fèkk konúngur eigi borgirnar Danzig og Thorn, en allmiklar lendur eignaðist hann meðfram Nezefljóti. Það voru samtals 600 ferh. mílur lands, og um 600,000 manna, sem gengu undan Pólverjum undir Prússa í þetta sinn.

Rússadrotníng fekk mikinn part af Lithauen (Lithaugalandi), og þar að auki Minsk-, Vitepsk- og Miscislav-sveitir, með öðrum orðum: landið milli stóránna Düna, Dniepr og Drutsch. Alt til samans 2,000 ferh. mílur með 1,800,000 manna.

Austurríki eignaðist þó frjóvasta og fjölbygðasta partinn: konúngsríkin Lodomeríu og Gallizíu og mörg önnur smærri hèröð, þar á meðal hinar hafnkendu saltnámur í Bochnia og Wieliczka, samtals 1400 ferhyrndar mílur, með því nær 3 millíónum manna.

Að þessu búnu hètu öll þessi þrjú stórveldi Pólverjum því, að þau skyldu ábyrgjast þeim þau lönd, er þá voru eptir ótekin frá þeim, og kváðust alls engar kröfur hafa til þeirra upp frá því. Sagan sýnir hve vel þau heit voru síðan efnd.

Um þessar mundir varð upphlaup mikið austur á Rússlandi. Maður hèt *Púgatschew*, ættaður austan frá Donfljóti og einn af Kósökkum þeim, er þar eiga heima. Hann hafði verið í liði Rússa, bæði vestur á Prússlandi í sjö ára stríðinu, og suður á Tyrklandi, en síðan komst hann til Póllands, og var þar í klaustri. Einhverju sinni hittir hann þar herforingja einn að máli, og segir foringinn, að Púgatschew sè mjög líkur í sjón að sjá Pètri keisara hinum þriðja.

Púgatschew kom nú til hugar, að telja löndum sínum trú um, að hann væri Pètur keisari, og þóttist sannfærður um, að sèr yrði þá tekið fegins hendi, því að Kósökkum var vel til Pèturs keisara. Fór Pugatschew því næst austur til Kósakka þeirra, er bjuggu við Jaik-fljót. Það er austur undir Úralfjöllum. Segir hann þeim, að hann sè Pètur keisari, og hafi komizt úr höndum óvina sinna, en að annar maður hafi verið drepinn, sem þeir hafi ætlað mundi vera keisarinn. Þessu trúðu menn, og af því að stjórn Katrínar var illa þokkuð þar eystra, þá flyktist þegar múgur manns saman (1773), og ætluðu að reka Katrínu úr völdum, en koma Pètri aftur til ríkis. Þegar Katrín frètti óspektir þessar, gjörir hún menn út í móti þeim, en drotníngarmenn urðu ofurliði bornir, og gekk svo um hríð, að uppreistarmenn fjölguðu, en drotníngarmenn fækkuðu þar eystra, þángað til dugandi hershöfðingjar komu til sögunnar, og fór þá svo, að Púgatschew varð höndum tekinn, og höggvinn í Moskwa í jan.-mán. 1775. Hafði flokkur hans gjört hinn mesta skaða, og mælt er, að um 100,000 manna hafi fallið í þeim óspektum. Eigi lagði Katrín drotníng þúngar refsíngar á þá, sem verið höfðu í flokki uppreistarmanna, en hitt bauð hún, að engi maður skyldi nefna Jaik framar, heldur skyldi fljótið heita Úral, og bærinn, sem upphlaupið hófst fyrst í og Jazkoi hèt, skyldi heita Úralsk, og svo er það hvorttveggja nefnt síðan.

Þessar óeirðir Púgatschews töfðu fyrir friðarsamníngum milli Rússa og Tyrkja; því að Tyrkir hugðust mundu hafa gagn af upphlaupi Kósakka, og vildu svo eigi taka þeim friðarkostum, er Rússar þá buðu, en síðan þrengdu Rússar svo að Tyrkjum, að þeir sáu sèr eigi annað fært, en sættast. Þannig komst friður á með þeim í *Kútschuk-Kainardschi* (í júlímán. 1774), misstu Tyrkir þá alt, er þeir áttu í löndum með Svartahafinu fyrir austan Dniepr; Rússar fengu ýms ítök í löndum Tatara, og það, sem mestu skifti, fult frelsi til sjóferða allra um Svartahafið og um Dardanellasund; svo skyldu og Tatarar vera með öllu lausir undan yfirráðum Tyrkja.

Nú var svo komið, að Rússar höfðu náð fótfestu við Svartahafið, og skip þeirra gengu nú fyrirstöðulaust, bæði þar um hafið og um sund þau, er þaðan liggja suður í Grikklandshaf og Miðjarðarhaf, og fluttu varníng til borganna vestan á Litluasíu, á

Grikklandi og á Ítalíu, og þaðan aftur heim til Rússlands. En Rússar lètu eigi þar við sitja. Þeir vildu eignast öll lönd norðan að Svartahafinu, og jafnvel ná undir sig öllum Tyrkjalöndum í Europu. Kom sá vilji þeirra einkum í ljós, eftir að sá maður komst til valda á Rússlandi, er *Potemkin* hèt. Að hans ráði var það, að Tatara-Chaninn á Krím var gintur til þess, bæði með refjum og fèmútum, að afsala sèr og sínum öll yfirráð yfir Krím í hendur Rússum (1783). Þá af Tatörum, sem móti mæltu, lèt Potemkin taka af lífi, að sögn um 30,000 manna. Litlu síðar fekk *Heraklíus*, jarl Tyrkjasoldáns í Georgíu, Rússum það land alt í hendur. Það eru miklar og góðar sveitir fyrir sunnan Kákasusfjöll og austan Svartahafið. Potemkin var landstjóri Katrínar drotníngar á Krím og hinum öðrum fylkjum suður við Svartahafið, og rèð mestu á Rússlandi árin 1776 til 1791. Á því tímabili var það, að drotníng fór þángað suður (1787) til þess að sjá hin nýju fylki, er undir hana höfðu gengið. Þegar Potemkin vissi að hennar var von, lèt hann smala saman mönnum og fènaði úr ýmsum áttum, húsa bæi, ryðja akra, og gjöra ýms mannvirki alls staðar þar, sem leið drotníngar lá um, svo að þegar hún kom og sá þetta, undraðist hún hve alt var þar blómlegt, og hvílíkan afbragðs dugnað Potemkin hefði sýnt í því, að koma öllu því til leiðar á svo fáum árum, enda sparaði hann eigi að telja henni trú um, að allar þær miklu framfarir væru sèr að þakka. En hið sanna var þó hitt, að mest af þessu voru eins konar sjónhverfíngar og prettir einir, því að fólkið og fèð, sem drotníngin sá við veginn einn daginn, var flutt um nætur á þá staði, sem leið hennar lá um daginn eftir; og margt af því liði er sagt að dáið hafi jafnóðum af sulti og seyru. En það vissi drotníngin eigi. Pótemkin hafði látið gjöra borg eina þar sem Dniepr fellur suður í Svartahafið. Sú borg heitir *Cherson*, þar átti að vera herskipastöð Rússa við Svartahaf. Yfir borgarhliðum stóðu með stóru letri þessi orð: «*héðan er leiðin til Býzanz*» (þ. e. Konstantínópel). Þýðing þeirra orða er auðskilin. Í Cherson kom Jósef annar Þýzkalandskeisari til fundar við Katrínu drotníngu, og var það ætlun manna, að þau hefðu þá ráðgjört að reka Tyrki á braut úr Norðurálfu. En er Soldáni komu þau tíðindi, að þau hafi átt fund með sèr Katrín drotníng og keisarinn, og að þau hafi þar að auki liðsafnað mikinn,

þá vill hann eigi bíða boðanna, en lætur taka Búlgakow, hinn rússneska sendiherra í Konstantínópel, höndum og setja í dýflissu, og segir Rússum stríð á hendur (1787). *Pótemkin* og *Súvarów* voru höfðíngjar yfir liði Rússa, en Jósef keisari hafði sjálfur yfirforustu Austurríkismanna. Rússum varð vel framgengt, og unnu ýmsar af kastalaborgum Tyrkja t. a. m. *Otsjakow*, *Bender* og *Ismail*, eptir drengilega vörn og mikið mannfall; fóru Rússar alls staðar fram með hinni mestu grimd og drápu jafnt vopnlausa menn sem vopnaða. Meðan keisarinn hafði sjálfur herstjórn, vanst Austurríkismönnum lítið á, en hann sýktist bráðum, fór heim til Vínar (Wien) og andaðist þar (1790). Tók þá *Loudon*, sem kunnur er frá sjö ára stríðinu, við æztu hervöldum, og skipti þá svo um, að Austurríkismenn unnu Belgrad, hina nafnkendu og sterku kastalaborg, og mundu bandamenn eflaust hafa unnið á Tyrkjum til fulls og alls, ef annað hefði þá eigi í milli komið. En það var bæði það, að Gústaf þriðji Svíakonúngur hóf ófrið gegn Rússum (1788), og urðu þeir að snúast við honum, og svo hitt, að Englendíngum og Prússum þótti nóg um aðfarir bandamanna, og gjörðu sig líklega til að veita Tyrkjum; þá var og stjórnarbyltingin á Frakklandi byrjuð, er sneri hugum allra þjóðhöfðingja Norðurálfunnar í þá átt. Þetta allt tilsamans knúði Leópold Þýzkalandskeisara annan, er kominn var til ríkis eptir Jósef bróður sinn, til þess að semja frið við Tyrki í *Szistowa* (1791), og láta aptur Belgrad af hendi við þá. Katrínu Rússa drotníngu þótti nú uggvænt um, að hún mundi fá yfirbugað Tyrki, er bandamenn hennar voru gengnir úr leiknum, þar að auki voru óeirðir kviknaðar í Póllandi, og allar líkur til, að þar væri arðsvon meiri, þess vegna gjörði hún frið við Tyrki í *Jassy* (1792), og lèt sèr nægja að Dniester yrði merki — á milli Rússlands og Tyrklands.

Meðan Rússar áttu í höggi við Tyrki og höfðu ærið að vinna, hugðu Pólverjar, að sèr mundi gefast færi á að losast undan yfirráðum og ánauð Rússa, og það því fremur sem Prússastjórn, er í það mund var lítill vinur Rússa, eggjaði Pólverja til nokkurra framkvæmda í þá átt, og gjörði sig líklega til aðstoðar við þá. Og kom það svo lángt, að árið 1790 gjörðu Prússar og Pólverjar þann samníng milli sín, að hvorir skyldu öðrum lið veita, ef til vandræða kæmi. Ári síðar (1791), eptir

miklar og harðar umræður, leiddu Pólverjar í lög hjá sèr nýja stjórnarbót, er í ýmsum greinum bætti úr þeim brestum, er verið höfðu á stjórnarskipun ríkisins. Í hinni nýju stjórnarskrá var meðal annars kveðið svo á, að Pólland skyldi upp frá því vera erfðaríki, í stað kjörríkis, og konúngstignin gánga í ætt kjörfurstans af Saxlandi, að Stanisláusi konúngi Poniatovsky dauðum. Svo virtist sem hin nýja stjórnarskipun mundi geta borið góða ávexti fyrir land og lýð, ef hún næði að festa rætur; en þess var eigi kostur. Ýmsir lendir menn (aðalsmenn) á Póllandi þóttust missa helzt til mikið af einkarèttindum sínum við þessa nýju stjórnarbót, áttu því fund með sèr í *Targóviz* (1792), og sórust í fèlag, og leituðu liðs hjá Katrínu Rússa drotníngu. Drotníng tók því gjarnsamlega, og sendi þegar óvígan her til Póllands, «til þess að vernda forna frelsi hinnar pólsku þjóðar», eins og látið var í veðri vaka. Pólverjar treystu því, að Prússar mundu, eftir gjörðum samníngi, koma til liðs við sig, en sú liðveizla kom aldrei, því að Friðrik Vilhjálmur annar Prússakonúngur, eftirmaður Friðriks mikla, sá sèr meira hag í því, að ræna Pólverja löndum, en rètta þeim hjálparhönd. Pólverjar stóðu því einir uppi móti ofurefli Rússa, og höfðu lítið lið og lítt vopnað, en hreysti og hugprýði skorti eigi. Helztu herforíngjar Pólverja voru þeir *Jósef Poniatovský*, — bróðursonur Stanisláss konúngs, hinn mesti kappi, og var seinna með Napóleoni keisara og fèkk gott orð — og *Thaddeus Kosciuszkó*, einn af hinum ágætustu mönnum, fyrir allra hluta sakir, er nokkru sinni hefir verið með Pólverjum. Kosciuszkó hafði gengið undir merki Washíngtons, og barizt fyrir frelsi bandaríkjanna í Vesturheimi og fengið þar mikinn orðstír. En þó að herforíngjar Pólverja væru afbragðsmenn og liðið sýndi ágæta hreysti, urðu þeir alls staðar ofurliði bornir af Rússum sökum mannfæðar. Stanisláss konúngur lèt og Rússadrotníngu hræða sig til að samþykkjast gjörðina í Targóviz, og bauð því sínum mönnum að leggja vopnin niður; og var þá vörninni lokið. Kosciuszkó og margir ágætir menn fóru þá af landi burt, og vildu eigi vera við staddir niðurlægíngu ættjarðar sinnar. En Rússar og Prússar skiftu Póllandi með sèr í annað sinn; tóku hinir fyrnefndu mikinn hluta af Lithauen, en hinir síðarnefndu nokkuð af «Storpolen», og borgirnar Danzig og Thorn (1793).

Slíkum rángindum gátu Pólverjar eigi unað, og gjörðu því samtök með sèr í kyrþey til þess að brjótast undan oki hinna útlendu ránsmanna. Hèt sá maður, er Madalinský hèt, uppreistina (24. marz 1794). En er Rússar og Prússar urðu þess vísari, buðu þeir honum þegar í stað, að hafast ekki að, og senda það lið frá sèr, er til hans hafði safnazt. Hann neitaði að hlýðnast þeirri skipun og hèlt liði sínu til *Krakár*. Það var önnur hin helzta borg á Póllandi, og er lángt suður í landi við Weikselfljót, en Varská höfuðborgin er miklu norðar og neðar með fljótinu. Nú kemur Kosciuszkó til móts við Madalinský, og eftir að hann hafði unnið sigur á einum herflokki Rússa, var hann gjörður að *alræðismanni* (*Dictátor*) Pólverja, en Stanislási konúngi vildu þeir fyrir engum völdum trúa, því að menn báru ekki traust til hans. Setulið það, er Rússar höfðu í Varská, var höggvið niður; en þó Kosciuszkó gerði alt sem gjört varð, og við mátti búast af slíkum hershöfðingja, og þó liðsmenn fylgdi honum vel og drengilega, máttu þeir eigi við margnum, þar sem bæði voru Rússar og Prússar í móti með ofurefli liðs. Eftir ýms vopnaviðskifti varð aðalfundur Rússa og Pólverja (10. okt. 1794) þar sem heitir *Maciejovice*. Höfðingi Rússaliðs hèt *Fersen*, en Kosciuszkó hafði sjálfur yfirstjórn Pólverja. Þar varð orusta löng og hörð, en svo fór að Rússar unnu sigur. Kosciuszkó hneig til jarðar yfirkominn af sárum og mæði, og mælti þetta við er hann fèll: *Finis Poloniae!*»[1]. Var hann því næst fluttur til Pètursborgar og settur í varðhald, og þar sat hann til þess er Katrín drotning andaðist (1796), en Páll keisari, sonur hennar, kom til ríkis. Hann gaf Kosciuszkó lausn og vildi gjöra hann að hershöfðingja sínum, en það þektist Kosciuszko eigi, og fór af landi burt og dó í Sveiz (Svisslandi) 1817.

Um þær mundir er Maciejovice-orustan varð, kom Súvaróv með miklu liði sunnan frá Svartahafi, og settist um Varská, og tók hana eftir mikið mannfall og mörg grimdarverk (í öndverðum nóvembermán. 1794). Var landið þá alt í fjandmannahöndum, og skiftu þeir því næst Póllandi með sèr *hið þriðja sinn* (24. oktobermán. 1795). Rússar tóku það, sem eftir var, af Litháuen, Volhyniu og Pódoliu; Prússar fengu Varská og Ný-Austprússland. Austurríkismenn, er eigi þóttust mega sitja hjá að-

[1] þ. e. «Endalok Póllands!»

gjörðalausir, hrifsuðu undir sig Vesturgalizíu. Þannig hvarf Pólland úr ríkjatölu Norðurálfunnar, og hefir aldrei síðan verið sjálfu sèr ráðandi. Vetri síðar lagði Stanislás niður konúngdóminn, eftir boði Katrínar drotníngar, og andaðist austur á Rússlandi (1798). Kúrland komst einnig á þeim misserum undir algjörð yfirráð Rússlands.

Katrín önnur dó undir árslokin 1796, og kom þá Páll keisari sonur hennar til ríkis, eins og áður var sagt.

## Austurríki og Prússland frá 1763—1792.

Franz Stefán af Lothringen (Toskana), er verið hafði Þýzkalands keisari síðan 1745 (Franz I.) dó 1765. Hann hafði í raun og veru að eins borið keisaranafn, en lítil sem engin völd haft, og tekjur keisarans voru í það mund orðnar mjög litlar. Í erfðalöndum þeirra Habsborgarmanna rèð hann því nær engu, því að drotníng hans, María Theresía, leyfði honum það eigi. En þar var hún ein til ríkis borin, eins og áður er sagt. Þá er Franz fyrsti dó, varð eldri sonur hans, *Jósef annar*, Þýzkalands keisari, en hinn yngri, Leopold, fekk Toskana til forráða.

Árið 1780 dó María Theresía, en Jósef keisari sonur hennar erfði þá yfirráðin yfir hinu austurríkska einveldi (1780—1790). Hann var handgenginn ritum hinna frakknesku þjóðfræðínga, og samkvæmt kenníngum þeirra einsetti hann sèr, að bæta kjör þegna sinna í öllum greinum. Það er með sanni sagt um Jósef annan, að hann hafi haft einlægan vilja til þess að koma sem mestu góðu til leiðar í ríki sínu og verið einhver hinn starfsamasti þjóðhöfðíngi, en það sem honum þótti vera rètt og þarft fyrir land og lýð, það vildi hann láta framgengt verða, hvernig sem á stóð og hver sem í hlut átti, og brauzt í því með meiri ákafa en hyggindum. Hann var frjálslyndur í orðum og anda, en harðstjóri, þegar til framkvæmdanna kom, og þess vegna mætti svo margt af hans góðu áformum og fyrirtækjum miklli mótstöðu, olli honum sjálfum skapraun, og varð um stundarsakir að litlum eða engum notum.

Klerkastèttin í Austurríki var stórauðug og hafði völd að því skapi. Jósef keisari vildi takmarka hvortveggja, og þess vegna lèt hann leggja niður mörg klaustur (hèr um bil 700), og verja auðæfum þeirra til alþýðuskóla og annara stofnana í alþjóðleg-

ar þarfir; þess vegna leiddi hann í lög almennt trúarfrelsi; bændur leysti hann undan þeirri ánauð, er stórmenni og höfðíngjar — einkum á Úngverjalandi — héldu þeim í; hann endurbætti skattalögin og skipaði svo fyrir, að ein lög skyldu gánga jafnt yfir alla, hverrar stéttar sem væri. Við þetta urðu þeir óðir og uppvægir, sem áður höfðu átt undanþágum og einkaréttindum að fagna, og klerkarnir þessa mest. Páfanum, *Píusi sjötta*, fanst svo mikið um allar þessar breytíngar og öll þessi nýmæli keisarans, að hann tókst sjálfur ferð á hendur til Vínarborgar (1782) og sótti keisarann heim, til þess að telja honum hughvarf, og fá hann til að taka aftur nýmæli þau, er páfa þóttu sér og sínu ríki til ógagns horfa. Keisarinn tók svo göfugum og sjaldsénum gesti með miklum virktum, en páfinn fór svo heim aftur, að hann fekk eigi fram komið sínu erindi.

Um þjóðerni manna og gömul réttindi skeyttu konúngar og stjórnfræðíngar einatt lítið á þeim tímum, og Jósef annar tók eigi öðrum fram í þeirri grein. Hið austurríska einveldi var og er, eins og menn vita, samsett af mörgum þjóðlöndum. Þar bjuggu ýmsar þjóðir, ólíkar að uppruna, túngumáli, trúarbrögðum og siðum. Það þurfti því styrka og gætna hönd til að stýra þeim öllum svo vel færi, einkum ef raska skyldi gömlum réttindum eða gamalli venju. Keisarinn vildi sameina alla þá ólíku parta í eina heild, gjöra þá alla að einu *þýzku alríki*. Þannig bauð hann, að rita skyldi öll embættisbréf á þýzka túngu, og setti í því skyni embættismönnum þriggja ára frest til þess að læra hana til fullnustu; kynnu þeir eigi Þýzkuna að þeim tíma liðnum, skyldu þeir missa embættið. Það var gömul venja, að krýna Úngverjakonúnga þar í landi; það vildi keisarinn eigi, heldur lét hann flytja kórónuna þaðan (frá Presburg) og til Vínarborgar og krýna sig þar. Varð af þessu hvorutveggja, bæði því, að viðhafa skyldi þýzka túngu, og hinu, að kórónan var tekin, svo illur kur meðal Úngverja, er þóttu landsréttindi sín troðin undir fótum, að við upphlaupi var búið; sendi keisarinn þá kórónuna aftur, og við það sefuðust landsmenn. Á Belgíu, sem þá lá undir Austurríki, varð uppreisn, af því að keisarinn bylti þar mörgu um og breytti. Niðurstaða þeirra óeirða varð sú, að öll fylkin þar í landi gengu í samband sín í milli og sögðu keisaranum upp hlýðni og hollustu (1790). Jósef keisari andaðist þá litlu

síðar; gat eftirmaður hans að sönnu sefað óróann og sameinað Belgíu aftur Austurríki, en það var eigi nema stundarfriður, því að þá kom stjórnarbyltíngin á Frakklandi, er losaði Belgíu til fulls og alls undan Austurríki.

Þannig mætti Jósef keisari mótspyrnu því nær í öllu, sem hann vildi breyta *innanlands*, og þó það væri til hins betra; klerkarnir voru hans verstu mótstöðumenn, og þeirra orð og dæmi höfðu, eins og löngum hefir við gengizt, mikil áhrif á alþýðu manna, og æstu hana til mótstöðu. Engu betur varð keisaranum ágengt í viðskiftum sínum við erlendar þjóðir. Þegar algjörður friður komst á milli Spánar og Niðurlanda (1648), fengu Niðurlandamenn (Hollendíngar) komið því til leiðar, að Belgir (íbúar hinna spánsku Niðurlanda) máttu enga siglíngu hafa á Schelde-fljótinu, og var það verzlun þeirra til hins mesta hnekkis. Í Útrektar-friðnum (1713) fengu Hollendíngar rètt til að hafa setulið í ýmsum kastalum í hinum spánsku Niðurlöndum. Þessi spánsku Niðurlönd (Belgia) höfðu nú um 70 ára tímabil legið undir Austurríki, og Jósef keisari undi því illa, að þegnar hans urðu að sæta þessum ókjörum af hendi Hollendínga, bæði siglíngabanninu á Schelde og setuliðinu í kastalunum. Á þessu vildi hann fá breytingu, en er Hollendíngar neituðu því, freistaði keisarinn að hafa sitt fram með ofríki, en þá skárust Frakkar í leikinn og miðluðu svo málum, að Hollendíngar rèðu skipagöngu um fljótið, eins og áður, en setulið sitt færðu þeir burt úr kastalaborgum Belgja. Eins var það, er keisarinn vildi ná undir sig nokkru af Baiern (1777), þá er hinn eldri ættleggur Wittelsbaksmanna var undir lok liðinn. Þóttist keisarinn þar hafa fyrir sig að bera gömul skjöl og skilríki frá dögum Sigmundar keisara. Karl Theódór af Falz, sem þar stóð næstur til erfða, lèt sèr það að vísu lynda, sem keisarinn sagði, en þá reis upp Friðrik annar Prússakonúngur, og gekk svo karlmannlega í málið, að keisarinn varð að láta undan, og í friðarsamníngi þeim, sem þá var gjörður í *Teschen* (1779), fekk Austurríki að eins litla sneið af Baiern. En keisarinn lèt eigi þar við sitja, og fekk nokkru síðar Karl Theódór til að samþykkja landaskifti við sig þannig: að Austurríki skyldi eignast Baiern, en Karl Theódór fá í þess stað Belgíu, sem svo skyldi verða nefnt konúngsríkið Búrgund. Keisaranum þótti, sem og var, Belgia vera

of lángt burtu og afskekt, og að mörgu leyti ólík Austurríki, þar á móti var Bæjern áföst við Austurríki og lík því í mörgu; þess vegna sóttist keisarinn svo mjög eptir þeim landaskiftum. En hèr fór sem fyr, að Friðrik annar reis aptur upp og mælti fast á móti þeim fyrirhuguðu landaskiftum, er hagga mundu jafnvægi Þýzkalands. Stofnaði Prússakonúngur þá *hið þýzka þjóðhöfðíngjafèlög*, sem svo er nefnt (1785), og urðu þeir allmargir, er í það fèlag gengu. Keisarinn sá sèr eigi fært, að brjótast í móti svo mörgum og ríkum höfðíngjum, og þannig fórust landaskiptin fyrir. Þess er áður getið, að þau Katrín önnur og Jósef keisari ætluðu sèr að reka Tyrki burt úr Norðurálfunni. Í stríði því, sem þá hófst, sýktist keisarinn, bæði af áhyggju af því, hve alt varð honum erfitt og mótdrægt, og af áreynslu þeirri, er hann varð á sig að leggja, og dó í febrúarmánuði 1790 á fertugasta og níunda aldursári.

Jósef keisari hafði verið tvíkvæntur, en mist báðar konur sínar, og dó barnlaus. Tók þá ríki eptir hann, og keisaradóm á Þýzkalandi, Leópold bróðir hans, stórhertogi af Toscana, og er nefndur *Leópold annar* (1790—1792). Hann var vitur maður og gætinn, enda þurfti þess við, því að alls staðar í ríkinu var hinn versti kur. Leópold samdi frið við Tyrki í *Szistowa* (1791), og innanlands friðaði hann skattlönd sín, sumpart með hörku og hermannavaldi, sumpart með því, að taka aptur ýms lög og tilskipanir, er Jósef bróðir hans hafði sett, og láta þegnana halda fornum rèttindum sínum. Þegar hèr var komið, var alt orðið í uppnámi á Frakklandi, og þau tíðindi, er þar gjörðust, kendu þjóðhöfðíngjum á að fara varlega. Þegar Leópold dó (1792), og *Franz annar*, sonur hans, kom til ríkis, var eigi annað fyrir að sjá, en að ófriðast mundi með Austurríkismönnum og Frökkum, enda kom það fram litlu síðar.

Á Prússlandi var margt á annan veg en í Austurríki. Það, sem í Austurríki gjörði stjórnina erfiðasta, voru hin mörgu og margbreyttu þjóðerni, er því veldi lutu. Slíkt átti sèr eigi stað á Prússlandi. Þar var að mestu leyti einúngis um eitt þjóðerni að gjöra; ríkið mátti nálega heita ein samgróin heild, og það var því í raun rèttri vandaminna að stýra Prússlandi en Austurríki. Alla þá stund, sem Friðrik annar sat að ríkjum, eptir lok sjö ára stríðsins, frá 1763 til dauðadags 1786, átti hann friði

að fagna, og þeim tíma varði hann kappsamlega til þess að efla framfarir ríkisins í öllum greinum. Sè það nú svo, sem sagt hefir verið, að einn eða tveir dagar sè notaðir af Friðriki hafi verið meira verðir en allt árið eins og aðrir menn notuðu það, þá má nærri geta, hverju hann hafi til leiðar komið öll þau 23 friðar ár.

Þess er áður að nokkru getið, hvílíkur hershöfðíngi Friðrik annar var; nú skal þess minnzt í fám orðum, hvernig hann var, sem stjórnari lands og lýðs á friðartímum. Hann hafði þá lengstum aðsetu í borg þeirri, er *Potsdam* heitir, hèr um bil 4 mílur vegar frá höfuðborginni Berlin. Það var venja hans á sumrum, að rísa úr rekkju um þriðju stund nætur, en á vetrum stundu seinna. Þá lèt hann færa sèr öll þau brèf, sem komið höfðu með síðasta pósti, er jafnan voru mörg og margs efnis. Konúngur las þau og ritaði svar sitt á þau flest, að eins eitthvert merki, eða eitt og tvö orð, eða jafnvel eitthvert skopyrði. Að þessu starfi var hann fram undir dagmál; þá tóku skrifarar hans við, og svöruðu brèfunum samkvæmt þeim bendíngum, er konúngur hafði á þau ritað, en sjálfur fór hann að gegna málefnum hermanna sinna um alt ríkið, er tók hann lángan tíma; þar næst sneri hann sèr að ýmsum öðrum málefnum, og ritaði undir flest brèf samdægurs, er síðan voru send burt að kveldi. Konúngur lagði á sig margfalt meira starf en hann þurfti, en það kom af því, að hann trúði reyndar engum nema sjálfum sèr; hann vildi sjá alt með sjálfs síns augum, og skipa sjálfur fyrir um alt, bæði stórt og smátt. Þess munu varla dæmi finnast, að nokkur konúngur hafi verið eins ráðríkur og afskiftasamur um alt það, er framfór í ríki hans, eins og Friðrik annar. Enginn af þegnum hans mátti fara af landi burt nema með hans leyfi, og fengist leyfið, þá kvað konúngur á, hve mikið fè hver og einn mætti hafa með sèr. Kaupmaðurinn mátti hafa 250 dali í gulli, og ekki meira, aðalsmaðurinn 400 dali. Konúngur gjörði mikinn mun á því, hverrar stèttar sá var, er hlut átti að máli. Færi nokkur leyfislaust til erlendra háskóla, til náms, þó eigi væri nema um stundar sakir, varðaði slíkt þúngri fjársekt, eða algjörðum eignamissi. Þannig hèlt konúngur hermannshendi yfir öllum sínum þegnum, háum og lágum. En um hitt fekkst hann alls eigi, þó menn hans sögðu eða rituðu eitthvað djarft um

hann. «það er samkomulag — sagði Friðrik — milli mín og þegna minna, sem báðum líkar vel, að þeir mega tala það sem þeir vilja, og eg má gjöra það sem eg vil». En þó hann væri þannig alt í öllu, þá lèt hann sig lángmestu varða um þetta tvent: herinn og fjárhag ríkisins. Hann vildi hafa bæði mikið lið, og vel að öllu búið. Þó ríki hans væri miklu minna en Austurríki, Frakkland eða England, vildi hann geta jafnast við þá, er þeim stýrðu. Þegar komið var fram um 1770 hafði hann, hvenær sem til þurfti að taka, vígbúnar 160,000 manna, og það var bæði sögn og sannindi, að það lið var svo vel búið og vígkænt, að lángt þótti bera af hermönnum annara þjóða á þeim tímum. Til svo mikils herliðs þurfti mikið fè, og þessvegna lèt konúngur sèr mjög ant um, að safna í ríkissjóðinn, svo að jafnan væri nóg fyrir hendi, hvenær sem til þurfti að taka. Hann lèt því við hafa hinn mesta sparnað í hverri grein, og hafa alla reikninga ríkisins í góðri reglu. Flestir aðrir konúngar eyddu stórfè (og jafnvel af ríkissjóðnum) handa frillum sínum og vildarmönnum; slíkt átti sèr engan stað hjá Friðriki öðrum. Hann gjörði glöggan mun á því, sem ríkið átti og því, sem hann sjálfur átti. Tekjur þær, er konúngur ætlaði sèr árlega, voru 1,200,000 ríkisdala, en af þeim eyddi hann aldrei meiru á ári, en 222,000 dala handa sjálfum sèr; afgánginn lagði hann í sjóð, og af þeim sjóði gaf hann (frá árinu 1763 til 1786) ýmsum hèruðum, borgum eða einstökum mönnum víðs vegar um ríkið 24,000,000 ríkisdala, þegar þess þurfti við, til að bæta hag þeirra eftir óáran, eldsvoða og þesskonar, eða til að koma fótum undir einhver nytsöm fyrirtæki og þarflegar stofnanir. Sýnir þetta bæði sparsemi hans við sjálfan sig og örlæti við aðra. Þegar um tekjur ríkisins var að ræða sagði hann: «ríkið er auðugt, en eg er fátækur», og í arfleiðsluskrá sinni kveður hann svo að orði: «Það, sem eg hefi undir höndum, er eigi mitt, heldur ríkisins».

Það var venja Friðriks, að fara á hverju ári um eitt eður annað fylki í ríki sínu, eigi til þess, að þiggja veizlur og skemtanir af þjóðinni, eins og konúngar eindtt hafa gjört, heldur til hins, að líta eftir hvernig þar fór fram, og kynna sèr alt háttalag manna og störf í borgum og bæjum, áminna, ráðleggja og uppörfa menn til einna eður annara framkvæmda, eftir því sem

honum þótti við þurfa. Honum var svo kunnugt um hvað eina í ríki sínu, að enginn konúngur hefir nokkru sinni lengra komizt í þeirri grein. «Ef yður lángar til að vita, hve mörg hús hafa lagzt í eyði», — ritar hann Voltaire einhverju sinni —, «þá get eg sagt yður, að eg hefi látið reisa 8,000 húsa í Slesíu, og 6,500 í Pommern og Neumark; það verða, eftir bókum þeirra Newtons og Alemberts, samtals 14,500. Flest af þeim húsum höfðu Rússar brent». Í öðru bréfi til Voltaire (1777) kemst Konúngur svo að orði: «Eg er nýkominn heim sunnan úr Slesíu og líkaði þar vel. Akuryrkjunni miðar þar vel áfram og iðnaður fer vaxandi. Vèr höfum selt þaðan til útlanda lèreft fyrir 5,000,000 ríkisdala, og klæði fyrir 1,200,000 rd. Menn hafa fundið «kobolt» í fjöllunum meira en nóg handa Slesíu; vèr búum til «vitriól» engu lakara en í öðrum löndum, og «indigó» folt eins gott og það, sem kemur frá Indlandi; járn gjörum vèr að stáli, og með lángtum auðveldari aðferð en þeirri, sem Reaumur kennir. Síðan 1756 þegar stríðið hófst, hefir fólkstalan aukizt um 180,000 manna. Landið er því nær búið að ná sèr aptur, eptir allar þær hörmúngar, sem yfir það höfðu gengið, og — yður í einlægni að segja — það gleður mig innilega, að hafa rètt við aftur þetta margþjáða skattland».

Á síðustu árum Friðriks kendi hann fótaveiki í meira lagi, og sögðu þá læknar í Vínarborg, að kvilli sá mundi bráðum snúast í vatnssýki, og þá væri dauðinn vís. Þessu trúði margur, og það er sagt, að Jósef keisari hafi haft vígbúið lið í Böhmen, til þess að ná aftur Slesíu jafnskjótt sem konúngaskiftin yrðu á Prússlandi. Þetta vissi Friðrik, og um þær mundir ritar hann Voltaire, meðal annars, á þessa leið: «Vera má að sumum þyki eg lifa helzt of lengi, og segi heilsufar mitt lakara en það er, af því þeir hugsa, að sé mikið orð af því gjört, þá muni eg, ef til vill, hrökkva upp af eins fljótt eins og þeir vilja. Loðvík fjórtándi og Loðvík fimtándi reyndu þolrifin í Frökkum með lángri ríkisstjórn. Eg hefi nú setið við stýri um 36 ár; vera má að eg, eins og þeir, vanbrúki rèttinn til að lifa, og kunni mig eigi svo vel, að fara hèðan, þegar menn eru orðnir leiðir á mèr. Eg held enn sem áður fast við þá venju, að hlífa mèr eigi. Því betur sem menn fara með sig, því viðkvæmari og veikari verður líkaminn. Staða mín heimtar starfsemi og vinnu; líkami minn

og sál beygir sig undir skylduna. Það er eigi nauðsynlegt, að eg lifi, heldur hitt, að eg starfi; mèr hefir ætíð fallið það vel. Þó kemur mèr eigi til hugar, að gjöra öðrum það að skyldu, að fylgja þessari reglu, mèr nægir að fylgja henni sjálfur».

Friðrik annar bar eflaust lángt af öðrum konúngum, er honum voru samtíða, bæði að vitsmunum og dugnaði; þó gat hann í sumum greinum eigi slitið sig lausan frá venjunni. Þannig fylgdi hann þeim sið, sem kominn var af Frakklandi, að einoka verzlunina með ýmsu móti, og leggja skatta á helztu nauðsynjar manna, til þess, að ná sem mestum tekjum handa ríkissjóðnum. Að ríkið hefði hagnað og ábata, það var honum fyrir öllu, en hitt lèt hann sig engu skifta, hvort þegnum hans líkaði betur eða ver. Hann þekti hvorki nè þoldi annan vilja í ríki sínu en þann, er hann sjálfur hafði. Þess hefir fyr verið getið, að hann þekti lítið og virti lítils þýzka túngu og þýzkar bókmentir, en hafði túngu og bókmentir Frakka í miklum hávegum, fylgdi jafnvel í sumum greinum kenníngum hinna frakknesku rithöfunda, t. a. m. hvað trúarbrögðin snerti, og þess vegna leyfði hann kristmönkum landvist í ríki sínu, þó að þeir væru reknir burt, jafnvel af katólskum löndum.

Það er eðlilegt, að Friðrik yrði einatt atkvæðamikill í viðskiftum sínum við önnur ríki og aðra þjóðhöfðíngja. Hann var, eins og áður er sagt, hvatamaður þess, að Póllandi var skift (1772). Nokkrum árum síðar fekk hann ónýtt þá fyrirætlun Jósefs keisara annars, að auka veldi sitt á Þýzkalandi. Friðrik annar dó 17. ágúst 1786.

Þá kom til ríkis á Prússlandi *Friðrik Vilhjálmur annar* (1786—1797)[1]. Hann var bróðursonur Friðriks mikla, og þótti ónýtur konúngur. Hann beitti hörku við menn í trúarbragðaefnum, og bældi alt andlegt frelsi niður, eftir því sem honum var unt. Í viðskiftum sínum við Pólland, hèlt hann þeirri stefnu fram, er Friðrik annar hafði byrjað, og rænti þar löndum og lýðum, eins og fyr er ritað. Systir þessa Friðriks Vilhjálms Prússakonúngs var gift Vilhjálmi fimta, landstjóra á Niðurlöndum (1751—1795), syni Vilhjálms fjórða. Landstjórinn var duglaus maður, og aðrir urðu lengstum að hafa vit fyrir honum. Á

1) Faðir hans hèt Ágúst Vilhjálmur, bróðir Friðriks annars, dáinn 1758.

Niðurlöndum höfðu hugir manna einatt verið tvískiftir, þar sem einn flokkur manna vildi hafa landstjóra yfir sèr, en annar vildi hafa þjóðveldi (Republik). England hafði drjúgum stutt að því (1747), að landstjóratignin gengi í erfðir, og magnaðist sem mest; England hafði spilt sjóverzlun Niðurlendínga, og þess vegna var þjóðveldismannaflokknum gramt í geði við England — en í þeim flokki voru kaupmenn allir í Amsterdam og hinum helztu borgum Niðurlandanna. Landstjórinn og hans flokkur voru vinir Englendínga, en þjóðveldisflokkurinn var Frökkum fylgjandi. Niðurlendíngar veittust að með Frökkum til að hjálpa bandafylkjum Norðurameríku þá er þau brutust undan yfirráðum Englands. Í þeim ófriði biðu Niðurlendíngar mikinn skaða, og kendu landstjóranum um; hann hafði, sögðu menn, einúngis hugsað um landherinn, en engin afskifti haft af flotanum og sjóliðinu, og gjört það eingöngu til þess, að þóknast Englendíngum, vinum sínum og verndarmönnum. Óvildin til landstjórans fór dagvaxandi; borgalýðurinn greip til vopna, þar urðu mannavíg og bardagar, liðsmenn landstjórans urðu undir, og sjálfur hann hrökk úr landi, eftir að þjóðþíngið hafði sagt honum upp hlýðni og hollustu (1786). Hèr við bættist og, að kona landstjórans varð fyrir óskunda af lýðnum á förnum vegi milli Nimvegen og Haag þar í landi. Þetta var alt meira en að Prússakonúngur gæti lengur hjá setið afskiftalaus. Þess vegna sendi hann 24000 manna til Niðurlanda, og fyrir því liði Karl hertoga Ferdínand af Brúnsvík, bróðurson Ferdínands þess, er var með Friðriki öðrum í sjö ára stríðinu. Prússum var lítil mótstaða veitt, og reyndust nú Niðurlendíngar allir aðrir menn, en á dögum Filippusar annars og Loðvíks fjórtánda. Á tæpum mánaðartíma var landið alt í höndum Prússa. Vilhjálmur landstjóri komst aftur til valda, en Niðurlendíngar undu því illa, og dró það til þess, að Frökkum varð hægra fyrir, þá er þeir unnu Niðurlöndin litlu síðar en hèr var komið.

---

Siðabót Lúthers hafði að vísu losað um andlegt frelsi manna á Þýzkalandi, eins og annars staðar, þar sem hún náði að festa rætur, en samt sem áður var þess lengi að bíða, að *vísindi* yrðu almenn og þjóðleg þar í landi. Þau hundrað árin, sem fylgja næst á eftir Lúther, og heita má siðabótaröldin, snúast hugir

manna, bæði æðri stèttar og lægri, með ákafa, og því nær eingöngu, að trúarbrögðunum, um annað er lítið ritað eður rætt. Þrjátígi ára stríðið truflar alt og tefur allar andlegar framfarir. Þegar því er lokið og Vestfalski friðurinn fenginn, verður breytíng á. Hinir lúthersku guðfræðíngar verða fastir í orðum og bókstöfum, andinn dofnar, og trúin kólnar. Við endalok 17. aldar, en einkum á öndverðri 18. öld, rísu upp menn, er settu sèr fyrir mark og mið, að losa guðfræðina og hið kirkjulega líf úr fjötrum hins dauða bókstafs. Af þeim mönnum er *Jakob Spener* nafnkendastur (fæddur 1635, dáinn 1705 í Berlín). Hann kendi mönnum bæði í ræðu og ritum og eftirdæmi, að trúin ætti að sýna sig ávaxtarsama í verkunum, í daglegri hegðun og breytni. Einn af hans merkilegustu lærisveinum var *Hermann Franke* († 1727 í Halle). Nokkrir af lærisveinum þeirra Speners og Frankes fóru í þá stefnu lengra en hófi gegndi; þeir neituðu sèr um saklausa gleði og skemtanir, gjörðust alvörugefnir, vandlætíngasamir, og í mörgu frásneiddir öðrum mönnum. Þeir voru nefndir «*pietistar*» (oftrúarmenn). Þessi andlega stefna manna var reyndar upphaflega góð og gagnleg, en þegar hún komst á afvegu, leiddi hún beinlínis til *vantrúarinnar* í lúthersku kirkjunni. . . . . . . . .

Eins og áður er bent til, áttu vísindin erfitt uppdráttar á Þýzkalandi. Hin þýzka þjóð var sundurskift meðal margra höfðíngja, smærri og stærri. Frakkar fengu mikil áhrif á Þýzkaland eftir Vestfalska-friðinn. Frakknesk túnga var þar í fyrirrúmi hjá öllum þjóðhöfðíngjum og heldri mönnum, en þýzkunni, móðurmáli landsfólksins, var lítill sómi sýndur. Menn muna, hvernig því var háttað á Prússlandi (Friðrik annar), og eigi var betur ástatt annars staðar á Þýzkalandi í þeim efnum. *Leibniz*, einhver hinn mesti spekíngur að viti, sem nokkru sinni hefir uppi verið (fæddur í Leipzig 1646, dáinn 1716), ritaði margt og mikið, eigi á móðurmáli sínu þýzkunni, heldur á latínu eða frakknesku. Samtíða Leibniz, en þó yngri, voru þeir *Tomasius* (f. í Leipzig 1655, d. 1728) og *Wolf* (f. í Breslau 1679, d. í Berlín 1754), báðir nafnkendir heimspekíngar. Tomasius byrjaði fyrstur manna á því, að halda fyrirlestra á þýzka túngu; áður hafði eigi annað heyrzt í háskólum Þýzkalands en latínsk túnga. Honum er og að þakka, að það lagðist niður, að ofsækja menn og brenna fyrir

galdra. Wolf bygði kenníngu sína á undirstöðum Leibnizar, og var sá fyrsti á síðari öldum, sem reyndi að skipa hinum heimspekilegu setníngum niður í samanhángandi lærdómskerfi (Systematisk Lærebygning). Var hans kenníngum víða fylgt fram að síðastu aldamótum, þá er *Immanuel Kant* (f. í Königsberg 1724, d. 1804), gjörði þar á breytíngu. *Vilhjálmur Herschel* (f. í Hannóver 1738, d. 1822 á Englandi) var einhver sá mesti og starfsamasti stjörnufræðíngur, sem uppi hefir verið. Hann gjörði sjónpípur stærri og betri, en menn áður höfðu, og fann Úranus 1781, miklu lengra út í himingeiminum, en nokkurt mannlegt auga hafði áður til náð. Afreksverk Herschels í stjörnufræðinni eru svo mikil og mörg, að undrum gegnir. *Friðrik Ágúst Wolf* í Halle (f. 1759, d. 1824), og *Heyne* í Göttingen (f. 1729, d. 1812) voru nafnkendir fornfræðíngar, og fræddu menn, betur en áður hafði verið gjört, um fornöld Grikkja og Rómverja. *Jóhannes Müller* sveizneskur að ætt og uppruna (f. 1752, d. 1809), er nafnkendastur meðal þjóðverskra sagnaritara á þessu tímabili; hann hefir meðal annars ritað sögu Sveizlendínga og þykir hún afbragð.

En eigi fer þjóðverskri mentun að fara fram til muna, eða að verða innlend og þjóðleg á Þýzkalandi fyr en á síðari hluta 18. aldar, að skáldin rísa þar upp, hver snillíngurinn öðrum meiri: *Klopstokk* (f. í Kvedlinborg á Saxlandi 1724, d. í Hamborg 1803), *Lessing* (f. 1729, d. 1781), *Wieland* (f. 1733, d. 1813), *Herder* (f. 1744, d. 1803), *Jóhann Wolfgang Goethe* (f. í Frankfurt am Main 1749, dáinn í Weimar 1832), *Friðrik Schiller* (f. í Marbach í Würtemberg 1759, d. í Weimar 1805).

---

1872.

*Svo er ráð fyrir gjört, að síðari partur þessa heftis komi út að vori komanda.*

# NÝJA SAGAN

EFTIR

PÁL MELSTEÐ.

---

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

---

II. Bindis I. Hefti.

---

REYKJAVÍK.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. EINAR ÞÓRÐARSON.
1876.

# Þriðji kafli.

## Frá því er stjórnarbyltíngin hófst á Frakklandi 1789, til þess er ríki Napóleons fyrsta leið undir lok 1815.

### Inngángur.

Þegar vèr tökum oss fyrir hendur að rita sögu hinna helztu viðburða, er gjörðust á tímabili því, er hèr ræðir um, þá er það mjög eðlilegt, að Frakkland og hin frakkneska þjóð verði aðalumtalsefnið, fyrir því, að þá urðu þar í landi þau tíðindi, að ekki hafa önnur meiri orðið með þjóðunum á hinum síðari öldum. Allur þorri manna á Frakklandi hafði um lángan aldur lifað undir harðstjórn konúnga sinna og höfðíngja, og það svo freklega, að eigi var lengur við vært. Nú þegar hèr var komið, reis þjóðin á fætur og vildi hrinda þessu ánauðaroki af sèr. Henni kom ekki til hugar að áreita aðrar þjóðir; hún vildi að eins breyta öllu og bæta alt heima fyrir hjá sjálfri sèr. Það sem Frakkar höfðust að fyrst framan af stjórnarbyltíngarárunum, að því verður ekki með rèttu fundið. Það sem þeir þá unnu, það unnu þeir í þarfir alls mannkyns. En eftir því sem fram í sótti, eftir því versnar sagan. Hinir betri menn og vitrari verða ofurliði bornir af hinum verri og vitminni. Útlendir þjóðhöfðingjar skerast í leikinn, því að þeir eru hræddir um, að alþýða muni gjöra slíkt hið sama í þeirra löndum, sem hún hafði gjört á Frakklandi, og alt muni komast í ljósan loga. Þeir vilja kæfa bálið á Frakklandi meðan tími er til, og vaða inn þángað með óvígan her. Frakkar verða vel við og reka útlendingana af höndum sèr. En ófriðurinn er ekki úti með því. Hann er að eins byrjaður en ekki búinn. Því nær allar Norðurálfuþjóðir gánga í samband móti Frökkum. Menn sjá þar

jafnvel bæði Páfann og Tyrkjann róa báða á sama borðið. Öll saga Norðurálfunnar er komin í eina bendu utan um Frakka. Það sem þá gjörist sögulegast hjá hverri þjóð, það stendur á einn eður annan hátt, fjær eða nær, í einhverju sambandi við Frakka sögu. Allt snýst um hana eins og einn möndul eða miðpúnkt. Ekki á þetta sèr síður stað, þegar komið er fram um aldamót (1800), og Napóleon fyrsti er tekinn til starfa. Hann er það mikilmenni, að hann þaggar niður allan innanlands flokkadrátt og óeirðir á Frakklandi, snýzt síðan við öðrum þjóðum, og það svo rækilega, að á meginlandi Norðurálfunnar verða þær allar að lúta hans boði og banni. En yfirráð hans standa að eins um stundarsakir. Þegar hann kann sèr ekki lengur hóf, og þykir sèr ekkert ofvaxið, þá tekur forsjónin í taumana; þá er hinum mikla Napóleoni hrundið af veldisstóli, og hann endar æfi sína á lítilli eyju, í úthafi heimsins, langt frá öllu meginlandi. Á Frökkum byrjar tímabilið og með frakkneskum manni endar það. En menjar hinnar frakknesku stjórnarbyltingar og menjar Napóleons fyrsta eru ekki þar með á enda; þær eru þess eðlis, að þær eiga sèr lángan aldur í sögunni, eins og hver önnur stórvirki mannanna.

Áður en vèr snúum oss að sjálfri stjórnarbyltíngunni, þykir hlýða, að skýra stuttlega frá því, hvernig ástatt var á Frakklandi um þær mundir, er Loðvík 16. sonarsonur Loðvíks 15., kom þar til ríkis árið 1774; það er nú, þá þetta er ritað, fyrir rúmlega hundrað árum.

Það hið fagra og frjóva land var þá viðlíka stórt eins og það er nú á dögum; þó lá hvorki Savoyja eða Nizza undir það, en hins vegar fylgdi því bæði Elsass og hinn þýzki hluti af Lothringen, sem Frakkar urðu að láta laust við Þjóðverja eftir hinn síðasta ófrið 1870—71. Fólksfjöldinn, sem nú mun vera á Frakklandi um 36 milliónir, náði þá ekki 24 milliónum manna. Fyrrum höfðu konungar Frakka verið takmarkaðir af *ríkisstèttunum,* er svo voru nefndar, eður fulltrúum klerka, aðalsmanna og borgara; en þessir fulltrúar höfðu um hin síðustu 160 ár eigi verið kvaddir á þíng. Loðvíki konúngi 14. og eftirmönnum hans þótti þess eigi við þurfa, en kusu hitt heldur, að leggja skatta á þjóðina og setja henni lög, eins og sjálfra þeirra geðþótti bauð. Konúngur hafði sitt ráðaneyti, og æztur í því var

ráðgjafi sá, er nefndist *„General Kontrolör“*, og hafði hann hèr um bil sama embætti á hendi eins og nú hafa fjárhags- og innanríkisráðherrar til samans. Undir þessum æzta ráðgjafa stóðu umboðsmenn konúngs eða krúnunnar («Intendanter»), hver í sínu fylki, og svo aðrir undir þeim. Þó ber þess að gæta, að hið frakkneska ríki var eigi á þeim tímum ein samgróin ríkisheild eins og það er nú. Það voru þá enn til margar leifar þess, er átt hafði sèr stað á fyrri öldum, á dögum lènsdrottnanna, þá er kalla mátti að Frakkland væri alt í molum, sundurskift í mörg hertoga- og greifadæmi, er hvert fyrir sig rèð sjálft sinum lögum og lofum[1]. Mætti því konúngur og stjórn hans einatt mótspyrnu af sèrstökum rèttindum, venjum og undanþágum hinna ýmsu fylkna, er hann vildi beita einveldi sínu og láta eitt og hið sama boð eður bann gánga jafnt yfir alt ríkið. Þannig átti bæði Bretagne og Languedoc hvort um sig sitt *fulltrúa-* eða *stèttaþíng*, er hafði skattálögurètt og sjálfráða stjórn ýmsra málefna, þar sem umboðsmenn krúnunnar höfðu þvílík völd í öðrum fylkjum. Hin *katólska klerkastètt* var ákaflega voldug og stýrði kyrkju- og kenslumálum öllum því nær alveg óháð verzlegu valdi. Hún hafði ákaflega miklar tekjur af tíundum og jarðeignum, og galt eigi annað eða meira til ríkisins þarfa, en það sem henni sjálfri sýndist. En samt sem áður mætti þó einvaldsstjórn konúngsins á dögum Loðvíks fimtánda mestri mótspyrnu af hinum *æztu dómum (Parlamentunum)*. Þessi parlament voru venjulega eitt í hverju fylki, en hið helzta þeirra í París. Aðalætlunarverk þeirra voru reyndar dómarastörfin, en parlamentin höfðu þar að auki ýms önnur störf á hendi, og gjörðum þeirra voru eigi sett nein glögg takmörk. Það bar einatt við, að stjórnin greip fram fyrir hendur þeirra og beitti við þau miklu gjörræði, en hins vegar beittu þau oft valdi sínu á móti, þegar um löggjöf eða ýmsar ráðstafanir stjórnarinnar var að ræða. Til þess að lög og skattakvaðir gætu öðlazt gildi, varð að rita þau í bækur parlamentanna; en þau neituðu því standum, og leyfðu eigi að lögin væru rituð í þær; kom þá til þverúðar með þeim og stjórninni. Konúngur beitti ofríki, lèt taka parlaments-dómendur höndum, og setja í dýflissur eða reka í útlegð; parlamentin lýstu yfir mótmælum sín-

1) Sbr. Miðaldasöguna bls. 30 og víðar.

um, bönnuðu embættismönnum, er undir þeim stóðu, að hlýðnast þeim lögum konúngsins, er um var að ræða, og öll dómsmál varð að stöðva. Á síðustu árum Loðvíks fimtánda lagðist parlamentið í París niður eftir boði stjórnarinnar, og aðrir dómar voru settir í þess stað, stjórninni alveg háðir. Loðvík sextándi kom parlamentinu aftur á fót, jafnskjótt sem hann var kominn til ríkis.

En hvað olli því, að parlamentin voru svo óháð stjórninni og gátu sýnt henni svo mikla mótspyrnu? það var svo varið, að parlamentsdómendur höfðu keypt embætti sín, eins og þá var almennt siður á Frakklandi, að flest embætti gengu þar kaupum og sölum. Þar hafði myndazt eins konar *embættis-aðall*, og af því að hann var undanþeginn öllum hinum þýngstu skyldukvöðum, leituðust efnaðir borgamenn og bændur við, að koma sonum sínum í þann veg. Stjórnin seldi öll embætti, og kom á ýmsum nýjum, til þess að hafa af stundarábata. Þeir, sem sátu í hinum æztu embættum, seldu þau embætti er undir þá lutu, og hinir sem keyptu unnu aftur það, sem þeir höfðu orðið úti að láta, upp á öðrum. Gjörræði embættismanna keyrði úr öllu hófi, og enginn var óhultur um sig, eða eigur sínar; menn voru sviftir frelsi og settir í höft án dóms og laga. Svo er sagt, að um daga Loðvíks fimtánda, hafi þannig verið teknar 150,000 manna og varpað í dýflissur; sátu margir þar svo árum skifti og sumir alla æfi, án þess að vita hvað þeir höfðu til sakar unnið.

Hinn *gamli aðall* hafði mist mikið af þeim völdum, er hann hafði haft á lènsdrottna-öldinni, en þó hèlt hann enn eftir mörgum einkarèttindum. Aðalsmenn voru undanþegnir öllum hinum þýngstu skyldusköttum; þeir einir gátu orðið yfirmenn í herliðinu, þeir höfðu ótakmarkaðan veiðirètt og ýms önnur rèttindi, til ómetanlegs skaða fyrir alþýðu manna á landsbygðinni; þeir sýndu embættismönnum, borgurum og bændum fyrirlitníngu, en auðmýktu sig á allar lundir fyrir konúngi og konúngsmönnum, sátu í París öllum stundum eða í *Versailles*, er á þeim tímum var aðsetursstaður konúngsins. Hugur þeirra var allur í höfuðborgunum, þar sem glaumur og gleði og alls konar munaður átti heima, en á búgörðum sínum á landsbygðinni höfðu þeir sem sjaldnast lánga viðdvöl, og þeim stundum, er þeir sátu

þar, var mestmegnis til þess varið, að kúga fè af landsetum sínum til þess að geta sóað því út aftur í borgunum eða við hirðina. Vitaskuld er það, að sumir aðalsmenn voru öðruvísi lyndir, einkum í vestari hluta Frakklands; þar sátu þeir á búgörðum sínum, lögðu stund á akuryrkju og reyndust landsetum sínum sem góðir feður. En, slíkir menn voru undantekning frá aðalreglunni.

Í flestum sveitum landsins átti *bændalýðurinn* við verstu kjör að búa. Að vísu voru bændur að nokkru leyti betur farnir en á fyrri tímum, og margir þeirra voru jarðeigandi; en sá þriðjúngur af öllum jarðeignum á Frakklandi, er var bændaeign, var sundurskiftur í svo smáa jarðarskika, að á þeim varð ekki búið til nokkurra muna. Það mátti varla heita bændabú, heldur að eins húsmenska. *Tveir þriðjúngar jarðagózins voru eign klerka, aðalsmanna og ríkra borgara.* Helmíngurinn af því jarðagózi er nú kominn í eigu ótal margra smærri jarðeigenda, er mynda eins konar meðalstètt; en á undan stjórnarbyltíngunni var sú meðalstètt á landsbygðinni ekki til. Auðmennirnir (klerkar, aðalsmenn og ríkir borgarar), sem áttu stórar lendur, skiftu þeim sundur og bygðu þær ótalmörgum smábændum, með svo dýrum leigumála, að varla varð undir risið; venjulega gekk helmíngur alls þess, sem ábýlið gaf af sèr, í hendur landsdrottins. Býlin komust þess vegna í vanhirðíngu og órækt, því að bændur urðu að leita sèr viðurværis og atvinnu á einhvern annan hátt en að yrkja ábúðarjörð sína. Akuryrkjan í landinu var fyrir þá sök í svo miklu ólagi, að menn segja, að ágóði hennar hafi þá ekki verið nema þriðjúngur til móts við það, sem hann er nú á dögum. Bændur máttu ekki mala korn sitt, nema í mylnum höfðíngjanna, ekki eyða illgresi á ökrum sínum, er dýr og fuglar hændust að, til þess að stygð kæmi eigi að þeim, og höfðíngjar ættu því hægra með að veiða þau, en þeir einir máttu veiða. Þótt úlfar yrðu svo nærgöngulir, að þeir dræpu börn fyrir bændum, máttu bændur ekki veiða þá og fengu enga bót skaða síns eður harma. Húsakynni bænda voru lítil og ljót og aðbúnaður allur að því skapi, menntun því nær engin; það var sjaldgæft að finna þann bónda, er kynni að lesa og skrifa.

Verzlun og iðnaður var í sömu niðurlægíngu sem akuryrkja,

og ýmsum böndum og álögum háð; sultur og seyra gat átt sèr stað í einum hluta ríkisins, þótt allsnægtir væru í öðrum. Skattar lágu einkum á hinum fátæku, og voru vægðarlaust af þeim krafðir. Tollarnir voru afarháir og spiltu öllum verzlunar viðskiftum manna, og þar af leiddi, að menn leyndu vöruflutníngum sínum fram og aftur og verzluðu í laumi. Menn voru settir til, svo þúsundum skifti, að hafa gát á slíkri launverzlun, ótal margir teknir fastir og settir í fángelsi. En þegar nú þannig var ástatt nálega í öllum greinum, þá ræður að líkindum, að tekjur ríkisins hafi skort mikið á til þess að geta jafnazt við útgjöldin, einkum þegar ógrynni fjár gekk til hirðarinnar, og fjárhag ríkisins var stýrt af lítilli fyrirhyggju. Ríkisskuldirnar jukust því stórum ár eftir ár.

Af því, sem hèr hefir verið sagt, má ráða, að ekki hafi hagur manna á Frákklandi verið glæsilegur um þær mundir. Menn voru líka almennt farnir að sjá, að svo var, enda höfðu ýmsir *rithöfundar* gjört sitt til, að opna augun á almenníngi, og sýna fram á, að svo búið mætti eigi lengur standa. Fæstir af rithöfundum þessum voru miklir stjórnvitríngar, og þeim kom eigi til hugar að ráða bót á vandræðum þjóðarinnar með hægum og lagfærandi endurbótum, en þeir vildu, hver á sinn hátt, kollvarpa öllu því sem þá var og *mynda nýtt þjóðfèlag, er væri bygt á jafnrètti og lögum skynseminnar*. Einkum rèðu þeir í ritum sínum á klerkastèttina og höfðu þar í fylgi með sèr flest stórmenni hinnar veraldlegu stèttar. En árásir þeirra gegn katólsku kirkjunni og klerkum hennar snerust sèr tíðum móti sjálfri hinni kristnu trú, og leiddu menn beinlínis til sjálfbyrgíngskapar í trúarefnum og til guðleysis, og það var villan verri. Hins vegar kom fæstum af rithöfundum þessum til hugar að takmarka og því síður kollvarpa konúngdómnum; það var einmitt öflugt og vel mentað konúngsvald, sem átti að koma hinu nýja sköpulagi, hinni nýju endurbót, á allt þjóðfèlagið. Það er og sannast að segja, að þær litlu endurbætur, er gjörðar höfðu verið, þær hafði stjórnin gjört, en hvorki þíngin eða parlamentin; þau vildu helzt halda öllu í gamla horfinu. Nafnkendastur af þeim rithöfundum, er höfu kenníngar sínar móti aldarhættinum og einkum móti kirkjunni en eigi konúngsvaldinu, var *Voltaire*[1].

1) Sbr. Nýju sögunnar III. hefti, bls. 65—67.

Hann og þeir, er fetuðu í hans fótspor, gjörðu gys að öllu því, er heilagt hafði verið haldið til þeirra tíma, og fyrir þá sök, að rit þeirra voru að öðru leyti samin af mikilli snild, þá fengu þau hin mestu áhrif á hugarfar hinna mentuðu manna. Sumir af rithöfundum þessum tóku aðra stefnu, og sneru sèr fremur að landsstjórn og skipulagi borgaralegs fèlags, og það voru þeirra kenníngar, sem einkum komu fram í stjórnarbyltíngunni, og menn vildu þá sýna í verkunum. Til þeirra rithöfunda má telja *Montesquieu*, er mælti fram með takmarkaðri konúngsstjórn, eins og átti sèr stað á Englandi. Kenníngum hans fylgdu hinir helztu og mentuðustu menn á fyrstu árum stjórnarbyltíngarinnar. En *Rousseau* var þó sá maður, er fremur öllum öðrum skapaði hinn nýja aldarhátt og kveikti hjá mönnum allar þær sterku frelsis- og jafnrèttis hugmyndir, er brutust fram með svo mikilli ákefð í stjórnarbyltíngunni. Rousseau kendi meðal annars, að frá náttúrunnar hendi, frá öndverðu, hefðu allir menn verið jafnir, og enginn mannamunur átt sèr stað, enda hefði þá hagur þeirra verið beztur; það væri upphaf niðurlægíngar og spillíngar mannkynsins, er það hefði gengið í þjóðfèlag, og ríki hefðu myndazt, þess vegna ættu menn, að svo miklu leyti unt væri, að komast aftur í hið upphaflega sakleysis og sælu ástand; hjá þjóðinni allri í heild sinni, en ekki hjá ríkisstjórninni, væri einveldið, og hin einvalda þjóð ætti eigi að trúa kosnum mönnum fyrir löggjafarvaldinu, heldur ætti hún sjálf að framkvæma það beinlínis; hafi þjóðin fengið einhverjum einstökum valdið í hendur, geti hún tekið það aftur, hvenær sem henni sýndist; það sem hinir kosnu menn hafi samþykt, það sè ekki lög fyr en öll þjóðin hafi staðfest það. Frelsið geti því í raun og veru einúngis átt heima hjá smáum þjóðfèlögum, þar sem öll þjóðin geti oft átt fundi með sèr; þetta hafi að miklu leyti átt sèr stað hjá hinum smáu lýðveldum í fornöld. Rousseau þótti viltar þjóðir, t. a. m. Indíanar og fl., lifa sælla lífi, því að stjórn og mentun hefði enn eigi leitt þær á afvegu, og bannað þeim að lifa samkvæmt eðli þeirra og upphaflegum fýsnum.

Lýðurinn, sem mist hafði sjónar á sannri trú og siðalærdómi, tók þessum og þvílíkum kenningum með tveim höndum. Þær voru honum nýr gleðiboðskapur, þaðan væntu menn frelsisins. Aldarhátturinn var orðinn truflaður og tryltur; hver

höndin var upp á móti annari. Hirðin, aðallinn, parlamentin og klerkarnir báru sakir hverir á aðra, kendu hverir öðrum um alt ilt og spiltu það þeir kunnu hverir fyrir öðrum. Alls staðar heyrðist talað um bágindi alþýðunnar og um það, hver ráð væru til þess að bæta hag hennar. Þetta heyrði þjóðin og sá. Það vakti vonir hennar, er ýmsir af æðri stètta mönnum tóku málstað hennar, en að því skapi sem vonir manna vöknuðu, kviknaði einnig hatrið. Þannig var ástatt á Frakklandi þá er *Loðvík sextándi* kom þar til ríkis (1774).

Ríkisstjórn Loðvíks 16. á undan stjórnararbyltíngunni (1774—1789).

Frakkar voru fyrir löngu orðnir leiðir á Loðvíki fimtánda, og þegar hinn gamli og dáðlausi konúngur leið undir lok, fögnuðu menn sonarsyni hans, hinum únga konúngi, eins og allar nauðir væru á enda og ný gullöld væri upp runnin. Og sá fögnuður var eigi ástæðulaus, því að hèr var allmikill munur á mönnum. Loðvík fimtándi hugsaði eigi um annað en að seðja girndir sínar, Loðvík sextándi hafði allan vilja og viðleitni á, að gegna skyldum sínum; hann vildi þegnum sínum alt hið bezta, en hann vantaði því miður marga þá kosti, er konúngar mega sízt án vera. Hann var óhöfðínglegur ásýndum og í allri framgöngu, og hafði ekki lag á því, að vekja hjá mönnum lotníngu fyrir sèr, eða gjöra þá sèr að vinum. Numið hafði hann ýmislegt, en sízt það, er helzt gat komið honum að haldi sem þjóðhöfðíngja, eða gjört hann hæfan til ríkisstjórnar. Hann hafði mesta vantraust á sjálfum sèr, og þótt hann sæi álengdar hið sanna og rètta, og vildi feginn ná því, þá gat hann það eigi sökum kjarkleysis, ef þeir, sem í móti stóðu, höfðu nokkur hyggindi og nokkurn dug til að bera; þess vegna varð alt hans ráð á reiki. Þó honum tækist stundum að fá góða og dugandi ráðgjafa, gat honum eigi orðið haldsamt á þeim, því að; ef þeir vildu koma einhverju góðu til leiðar, sem hirðinni og höfðíngjunum var í móti skapi, þá stóðu ráðgjafarnir einir uppi, og áttu ekki liðs að vænta hjá konúngi. Drotníng Loðvíks sextánda hèt *María Antonetta,* dóttir Maríu Teresíu, hinnar nafnkendu keisaradrotníngar, er deildi við Friðrik annan um Slesíu, og systir þeirra bræðra, Jósefs annars og Leópolds annars, Austurríkiskeisara.

Hún var í sumum greinum eigi ólík móður sinni, og hafði án efa ýmsa góða kvennkosti til að bera, en af því að hún vildi hafa alt sem rausnarlegast og skrautlegast, hvað sem fjárhagnum leið, og fylgdi fremur tilfinníngum sínum en hygginna manna ráðum, en konúngur mátti ekki gjöra neitt á móti vilja hennar, þá hafði hún fremur ill en góð áhrif á hann og hans ríkisstjórn. Það bætti heldur ekki um, að Frakkar trúðu henni illa, af því að hún var komin frá Austurríki og þeirri þjóð, er um lángan aldur hafði deilt illdeildum við Frakka.

Á öndverðum ríkisárum Loðvíks sextánda, var sá maður æzti ráðgjafi hans (General-Kontrolör), er *Turgot* hèt, afbragðsmaður bæði að vitsmunum, góðgirni og framkvæmdum, og ef nokkur hefði verið fær um, að laga það friðsamlega sem laga þurfti, og afstýra stjórnarbyltíngunni, þá var Turgot það. En jafnskjótt sem hirðinni, aðlinum, parlamentunum og ýmsum öðrum, þótti hann hreyfa við sèrstökum hagsmunum þeirra og einkarèttindum, risu þeir allir upp og gjörðu hinn mesta storm í móti honum. Konúngur stóð með ráðgjafanum fyrst framan af, dáðist að framkvæmdum hans og lèt sèr oft þau orð um munn fara: «eg og Turgot erum hinir einustu vinir þjóðarinnar». En er frá leið, gjörði konúngur það að vilja þeirra, að hann vèk Turgot frá völdum, og með honum fèllu þá um koll flestar þær endurbætur, er hann hafði til leiðar komið, og alt komst aftur í hið gamla horf.

Nú gekk svo um hríð; fjárhagur ríkisins fór versnandi dag frá degi, og um síðir varð eigi hjá því komizt, að fá einhvern þann mann, er afstýrt gæti hinum bráðustu vandræðum. Maður hèt *Necker*, þjóðverskur að ætt, en borinn og barnfæddur í Genf. Hann var auðmaður mikill, manna kænastur við alla fjárstjórn og hafði mikið orð á sèr; Colbert, hinn nafnkendi ráðgjafi Loðvíks 14., var hans fyrirmynd, eins og Turgot hafði tekið sèr Sully[1] til eftirdæmis. Nú var Necker fenginn (1777) til að taka að sèr stjórn fjármálanna, en að svo stöddu fèkk hann þó eigi setu í ráðinu eða ráðgjafa tign, fyrir þá sök, að hann fylgdi prótestanta trú, heldur varð hann að eins umsjónarmaður ríkisfjárins. En þó svo væri, báru menn svo mikið traust til hans, að honum varð alls staðar gott til fjár þar sem

1) Sjá Nýju sögunnar I. hefti, bls. 124.

hann leitaði þess, því að allir vildu honum lána; streymdi nú drjúgum fè í ríkissjóðinn, enda þurfti mikils við, því um þær mundir (1778) skárust Frakkar í lið með Norðuramerîkumönnum móti Englendíngum, og kostuðu til þeirrar útgjörðar ærnu fè. Vèr höfum áður minzt á frelsisstríð Norðuramerîkumanna, og skulum því eigi orðlengja um það hèr, en að eins geta þess, að sá ófriður átti eigi lítinn þátt í því, að breiða út frjálslegar og þjóðstjórnlegar hugmyndir á Frakklandi og innræta mönnum óbeit á konúngsvaldinu. Það var því bæði hnittilega að orði kveðið og ekki fjarri sanni, er kona ein sagði við Vergennes greifa, einn af ráðgjöfum Loðvíks 16. Það gekk um þær mundir áköf kvefsótt (*Influenza*) á Frakklandi, og varð greifanum það að orði, að sóttin (Influenza) mundi vera komin frá Rússlandi. Þá mælti konan: «áður en lángt líður, munum vèr fá frá Norður-Ameríku aðra sótt og hana nýja, er heitir «*Independenza* (þ. e. sjálfræði)». Menn fengu nú að sjá og heyra, að það var framkvæmt í verkinu vestur á Ameríku, er rithöfundarnir á Frakklandi höfðu kent í bókum sínum, og úngir menn og eðli bornir, er farið höfðu vestur um haf af Frakklandi til þess að berjast fyrir frelsi Ameríkumanna, og fengið þar gott orð, vildu ekki vera atkvæðalausir í alþjóðlegum málefnum, er þeir voru komnir heim aftur, og helztur og fremstur á meðal þeirra var hinn ríki og göfugi hershöfðíngi *Lafayette*, er bæði var frægur orðinn af framgöngu sinni og allra manna vinsælastur. Lýðveldismaðurinn Benjamín Franklín, er hafði aðsetu á Frakklandi svo árum skifti, var í mestu metum hjá öllum höfðíngjum í Paris, og hafði mikil áhrif á alla er við hann kyntust. Margt hjálpaðist þannig að, til að snúa hugum manna að lýðveldisstjórn en gjöra þá konúngsvaldinu fráhverfa.

Því meira fè sem eyddist til amerîkanska stríðsins, því meiri þörf var á að spara sem mest önnur útgjöld ríkissjóðsins á Frakklandi. Necker vissi það manna bezt, og hagaði störfum sínum samkvæmt því. En er hann vildi, að meiri sparnaður væri við hafður, þá vakti það megna óánægju meðal hirðmanna, og er hann vildi auka tekjur ríkisins með ýmsum tilbreytíngum eða nýjum álögum á hinar æðri stèttir, þá mætti hann frá þeim öllum hinum sama mótblástri, sem Turgot hafði mætt. Það fór því á sömu leið sem fyr, Necker varð eigi við vært og varð

að víkja úr völdum (1781). Aðrir komu í hans stað, en ekki batnaði fjárhagurinn fyrir það. Sama árið sem friðurinn komst á milli Englendínga og Frakka (1783), varð sá maður fjárhagsstjóri Loðvíks konúngs, er *Calonne* hèt, allvitur maður og úrræðagóður, en eigi svo vandur að meðölum sem skyldi. Hann hèt konúngi og hirðinni öllu fögru, og taldi mönnum trú um, að hèr væri engin hætta á ferðum, menn skyldu engu kvíða og ekki horfa í skildínginn, því að einka ráðið, til þess að fá á sig ríkismanns orð og geta haldið lánstrausti, væri, að hegða sèr í öllu eins og nóg væri fè fyrir hendi. Þessu ráði var fylgt, alt var haft í sukki, og svo liðu 3 árin. En þá var og lánstraustið á enda, hvergi fekst fè til leigu, en allar fjárhirzlur tómar. Nú var úr vöndu að ráða. Eigi dugði að auka skatta á alþýðunni. Eina ráðið var að mínka útgjöldin, og, dygði það eigi, þá að leggja skatta á aðalsmenn og klerka. En þá rak aftur að því, er þeir Turgot og Necker höfðu áður reynt, en báðum orðið hált á. Fyrir því kom Calonne til hugar, að leita samþykkis hvorratveggja, bæði aðalsmanna og klerka, og til þess að þetta gæti orðið framgengt, fekk hann konúng til að ákveða *höfðíngjafund* (*Notabler*). Fundarmenn þessir komu saman í Versailles 1787, á öndverðu ári, og voru alls 148 manns, að eins 8 af borgarastètt, en hinir 140 aðalsmenn og klerkar. Sýnir það ljóslega, hvernig stjórnendur og stórhöfðíngjar á þeim tímum virtu lítils hinar lægri stèttir, og þó mátti gánga að því vísu, að einmitt þær mundu styrkja stjórnina til þess, að af nema ýms órèttindi og koma á meiri jöfnuði milli manna, eins og stjórnin hafði þá hugfest. Þegar nú fundarmenn tóku til starfa, kom það fram sem áður, að höfðíngjar vildu eigi láta hreyfa við einkarèttindum sínum, og ekki leggja neitt í sölurnar til almenníngs heilla, þó sögðu þeir það ekki með berum orðum, heldur brugðu hinu við, að þeir bæru ekki traust til Calonne, og vildu ekki til slaka, meðan hann sæti að völdum; varð hann því að leggja þau niður það hið sama ár.

Erkibyskup Brienne af Toulouse hafði lengi viljað komast í ráðgjafasess, og komst það nú; en þó hann hefði verið hinn helzti af mótstöðumönnum Calonne, sá hann eigi annað ráð vænna, en bera fram allar hinar sömu tillögur, sem formaður hans í embættinu hafði gjört. Parlamentið samþykti og sumar

af þeim, en undan hinu skoraðist það, að skrásetja í bókum sínum hin nýju lagafrumvörp um almenna skatta. Þó var nú svo komið, að parlamentið sá sèr eigi lengur fært, að halda í hin fornu einkarèttindi, og lèt því í veðri vaka, að *ríkisstèttirnar* einar (þ. e. umboðsmenn allra stètta á einu allsherjarþíngi) hefðu vald til að samþykkja nýja skatta. Þetta þótti stjórninni ógnarlegt bragð, og lenti nú í hörðum deilum við parlamentið, eins og oft hafði áður átt sèr stað. Urðu nú viðsjár miklar með mönnum, og mátti kalla að færu dagvaxandi, svo að Brienne þorði eigi annað en slaka til — því að ráðgjafatigninni vildi hann halda til lengstra laga — og gefa alþýðunni vonir um, að stefnt mundi verða til allsherjarþíngs. Þó vildi hann eigi kveða skýrt á um það, hvenær eða hversu því máli skyldi til haga, en í þess stað skoraði hann á alla hina vitrustu menn þjóðarinnar, að þeir kæmi fram með tillögur sínar þar að lútandi. Þetta var því líkast, sem eldi væri hleypt í tundur, og, að því er Brienne sjálfan snerti, hafði hann engan hag af því; hann varð eigi fastari í sessi fyrir það, og varð að segja af sèr embættinu litlu síðar (1788), er hann gat eigi safnað svo miklu fè saman, sem við þurfti.

Nú var Neckers leitað í annað sinn, og nú varð hann ráðgjafi konúngs. Var honum tekið með miklum fögnuði, því að allir báru hið bezta traust til hans. Brienne hèlt við ofsóknum, og í París urðu óspektir því nær á hverju kveldi, án þess að valdstjórnin hefði dug í sèr til að bæla þær niður. Skríllinn fjölgaði þar óðum, því að margir óreiðumenn streymdu þángað utan af landi, er engu höfðu fyrir að fara, en gjörðu sèr von um höpp og herfáng í borginni. Þannig bættist þessi nýi ófögnuður ofan á öll önnur vandræði stjórnarinnar. Necker fekk konúng til að ákveða, að innan skamms tíma skyldi hið áðurnefnda *allsherjarþíng* verða sett, en nú greindi menn á um það, hvort því skyldi til haga eftir fyrri daga venju, eða eftir seinni tíma þörfum. Árið 1614, þá er hið síðasta alsherjarþíng var haldið, hafði hver af þeim þrem stèttum setið sèr á ráðstefnum, en þó borgarastèttin hefði verið þar fjölmennust, hafði hún samt sem áður ekki haft nema eitt atkvæði móti tveim atkvæðum hinna stèttanna (klerka og aðalsmanna).

Um þessar mundir komu út á prenti ótalmargir smáritlíng-

ar og var í flestum þeirra krafizt, að borgarastèttin sendi eins marga menn á þíngið, eins og báðar hinar tvær til samans, og allar þrjár skyldu sitja í einni málstofu, en ekki sín í hverri eins og að fornu hefði verið. Stjórnin fèlst reyndar á hið fyrra atriðið, en að hinu síðara vildi hún eigi gánga að svo stöddu, og var þó mest undir því komið að þetta fengist, því að ekki dugði höfðatalan án þess, þegar til atkvæðanna kom. Við þetta harðnaði deilan, ritlíngarnir, sem drifu að úr öllum áttum, skiftu þúsundum; einn þeirra var saminn af ábóta einum, er *Sieyès* hèt, djúpvitrum manni. Hann setti þar fram þær spurníngar: «hvað er hin þriðja stèttin?» og hann svaraði: «ekkert». «Hvað á hún að vera?» «alt». Ritlíngur þessi hafði meiri áhrif á alþýðu manna, en orðum verði að komið. Það var eins og hún vaknaði af svefni; enda var þess skamt að bíða, áður upphlaup yrði og barátta með mönnum einkum vestur á Bretagne. Þar á ofan bættist allmikið harðæri, því að uppskera varð lítil í landinu sumarið 1788, og vetur hinn næsti þar á eftir 1788—1789 var svo harður, að enginn hafði slíkur komið á Frakklandi síðan 1709[1]. Það var því ekki eitt, heldur alt, er veittist að til þess að óspekja menn og æsa og flýta fyrir stjórnarbyltíngunni. Konúngur gjörði í þetta sinn að vilja þjóðarinnar, og kvað svo á, að tala þíngmanna skyldi vera 1200, skyldi þriðja stèttin (þ. e. aðrir en aðalsmenn og klerkar) kjósa helmíng (600), en af hinum helmíngnum skyldu aðalsmenn kjósa 300 og klerkar 300. Hins vegar hugði konúngur, að hafa gagn af þriðju stèttinni, svo mannmargri sem hún var, til þess að lægja drambið í aðalsmönnum og klerkum þá er til þíngs kæmi, og þrýsta þeim þannig til að láta nokkurt fè af hendi rakna til ríkisins þarfa. Kosníngar þíngmanna urðu sums staðar ærið róstusamar en alls staðar voru þær fjörugar og með miklum áhuga sóttar af kjósendum. Ýmsir af þíngmönnum hinnar þriðju stèttar voru mestu afbragðsmenn þjóðarinnar að vitsmunum og dugnaði; mátti einkum telja þá *Sieyès* ábóta — er fyr var nefndur — og *Mirabeau* greifa sem framúrskarandi þíngmenn. Mirabeau var af ítölskum ættum og fæddur suður í Provence. Hann var geðríkur, tápmikill og ódæll, og gæddur frábærum námsgáfum. Faðir hans beitti við hann óeðlilegri hörku á upp-

1) Nýja sagan, II. hefti, bls. 75.

vaxtarárum hans, og þess vegna hataði hinn úngi maður alla kúgun og varð svarinn óvinur allrar harðstjórnar, hver sem í hlut átti, hvort heldur stjórnin, aðallinn eða aðrir menn. Hann hafði oft átt hörðu að mæta, setið í dýflissum, verið dæmdur til dauða og lifað í útlegð. Þótt hann væri aðalsmaður vildu aðalsmenn eigi kjósa hann, — heldur en klerkarnir Sieyès — því að bæði þótti þeim hann gjöra stètt sinni minkun og þar á ofan vera helzt til frjálslyndur; þess vegna varð hann þíngmaður borgarastèttarinnar suður í Provence. Mirabeau var hinn stjórnvitrasti maður og allra manna málsnjallastur, og svo er sagt, að hefði nokkrum manni, er þá var uppi á Frakklandi, verið fært að laga það sem laga þurfti og koma stjórnarbótinni í viðunanlegt horf, þá hafi hann verið það; en hèr var bæði, að hann lifði svo skamma stund, og svo hitt, að konúnginn skorti bæði hyggindi og þrek til að þekkjast ráð hans og fylgja þeim, meðan þeirra naut við. Hinar æðri stèttir (aðalsmenn og klerkar) kusu ýmsa menn á þíng, er gengu í lið með alþýðunni, eins og t. a. m. *Lafayette* hershöfðíngja, *Talleyrand* byskup, hinn nafnkunna stjórnfræðíng, og *Filippus* hertoga af Orleans — föður Loðvíks Filippusar Frakkakonúngs frá 1830—1848. Hertoginn var stórauðugur maður, en að öðru leyti þótti hann ærið óhlutvandur og til alls búinn. Hann gekk í lið með alþýðunni til þess að hefna sín á drotníngu og hirðinni, er hann þóttist eiga fyrir grátt að gjalda.

## Stjórnarbyltingin.

### I. Frumlagaþíngið. *(Den grundlovgivende Forsamling)*. (frá 5. maí 1789 til 30. sept. 1791).

Hið fjölmenna þíng var sett í Versailles, aðsetursstað konúngs, 5. dag maímán. 1789. Þángað hafði streymt múgur og margmenni til þess að sjá alla þá dýrð, er þeir 1200 þíngmenn gengi til kirkju og hlýddu helgum tíðum áður tekið væri til starfa. Fyrst komu 600 manna, svartklæddir, það var borgarastèttin; þá 300 aðalsmanna í flöjelskápum settum gulli og kniplíngum með fjaðrahatta á höfðum; og síðast 300 klerka, sumir í glæsilegum byskupsskrúða, en allflestir í svörtum prestshempum. Mátti af því sjá, að hinir fyrri voru af aðalsmanna eða

stórhöfðíngja flokki, en hinir síðari af alþýðuflokknum. Konúngur setti þíngið með ræðu, en Necker skýrði frá fjárhag ríkisins og sagði hann betri en hann reyndar var, og kvaðst hann treysta því, að aðalsmenn og klerkar mundu vilja láta laus ýms af einkaréttindum sínum, til þess að bæta efnahag þjóðarinnar, en ekki bar hann upp beinar tillögur í þá átt, heldur lèt það vera undir þínginu komið.

Nú tóku þíngmenn til starfa, þó ekki allir á einum stað, heldur hver stètt út af fyrir sig. Þíngmenn alþýðuflokksins (þriðju stèttar menn) vildu, að þíngmenn ynnu allir í sameiníngu, í einni málstofu, en hinar stèttirnar (aðall og klerkar) vildu það með engu móti, heldur hitt, að þíngið væri þrískift, því að á þann hátt gátu atkvæði þeirra tveggja mátt sèr meira en atkvæði hins eina alþýðuflokks, þó hann væri mannfleiri. Um þetta voru menn að þrefa þángað til 17. dag júnímánaðar, að Sieyès lagði það til, að þriðja stèttin skyldi lýsa yfir því, að hún væri *þjóðþíng* (*Nationalforsamling*), eða með öðrum orðum: *fulltrúar hinnar frakknesku þjóðar*, og var sú tillaga samþykt. Jafnframt þessu var nú einnig af ráðið, að þíngið byrjaði þá þegar á ætlunarverki sínu, sem var í því innifalið, að ráða bót á vandkvæðum hinnar frakknesku þjóðar með nauðsynlegum lagabreytíngum. Samþykti nú þessi þíngdeild ýms lagaboð, er sýndu að henni var full alvara, en lèt þess þó getið, að bæði aðalsmenn og klerkar væru velkomnir, hve nær sem þeir vildu koma og gánga í lið með sèr.

Nú fór stjórninni og stórhöfðíngjum ekki að lítast á blikuna. Stjórnin sá nú um seinan, að hún hafði ekki látið til sín taka sem þurfti; hún sá, að þjóðin hafði nú beinlínis tekið fram fyrir hendur á konúngi og sett sitt einveldi í staðinn fyrir hans. Necker vildi miðla málum, og koma á tvískiftu þíngi, og haga flestu líkt því sem var á Englandi; en fekk því eigi fram komkomið fyrir konúngsmönnum, er á allar lundir vildu brjóta á bak aftur og bæla undir sig alþýðuviljann, enda rèðu þeir konúngi, að hann skyldi kalla allar þíngdeildir á einn aðalfund, og kunngjöra þeim þar það, er hann vildi vera láta. Hinn 20. dag júnímánaðar ætluðu þjóðdeildarmenn (eða þriðju stèttar menn) að halda fund þar sem þeir voru vanir, en er þeir komu þángað, voru þar vopnaðir menn fyrir, er ráku þá burt þaðan og

sögðu, að enginn fengi þar inn að gánga fyrir þá sök, að verið væri að undirbúa aðalfund þann, er konúngur hefði boðað. *Bailly*, forseti deildarinnar, varð fyrir svörum, og kvað þíngmenn þá mundu halda fund sinn á öðrum stað. Sneru þeir þá þaðan og settust á ráðstefnu í öðru húsi, er nefnt var *knattleikahús* (*Boldhus*), og var ákaflega stórt. Þar urðu þíngmenn ásáttir um, að skiljast eigi fyr hverir við aðra, en þeir hefðu komið stjórnarskipun ríkisins á fastan fót, og unnu eiða að því.

Meðan þetta gjörðist, hafði meiri hluti klerkadeildarinnar af ráðið, að gánga í lið og á þíng með þjóðdeildarmönnum. En greifinn af *Artois*,[1] ýngri bróðir Loðvíks sextánda, fyrirbauð þíngmönnum að halda fundi í knattleikahúsinu, því að hann kvaðst sjálfur þurfa á því að halda, til sinna skemtana. Hèldu þá þíngmenn, bæði alþýðudeildin, þeir af klerkum, er gengið höfðu í lið með henni, og nokkrir af aðalsmönnum, er við höfðu bæzt, fundi sína í kirkju einni þar í borginni (Versailles). Hinn 23. dag júnímán. hèlt konúngur hinn ákveðna aðalfund með þíngmönnum. Flutti konúngur ræðu og fór þúngum orðum um þjóðdeildarmenn og aðgjörðir þeirra, og kvað það alt ógilt og marklaust, er þeir hefðu aðhafzt á fundum sínum, og að lyktum skipaði hann svo fyrir, að þíngið skyldi vera þrískift, hver deild á sínum stað. Að svo mæltu gekk konúngur af þíngi og aðalsmannadeildin og margir af klerkadeildinni, en hinir allir sátu eftir með þúngu skapi. En er hirðstjóri konúngs sá, að þeir sátu kyrrir, sneri hann sèr að forseta og mælti: «hafið þèr eigi heyrt, hvað konúngur bauð?» Bailly svaraði, að hann yrði fyrst að spyrja þíngmenn og vita, hverju þeir vildu svara. Mirabeau var þá sem oftar skjótur til svars, og mælti: «Hver leyfir yður að tala hèr? segið þeim, er yður hefir sent, að vèr sèum hèr samkvæmt vilja þjóðarinnar, og látum eigi reka oss út hèðan fyr en vopnin standa á oss». Hirðstjóranum leizt eigi að bíða og hrökk út úr salnum. Sieyès mælti þetta fyrir munni sèr: «vèr erum í dag það sem vèr vorum í gær; látum oss

---

1) Eldri bróðir Loðvíks sextánda hèt *Loðvík* (18), og var nefndur *greifi af Provence*, varð konúngur eftir Napóleon I. og dó 1824. Yngri bróðir Loðvíks 16. var *greifinn af Artois*, *Karl* (10.), er ríkti á Frakklandi frá 1824 til 1830, en var þá rekinn frá ríki og dó 1836.

halda áfram störfum vorum», — og svo var gjört. Tóku þíngmenn þá að ræða um framkvæmd ályktana þeirra, er þeir höfðu gjört undanfarna daga. «Hin fyrsta af ályktunum þessum, mælti *Barnave*,[1] hefir lýst yfir því hvað þèr eruð; hin önnur tilgreinir þá skatta, sem þèr einir hafið vald til að leggja á þjóðina; og hin þriðja er eiður sá, er býður yður að gegna rækilega skyldum yðar. Ekkert af þessu þarf konúngur að staðfesta, og það sem eigi þarf hans samþykkis við, það getur hann eigi bannað». Í þessu gengu vopnaðir menn í þíngsalinn og smiðir komu til þess að taka burt bekki þíngmanna, en þeir lètu sem þeir sæu það eigi og voru við sín störf; var þá tekið í lög, og lýst yfir — eftir tillögum Mirabeaus — að þíngmenn væru friðhelgir, en sá væri sekur um landráð, er bryti frið á þeim. Þegar konúngur var kominn til hallar sinnar, spurðu menn hann, hvað nú skyldi til ráðs taka. Hann mælti: «látum þá sitja kyrra í salnum úr því þeir vilja eigi fara þaðan». Sýnir þetta eitt með öðru, að konúngur var alt annað en fastur fyrir, ef honum var mótstaða veitt, svo harður og einbeittur sem hann hafði verið litlu áður, þá er hann talaði á þíngi; enda höfðu aðrir lagt honum þau orð í munn.

Þannig var nú hið fyrsta stig stjórnarbyltíngarinnar stigið. Þjóðdeildarmenn höfðu náð undir sig löggjafarvaldinu, en mótstöðumenn þeirra mist það, af því að þeir höfðu viljað halda því öllu og óskiftu. Að fáum dögum liðnum voru aðalsmenn þeir og klerkar, er lengst höfðu tregðazt við að eiga samsæti með þjóðdeildarmönnum, eftir áskorun stjórnarinnar gengnir í lið með þeim, og 27. dag júní-mánaðar var þingið alskipað öllum stèttum. En þetta er eigi þann veg að skilja, að stjórninni gengi gott til, heldur hafði hún eggjað aðalsmenn og klerka til þess, af því hún bjóst við, að þegar allar stèttir væru saman komnar á einu þíngi, þá mundi samlyndið versna, alt lenda í vafníngum, en ekkert verða framgengt af því sem framkvæma þyrfti, og þá ætlaði hún sèr að taka til sinna ráða og slíta þínginu með hermanna valdi. Hún hafði því ýms brögð í tafli, og sum, er konúngi voru alveg ókunn.

Stjórnin, eða þó öllu heldur ýmsir stórhöfðíngjar við hirð-

1) Úngur málafærslumaður frá Grenoble, mælskur vel og bezti drengur, tekinn af lífi 1793.

ina fengu því næst konúng til að safna liði og hafa það víg-búið í nánd við París og Versailles, og þegar það var fengið gjörðust hirðmenn djarfmæltari;. þóttust menn þá vita, að til nokkurra stórræða mundi stofnað. Necker var um það leyti vikið úr völdum og nokkrum öðrum ráðgjöfum, er þóttu helzt til þjóðhollir, en aðrir teknir í þeirra stað, sem hirðinni geðjaðist betur að. En er þessi tíðindi bárust til Parísar varð þar alt í uppnámi, því að Necker var þá enn átrúnaðargoð þjóðarinnar, og þegar hann var burtu, bjuggust menn við hallæri, borgara-stríði og öllu illu. Urðu þá til ýmsir framgjarnir menn og á-kafir, að æsa lýðinn í borginni, og telja honum trú um, að hirðin sæti á svikráðum við hann, og einu úrræðin væru að grípa til vopna og verja líf sitt og eignir. Við slíkar fortölur gjörði borgarlýðurinn uppreisn. Manngrúinn flyktist saman á strætum og krafðist vopna, og, fengjust þau eigi með góðu, voru vopna-búr brotin og alt það hrifsað, er að vopni gat orðið; urðu nú óspektir, meiðingar og manndráp. Meðan þessu fór fram, áttu kjósendur í borginni fund með sèr og skipuðu nefnd manna (*borgarráð*) til þess að hafa yfirstjórn borgarinnar á hendi, og þar að auki settu þeir *varðlið* eða *þjóðvörð* (*Nationalgarde*), bæði til þess að halda friði á og reglu í borginni, og svo til þess, að verjast árásum hirðarinnar. En þó þetta væri í sjálfu sèr vel og viturlega ráðið, var allur þorri manna orðinn svo óð-ur og uppvægur, að honum varð eigi haldið í skefjum. *Hinn 14. dag júlímánaðar* (1789) streymdi mannfjöldinn til kastala þess, þar í borginni, er *Bastille* nefndist. Var hann ákaflega sterkur og illa ræmdur, því að þángað höfðu löngum verið settir menn fyrir litlar eða engar sakir, og harðlega haldnir þar í dýflissum. Varð þar nú lítil vörn fyrir af hendi kastalaforingj-ans; tóku menn kastalann eftir stutta hríð, drápu foríngjann og liðsmenn hans flesta, og báru höfuðin á spjótsoddum sigri hrósandi um stræti borgarinnar. Eftir þessi hryðjuverk sefaðist borgarlýðurinn um stundarsakir; það var sem hann yrði mátt-minni er af honum gekk berserksgángurinn.

Nú víkur sögunni aftur til Versailles. Þíngmenn sátu á ráð-stefnu og höfðu jafnóðum fregnir af því er fram fór í París, því að skamt er í milli. Tóku þíngmenn það ráðs, að senda menn á konúngs fund og beiðast þess, að hann lèti herlið það,

er fyr var sagt að saman hefði verið dregið, fara í burt og í fjarlægð við borgina, til þess að eyða öllum grun og ótta borgarmanna. Konúngur færðist í fyrstu undan því, en eftir því sem tíðindin hörðnuðu frá höfuðborginni (*París*) og þíngið skoraði oftar á konúng, þá fór hann að mýkjast og hèt að verða við beiðni manna. Þegar þíngið sendi í síðasta sinn til konúngs, og mennirnir ætluðu að gánga úr þíngsalnum stóð Mirabeau upp og mælti til þeirra: «Segið konúngi, að í gær hafi prinsar og prinsessur, vinir þeirra og vinkonur gengið til fundar við þenna útlenda þorparalýð, sem látinn er umkríngja oss, sýnt honum alls konar ástaratlot, eggjað hann til framgöngu og gefið honum gjafir. Segið honum, að liðlánga nóttina hafi þessir útlendu leiguþjónar, gulli troðnir og víni fyltir, súngið ósvífin kvæði um undirokun Frakklands í þrældóm, og flutt þrumandi ræður um eyðileggingu þjóðþíngsins. Segið konúngi, að í sjálfs hans höll hafi hirðsnákarnir snúizt í ótal hlykki eftir þessum ófagra glaumi, og að einmitt svona hafi dansleikurinn verið stiginn á undan Bartholomeusnóttinni. Segið honum, að Hinrik fjórði, sá konúngur er allar þjóðir minnast til góðs, og sá af forfeðrum konúngsins er óskandi væri að hann tæki sèr til fyrirmyndar, að hann hafi látið flytja matvæli inn í París, þótt hún hefði snúizt til uppreisnar í gegn honum, og þótt hann sjálfur hèldi henni þá í umsátri; en að nú leggi hinir miskunnarlausu ráðgjafar konúngs hald á mjöl það, er kaupmenn vilja hjálpa hinni hlýðnu og húngruðu París um».

En í því er sendimennirnir ætluðu að fara, var sagt, að konúngur kæmi og fáir menn með honum. «Bíðið þá við,» mælti Mirabeau, «þángað til konúngur hefir kunngjört oss það, er honum býr í brjósti. Hið fyrsta sem hèr á að mæta konúngi í þessu áhyggjunnar augnabliki, skal vera þögul og stillileg lotníng: þögn þjóðanna er konúngunum kenníng».

Nú kom konúngur á þíng og bræður hans báðir með honum. Var hann hinn blíðasti í máli, kvaðst treysta þínginu hið bezta, og bað þá styrkja sig til allra góðra framkvæmda; herlið það, er menn hefðu mest óttazt, kvaðst hann hafa sent burtu. Var nú eigi annað að sjá og heyra, en að gott samkomulag væri milli hans og þíngsins. Sendi þíngið þegar sveit manna til Parísar, til þess að skýra þar frá málalyktum milli konúngs

og þíngmanna. Oddvitar sendimanna voru þeir Bailly og Lafayette. Var þeim vel fagnað í höfuðborginni, sem nærri má geta, því að tíðindin þóttu góð, er þeir færðu. Var Bailly gjörður að *borgarstjóra* í París, en Lafayette að *yfirmanni varðliðsins* er nú var nefnt *þjóðvörður*. Eins og nafnið bendir til, var það ætlunarverk þjóðvarðarins að vernda þjóðfrelsið. Liðsmenn þessir tóku fyrstir upp hið þrílita hermerki, er Frakkar hafa síðan borið: *blátt, rautt* og *hvítt*. Hafði París áður haft bláa og rauða litinn í merki sínu, en ríkið hinn hvíta. Annars staðar í ríkinu var sami siður tekinn upp, og sett þjóðvarðarlið í hverri borg.

Eins og áður er bent til, hafði hirðin verið mjög hrokafull, og hugsað, að sèr væru allir vegir færir, nú var hún orðin svo hrædd og huglaus, að hún bjóst við að á hverri stundu mundi koma her manns frá París og veita sèr aðgöngu. Greifinn af Artois, og nokkrir stórhöfðíngjar ásamt honum fóru nú af landi burt, og urðu þannig fyrstir í tölu hinna mörgu, er síðan gjörðu vont verra með því að flýja ættjörð sína og óðöl á ófriðarárum þeim, er hèr fóru á eftir. Bailly gjörði sèr ferð til Versailles til þess að hughreysta konúng, og gaf honum það ráð, að koma sjálfur til Parísar, og það þektist konúngur, þó drotníng hans og hirðin teldi hann af því á allar lundir. Litlu síðar fór konúngur til Parísar og 200 þíngmanna með honum. Var honum þar vel fagnað, enda var honum lèttara í skapi þá er hann sneri heim aftur til Versailles; en drotníng þóttist hafa heimt hann úr helju. Til þess að gjöra þjóðinni sem flest til geðs, var Necker kvaddur af nýju í ráðaneytið, en þeim ráðgjöfum vikið á burt, er hún bar ekki traust til. *Liancourt*, vinur konúngs og góðgjarn maður, varð forseti þjóðþíngsins í staðinn fyrir Bailly. Þannig mátti nú segja, að stjórnarbreytíngin væri til lykta leidd; löggjafarvaldið var komið í hendur þjóðarinnar, þar sem þingið var, og framkvæmdarvaldið var undir sjálfri henni komið, eins og nú hafði fyllilega komið í ljós, en konúngsvaldið var á fallanda fæti.

Tíðindi þau, er orðið höfðu í París 14. dag júlímánaðar, bárust á örstuttum tíma um alt Frakkland og höfðu mikil áhrif á hugi manna. Þótti flestum, sem nú væri lokið hinni grimmu harðstjórnaröld, er svo lengi hafði ríkt yfir þjóðunum, og að í

hennar stað væri runninn upp nýr frelsisdagur. En mörgum hinna hyggnari manna stóð mesti ótti af aðförum skrílsins í höfuðborginni, er berlega sýndu, að hann skeytti alls eigi um lög og landstjórn þegar svo bar undir. Þess var heldur eigi lángt að bíða áður óeirðir kviknuðu víðs vegar um landið. Bændalýðurinn reis upp í móti landsdrotnum sínum, neitaði öllum skyldum og sköttum, brendi til kaldra kola hallir þeirra og búgarða og fóru jafnvel hópum saman um ýmsar bygðir með manndrápum; var eigi annað sýnna, en að stjórnleysi eitt mundi ná yfirráðum á Frakklandi. Þjóðþíngið í Versailles var það eina, er við nokkuð gat ráðið, og nú var það ætlunarverk þess fyrst og fremst að friða landslýðinn og koma á fót nýrri stjórnarskipun. Þíngmenn sáu skjótt, að engin bót varð hèr á ráðin, nema því að eins, að það væri allt í burtu numið, er óánægjunni olli. Afleiðíngar þess, sem verið hafði, voru nú komnar í ljós. Vildu menn sporna við þeim eftirleiðis, var nauðsynlegt að uppræta orsakir þeirra. Þjóðlyndir aðalsmenn sáu, að það voru einkarèttindi stèttarbræðra þeirra, sem steypt höfðu alþýðunni í eymd og volæði og knúð hana til að brjóta af sèr alla fjötra; að öll sú óhamíngja, er nú dundi yfir þjóðina, hafði sín upptök þaðan, og að einu úrræðin voru, að segja að fullu og öllu skilið við forna landsvenju og fornt háttalag. Á fundi þeim, er þjóðþíngið átti *4. dag ágústmánaðar*, er um það var rætt, að skora á landslýðinn að hlýðnast lögunum þángað til þau yrðu numin úr gildi, lýstu tveir aðalsmenn, greifinn af *Noailles* og hertoginn af *Aiguillon* yfir því, að eina ráðið til þess að friða þjóðina væri, að *öll einkarèttindi aðalsins væri þegar í stað af tekin*. Þíngmenn gjörðu góðan róm að tillögum þessara ágætu manna, og á þeim sama fundi var það leitt í lög, að öll einkarèttindi aðalsmanna og klerka skyldu af numin, t. a. m. undanþága frá skattgjaldi, veiðirèttur, dómsvald landsdrotna, tíundarfrelsi o. fl.; borgir og hèruð sleptu einnig sínum sèrstöku rèttindum; bændur voru leystir af ýmsum kvöðum, er á þeim lágu; landsmenn allir fengu jafnan rètt til embætta, hvort heldur til borgaralegra valda eða hervalda. Öll þessi nýmæli og allar afleiðíngar þeirra voru hinir beztu og varanlegustu ávextir hinnar frakknesku stjórnarbyltíngar; allur hinn mikli og órèttláti mismunur, sem átt hafði sèr stað meðal þegnanna á Frakk-

landi, var nú fallinn um koll. En nú var eftir að setja annað nýtt í þess stað, og á meðan það vantaði var verkið að eins hálfunnið. Menn höfðu orðið vel ásáttir og samtaka, meðan verið var að rífa niður hið gamla; en þegar byggja skyldi upp aftur hið nýja, þá skiftust hugir manna, þá hófust flokkadrættirnir. Á þínginu greindust menn í þrjá flokka, og voru nefndir eftir sætum þeirra í þíngsalnum; *Hægrimenn, Miðmenn* og *Vinstrimenn*. Í fyrsta flokknum voru allflestir aðalsmenn og æðstu klerkar, er fæstu vildu breyta frá því sem verið hafði, en tala þeirra manna fór mínkandi dag frá degi, því að margir þeirra gengu af þíngi og fóru af landi burt. Í miðflokknum voru þeir, sem vildu hafa takmarkað konúngsveldi, bygt á nýjum og sterkum grundvelli. Í hinum þriðja flokki voru allir svarnir óvinir aðalsmanna og klerka, er hafa vildu fullkomið lýðveldi. Sumir af hinum áköfustu úr þessum vinstri manna flokki áttu stöðuga fundi með sèr utanþíngs; var samkomustaður þeirra kendur við Bretagne («*den bretagnske Klub*», en seinna «*Jakobinernes Klub*). Meðal þeirra manna var hinn úngi málaflutníngsmaður *Barnave*. Þá voru enn nokkrir þessa frekastir í broddi vinstri manna (*Yderste Venstre*), þeir voru, enn sem komið var, fáir að tölu, og helztir meðal þeirra málaflutníngsmennirnir *Pétion* og *Robespierre*. Þeir vildu sníða alt eptir kenníngu Rousseaus. Mirabeau var einn síns liðs, en þessi Herkúles stjórnarbyltíngarinnar, sem hann hefir verið nefndur, var sem heill flokkur manna. Hann vildi hafa takmarkaða einveldisstjórn, en sjálfur vera í stjórninni, því að hann fann styrk hjá sèr til þess að geta stýrt fósturjörðu sinni, en sveið það sárt, hve lítinn kjark bæði Necker og hinir aðrir ráðgjafar konúngsins höfðu til þess.

Það, sem menn fyrst urðu ásáttir um á þíngina, var, að þíngið skyldi standa í sífellu, en til þess að yngja það upp, skyldi kjósa nýja menn til þess annaðhvort ár. Því að þíngið táknaði einveldi þjóðarinnar, en konúngur var (sögðu menn) eigi annað en æzti embættismaður ríkisins, er enga heimild hefði til að kveðja til löggjafarþíngs eða segja því slitið. Þar næst var um það að ræða, hvort þíngið skyldi tvískift vera eða ekki. Miðflokkurinn vildi hafa það tvískift, en vinstrimenn voru því mótfallnir. Sieyes var einn í þeirra tölu, og sagði svo: «einn guð, ein þjóð, einn konúngur, eitt þing!» og niðurstaðan varð sú, að

vera skyldi ein málstofa (eða óskift þíng). Það sem olli einna mestum ágreiníngi, var um *neitunarvald* konúngs (*veto*), þ. e. hvert vald konúngur hefði til að neita að samþykkja það, er þíngið hefði fallizt á. Bæði hægrimenn, miðflokkurinn og Mirabeau vildu, að konúngur hefði það vald, en vinstrimenn kváðu það með öllu ófært, enda væri slíkt beinlínis til að ónýta alt einveldi þjóðarinnar. Loks báru menn þetta undir Lafayette, og gaf hann það ráð, að menn skyldu fara meðalveg, og láta konúng hafa *frestandi neitunarvald*, þ. e. vald til að neita sínu samþykki til þess, er þíngið hefði tvívegis fallizt á, en ef þrjú þíng, hvert eftir annað, hefðu samþykt eitt og hið sama lagaboð, skyldi konúngur eigi geta ónýtt það. Á þetta féllst konúngur og ráðgjafar hans, og var svo þeim ágreiníngi lokið. Lengi færðist konúngur undan því, að staðfesta þau nýmæli, er þíngið hafði gjört 4. dag ágústmánaðar, og fyr eru nefnd. Hann var í sífeldri óvissu, hverjum flokknum hann skyldi fylgja, og fyrir því óttuðust margir, að hann mundi flytja bygð sína, og setjast að í einhverri víggirtri borg út á landamærum, hafa þar her manns sér til varnar, og í skjóli hans taka það alt aftur, er hann hafði heitið þjóðinni. Um þessar mundir var vistaskortur mikill í París meðal alþýðunnar, og færðu ýmsir óhlutvandir blaðamenn sér þetta hvorttveggja í nyt, og töldu mönnum trú um, að hirðin og höfðíngjarnir ætluðu sér að leiða hallæri yfir landið; það væri því öll þörf á að grípa til vopna og verjast slíku vèlræði. Sá hèt *Marat*, er bezt gekk fram í því að æsa lýðinn í blaði, er hann gaf út og nefndi «*þjóðvininn*». Hann hafði verið læknir, en nú var hann hættur þeim störfum og orðinn ritstjóri; hann var lítill maður vexti, ófríður sýnum og illgjarn.

Hinn 5. dag októbermánaðar snemma morguns flyktist skríllinn saman á strætum í París, og heimtaði brauð með frekju, brauzt inn í ráðstofuna, og náði þaðan vopnum. Þá gaf maður nokkur það ráð, að halda skyldi til Versailles, og var svo gjört. Urðu þeir saman margar þúsundir manna, bæði konur og karlar, er þángað hèldu. Í annan stað áttu þeir fund með sèr borgarstjórarnir og Lafayette, og urðu á það sáttir, að hann skyldi halda með liði sínu á eftir mannsöfnuði þessum til Versailles, og skora á konúng að flytja sig þaðan til Parísar; á

þann hátt væri tvent unnið, bæði það, að höfðíngjar gætu síður haft áhrif á konúnginn, og svo hitt, að þá væri nokkuð gjört til skaps alþýðunnar.

Nú kom allur þessi manngrúi til Versailles; ruddust sumir inn í þíngsalinn, en sumir gengu fyrir konúng, og beiddu hann um brauð með góðu verði. Konúngur hèt þeim öllu góðu; lèt þá múgurinn sefast, og var alt kyrt um nóttina, enda hafði Lafayette gætur á öllu í borginni. En er lýsti af degi morguninn eftir (6. október), hófust óspektir af nýju. Fjöldi mikill af hinum verstu óaldarseggjum brauzt inn í konúngshöllina, og drap nokkra af varðmönnum, áður en Lafayette kom til og fèkk sefað upphlaupið. Lýðurinn fyrir utan höllina hrópaði í sífellu, að konúngur skyldi til Parísar, og var það nú af ráðið. Að kveldi hins sama dags var konúngur og hirð hans kominn til Parísar, og settist hann þar að í *Tuileri-höllinni*. Fáum dögum síðar fluttist þingið einnig til Parísar; varð nú all-tómlegt eftir í Versölum. En við þenna atburð sögðu margir meðal þingmanna að fullu og öllu skilið við þíngið, og fóru annaðhvort heim til sín, eða af landi burt, því að reynslan hafði nú sýnt, að skríllinn beitti ofríki við konúng og truflaði þíngstörfin, og allar líkur til, að enn meiri brögð myndu að því verða, þá er alt væri saman komið í París. Hins vegar skal þess getið, að eins og nú var komið, var konúngi og þíngi engin hætta búin; Lafayette og hinir betri menn í París rèðu nú öllu, en hitt var ósèð, hversu lengi þeir gætu við ráðið.

Þegar hèr var komið og þíngmenn tóku til starfa í París, þá var það eitt hið fyrsta, sem Mirabeau lèt sèr annt um, að gjöra stjórnina sterka og þjóðlega, því að hann sá gjörla, að það var eina skilyrðið fyrir því, að konúngdómur gæti átt sèr stað á Frakklandi og land og lýður tekið nokkrum verulegum framförum. Hann bar því fram ýmsar tillögur, er hnigu í þá átt. Það sem fyrst þurfti að gjöra var að tryggja stjórnina og þíngið fyrir ofsa og ofríki skrílsins, og þar næst að útvega stjórninni fè til umráða. Talleyrand byskup, sá sem fyr er nefndur, hafði þegar meðan þíngið sat í Versailles lagt það til, að tekið væri hið geysimikla kirknagóz til þess að rètta við fjárhag ríkisins. Mirabeau fèllst á þá tillögu, og var það að lögum gjört, að alt kirknagóz skyldi fengið þjóðinni í hendur móti því, að

hún annaðist alla guðsþjónustu, laun allra klerka og kennimanna og sæi snauðum mönnum fyrir uppeldi. Þá vildi Mirabeau og, að ráðgjafarnir fengi atkvæðisrètt á þíngi; hann bjóst sjálfur við að verða ráðgjafi, og þá þótti honum það miklu skifta, að geta talað á þíngi, þegar hann vildi. En þíngmönnum stóð ótti af hans miklu málsnild og hugðu, að yrði hann ráðgjafi og ætti setu á þíngi, þá mundi hann einn öllu ráða bæði í stjórninni og á þínginu; enda var meiri hluta þíngmanna það þá ríkast í skapi, að láta stjórnina vera sem óstyrkasta, til þess að þeir sjálfir gætu ráðið sem mestu. Þeir rèru að því öllum árum, að stjórnin hefði engin áhrif á löggjöfina, heldur yrði einúngis verkfæri í þíngsins hendi. Þíngmenn höfðu það fram, að tillaga Mirabeaus var feld, og í annan stað var svo kveðið á, að engan af þíngmönnum mætti taka í ráðaneyti konúngs. Konúngur samþykti alt sem þíngið hafði fallizt á. Má af þessu sjá, að öll yfirráð voru, eins og nú var komið, í höndum þíngsins, en meiri hluti þess var, eins og bráðum kom í ljós, háður mjög margbreyttum og misjöfnum áhrifum ýmsra manna út í frá, fjær og nær þínginu. Eigi þarf það að efa, að margir af ágætustu mönnum Frakka sátu á þíngi, og margt og mikið gagn vann það Frakklandi, þar sem þjóðin sameinaðist í eina heild miklu fremur en átt hafði sèr stað að undanförnu, betra skipulag varð á lögum og rèttarfari, almennt trúarfrelsi var veitt, og lög og skattar og skyldur látin ná jafnt til allra frakkneskra manna, en samt sem áður hafði meiri hluti þíngmanna það einatt fram, og fèkk það gjört að lögum, af reynsluleysi og einberum ákafa, er ver gegndi, og varð landinu til hins mesta ógagns.

Hin forna fylkjaskipun á Frakklandi og allur sá mikli mismunur, er því hafði verið samfara, var nú af numinn. En í þess stað var Frakklandi nú skift í 83 samkynja *umdæmi* (*Departement*), er síðan hefir haldizt. Var þá, er þessi nýju skifti komust á, einkum farið eptir eðlilegum takmörkum umdæmanna, og gefin nöfn eptir fljótum, ám eða fjöllum og fleiru þess konar. Yfirvöldin í þessum umdæmum, og hinum smærri sveitum, er þau greindust í, kusu borgarar og bændur með tvöföldum eða einföldum kosníngum, eftir því sem lög mæltu fyrir. Stjórnin hafði lítið vald yfir öllum þeim mörgu embættismönnum, og lítil áhrif á eða afskifti af því, hvernig þessi stærri og smærri um-

dæmi og sveitafèlög stýrðu málefnum sínum. Menn hafa því sagt, og með nokkrum sanni, að Frakkland hafi þá verið sundurskift í 44,000 smáríki (sveitir, eða sveitafèlög á Frakklandi, náðu hèr um bil þeirri tölu). En hitt var lakara, að smámsaman náðu ráðríkir og eigingjarnir flokksforíngjar þar mestum yfirráðum, en hinir gæflyndari menn drógu sig í hlè.

Hinni fornu dómaskipun og rèttarfari var breytt. Parlamentin og ýmsir eldri dómar lögðust niður, og í þeirra stað komu þjóðkjörnir dómendur, en þó skyldu þeir vera lögfróðir menn; en í óbótamálum voru settir kviðdómar og dómendur kjörnir til þeirra af alþýðu manna. Var það að vísu talsverð breytíng til hins betra, en þó verður því eigi neitað, að alþýðan hafði meiri áhrif en vera skyldi á þessa hina nýju dómendur, einkum fyrir þá sök, að prentfrelsið mátti heita ótakmarkað, og fèlög þau (*Jakobínar*), sem þá voru í miklum uppgángi, náðu mjög miklum yfirráðum, og fyrir vilja þeirra beygðu dómendur sig meir en góðu hófi gegndi. Hið katólska klerkavald, eins og það hafði lengi við gengizt á Frakklandi, gat heldur eigi lengur staðizt og hlaut að breytast í nýja stefnu, enda var nú svo gjört. Yfir hvert umdæmi (*Departement*) var settur einn byskup, og einn prestur í hverjum söfnuði, er þjóðin kaus, og fengu laun sín af ríkissjóði. Klaustur voru lögð niður og mörg klerka embætti; allar kirkjujarðir urðu *þjóðjarðir*, er selja skyldi smámsaman; á sama hátt voru jarðir krúnunnar gjörðar að þjóðjörðum, en föst laun (*Civil-Liste*) ákveðin handa konúngi og hirðinni[1]. Þeir sem nú keyptu þessar þjóðjarðir gjörðust allir vinveittir stjórnarbyltíngunni og studdu hana og allar hinar nýju breytíngar; enda komu þau jarðakaup fótum undir *nýja meðalstètt* í landinu, er varð hin sterkasta vörn gegn því, að alt kæmist aftur í hið gamla horf. En hitt er vitaskuld, að mikill þorri alþýðu undi illa hinum nýju breytíngum, og þótti ilt að hverfa svo skyndilega undan valdi páfans og klerkanna, og verða háður veraldlegum yfirboðurum, og snerist því í móti stjórnarbyltíngunni. Öll hin sömu áhrif hafði það á flesta aðalsmenn, er aðalstign og nafnbætur voru af numin sumarið 1790.

Frá því árið áður (1789) hafði víða brytt á óeirðum á Frakklandi, og urðu þær enn almennari, þegar hèr var komið.

1) Hèr um bil 30 milliónir fránka ár hvert.

Þá var það, að nokkrir góðgjarnir menn tóku sig til og mynduðu mörg og smá fèlög, til þess að afstýra vandræðum og borgarastríði. Því næst urðu menn ásáttir um, að stofna til aðalfundar eða hátíðahalds í París, til þess að efla með sèr sátt og samlyndi. Skyldi sú hátíð standa 14. dag júlímán. 1790, því að þann dag árið áður hafði Bastillen verið brotin og lögð í eyði. Kom þar saman múgur manns af öllum stèttum. Þar kom konúngur og drotníng hans, og hèt hann að halda hina nýju stjórnarskrá og vann eiða að, þótt hún væri þá enn eigi albúin frá þínginu. Þótti nú mörgum, sem hèr mundi friður einn og fögnuður á eptir fara. En þetta reyndist alt á annan veg.

Um þessar mundir gekk sá orðrómur á Frakklandi, að aðalsmenn þeir og annað stórmenni, er þaðan hafði stokkið til útlanda, og svo aðrir þeirra líkar, er heima sátu eftir, hefðu á prjónum ýmsar ráðagerðir og jafnvel samsæri gegn þjóðfrelsi Frakka. Orðrómur þessi var án efa á nokkrum rökum bygður, en illgjarnir blaðamenn notuðu hann til þess, að æsa alþýðuna sem mest. Marat — sem fyr var nefndur — krafði þess, að konúngur og drotníng, ráðgjafarnir, Lafayette og ýmsir aðrir menn væru höndum teknir; «það væri úti um þjóðfrelsið» sagði hann, «nema því að eins, að 5—600 höfuð væru látin fjúka af bolnum». Borgaraskríllinn kvað þetta hið mesta þjóðráð; en hann mátti sín lítið enn sem komið var. Þar á móti magnaðist nú óðum fèlag það (vinstri manna), er vèr áður höfum minzt á, og kent var við Bretagne meðan þíngið sat í Versailles, en nú var nefnt *Jakobína-fèlagið*, af því að samkomustaður þess var í gömlu Jakobsklaustri í París. Fèlagsmenn þessir hèldu fundi sína á kveldin, til þess að alþýðumenn gætu verið þar viðstaddir, að afloknu dagsverki. Þar gjörðu menn að umtalsefni helztu þíngmál, þar komu óspart fram kærur gegn konúngi, ráðgjöfum hans, og þeim af þíngmönnum (hægri mönnum), er annari stefnu fylgdu; þar gjörðu menn sèr alt far um, að telja alþýðunni trú um, að allir aðrir sætu á svikráðum við hana, bæði konúngur, hirð hans og ráðgjafar og útlendir þjóðhöfðíngjar. Alþýðan trúði slíkum fortölum og fyltist tortryggni, en leitaði sèr halds og trausts hjá þeim, sem sínum verndarmönnum, er þannig hefðu opnað augu hennar, og sýnt, hvaðan

hættunnar væri von. Út um alt land mynduðust smærri fèlög, er stóðu í sambandi við aðalfèlagið í París, og gengu í það margar þúsundir manna af ýmsum stèttum, þar á meðal fjöldi hermanna og þjóðvarðarmanna. Var þetta eins konar samsæri, eða að minsta kosti samtök, móti landsstjórninni. Verst var þó það, að fèlög þessi spiltu öllum aga meðal herliðsins, svo að yfirmenn gátu varla við ráðið; enda gjörði liðið á sumum stöðum uppreisn, og urðu mikil brögð að því austur á Lothringen, en þar var dugandi hershöfðíngi, er *Bouille* hèt, og fèkk hann bælt uppþotið niður. Það var á áliðnu sumri 1790. Þjóðþíngið og Lafayette þökkuðu hershöfðíngjanum dugnað þann og stjórnsemi, er hann hefði sýnt, en í annan stað þyrptist lýðurinn hópum saman og hèt að sýna ráðgjöfunum í tvo heima fyrir það, að þeir hefðu veitt hershöfðíngjanum slíkt vald til þess, að bæla niður leyfilegar frelsishreyfíngar sinna liðsmanna. Þá var það, að Necker fór alfarið burt af Frakklandi. En Jakobínar lètu sèr það eigi nægja, og sendu menn á þíng með þær kröfur, að öllum ráðgjöfunum væri vikið frá völdum. Sá hèt *Danton*, er hafði orð fyrir sendimönnum. Hann hafði verið málaflutníngsmaður áður en stjórnarbyltíngin hófst, og þótti þá ekki að honum kveða. En með frelsisdegi þjóðarinnar vaknaði Danton, og gjörðist skjótt hinn ótrauðasti og aðkvæðamesti forvígismaður alþýðunnar. Hann var mikill maður vexti og tröllslegur, og að því skapi var hans andlega atgjörfi. Ekkert var smátt en alt stórgert og jafnvel hrikalegt hjá þessum manni, vitið, mælskan, röddin; þess vegna hreif hann alþýðuna með sèr meir en aðrir menn. Þegar svo bar undir, hamaðist hann, og var þá til alls búinn, enda var geðið og hugurinn þá óbilandi. Þó var hann ekki grimmur í skapi, hataði engan og öfundaði engan, eins og sumir aðrir af samtímismönnum hans. Með köflum var hann hvílrækinn og lifði þá við hóglífi og aðgjörðaleysi. Hann var eins konar berserkur sinnar tíðar; hið sama meðal alþýðumanna, sem Mirabeau meðal höfðíngja og þíngmanna.

Þegar ráðgjafarnir sáu, að þíngið setti eigi þvert nei fyrir kröfur alþýðunnar, viku þeir flestir úr völdum, og aðrir komu í staðinn, er lítið kvað að. Konúngur var sem oftar, að hann vissi eigi hvað til bragðs skyldi taka. Hann hafði reyndar um

þessar mundir leitað ráða til Mirabeaus, en gat þó eigi fengið af sèr að fylgja nema sumu af því, er hann rèð honum. Einkum var það klerka- og kirkjumálefnið, sem þeim bar mest á milli. Konúngur var svo mikill vinur klerkanna, að hann gat eigi vitað, að þeirra kjörum og kosti væri í nokkru breytt eða þröngvað frá því sem verið hafði. Þíngið hafði, eins og fyr er sagt, gjört nýtt skipulag á málefnum kirkjunnar, en klerkarnir streittust í móti það þeir kunnu. Til þess að gjöra enda á þeirri mótspyrnu, kvað þíngið svo á (í nóvembermán. 1790), að hver sá klerkur, er halda vildi embætti sínu, skyldi sverja landstjórninni hollustueið. Konúngur var lengi tregur til að staðfesta þessa þíngsályktun, þó gjörði hann það um síðir. En páfinn bannaði þar á móti klerkunum að sverja, enda fór svo, að tæplega einn þriðjúngur þeirra vann eiðinn. Voru þá settir aðrir og nýir klerkar í hinna stað, er eigi höfðu viljað eiðinn vinna, og margir þeirra lítt nýtir. Varð af öllu þessu hið mesta sundurlyndi; sums staðar ráku menn burt hina gömlu presta, og sums staðar vildu söfnuðirnir hafa þá og enga aðra.

Það sem hèr gjörði alla ógæfuna var kjarkleysi og hviklyndi konúngs. Hann ritaði nafn sitt undir og staðfesti þau lög, sem hann fyrirleit eða jafnvel hataði. Hann gjörði einn daginn það, sem þíngið vildi, og hinn það, sem drotníng hans og hirðin rèð honum. Það dugði ekki, þó Mirabeau beitti öllu sínu viti og öllum sínum dugnaði til þess, að ráða konúngi heilræði og halda honum á rèttum vegi. Mirabeau vildi, að konúngur skyldi færa sèr í nyt alt það gott sem þíngið hafði afrekað, og á þann hátt styrkja konúngsvaldið, því að Mirabeau vildi ekki hafa lýðveldi, heldur konúngsstjórn, en halda henni innan skynsamlegra takmarka. En allar tilraunir Mirabeaus í þá átt komu að litlu haldi. Hvað slíkum afbragðsmanni, sem Mirabeau var, hefði kunnað að takast, ef hans hefði lengur notið við, er ekki hægt að segja. En víst er um það, að hann hèlt öllum þíngstörfum og flestum þjóðmálefnum Frakka í horfinu, þann tíma er hann sat á þíngi. En þegar hèr var komið, lagðist hann veikur og dó eftir stutta legu 2. dag aprílmánaðar 1791.

Þegar er Mirabeau var dáinn, jukust flokkadrættir og vandræði í Parísarborg, og ýmsir af foríngjum vinstri manna, eins

og t. a. m. Barnave, þóttust nú sjá, að þeir hefðu farið lengra en góðu hófi gegndi; vildu því feta í fótspor Mirabeaus — þó áður hefðu þeir einatt verið hans mótstöðumenn — og freista að bjarga því, sem eftir var af konúngsvaldinu. En konúngurinn hafði það eitt hugfast, að losast sem fyrst úr þeirri ánauð, er hann þóttist haldinn í, og flýja til einnar eður annarar víggirtrar borgar á landamærunum, safna þar liði og vinna svo aftur þau völd, er hann hafði mist. Bouille, hershöfðíngi sá, er fyr var nefndur, hafði um hríð verið í þessari ráðagjörð með konúngi. En um þessar mundir hafði Bouille herstjórn austan og norðan til á Frakklandi. Var það nú í ráði, að konúngur leyndist á burt úr París og leitaði þángað austur; skyldi Bouille koma þar til móts við hann, og sjá honum borgið austur á landamæri. Drotníngin hafði fengið það loforð hjá Leópold keisara bróður sínum, að austurrískt lið skyldi vera við búið og styrkja konúng til að koma fram sinni fyrirætlan.

Aðfaranótt hins 21. júní 1791, leyndist konúngur með drotníngu sinni og börnum burt úr París og komst til borgar þeirrar austur í landi, er Varennes heitir, en þar þektu menn hann og heftu för hans. Jafnskjótt sem Lafayette og þíngmenn urðu þess vísari, að konúngur var farinn burt, var afráðið að veita honum eftirför og flytja hann aftur til Parísar, því að mönnum var fullljóst, að næði hann að koma fram áformi sínu, þá var eigi annað fyrir hendi en borgarastríð. Svo fór, að Bouille varð of seinn til liðs við konúnginn. Var hann nú fluttur aftur til Parísar, en Bouille flýði af landi burt og dó nokkrum vetrum síðar á Englandi.

Þessi flóttatilraun konúngs varð honum til hinnar mestu óhamíngju, því að nú mistu menn það lítið, er eftir var, af virðíngu fyrir honum og trúðu hvorki orðum hans eða gjörðum. Hann hafði sjálfur sagt, og það skömmu áður en hann flýði, að sèr geðjaðist hið bezta að hinni nýju stjórnarskrá; en þegar hann flýði, hafði hann skilið eftir ritað skjal, og stóð þar á, að hann gæti með engu móti sætt sig við stjórnarskrána, hann hefði verið neyddur til að staðfesta hana, og nú tæki hann aftur þá staðfestíngu. Margur var því sá, er nú sneri huga sínum algjört frá honum, og æskti þess helzt af öllu, að menn fengi lýðveldi í stað konúngdóms. Meiri hluti þíngmanna bar

þó kvíðboga fyrir því, að ef konúngdómurinn væri með öllu aftekinn, þá mundi skríllinn verða óviðráðanlegur, og þess vegna hèldu þeir fast við hina nýju stjórnarskrá. En þíngið svifti konúng um stundarsakir framkvæmdarvaldinu; sjálfan hann vildu þeir hvorki draga fyrir lög og dóm, nè heldur reka frá völdum, en ýms fèlög og dagblöð kröfðu þess af miklum ákafa, enda lèt Robespierre það löngum kveða við í Jakobína-fèlaginu, að allur þorri þíngmanna væru beinir mótstöðumenn stjórnarbyltíngarinnar. «Vèr viljum engan konúng hafa», var viðkvæði flokka þeirra, er fylgdu þeim Robespierre (*Jakobínar*) og Danton (*Cordeliers*[1]), en Marat krafði nú sem fyr, að bæði konúngur og allir þeir, er hann nefndi «svikara», væru teknir af lífi án dóms og laga. Þegar þetta gat ekki orðið framgengt, urðu óspektir nokkrar í París, en Lafayette þaggaði þær jafnskjótt niður.

Meðalhófsmenn á þínginu voru ekki ánægðir með sumar greinir í stjórnarskrá þeirri, er þá var í smíðum, og vildu breyta þeim, áður hún yrði fullgjör, en þeir fengu því þó eigi fram komið, því að vinstri menn óttuðust, að þeir mundu þá missa hylli alþýðunnar, og hægri menn vildu engu breyta og í engu bæta stjórnarskrána, til þess hún eyðilegði sjálfa sig sem fyrst. Þannig var stjórnarskráin sögð albúin, og lögð fyrir konúng til staðfestíngar. Gjörði hann það viðstöðulaust og vann eið að henni 13. dag septembermánaðar.

Robespierre hafði borið þá tillögu upp á þínginu, að engan af þíngmönnum mætti aftur kjósa til hins komanda þíngs. Hann óttaðist, að margir þeirra mundu aftur verða kosnir, og þá mundu þeir ráða mestu hjá hinum nýju og óvönu þíngmönnum; en kæmust þeir eigi að, þá bjóst hann við, að hann og hans fylgismenn mundu geta mestu ráðið. Flokkur hans var þá orðinn bæði mikill og harðsnúinn. Sumir litu svo á tillögu þessa, sem væri hún vottur sèrlegrar ósèrplægni, og fèllust því á hana; og hægri menn, sem ekki bjuggust við endurkosníngu, gengu í

---

1) *Cordeliers* nefnast Franciscus-múnkar á Frakklandi, af bandi því (*corde*), er þeir hafa bundið um sig. Fèlag það, eða flokkur sá, sem hèr er um að ræða, og Danton að nokkru leyti stýrði, hèlt fundi sína í gömlu Fransiscus-múnka klaustri, og þaðan er nafnið dregið.

flokk með þeim, af því þeim var stórilla við hina nýju stjórnarskrá og vildu alt til vinna að steypa henni. Tillagan var því samþykt af meiri hluta þíngmanna. Um sömu mundir var það ákveðið, að Lafayette legði völdin niður, því að þessir skammsýnu óróamenn óttuðust þjóðvörðinn, og kváðu það óráð, að einn maður stýrði jafnmiklu liði og hefði svo mikil völd á hendi. Var þá þjóðverðinum skift í 6 flokka og settur einn foríngi yfir hvern. Þannig lauk *frumlagaþíngið* störfum sínum 30. dag septembermánaðar 1791, og hafði setið á ráðstefnu því nær hálft þriðja ár.

II. Löggjafarþíngið. *(Den lovgivende Forsamling).*
(Frá 1. okt. 1791 til 20. sept. 1792).

Daginn eftir að frumlagaþínginu var slitið, tók *löggjafarþíngið* til starfa og á sama stað sem hið fyrra (1. okt. 1791). Jakobínar höfðu haft allar klær úti, og áttu mikinn þátt í því, hverjir kosnir voru til þessa þíngs, af því að mótstöðumenn þeirra voru aðgjörðalitlir um kosníngartímann. Þó voru þíngmenn mjög margbreyttir bæði að skapsmunum og vitsmunum og í skoðun sinni á alþjóðlegum málefnum. Á meðal þíngmanna voru 300 málaflutníngsmenn, 70 klerkar, sem svarið höfðu stjórnarskránni eiða, en því nær enginn af hinum ríku jarðeigendum. Meiri hluti þíngmanna voru úngir að aldri, og stigu nú feti framar í kröfum sínum, en allur fjöldi manna á hinu fyrra þíngi. Nú leit enginn á þíngi við því, er *hægri menn* frumlagaþíngsins höfðu fylgt fram. Þeir, sem nú máttu heita *hægri menn* á löggjafarþínginu, fylgdu hèr um bil því sama fram, sem *vinstri menn* á hinu fyrra þíngi, og þeir sem nú voru *vinstri menn* voru líkastir þeim, er áður voru lángfrekastir *(Yderste Venstre)* meðal frumþíngismanna. Þessir vinstri menn höfðu Jakobínaflokkinn við að styðjast. Hinir (hægri menn) þar á móti nálguðust þá utanþíngsmenn, er gæflyndari voru, og lètu sèr margt vel líka í stjórnarskránni og vildu hafa konúngsstjórn. Meðal vinstri manna, var flokkur sá, er nefndi sig *Girondina*, fyrir því, að hinir helztu menn í honum voru frá Gironde, — að öðru leyti voru flokksmenn þessir víðs vegar að úr Frakklandi — Höfðíngi Girondina hèt *Brissot*, rithöfundur þeirra *Condorcet*, en sá hèt *Vergniaud*, er jafnan hafði orð fyrir þeim, og var

allra manna bezt máli farinn á löggjafarþínginu. Flokksmenn þessir vildu hafa *lýðveldi*, og máttu sèr mikið á þínginu sökum vitsmuna sinna og málsnildar, en utanþíngs og þegar til framkvæmdanna kom, reyndust þeir miklu miður. Þegar fram í sótti og konúngsvaldinu var kollvarpað, skiftust Girondinar þannig, að nokkrir þeirra, sem voru miklu ákafastir, skildust við hina, mynduðu flokk út af fyrir sig og nefndu sig *fjallið*, af því að þeir sátu skör hærra í þíngsalnum og á baki hinna, er neðar sátu.

Fèlög þau (*Klubberne*), er fyr hafa verið nefnd, mögnuðust stórum um þessar mundir, og þar sem þau áður, meðan frumlagaþíngið átti sèr stað, að eins kveiktu óróa með mönnum, gjörðust þau nú, er löggjafarþíngið var tekið til starfa, svo umfángsmikil, að þau vildu ein öllu ráða. Til þeirra streymdi múgur og margmenni, því að minstur hluti framgjarnra manna náði þíngsetu, en allir, sem vildu, áttu kost á að gánga í fèlögin og taka þátt í störfum þeirra. Jakobína-fèlagið var þeirra elzt, og hafði, þegar hèr var komið, náð mikilli þýðíngu og fengið mikil áhrif á þjóðina. Í París var varla nokkurt hús svo stórt, að það gæti tekið alla fèlagsmenn, er þar áttu heima, og tilheyrendur þeirra, en út um landið voru stærri og smærri deildir fèlagsins því nær í hverri borg. Robespierre, sem áður er nefndur, var höfðíngi þessa fèlags og rèð þar flestu sem gjörðist, eigi fyrir þá sök, að hann væri afbragðsmaður að vitsmunum eða málsnild, heldur hins vegna, að hann hafði fengið það orð á sig hjá fylgismönnum sínum, að hann væri manna ósèrplægnastur, og fölskvalaus ástvinur fósturjarðarinnar. Hann las rit Rousseaus öllum stundum, og setti sèr fyrir mark og mið að framkvæma kenníngar hans í verki, og koma á fastan fót lýðveldi eins og Rousseau hafði viljað skapa það. Robespierre var ekki hugprúður maður, og hafði sig aldrei frammi, er hætta var á ferðum, en hann var þrályndur og fastur við sína fyrirætlan, hann var tortryggur og öfundsjúkur og hataði alla afbragðsmenn, er hann hugði að kasta mundu skugga á sig og rýrð. Þess vegna var honum gramt í geði við Girondina og einkum við Brissot, því að hann þóttist sjá, að hann mundi keppa við sig um völdin.

Bailly, er vèr áður höfum nefnt, hafði um undanfarin 3 ár

verið *borgarstjóri* (*Maire*) í París, og gegnt því vandasama embætti með mikilli árvekni og mannúð, og dyggilega stutt Lafayette í því, að halda þar mönnum og málefnum innan réttra takmarka, og mátti það heita þrekvirki. Nú var Bailly eigi lengur við vært, og varð að fara frá völdum um sama leyti sem Lafayette vinur hans. En er kjósa skyldi nýjan borgarstjóra, gengu menn í tvær sveitir; vildu sumir kjósa Lafayette, en aðrir vildu kjósa *Petion*. Enginn var betur þeim vanda vaxinn en Lafayette, en alt um það varð Petion þó hlutskarpari í kjörinu (í nóvember 1791), og átti það helzt að þakka fylgi hirðarinnar, eða þó einkum drotníngarinnar. Hún kunni ekki að meta þá miklu mannkosti, sem Lafayette hafði til að bera; hún hataði hann einúngis fyrir þá sök, að hann unni skynsamlegu frelsi og vildi hafa takmarkaða konúngsstjórn, en í augum drotníngar mátti aðalsmaður eigi vera að slíku fundinn — og Lafayette var aðalsmaður. Petion var einbeittur lýðveldismaður, og hafði verið ásamt með Robespierre fóríngi þeirra manna, sem ákafastir voru á frumlagaþínginu; þetta mátti hirðinni og drotníngu reyndar vera kunnugt, en þau voru svo blind, að þau sáu það eigi, og hugðu að ráða mætti öllu við Petion, af því að hann var hversdagslega hægur og fáskiftinn. Það er sannast að segja, að hirðin vissi ekki hvað til síns friðar heyrði, og þannig hafnaði hún einmitt þeim manni, er færastur var og fúsastur til að styðja konúnginn samkvæmt stjórnarskránni, en kaus þann til valda, er líklegastur var til liðs við alla óvini konúngdómsins.

Þegar er löggjafarþíngið var tekið til starfa, sneri það athygli sínu að hinum *óeiðfestu prestum* og að *útflutníngsmönnum* (*Emigranter*). Frumlagaþíngið hafði veitt prestum þessum nokkur eptirlaun; en nú fréttist það úr öllum áttum, að þeir æstu lýðinn móti öllum hinum nýju breytíngum, og þá setti þíngið þau lög, að hver sá prestur, sem ekki hefði svarið eiðinn (að hlýðnast stjórnarskránni) að viku liðinni, skyldi sviftur eftirlaunum; þeir, sem þá eigi vildu eiðinn vinna, skyldu engin prestsverk mega gjöra, og vera taldir meðal grunsamra manna; yrði af nokkrar óspektir, skyldi klerkarnir annaðhvort gjörðir útlagir eða settir í varðhald. Útflutníngsmennirnir höfðu sezt að í Rínarfylkjunum þjóðversku, og aðalaðsetur þeirra var í Koblenz, er þá lá undir kjörfurstann af Trier. Menn undu því illa,

að frakkneskir menn sætu flokkum saman skamt fyrir utan landamæri fósturjarðar sinnar í hefndarhug til hennar. Urðu um það mál lángar og harðar umræður, er svo lyktuðu, að þessir frakknesku menn við landamærin skyldu grunaðir um samsæri gegn fósturjörðu þeirra, og sekir vera um landráð, ef þeir sneru eigi heim aftur til Frakklands fyrir árslok, enda skyldu þá allar eigur þeirra upptækar.

Konúngur vildi hvorig af lögum þessum samþykkja, en hins vegar skoraði hann á bræður sína, er báðir voru farnir úr landi, að þeir skyldu koma heim aftur og forðast allan samblástur móti ættjörðu þeirra. En þeir gáfu því engan gaum, nè heldur aðalsmenn þeir, er flokk þeirra fyltu, og, það sem lakara var, allur þorri manna í París grunaði konúnginn um, að hugur hefði eigi fylgt máli, er hann sendi bræðrum sínum þessa áskorun. Æsíngamenn sögðu á fèlagsfundum og rituðu í blöðunum, að konúngur stæði í leynilegu sambandi við útlenda þjóðhöfðíngja, og báru ýmsar sakir á hann og hirðmenn hans, þar á meðal það, að hirðin ætlaði sèr að svelta í hel borgarlýðinn í París. En ótti fyrir húngursneyð var óbrigðult meðal til þess að æsa lýðinn, enda urðu óspektir í París um þær mundir. Þá tóku þeir, sem ákafastir voru og verst lètu, að breyta búníngi sínum, bera rauðar húfur og gánga í lángbuxum, en lögðu niður stuttbuxur eða knèbuxur, er menn alment höfðu áður haft. Voru þeir því nefndir *Sansculots*.[1]

Nú varð það þessu næst aðalatriðið, hvað til ráða skyldi taka gagnvart öðrum þjóðum. Mönnum var kunnugt, að útflutníngsmenn gjörðu það þeir kunnu til þess að æsa þær móti Frökkum, og menn vissu, að þær voru til alls búnar. Jafnvel þó hugir manna á löggjafarþínginu væru í mörgu tvískiftir, voru þó þíngmenn allir á einu máli um það, að helztu úrræðin væru, að snúast við útlendíngum, enda mundi ófriður við þá bezt af öllu eyða innlendum ófriði. Fyrir því skoraði þíngið á konúng, að láta nokkuð til sín taka, og tala máli Frakklands skorinort við aðra þjóðhöfðíngja. Konúngur varð vel við og ritaði hinum þjóðversku höfðíngjum í Rínarfylkjunum á þá leið, að hann

1) *Sansculottar* hafa oft verið nefndir «buxnaleysíngjar», en það er eigi rètt, orðið táknar einúngis þá, sem eru án stuttbuxna, ekki gánga í stuttbuxum.

segði þeim stríð á hendur, ef þeir lèti útflutníngsmenn eigi hætta öllum liðsafnaði áður mánuður væri liðinn. Jafnframt þessu sendi Frakkastjórn allmikið lið til landamæranna og var Lafayette settur yfir eina af þeim herdeildum. Kjörfurstinn af Trier varð hræddur, er honum komu þessi tíðindi, og fyrirbauð þegar í stað allan liðsafnað í sínu ríki; en um sömu mundir kom brèf frá keisaranum, og í því rituð áminníngarorð til Frakka og þeim var ráðið til, að varast Jakobínaflokkinn. Hugðu menn alment, að brèf þetta mundi til orðið af völdum einhvers við hirð Lóðvíks sextánda, og þess vegna varð það honum til ógagns en hinum til gagns, er grunaðir voru um hollustu.

Vinstri menn fengu þannig algjörð yfirráð, en konúngur slakaði til og gjörði þeim það til geðs, að veita nokkrum af ráðgjöfum sínum, er eigi þóttu allsendis þjóðhollir, lausn frá embætti, og kaus aftur aðra í þeirra stað og, að ráði Brissots, af Girondinaflokknum (í marzmánuði 1792). Helztir af þeim nýju ráðgjöfum voru þeir *Dumouriez* hershöfðíngi og *Roland*, er varð ráðgjafi innanríkismála. Dumouriez var vitur maður, djarfur og virðíngagjarn, en nokkuð laus í ráði. Honum tókst um stundarsakir að synda svo milli skers og báru, að bæði konúngur og þíngmenn hugðu hann vera vin sinn fullkominn. Róland var mesti dugnaðarmaður og vel virður af öllum hinum betri mönnum.

Um þessar mundir dó Leópold keisari annar (1. dag marzmánaðar 1792), en til ríkis kom *Franz annar*, úngur og óreyndur og gjarnari til ófriðar en fyrirrennari hans hafði verið. Það leið heldur eigi á löngu, áður keisarinn fengi Friðrik Vilhjálm 2., Prússakonúng, í lið með sèr, og því næst krafði hann af Frökkum, að þeir settu alt í sama horf heima hjá sèr, sem verið hafði árið 1789, áður byltíngin hófst. Þetta var meira en Frakkar gætu þolað, og fyrir því þóttust þeir til neyddir, að grípa til vopna og verja sæmd sína og hendur. Ráðgjafarnir rèðu konúngi, að segja keisara stríð á hendur, og það gjörði hann 20. dag aprílmánaðar 1792, en sagt er, að hann hafi tárfelt, er hann ritaði nafn sitt undir þá herboðan. Þannig hófst hinn mikli ófriður, er um mörg ár gekk yfir alla Norðurálfuna.

Frakkar voru lítt búnir undir ófriðinn. Flestallir af hershöfðíngjum þeirra og liðsmannaforíngjum voru aðalsmenn, og

meiri hluti þeirra stokkinn af landi burt, en hinir, sem eftir voru, höfðu lítið traust á sèr af liðsmönnum og öllum þorra manna í París; það var jafnvel ætlun margra, að þeir sæti á svikráðum við þjóðina. Hin fornu spánsku Niðurlönd (*Belgía*) voru háð Austurríkiskeisara síðan 1714, og undu illa sínum hag, eins og kunnugt er af því, sem áður er sagt. Hugðu því Frakkar, að Belgía mundi auðunnin, ef þeir sendi lið þángað, og var nú svo gjört. En þá tókst svo illa til, að jafnskjótt sem hinar fyrstu hersveitir þeirra voru komnar yfir landamærin og sáu herlið keisarans koma í móti sèr, gaus sá kvittur upp meðal hinna frakknesku liðsmanna, að hèr væru svik í tafli, og að foríngjar þeirra ætluðu að koma þeim öllum á vald Austurríkismanna. Ekki varð við ráðið. Frakkar lögðu á flótta og drápu jafnvel nokkra af foríngjum sínum. Þessi atburður varð síðustu dagana í aprílmánuði 1792.

Þegar tíðindi þessi spurðust til Parísar, höfðu þau þar hin verstu áhrif á hugi manna; flokkarnir báru sakir hverir á aðra, og margir höfðu fyrir satt, að hirðin og konúngur væri í leynilegum samtökum við fjandmenn fósturjarðarinnar. Þess vegna vildu menn eigi að konúngur hefði lengur um sig varðlið það, er hann hafði samkvæmt stjórnarskránni, með því að það voru einir saman aðalsmenn og konúngsvinir. Var því af ráðið, að leysa það lið undan þeirri þjónustu. Konúngur samþyktist það, og var þá öll hans vernd og vörn undir þjóðverðinum komin. En sumum þótti það eigi nægja, því að þeir vissu, að konúngur átti sèr marga vini meðal þjóðvarðarmanna, og fyrir því bar hermálaráðgjafinn *Servan* (einn af Girondinaflokknum) það lagafrumvarp upp á þíngi, að kveðja skyldi alt að 20,000 manna úr öllu landinu til Parísar; skyldi það lið hafa þar aðsetu og verja þíngið og borgina. Meiri hluti þíngmanna voru Girondínar, var málið því auðsótt og þíngið fèlst á frumvarpið, en konúngur neitaði sínu samþykki. Urðu þá ráðgjafaskipti. Servan og Róland og þeir, sem þeim fylgdu, gengu úr völdum og litlu síðar Dumouriez. Hann fór norður í land og tók þar við herstjórn.

Mótstöðumenn konúngdómsins mögnuðust dag frá degi, þótt þeir væri allólíkir sín í millum. Girondínar voru of vel mentaðir menn, og þóttust of góðir til þess, að þeir vildu sjálfir taka

þátt í upphlaupi og hryðjuverkum skrílsins; slíkt þótti þeim vera eins konar neyðarúrræði, er til yrði að grípa að eins til þess, að koma því fram, er gott var og gagnlegt í þeirra augum. Robespjerre var of gætinn og kaldlyndur til þess, að honum væri lagið að gjörast beinlínis upphlaupsmaður. En það var Danton og hans menn (*Cordelia-fèlagið*), sem reistu flokka og komu fótum undir uppreisnir. Þegar skríllinn hljóp upp til handa og fóta og hamaðist um strætin, þá var Danton dillað, en Robespierre dró sig í hlè. Maður hèt *Santerre;* hann var ölgerðarmaður og foríngi fyrir einni deild þjóðvarðarins í París, óspektarmaður mikill. Hann og ýmsir aðrir æstu lýðinn nú sem optar, og var af ráðið, að 20. dag júnímánaðar skyldi múgur manns vopnast, gánga síðan fylktu liði á þíng og fyrir konúng, og skýra þeim frá því, er þjóðin vildi vera láta. En er menn fengu pata af fyrirætlan þessari, skoruðu þeir á Petíon borgarstjóra, að hafa viðbúnað, svo að eigi yrði af óspektum; en hann hafðist ekki að, því að hann var vinur Girondína, og lèt sèr eigi miður líka, þótt þíngið og konúngur hefðu hitann í haldinu. Að Petion hafi verið vel kunnugt um ráðagerð þessa, og eigi verið henni mótfallinn, þykir auðráðið af orðum hans, þá er einhverjir lètu sèr um munn fara, að við öllu mætti búast. «Hvað hræðizt þèr?» — mælti Petion — «þjóðverðinum mun eigi boðið að skjóta á oss, og Petion sjálfur verður eflaust við staddur».

Á ákveðnum degi (20. júní) flyktust margar þúsundir vopnaðra manna að þíngsalnum, og meiri hluti þjóðvarðarins hafði slegizt í för með þeim. Beiddust fyrirliðar inngöngu í salinn, og að þeim yrði leyft að bera fram bænarskrá þá, er þeir höfðu meðferðis. Á því varð nokkur dráttur; ruddust þeir þá inn í salinn. Þíngmenn allir (c. 750 manns) stóðu upp í móti þeim, og forseti setti hattinn á höfuð sèr. Þóttust þá hinir skilja, hvað valda mundi, og hörfuðu til dyra. Lètu þíngmenn sèr það líka, og kváðust leyfa þeim inngöngu og málfrið. Bænarskrá sú, er hèr ræðir um, lýsir því, hvernig þær alment voru lagaðar hjá Frökkum á þeim tímum, því að þær voru hver annari líkar; þar segir meðal annars svo: «þjóðin er við búin; hún bíður einúngis eptir yður; hún er undir það búin að beita stórkostlegum meðölum til þess að annari greininni í yfirlýsíngu mann-

rèttindanna verði fullnægt, eða með öðrum orðum: *mótstöðu gegn kúgun*. Óskandi væri, að hinir fáu menn yðar á meðal, er líta annan veg á málin en bæði þèr og vèr, vildu eigi lengur svívirða frelsisins land, en snáfa sem fyrst hèðan á burt til Coblenz. Grafizt eftir undirrót alls hins illa, er yfir oss vofir; ef hún hefir upptök sín frá þeim, er framkvæmdarvaldið hafa á hendi, skulum vèr brjóta þá á bak aftur». Í svari sínu sagði forseti beiðendum, að þíngið mundi láta sèr ant um að gegna skyldu sinni, en vænti þess hins vegar af þeim, að þeir sýndu lögunum hlýðni. Því næst leyfði hann þeim að gánga gegnum salinn. Það var undarleg og þó mikilfengleg sjón, að sjá allan þann manngrúa — að minsta kosti 30000 — karla og konur, gamla menn og únga, suma í herklæðum og vel vopnaða, suma í alls konar flíkum með barefli og broddstengur, gánga gegnum salinn, sumir súngu og stigu dans, en þó gjörðu þeir þar engar óspektir. Því næst dreif alt þetta lið til konúngshallarinnar (*Tuileri-höllin*) og ruddist þar inn; varð þar alls staðar húsfyllir, jafnvel í því herbergi, er konúngur var sjálfur í. Konúngur gekk í móti þeim og var hinn öruggasti, en hirðmenn hans óttuðust, að hann yrði troðinn undir í mannþrönginni, og settu undir hann bekki úti í gluggaskoti, og þar stóð konúngur tvær stundir, og átti tal við gestina. Var þar kliður mikill og kallan og mátti einatt heyra þessi orð endurtekin: «ekkert neitunarvald! enga klerka! enga höfðíngja! varnarlið við París!» Maður einn krafði, að þetta yrði þá þegar gjört að lögum. «Hèr er hvorki staður nè stund til þess», mælti konúngur, «eg skal gjöra alt það, er stjórnarskráin býður». Þetta lètu menn sèr lynda. «Lifi þjóðin!» æpti múgurinn. «Já!» svaraði Loðvík sextándi, «lifi þjóðin! eg er hennar bezti vinur». «Lát oss þá sjá það!» sagði einhver í hópnum, og rètti konúngi rauða húfu á spjóti. Konúngur tók í móti og setti húfuna á höfuð sèr, því að annað var eigi ráðlegt á slíkum mannfundi. Meðan á þessu stóð komu nokkrir þíngmenn í höllina, og þar á meðal Vergniaud, töluðu til mannfjöldans og vildu fá hann til að fara þaðan, en því var engi gaumur gefinn. Seint og síðar meir kom Petion, og þóttist eigi fyr en í þeirri svipan hafa fengið vitneskju um þenna atburð. Petion fèkk með mjúkum orðum allan þenna mannsöfnuð til að gánga burt úr höll-

inni að því sinni. En nú hafði borgarskríllinn fundið greiða götu til þíngsins og konúngshallarinnar, og Girondínar, er að því höfðu stutt, fengu litlu síðar sjálfir á því að kenna.

Tíðindi þau, sem gjörzt höfðu í París 20. júní, spurðust um allar sveitir og mæltust illa fyrir. Lafayette fanst svo mikið um aðfarir Parísarmanna, að hann brá þegar við, þar sem hann var staddur norður á landamærum, og fór sjálfur til Parísar. Hann skoraði á þíngið að það léti höfða sakir gegn frumkvöðlum óspekta þeirra, er orðið höfðu í höfuðborginni (20. júní), og að flokkur Jakobína, er hrifsað hefði undir sig öll yfirráðin, yrði gjöreyddur. Forseti kvað þíngið mundu fylgja stjórnarskránni af fremsta megni samkvæmt eiðum þeim, er það hefði unnið, og hét góðu um að áskorun hershöfðíngjans skyldi nákvæmlega verða prófuð. Eftir það gekk Lafayette fyrir konúng og bauð honum liðveizlu sína. Konúngur tók honum fálega, og drotníng vildi heldur eiga alt á hættu, en að þiggja lið af Lafayette. Hún vissi, að hann unni stjórnarskránni af hug og hjarta; en drotníng hataði stjórnarskrána og vildi kollvarpa henni, og helzt með tilstyrk Prússa og Austurríkismanna. Það var því eflaust drotníngu mest um að kenna, að ráð Lafayettes voru ekki þegin og liðveizlu hans hafnað. Þjóðvörðurinn, er áður hafði fylgt Lafayette og það dyggilega, var nú orðinn annars hugar, og endalyktin varð sú, að hershöfðínginn sá, að hann gat engu til leiðar komið í París, og hélt því þaðan sem fyrst norður til liðsmanna sinna. Meðan hann dvaldist í París voru Jakobínar, og allir þeir, er steypa vildu konúngsvaldinu, hræddir og hlupu í felur, en jafnskjótt sem hann var þaðan á burt, komu þeir aftur í ljós og tóku til sinnar iðju. Það ræður að líkindum, hvernig þeim mönnum hafi verið í geði til Lafayette.

Um þessar mundir þokaðist herlið Prússa og Austurríkismanna að landamærum Frakka. Það var bæði mikið lið og harðsnúið — yfir 80 þúsundir manna — og yfirforíngi þess, *Karl Ferdinand* Brúnsvíkur hertogi[1], reyndur að dugnaði. Þóttust Þjóðverjar eiga sigurinn vísan og það því fremur, sem Frakkar voru lítt við búnir slíkri heimsókn. Menn vissu í París, að her bandamanna var á leiðinni, og drotníngu var vel kunnugt

1) Nýju sögunnar 3. hefti, bls. 94.

um flestar ráðagjörðir þeirra, enda taldi hún daga og stundir þángað til sá dagur rynni upp, er þeir kæmi til Parísar. Þíngið skoraði á stjórnina, að höfuðborginni yrði sèð fyrir nægum vörnum. Lagði konúngur það þá til, að safna skyldi liði um alt ríkið og skyldi því skipað á fastar stöðvar í nánd við Soissonsborg. Það er í norðaustur frá París, miðs vegar milli hennar og landamæra. Þíngið gjörði þann viðauka við tillögu konúngs, að lið það, er stefndi til Soissons, skyldi leggja leið sína um París, og á það fèlst konúngur. Nú var komið fram í júlímánuð; flokkar manna komu úr ýmsum áttum, og einkum sunnan úr landi, til Parísar, er deildir Jakobínafèlagsins sendu þángað; höfðu mjög valizt til ferðarinnar alls konar óróaseggir og vígamenn. Fèlagsbræður þeirra í París tóku þeim tveim höndum og höfðu þá í hávegum, því að þeir sáu skjótt, að af slíkum mönnum máttu þeir vænta sèr öruggrar fylgdar, þá er til stórræða nokkurra kæmi. En nú var svo komið, að við öllu mátti búast; úlfúðin og hatrið með flokkunum í höfuðborginni fór vaxandi dag frá degi. Menn áttu fundi með sèr jafnt nætur sem daga, svo var ákafinn mikill. Þá fundi sóttu einkum þeir sem illgjarnastir voru og óspakastir, en hinir gæflyndari menn drógu sig í hlè, sumir af ótta, sumir af gremju, sumir af því, að þeir hvorki vildu nè gátu vanrækt atvinnu sína. Þegar nú eitthvað var af ráðið á mannfundum þessum, var það jafnan borið fram á löggjafarþínginu, og flest af því samþykt, því að varla mátti heita, að þíngið hefði lengur frjálsar hendur. Flokkar æsíngamanna voru orðnir svo stórum magnaðir. En hvað var þessum ákafa- og æsíngamönnum ríkast í skapi? Þeir vildu fyrst og fremst kollvarpa konúngdóminum, því næst eyða öllum sínum mótstöðumönnum innanlands, og að því búnu halda til landamæranna og reka af höndum sèr útlenda óvini. Robespierre og hans fylgismenn lètu það jafnan í veðri vaka, að hinir innlendu fjandmenn væru miklu skæðari en hinir útlendu.

Ofan á alt það, sem á gekk í París, bættist það nú þessu næst, að þángað barst skjal eitt, samið að sögn af frakkneskum útflutníngsmönnum og dagsett í Coblenz 25. dag júlímánaðar 1792, en undirskrifað af hertoganum af Brúnsvík. Í skjali þessu lýsti hertoginn meðal annars yfir því, að hann væri eigi sendur til þess að leggja undir sig bygðir og borgir á Frakklandi, held-

ur til hins, að eyða óstjórn þeirri, er nú ætti sèr stað þar í landi, og koma þar aftur á fastan fót konúngsvaldi, eins og verið hefði að undanförnu. Ef Frakkar veittu nokkra mótstöðu, yrði farið með þá sem upphlaupsmenn, en þíng og þjóðvörður og yfirvöld í París skyldi ábyrgjast, að konúngi væri engin hætta búin. En færi svo, að hann eða ættmenn hans yrði fyrir nokkrum óskunda, skyldu þeir, sem sekir fyndust í þeim glæp, sæta hinni grimmustu hegníngu, en Parísarborg rifin til grunna, svo að eigi stæði þar steinn yfir steini.

Slíkur boðskapur sem þessi var einúngis til þess, að gjöra vont verra og skaða þann, er hann skyldi gagna. Því að nú þóttust menn sannfærðir um, að konúngur og hirð hans væri í samráðum og vitorði með hinum útlendu óvinum. Konúngur leitaði reyndar við, að hreinsa sig fyrir þínginu af allri hluttdeild í þessari yfirlýsíngu hertogans, en því var ekki lengur trúað, sem konúngur sagði. Menn hètu hverjir öðrum að grípa til vopna, og verjast árásum útlendínganna, og í annan stað þótti nauðsyn til bera, að reka konúng frá völdum, enda var ákveðið að gjöra honum aðför nóttina milli hins 9. og 10. ágústmánaðar. Jakobínar höfðu sett nefnd manna til þess að standa fyrir aðförinni. Petion borgarstjóri vissi fyrirætlan manna, en af því að hann var þeim að mestu leyti samþykkur, gjörði hann ekkert til að afstýra henni. *Danton*, *Camille Desmoulins* og *Santerre* gjörðust helztu forgöngumenn uppreistarinnar, en Robespierre og Marat komu hvergi nærri. Aðfaranótt hins 10. ágústmánaðar kváðu klukkur við um alla Parísarborg. Hèldu þá uppreistarmenn flokkum saman til konúngshallarinnar og ruddust þar inn. Konúngur flýði og drotníng hans og börn og leituðu ásjár þíngmanna, en varðmenn í höllinni, er nokkra vörn sýndu, voru allir drepnir; voru flestir þeirra Svisslendíngar og sagðir vaskir menn, en hèr voru þeir helzt til fáliðaðir móti slíku ofurefli, er að sótti. Meðan þetta gjörðist í höllinni, sem nú var sagt, höfðu aðrir af upphlaupsmönnum rekið embættismenn borgarinnar úr völdum, og sett aðra af sínum flokki í þeirra stað. Og þegar nú sigurinn var unninn og konúngshöllin í þeirra valdi, hèlt mannfjöldinn og þessir *nýju valdsmenn* (*bæjarráðið*) til þínghússins og kröfðu þess, að konúngur væri þegar í stað sviftur völdum, en þjóðinni fengin öll yfirráð í hendur. Þíng-

menn sáu, að þeir gátu eigi lengur við ráðið, straumur byltíngarinnar var vaxinn þeim yfir höfuð, og kváðu þeir svo á: að konúngsvaldið væri af numið um stundarsakir, en kveðja skyldi menn að nýju til *þjóðarþíngs*, er gjöra ætti út um stjórnarskipun Frakklands. Meðan þetta fór fram, sat konúngur í litlu herbergi áföstu við þíngsalinn, og drotníng hans og börn, og þó þeim væri óhætt á lífi og limum, áttu þau þar samt illa búð og máttu heyra þar mörg skapraunarorð. Ráðgjafarnir voru settir í varðhald, en aðrir menn skipaðir í þeirra stað; var Danton einn af þeim, og gjörðist hann nú dómsmálastjóri ríkisins. Santerre var skipaður foríngi fyrir öllu þjóðvarðarliðinu. Bæjarráðið í París hafði þar alla hina æztu stjórn, og í því sátu þeir Marat og Robespierre. Má af þessu sjá, að Jakobínar rèðu nú einir öllu í borginni, en þíngið var aflvana og varð að samþykkja alt, sem hinir vildu vera láta. Þessu næst voru sendir menn víðs vegar út um landið, til þess að skýra þjóðinni frá því, er gjörzt hefði í París og snúa öllum til hlýðni og hollustu við hina nýju stjórnendur. Landslýðurinn var orðinn fráhverfur hinni fyrri stjórn, þótti vel sem var, að hún var undir lok liðin, og gjörði sèr von um, að breytt mundi til batnaðar við umskifti þau, er nú voru orðin. Þess vegna sætti allur þorri manna sig við þau; alls staðar hjuggust menn til varnar móti útlendíngunum, og ættjarðarástin eyddi um stundarsakir sundurlyndi og flokkadráttum í landinu.

Lafayette einn vildi fyrir engan mun þola yfirráð Jakobínaflokksins, Hann var með hersveitum sínum norður við Sedan skamt frá landamærum, er honum bárust tíðindin frá París. Hann vildi, eins og kunnugt er, hafa takmarkaða konúngsstjórn, og halda fast við þá stjórnarskrá, sem samþykt hafði verið árið áður (1791), og hann hafði svarið að halda. Byltíngu þá, sem orðið hafði 10. ágúst, kvað hann með öllu ólögmæta, og engum skylt að hlýðnast þeirri stjórn, sem þá hefði brotizt til valda með lögleysu einni og ofríki. Þess vegna lèt hann taka þá erindreka hinnar nýju stjórnar, er til hans voru sendir, og setja í varðhald, en foríngja þá og liðsmenn, er undir hann voru gefnir, lèt hann endurnýja þá eiða, er þeir höfðu áður unnið stjórnarskránni. Dumouriez var fyrir hersveit einni þar nyrðra og undir yfirstjórn Lafayettes. Honum var hvorki ant um kon-

únginn eða stjórnarskrána; hann þóttist sjá að þau voru á förum, en hitt mundi ráðlegra, að styggja sem minst hina nýju stjórnendur; þess vegna vildi Dumouriez ekki vinna eiðinn eða hans flokkur. Eins og nú var komið málum, var Lafayette í miklum vanda staddur: annars vegar útlendir fjandmenn með ofurefli liðs við landamærin, en hins vegar innlendir ofríkismenn, komnir til æztu valda, er nú höfðu af ráðið að taka af honum herstjórn og draga hann fyrir lög og dóm. Hann vildi eigi byrja borgarastríð, enda óvíst hvort liðið vildi fylgja honum. Hann sá, að hann gat ekki lengur unnið fósturjörðu sinni það gagn er hann vildi, Hann tók það ráðs, að hann skipaði fyrir hvað gjöra skyldi, ef óvinaherinn gjörði atlögu, og hèlt síðan fèlaus að mestu og við fáa menn út yfir landamærin til Belgíu, og þaðan ætlaði hann til Englands. En er hann var skamt eitt kominn, urðu fyrir honum austurríkskir varðmenn, er tóku hann og förunauta hans höndum, hvað sem hann sagði. Eftir það sat hann á ýmsum stöðum í varðhaldi Prússa hálft þriðja ár, þángað til friður var gjörður milli þeirra og Frakka (1795), þá seldu Prússar hann Austurríkismönnum í hendur, og þar sat hann í dýflissu og var þá einatt harðlega haldinn til 1797, þá var Napóleon kominn til sögunnar og hafði barið á þeim og heimtað, að þeir lèti Lafayette lausan; þorðu þeir þá eigi annað en gjöra sem Napóleon vildi.

Þegar Lafayette var flúinn af landi burt, mætti stjórnarbyltíngin því nær engri mótstöðu. Dumouriez hafði sagt og sýnt í verki, að hann viðurkendi hina nýju stjórn, enda fèkk hún honum þegar í hendur yfirstjórn alls þess liðs, er Lafayette hafði stýrt. Sums staðar neituðu reyndar herforíngjar yfirráðum stjórnarinnar, en þeim var óðara vikið frá völdum. Þannig gat stjórnin treyst herliðinu og að því leyti þóttist hún óhult. En jafnvel þó Jakobínaflokkurinn hefði fengið sitt fram, og væri orðinn yfirsterkari síðan 10. ágúst, voru þó hinir margir, er þá höfðu orðið að lúta og þóttust eiga um sárt að binda. Allir þeir menn — og til þeirra töldust þeir, er haldið höfðu fram konúngsvaldinu, höfðíngjar, óeiðsvarnir klerkar, ýmsir ríkir menn o. s. frv., — allir þeir voru næsta tortryggilegir í augum Jakobína, af þeim þóttust þeir eiga ófriðinn vísan, hvenær sem þeir sæi sèr fært, og þess vegna væri nauðsynlegt að uppræta

þá með öllu, eins og ráða má af orðum Dantons. Hann sagði einhverju sinni: «Það dugar ekki að gjöra sèr rángar hugmyndir um stöðu þá, er vèr komumst í 10. ágúst. Sá dagur skifti oss í tvær sveitir, lýðveldismenn og konúngsmenn, hinir fyrri eru fáir, hinir síðari því fleiri. Meðan þetta stendur, göngum vèr lýðveldismenn millum tveggja elda, óvinanna að utan, konúngsmanna að innan. Þessir konúngssinnar hafa sína yfirstjórn í París, þó í leyni sè, er stendur í sambandi og viðskiftum við hersveitir Prússa. Að segja yður hvar þeir eiga fundi sína, eða hverjir þeir eru, geta ráðgjafarnir með engu móti. En til þess, að trufla slíka menn, og banna þeim öll viðskifti við útlendíngana, sem oss eru svo skaðvænleg, þá verðum vèr að skjóta þessum konúngsmönnum skelk í bríngu. Eg tek það upp aftur: vèr verðum að skjóta þeim skelk í bríngu». Sumum er þetta heyrðu, var það þá, ef til vill, eigi fullljóst, er Danton bjó helzt í huga, en Marat og hans fylgismenn skildu það eins og þeim var næst skapi. Skríllinn, hinn örsnauði skríll, hafði unnið sigur á auðmönnunum og vildi nú neyta sigursins. «Einúngis sá, sem ekkert á, er ráðvandur, vitur og fær um að stjórna öðrum», sagði Robespierre. Marat talaði eigi um annað en að hefna sín á auðmönnunum, er svo lengi hefðu sogið merg þjóðarinnar, og kvað rèttast að drepa þá alla án dóms og laga. Þessu næst hófust nú rannsóknir og ofsóknir bæði í París og annars staðar gegn öllum þeim, er grunaðir voru um hollustu. Menn voru teknir þúsundum saman af öllum stèttum og á öllum aldri og settir í dýflissur; dómendur máttu engan dóm dæma öðruvísi en ofríkismennirnir vildu; alt prentfrelsi var undirokað; sèrhvert blað, er lagði konúngdóminum eitthvert líknaryrði, var gjört upptækt, og Marat rupl|aði og rænti prentsmiðjur þeirra. Aldrei hafði ofríki og harðstjórn, meðan einveldið stóð, komizt jafnlángt sem nú, og þó báru þessir menn «frelsi» og «jafnrètti» og «einveldi þjóðarinnar» öllum stundum á vörum sèr; en í þeirra augum var «þjóðin» að eins nokkrar þúsundir upphlaupsmanna, er kollvarpað höfðu lögum og landsstjórn.

Löggjafarþíngið hafði ætlazt svo til, að konúngur og skuldalið hans fengi höll eina sæmilega til íbúðar, en bæjarráðið heimtaði með hörðu, að hann yrði settur í varðhald, þar sem hægt væri að hafa gætur á honum. Þingið varð að láta undan, og

herinn í nánd við borgina *St. Menehould*, en einn af hans helztu herforíngjum, *Kellermann*, tók sèr stöðvar með sínar sveitir á hæðum þeim, er kendar eru við *Valmy*-þorp. Þángað komu Prússar 20. dag septembermánaðar (1792), og rèðu þegar á Frakka. Kellermann tók vasklega í móti, en Dumouriez sendi honum lið til hjálpar eftir því sem við þurfti. Undir kvöld lyktaði orustan og lètu Prússar þá undan síga. Þetta var orustan við Valmy, og hafði hún þau áhrif á Frakka, að þeim óx hugur og traust á sjálfum sèr, en Prússar og margar þjóðir með þeim komust nú að raun um, að hinir frakknesku útflutníngsmenn (Emigranter) höfðu eigi haft satt að mæla, er þeir lètu sèr um munn fara, að Frakkar hefðu eigi undir vopnum aðra menn en «skraddara og skósmiði». Eftir þessa orustu varð fátt til tíðinda með Prússum og Frökkum. Hvorirtveggja sátu um hríð þar sem komnir voru og hvorugir rèðu á aðra. Dagar styttust, veður fór versnandi, sótt kom upp í liði Prússa og loks sá hertoginn eigi annað ráð vænna en að halda burt af Frakklandi. Menn höfðu gjört sèr miklar vonir um framgöngu og afreksverk Prússa og talið það víst, að þeir mundu kúga óstjórn alla á Frakklandi, og kippa þar aftur konúngsvaldinu í liðinn. En reyndin varð hèr öll önnur. Prússar hörfuðu undan illa til reika, mistu mikið fè og lètu margt manna, og höfðu af hina mestu skapraun, en Frakkar þóttu meiri menn eftir en áður. Nú áttu Frakkar um sama leyti ófriði að gegna annars staðar. Austurríkismenn hèldu liði sínu frá Belgíu inn á Frakkland og settust um Lille. Það er mikil borg og ramlega víggirt norður við landamæri vestarlega. Sóttu þeir borgina af miklli ákefð, en urðu frá að hverfa við svo búið. Hinn frakkneski hershöfðíngi *Custine* fór herskildi yfir ýms hèröð þjóðverskra höfðíngja fram með Rínfljóti. Hann tók Mainz, hina sterku kastalaborg því nær orustulaust, og lèt eigi þar við lenda, heldur fór hann austur yfir Rín og náði Frankfurt við Main, ekki fyrir þá sök, að sú borg væri óvinveitt Frökkum, heldur hins vegna, að hún var vellauðug og þar var gott til fèfánga.. Frakkar gátu þó eigi haldizt við fyrir austan ána, og urðu að láta sèr nægja þær sveitir, er þeir lögðu undir sig fyrir vestan hana. Þetta hið sama haust unnu þeir einnig Savoyen og Nizza frá Sardiníu konúngi. Dumouriez var heldur eigi aðgjörðalaus um þessar

mundir. Litlu síðar en viðskiftum hans var lokið við Prússa, hèlt hann norður á Belgíu með rúmar 40 þúsundir manna. Þar voru Austurríkismenn fyrir — þeir höfðu yfirráð yfir landinu — og höfðu búizt fyrir hjá þorpi einu, er *Jemmappes* heitir. Þar rèð Dumouriez á þá (6. nóv. 1792), þótt eigi væri árennilegt. Þar varð orusta hörð og löng, áður Austurríkismenn lètu undan síga, en Frakkar unnu sigur. Þar var einn úngur maður í liði Frakka, sonur hertogans af Orleans (Égalité), er gekk svo vel fram, að sigurinn var honum að miklu leyti að þakka. Sá úngi maður varð löngu síðar konúngur Frakka (frá 1830 til 1848) og er nefndur Lodvík Filippus. Eftir þenna sigur vann Dumouriez alla Belgíu. Ófriðurinn 1792 byrjaði á því, að Prússar brutust inn á Frakkland, en endaði þannig, að Frakkar ráku þá af höndum sèr, og lögðu undir sig Savoyen, Nizza, Belgíu og meiri hluta þjóðverskra landa fyrir vestan Rín. Það sem að nokkru leyti gjörði Frökkum sigurinn auðveldari var, að allar þær þjóðir, sem þeir þá unnu, lifðu við harðstjórn og ófrelsi. Frakkar lètu alls staðar það boð út gánga, að þeir væri komnir til þess, að leysa menn undan þeirri harðstjórn og veita þeim frelsi og alla góða hluti með því, enda breyttu Frakkar þá þegar hjá þeim lögum þeirra og landstjórn og skipuðu öllu fyrir á sama hátt, sem þá var orðið hjá sjálfum þeim heima á Frakklandi. Upp frá þessu tók hin frakkneska stjórnarbyltíng að hafa mikil áhrif á aðrar þjóðir og þeirra málefni.

## III. Þjóðþíngið (*National-Conventet*).
## (frá 21. sept. 1792 til 28. oktobr. 1795).

Þjóðþíngið var sett 21. september 1792. Tala þíngmanna var nálægt 750, eins og verið hafði á löggjafarþínginu. *Petion* var kjörinn forseti því nær í einu hljóði. Nú var svo komið, að þeir, sem halda vildu í takmarkað konúngsveldi, og verið nefndir «vinstri menn» á frumlagaþínginu, en «hægri menn» á löggjafarþínginu, þeir voru nú horfnir. Nú voru *Girondínar* orðnir «hægri menn» þjóðþíngsins, þar sem þeir höfðu verið «vinstri menn» löggjafarþíngsins. Þeir höfðu verið í Jakobínafèlaginu og fylgt því fram, að konúngsvaldið yrði af numið. En eftir upphlaupið, sem varð 10. ágúst, og eftir manndrápin miklu í september mánuði, fór Girondínum ekki að lítast á

blikuna, og þótti ofsi og grimd skrílsins keyra lángt úr hófi. Girondínar vildu láta hèr staðar nema, og koma á fót lýðveldi (*Republik*) bygðu á lögbundnu frelsi og rèttlæti. Margir af þeirra flokki voru vel máli farnir og beittu mælskunni óspart gegn mótstöðumönnum sínum á þínginu, og báru þar einatt hærra hlut frá borði, en þó þeir fengi sigur í þíngsalnum, kunnu þeir ekki með siguriun að fara; þá vantaði fyrirliða og fast skipulag sín á millum, þá er til framkvæmda skyldi koma. Þess vegna gátu þeir ekki yfirbugað mótstöðumenn sína, heldur einúngis egnt þá og æst til haturs og hefnda. Var Girondínum af þessu öllu því meiri hætta búin, sem þeir áttu þeim mönnum að mæta, er eigi lètu sèr neitt fyrir brjósti brenna og svífðust einskis ills, er því var að skifta. Utan þíngs stóðu ráðgjafarnir með Girondínum, enda var Danton genginn úr ráðgjafasessi, eftir að hann var kjörinn til þjóðþíngis.

«Vinstri menn» á þjóðþínginu (eða «*fjallið*» sem þeir alment eru nefndir) voru vart 50 að tölu, eins og Girondínar, fyrst þegar þíngið var sett, en þeirra flokkur var fastur fyrir, allir sem einn maður, harðsnúnir og þrautseigir. Þeir vildu með engu móti láta lenda við það sem komið var; þeir vildu halda stjórnarbyltíngunni áfram, og það vægðarlaust, brjóta það alt niður og breyta því öllu, som verið hafði á undan, og þeir voru einráðnir í því, að láta engar mótspyrnur aftra sèr, heldur yfirstíga þær allar, og ná undir sig og sína fylgismenn öllum yfirráðum utan þíngs og innan. Með þessum «vinstri manna» flokki stóð bæjarráðið í París, fèlögin, sem fyr eru nefnd, og allur borgarskríllinn. Jakobínafèlagið magnaðist dag frá degi; á fundum fèlagsins voru ráðin lögð til alls þess, er jafnóðum var framkvæmt í verki, eða, að minsta kosti reynt til að framkvæma; frá fèlagi þessu rann öll sú illa alda, er þau árin gekk yfir land og lýð. Smámsaman gengu Girondínar úr fèlaginu, eða voru gjörðir rækir þaðan, en í þeirra stað gengu aðrir þíngmenn í fèlagið og fyltu þann flokk. Brissot var hinn fyrsti, er rekinn var úr fèlaginu, enda var hann hataður af Robespierre, en mikils metinn af öllum Girondínum. Meiri hluti þíngmanna fylgdi hvorki Girondína- eða «fjall»-flokknum, en fóru sèr, og voru nefndir «*slèttan*» eða «*mýrin*». Sumir þeirra voru kjarklausir menn, er vantaði þor og þrek til að kveða það upp, er

þeim bjó í brjósti, vildu helzt «að sín væri hvergi við getið», en gættu þó hins, að gánga jafnan í þann flokkinn, sem yfirsterkari varð; sumir vildu hvorigum fylgja, en fóru eptir sinni sannfæríngu og mislíkaði margt í fari beggja flokkanna, bæði «vinstri manna» og «hægri». Fyrst framan af þíngtímanum hneigðist allur þorri þessara manna þó öllu fremur að Girondínum, en að hinum, og ef Girondínar og ráðgjafarnir með þeim hefði þá sýnt meiri rögg af sèr, telja menn miklar líkur til þess, að þeir hefði náð yfirráðum í sínar hendur, en Jakobínar orðið undir, og alt komizt í annað horf. Jakobínar voru þá jafnvel allsmeikir um sig; hvorki þeir nè bæjarráðið vildu hafa ábyrgð af september-vígunum, og Danton sjálfur vildi koma á sátt og samlyndi. Hann var á sama máli sem Girondínar um það, að öllum innanlands ofsóknum og manndrápum ætti að linna meðal Frakka, en í þess stað ætti þeir að snúast við útlendíngum, og berjast við þá af alefli. Danton kaus heldur að eiga fèlagsskap við Vergniaud og hans líka, en við Marat og aðrar eins ófreskjur. En Girondínar vildu hafa sem minst saman við Danton að sælda —, þeim stóðu september-vígin fyrir hugskotssjónum. En þar mistu þeir góðan liðsmann, sem Danton var.

Þegar á fyrsta fundi þíngsins var það tekið í lög, að konúngdómur skyldi numinn úr gildi á Frakklandi, og næsti dagur þar á eftir, eður 22. september, varð þannig *fyrsti dagur í fyrsta ári lýðveldisins*. Þenna dag var einnig leidd í lög sú tillaga Dantons, að kjósa skyldi um alt ríkið nýja valdsmenn og nýja dómendur í stað hinna, er þá höfðu þau embætti á hendi, og að ekki þyrfti lengur lögfróða menn til þess að gegna dómarastörfum. Einn af þíngmönnum, er *Billaud Varennes* hèt, bar jafnvel þá tillögu fram, að aftaka skyldi alla dóma; það var sami maðurinn, sem fyrstur kom upp með það, að breyta tímatalinu.

Litlu eftir þetta skýrði Roland, innanríkisráðgjafinn, þínginu frá því, hvernig hagur landsins og höfuðborgarinnar stæði. Lýsíngin var alt annað en glæsileg. Hann fór þúngum orðum um alla þá óstjórn, sem ætti sèr stað í París, og gengi þaðan út um landið; hann benti á orsakirnar til þeirrar óstjórnar og jafnframt á hitt, hver ráð myndu líklegust til bóta. Ýmsir meðal þíngmanna tóku í sama strenginn, og sögðu svo meðal ann-

ars: «það er í París, að allur þessi ófagnaður hefir sín upptök, og þaðan dreifist hann út um landið. Á húsveggjum höfuðborgarinnar má víða sjá og lesa skjöl, er eggja menn á að myrða, brenna og ræna, þar eru og þeir menn til greindir — og þeirra tala fer dagvaxandi — er fyrir slíkri heimsókn eiga að verða. Það er ekki stjórnleysið eitt, er þessu veldur, það eru nýir harðstjórar, er nú vilja brjótast til valda á meðal vor, sem varla megum lausir heita undan harðstjórninni. Hvernig getur Frakkland gjört sèr von um stjórnarbót, meðan þíngið, er á að semja og samþykkja hana, hefir morðvopnin yfir höfði sèr? Sæmd stjórnarbyltíngarinnar krefur þess, að slíkar aðfarir verði stöðvaðar, og að gjörður sè greinarmunur á karlmensku þeirri, er kúgaði harðstjórnina 10. ágúst, og þeirri grimd, er annan og 3. september hlýddi í blindni harðstjórnarvaldi því, er í myrkrunum læðist». Samkvæmt þessu gáfu Girondínar það ráð, að sett væri nefnd til þess að semja lög gegn þeim mönnum, er æstu til manndrápa og rána, og að þeirri nefnd yrði einnig falið á hendur að leggja ráðin á til þess, að þíngið hefði nægilegt lið (þínglið) fyrir hendi, hve nær sem til þyrfti að taka. Þíngið fèlst á þessar tillögur, en út af þeim spunnust miklar deilur milli þíngflokkanna. Menn brugðu Robespierre um, að hann væri sá, er sækti eftir einveldinu, en gátu þó eigi fært sönnur á sitt mál, og gáfu honum einúngis tækifæri til að halda lofræðu yfir sjálfum sèr og bera sakir á mótstöðumenn sína, þar á meðal þá, að þeir (Girondínar) vildu sundra Frakklandi, og koma þar á fylkjastjórn, eða bandafylkjum, eins og í Norðurameríku. Á þessu þíngþrefi stóð lengi, nauðsynjamálum, sem alla þjóðina varðaði um, var vísað til nefnda (t. d. um stjórnarskrána, hermálefni, fjárhaginn, o. fl.). Tillaga Girondína um þínggliðið mætti svo mikilli mótspyrnu í París, að hún varð að engu. Bæjarráðið í París var, eins og menn muna, ólöglega til orðið, og var illa þokkað af flestum, þess vegna skipaði þíngið, að nú skyldi að nýju kjósa menn í bæjarráð, og svo var loksins gjört, en það varð til lítilla bóta, og fór á sömu leið sem fyr, að margir af Jakobínaflokki náðu þar aftur sæti, þar á meðal *Hébert*, nafnkendur stórglæpamaður.

Um þessar mundir varð sú breyting meðal ráðgjafanna, að hermálastjórinn Servan gekk úr völdum, en í hans stað kom sá

maður, er *Pache* hèt. Óðara en hann var seztur að völdum, gjörðist hann mesti vinur Jakobínaflokksins, og hafði það mikil og ill áhrif á herinn og alla hermálastjórn. Margir misjafnir menn komust til upphefðar og valda, og því fè, sem hermálaráðgjafinn hafði yfir að ráða, var miklu fremur varið í þarfir Parísarskrílsins en til nauðsynlegra útgjalda herliðsins. Þegar liðsmenn skorti það, er hafa þurfti, var sagt, að þeir gætu tekið það í þeim löndum, er þeir hefði leyst undan harðstjórnarvaldi, og að því rak oft og einatt; en slíkt var beinlínis til þess að brjóta niður allan hermannaaga.

Meðan þessu fór fram, er nú hefir verið sagt, sat konúngur og fólk hans í varðhaldi. Bæjarráðið setti menn til að geyma þeirra, og valdi jafnan til þess þá eina, er skorti mannvit og mentun, og eftir því fór þá öll viðgjörð við þessa fánga; en þeir báru harm sinn í hljóði, vörðu tímanum vel og styttu sèr þannig stundir. Nefnd sú, er falið var á hendur að rannsaka brèfasöfn konúngs, skýrði svo frá, að konúngur hefði gengið í samband og samsæri með útlendíngum móti Frakklandi, og fyrir því væri hann ekki lengur friðhelgur. Komu því næst til umræðu þessar spurníngar: Getur Loðvík 16. orðið dæmdur? og hverjir dómendur eiga að dæma hann? Hinir gæflyndari menn meðal þíngmanna sögðu, að nóg væri að gjört, og konúngur hefði fengið sín gjöld, er hann hefði verið sviftur völdum, og þess vegna gæti ekki orðið umtalsmál að dæma hann; annað mál væri það, að hafa hann í varðhaldi þángað til friður kæmist á, og reka hann þá af landi burt. Hinn 10. ágúst — sögðu þeir — var útgjört um Loðvík sextánda; hinn 10. ágúst hætti hann að vera konúngur; hinn 10. ágúst var hann ákærður, dæmdur og settur frá völdum, og þannig er öllum viðskiftum lokið milli hans og þjóðarinnar». Þetta vildu ákafamennirnir með engu móti láta sèr nægja, þeir vildu taka konúng af lífi þá þegar, og það án dóms og laga. Eitt úngmenni þar á þíngi, *Saint Just* að nafni, ofstopamaður mikill og orðhvatur, sagði meðal annars: «þèr sveitizt yfir því, að grafast eftir *reglum*, er þèr getið fylgt, þá er dæma skal konúnginn. Þèr streitizt við að gjöra hann að borgara, og hefja hann til þeirrar tignar, til þess að geta brugðið fyrir yður *lögum* og beitt þeim gegn honum. Eg fyrir mitt leyti segi þvert á móti, að konúngur sè

alls eigi borgari, heldur fjandmaður vor, og sem fjandmann eigum vèr að dæma hann . . . Jafnvel það «að stjórna», er í sjálfu sèr hegníngarverð tilraun, það er ofríki, sem engi bót verður mælt, þær þjóðir sem láta slíkt við gángast, eru hegníngarverðar; menn geta eigi stjórnað án þess að gjöra sig seka í glæp . . . Menn eru hèr að tala um reglur og rèttarfar, en slíkt er hræsni einber og fagurgali. Hve nær sem það hefir átt sèr stað, að þjóðir hafi hefnt sín á konúngum, þá var það ekki rèttarfarsreglur og málaþras, sem rèttlætti aðgjörðir þeirra, heldur sá rèttur, er þær höfðu til þess að beita valdi á móti valdi. Þeir tímar munu koma, að það mun þykja furðu gegna, að menn skuli eigi vera komnir eins lángt á 18. öldinni, eins og þeir voru á dögum Cæsars. Þá rèðu menn harðstjóranum bana í öldúngaráðinu, og beittu eigi öðrum rèttarfarsreglum en 23 sárum, og eigi öðrum lögum en frelsi Rómaborgar. En á vorum dögum eru menn með mestu virktum og viðhöfn að höfða sök á hendur þeim manni, sem verið hefir morðíngi þjóðarinnar, og er staðinn að verkinu». Í sömu stefnu töluðu ýmsir fleiri af fylgismönnum Robespierre. En hins vegar lögðu aðrir þíngmenn það til, að höfðuð væri sök á hendur konúngi, og síðan skyldi þíngið dæma mál hans. Um þetta leyti fundu menn í leyni-hirzlu einni í konúngshöllinni ýms skjöl, er þóttu sanna sakir þær, er menn báru á konúng; enda sýndu þau, að hann hafði staðið í brèfaviðskiftum við ýmsa menn, bæði þá er af landi flúðu, og þá, er á þíngi sátu, þar á meðal við Mirabeau. Urðu Jakobínar þá svo reiðir, að þeir vildu þegar í stað flytja líkkistu Mirabeaus burtu úr Panþeon[1], og brjóta marmaramynd hans; þó férst það fyrir í það sinni.

Þá var það eitt, er olli mönnum mikilli áhyggju, og varð að miklu ágreiníngsefni meðal þíngmanna. Það bárust fregnir úr ýmsum hèröðum landsins, að víða væri skortur á matvælum, og það svo mjög, að til mestu vandræða horfði. Það var reyndar ekki kornskortur það ár (1792); að vísu hafði veðráttan verið stirð og mannafla vantað til kornyrkjunnar, en aðalorsökin var

1) Kirkju hinnar heilögu Genovevu í París var á dögum frumlagaþíngsins breytt, og kveðið svo á, að þar skyldu vera legstaðir helztu afbragðsmanna þjóðarinnar, þá var og nafni kirkjunnar breytt og nefnd Panþeon.

þó sú, að eigendur þorðu eigi að senda korn sitt til markaða sökum stigamanna á þjóðvegum, og misþyrmínga þegar á markaðinn var komið; kusu menn svo heldur, að sitja inni með óselda vöru en eiga hitt á hættu. Nú vildu þeir, sem verst lètu af Jakobínaflokknum, láta kúga korneigendur til þess að senda kornið til markaða, og selja það fyrir ákveðið verð; kornpúkar þessir væru — sögðu þeir — fornir harðstjórar í nýrri mynd, og öll þörf á að taka sem fyrst af þeim ráðin. En meiri hluti þíngmanna hèlt því fast fram, að eignarrèttuinn ætti að vera friðhelgur, og verzlunin frjáls manna í millum, en það væri lögleysa sú, sem viðgengist í landinu, er væri aðalorsökin til neyðar þeirrar og umkvörtunar, er nú ætti sèr stað. Robespierre greip tækifærið til þess að gefa konúngi sök á þessu sem öðru, er ábótavant þótti. «Drepið harðstjórann!» mælti hann, «og vèr fáum aptur frið og spekt». Þessi orð þóttu dýrmæt, og voru endurtekin um alla borgina; sumir kröfðu þess, að konúngur og drotníng hans yrðu tekin af lífi, aðrir, að hann yrði dæmdur þegar í stað. Girondínum þótti nú vandast málið; þeim reis hugur við að eiga þátt í slíkum stórræðum, og vildu bjarga lífi konúngs, en hins vegar var auðvitað, að þeim sjálfum var háski búinn, ef þeir yrðu grunaðir um vináttu við konúng. Þess vegna reyndu þeir til að draga mál þetta sem lengst, og eftir tillögu Petions var með miklum atkvæðafjölda af ráðið, að höfða mál móti Loðviki sextánda, og, að þíngið skyldi dæma hann.

Nefnd manna, er til þess var kjörin, setti saman á eitt skjal öll þau afbrot, er konúngur hefði átt að drýgja gegn þjóðinni. Þar var honum meðal annars kent um mannfall það, er varð 10. ágúst; en einhver hin helzta og þýngsta sakargift var þó samband það talið, er hann hefði verið í við útlenda þjóðhöfðíngja. Ákveðið var, að konúngur skyldi mæta á þjóðþínginu 11. desember til þess að standa fyrir máli sínu. Þegar sá dagur kom, var konúngur færður á þíng, en strætin, þar sem leið hans lá um alskipuð hermannafylkíngum. Ákæran var lesin í heyranda hljóði frá upphafi til enda, og eftir því sem hverri grein var lokið, spurði forseti: «hverju svarið þèr til þessa?». Konúngur svaraði vel og stillilega, neitaði mörgu, gaf ráðgjöfum sínum sök á sumu, og bar jafnan fyrir sig stjórnarskrána,

er hann kvaðst aldrei hafa brotið á móti. Að lyktum beiddist hann þess, að hann mætti kjósa mann sèr til aðstoðar í málsvörninni. Því næst var konúngur fluttur aftur í fángelsið, en eigi var honum leyft að sjá konu sína eða börn meðan á máli hans stóð. Harðar deilur urðu um það á þíngi, hvort leyfa skyldi konúngi frekari málsvörn en komið var. Jakobínar settu þar þvert nei fyrir, en hinir urðu yfirsterkari, er leyfa vildu. Konúngi var sagt það. Hann kaus þann mann, er *Tronchet* hèt, nafnfrægan lögfræðíng. Um sama leyti kom brèf til forseta þíngsins frá sjötugum manni, er *Malesherbes* hèt. Hann hafði verið samverkamaður Turgots og vinur hans, og hafði á sèr almenníngsorð sakir vitsmuna sinna og mannkosta. Í brèfinu sagði svo: «Eg hefi tvisvar verið kvaddur til ráðaneytis af þeim manni, er eitt sinn var húsbóndi minn og færri fengu að þjóna en vildu. Eg finn mèr skylt að veita honum þá sömu þjónustu nú, þótt flestum þyki hún hættuleg». Boð hans var þegið; en úngum manni og málsnjöllum, *Desèze* að nafni, var falið á hendur að orðfæra vörnina og bera hana fram á þínginu. Konúngur mætti aftur á þíngi 26. dag desembermánaðar, og Desèze flutti þá varnarræðu sína fyrir hann af hinni mestu snild. Hann sagði meðal annars, að *annaðhvort* yrði að dæma Loðvík sem konúng samkvæmt stjórnarskránni frá 1791, en eftir henni gæti hann ekki sætt annari hegníngu en þeirri, að vera settur frá völdum. Vildu menn eigi fallast á þetta, gæti menn eins vel sagt, að stjórnarskráin frá 1791 væri hin versta gildra, gjörð til þess að veiða Loðvík sextánda í henni, af því að menn hefði gefið honum loforð, en hugsað með sjálfum sèr að halda það eigi; *eða* það yrði að dæma hann sem hvern annan ákærðan borgara, og þá ætti hann að njóta allra hinna sömu rèttinda, sem hver maður ætti fulla heimtíng á að lögum, t. a. m. að þeir, sem ákærðu, væri aðrir en þeir sem dæmdu, o. fl. Og Desèze hafði þá einurð að segja: «eg leita hèr alls staðar að dómendum, en finn eina saman sakar-ábera.» Í niðurlagi ræðunnar fer hann nokkrum orðum um mannkosti Loðvíks sextánda, og það er hann hafi gjört fyrir þjóð sína, og lyktar þannig: «Hann lagði meira í sölurnar en þjóðin æskti, og engu að síður er það þó í nafni hinnar sömu þjóðar, að menn í dag krefja . . . Borgarar! eg fæ mig ekki til að nefna það, er

menn krefja . . . eg lýk máli mínu með veraldarsöguna frammi fyrir mèr: gætið þess vel, að það er *hún*, sem dæma mun dóm yðvarn, og að *hennar* dómur stendur óhaggaður um aldur og æfi!».

Það hafði verið kyrð og þögn meðan konúngur og svaramenn hans voru á þíngi, en jafnskjótt sem þeir voru farnir, hófst aftur hið mesta háreysti og orðakast milli flokkanna. Vinstri menn kröfðu dóms þegar í stað, en þíngmaður sá, er *Lanjuinais* hèt frá Bretagne, mælti harðlega í móti, og kvað það lögleysu eina og þínginu til hinnar mestu vanvirðu að ætla sèr að dæma Loðvík sextánda, það væri hið sama sem að sigurvegararnir dæmdu hinn sigraða. Girondínar höfðu til þessa lítið gefið sig fram, nú lètu þeir til sín heyra, og báru upp þá tillögu, að leggja skyldi dóm þíngmanna undir samþykki allrar þjóðarinnar. Þeir treystu því, að þjóðin mundi á mannfundum víðs vegar um landið rísa í gegn Jakobínum, og að sèr mundi verða svo vel til liðs, að þeir gætu yfirstigið skrílsveldið í París. Robespierre og hans flokkur þóttust sjá, hvað undir mundi búa tillögu hinna, og kvað leikinn vera til þess gjörðan, að Girondínar gæti skotið máli sínu undan þjóðarviljanum, er auglýstur væri 10. ágúst, undir atkvæði allra fjandmanna jafnrèttisins; þessir myndu síðan gjöra samtök móti fátækri og ráðvandri alþýðu, þar af myndi kvikna borgarastríð, og konúngsvaldið að líkindum komast aftur á fót. «Dygðin er», sagði Robespierre, «jafnan í minni hluta hèr á jörðu, og það er rangt að ætlast til þess, að hún skuli gefa sig undir yfirráð lastanna». Þessu bragði var Robespierre vanur að beita; hann lèt það jafnan í veðri vaka, að hann væri talsmaður dygðarinnar, hana væri einúngis að finna hjá hinni fátæku alþýðu, þeir sem eigi vildu sèr fylgja, eða sinn flokk fylla, þeir sæti á sífeldum svikráðum við alþýðuna, þeir vildi kveikja innanlands-ófrið til þess að geta sjálfir haft gagn af og brotizt þannig til valda; það riði því mest af öllu á því, að ryðja þeim öllum úr vegi. Slíkar fortölur lètu vel í eyrum hins fáfróða og fjölmenna Parísar-skríls og hinna mörgu drotnunargjörnu og óhlutvöndu manna, er þar voru saman komnir. Liðsafli var þannig nægur og jafnan við höndina; að meðölum til að koma sínu fram, var ekki spurt. Þess vegna gat Jakobínaflokkurinn komið svo miklu og illu til leiðar.

Þegar Robespierre hafði lokið tali sínu, tók Vergniaud til máls og talaði þá svo, að allir undruðust málsnild hans. Hann sýndi þíngmönnum fram á það, er af lífláti konúngs mundi leiða: það mundi kveikja almennan ófrið milli þjóðanna, og alls konar eymd og hörmúngar dynja yfir Frakkland og leggja það í eyði, og þegar um slíkt stórræði væri að gjöra sem þetta konúngsmál, þá væri ekki annað ráð, en að skjóta því til atkvæða allrar þjóðarinnar. Ræða Vergniauds hafði að vísu mikil áhrif á allan þíngheim, og jafnvel Robespierre var sem agndofa eftir, en þeir urðu þó að lyktum fleiri, sem eigi lètu sannfærast. Um síðir, þegar komið var fram yfir nýár (1793), komst þíngið að þeirri niðurstöðu, að greiða skyldi atkvæði um þessar þrjár spurníngar:

1. Hefir Loðvík Capet[1] gjört sig sekan um samsæri gegn frelsi þjóðarinnar, og um hegníngarverða tilraun til að raska almennum friði þjóðfèlagsins?
2. Skal dómurinn, hver sem hann verður, borinn undir þjóðina til staðfestíngar?
3. Til hverrar hegníngar skal hann dæmdur?

Þíngmenn voru alls 749. Af þeim voru 28 sjúkir, eða í erindagjörðum þíngsins út um land, 37 kváðust eigi hafa heimild til að dæma Loðvík, en 683 guldu fult *jákvæði* við hinni fyrstu spurníngu. Annari spurníngunni svöruðu þrír fimtu hlutir viðstaddra þíngmanna með *neii*. Þannig var tillaga Girondína fallin. Margir af «slèttumanna» flokki greiddu atkvæði móti Girondínum, eigi af því, að þeir vildu konúnginn feigan, heldur af hinu, að þeir óttuðust þjóðina, ef hún fengi málið í sínar hendur. Sextánda janúar (1793) átti að gjöra út um þriðju spurnínguna. Árla morguns þann dag flyktist bæjarskrílinn þúsundum saman að öllum dyrum þínghallarinnar, og tók með fagnaðarópi og fagurgala móti þeim þíngmönnum, sem honum líkaði við, en með hótunaryrðum móti hinum, sem vægð vildu sýna konúngi: «annaðhvort hans höfuð, eða þitt!» æpti skríllinn til þessara manna. Atkvæðagreiðslan byrjaði ekki fyr en um kvöldið, og stóð alla nóttina og fram á kvöld daginn eftir (17. jan.). Tilheyrendur voru svo margir í þíngsalnum, sem komizt

1) Þíngið var hætt að nefna konúng sem að undanförnu, Loðvík sextánda, það þótti ekki lengur sæma, en hins vegar muna menn, að Hugo Capet var forfaðir Loðvíks 16.

gátu, og lètu allófriðlega, svo að margir af þíngmönnum voru jafnvel eigi óhræddir um líf sitt, og bjuggust við öllu illu, ef konúngur yrði dæmdur sýkn saka. Af Girondína- og «slèttumanna» flokknum greiddu 321 þíngmenn atkvæði með ýmsri hegníngu, t. d. fángelsi, þar til friður kæmist á, og síðan útlegð. Að kveldi hins 17. janúarmán. lýsti forseti yfir því: *að þíngið hefði með atkvæðafjölda* (361 af 721) *dæmt Loðvík Capet til dauða.*

Malesherbes færði konúngi þessi tíðindi. Hann varð vel við og mælti: «eg kvíði ekki dauða mínum; eg treysti miskunnsemi drottins». Loðvík sextándi kunni eigi að stjórna þjóð sinni eins og við þurfti og vera átti, enda var það eigi auðgjört eins og þá hagaði öllu til hjá Frökkum, en hann kunni að bera mótlætið, þegar það lagðist á; hann var góður maður og unni þjóð sinni af heilum hug, og kvaddi hana á höggpallinum með þessum orðum: «Eg fyrirgef þeim mönnum, er verið hafa frumkvöðlar að dauða mínum, og bið guð þess, að blóð mitt komi eigi yfir Frakkland». Meira heyrðist eigi, því að bumbuslátturinn og óhljóðin tóku yfir. Það var afhallandi dagmálum 21. janúar 1793.

Líflát Loðvíks konúngs þótti mikil tíðindi og ill. Alþýða manna á Frakklandi varð óttaslegin, og útlendum þjóðum þótti verk þetta svo illt, að þeir urðu Frökkum með öllu fráhverfir. Það kom nú fram, sem ýmsir framsýnir menn meðal Frakka höfðu sagt, að nú fyrst hófst ófriðurinn að fullu og öllu, og að nú var eigi lengur hægt aftur að snúa. Frakkar höfðu með þessu illræði slitið af sèr öll bönd, höggvið sig sjálfa úr tengslum bæði við aðrar þjóðir og við fortíð sjálfra sinna. Nú var ekki annað fyrir hendi, en að berjast við aðrar þjóðir, og annaðhvort yfirstiga þær, eða verða undir í þeim viðskiftum; um þetta voru því nær allir Frakkar samdóma, enda varð nú ófriðurinn og fjárhagur ríkisins aðalumtalsefnið bæði utanþings og innan. Flokkarnir stóðu nú, eins og áður, andvígir hverir á móti öðrum, að eins með þeirri breytíngu, að Jakobínar voru nú, síðan konúngur var af lífi tekinn, vonbetri en áður um, að stjórnarbyltíngin mundi ekki verða stöðvuð eða bæld niður, heldur mundi hún ryðja sèr til rúms, rótfestast hjá þjóðinni og bera ávöxtu. Hins vegar urðu Girondínar vondaufir um sigur, og þóttust í atburði þeim, sem varð 21. janúar, sjá upphaf nýrra

og ofboðslegri hryðjuverka en þeirra, er unnin höfðu verið að undanförnu. Sú breytíng varð á um þessar mundir, að tveir af ráðgjöfunum lögðu völdin niður. Annar þeirra var Roland, hinn mesti dugnaðarmaður en hataður af Jakobínaflokknum, hinn var hermálastjórinn Pache, er miklu illu hafði til vegar komið, bæði sökum ódugnaðar og með fylgi sínu við Jakobína. Hinn nýi hermálastjóri, *Beurnonville*, þótti miklu nýtari maður en formaður hans hafði verið, en hann átti úr vöndu að ráða, þar sem alt var í mestu óreglu, er hann tók við, og ófriðurinn færðist út, og varð miklu umfángsmeiri en áður. Til þessa höfðu Frakkar átt ófrið einúngis við Piemont, Prússa og Austurríkismenn, en nú bættust fleiri við. Englendíngar undu því illa, að Frakkar lögðu Belgíu undir sig, og í annan stað brugðust Hollendíngar reiðir við, þegar Frakkar lèttu af siglíngabanni því, er lengi hafði legið á Schelde-fljóti, Hollendíngum einum til hagsmuna. Landstjóri Hollendínga (Vilhjálmur 5.) var Englendíngum háður, og gjörði flest að þeirra vilja — þótt lýðveldismannaflokkurinn á Hollandi stæði í móti. Frökkum var kunnur fjandskapur Englakonúngs og Landstjórans, urðu fyrri til bragðs og sögðu hvorumtveggja stríð á hendur (1. febr.). Litlu síðar hófst ófriður milli Frakka og Spánverja. Konúngurinn á Spáni var einn af Bourbona-ættinni, og lèt Englendínga spana sig til ófriðar. Enn fremur risu þýzku ríkin upp móti Frökkum, því að Custine hafði að fyrra bragði brotizt inn í lönd þeirra, eins og áður er ritað; loksins má telja flestöll smáríkin á Ítalíu í óvinatölu Frakka. Það má því svo að orði kveða, að allar þjóðir Norðurálfunnar væri gengnar í samband móti Frökkum. Rússar gáfu sig reyndar lítið fram að þessu sinni, því að Katrín önnur, drotníng þeirra, var þá sem óðast að brjóta undir sig Pólverja og skifta ríki þeirra. Með hvorigum voru Danir, Svíar, Svisslendíngar og Tyrkir. Sá maður, er fótum kom undir þetta stórkostlega samband, var *Vilhjálmur Pitt* (hinn ýngri), stjórnarforsetinn enski, stórvitur maður eins og faðir hans og svarinn óvinur Frakka. Hann kom því til leiðar, að Englendíngar styrktu meginlandsþjóðirnar með ærnu fè, til þess þær gætu gjört út her á hendur Frökkum. Pitt vann hèr tvennt í einu: hann friðaði alt stórmenni á Englandi, er hataði aðfarir Frakka, með því að gjörast forgöngumaður sambandsins gegn þeim, og í ann-

an stað jók hann svo veldi og yfirráð Englendínga á hafinu, að þeir urðu þar einvaldar.

Nú voru Frakkar að vísu lítt við búnir slíku ofurefli, er í móti þeim stóð, en hugur þeirra og dugur óx með hættunni. Þíngið lèt auka herinn og bæta á allar lundir. Lið það, sem Dumouriez hafði yfir að ráða, var fátt að tölu og illa búið. Hann hafði þenna sama vetur brotizt inn á Holland, því að Frakkar vildu fyrir hvern mun ná undir sig jafnauðigu landi. En sem Dumouriez var farinn burt af Belgíu, komu Austurríkismenn þángað með miklu liði og settust þar að; varð Dumouriez þá aftur að halda til Belgíu, en átti þar illu einu að mæta. Frakkneskir sendimenn frá París höfðu komið þar, og þó Belgía hèti vinaland, höfðu þeir rænt þar bæði kirkjur og klaustur, og flutt ógrynni gulls og silfurs til Parísar. Þessir óhlutvöndu menn spiltu þannig vinsældum Frakka á Belgíu, en greiddu götu Austurríkismanna. Dumouriez gjörði það, er í hans valdi stóð, til að ráða bót á þessu, og upp frá því var það hans mark og mið, að gánga í berhögg við ofríkismannaflokkinn í París. Hins vegar voru þessir flokksmenn heldur eigi aðgjörðalausir; þeir fengu því til vegar komið, að nýr skattur var lagður á alla efnamenn, og að nýr dómur (*stjórnbyltíngardómur*) var settur til þess að vaka yfir öllum grunsömum mönnum og dæma þá; líkt því sem átt hafði sèr stað sumarið áður, þá er septembervígin urðu. Þá var og ákveðið, að senda skyldi 82 menn af þjóðþínginu, tvo og tvo saman, út um alt land, til þess að flýta fyrir liðssafnan, handsama þá menn, sem þeir kölluðu grunaða, og, í fám orðum að segja, skipa þar fyrir um alt eins og stjórnendur Jakobína í París vildu vera láta. Það mátti segja, að Frakkland væri ofurselt harðstjórn þessara ófyrirleitnu erindreka.

Um þetta leyti hófust óeirðir á vestanverðu Frakklandi, og urðu bæði harðar og lángar. Hafa menn kent þær við fylki það, er Vendée heitir, og nefnt *Vendé-ófriðinn*. Þar er landi svo háttað vestur frá, að með sjó fram er láglent og mýrlent og alt sundurgrafið með skurðum, en þá er frá sjónum dregur, taka við skógi vaxnir hálsar og hæðir með skörðum og geilum, og alt er görðum sett og girðíngum til þess að friða ekrur og engjar; þar er gott til varnar en ilt til aðsóknar. Þar lifði alt í bróðerni, bændur, klerkar og höfðíngjar; þar var allur annar

sveitarsiður en austur á Frakklandi. Þegar nú stjórnarbyltíngin kom í þessi kyrlátu og tilbreytíngarlausu bygðarlög, með öllu sínu harki og öllum sínum nýbreytíngum, þá var sem menn hrykkju upp af værum blundi. Þegar prestarnir, er eigi höfðu viljað eiðinn vinna, voru sviftir embættum, þegar allir ýngri menn voru teknir frá heimilum sínum og reknir í herþjónustu, þá risu bændur upp (10. marz 1793) í sveitum þessum, beggja megin við Loire-fljótið, og drápu valdsmenn þá hina nýju, er Jakobínastjórnin í París hafði sent þángað. Þannig byrjaði þessi skæði ófriður. Fyrst framan af voru það bændur einir sem börðust og í smáhópum, en er frá leið, gengu höfðíngjar í lið með þeim og gjörðust foríngjar þeirra. Voru sumir af þeim vopnum vanir og kappar miklir.

Jafnframt því, sem þjóðþínginu í París bárust fregnir af uppreistinni vestur á Vendée, komu önnur tíðindi og eigi betri norðan af Þýzkalandi og Belgíu. Prússar höfðu rekið Custine og lið hans vestur yfir Rín og sezt um Mainz, en Frakkar voru þar illa staddir. Frá Dumouriez kom bréf til þíngsforsetans, og voru þar ritaðar ófagrar sögur um aðfarir hinna frakknesku erindreka á Belgíu, og þúngum orðum farið um alla þá óhæfu, er við gengist í París og breiddist þaðan út í allar áttir. Þeir, sem þá réðu mestu í París, vissu að Dumouriez var vinsæll meðal liðsmanna sinna og þorðu eigi að gánga í berhögg við hann þá þegar, lètu því eigi uppskátt það, er í brèfinu stóð, en tóku það ráðs, að senda Danton til Belgíu með þeim erindum, að fá Dumouriez til að taka það aftur, er hann hafði ritað. En þótt hann hefði einmitt þá daga (18. marz 1793) barizt við Austurríkismenn hjá *Neerwinden* og beðið ósigur, var hann samt ófáanlegur til að afturkalla nokkuð af því, er hann hafði sagt og ritað. Hann var þvert á móti staðráðinn í, að kollvarpa yfirráðum Jakobínaflokksins. En með ráði varð að fara, þar sem hann hafði nýbeðið ósigur og stóð því ver að vígi en áður. Dumouriez tók því það til bragðs, að hann sagði einum af herhöfðíngjum Austurríkismanna, er *Mack* hèt, frá fyrirætlan sinni, og samdist svo með þeim, að Dumouriez hèt að láta Belgíu lausa við Austurríkismenn, en sjálfur ætlaði hann að halda liði sínu til Parísar, hleypa þínginu upp, gjöra son Loðvíks sextánda að konúngi, og, bjarga drotníngunni úr varðhaldi; á meðan skyldi

vopnahlè standa og Austurríkismenn veita Dumouriez lið ef á þyrfti að halda. Jafnskjótt sem þetta frèttist til Parísar, sendi þíngið erindreka sína og þar á meðal hermálastjórann Bournonville norður til Dumouriez og bauð honum að koma og gjöra grein fyrir gjörðum sínum. Því neitaði hann harðlega og þá er þeir lýstu yfir því, að hann væri settur frá völdum, lèt hann grípa þá alla og senda Austurríkismönnum, og þar voru þeir settir í varðhald[1]. En af þeirri fyrirætlan Dumouriez, að halda til Parísar og steypa Jakobínum úr völdum, varð ekkert, því að liðsmenn hans vildu eigi fylgja honum. Sá hann þá eigi annað ráð vænna en að flýja af landi burt eins og Lafayette hafði áður gjört. En það skildi með þeim, að Lafayette sneri aftur til Frakklands og hèlt virðíngu sinni til dauðadags, en Dumouriez átti aldrei afturkvæmt og andaðist í elli á Englandi 1823.

Atferli Dumouriez hafði mikil áhrif á Frakkland, að vísu urðu þau minni en við mátti búast, að því leyti er snerti vopnaviðskifti Frakka og Austurríkismanna þar nyrðra, því að prinzinn af *Coburg*, yfirforíngi Austurríkismanna, lèt vopnahlèð standa um nokkra daga, og gjörði Frökkum engar ónáðir, en á meðan bjuggust þeir um sem bezt varð og fengu þann yfirforíngja í stað Dumouriez, er *Dampierre* hèt. En að því leyti er snerti, þíngið í París og þíngflokkana og aðgjörðir þeirra, voru áhrifin mikil og ill. Það hafði oft verið yfir því kvartað, að framkvæmdarvaldið væri helzt of lítið. Nú er hèr var komið og landi og lýð var hætta búin af útlendum og innlendum vandræðum, kom þetta málefni af nýju til umræðu, og nú kvað þíngið svo á (6. apríl) að skipa skyldi *níu manna stjórnarnefnd*, er hafa skyldi hið æzta vald á hendi. Nefnd þessi var kölluð *velferðarnefnd (Comité du salut public)*, og kosnir menn í hana til eins mánaðar í einu. Allar þær fyrirskipanir, sem út gengu frá nefnd þessari, áttu ráðgjafarnir tafarlaust að láta framkvæma; allir umboðsmenn, er sendir voru út um landið til herliðsins, og allir hershöfðíngjar, urðu að hlýða boði og banni nefndarinnar. Hún hafði mikið fè til umráða, og þegar nú aðrir eins dugnaðar og ákafamenn eins og Danton og nokkru seinna Robespierre

---

1) Nokkru síðar lètu Frakkar dóttur Loðvíks sextánda lausa við Austurríkismenn, og þá fengu þeir Bournonville lausn og heimfararleyfi.

og Saint-Just komust í nefndina, þá má nærri geta, að hún hafi gjörzt særið umsvifamikil og keppt að því marki og miði, að ná fullu einveldi yfir Frakklandi. Enginn maður af Girondínaflokki var kosinn í nefnd þessa.

Þegar er menn voru búnir að jafna sig eftir hin fyrstu ótíðindi, er bárust til Parísar bæði frá Vendée og frá Dumouriez, hörðnuðu deilur meðal þíngflokkanna. Robespierre og kompánar hans báru ýmsar sakir á Girondína, og ein var sú, að þeir hefðu verið í vitorði með Dumouriez. Krafði Robespierre þess, að allir þeir, er verið hefðu í slíku vitorði, og enn fremur að allir Orleans-ættmenn yrðu dregnir fyrir lög og dóm, og endaði ræðu sína þannig: «en það er þíngmennina Vergniaud, Guadet, Gensonné o. fl. snertir, þá væri það ósvinna af mèr, að bera sakir á slíka sæmdarmenn, og jafnframt því, er eg kannast við, hve litlu eg fæ orkað þar sem þeir eru annars vegar, vil eg fela þetta atriði speki og forsjá þíngmanna». Girondínar — og þá Vergniaud öðrum fremur — gáfu mótsöðumönnum sínum aftur góð svör og gild, brugðu þeim um september-vígin og um það, að þeir vildu beita harðstjórn og ofríki við þíngið, og hefðu Parísar-skrílinn sem verkfæri til þess og annars, er þeir vildu framkvæma. Þegar þeir Robespierre sáu, að þeir myndu engan veg komast með orðum einum, gripu þeir til hins sem þeir áður höfðu gjört, að beita ofríki. Nú voru því — síðustu daga maí-mánaðar 1793 — ýmsir menn, er Jakobínar höfðu helzt augastað á, teknir höndum og settir í varðhald, bumbur voru barðar, turnklukkum hríngt, liðsmönnum skipað á ýmsa staði, skrílnum fengin barefli í hendur, og alt var á tjá og tundri um Parísar-borg. Annan dag júní-mánaðar komu sendisveinar bæjarráðsins á þíng og báru vopn undir klæðum, og kröfðu þess, að 30 þíngmanna væru þegar teknir fastir, en forseti svaraði, að fyrst yrði að prófa sök þeirra, áður það væri gjört. Við það fóru sendimenn á burt, en hersveitirnar þokuðust nær þínghöllinni og skipuðust sem þykkvast fyrir allar dyr. Nokkrir meðal þíngmanna leituðu útgöngu, en þess var enginn kostur, alls staðar voru fyrir vopnaðir menn. Þá gaf einhver það ráð, að þíngmenn skyldu allir gánga af þíngi og leita verndar hjá þjóðverðinum (Nationalgarden). En fyrir því hafði verið sèð, að það lið væri eigi hendi næst, ef þíngið leitaði þaðan trausts og

halds, þess vegna brást þíngmönnum sú hjálp. Gekk nú forseti af þíngi og flestallir þíngmenn fylgdu honum; en sem þeir komu út fyrir höllina, stóð manngrúinn þar fyrir með vopnum. Forseti bauð að þeir gæfi þíngmönnum rúm, en höfðínginn fyrir liðinu, *Henriot* að nafni, hinn mesti ribbaldi, kvaðst engum manni leyfa útgöngu, og í annan stað lèti hann skjóta þínghöllina niður í rústir, ef menn þeir væru eigi fram seldir, er þjóðin krefði. Þíngmönnum var því einn kostur nauðugur að snúa aftur til þíngsalsins og láta þar fyrir berast. Eftir nokkrar umræður varð niðurstaðan sú, að hinir ákærðu þíngmenn voru afhentir lögreglumönnum, fluttir hver til síns heimilis í borginni og hafðir þar í varðhaldi. Þannig var aðgjörðum Girondína á þínginu lokið. Flestir þeirra höfðu á *löggjafarþínginu* með málsnild sinni og ákafa veitt straumi stjórnarbyltíngarinnar lengra áfram en góðu hófi gegndi. En er þeir sáu hinar hryggilegu afleiðíngar starfa sinna, þá skelfdust þeir, og gjörðu á *þjóðþínginu* það þeir kunnu til þess að sporna við frekari vandræðum, en gátu þá eigi lengur við ráðið. Stjórnarbyltíngin óx þeim yfir höfuð; þeir voru grunaðir af mótstöðumönnum sínum um, að þeir stæðu í sambandi við útlenda og innlenda óvini, er bæla vildu stjórnarbyltínguna niður, og eyða öllum hennar góðu ávöxtum. Til óleyfilegra meðala vildu Girondínar ekki grípa, en hinir svífðust einskis. Þess vegna urðu Girondínar undir í þeirra viðskiftum.

Nú var svo komið, að Jakobínaflokkurinn átti sigri að hrósa, enda heimtuðu þeir, sem frekastir voru og verst lètu, að valdsins væri neytt sem framast væri unt, en foríngjarnir sem hygnari voru, vildu fara hægt og gætilega, því að þeim var kunnugt, að víða um landið bryddi á talsverðri óánægju og mótspyrnu, og það varðaði miklu, að borgarastèttin í höfuðstaðnum, er mislíkaði svo margt af því sem gjört hafði verið, yrði eigi stygð svo að hún neyddist til að grípa til vopna. Í Marseille höfðu menn rekið erindreka þjóðþíngsins burt úr borginni, og bannað Jakobínum þar alla mannfundi. Í Toulon voru menn eigi tryggir. Í Lyon höfðu orðið óspektir, því að skríllinn vildi ræna hina betri menn eigum sínum; en skríllinn varð undir. Í Bordeaux, höfuðborg Girondafylkis, risu menn upp til þess að verja þíngmenn sína, og á Norðmandíi stóð fjöldi manna í móti

Jakobínum, og höfðu einkum aðsetu í borg þeirri, er Caen heitir. Þángað norður höfðu og ýmsir af Girondínum leitað, en sumir þeirra, eins og t. a. m. Vergniaud, vildu ekki flýja úr varðhaldi, heldur sitja kyrrir þar sem komið var, og bíða dómsins. Aftur höfðu nokkrir komizt á burtu t. a. m. Brissot, Petion, Barbaroux og Lanjuinais. Brissot og Barbaroux varð báðum náð og báðir teknir af lífi, Petion var eltur sveit úr sveit þángað til um síðir að hann sá sèr ekki undanfæri, og rèð sèr sjálfur bana; Lanjuinais náðist aldrei, komst seinna til vegs og valda, og lifði fram á daga Karls tíunda.

Þjóðþíngið hafði komið saman í þeim tilgángi, að semja nýja stjórnarskrá, því að hin frá 1791 átti ekki lengur við, úr því konúngsvaldið var af tekið. En meðan Girondínar voru á upprèttum fótum, og máttu sín mikils á þíngi, vildu Jakobínar með engu móti, að stjórnarskrá yrði samin og samþykt. Nú þar á móti, þegar þeir voru orðnir einráðir, þótti Robespierre tími vera kominn til þeirra starfa, og nú lèt hann það í veðri vaka, að það væri Girondínum einum að kenna, að svo lengi hefði dregizt að semja stjórnarskrána. Einn af þíngmönnum, er *Hérault Séchelles* hèt, var því kjörinn til þess að semja frumvarp til þessara grundvallarlaga, er bygt skyldi á fullkomnu jafnrètti og æðstu yfirráðum lýðsins. En undir niðri var það áform Robespierre, að stjórnarskráin yrði einúngis til málamyndar, og til þess að alþýðu manna væri gjört nokkuð til skaps, því alþýðan bjóst alt af við, að þegar stjórnarskrá væri fengin, þá mundi henni fylgja friður og fullsæla. «Eg skal reyna til», sagði Herault, «að gánga svo frá þessari stjórnarskrá, að engum lifandi manni komi til hugar að fylgja henni». Að fáum dögum liðnum var skráin fullgjör og samþykt á þíngi, en reyndar komst þessi stjórnarskrá (sem kend er við árið 1793) aldrei lengra en á pappírinn. Það var eitt í henni, að framkvæmdarvaldið skyldi vera í höndum 24 manna, og helmíngur þeirra víkja úr völdum á ári hverju. Lögum þessum fögnuðu þeir hvað mest, sem minst höfðu vit á að meta þau. Þannig flyktust bæði konur og karlar á þíng, og færðu þíngmönnum þakkir sínar fyrir þessa aðdáanlegu löggjöf; stundum hljómaði þíngsalurinn af lofsöngum, stundum voru sæti þíngmanna blómum stráð, úngbörn færðu

forseta blómkerfi, og konur rèttu honum rauðar húfur í þakklætis- og virðíngarskini.

En meðan allur þessi fögnuður í París stóð sem hæst, gaus sá kvittur upp, að Marat, «þjóðvinurinn» hefði verið myrtur (13. júlí). Morðíngin var úng stúlka frá Caen, *Charlotta Corday* að nafni. Hún var gagntekin af harmi og gremju yfir öllum þeim hörmúngum, sem fósturjörð hennar varð að líða, og hún kendi þær að mestu leyti hinum blóðþyrsta «þjóðvini». Hún einsetti sèr að ráða hann af dögum, og vinna þjóð sinni gagn á þann hátt. Hún duldi alla þess, er henni bjó í brjósti, fór til Parísar, náði fundi Marats, og kvaðst verða að segja honum merkileg tíðindi frá Caen. Marat spurði hana að nöfnum þeirra þíngmanna, er þángað höfðu flúið. Hún skýrir honum frá því, en hann ritar nöfnin á blað, og segir um leið: «það er vel, þeir skulu allir innan skamms upp á höggpallinn!». «Á höggpallinn», mælti hún, grípur hníf úr barmi sèr, og leggur til Marats; kom lagið í brjóstið, og var það hans bani. Charlotta reyndi eigi að forða sèr; var hún fáum dögum þar á eptir dæmd til dauða og höggvin síðan. Hún gekk móti dauða sínum með mikilli hugprýði og stillíngu, enda var hún sannfærð um, að hún hefði unnið þjóð sinni þarft verk. Og þó var það reyndar eigi svo, því að þeir Robespierre þóttust nú sjá, að sèr mundi ætlað alt hið sama, og fyrir því einsettu þeir sèr, að verða fyrri til taks, sjá sjálfum sèr borgið, og eyða sem fyrst öllum sínum mótstöðumönnum; en eigi lètu þeir annað uppskátt, en að þeir vildu hefna Marats, og áttu því mjög hægt með að æsa alþýðuna og skrílinn, sem trúði á Marat, eins og hann væri dýrðlíngur þjóðarinnar.

Velferðarnefnd sú, er fyr var getið, — í henni voru þeir Danton og Barrère, helztu mennirnir — hafði, það sem af var, miðlað málum, og sýnt bæði vit og stillíngu í stjórn sinni. Hún hafði meðal annars eigi hikað við, að setja aðalsmenn yfir herinn, ef þeir þóttu á annað borð nýtir foríngjar, eins og t. a. m. Custine. En flestir þeirra höfðu lært í «gamla skólanum», og vildu hafa strángan aga á liðsmönnum sínum. Slíkt þótti Robespierre óþolandi harðstjórn, og átaldi það harðlega í Jakobínafèlaginu, enda varð það nú viðkvæðið á fundum þeirra, að allir aðalsmenn skyldu gjörðir rækir úr hernum. Hébert ritaði í

blaði sínu, að liðsmönnum væri eigi skylt að hlýðnast slíkum foríngjum, en sjálfur hermálastjórinn *Bouchotte* lèt útbýta blaði Héberts í öllum herbúðum. Það má því nærri geta, hvernig gengið hafi herþjónusta og hernaðarstörf Frakka um þessar mundir. Velferðarnefndin sá, að svo búið mátti eigi lengur standa, og sumir af nefndarmönnum vildu jafnvel losast úr henni. Danton gekk úr nefndinni og fleiri með honum, en í þeirra stað komu vinir Robespierre, og var St. Just einn af þeim. Það var 10. dag júlímánaðar. Robespierre varð litlu síðar nefndarmaður, þá er honum þótti tími til þess kominn. Upp frá þessu harðnaði öll stjórn nefndarinnar. Nú var eigi framar spurt um líf eður eignir manna eður rèttindi. Þeir sem nú rèðu öllu, hugsuðu eigi um annað, en halda viðstöðulaust áfram sinn blóðferil, hrinda því öllu úr vegi, er fyrir varð, og brjóta undir sín yfirráð land og lýð. Til þessa höfðu Parísardrotnarnir hlíft við að gánga í berhögg við Lyon og hinar aðrar stórborgir, er nefndar voru. Nú var lýst yfir því, að yfirvöldin í Lyon væru ófriðhelg og skorað á bændur í nærsveitum þar syðra, að taka þá borg, en eigum borgarmanna skyldi skift að verðlaunum milli borgarskrílsins og þeirra manna, er fengi tekið hana. Borgarmenn í Lyon gripu til vopna, drápu *Chalier*, einn af erindrekum þjóðþíngsins og einhvern hinn versta mann, og vörðust djarflega liði því, er að sótti.

Ófriðurinn vestur í landi (Vendée) magnaðist dag frá degi, og var margt er að því studdi; landslagið var, eins og fyr er sagt, gott til varnar en ilt til aðsóknar, íbúar voru þar veiðimenn miklir og skotmenn hinir beztu, samgöngur voru greiðar um hafið og fengu þeir bæði vopn og vistir frá Englandi, fyrirliðar þeirra voru margir hverir hinir mestu fullhugar. Hins vegar áttu hershöfðingjar þeir, er sendir höfðu verið til þess að bæla uppreistina niður, mjög svo erfitt uppdráttar. Þeir voru með fyrsta liðfáir; fengu reyndar nokkurn liðsafla frá París, en það lið gjörði fremur að spilla en að bæta. Það var óvant allri herþjónustu, þoldi enga stjórn og engan aga, og flýði þá er fram skyldi gánga. Þegar því eitthvað gekk miður en skyldi, var hershöfðíngjunum einum gefin sök á því og þeir reknir frá völdum, en aðrir ónýtari látnir koma í þeirra stað. Því að þeir einir voru sjálfsagðir að komast til valda, sem kostuðu kapps

um að þóknast Robespierre og vinum hans; um þekkíngu og mannkosti var eigi spurt á þeim tímum. Þannig varð *Rossignol* yfirforíngi vestur á Vendée. Hann var úrsmiður í París, kunni ekki til herþjónustu og því síður til herstjórnar, en hafði gengið vel fram þegar septembervígin voru unnin, og fleiri mætti nefna honum líka, er þá komust til uppheðar. Svo gekk það þar vestur og svo gekk það nyrðra, þar sem við Prússa og Austurríkismenn var að etja. Prússar náðu loksins Mainz (25. júlí 1793), eftir lánga og fræga vörn, og Austurríkismenn náðu ýmsum kastalaborgum.

Þannig var Frakkland umsetið af útlendum óvinaher að norðan og austan, en borgarastríð þjáði það sunnan og vestan. Neyð var mikil í landinu. Bændur vildu eigi flytja korn til kaupstaða, af því þeim var bannað að selja það nema fyrir ákveðið verð, og boðið að taka í móti seðla eina, sem lækkað höfðu í verði og voru orðnir því nær gagnslausir. Það var því harðrètti og húngur manna á milli í kaupstöðum og í þeim sveitum, er kornyrkja átti sèr eigi stað. Allar nauðsynjavörur hækkuðu í verði að því skapi sem peníngar lækkuðu. Sama daginn, sem Robespierre gekk í velferðarnefndina (27. júlí) var það tekið í lög, að hver sá, sem ætti nokkurn forða af matvælum og annari nauðsynjavöru fremur en sjálfur þurfti, skyldi gjöra yfirvaldinu grein fyrir því, en yfirvaldið setja fast söluverð á vöruna. Sá sem bryti móti þessu boðorði skyldi dauðasekur. Þeir, sem nokkuð höfðu handa í milli, áttu því á hættu að vera dregnir fyrir lög og dóm, hvenær sem einhver vildi verða til að kæra.

Þegar Robespierre gekk í velferðarnefndina 27. júlí 1793, var stjórn Frakklands nokkuð á reiki. Þjóðþíngið hafði reyndar lokið störfum sínum, þá er hin nýja stjórnarskrá var samþykt, og velferðarnefndin sát eigi nema einn mánuð að völdum. En þíngið vildi ógjarna leggja völdin niður og sjá á bak þeim vegi og þeirri virðíngu, er þíngmenskan hafði í för með sèr, og velferðarnefndin reyndi að koma sèr á fastan fót. Að hve miklu leyti þetta gæti tekizt var eigi undir þjóðarviljanum komið, því að þjóðin var undirokuð um land alt, nema á Vendée og í einstökum borgum. Jakobínafèlögin og nefndir þær, sem settar höfðu verið um allar sveitir (*stjórnbyltíngarnefndir*), höfðu alt

vald í sínum höndum; en nú var spurníngin sú, hvort þessir forvígismenn lögleysunnar vildu til lengdar hlýða yfirboðurum sínum. Allir vildu stjórna, enginn hlýða, og þeir menn, sem nú fengu æztu yfirráð á Frakklandi um eins árs tíma, komust brátt að þeirri raun, að sumir aðrir af Jakobínaflokkinum vildu með engu móti vera undir þá gefnir. Einkum var það *Hébert* og hans fylgismenn (*Hébertsmennirnir*), eins og *Chaumette*, er miklu rèð í bæjarstjórninni, og *Vincent*, önnur hönd hermálastjórans Bouchotte, er þóttust eins vel kjörnir til yfirráða eins og Robespierre. Ár það, sem nú fór í hönd, eða tímabilið frá 27. júlí 1793 til 27. júlí 1794 (*ógnarárið*, «*Rædselsperioden*») linnir hvorki grimmustu harðstjórn yfir þjóðinni, nè sífeldum deilum og ofsóknum milli höfðíngjanna.

Nú leið ekki á löngu áður ýms lög og fyrirskipanir birtust frá þínginu, er ljóslega sýndu það, er velferðarnefndinni bjó í brjósti — því að þíngið gjörði það eitt er nefndin vildi —; María Antonetta skyldi flutt í annað og lakara fángelsi og mæta fyrir stjórnbyltíngardómi; legstaðir konúnganna í Saint-Denis skyldu lagðir í eyði; allir útlendir menn, af óvinaþjóðum Frakka er bólfestu höfðu tekið í Frakklandi eftir 14. júlí 1789, skyldu teknir fastir og settir í varðhald. Var þetta síðasta boðorð einkum gefið móti Englendíngum, því að mönnum var kunnugt, að Englar höfðu sína erindreka um alt Frakkland, og komu þar ýmsu illu af stað. Ensku stjórninni var kent um, að hún lèti út býta falspeníngum á Frakklandi, ræna bæði frakknesk skip og annara þjóða, er þángað vildu flytja vörufarma. Þíngið lèt út gánga kæruskjal yfir ensku stjórninni, og sendi það öllum mentuðum þjóðum og lýsti yfir því, að Vilhjálmur Pitt væri óvinur alls mannkyns.

Þegar komið var fram í miðjan ágústmánuð (1793), gekk sá maður í velferðarnefndina, er *Carnot*[1] hèt, og varð hann Frökkum einhver hinn þarfasti maður, því að hann kom með vitsmunum sínum og dugnaði góðri skipan á öll hermálefni Frakka, og frá þeim tíma hófst sigursæld þeirra yfir öðrum þjóðum. Þá

1) Carnot, fæddur 1753, staðfastur lýðveldismaður og manna ósèrplægnastur. Árið 1804 hafði hann einn af þíngmönnum hug og hreinskilni til að mæla gegn því, að Napóleon yrði keisari. Carnot dó í útlegð 1823.

var það meðal annars leitt í lög, að allir ókvæntir menn, 18 til 25 ára gamlir, væru skyldir að gánga í herþjónustu. Seinna var því við bætt, að hver maður frakkneskur og vopnfær, væri skyldur að berjast fyrir fósturjörð sína, þángað til hinn útlendi her væri rekinn út yfir landamærin. Með þessu móti safnaðist Frökkum skjótt lið, og Carnot sá um, að eigi skorti vopn eða annað, er herinn þurfti á að halda.

Einn af yfirhöfðíngjum liðsins, Custine, hafði farið halloka fyrir þjóðverjum norður í Rínarlöndum eins og áður er sagt, og ekki komið hersveit þeirri til liðs, er upp varð að gefast í Mainz. Hann var því að boði stjórnarinnar tekinn höndum, dæmdur og höggvinn seinustu dagana í ágústmánaði. Afdrif hans áttu að vera öllum öðrum herhöfðíngjum til viðvörunar, og sýna þeim, að líf þeirra væri í veði, ef þeir fylgdu eigi skilyrðislaust skipunum stjórnendanna í París.

Um það leyti kom sú fregn sunnan úr landi, að Toulon hefði gengið á vald Englendíngum, og þótti það verri atburður en alt annað, er lýðveldinu hafði mætt til þessa. Helztu borgir á sunnanverðu Frakklandi við Miðjarðarhafið eru Marseille og Toulon, hver annari meiri og auðugri. Marseille var fræg af verzlun sinni framan úr öldum, en Toulon hafði það sèr til ágætis, að þar hafði herskipafloti Frakka á Miðjarðarhafi aðsetu, og hún var ramlega víggirt. Íbúar í borgum þessum undu illa ofríki Jakobína, og í Toulon voru fleiri konúngsvinir en lýðveldismenn. Englendíngar lágu þar mörgum skipum fyrir landi og sátu um Frakka ef á sjóinn færi, en hitt kom þeim eigi til hugar að ráða á Toulon og taka hana með vopnum; hún var traustari en svo. En nú kom þar, að Marseille gafst upp fyrir stjórnarherunum og fékk þúnga hegníngu. Þá sáu Toulonsmenn sitt óvænna og tóku það ráðs, að leita liðs hjá Englendíngum og gefa þeim borgina á vald, þó þannig, að það væri í nafni Loðvíks 17[1]. Settust Englendíngar nú í borgina og tóku öll

1) Svo nefndu útlendíngar og konúngsvinir son Loðvíks sextánda. Hann var fæddur 1785, sat í fángelsi frá því foreldrar hans voru teknir og til þess hann dó 1795 lítið kominn á ellefta ár. Margt unnu Frakkar ilt og óguðlegt á þeim árum, en meðferð þeirra á sveini þessum er þó eitt hið versta og viðbjóðslegasta, er eftir þá liggur.

borgarvirki og öll herskip Frakka þar á höfninni, yfir 50 línuskip og freigátur, í sínar vörzlur. Hinir skæðustu óvinir Frakka höfðu þannig náð fótfestu þar, er sízt skyldi, og þar, er þeir gátu orðið lýðveldinu hættulegastir. En því meiri sem hættan varð, því meiri varð hugur og dugur, harka og hamfarir lýðveldisstjóranna. Það hafði nokkru áður verið lögboðið, að hver maður sem efni hefði, væri skyldur til að lána stjórninni fè, miðað að tiltölu rèttri við efni manna og tekjur — þeir sem t. a. m. höfðu 50,000 «fránka» í tekjur, voru eftir því skyldir að lána stjórninni 20,000 fránka, en halda sjálfir að eins 30,000 eftir o. s. frv. — En alt til þessa höfðu menn hlífzt við að heimta fè þetta saman, en nú var það gjört, og það vægðarlaust. Nú voru og settir fjórir stjórnbyltíngardómar (áður var hann einn), því að nóg var til handa þeim að starfa. Það var um sama leyti, að sendimenn frá bæjarstjórninni í París komu á þjóðþíngið með umkvörtun yfir þeim, er eigi vildu selja kornföng sín. Chaumette hafði orð fyrir sendimönnum þessum og sagði meðal annars svo: «Nú dugar engin hlífð við þá svikahrappa! vèr krefjum þess, að her manns (stjórnbyltíngarher) verði þegar látinn fara um land alt, með dómendur og Guillotínsvèlar[1] í för með sèr, til þess að jafna á þessum kornpúkum». Herlið þetta átti að taka korn og önnur matvæli úr forðabúrum manna og setja þá í bönd og fjötra, er sýndu nokkurn mótþróa. Þá komu og sendisveinar Jakobínafèlagsins á þíng og kröfðu þess, að allir aðalsmenn væru höndlaðir, en Girondínar teknir af lífi, og luku svo sínu máli: «Látið vèlina gánga hvíldarlaust, meðan nokkur svikari er á lífi! setjið skelfíng og dauða á dagskrána!»

Þíngið lagði samþykki sitt á alt, er um var beðið, og þegar í stað var herliði komið á fót, til þess að framkvæma í París það, er í þessu efni var fyrir skipað. Nú gengu tveir nýir menn í velferðarnefndina, *Billaud-Varennes* og *Collot d'Herbois*, hver öðrum grimmari, og eftir það urðu allar aðgjörðir hennar ofsalegri en áður. Nefndin hafði ógrynni fjár til umráða (1 millíón «livres» um mánuðinn, en hver «livre» jafngilti hèr um bil 1

---

1) Guillotin hèt læknir einn frakkneskur og átti setu á frumlagaþínginu. Hann fann fyrstur vèl þessa, er höfð var til þess að hálshöggva menn á stjórnbyltíngarárunum, og síðan er við hann kend.

fránka eða 70 aurum), og þegar nú þar við bættist alt það, sem herlið það rænti, er fyr var getið, þá hafði nefndin mikið fè afgángs handa sèr og vinum sínum, og því auðveldari urðu henni yfirráðin í höfuðstaðnum. Nefndin hafði hina verstu óaldarseggi í sinni þjónustu og kostaði ærnu fè til þeirra, og lèt þá sækja alla mannfundi, hins vegar voru mótstöðumenn nefndarinnar settir hópum saman í fángelsi. Einkum fjölgaði tala þeirra sem höndlaðir voru eftir að þíngið 17. dag septembermán. hafði sett þau lög, að allir grunaðir menn skyldu teknir og settir í dýflissur þángað til friður kæmist á. En grunaðir voru: allir þeir, er með orðum eða gjörðum höfðu sýnt, að þeir væru vinir konúngdómsins en óvinir frelsisins; allir embættismenn, er þíngið eða umboðsmenn þess höfðu vikið frá völdum; allir aðalsmenn, konur þeirra og börn, nema þeir hefðu sýnt, að þeir væru einlægir fylgismenn stjórnbyltíngarinnar; allir sem flúið höfðu af landi burt (útflutníngsmenn), en hlíft hafði verið til þessa, af því að þeir höfðu snúið aftur heim til Frakklands á lögskipuðum tíma; allir, sem eigi gátu fengið áreiðanlegt vottorð valdstjórnarinnar um, að þeir væru sannir ættjarðar vinir. En umboðsmenn stjórnarinnar á hverjum stað skyldu staðfesta slík vottorð, og fram fylgja þessum lögum, hver í sínu umdæmi. Lögum þessum var svo rækilega fylgt, að skömmu eftir að þau komu út var tala þeirra, sem sátu í fángelsum, einúngis í París, orðin um 3,000 manna, í stað fárra hundraða að undanförnu.

Giróndínar höfðu verið teknir fastir 2. dag júnímánaðar, og sátu í varðhaldi síðan. Nú var komið fram á haust og ekkert hafði verið við þá fengizt allan þann tíma. Þetta þótti ýmsum af Jakobínaflokki óþarfa dráttur, enda var nú í öndverðum októbermánuði tekið til óspiltra málanna. Voru nú sakir höfðaðar gegn fjórum tigum þíngmanna, bæði þeim er teknir voru 2. júní, og öðrum, þar á meðal Filippusi hertoga af Orleans. Umtalsmál var og, að dregnir yrðu fyrir dóm þeir 73 þíngmenn, er mælt höfðu móti ofríki því, sem beitt hafði verið við þíngmenn 2. dag júnímánaðar, og hèr að framan er getið, en Robespierre rèð því, að það var þó eigi gjört, því að hann þóttist sjá, að svo gæti farið, að hann þyrfti liðs þeirra við gegn þeim, sem voru allra ákafastir. Fundir þíngmanna voru um

þessar mundir eigi fjölsóttir; sumir voru farnir burt af þíngi fyrir fult og alt, sumir voru í erindagjörðum þíngsins út um landið, og sumir sátu í föstum nefndum og sömdu frumvörp til ýmsra laga. Eitt af þeim lagastörfum var um tímatalið, þar sem umsteypa skyldi öllu hinu forna og setja annað nýtt í staðinn, koma á fót öðru og nýju þjóðfèlagi, þótti eigi við eiga, að haldið væri hinum forna tímareikníngi. Það hafði þegar verið byrjað nýtt tímatal frá *22.* degi septembermánaðar 1792, og vildi þá svo til, að stofnunardag lýðveldisins bar upp á haustjafndægur. Hið *annað* ár lýðveldisins hófst þannig 22. dag septembermánaðar 1793. Árinu var skift í 12 mánuði, hverjum mánuði í 3 tigi (*décade*), hverjum tig í 10 daga. Deginum var skift í 10 stundir og hverri stund í 10 smærri parta o. s. frv. Tíundi dagur í hverjum tig var helgur og settur í stað sunnudaga; þannig urðu hvíldardagar einum færri í mánuði en áður. Nöfn mánaðanna voru mynduð eftir eðlisfari náttúrunnar á ýmsum árstíðum. Þannig hètu

| | | |
|---|---|---|
| Haustmánuðir: | Vendémiaire | (vínyrkjumán., 22. sept. til 21. okt.), |
| | Brumaire | (þokumánuður, 22. okt. — 20. nóv.), |
| | Frimaire | (hrímmánuður, 21. nóv. — 20. des.); |
| Vetrarmánuðir: | Nivôse | (snjómánuður, 21. des. — 19. jan.), |
| | Pluviôse | (regnmánuður, 20. jan. — 18. febr.), |
| | Ventôse | (vindmánuður, 19. febr. — 20. marz); |
| Vormánuðir: | Germinal | (frjóángamán., 21. marz — 19. apr.), |
| | Floréal | (blómmánuð., 20. apr. — 19. maí), |
| | Prairial | (engmánuður, 20. maí — 18. júní); |
| Sumarmánuðir: | Messidor | (uppskerumán., 19. júní — 18. júlí), |
| | Þermidor | (hitamánuður, 19. júlí — 17. ág.), |
| | Fructidor | (aldinmánuður, 18. ág. — 16. sept.). |

Þeir 5 dagar (17.—21. sept.), er afgángs urðu, voru nefndir hlaupársdagar, og öðru nafni Sansculott-dagar, og skyldu helgaðir vera hugviti, vinnu, dygð, verðlaunum og hyggju manna. Hinn síðasta dag af þessum 5 mátti hver maður tala eður rita það að ósekju, sem honum bjó í brjósti, um hvern þann mann, er opinber störf hafði á hendi. Hlaupársdagurinn fjórða hvert ár skyldi vera þjóðhátíð í minníngu stjórnarbyltíngarinnar og frelsisins.

Þegar komið var fram í miðjan októbar (1793), tók stjórn-

byltíngardómurinn algjörlega til starfa. María Antonetta, er nú var eigi lengur nefnd drotníng, heldur «ekkja Capets», og hafði setið á annað ár í fángelsi, var nú látin koma fram fyrir þenna hatðstjóra-dóm. Stjórnin (þ. e. velferðarnefndin), hafði sett þann til sakaráber við dóminn, er Fouquier Tinville hèt, og sparaði hann eigi að tína alt til, er orðið gat henni til áfellis, en þó að gögn og vitni brysti til að sanna þær sakargiftir, og aðrar enn þýngri, er Hébert bar á drotníngu, var hún samt sem áður dæmd til dauða. 16. dag októbermánaðar var hún flutt á kerru með bakbundnar hendur til aftökustaðarins. Guillotíns-vèlin gjörði þar skjótan enda á kvölum hennar, en Jakobínar klöppuðu lof í lófa. Viku síðar voru Girondínar þeir, er í varð-haldi sátu, leiddir fyrir dóm — nokkrir þeirra, er flúið höfðu en náðst aftur, voru drepnir án dóms og laga — þeim var gefið að sök, að þeir hefðu gjört samsæri gegn einíngu lýðveldisins, og frelsi hinnar frakknesku þjóðar. Og af því menn óttuðust vitsmuni þeirra og málsnilld, fèkk Robespierre þíngið til þess að gjöra þá fyrirskipun, að sökin skyldi til lykta leidd að þrem dög-um liðnum. 30. dag októbermán. var kveðinn upp dauðadómur yfir 20 Girondínum, og degi síðar voru þeir höggnir; voru þeir Brissot og Vergniaud þar á meðal, og allir voru þeir afbragðs-menn að viti og mannkostum, og flestir úngir að aldri. Einn af þeim, Lasource að nafni, mælti, er hann heyrði dauðadóm sinn: «eg dey þann dag, er þjóðin missir vitið, en þèr deyið þann dag, er hún fær það aftur». Litlu síðar var hertoginn af Orleans tek-inn af lífi, og þótti það lítill skaði, en því meira fanst öllum góðum mönnum um, þá er hinn lærði öldúngur Bailly, vinur Lafayettes og einhver hinn mesti ágætismaður með Frökkum, var líflátinn. Um þær mundir var og Barnave höggvinn og margir aðrir beztu menn þjóðarinnar. Roland hafði flúið, en kona hans orðið eftir í París. Hún var eitthvert hið mesta kvennval á þeim tímum. Þegar Roland frètti að hún hefði verið hálshöggvin, vildi hann ekki lifa, og rèð sèr sjálfum bana.

Margir menn voru af lífi teknir í París, en þó miklu fleiri að tiltölu í öðrum borgum og bæjum á Frakklandi. Vèr höf-um áður getið þess, að Marseille hafði gefizt upp fyrir herliði stjórnarinnar og fengið þúnga hefnd fyrir mótstöðu sína. Hið sama átti sèr stað í Bordeaux, nema að því leyti, sem *Tallien*,

einn af umboðsmönnum þjóðþíngsins, beitti þar enn meiri grimd. Hann lèt setja Guillotins-vèl fyrir utan glugga á húsi sínu, og höggva menn þar sèr til augna gamans, til þess er kona ein þar í borginni fèkk mýkt skap hans, og mínkuðu þar manndrápin upp frá því. Lyon, hin mikla og auðuga borg, varðist stjórnarhernum lengi og vel, en varð um síðir að gefast upp og sæta ógnarlegri hegníngu. Erindrekar þíngsins, er þángað voru sendir, voru þeir Couthon, Collot d'Herbois og Fouché[1], hver öðrum grimmari. Velferðarnefndin í París sendi þessum umboðsmönnum sínum í Lyon, og öðrum valdsmönnum í því bygðarlagi, opið brèf, og segir þar svo: «alt er leyfilegt þeim, er vinna verk stjórnbyltíngarinnar. Lýðveldið leyfir ekki öðrum en frjálsum mönnum landsvist; allir aðrir skulu upprættir. Eigi að eins klerkar og aðalsmenn eru fjandmenn yðar, heldur og einnig allir þeir, sem hafa sýnt þeim nokkra lotníngu. Hafi einhver alls nægtir, eru það rángindi móti rètti þjóðarinnar; takið það orðalaust frá eigendum: klæði og skó handa herliðinu, gull og silfur og gersemar handa fjárhirzlu ríkisins. Gleymið eigi, að lýðveldið þekkir engan annan guð, en fósturjörðina, enga guðsþjónustu aðra en frelsið, engin lög önnur en náttúrunnar». Öllum kirkjum var þar læst, allir prestar teknir fastir. Mörg hús rifin niður til grunna, og öllu rænt, er hönd varð á fest. Guillotínsöxin hafði ekki við, og voru menn því skotnir niður hópum saman með fallbyssum og alls konar morðvopnum.

Þegar Lyon var frá, þá var Toulon ein eftir óunnin suður í landi. Stjórnin lagði mikið kapp á að ná þeirri borg aftur úr höndum útlendínga, er þar sátu, og voru bæði Englendíngar, Spánverjar og Ítalir. Hermálastjóri Frakka, Bouchotte, sendi þángað ýmsa vini sína með talsverðu liði, en af því að þeir voru ónýtir, fengu þeir engu áorkað. Um síðir sendi velferðarnefndin hershöfðíngja þann, er *Dugommier* hèt, gamlan mann en kappa mikinn, og fèkk honum í hendur ætlun, er sett hafði verið um það, hvernig haga skyldi atlögu að borginni til þess

1) Fouché varð seinna æzti lögreglustjóri Napóleons fyrsta, og mjög nafnkendur, hinn slægvitrasti maður og grimmasti. Napóleon trúði honum þó aldrei vel, og sagði einhverju sinni við hann: «það væri rètt gjört af mèr að láta skjóta yður». Fouché dó í útlegð í Austurríki 1820.

hún yrði unnin. Hershöfðínginn kallaði liðsforíngja sína á fund, og ræddu menn þar þetta mál. Á meðal liðsforíngjanna var einn úngur maður, er fallbyssuliðinu stýrði. Hann hèt Napóleon Bónaparte, var borinn og barnfæddur á Corsica, en hafði lært í hermannaskóla á Frakklandi. Hann kvaðst sjá ráð til að vinna borgina, ef menn vildu fylgja því. Þar gengur höfði einn lítill fram í sjóinn og myndar höfnina að nokkru leyti. Á þeim höfða var kastali, og svo ramgjörður, að menn sögðu hann óvinnandi, og nefndu hann «Litla Gibraltar». Þenna kastala sagði Bónaparte að menn yrðu að taka, þá gætu hin útlendu skip eigi haldizt lengur við á höfninni, en yrðu að leita burt, og þá væri borgin unnin. Og hvort sem menn töluðu hèr um lengur eða skemur, urðu þær málalyktir, að allir fèllust á hans tillögu, og eftir því var nú atlögunni hagað. Lýðveldismenn náðu kastalanum, og jafnskjótt lètu þeir skothríðina dynja yfir enska flotann, og fór þá sem Bónaparte hafði sagt, að Englendíngar lögðu skipum sínum frá, og fluttast burtu með liði því, er þeir höfðu sett í borgina, en áður þeir færu alfarið af stað, lögðu þeir eld í vopnabúr Frakka þar í borginni, og brendu upp fyrir þeim eða tóku 38 línuskip og freigátur. Var það hinn mesti skaði. Margar þúsundir af íbúum borgarinnar leituðu trausts og hælis hjá Englendíngum og þyrptust fram á bryggjurnar. Komust margir í báta og út á skipin, margir drukknuðu og margir voru drepnir á sundi eða fèllu þar í flæðarmáli, því að skotin dundu á þeim frá lýðveldismönnum eftir því sem þeir ruddust inn í borgina. Þessi atburðar varð 18. og 19. desembermánaðar (1793). Þjóðþíngið hafði skipað að leggja Toulon í eyði, en það var Dugommier og mönnum hans að þakka, að það var eigi gjört; mörg hús voru þó rifin þar niður til grunna, og fólkið drepið hrönnum saman eins og í Lyon; segja menn, að fleiri hafi þá týnt lífi í Toulon en í París haustið áður, þá er september-vígin miklu urðu þar.

Mikið hafði að vísu verið að gjört á Suður-Frakklandi, þar sem uppreistin var brotin á bak aftur og bæld niður í stórborgum þeim, sem nú voru nefndar, en engu minni voru þau tíðindi, er um sama leyti gjörðust vestur í landi. Menn muna, af því sem fyr er ritað, að Vendée var alt í uppnámi. Stjórnin hafði sent þángað eina hersveitina á fætur annari. Sumar sóttu

fram fyrir norðan Loire-fljót, sumar fyrir sunnan það, því að ófriðurinn var beggja megin fljótsins. Hershöfðíngjar stjórnarinnar voru með fyrsta ófærir til yfirstjórnar, og fyrir þá sök báru uppreistarmenn (Vendée-búar) framan af því nær alls staðar hærra hlut. En smámsaman komu þar nokkrir undirforíngjar til sögunnar í liði stjórnarinnar, er sýndu afbragðs vit og dug, og fengu meiri yfirráð, og þá fór stjórnarliðinu að veita betur. Af foríngjum þessum er enginn eins nafnkendur og *Kleber*. Hann hafði skamma stund verið í liðinu þar vestra, er menn sáu, að það varð alt að ráði, er hann lagði til. Þó vildi hann ekki verða yfirhöfðíngi liðsins, er honum stóð það til boða, og kaus heldur hitt, að leggja á ráðin, en láta annan hafa yfirstjórn hersins í orði kveðnu. Hinn 15. dag októbermánaðar (1793) stóð orusta mikil við bæ þann, er Chollet heitir. Það er fyrir sunnan Loirefljót. Var það ráðum og framgöngu Klebers að þakka, að stjórnarherinn vann sigur, en Vendée-byggjar voru þá svo aðþrengdir, að þeir gátu eigi haldizt við fyrir sunnan fljótið, og leituðu norður yfir með öllu sínu skuldaliði (hèr um bil 100,000 manna). Landið fyrir sunnan fljótið var komið í auðn, svo að ekki var þar verandi, enda rituðu umboðsmenn stjórnarinnar við herinn til Parísar og sögðu: «Vendée er ekki lengur til». Allur hinn mikli manngrúi — og þar voru með konur og börn og gamalmenni — komst slysalaust yfir fljótið, en þá tók lítið betra við, og eftir ýmsviðskipti mátti heita að alt það lið væri annaðhvort fallið eða hertekið að tveim mánuðum liðnum, og Vendéeófriðurinn á enda fyrir árslok. En þar næst komu erindrekar stjórnarinnar þángað vestur, og lètu drepa alla þá menn, karla og konur, er þeir töldu grunaða, og skifti það þúsundum. Einn af þeim erindrekum hèt Carrier, og er við brugðið fyrir grimd. Hann var sendur til borgar þeirrar, er Nantes heitir, til þess að hegna mótstöðumönnum stjórnarinnar. Þángað komu daglega margir flóttamenn af Vendée-byggjum, er leituðu þar hælis. Carrier lèt taka þá alla og skjóta, en þá af Nantesmönnum, er honum þótti grunsamir, lèt hann hálshöggva. En af því að honum þótti það gánga seint, og líkin fengust eigi jörðuð nógu fljótt, þá tók hann það til bragðs, að drekkja þeim í Loirefljótinu, er borgin stendur við. Til þess að reyna hvernig þetta gæti tekizt sem bezt, tók hann 90 presta, setti þá út á skip,

lèt flytja það út á fljótið og sökkva því þar. Þegar þetta gekk svo greitt, voru menn teknir á næturþeli úr dýflissunum, og fluttir út á skip, 100 eða 200 manns á hvert, keyrðir þar niður undir þiljur, og öllum hurðum og hlemmum vandlega læst. Þegar böðlarnir höfðu lokið þessu starfi, fóru þeir á burt, en smiðir komu á smábátum, og lögðu að skipunum og hjuggu göt á, og sukku þau svo niður með öllu sem á var. Á þenna hátt týndu milli 4 og 5000 manna lífinu. Carrier þóttist maður að meiri, er honum hafði hugsazt slíkt snjallræði. Íbúar Nantesborgar höfðu bjargað mörgum úngbörnum og tekið þau til fósturs, þegar foreldrar þeirra á Vendée fèllu fyrir vopnum, eða flæmdust frá heimilum sínum. «Þetta eru úlfshvelpar», mælti Carrier, og lèt taka börnin og drekkja þeim. Svo segja nokkrir sagnaritendur, að þann tíma, er hann hafði yfirráðin í Nantes, hafi þar verið drepnar um 15000 manna; aðrir segja þá færri.

Þannig hafði nú stjórnin í París, eða, með öðrum orðum, velferðarnefndin, sigrazt á öllum mótstöðumönnum sínum innanlands. Hún gjörði hvorttveggja, bæði að bæla niður alla uppreistarmenn þar sem þeir bærðu á sèr, og líka hitt, að halda öllum landslýðnum hræddum, svo að hann þorði eigi sig að hreyfa. Umboðsmenn stjórnarinnar og undirtyllur þeirra voru um allar sveitir, og tóku hvern mann fastan eftir því sem sjálfra þeirra geðþótti bauð, og hrifsuðu eigur þeirra undir sig. Einn þessara manna, er Dumont hèt, og fór um Norðurfrakkland, ritaði meðal annars stjórninni í októbermánuði þannig: «eg finn daglega nýja fjársjóði, penínga, silfurskeiðar o. fl., og kalla það góðan feng, því að höfðíngjarnir eiga. Eg handsama alla presta, er halda sunnudaginn heilagan. Í hlöðu einni hitti eg 3 dýr svört, er menn nefna múnka, og lèt taka þau». Þess konar frèttir bárust úr öllum áttum. Enginn maður var óhultur um líf sitt eða eignir, og var af öllu saman þessu mikill ófagnaður um land alt.

Eitt af því, sem menn rèðu á og vildu kollvarpa um þessar mundir, var hin kristna trú. Var það Hébert og hans flokkur, er mest og bezt gengust fyrir því, að eyða trúnni. Parísarklerkarnir sögðu af sèr embættum, og flestum kirkjum var þar lokað. Höfuðkirkjan (Notre-Dame) var gjörð að musteri skynseminnar, og skyldi þar 10. hvern dag haldin

hátíð, ræður fluttar og þjóðsöngvar súngnir. Hinn 10. dag nóvembermánaðar (20. Brumaire) var hin fyrsta hátíð haldin. Úng prentarakona var látin tákna skynsemis-gyðjuna. Hún sat á stóli forkunnarfögrum, skrýdd hvítum klæðum, með bláa heklu á herðum, slegnu hári og rauða húfu á höfði; hvítklæddar ýngismeyjar rósum prýddar og blómsveigum, stóðu umhverfis. Því næst var gyðjan borin af 4 mönnum, sitjandi á stóli sínum, til þíngsalsins, í dýrðlegri prócessíu. Þegar þángað var komið, stóð gyðjan upp úr sæti sínu, gekk til forseta, og hann í móti, og svo kystust þau, en þíngið laust upp fagnaðarópi. Þetta var þeirra guðsþjónusta.

Eftir að Girondínar voru liðnir undir lok, gátu engir staðið Jakobínum á sporði; þeir máttu heita einvaldir, og gekk svo um hríð. En eigi leið á löngu, áður ýmsar greinir urðu með þeim, svo að auðsætt var, að leiða mundi til flokkadráttar. Sumum þótti að of mikilli hörku hefði verið beitt við Girondína og ýmsa aðra, er sömu kjörum urðu að sæta, að ráðið hefði verið með ofmikilli frekju á trúarbrögð og helga siðu, og hitt, sem þeir vildu setja í staðinn, væri ekki annað en guðleysi, o. s. frv. Þar á móti sagði Hébert og hans fylgismenn, er mestu rèðu í bæjarstjórninni (í París), að þeir, sem slíkt segðu, ætluðu sjer að koma aftur á fót nýjum mótstöðuflokki og vekja nýjar óeirðir í lýðveldinu.

Danton hafði um tíma verið norður í landi, tekið sèr hvíld frá þíngstörfum, og lifað þar með kyrð og spekt í fegurð náttúrunnar. Nú kom hann aftur til Parísar um þessar mundir. Menn vissu, að honum hafði komið til hugar að bjarga Girondínum, að hann hafði tekið sèr nærri afdrif þeirra, og að hann vildi, að endir yrði á öllum ofsóknum og allri grimd, jafnskjótt sem hættan væri úti. Nú var það sýnilegt, að mestu hættunni var lokið, að minsta kosti um stundarsakir. Þess vegna tók Danton málstað þeirra manna, er nú vildu fara að öllu með stillíngu og sanngirni, og fèkk því komið til leiðar, að þíngið gjörði nokkrar fyrirskipanir í þá átt. Vinur hans, Camille Desmoulins, mesti ritsnillíngur, gaf út nýtt blað, er hèt: «hinn gamli Cordelier» og var í því einatt farið ómjúkum orðum um Hébert og hans fylgifiska, og alla þá, er enga vægð eða vorkunn vildu sýna. Hébert þorði ekki með fyrsta að ganga í berhögg

við Danton, en rægði hann í leynum það hann kunni, og sá rógur festi sums staðar rætur. Eins og við var að búast, fór óvildin vaxandi milli manna, þeirra sem hófsins vildu gæta og hinna, sem ekki kunnu sèr hóf í neinu. Robespierre gaf hvorum tveggja auga, og var illa við þenna ágreiníng. Honum og hinum öðrum, er sátu í velferðarnefndinni, virtist svo, sem þessi tvídrægni gæti komið miklu illu til vegar. Hann vildi, eins og nú var komið, komast hjá nýrri stjórnarbyltíngu, að þíngið gæti náð alþýðuhylli, og velferðarnefndin hylli þíngsins, því að hann vildi hafa sterka stjórn. Honum þótti ískyggilegt, að menn skyldu vera farnir að bera sakir á slíka ættjarðarvini sem Danton og Camille Desmoulins; hann þóttist sjá fyrir, að guðleysi það, sem var að ryðja sèr til rúms, mundi koma óorði á Frakka í augum útlendra þjóða; hann þóttist vita, að útlendíngar væru hèr í verki með, og ættu illan hlut að máli. Þess vegna þótti honum nauðsynlegt, að stjórnin lèti nokkuð til sín taka og sýndi í verki, að hún væri vaxin öllum flokkum yfir höfuð. Velferðarnefndin afrèð því, að halda flokkum þessum í skefjum, og koma því svo fyrir, að þeir gætu engan skaða gjört. Robespierre snerist því fyrst við þeim flokknum (Héberts-mönnum), er ákafari var, og honum virtist í bráð hættulegri, og bar á hann þær sakir, að hann væri í vitorði með útlendíngum, er alt vildu gjöra Frökkum til ógagns, en lèzt taka málstað Dantons og hans fylgismanna, því að honum (Robespierre) þótti þeir, eins og þá stóð, ekki vera til muna viðsjárverðir. Þeir höfðu enn ekkert það aðhafzt, er hindrað gat straum stjórnarbyltíngarinnar, og þeirra flokkur var enn hvorki mannmargur eða harðsnúinn.

Viðskifti Frakka við aðrar þjóðir gengu að óskum. Það voru farnir að koma í ljós úngir og efnilegir herhöfðíngjar, er sýndu, að þeir kunnu að stýra mönnum og leiða þá til sigurs þótt liðsmenn væri, enn sem komið, lítt vanir orustum. Norður í landi hafði sá maður, er *Jourdan* hèt, tekið við herstjórn. Á ýngri árum var hann liðsmaður og valdalaus með Vesturheimsmönnum, þá er þeir börðust við Englendínga og náðu frelsi sínu. Síðan var hann nokkur ár eins konar Kaupahèðinn, fór um sveitir og lèt vöru fala. En árið 1791 gekk hann öðru sinni og óbeðinn í herþjónustu, og var 1793 orðinn hershöfðíngi. Hann rak Austurríkismenn norður yfir landamæri. Enn betur

gekk Frökkum austur í landi, eftir að þeir *Pichegru* og *Hoche* tóku við herstjórn. Pichegru var fyrst undirforingi við fallbyssuliðið, fylgdi stjórnarbyltingunni af miklum áhuga og var um hríð forseti í einni deild Jakobína-fèlagsins. Hann var kaldlyndur maður og kjarkmikill, fráneiddur skemtunum, en fróðleiksgjarn. Saint Just kom því til leiðar, að honum var falin herstjórn á hendur austur í Rínardal; tók þá að halla á Þjóðverja. Lazarus Hoche var af fátæku foreldri kominn og alinn upp við fátækt, en var þegar á únga aldri afbragð sinna jafnaldra að námsgáfum og allri atgjörfi. Hann var á 16. ári, er hann gekk í herþjónustu, og varð skjótt frægur af framgöngu sinni, en á 25. ári (1793), er hann varð höfðíngi fyrir liði því, er Frakkar höfðu í Mósel-dalnum móti Prússum. Þar vann Hoche ekki á, og gaf hann því stjórninni það ráð, að sameina hvorttveggja liðið, bæði það, er hann sjálfur stýrði, og hitt, er Pichegru rèð fyrir, og var svo gjört. Varð Hoche því næst yfirhöfðíngi hins sameinaða herliðs, og stóðst þá ekki við honum, enda hrukku Prússar og Þjóðverjar fyrir og austur yfir Rín. Það var síðustu dagana í desembermánuði 1793, litlu síðar en Frakkar unnu Toulon úr höndum Englendínga.

Þegar litið er yfir viðburði þá, er gjörðust á Frakklandi árið 1793, þá gegnir það undrum, hve miklu landsstjórnin (þ. e. velferðarnefndin og þjóðþíngið) fèkk til leiðar komið. Varla hefir nokkur landstjórn öðru sinni verið umkríngd meiri hættum, en Frakkastjórn ár það, er hèr ræðir um. Árið 1792 höfðu Prússar og Austurríkismenn, er þá brutust inn á Frakkland, hvorki verið mjög fjölmennir eða vel samhentir, enda farið í ýmsu ráðlauslega. Frakkar ráku þá af höndum sèr, Prússa austur yfir Rín, Austurríkismenn austur yfir Maas-fljót, og lètu eigi þar með búið, heldur lögðu þeir undir sig meiri hluta Niðurlanda, unnu Mainz, Savoyen og Nizza. Árið 1793 — þetta ógnarár í Frakkasögu — gengur ískyggilega í garð. Englendíngar, Hollendíngar og Spánverjar gánga í sambandið móti Frökkum. Nú eru þeir umsetnir af fjandmönnum á allar hliðar, bæði á sjó og landi. Dumouriez brýzt inn á Holland, en nær þar engri fótfestu, því að Austurríkismenn neyða hann til að hverfa aftur. Frakkar bíða ósigur við Neerwinden og missa Niðurlöndin (Belgíu). Ósigrinum fylgir reiði og gremja, og Dumouriez stökkur af landi burt. Um sama

leyti fer Custine flatur fyrir Þjóðverjum, hröklast vestur yfir Rín, kemst ekki til Mainz, svo að sú borg verður að bjarga sèr sjálf móti Prússum, er setjast um hana með óvígum her. Ítalir, eða rèttara Piemontsmenn, vinna sigur á Frökkum suður í Alpafjöllum, Spánverjar setjast í Pyreneafjöllin, og hafa 50000 vígra manna. Ýms fylki vestan á Frakklandi (Vendée) gjöra uppreisn móti stjórninni, því að þeim gremst bæði það, að þeir eru sviftir prestum sínum, og svo hitt, að margar þúsundir úngra manna eru heimtaðar af þeim til herþjónustu. Þá sèr stjórnin, að annaðhvort er að gjöra: falla eða hlífast eigi við, og þá lætur hún leggja hendar á Girondína, til þess að ryðja þeim úr vegi, er hyggja á miskunn og meðalhóf. Þetta ofríki ofbýður þjóðinni; af 83 fylkjum rísa 67 upp til mótstöðu við stjórnina, hvert óhappið fylgir á annað ofan, og ekki er annað sýnna, en að innlendir og útlendir óvinir taki París og eyði öllu því, er áunnizt hafði gott og gagnlegt í stjórnarbyltíngunni. Aldrei höfðu önnur eins vandræði að höndum borið. En með hættunni vex stjórninni hugur og dugur. Hún kúgar fè af öllum, er það hafa, og hún kemur fótum undir talsverðar hersveitir, er hún sendir í allar áttir, enda er Carnot þá genginn í nefndina og hrindir öllum hermálefnum í lag. Ávextirnir koma bráðum í ljós af því dæmalausa þreki og dugnaði, er stjórnin lagði þá fram. Ýmsar borgir og bygðarlög eru jafnskjótt kúgnð til hlýðni. Jourdan ber hærra hlut í viðskiftum við Austurríkismenn norður í landi, sömuleiðis Pichegru móti Prússum og Þjóðverjum. Kellermann rekur Piemontsmenn suður yfir fjöll, Spánverjar vinna ekki á, ráðsnild Klebers kemur Vendée-byggjum á knè. Loksins leggja þeir smiðshöggið á, Hoche austur frá, er hann rekur Þjóðverja yfir Rín, og Napóleon Bónaparte suður frá, er hann finnur ráð það, er dugði til þess að reka Englendínga burt úr Toulon. Við árslokin (1793) hafði stjórnin þannig bælt niður að mestu allan innanlands ófrið, og rekið af höndum sèr alla útlenda óvini.

Þess er áður getið, að Velferðarnefndin hafði augastað á þeim tveimur flokkum, sem nú kvað mest að í París, Hébertsmönnum og Dantonsmönnum, og einsetti sèr að halda þeim í skefjum. Það hefir einnig verið bent til þess, hverja stefnu hvor af þessum flokkum vildi halda. Nefndinni líkaði við hvor-

uga, eins og ráða má af orðum Robespierres, er hann talaði á þingi 5. febr. 1794. Hann sagði, «að annar af flokkum þessum (Hébert) eirði engu og kynni sèr ekkert hóf, en hinn flokkurinn (Danton) væri hneigður til óhófs og munaðar, eins og fyr hefði átt sèr stað, og gjarn á vorkunnsemi við óhlutvanda menn». Þenna vetur var húngur mikið og harðrètti í París meðal fátækra manna. Þángað hafði áður verið flutt gnægð af sláturfè, bæði af Vendée og austan úrRíndalnum, en nú var loku fyrir þá aðflutnínga skotið síðan ófriðurinn hófst. Þeir, sem þetta kom niður á, kvörtuðu sáran, og það lá við vandræðum. Hébert og hans flokkur gáfu stjórninni sök á öllu þessu, og sögðu jafnvel, að hún byggi yfir svikum. Um það leyti kom St. Just til Parísar, eftir 4 mánaða dvöl við herinn. Hann var löngum ótrauður til stórræða, og miklu djarfari til framgöngu en Robespierre vinur hans, enda gaf hann þá þegar það ráð, að menn skyldu taka allar eigur þeirra manna, er sátu í varðhaldi og dýflissum, og skifta þeim milli allra þeirra, sem bágstaddir væru, og var það undramikið fè. Slíkt gat Hébert ekki boðið, og nú fèkk stjórnin mikið lof á sig hjá öllum þeim, er hjálparinnar nutu. En nú hugsaði stjórnin (Robespierre) þeim Hébert þegjandi þörfina. Þegar Hébert sá hvað verða vildi, reyndi hann að koma af stað upphlaupi gegn stjórninni, en fáir sem engir sintu því, og varð hann þá og hans fylgismenn að draga sig í hlè. Þá þótti Robespierre tími til kominn að gjöra út af við þenna flokk. Collot d'Herbois, aldavinur Héberts, þóttist nú eigi lengur geta liðsint honum, og sagði því skilið við hann. En hins vegar krafði hann þess, að Danton og fylgismenn hans væru einnig dregnir fyrir lög og dóm. Hann hataði Danton og hans flokk, því að af þeim hafði hann fengið þúngar ákærur fyrir frammistöðu sína og aðfarir í Lyon. St. Just studdi fast að þessu með Collot, en Robespierre fór sèr hægt, og lèt eins og sèr þætti mikið fyrir að snúast í móti fornkunníngjum sínum, Dantoni og Camille Desmoulins, en þó eru allar líkur til þess, að hann hafi helzt viljað þá báða feiga. Robespierre óttaðist alla afbragðsmenn, og stóð stuggur af þeim, og því verður eigi neitað, að þeir Danton og Camille voru það báðir, hvor á sinn hátt.

Þegar komið var fram í miðjan marzmánuð (1794) var Hé-

bert, Chaumette og 20 aðrir af þeim flokki teknir og settir í varðhald. Ýmsar sakir voru á þá bornar, en sú var þó hin helzta, að þeir væru þjónustusveinar Pitts, og hefðu ráðið með sèr, að koma af stað stórkostlegum ránum og manndrápum. Ekki varð þetta reyndar sannað, en menn voru ekki svo vandlátir í þeim efnum um þær mundir, og enginn varð til að mæla þeim bót. Voru þeir síðan allir höggnir.

Danton, Camille Desmoulins og nokkrir af vinum þeirra voru teknir höndum skömmu síðar (aðfaranótt 31. marz 1794). Hérault de Séchelles hafði verið tekinn litlu áður, því að St. Just hafði ákært hann fyrir það, að hann hefði hýst sekan mann. Danton vildi eigi trúa því, að nokkur mundi þora að leggja hönd á sig, og fyrir því hafði hann ekkert gjört til þess að forða sèr. Þegar um morguninn eptir spurðust þessi tíðindi um alla borgina, og þótti mikils um vert. Á þíngið sló ótta og undrun, og sátu menn hljóðir um stundarsakir. Loksins tók einn af þíngmönnum til máls, er Legendre hèt, og kvað eigi annað hlýða, en að Danton fengi að bera fram vörn sína á þínginu, enda var það hið bezta ráð til þess að bjarga honum. Í því komu þeir á þíng Robespierre og St. Just, og báru margar og þúngar sakir á þá Danton, og þó að flestar þeirra væru ósannar og hinar hefðu við lítið að styðjast, ályktaði þíngið engu að síður, að þeir skyldu dregnir fyrir stjórnbyltíngardóminn. Þegar kom fyrir dóminn, var það engu líkara en að Danton væri sakaráberi, en dómendur allir sakbitnir, svo var hann þá snúðuglegur, og höfðu þeir allir beig af honum. Þá hann var spurður að heiti, aldri og bústað, mælti hann: «eg er 34 ára, nafn mitt stendur ritað í musteri sögunnar, en bústaður minn verður innan skamms í hinni eilífu auðn». Hann gjörði sèr lítið far um að verja mál sitt, en hitt sparaði hann eigi, að láta beiskyrði dynja yfir velferðarnefndina og alla sína fjandmenn. Dómendur komust í hálfgjört ráðaleysi, og tóku það til bragðs að skýra velferðarnefndinni frá málavöxtum. St. Just fèkk þá komið til leiðar þeirri þíngsályktun, að dómendum var boðið að leiða sökina til lykta sem allrafyrst, og var það alt hið sama sem að banna hinum ákærðu mönnum alla vörn. Var þá litlu síðar kveðinn upp dauðadómur yfir þeim Danton, og 5. dag aprílmánaðar voru þeir höggnir.

Þannig eyddi stjórnin (velferðarnefndín) báðum þessum flokkum, Hébertsmönnum, er engu eirðu, og án alls efa voru hverri stjórn hættulegir, og Dantonsmönnum, er vildu nema þar staðar sem komið var, og friða aftur þjóðina og græða af þeim sárum, er hún hafði fengið, og þess vegna voru alt annað en hættulegir. Þegar helztu forvígismenn flokka þessara voru fallnir, þorðu aðrir, er með þeim höfðu staðið, ekki annað en auðmýkja sig við stjórnina. Jafnvel þíngið sjálft gjörði ekkert annað en það, sem henni var geðfelt. Stjórnin var þannig einvöld, og gat viðstöðulaust komið öllu sínu fram. En þó nú svo væri, þó stjórnin hefði rutt öllum mótspyrnum á braut, og enginn þyrði orð að mæla í gegn henni, var samt gremjan eftir og hatrið í brjóstum manna, og beið þess, að færi gæfist til hefnda við harðstjórana. Robespierre setti þá menn eina til valda í bæjarráðinu og lögreglustjórninni, er hann þóttist mega treysta. Þó var honum eigi rótt. Hann þóttist vita, að margur hataði sig í þeli niðri, jafnvel í velferðarnefndinni· vissi hann, að St. Just og Couthon voru hans einustu vinir, Hann hafði beig af þeim hershöfðíngjum, er sigursælir voru og höfðu almannalof, og því var það, að ágætismaðurinn Hoche, er þá þótti einna helztur af hershöfðíngjum Frakka, var tekinn og settur í varðhald. St. Just var öðru hverju við herinn sem umboðsmaður stjórnarinnar, til þess að hafa augastað á hershöfðíngjunum. Honum vildi Hoche ekki hlýða í öllu, og það þótti þeim St. Just og Robespierre óþolandi. Slíkur afbragðsmaður gat orðið þeim hættulegur, og fyrir því var hann tekinn. En það var Carnot að þakka, að sökinni var frestað, svo að hún kom eigi í stjórnbyltíngardóm.

Robespierre var nú orðinn því nær einvaldi alls Frakklands, og til þeirrar upphefðar hafði hann komizt, þótt hann skorti andlega atgjörfi og málsnild á við Mirabeau eða Vergniaud, eldlegt fjör og karlmanns kjark á við Danton, og þótt hann mætti huglítill heita. Hann hafði haft vit á, að beita dugandi mönnum í sínar þarfir, og láta þá eigast ilt við og eyða hverja öðrum, ef þeir ætluðu að gjörast honum erfiðir. Hann hafði manna bezt lag á því, að gjöra þá, er hann óttaðist, tortryggilega í annara augum og svifta þá áliti og vinsældum, en koma því orði á sjálfan sig, að hann væri hinn ráðvandasti maður og ósér-

plægnasti alþýðu vinur. Hann var að því leyti ólíkur mörgum af höfðíngjum stjórnbyltíngarinnar, að hann var hvorki ágjarn til fjár, nè hneigður til munaðar. Hann var sparneytinn og hófsamur í öllu sínu dagfari, bjó altaf á sama stað, í óbreyttu húsi hjá trèsmiði einum, og átti gott við hann og hans hyski. Hin eina ástríða, sem hann hafði, var drotnunargirni, og til þess að seðja hana stóð honum á sama hvert meðal var við haft, og hann hafði svo mikla ást á sjálfum sèr, að hún yfirgnæfði alla mannlega tilfinníngu í brjósti hans. Robespierre, St. Just og Couthon rèðu mestu í velferðarnefndinni, og mynduðu þar eins konar þrístjórnarvald. Þeir Barrère, Collot d'Herbois og Billaud Varennes rèðu minnu og sáu ofsjónum yfir vegi og virðíngu hinna þriggja samnefndarmanna sinna, en lètu þó eigi á því bera. Carnot og tveir aðrir af nefndarmönnum höfðu allan hug á hermálefnum og öðrum sèrstökum störfum, er fengu þeim nóg að vinna, svo þeir gáfu sig lítið við öðrum innlendum málefnum. Carnot, er var yfirskipaður alla hershöfðíngja, veitti þeim völd og tók þau af þeim, hafði sjálfur að eins liðsforíngja (kapteins) nafnbót. Hann var löngum á ferðum frá einni herdeildinni til annarar, og þá er heim kom, skilaði hann jafnan aftur óeyddum meira hluta þess fjár, er honum var ætlaður til ferðakostnaðar. Carnot hugsaði ekki um sjálfan sig, heldur um málefni þau, er honum voru á hendur falin; óttaðist engan og fór ekki í manngreinarálit. Hann einn þorði að segja Robespierre sannleikann: «þú ert allsráðandi», sagði Carnot einhverju sinni við hann, «og gjörir alt eftir sjálfs þíns hugþótta». Robespierre hataði Carnot, en gat ekki án hans verið, og hugsaði sèr að láta hann fá að kenna á því seinna, ef færi byðist.

Ráðgjafarnir höfðu stundum verið velferðarnefndinni allerfiðir; voru nú þau embætti lögð niður, og öllum stjórnarstörfum skift niður í tólf deildir, er allar stóðu beinlínis undir nefndinni. Robespierre setti þá eina til að gegna þar störfum, er hann vissi að hann mátti treysta, og þíngið staðfesti þetta alt saman. Úr bæjarráðinu var þeim öllum vikið á burt, er eigi þóttu falltryggir, og engin fèlög, nema Jakobínafèlagið eitt, máttu lengur eiga sèr stað. Öllu þessu tóku menn með þögn og þolinmæði, því að enginn þorði að láta á sèr bæra, hvorki í París nè annars staðar um landið. Hèr var alt undir því kom-

ið, að embættismennirnir reyndust hlýðnir þjónar stjórnarinnar, og Robespierre lagði nú allan hug á það, að koma á fót sterkri einveldisstjórn, og hafa stríngan aga á öllu.

Í miðjum aprílmánuði (1794) kom St. Just á þíng, og skýrði frá, hvernig ástatt væri í ríkinu. Hann mintist á hinn mikla skort á matvælum, er átt hefði sèr stað í öllum hinum stærri borgum og einkum í París. Allir vissu, að orsakir til þessa voru þær, að allir atvinnuvegir voru eyddir eða raskaðir af óöld þeirri, er gengið hafði yfir landið. En St. Just vildi eigi við það kannast, heldur væri það, sagði hann, alt að kenna endalausum samsærum, og eina ráðið til þess, að bæta í búi hjá mönnum, væri að herða á allri lögreglustjórn, og kúga þá, sem þess þyrftu við. Hann lagði það til, að öllum «samsærismönnum», hvar sem væru á Frakklandi, skyldi stefnt fyrir stjórnbyltíngardóm í París, og sá dómur alveg vera háður stjórninni. Þingið samþykti tillögu þessa, en einatt var þó út af brugðið, og menn voru dregnir fyrir slíka dóma annars staðar en í París, og beittu þá umboðsmenn stjórnarinnar allri hinni sömu grimd, sem að undanförnu. Þótti sá maður, er *Jósef Lebon* hèt, taka flestum fram að því leyti. Hann hafði verið prestur, en síðan gengið í þjónustu stjórnarinnar, hafði aðsetu í Arras, og fór um Norðurfrakkland með engu minna grimdaræði en Carrier vestur í landi. Menn voru sendir frá Arras til þess að tjá Robespierre raunir sínar — hann var sjálfur frá þeirri borg — en sendimenn fengu eigi að tala við hann, enda tóku þeir St. Just og Barrère málstað Lebons, og fèkst þar svo engin bót á ráðin.

Um þessar mundir hafði St. Just frumvarp eitt í smíðum til laga um nýja tilhögun á þjóðfèlaginu, er hann vildi öllu breyta og ummynda samkvæmt kenníngum Rousseaus. Hinna einstöku heimila skyldi sem allraminst gæta, en alt skyldi miðað við hið almenna, við þjóðfèlagið, eins og hjá hinum fornu Spartverjum, öll sveinbörn alin upp í fèlagsskap, allir vinna þjóðfèlaginu frá 16. ári til þess þeir hefðu einn um tvítugt, en gánga í herþjónustu þess frá 21. til 26. árs, síðan skyldu allir, nema þeir sem eitthvert embætti hefðu á hendi eða væru iðnaðarmenn, taka jörð til ábúðar og yrkja hana. Erfðarèttinn skyldi takmarka þannig, að börn og afkomendur tækju að eins arf eftir foreldri sitt, en eigi eftir aðra frændur, væri barn eigi

til skyldi þjóðfjárhirzla taka arf. Hjón skyldu slíta samvistum, ef saman hefðu verið 7 ár, og eigi orðið barna auðið. Eftir þessu var alt frumvarpið lagað. Það þóttist byggja á jafnrètti, en gætti eigi hins, að það lagði óeðlileg bönd á þjóðfèlagið, og frelsinu var alveg útrýmt, og það var þó beint á móti tilgangi stjórnbyltíngarinnar.

Hið nýja lýðveldi varð einnig að fá nýja trú, lagaða sem mest eftir kenníngu Rousseaus, og Robespierre færði mönnum sjálfur þann boðskap í ræðu þeirri, er hann flutti 7. dag maímánaðar. Fór hann þá ómjúkum orðum um konúnga, klerka og guðleysíngja, og bar að lyktum upp frumvarp þar að lútandi, og er þetta upphaf að: Tíunda hvern dag í árinu skyldi helgan halda í kirkjunum með ræðum og lofsöngum, til minníngar um ýmislegt. Þannig skyldi hinn fyrsti af þessum dögum vera helgaður hinni æztu veru; annar mannkyninu, þriðji Frökkum, fjórði velgjörðamönnum mannkynsins, fimti píslarvottum frelsisins, sjötti frelsi og jafnrjetti, sjöundi hatri til harðstjóra o. s. frv.

Áttunda dag júnímánaðar fóru í fyrsta sinni fram helgihöld eftir hinum nýja sið, var það mikil hátíð og í minníng hinnar æztu veru. Davíð, hinn nafnfrægi málari, hafði undirbúið öll hátíðahöldin sem skrautlegast. Húsin voru skreytt fánum og blómum, bæjarbúar voru kvaddir til fundarins með bumbuslætti um alla borgina. Nær dagmálum gekk mannfjöldinn hátíðagöngu í aldingarð Tuileri-hallarinnar, en fallbyssuskotin dundu við á meðan. Því næst komu þíngmenn allir og Robespierre í broddi fylkíngar, klæddur einkennilegum búníngi. Þar var ræðustóll, er Robespierre steig í og flutti ræðu «um hina æztu veru, er skapað hefði mannkynið, og ætlað því að ná hamíngju með dygð og rèttlæti». Þá kom lofsöngur, súnginn og leikinn á hljóðfæri af mörgum þúsundum. Því næst steig Robespierre úr stól, og kveikti í mynd einni, er þar stóð skamt frá, og táknaði guðleysið styðjandi sig við sjálfselsku, sundurlyndi og drotnunargirni. Þegar mynd sú var brunnin og reykinn lagði frá, kom í ljós líkneskja vizkunnar, en hún var reyndar orðin nokkuð svört af reyknum. Þá talaði Robespierre aftur, og að því búnu hèlt allur söfnuðurinn út á Marzvöllu, og tóku þar við söngvar og gleðileikir. Þann dag komst Robespierre hæst í heiðrinum, en þó bar lítinn skugga á, því að nokkrir af þíngmönnum

gátu eigi varizt þess, að gjöra gys að ýmsu, er fyrir þá hafði borið þenna dag. Aðrir lètu sèr um munn fara orðið «harðstjóri», og að til væru enn þá Brútusar. Sá maður, er Bourdon hèt, hvíslaði honum í eyra: «Tarpejuklettur er rètt við kapitólium». Robespierre hugsaði sèr, að þessir skyldu eigi verða ellidauðir, og, til þess að koma því fram, var það litlu síðar (10. júní) tekið í lög, að stjórnbyltíngardómurinn skyldi geta dæmt menn til dauða án allrar rannsóknar, vitnaleiðslu eða varnar. Þíngið hafði reyndar sett þá grein í lögin, að engan af þíngmönnum mætti draga fyrir þenna dóm, nema því að eins að alt þíngið leyfði, en Robespierre og þeir, sem með honum stóðu, fengu þíngið til þess að taka greinina aftur, og samþykkja lögin án hennar; mátti því svo að orði kveða, að Robespierre hefði hvers manns líf í sinni hendi. Alt árið á undan þeim degi (10. júní), er lög þessi voru samþykkt, hafði að vísu fjöldi manna verið til dauða dæmdur og af lífi tekinn, en það komst þó í engan samjöfnuð við alt það sem á gekk, og öll þau manndráp, sem urðu eftir að lögin komu út, og þær 6 vikur, er þar fylgdu næstar á eftir. Menn geta gjört sèr hugmynd um þetta, þegar þess er gætt, að frá því í marzmánuði 1793, er dómur þessi tók til starfa í París, og til 10. júní 1794, hafði hann dæmt til dauða 577 manns, en frá 10. júní 1794 til 27. júlí sama ár, voru dæmdir til dauða 1285 manns.

Það ræður að líkindum, hvernig hagur manna hafi verið á Frakklandi um þessar mundir, eða við hvern kost landsfólkið hafi átt að búa. Margar þúsundir manna voru sumpart fallnar í innanlandsóeirðum, sumpart flúnar af landi burtu eða sátu í fangelsum, og allur þorri þessara manna voru á einn eður annan hátt dugandi menn, er þjóðin mátti sízt missa. Talsvert á aðra milíón manna hafði orðið að ganga í herþjónustu gegn útlendum fjandmönnum og yfirgefa hús og heimili; og hinir voru litlu færri, er stjórnin hafði sett til sinnar þjónustu út um alt land, og allir þeir mörgu þjónustumenn urðu að fá sín verkalaun. En hèr var eigi hægðin á: vinnuaflið skorti í borgum og bygðum, og flestir atvinnuvegir voru í lamasessi. Til þess að hafa eitthvað handa á milli til útgjaldanna greip stjórnin til þeirrar harðneskju, að hún lagði hendur á eignir manna, knúgaði þá til að lána sèr fè, gaf út ógrynni af seðlum, er vera

skyldu fult ígyldi penínga, en seðlarnir lækkuðu því meira í verði, sem fjöldi þeirra varð meiri. Stjórnin komst oft í mestu vandræði, er hún þurfti að kaupa vistir handa hernum. Þá var alt kúgað út af mönnum sem til var, og þó var stjórnin jafnan í mestu penínga þröng. Alt gekk á tréfótum: þjóðvegir og síki gengu úr sèr, því að þeim var eigi upp haldið; skógar lögðust í eyði, akuryrkju hnignaði, af því að fè og fólksafla vantaði, og hestar og annar kvikfènaður fór til hersins. Alt hið sama var að segja um iðnað og verzlun, verksmiðjur allar stóðu óhreyfðar og aðgjörðalausar, nema þær einar, sem smíðuðu vopn og verjur og annað, er herinn þurfti á að halda. Allur fèlagsskapur manna á millum var horfinn, ótti og tortrygni átti sèr alls staðar rúm, menn þorðu varla að talast við. Enginn var óhultur á heimili sínu, því að á hverri stundu mátti búast við komumönnum, til þess að rannsaka hús og eigur manna, eða til að taka þá sjálfa fasta. Menn fundu til þeirrar harðstjórnar, sem yfir öllum grúfði, og sú harðstjórn var því verri og tilfinnanlegri, sem menn vissu eigi með fullum sanni, hvaðan hún hafði sín upptök, hver sá maður var, er í raun og veru hafði líf og eignir hinnar frakknesku þjóðar í hendi sèr, því að það var eins og stjórnin væri alls staðar, og engin föst regla á neinu; engum var unt að segja, hver málefni heyrðu til þess eður þess valdsmanns, til þíngsins eða til velferðarnefndarinnar.

Robespierre vildi eflaust koma meiri og fastari reglu á stjórnarstörfin, en slíkt gekk eigi svo greiðlega sem hann vildi; menn voru bæði á þínginu og í stjórnardeildunum, búnir að fá nóg af hans yfirráðum. Meðalhófsmenn þíngsins gáfu sig lítið fram enn sem komið var, og meðal hinna áköfu manna (fjallsins) voru mjög fáir orðnir eftir, er beinlínis vildu fylgja Robespierre að hverju máli. Hatrið á milli Héberts og Dantons manna fór mínkandi dag frá degi eftir því sem þeir sáu, að hinn sameiginlegi óvinur þeirra hvorratveggja varð sterkari og voðalegri. Menn vissu, að Robespierre hafði augastað á nokkrum meðal þíngmanna, er hann ætlaði að stytta aldur, og margir þeirra urðu svo skelkaðir, að þeir þorðu eigi að vera um nætur á heimilum sínum. Þíngið var orðið fremur fáment, um þessar mundir, svo að varla sóttu

fundi nema 200 manns. Af 750 þíngmönnum var búið að drepa 50; ófriðhelgir voru 20, í varðhaldi sátu 73, í sendiferðum stjórnarinnar voru 100, og hinir aðrir komu eigi á þíng, eða sátu í föstum þíngnefndum.

Það er engum efa undirorpið, að Robespierre hefði þegar látið taka þá af þíngmönnum fasta, er hann vildi feiga, ef hann hefði sèð sèr það fært. En samstjórnendur hans í velferðarnefndinni, Billaud, Collot og Barrère, og aðrir fleiri, vildu eigi samþykkjast því, og þess vegna áræddi hann það eigi. En nærri má geta, hvernig honum hafi fallið, að mæta slíkri mótstöðu, og það í sjálfri nefndinni. Þá bar það og til, einmitt um sama leyti, að siðgæzlunefndin hafði komizt að því, að trúvillumenn nokkrir áttu fundi með sèr í húsi gamallrar konu, er Katrín Theot hèt. Hún hafði fyrrum setið í «Bastillen» og orðið þar hálfríngluð, nefndi sjálfa sig «guðs móður», og boðaði komu Messiasar í heiminn, og þá er hann birtist, átti eilífðarinnar dagur að renna upp yfir alla útvalda. Hún nefndi Robespierre son sinn elskulegan, og flokksmenn þessir gjörðu sèr þá hugmynd um hann, að hann væri að minsta kosti spámaður hafinn lángt yfir alla aðra. Menn sögðu, að Robespierre væri vel kunnugt um flokk þenna, og þætti eigi miður að trú hans breiddist út meðal almenníngs. Nú höfðu siðgæzlumenn handsamað kerlíngu þessa og allan söfnuðinn, og borið málefnið fram á þíngi. Vildu þá óvinir Robespierres, og hèldu því fast fram, að flokkurinn yrði með öllu upprættur, sem gagnstæðilegur rèttri trú og góðum siðum. Robespierre þóttist sjá, að leikurinn var til þess gjörður, að gjöra sig hlægilegan í augum þíngs og þjóðar, og sveið honum það sárast af öllu. Þess vegna kom hann sjaldan á þíng eftir þetta, og sjaldan á aðalfundi velferðarnefndarinnar, en dró sig í hlè. Hann hafði það álit á sjálfum sèr, að alt mundi fara aflaga á þínginu og í nefndinni, ef hann væri þar eigi við, sem leiðbeinandi og stýrandi; þá mundu menn bezt finna, hver hann hefði verið og hvað menn hefðu mist, og þá mundi tími og tækifæri komið, að ná aftur í óskoruð völd yfir þjóðinni. En því sjaldnar sem hann kom á þíngið eða í nefndina, því oftar kom hann á fèlagsfundi Jakobína. Þar bar hann jafnan sakir á mótstöðumenn sína: þeir sætu á svikráðum við fósturjörðina, og alla hennar beztu vini, þeir reyndu til að

raska friðnum innanlands o. s. frv. Þannig gjörði Robespierre það hann kunni til þess, að þeir skyldu verða sem tortryggilegastir í augum Jakobína og þeirra allra, er þann flokk fyltu, en eigi hafði hann hug til að ráða atför við þá þegar í stað.

Undir lok júnímánaðar kom St. Just heim norðan úr landi. Hann hafði verið þar við herinn eins og oftar, og sagði þaðan góðar fréttir. Höfðíngjar fyrir liði Frakka þar nyrðra voru þeir Pichegru og Jourdan. Hèldu þeir liðinu inn á Belgíu, sinn í hvorum stað, og áttu ýms vopnaviðskipti við Austurríkismenn, til þess er Jourdan vann á þeim sigur í stórorustunni við *Fleurus* (26. jún. 1794), urðu þá Austurríkismenn að rýma Belgíu, og halda austur á Þýzkaland. Um sama leyti börðust Frakkar austur við Rín og suður við Pyreneafjöll, og báru alls staðar sigur úr býtum. En Ropespierre þótti það engar gleðifrèttir, því að Carnot og hershöfðíngjarnir, og aðrir en hann sjálfur, höfðu alla sæmd af sigrinum. Þess vegna leitaðist hann við, hve nær sem hann flutti ræðu á Jakobínafundum, að gjöra sem minst úr hverjum sigri, og eyða þeim áhrifum, er sigurfregnin hafði á menn. «Hvað gagna oss», sagði Robespierre, «þessar sigurvinníngar, sem svo mikið er skrumað um? Hinn sanni sigur er sá, sem vinir frelsisins vinna á flokkadráttum heima fyrir, sá sigur flytur frið, rèttlæti og hamíngju inn í hýbýli manna. Frægð einnar þjóðar er eigi komin undir því, að hafa sigrazt á nokkrum harðstjórum og leyst fjötra af þegnum þeirra. Rómverjar og sumar aðrar þjóðir nutu þeirrar frægðar. En vort ætlunarverk er miklu æðra og veglegra; vèr eigum að grundvalla yfirráð vizkunnar, rèttlætisins og dygðarinnar hèr á jörðu». Robespierre hafði engan hug á hermálefnum og vantaði allan garpskap og áræði. Þar á móti skorti St. Just þetta hvorugt, enda rèð hann fastlega til þess, að ryðja þíngið nú þegar, eða með öðrum orðum; handtaka alla þá þíngmenn og stytta þeim aldur, er væru mótsnúnir Robespierre. Þeir Tallien, Fouché og aðrir fleiri, sem dauði var ætlaður, voru reknir úr Jakobínafèlaginu, og fèlagið sendi nefnd manna til þíngsins, til þess að bera þar upp umkvartanir yfir því dugleysi stjórnarinnar, sem nú ætti sèr stað, og krefja þess, að hörðu væri beitt við alla þá, er á svikráðum sætu. Nefnd þessi lofaði að vísu aðgjörðir þíngmanna, en kvað þó sárt til þess að vita, að þar sætu glæpa-

menn á meðal þeirra. Þetta sýnir, að hèr átti að viðhafa alla hina sömu aðferð, eins og áður: hleypa Jakobínafèlaginu á vaðið, með því að láta það senda flokk manna með bænarskrá eða áskorun til þíngsins, og sjá hver áhrif sú sendiför hefði, þar næst ætlaði Robespierre sjálfur að koma á þíng, flytja þar ræðu, og halda fram sömu stefnu, sem sendinefndin hefði á undan farið. Vildi þíngið eigi skipast við orð hans, þá var að gjöra slíkt hið sama, sem áður hafði verið gjört og gefizt vel, og það var, að umkríngja þíngið með vopnuðu liði og kúga það til þess, er hann vildi vera láta. Daginn eptir að sendimenn Jakobína höfðu verið á þíngi, kom Robespierre sjálfur þángað (26. júlí), og flutti þá lánga og allmerkilega ræðu. Hann hafði löngum verið sigursæll í ræðustólnum, og einnig nú bjóst hann við hinu sama. Meðal annars sagði hann svo: »allir þíngmenn með góðri samvizku mega óhræddir vera; eg þekki einúngis tvo flokka: góða og illa þegna. Eg hefi sífelt barizt móti glæpamönnunum, og þess vegna bakbíta menn mig og kalla mig harðstjóra. Hver er höfundur þessa rógs? Fyrst og fremst Pitt og allir þeir harðstjórar, sem bera vopn í móti oss, og þar næst hinir seyrðu postular guðleysis og spillíngar. Og í hverra höndum er nú herlið vort, og fjárhirzlur og stjórn lýðveldisins? Í höndum samsærismanna, sem ofsækja mig. Hinir, sem ráðvandir vilja vera, fá engu ráðið. Menn gjöra sig slètta í máli, er þeir tala um sigursæld vora; en það er hvorki með fagurmælum eða fólkorustum, að vèr eigum að leggja norðurálfuna undir oss, heldur með spekt laga vorra og mikilleik vorra mannkosta. Fjármálefnum vorum stýra annaðhvort höfðíngjar eða bófar eins og Cambon[1]. Menn gjöra samsæri gegn frelsinu; menn taka vopnin úr höndum manna hèr í París, og senda varnarmenn borgarinnar á burt. Samsærismennirnir eru hèr alls staðar, þeir eru hèr á þínginu. Hvað skal til ráðs taka til þess að frelsa fósturjörð vora? Menn eiga að handsama svikarana og hegna þeim,

1) Cambon var kaupmaður suður í landi, en eftir að hann varð þíngmaður, gaf hann sig allan við fjárhagsmálum ríkisins, og þótti mikið að honum kveða, engu síður sakir mannkosta hans en vitsmuna. Hann hafði tekið málstað Girondína og viljað að þeim væri hlíft, en það mislíkaði Robespierre, og þaðan var óvildin komin.

skipa nýja stjórn undir yfirumsjá þíngsins, eyða öllum flokkum, en setja í þeirra stað vald rèttlætis og frelsis».

Þegar Robespierre hafði lokið ræðu sinni, sátu þíngmenn allir hljóðir um stund. Loksins lagði einn það til, að ræðan yrði prentuð og send út um land, en aðrir mæltu í móti, og spunnust af því lángar umræður. Cambon, Billaud Varennes og enn fleiri, er þóttust eiga Robespierre fyrir grátt að gjalda, sögðu að nú væri kominn tími til að segja sannleikann afdráttarlaust, Robespierre væri sá, er öll völdin hefði hrifsað undir sig, og enginn hefði komið sínum vilja fram fyrir honum. Menn skoruðu á hann, að nefna þá á nafn, er hann kallaði svikara, og segja hverjir þeir væru, er hann hefði afráðið að láta drepa. En Robespierre færðist undan því, og vöflur komu á hann. Þá mælti einn af mótstöðumönnum hans: «Þú þykist hafa hug til að vera dygðugur, hafðu líka hug til að vera sannorður, og nefndu mennina á nafn!». Robespierre gjörði það eigi að heldur, og gekk af þíngi bæði hryggur og reiður og þegar á fund Jakobína, og var honum þar vel fagnað. Couthon var á fundi og lagði það til, að allir þeir af þíngmönnum, er verið hefðu því mótmæltir að ræðan yrði prentuð, skyldu reknir úr fèlaginu, og var svo gjört. Collot d'Herbois þótti það ekki ráð og vildi mýkja málin, en þá urðu fundarmenn óðir og uppvægir, og lá við sjálft, að þeir dræpu hann, en hann gat komizt úr höndum þeim og forðað sèr. Margir lögðu það til, að veita skyldi þínginu aðgöngu þegar í stað, taka alla mótstöðumenn höndum og draga þá fyrir stjórnbyltíngardóminn. En Robespierre þorði það eigi, hann kvaðst vona, að þíngið mundi slaka til, nú eins og fyr, ef menn að eins lètu það hafa hitann í haldi; en bæjarráðið og Henriot skyldu sjá fyrir því. Henriot kvaðst hafa skyldu herlið við búið, hve nær sem á þyrfti að halda, og mundi hann enn rata leið til þínghússins. St. Just var þetta kvöld og alla nóttina eftir á fundi, er velferðarnefndin átti með sèr, og gjörði hann það meðfram til þess, að þeir af nefndarmönnum, sem voru óvinir Robespierre, gætu eigi gjört ráð sín. En hinu gat hann eigi varnað, að þeir Cambon, Tallien, Freron og aðrir af þíngmönnum, er vissu að þeim var bani búinn, gengu til fundar við höfðíngja «slèttumanna» flokksins og beiddu þá liðs. Flokksmenn þessir höfðu, eins og áður er sagt, gefið sig lítið fram, og

voru engir vinir þeirra manna («fjallmenn»), er nú beiddust liðveizlu, en þeim var vel kunnugt, að Robespierre hafði öll yfirráð yfir stjórnbyltíngardómnum, Jakóbínafèlaginu og yfirvöldunum í Parísarborg; væri hann sviftur völdum, mundu einnig þessi hans voðaverkfæri falla með honum. Fyrir því hètu höfðíngjar þessir að ganga í lið með þeim, er bundizt höfðu í fèlag til þess að steypa Robespierre úr völdum.

Daginn eftir, er var 27. dagur júlímánaðar (9. þermidor), komu menn fjölmennir á þíng, því að allir bjuggust við tíðindum. Þar komu þeir Robespierre og St. Just, og nokkrir af vinum þeirra. St. Just beiddi sèr hljóðs, og ætlaði að tala fyrir hönd velferðarnefndarinnar, en fèkk eigi sagt nema fáein orð, því að þá greip Tallien fram í og mælti: «lýðveldinu er háski búinn. Í gær tók einn í stjórnarnefndinni sig út úr, og bar þúngar sakir á samnefndarmenn sína; í dag ætlar annar maður í nefndinni að gjöra slíkt hið sama. Þetta má eigi lengur svo til gánga; eg kref þess, að skýlan verði dregin frá augum manna til fulls og alls». Að þessu gjörðu menn mikinn róm í þíngsalnum. St. Just og ýmsir af vinum Robespierre vildu koma fyrir sig orði, en fengu það eigi. Robespierre gekk að ræðustólnum og ætlaði að tala, en þá æptu menn um allan salinn: «burt með harðstjórann!» Sneri hann sèr þá þar að, er «hægri menn» (slèttumenn) sátu, og mælti: «það er til yðar, lastvöru og dygðugu menn, að eg sný mèr, en eigi til þessara bófa». En hèr fór sem áður: allir æptu í móti, enginn vildi heyra orð af hans vörum. Loksins gekk hann þángað, sem forseti þíngsins sat og segir: «forseti morðíngjanna! eg heimta í síðasta sinni að mega tala!» Þessum orðum fèkk hann varla upp komið. Þá sagði einn af þíngmönnum: «Dantons blóð ætlar að kæfa þig!» Þessu næst voru þeir teknir höndum Robespierre, St. Just, Couthon, Henriot o. fl., og settir í varðhald. En sem bæjarráðið og Jakobínar frèttu það, brutust þeir þángað með mannafla og leystu þá. Lá þá við sjálft, að sigurinn gengi úr greipum þíngsins, en sá maður, er Barras hèt, safnaði liði eftir skipun þíngsins, og varð hinum yfirsterkari. Þegar Robespierre sá eigi undanfæri, ætlaði hann að skjóta sig, en það tókst eigi betur en svo, að hann braut í sèr annan kjálkann. Daginn eftir var Robespierre og 20 af hans fylgismönnum höggnir.

